## *Formáli.*

*Sumarið 1937 kom dr. Rögnvaldur Pétursson heim til Íslands. Var eitt höfuðerindi hans hingað að því sinni að ganga frá samningum um útgáfu á síðasta bindi af kvæðum Stephans G. Stephanssonar, VI. bindi af Andvökum, og búa það undir prentun. Jafnframt hafði hann meðferðis safn af bréfum Stephans til ýmsra manna, er hann hafði til náð. Eins og kunnugt er, arfleiddi Stephan dr. Rögnvald að öllum sínum ritum eftir sinn dag, og fól honum á hendur að ráðstafa þeim og útgáfu þeirra, eins og honum þætti henta, en þeir dr. Rögnvaldur voru aldavinir. Dr. Rögnvaldur fór fram á það við Þjóðvinafélagið, að það gæfi út safn af bréfum Stephans og öðrum ritum í óbundnu máli. Vakti það fyrir honum, að fá prentað allt frá hendi Stephans, sem máli skiptir. Nú hafði hann gengið frá prentun síðasta bindis ljóðmælanna. Átti dr. Rögnvaldur hlut að þeirri útgáfu allri, en mestan að síðustu þremur bindunum, enda óvíst, hvernig eða hvenær verki þessu hefði lokið, ef hans hefði ekki við notið. Nú var ekki annað eftir óprentað af ritum Stephans en óbundna málið, mest sendibréf, nokkur erindi og litlir sögukaflar. Þjóðvinafélagið vildi fyrir sitt leyti ekki skorast undan því að takast á hendur útgáfu þessa. En að henni lokinni má kalla, að arfleifð skáldsins sé vel til skila komin í hendur íslenzkum lesöndum, og hafi landar hér heima einnig lagt fram nokkurn skerf til þess verks.*

*Stephan G. Stephansson mun jafnan verða talinn eitt hið langmerkasta skáld, er ort hefir á íslenzka tungu. Um það verður ekki deilt. En kvæði hans bera jafnframt ríkan vott um óvenjulega brotalausa, hreina og heiða skapgerð. Hann var að vísu maður kappgjarn og átti ýmsa andstæðinga, jafnvel fjandmenn. Hann var líka bardagamaður, stundum gunnreifur nokkuð, en gekk jafnan beint framan að andstæðingum sínum. Bréf hans bera vott um það, að jafnvel í hita baráttunnar bregst honum ekki drenglundin. Öllum, sem kynntust honum, var ljóst, að hann var ekki aðeins mikill listamaður. Hann var fyrst og fremst mikilmenni.*

*Ég ætla, að bréfasafn þetta beri grunlausan vott um stórkostlegt andlegt þrek, gáfur og lýtalausan þegnskap. Hér er þó allt prentað, sem til hefir náðst af bréfum Stephans fram til ársloka 1913 og ekkert undan dregið. Út af fyrir sig er þetta aðdáunarvert og næsta fágætt, sem þeir menn mega bezt um dæma, sem kynnt hafa sér bréfasöfn jafnvel hinna beztu manna og vita, hversu háskasamleg einkabréfin reynast á stundum, ef taumhaldið á pennanum slaknar. Það er trú mín, að í þessum algerlega sjálfmenntaða íslenzka bónda hafi beztu mannkostir og gáfur kynstofns vors birzt með þeim hætti, sem ógleymanlegur sé og eigi að verða öldnum og óbornum. Þegar öllu er til skila haldið, er það maðurinn, sem mestu varðar, maðurinn í hversdagslegu starfi og lífskjörum, í baráttu sinni til andlegs þroska og frelsis; ekki listin eða listamaðurinn, heldur maðurinn bak við listaverkið. Ágætasti maður hverrar þjóðar verður sá talinn, sem með starfi sínu, lífi sínu öllu, skapar þjóð sinni fyrirmynd. Slíkur maður var Jón Sigurðsson, stjórnmálahöfðinginn og vísindamaðurinn. Og slíkur maður var Stephan G. Stephansson, skáldið, landneminn og bóndinn. Verk og saga slíkra manna eru fyrirheit gefin íslenzkri þjóð. Allt sem þá varðar er dýrmæt þjóðareign.*

*Um útgáfu þessa er það að segja, að dr. Rögnvaldur Pétursson hefir annazt uppskrift bréfanna, en að öðru leyti hefir undirritaður búið þau til prentunar, lagað stafsetningu og lesið prófarkir allar. Dr. Rögnvaldur hefir og lesið eina prófórk og samið athugagreinar þær og skýringar, er hér fylgja. Slíkar skýringar þóttu nauðsynlegar, einkum vegna þeirra lesanda, sem ekki eru kunnugir vestan hafs. En þótt slíkar aths. yrði að vera sem stytztar og heldur færri en fleiri, munu þær koma að góðu liði, enda er það sannast mála, að ekki getur fróðari mann um allt, er varðar Íslendinga vestan hafs fyrr og síðar, en dr. Rögnvald Pétursson. Um útgáfu bókarinnar að öðru leyti hefir undirritaður öllu ráðið, og er hann einan um að saka allt, sem miður fer. Forstjóri ríkisprentsmiðjunnar Gutenberg, Steingrímur Guðmundsson, hefir, sem hans er vandi, látið sér annt um, að öll vinna prentsmiðjunnar færi sem bezt úr hendi, og ætla ég, að bókin sjálf beri þessu gott vitni.*

*Reykjavík, 14. ágúst 1939.*

ÞORKELL JÓHANNESSON

*Jónas Hall.* Calgary, Alta, 17. júní 1889.

Jónas minn. — Þessar fáu línur skrifa ég þér fyrst og fremst til að láta þig vita, að ég er tórandi og mér og mínum er bærilega líðandi og sæmilega við okkur unandi. Svo í öðru lagi skrifa ég þér til að æra út bréf frá þér og fréttir.

Ég settist að hérna í Calgary, af því að ég bjóst við að fá hér vinnu fremur en þarna norður í „Aðgerðaleysinu", nýlendunni þeirra við Red Deer, en svo hefir mér nú ekki heppnazt það neitt sérlega vel. Það hefir samt verið nóg vinna á sections með fram brautinni, og enginn maður laus og slyppur hefði þurft að vera atvinnulaus, en þeir vilja engir líta við kaupinu, $ 1.25 á dag, og flestir gera heldur ekkert. Hefði ég kunnað við að skilja við fólk mitt hér, skyldi ég ekki hafa kært mig.

Norður í nýlendunni er víst fremur dauft. Þó vinna víst einhverjir landar þar núna, því myllan er nú fullger, og loggunum átti að fara að fleyta niður í þessum mánuði og saga svo, en lengi getur það varla staðið, því myllan getur, trúi ég, sagað 60000 á dag, en ein 500000 fet voru höggvin. Ósköp eru landar ánægðir með þessa nýlendu, en lítið veit ég um hana, nema hvað ég gizka mér til. Gamli Ólafur kom hér suður strax sem ég kom, og Gísli og Benidikt. Ólafur gamli vinnur eins og naut, er hraustur eins og hestur, kátur eins og sólskríkja og hagspakur eins og sauður. Helzt vildi hann fá mig norður strax. Gísli og Benidikt eru líka ofur rólegir með allt, nema Dakota og mannfélagið þar. Ég var í önnum að losa vagninn minn, þegar þeir hittu mig fyrst og fóru strax að spyrja mig eftir peningum eða plóg, og svo hristu þeir höfuðin. Mest lifa landar á fiskinum, því alltaf reita þeir ögn af honum, svo fjölga gripirnir ögn, en lítil er víst jarðyrkjan, hálf og heil ekra hjá sumum, og engu sáð nema kartöflum. Gott gagn gera

gripir þeirra, og óefað er landið gott í sjálfu sér. Gísli Sæmundsson og Sigurbjörn og Einar Björnsson fóru norður. Einar kom aftur inn og tók land. Ekki veit ég um hina, en heyrt hefi ég, að Gísli hafi gengið fjúkandi og formælandi um landið þar, af því náttúran hafði víst ekki haft neitt tillit til vitsins né viljans í hausnum á karlinum, þegar hún bjó út landið við Red Deer.

Allvel líkar mér fólkið hérna. Það er engu ómannúðlegra en syðra, enda er hér fjöldi af ríkjamönnum, og engin óbeit á þeim hér. Á öllum tyllidögum er ríkjafáninn dreginn hér upp, og austur í Medicine Hat varð dálítil glettni út úr flöggum, sem blöðin hérna tóku með mesta léttlyndi. „C. P. R.“ hafði nefnilega reist þar flaggstöng og náttúrlega dregið upp enska merkið, en ekki leið á löngu áður Bandamanna flaggið var búið að klifra sig fullkomlega eins hátt í stöngina, rétt eins og væri það heima hjá sér. C. P. R. menn stóðust það ekki og byltu því niður. En næsta morgun hreykti það sér aftur upp við hún á súlunni og var þá aleitt, því brezka flaggið hafði verið skorið á háls um nóttina.

Hið eina lagaleysi, sem hér er, er „Scott Actinn“. Hér úir og grúir af saloonum, og þó drykkjuskapur sé kannske ekki ákaflega mikill, ber þó við, að menn eru settir inn, en sjaldnar eru þeir, sem selja, teknir. Annars drekka hér fáir nema ríkismenn og „hirðingjar“, því staupið kostar 25 cent. Þó má fá bjór fyrir 10 cent glasið eins og syðra. Búizt er við, að„Scott Act“ eigi hér skammt eftir ólifað.

Engin er hér pólitík. Sir John og C. P. R. stjórna hér eins og guð almáttugur, án þess nokkur sjái þá. — — —

*Jónas Hall.* Calgary, 6. júlí 1889.

Jónas minn. — Þökk fyrir bréfið frá þér. Ég hefi skrifað þér síðan og nú minnist ég ekki á neitt nema „business“, þó að skrítið sé. Svo er mál með vexti, að ég fékk hingað bréf frá *Crantz Dahlgren & Co. Chicago, General Western Agents, for the Dominon Royal Mail Line,* og báðu þeir mig að gerast agent sinn að Garðar. Ég skrifaði þeim aftur, sagði þeim, hvar ég væri nú niður kominn og að ég myndi sjálfsagt vera kominn út úr þeirra umdæmi, þar sem umboð þeirra næði lík-

lega aðeins yfir Bandaríkin, en bauð þeim jafnframt að útvega þeim góðan mann á Garðar í minn stað, því ég áleit, að það skarðið myndi kannske ekki alveg ófyllandi, svo langt fylgi ég þó almenningsálitinu. Í dag fékk ég bréf frá þeim aftur. Þeir bjóðast til að útvega mér „agency“ frá Montreal, spyrja mig um, hvort hér séu Skandinavar, og biðja mig að benda sér á mann á Garðar, „but not Mr. Bergmann, he is too busy“. Ég er búinn að skrifa þeim aftur, segist til með að taka við embættinu, sendi þeim svona lagaða lýsingu af þér — taktu nú ofan og brostu út í munnvikið. — „For the Agency at Garðar I would recommend Mr. Jónas Hall as I personally know him to be both honest and capable. You can address him either at Garðar or Edinburg, where he is a Notary Public and has a Land Loan Agency“.

Og svo er eitt eftir, sölulaun eru $ 2.50. Þykir þér ekki mörhljóð í því? — — —

*Jónas Hall.* Cash City, 22 sept. 1889.

Jónas minn.

Þar sem Red Deer rennur
Úr Rockies austanvert
Hólanna og hæðanna á milli
Um héraðið Alberta þvert.

Hirðingjar búa við hana
Og hjarðir, um dali og laut
Dreifðar. — Og sumt eru sauðir,
En sumt eru mannýg naut.

Og andskotans uppgjafaþjónar
Og embættisleysingjar guðs
Þar nánustu nágrannar eru
Við nið hennar beljandi suðs.

Um landslag og loftslag hér og um sjálfan mig er ég búinn að skrifa Jonna og Jakob, svo Jónasi, þessu þriðja Dakota-Joði mínu, verð ég að segja ögn frá mannfélaginu hérna. Þú þekkir alla Íslendinga hér, svo ég þarf ekki að lýsa þeim. Þeir eru svipaðir því, sem þeir voru, því að þetta „Norðurstranda

stuðlaberg stendur enn á gömlum merg". Norðan Red Deer er einn maður ekki-íslenzkur, Það er Mr. L. M. Sage, kaupmaður og „póstahúsari". Sage er eflaust langskynsamasti maður af ekki-íslenzkum, en margar voða-sögur ganga af honum og ekki laust við, að sumum Íslendingum finnist koma yfir sig dauðahrollur, þegar þeir nálgast hann. — Það mun samt satt, að Sage varð manni að skaða suður í Bandaríkjunum, því að hann er þaðan, en honum og óvinum hans ber ekki saman um, hvernig það hafi orsakazt.

Á suðurbakka Red Deer, rétt á móti Sage, var um tíma annar Bandamaður, Jackson; hann sagðist vera sendur til höfuðs Sage, en nú er Jackson allur á burt og höfuðið á Sage er með hærra móti, því að hann er nýbúinn að taka 1200 fjár á leigu.

Á suðurbakkanum á Red Deer býr Dan Morrison, hann er mylluvörður, mesti meinleysingi, trúir ekki á helvíti, segir, að prestarnir hafi logið því upp, er ólæs og óskrifandi og segist vera þjófur heiman af Skotlandi.

James Brown er nafnfrægastur af ekki-íslenzkum í byggðinni sunnan við Red Deer; hann kom hingað fyrir 7 árum austan frá Ontario, einn síns liðs, fór hingað norður með 2 kvígur, sem hann keypti í Calgary fyrir $ 75 hverja. Kvígurnar vildu ekki búa með Brown og struku frá honum. Honum leiddist svo einlífið og rauk um vorið snemma burt aftur og ætlaði heim. Hann komst þó ekki lengra en til Winnipeg, þá fannst honum loftið svo kalt og landið svo bölvað austur frá, að hann snéri þar aftur og rakti slóðina sína hingað til baka. Það varð til þess, að foreldrar hans komu árið eftir, bræður tveir og mágar, ég held 3. Ekki veit ég, hvað marga gripi Brown á, en í vor átti hann 25 kálfa. Eitthvað býr þar samt fleira af ekki-íslenzkum, þó ekki kunni ég að nefna þá.

Við Little Red Deer búa nokkrar hræður, tvo kann ég að nefna, Wright og Kórmak, því af þeim er saga. Brown átti kvígu eina, sem fyrr, og lagði hún leiðir sínar inn á landamæri Wright's og leiddist honum ágangurinn. Einn morgun komst kussa heim til Brown's og var þá skemmd og leit svo út sem bryti hefði byrjað á að spaðbita hana niður. Leið svo lengi, að enginn vissi, hver valdið hafði, þangað til Kórmakur sagði Brown, að Wright hafði „trúað" sér fyrir því, að af sínum völdum væru kýrmeiðslin. Brown, „sletti" svo þessu náttúrlega í Wright, næst er þeir fundust. Wright féll upp-

ljóstran þessi illa og hugði á hefndir. Hann gerði svo Kórmak granna sínum atreið mikla til að kenna honum þagmælsku. Hefði hann verið íslenzkur, myndi hann hafa gefið honum á kjaftinn, en hann lét það allt á augað. Litlu seinna frétti Brown um ófarir Kórmaks. Hann lét sér fátt um finnast, en einn dag í fyrra vetur bjóst hann snemma að heiman. Hann var lengi dags hjá Wright og eftir þann dag var Wright lengi hruflaður á kinninni. Þetta er sá eini slagur, sem orðið hefir milli mennskra manna hér í byggðinni í 6 ár. En svo komst mannýgt naut hér í friðsemina. Maður heitir Bluff, hann er frá Bandaríkjum og býr 2 mílur upp með Red Deer, fyrir ofan mylluna. Hann fékk naut lánað austan frá Crossing, eystri byggðinni hérna, því þar er kúakyn betra, eitthvað prestlegt, því mesti bóndinn þar heitir Geatz og er uppgjafa prestur. Naut þetta lagði Bluff bónda undir sig og varð konan til að bjarga honum og bar svo karl sinn heim. Einar læknir tjargaði svo í hann lífinu.

Hér er hvorki lög né landsréttur, enda þarf þess ekki, því enginn gerir órétt. Þó er einhver „Justice of the Peace“ austur við Crossing og eitt „Mounted Police“. Hér var Lárus „presbyter“ eða „prestsbítur“ lengi í sumar. Ekkert varð honum ágengt. Menningarfélagsmenn halda vel trú sína, en þessum lúthersku hræðum féllst ekki á hann, það var allt svo „einfaldlegt“, sögðu þeir.

Sage er búinn að fá pósthúsið, svo er hann að reyna að fá upp brú yfir Red Deer, ostagerðarhús og hveitimyllu og hvað eina. Hann er fátækur — eins og við, og býðst þó til að gefa ríkum mönnum helminginn af fátækt sinni, ef þeir vilji koma einhverju almanna gagni hér upp. Sage er eini braskarinn hér. — Næstliðin mánaðamót var ég í Calgary. Allir landar þar höfðu þá vinnu. Hér kom hret um 8da þ. m. Næstl. viku var bezta veður, 85 gr. hiti stundum.

*Kvöldið fyrir hretið.*

Kvöldsins óar kuldi drótt,
Kelur gróinn svörðinn.
Ætli hann snjói ekki í nótt
Yfir móabörðin?

Hvernig ætli ykkur Jakob gangi „collectionin“ fyrir Ólaf gamla? Ég gleymdi að minnast á það í bréfinu til Kobba.

Í sleipunni slampist þú,
Úr slorinu skvampist þú
Pembína brennivíns-pólitík í.
Og heimurinn hampi þér
Og hamingjan glampi þér
Langt fram í tímann með loforð sín frí.
Stefán.

*Jónas Hall.* Cash City, 4. des. 1889.

Jónas minn. — Þökk fyrir bréfið þitt seinasta. Það var langt og gott, eins og ég hefi æfinlega haldið, að þú værir sjálfur. Ég byrjaði á að borga það, fyrir nokkru síðan, með því að skrifa upp vísurnar, sem þú baðst um, en svo varð ég að þjóta frá því aftur og inn til Calgary. En meðan ég man, þú færð ekki vísurnar *gratis*, þú átt að senda mér góðan mánaðardag — calendar — yfir 1890 fyrir þær. En svo er þessi viðbót:

Veslings Einar vingull,
Vola bita og spóns,
Dratthali og dingull
Drottins, séra Jóns.

Slæmt þykir mér, hvað ykkur kunningjum mínum bregðast Dakota-vonirnar ár eftir ár. Það er kannske af því ég var sjálfur orðinn svo þreyttur á þeim, að ég hefi svo litla trú á þeim framvegis, að minnsta kosti fyrir menn, sem, eins og við, erum komnir á svo langt rek, og finnst mér nú ég hafi safnað aftur nýjum þrótti og vonum, þrátt fyrir fátækt og frumbýlisskap, og er glaður yfir að vera sloppinn út úr raginu. Geturðu ekki víxlað þínu upp í gripi, sem nú fást með gjafverði hjá ykkur? Þeir eru góð eign hér, en eina 10 fær hver emigrant að taka með. En þú hefir svo margt lið, að þú getur dreift úr tugunum. Land er hér áreiðanlega gott, hagi, engi, jarðvegur. En svo eru sumar-frostin, sem þú hræðist, áreiðanlega hér. Að þau séu verri en t. d. í Cavalier County, efast ég enn um. Eitt er held ég víst, hafrar og bygg spretta jafnaðarlega kringum Calgary 75 míl. sunnar og Edmonton 125 míl. norðar. Hér við Red Deer segja menn sama eftir 7 ára reynslu. Hveiti er hér engin verzlunarvara, enn sem komið er (En er mikil eftirsjón í því eftir Dakota reynsluna?), en það hefir sprottið.

Hafrar eru 45 cent til 55 cent í Calgary bush. Þú skalt samt ekki taka þetta sem hingað-flutnings áeggjan. Ég hefi of litla reynslu hér enn, en mér kemur þetta svona fyrir sjónir.

Lítið er í fréttum. Menn eru nú óðum að flytja hingað frá Calgary, landar vorir, og ætla víst sumir að reyna veiðina í vatninu, sem við fundum í haust, hvernig sem það heppnast. Vinna er nú á þrotum í Calgary, en nóg vestur í fjöllum, í skógum, frá $ 25 til $ 35 um mán., en ekki eru landar þar með, neinir svo ég viti.

Myllan hérna „situr við sama“, hún fer varla á stað fyrr en járnbraut kemur, sem enginn veit enn, hvenær verður, nema það, sem sjálfsagt er, þegar meira byggist. Það er sögð von á 1000 Þjóðverjum (Mennonítum) hingað norður undir eins í vor. Hér norður af er allt fullt af vötnum, og er víst nóg veiði fyrir þá, sem hana stunda. T. d. Einar læknir skaut 60 andir í haust, án þess að stunda veiði, aðeins bar með sér byssuna, ef hann fór eitthvað. Í einn boga hefir hann nú fengið 3 eða 4 tófur og einn úlf.

Ég hefi átt svo annríkt í haust, að ég hefi varla getað hlegið. Eina spaugsyrðið, sem mér datt í hug í 8 daga, sem ég var við „bjarta vatnið fiski sæla“, var það, sem í mig datt, þegar ég „réri upp“ með Sigurði gamla Árnasyni. Við höfðum tvær lendingar. Þegar við komum að þeirri, sem nær var, glumdi í Sigurði: „Eigum við ekki að hleypa upp í henni Hlandvík núna, Stefán?“

Hann kallaði höfnina Hlandvík
Og helzt vildi leggja þar að.
Mér datt í hug Dumbur frá Gandvík,
Sem drapst út á nökkva við það.

En svo er náunginn oft spaugsamari en ég, án þess hann ætlist til þess. Var þetta ekki smellið, sem einn nágranni minn sagði við mig: „Því í andskotanum komstu ekki við, Stefán? Konan mín hefir riðlað á mér í allan morgun, af því ég ekki kom með þig heim í gær“. Ég gat varla stillt mig, meðan ég var að afsaka mig frá „komplimentinu“ og láta manninum samhryggð mína í ljósi yfir þessari meðferð, svo fimlega sem ég gat.

Ég hefi skrifað Jonna um tíðarfar og þess háttar Fáðu að sjá það. Gleðilega stórhátíð til þín og þinna.

Stefán.

*Sveinn Björnsson.* Cash City, Alta, 28. maí 1890.

Sveinn félagi. — Afsakaðu það nú fyrst og fremst, hvað ég kem seint, og þar næst, ef ég verð fáorður og fréttalaus. Það er rigningarinnistaða fyrir mér í dag, og á bréf ósvöruð, svo ég er enn í annríki.

Tíðin: *Góð,* síðan frá seinni hluta apríl, frá því sjónarmiði, sem telur gott veður og gróður nógan með gæðum, *ill* frá því sjónarmiði, sem kallar næturfrost öðru hvoru og nokkra goludaga hina verstu ótíð. Líðan manna *góð,* frá því sjónarmiði, sem telur það að hafa daglegt brauð, nokkurn veginn góða heilsu og bústofn, sem er sýnilega að aukast hjá mörgum, allt, sem nýbyggjarnir geta vonazt eftir fyrstu árin. *Ill,* frá því sjónarmiði, sem finnst það óbærilegt, að menn skuli nokkurn tíma þurfa að taka nærri sér, eða vita ekki upp á víst, hvað maður hafi að borða næstu misseri. Sögunarmyllan hérna farin að saga, dragferjan á fljótinu hérna farin að dragast, og járnbrautin frá Calgary sögð viss norður í haust, að minnsta kosti hingað til Red Deer. Þó er fremur dauft með vinnu, t. d. í Calgary, en menn vona, að það lagist. Þjóðverjar eru að flytja hér inn, og von sögð á fleirum. Veiði var mikil í ánni hér í vor, en mest er það sugfiskur. Nógur „pike" hér norður í 10 mílna löngu vatni, 15 mílur héðan.

Nú er „Heimskr." „solideruð" með þeim fjársjóðum, sem mölur og ryð granda, n. l. dollurum, að sagt er, en sömu eru eilífu fjársjóðirnir enn, n. l. mannvitið. Jón mágur þinn er strax búinn að hryðja úr Lögbergsskutnum Eiríki bankamyllu og Hafsteini biskupsfjanda. Mér er hugnun að því, ég var löngu búinn að sjá, að Runki var nokkuð rangur, þó „Lögb." væri að gorta yfir því, að enginn Vestur-Íslendingur efaðist um, að Eiríkur væri réttur, og Bergmann og Hafsteinn væru að hringla með íslenzka bankaseðla innan um sitt krítíkar-rugl. Við Hafsteini væmir mér, hann er réttur og sléttur „christomaniac", ef það orð er annars til. Það er samt sem áður auðvelt að vita, hvorum megin Jón verður, og ég fyrir mitt leyti fæst nú ekki um það. Fyrsta slettan hans til Kringlu var samt sem áður röng; því þó greinin, sem hann hneykslaðist á, væri nú reyndar mesti óþarfi, þá var það víst aldrei meiningin, eins og Jón snýr því, að hann myndi taka mútur, heldur hitt, að honum yrðu boðnar þær, en yrði þó ekki *starblindur!* Fjand-

inn hafi alla flónsku, jafnt að drótta að Lögbergingum mútugjöfum og forsvara viðtektir Jóns. Það er ekkert málefni: Göngukvenna-grunur. Þetta er nú mitt princip.

Ég hefi frétt úr Wpg, að pabbi þinn dragi til sín yngra fólkið. Verstur skrambinn hann líklega getur ekkert organizerað. Getur þú engu til vegar komið þarna í Seattle? Við þurfum að eiga organizeruð fríþenkjara félög sem víðast (Ég tel únitara með). Vinna ögn, hver í sínu horni, og sameina okkur svo með tímanum. Yngra fólkið er auðunnið, ef nokkuð er gert. Ég á ekki beinlínis við „trú", heldur alla frjálslega framför. Það er víst sæmilegur nihilisti, með séra Jóns þýðingunni á því orði, þessi landi vor frá Chicago, sem þú gazt um, að trúa því, að enginn félagsskapur þrífist meðal Íslendinga. Auðvitað, þeir eru ekki kannske vaxnir öllum félagsskap, en gengur kirkjufél., bindindisfél., kvenfél., eða jafnvel menningarfél. verr en hjá innlendum fél. samkynja, jafnhliða? T. d. í Bandaríkjunum eru 60 millj. manna; einar 20 af þeim tilheyra söfnuðum, fáar þúsundir fríþenkjurum organizeruðum, hitt er allt leysingjar, „nihilistar", segir séra Jón. Helmingur Íslendinga hér heyrir til kirkjunni. Svona gæti ég sýnt fram á fleira, því tilfellið er, allt þetta rugl um íslenzkan „nihilismus" er hreinasta, klárasta humbug, frá samanberandi sjónarmiði; frá sjónarmiði hugsjónanna er það rétt. Sannleikurinn er sem sé þetta, mannkynið allt og einstakar þjóðir er svipað í því, að það er ekki komið lengra en svo, og kemst langa lengi enn ekki lengra en það, að þar sem um hugsjónir er að gera og engin lagahegning þvingar, eru það tiltölulega fáir af fjöldanum, sem þekkja nokkra hirðisrödd, hvað þá gegna.

Þetta er orðið lengra en ég bjóst við. Nú, jæja. Okkur þessum olnbogabörnum kristsburðar-kirkjunnar ríður á að skiptast á hugsunum við og við, til að halda við einingu andans, þó ekki sé meira.

Þú biður mig að benda þér á blað. Það er léttara sagt en gert. Ég er vandur að blöðum, og satt að segja, ekki nema einasta eitt af öllum þeim blöðum, sem ég hefi séð, hefir mér fundizt vera eins og það átti að vera. Það var „Boston Index" heitinn, ritstj. Underwood, skynsamasti gentlemaðurinn, sem ég hefi enn kynnzt við á prenti. Underwood þessi „lektúraði" í Washington Terr. í fyrra og „debattaði" guðfræðinga. Ég heimta af fríþenkjarablöðum þessa vísindalegu varkárni, sem

aðeins leiðir fram rök, en spilar ekki á hleypidómana og fordómana í mönnum, blöð, sem glæða skilninginn um fram allt.

Hér eru addressur nokkurra blaða, ég held allra þeirra skárri, sem út eru gefin í Ameríku í þessa stefnu. Flest þeirra hefi ég séð:

*The New Ideal, Boston, Mass, dollar 1.00.* — Ritstjórinn, Mr. West, var únitari, en rak lengra undan, þó hann sé ekki atheisti fullkominn. Í þetta blað rita sumir nafnkenndir vísindamenn, nokkurs konar „raffineraðir“ fríþenkjarar; það er því fremur *speculativskt* að byrja með. T. d. ritar gamli Abbot í það, sem þykist vera búinn, vísindalega! að reka sig á guð (náttúrlega speculativskt) og sneypir alla, sem ekki hafa orðið hans varir

*Boston Investigator, Boston, Mass, dollarar 3.00.* — H. Seaver stofnsetti það á *common sense,* og til þessa blaðs sótti Ingersoll sínar kenningar. Ritstj. þess, J. P. Mendum, er fríþenkjari, atheisti og democrat!

*Iron Clad Age, Indianapolis, Ind., dollarar 3.00.* — Dr. Monroe, ritstj., er læknir, karlægur núna, og snopppungar á báða bóga presta og lækna og alla afturhaldsmenn.

*Truth Seeker, Truth Seeker Co., New York, dollarar 3.00.* — Lang-útbreiddasta blað fríþenkjaranna í Ameríku. McDonald er ritstjóri þess og höfuð og herðar. The Truth Seeker Co. gefur út bækur og selur þar að auki margar ágætis bækur við mjög vægu verði.

*Free Thought, 504 Kearney St., San Francisco, Cal., dollarar 2.00.* — Ritstj. er S. P. Putnam, svipaður Ingersoll og fríþenkjara foringi og „lektúrari“ á vesturströndinni.

*Secular Thought, 31 Adalaide St., East Toronto, Ont. Can. dollarar 2.00.* — Dágott blað. Charles Watts ritstj. Englendingur, mikið skynsamur maður og deilugarpur.

*The Twentieth Century, 4 Warren St., New York, dollarar 2.00.* — Ritstj., Hugh O. Pentecoste, færði prestskap sinn kirkju úr kirkju, þangað til hann varð atheista prestur í New York og hefir allmikinn söfnuð þar og prentar ræður sínar auk fleira í blaðinu. Margt í því er gott.

*The Individualist, 1653 Blake St., Denver, Colorado, dollarar 2.00.* — Þekki það ekki. Segist standa fyrir: Free thought, free speech, free trade, free money.

*Freethinkers Magasine, 143 Main St., Buffalo, New York,*

*dollarar 2.00.* — Hið bezta af þessum blöðum, þó að megi finna að sumu. Ritstj. Green, atheisti, gamall universalista prestur og löglærður, gamall maður fátækur, sem berst með hnúum og hnefum móti því, sem hann álítur hjátrú.

Svo þekki ég tvö blöð, sem, þó þau minnist aldrei á trúarbrögð, eru mjög þörf þeim, sem geta fært sér þau í nyt. Þau eru *Popular Science* og *Humbolt Library*, vísindarit.

Bezt er nú fyrir þig að senda eftir *sample copies* af þessum blöðum nokkrum, fá aðra með þér til þess, velja svo hvað, sem þér líkar. Ég held ég tæki t. d. *Magazinið* og *Truth Seeker*, eða það og *New Idea*, þó hin blöðin séu brúkleg. Truth Seeker Co. hefir margar góðar bækur. Fáðu hjá því *Debates* og *Essays of Underwood*, og segðu mér, hvernig þér líkar. Maður verður eitthvað að lesa, annars verður maður ekkert nema magi og munnur.

Ég vona nú, Sveinn minn, að þú sendir mér línu við tækifæri. Ég bið að heilsa konunni þinni.

Þinn einl. Stephan G. Stephansson.

*Sveinn Björnsson.* Cash City, 30. júlí 1890.

Vinur. — Alúðar þökk fyrir bréf þitt frá 10. f. m., meðtekið fyrir löngu. Það hefir dregizt fyrir mér að svara, ég hefi átt svo annríkt, því ég er enn og verð til langs tíma þessi frumbýlingur, sem allt á ógert, sem tíminn hleypur alltaf af sér. Ekkert get ég sagt í fréttum héðan, nema sumarið hefir verið gott fram að þessu og mjög góðar horfur með jarðargróða. Járnbraut frá Calgary á leiðinni. Hve nærri nál. okkur hún leggst, er samt óútkljáð.

Fluttur er Ólafur gamli af landi því, sem hann bjó hér á, á annað, 12 til 13 mílur suðaustar, og milligjöfin, sem hann hefir úr þeim jarðabyltingum, er eftir mínum reikningi aðeins ánægja sú, sem hann getur smíðað sér úr fyrirhöfn sinni allri, og samt varla hreinn ágóði. Helzt byggist ég við, að Ólafur ryki vestur á strönd, hið fyrsta hann gæti komið því við og forustusauður fengist í ferðina. En Seattle, eða hvar sem hann svo lenti, yrði ekki nema árs áfangastaður hans. Ég svona skrifa þér þetta, af því þú einu sinni spurðir eitthvað svoleiðis um hann. Gísli Sæmundsson fluttur til Calgary, alfarinn, ætlar nú þaðan vestur til Victoria. Það er öfugt með

Gísla og aðra menn, hvar helzt sem ég hefi til hans frétt; þó ekki þyki nú mikið til manns koma, svona vanalega, þá letja allir menn burtflutnings, þegar að því rekur, en það er eins og Gísli sé öllum sveitum útfalur, og svo er það hér.

Hvernig lízt þér á kirkjuþingið núna? Mér sýnist helzta verk þess hafi verið að rimpa saman rifur á sínum eigin görmum, sem auðsjáanlega hafa verið farnar að kárna til muna í ryskingunum á kristindóms-heimilinu sjálfu, hinu evangeliska-lutherska. Og ársskýrsla forseta, sem æfinlega var áður í „Skipið er nýtt, en skerið er hró"s-anda Staðarhóls-Páls, er nú með öllu Varúðarbálkur. — — —

*Jónas Hall.* Cash City, 24. ágúst 1890.

Jónas minn góður.— Ég þakka þér kærlega fyrir „langa" bréfið, fyrir „stutta" bréfið, blaðið og allt. Ég dró að svara fyrra bréfinu, sökum annríkis við heyskapinn, því ég þarf að vinna af mér vélalán o. fl., en tíðin er óhagstæð, svo allt gengur seint. Í gær kom seinna bréfið frá þér og þá sá ég, að „setið var meðan sætt var", svo nú hleyp ég í að klóra þér.

Nýlega skrifaði ég Jonna frænda allar fréttir héðan, nefnilega „veður og vind allt til þess dags", því tíðin er tíðindin hérna. Ég nenni ekki að taka það upp aftur núna, Jonni getur lesið þér það. Ég bæti því aðeins við (Og þú mátt gretta þig yfir því eins og þú vilt), síðan hefir komið frost, aðfaranóttina 16. þ. m. (Sömu nóttina og „Lögberg" getur um, að mælarnir í Man. hafi fallið ofan í frostpunkt, en ekkert hafi skemmzt, sem ég varla trúi, því óharðnað hveiti t. a. m. í Dak. frýs 2 stig ofar). Hér í byggð frusu kartöflur og smáar kálplöntur, bygg, hafrar, hveiti í 3 eða 4 stöðum hér, litlir blettir, en allt, sem til var, hjá löndum hér. Á kartöflum er skaðinn lítill, ef nokkur, því í gömlum, vel unnum görðum, voru þær fullsprottnar, eða því nær. Akrablettirnir voru seinsánir allir, kringum miðjan maí, og komið „í mjólk". Ég hafði svolítinn blett af byggi, sáðan 9. maí. Það spratt illa, því svo mátti heita, að ég sæði því ofan í óplægt land, þó voru margir hausar góðir, þeir, sem höfðu náð einhverri „fótfestu á jörðinni". Blettur minn slapp, var móðnaður, þegar frostið kom. Sage, bréfahirðir hérna, átti 15 ekrur af höfrum, sem líka sluppu, og voru þó grænir, og kartöflur við hliðina á þeim frusu þó.

Blettirnir, sem ónýttust, litu afbragðs vel út að sprettu, og „óp og tannagnístur“ landa yfir skaða sínum skarar langt fram úr skaðanum, því hann var lítill. Hvað víðtækt frostið hefir verið, veit ég ekki enn. Ummæli, að allt sé frosið kringum Crossing og Calgary. Alltaf hafa gengið rigningar öðru hvoru þennan mánuð, og þar af leiðandi hefir heyskapur gengið slögótt.

Ekki get ég sagt þér, hvar járnbrautin leggst yfir Red Deer. Það er enn óákveðið. Frá fyrsta og enn er því trúað, að hún verði lögð yfir eða austan Crossing, 5 mílur, og sagt, að Geatz, ex-reverend og Alberta-loftunga, hafi selt bæjarstæði þar. Svo eru margir, sem trúa því, hún komi hér, sala Geatz sé „slagur“, og færa það til, að Ross & McKenzie, járnbrauta-contractararnir miklu, vilji ólmir „kaupa út“ myllufélagið hérna, og ekkert standi í vegi nema bara að þeir fái öll plöggin fyrir það verð, sem þeim líki, og þetta muni ráða úrslitum. Fái þeir mylluna og timburleyfi Alberta Co. fyrir sitt verð, sé brautin sjálfsögð hér, ef ekki, til Crossing, í hefndarskyni. Sjálfur er ég makalaust áhyggjulaus, hvar brautin kemur. Veit hún kemur einhvers staðar innan 20 mílna. Satt að segja vil ég heldur vera nokkuð frá henni rúmsins vegna, allt tekst upp með fram brautinni, hey og haglendi, en síður lengra frá. Næstliðna viku voru þeir komnir með grunninn til Scarlett, 40 mílur norður fyrir Calgary, á brautinni hingað. Það er unnið af kappi og í orði að byggja í haust alveg til Edmonton, ef veður leyfir. Hvar landeign brautarinnar eiginlega verður, er enn ekki komið upp úr dúrnum, sagt með fram henni einhvers staðar, önnur hver „section“, odda-„sectionirnar“. Það er mjög líklegt, að hún ætli sér lönd í mældu townunum, sem Íslendingar hafa setzt að í. Ég ræð það af því, að nýlega hefir stjórnin aftekið, að á odda-„sectionunum“ þar fengist timburleyfi, sem hlýtur að stafa af járnbrautinni. Verð á járnbrautarlandi get ég því ekki sagt um, enn sem komið er. Eiginlega er ekkert járnbrautarland til hér enn. Brautin er ekki búin að innvinna sér *grantið* enn, eins og þú sérð, hún er ekki byggð. Kringum Calgary seldi C. P. R. í fyrra lönd innan 10 mílna frá braut á $ 10 ekru, innan 20 mílna $ 2.50 til $ 5.00 ekruna. Land-spekúlantafél., *The Saskatchewan Homestead & Colonization Co.*, sem á lönd kringum Crossing, hefir selt ekr. á $ 5.00. Er sagt þeir vilji nú ekki selja, líklega eru að bíða eftir

„flóði". Já, gamli Ólafur er fluttur. Sú eina ástæða, sem ég get séð: Óánægja að vera kyrr á sama stað. Húsið hans er autt. Flyttu strax í það.

1. Skólar komast hér upp. Eitt skólahús fyrir hver 10 börn eða fleiri er laga-ákvörðun. Kennara borgar stjórnin frá helming til ¾ af laununum. Nóg börn hér fyrir 2 til 3 skólahús. Bara þarf að lemja þau inn, sem sjálfsagt kostar mikið kjaftæði.
2. Sjálfsagt lækkar verð á ýmsu hér eins og annars staðar með tímanum. En Alberta verður lengi að byggjast. Skógar og námur, sem brautin opnar, taka að líkindum við miklu lengi fram eftir. Egg seljast æfinlega frá 25 cent til 50 tylftin. Smér illa um hásumarið. Ég hef ekki vitað það selt nema móti vörum í búðir. Það hafa engir haft stórt innlegg af því. Líklega mætti selja það fyrir peninga til bæjarbúa og námu- og skógarmanna í bæ, þar sem maður væri kunnugur. Bændur kringum Calgary seldu mikið af ýmsu í privat hús þar, fyrir peninga náttúrlega.
3. Uppskeru hér telja sumir alla leið frá 30 til 90 bushels af hveiti af ekrunni og hafra ámóta að sínu leyti. Heilbrigð skynsemi segir manni, að hið síðar nefnda sé húmbúg og eins C. P. R. pamphlettið ykkar Kristins, það er að segja, sem algengt. Samt er þetta mögulegt, ein ekra afbragðsvel yrkt með áburði í framleiðir ótrúlega mikið. Og það búskaparlag mun hentast hér og líklega alls staðar. Á hinn bóginn er ekkert spursmál um það, að hér sprettur ágætlega, jarðvegurinn sýnir það.
4. Engin von, að landið verði mælt hér í sumar. Svo sagði Rower mér, landgætir stjórnarinnar í Calgary.

Þá hefi ég svarað þér eftir föngum og verðurðu að afsaka, þó þér finnist ég ekki vera *positiv.* Ég segi þér bara það, sem ég veit, út af því dreg ég mínar eigin *conclusions* fyrir sjálfan mig. Svo verður þú að gera. Rækallinn, ein spurning er eftir.

5. Tvær kerlingar hér eru andlega óbætanlegar út af prestsleysinu, Karólína og Hólmfríður nokkur, nágranna kona mín; hún segist vera skyld séra Bergmann, svo það yrði náttúrlega ættarskömm, ef hún glataðist eilíflega, því svo hefir enginn farið í þeim ættboga, nema ef það verður Stefán Guðmundsson, sem Elizabeth heitin county-studda

reiknaði eitt sinn inn í hringinn. Þá er öll „góðmennskan“ (Ég meina Goodmanns-ættina) mesta presta og dyggða fólk. Ólafur ætlaði t. d. að byggja pútum húsið sitt í vetur til að græða á því, en nágrannar hans komu í veg fyrir það. Svo fór hann undir forgöngu föður síns að stofna til íslenzks-lúthersks kristilegs safnaðar í Calgary, þegar hitt tókst ekki, en það fór á sömu leið. Þetta eru þær einu kirkjuhreyfingar, sem á hefir bólað hér.

Já, Jónas minn, í þínum sporum hefði ég slegið botn í búskapinn í Dakota. Frá mínu sjónarmiði er hverju ári æfinnar eytt til einskis, sjálfum manni til einskis, sem maður þrælar aðeins til að auðga aðra, en útarma sjálfan sig. Nýlega var ég að lesa í blöðunum ýmis svör, sem Bandaríkja bændur gáfu upp á spurning stjórnarinnar við manntalið í sumar: „Því gafstu veð í landinu þínu?“ Mér fannst eitt þeirra hitta naglann svo vel á hausinn, það var svona: „Til þess að leggja fram minn skerf til milljóneranna, bankamannanna, járnbrautakónganna, okurkarlanna, allra þessara pilta, sem stunda þá atvinnu að féfletta náungann“. Og svo er nú annað, mannfélag, sem manni finnst allt öfugt og sem finnst maður sjálfur allur öfugur, er varla lifandi við, nema því aðeins, að maður hafi tíma og efni til að standa í einlægum róstum, því það er þó mikil svölun í kjaftshöggunum, svo manni getur orðið lífið bærilegt.

En skyldi þér detta í hug að koma hingað, þá slepptu öllum draumum um stóra hveitiakra, þeir borga ekki einum af tíu fátæklingum alla hans fyrirhöfn, en skilja flesta eftir á endanum með úttaugað land, sem ekki eru efni til að bæta. Auðvitað getur maður lengi lifað í voninni um „góða árið“, sem bjargi manni, en það svíkst um að koma, uggir mig, því það er flúið úr landinu undan ofyrkju, þó það aldrei nema liggi í loftinu yfir því. Komdu með þitt *gripa-kar,* taktu þér land, yrktu fáar ekrur á ári, en yrktu þær vel, svo ef þær misheppnast, sé skaðinn ekki óbætanlegur, og ef þær heppnast, sé ágóðinn talsverður, og ég held þú komist fljótt vel af. Svona er nú mín skoðun. Vertu nú sæll.

Þinn Stefán.

P. S. — Rétt núna frétti ég, að Kristinn mágur og einhver náungi annar séu gerðir út í landaskoðun af löndum í Cal-

gary, norður til Edmonton (120 mílur norður héðan) og austur til Buffalo Lake (65 mílur austur héðan). Hvað það þýðir, skil ég ekki. S.

*Jónas Hall.* Cash City, Alta, 8. okt. 1890.

Jónas minn. — Með síðustu póstferð fékk ég seinasta bréf þitt, þar sem þú segist vera að brjóta heilann í gömlu vísunni:

„Á ég að vera? Á ég að fara?
Á ég að gera? Hvað?"

Hin fékk ég áður með góðum skilum. Þökk fyrir þau öll. Ég skrifa þér eiginlega til að bæta við þig umhugsunarefni. Svoleiðis er varið, ég brá mér í landaskoðun með Kristni, Karli og Kleven norður til Edmonton, var burtu 13 daga, kom heim 11. næstl. mán. Hafi Kristinn efnt loforð sín, er hann sjálfsagt búinn að skrifa þér, svo þú veizt eitthvað um þessa för, en til vara skrifa ég þér nokkur orð, enga ferðasögu, aðeins það, sem ég sá. Edmonton er, eins og þú veizt, dálítið þorp við Saskatchewan, talið 100—110 mílur norður af Red Deer, en er aðeins 90, eins og fugl flýgur. Ég hafði mikið heyrt sagt af Edmonton, eða eiginlega héraðinu þar í kring, sem beztu búsveitinni í Alberta, en ég trúði því aldrei. Enginn gat gefið mér skynsamlega ástæðu fyrir því, nema sagt mér sögur af rokna uppskeru og að fjöllin væru þar fjær. Uppskerusögurnar áleit ég bara lýgi, enda eru þær það eflaust margar, en þó eru þær sannari en ég hélt. Nú, ég fór norður 30. ág. Við lentum í sífelldum rigningum og vondum vegum. Ég var búinn að skrifa þér um frost hérna aðfaranótt 16. ág. Ég mun hafa sagt þér rétt frá því, en nú veit ég greinilegar um það samt. Kartöflur urðu hér ekki ónýtar. Auðvitað uxu þær ekkert eftir frostið. Þær eru hér almennast, hjá löndum, 10 bushels upp af einu til þrítugfalt, en óvíða. Hafrar Sage voru frosnir, þegar til kom. Hjá Geatz á Crossing hveiti alveg ónýtt, hafrar lélegir, *black barley* skást, en þó frosið meira en hveitið, sem ég ætla að senda þér. Hjá Brown, hveitið frosið, gott fóður, þó svipað frosna hveitinu mínu seinasta árið í Dakota, ef þú manst eftir því, hafrar smáir, en lítið frosnir. Þeim var sáð snemma (Um miðjan apríl, minnir mig). Kartöflur og allur garðmatur er góður hjá Brown bónda. Svona hafði þessi frostnótt farið með allan ak-



*Hús skáldsins á Markerville.*

*Hólaskóli. Fyrsta skólahús í byggðinni, reist í landi skáldsins.*

urgróða með fram veginum, þangað til einar 20 mílur voru eftir til Edmonton, þá skipti um. Eftir það voru frostmenjarnar svo litlar, að það þurfti „glöggt gestsauga“, til að sjá á jarðargróðri, og ekki fyrir aðra en vana Dakota-„gaddjaxla“ eins og mig, enda reifst ég löngum við þá félaga mína, sem voru uppi í „níunda himni“ og sáu hvergi frostmark. Það stóð hér um bil svona á: Garðar voru allir afbragð, ég hefi aldrei séð betra á æfi minni, hafrar ljómandi góðir, hveiti sá á víða, það er að segja á hýðinu, en afbragðsvel stóð það, svo ég hefi ekki séð þéttara né jafnara, jafnvel í Dakota. Þó er sjálfsagt til korn mjög frosið. T. d. sá ég tvo akra, hafra og hveiti, svo ákaflega ofvaxið, að ég hefi aldrei séð slíkt strá né höfuð að stærðinni til, en það var engin von, að það móðnaðist, svo var það grænt. En hefði það ekki verið, mundi ég ekki hafa þorað að segja lýgi sumar ótrúlegu sögurnar um, hvað þeir fá stundum af ekrunni hérna í Alberta. Akrar voru sumir slegnir, sumir óslegnir, sumir of grænir, en meðan ég var þar, gengu lengst af úrfelli, svo lítið varð ágengt með uppskeruna. Kringum Edmonton eru þær einu byggðir hér í Alberta, sem ég hefi enn séð, þar sem akuryrkja er stunduð að mun. Í görðum í bænum sá ég kartöflur, sem vógu 2 pund, *tomatoes*, sem reyndar voru grænar og aðeins hálfmóðnaðar, en alveg ófrosnar og stórar, maisstangir mannháar og sá aðeins lítillega á blöðunum, að frostið hafði snert þau, en ekki veit ég um axið, því ég kunni ekki við að stelast inn í garðinn. Kálhöfuð og *cauliflowers* voru góð fangfylla armlangra manna eins og þín. Einn *timothy*-blett á eyrinni við ána, sleginn og sprottinn upp aftur, svo vottaði fyrir hausum. Út á landinu voru garðar lakari, þar sem ég fór. Það er að segja, sveinkarlarnir höfðu ekki stundað þá eins vel og fáir sáð nema kartöflum. Við gátum ekki farið yfir nema eitt *settlementið* (En þau eru 3 út frá bænum), því tíðin var svo blaut og svo „lentum“ við fyrr og fannst engin þörf að leita lengra.

Maður heitir McNabb. Býr 14 mílur vestur af Edmonton, verður einn næsti granni okkar þar sem við tókum löndin. Hjá honum gistum við tvær nætur og því segi ég þér af honum, að ég kynntist honum betur en öðrum. Fyrir 9 árum kom hann þarna. Land hans er tóm slétta, en rétt við skóg og mjög fallegt. Ekki var hann ríkur, þegar hann byrjaði, þó held ég það hafi verið lýgi, sem mér var sagt, að hann hafi ekki átt

eyris virði. Nú á hann 2 lönd, hús og fjós mörg, stór og stæðileg, flest úr loggum, 45 ekrur í akri, rammlega girtar, 25 nautgripi, nokkrar kindur, milli 10 og 20 svín, smá og stór, 4 hesta stóra, bindara, sláttuvél, hrífu og öll önnur búfæri, vagn og *buckboard,* en konulaus er hann, og eftir því, sem ég komst næst, skuldar $ 75.00 á bindarann sinn. Ég ætla að reyna að smuggla fáeinum kornum af hveiti og höfrum í bréfi þessu af landi McNabb. Akur hans var ekki betri en annarra, hveitið var sjöunda uppskeran af sama blettinum. Ég er viss það hefir orðið frá 20 til 25 bush. af ekrunni. McNabb vildi veðja við mig um 30 til 35 bush., en ég hefði ekki þorað það. Ég tók nokkur strá úr fyrsta hveitibindinu, sem fyrir mér lá, á þeim enda akursins, sem lakari var og frosnari. Eins með hafrana, nema þeir voru óslegnir og skar ég þá upp með kníf, jafn ofarlega og mér virtist, að bindarinn myndi taka þá. Stráið liggur á púltinu hérna hjá mér. Hveitistráið er 3 fet á lengd (Svona eitthvert óvalið, sem ég greip og mældi), og hausinn hálfur þriðji þuml. Hafrastráið 4 fet og hausinn 6 og hálfur þuml. Kornin í hvoru bréfi eru úr 2 hausum, en mikið var víst hrunið úr þeim, ég hefi flækt þeim svo mikið til. Bygg Mc Nabbs var lakast að sínu leyti, sáð of seint, ekki fyrr en fyrri part júní. Þetta er það helzta, sem ég get sagt þér í bráðina af því, sem ég „sá með eigin augum". En fyllt gæti ég tvö bréf með sögum, en þeim sleppi ég alveg. En á einu vara ég þig, eða hvern, sem það vildi til, að fara einhvern tíma norður til Edmonton og hitta svo á, ef þar liti ekki eins vel út og ég lýsi: Ef þú segir, ég hafi „logið", máttu velja um kjaftshögg eða skammavísu, því ég ímynda mér sjálfur ekki, að æfinlega spretti þar svona vel, en svona var það í haust.

Ég hefi minnzt á það að framan, að við tókum land, Kristinn, Kleven, Karl og ég. — En hérna er millisetning, sem þú þarft ekki að lesa neinum, því hún er trúnaðarmál, sem ég ekki vil að berist hingað norður aftur. — — —
Ég vildi sjá, hverju fram yndi. Hinir tóku sér lönd fullt og fast. Þessi lönd eru um 20 mílur vestur af Edmonton, 4 til 5 mílur frá Saskatchewan, rétt norður af sögunarmyllunum, sem þar eru, í Tsp. 52, Range one, west of 5th Principal Meridian. Ég merkti þetta Tsp. með bláum ferhyrning á öðru kortinu, sem ég sendi þér. Síðustu sectiona-raðirnar af því Tsp. er makalaust falleg grassléttta, sem öll hallar við suðri og inn

að ánni og gengur æði langt inn í Tsp. 51, sem er ómælt. Kringum þessa sléttu að vestan, sunnan og austur í sveig, beygist skógurinn út frá Saskatchewan, mikill og þéttur; spruce, tamarac, poplar og einstaka björk. Lækur rennur eftir sléttunni norðan til í ómælda *towninu*, kallaður Dog Creek. Slétta þessi er eins há og þurr eins og hryggirnir þínir, en svo grösug þetta sumar, að myllufél. höfðu slegið þar með *mower* og sett upp heystakka. Lönd okkar er tóm slétta, en skógurinn, sem ég gat um, jaðrar okkar Kristins alveg á eina hliðina. Við tókum 3 lönd í sec. 2, Karl, Kleven og ég, en Kristinn í 12, og stingum við saman hornum. Þess er að geta, að section 1 byrjar í suðausturhorni Tsp. hér í Canada og talið svo vestur og austur. Okkur finnst það niður á við, eins og Galdra-Héðni upphefðin í Svartaskóla

Það sem mér gengur til að flytja norður (ef ég fer) er þetta, það frýs vægara á sumrum við Edmonton en hér og ástæðan er, að *landið er lægra yfir sjávarflöt, frá 5 til 6 hundruð fet.* Calgary er 3388 fet yfir sjávarmál, Edmonton 2225 (Mig minnir að bækur og fróðir menn segi, að 100 fet jarðhæðar samsvari 1 stigi norðurbreiddar, í tilliti til jurtagróða. Og getur þú þá leikið þér að reikna út muninn milli Edmonton og Calgary. Ég hefi gert það, en ég er ekki alveg viss á þessu. Drottinn minn! Héðan er langt til bóka og fróðra manna). *Það er lengra frá fjöllunum til Edmonton en Red Deer.* Red Deer undir 100 mílur, Edmonton 176. Þú getur séð það á stærra kortinu, sem ég sendi þér, hvernig fjöllin slaga sig vestur og mjókka og lækka vestur af Edmonton. *Það eru meiri skógar milli fjalla og sveitar vestur af Edmonton en Red Deer.* Þetta eru ástæðurnar fyrir því, að síður frýs í Edmonton en hér, þó það sé 90 mílum norðar. Eitt, sem hvetur mig að flytja, er, að norður frá eru komnar upp mjölmyllur 2, og verð ég um 20 mílur frá þeim, frá sögunarmyllunum 4 eða 5 mílur. Skammt frá eru kolalönd (Þú sérð þau merkt á litla kortinu sunnan árinnar) og gullnáma (Judge Roleau, og er í orði, að hann muni byrja að vinna í henni, þegar brautin kemur norður). Steinbrot er líka skammt frá upp með ánni, hið eina þar í grenndinni, að sagt er. Edmonton verður talsverður bær og ofurlítið „boom“ þar fyrst eftir að brautin kemur, sem sagt er að verði snemma í júní næstk. 1. des. í haust á hún að vera fullgerð hingað og stúfar af grunninum eru nú byggðir þegar

milli 10 og 20 mílur norður fyrir Red Deer og sagt, að hann eigi að komast innan við 50 mílur frá Edmonton í haust.

Hér kom hret 10. sept., svo grátt varð. Ekki kom sá snjór í Edmonton, ég var þá á ferðinni. Í Calgary féllu 5 til 6 þuml. Í nótt var hríð, svo grátt er, og bleytuklessingur í dag annað veifið. 9. október: Hríðin birt upp klukkan 8.30. Jörð farin að roðna, veðrið bjart og mesta blíða. Ágúst og september voru mjög votviðrasamir, einkum þau mánaðamót.

Það er fjarstæða, að nokkur flytji héðan, svo teljandi væri. nema ef það yrðu fáir til Edmonton. Þú mátt trúa því, hvað sem Karolína segir, og vesaldómurinn hérna, ja — hann jafnast ekki á við það, sem ég sá í Dakota fyrst. En margir eiga í basli enn, það er sannleikur. Ég sendi þér kver um Edmonton og eina örk af blaðinu þar. Ég merkti með bláum *claves* það, sem ég vissi að væri satt. Láttu Jonna frænda fá annað kverið og kortið, ef hann vill, og segðu honum fréttirnar.

Þinn Stefán.

White Whale Lac og Lac St. Anne eru hvítfiskvötn. Big Lake líka veiðivatn. Þú sérð þau á kortinu, nálægt fyrirheitna landinu.

*Jón Jónsson yngri.* 1890.

Þér að skrifa bannar bréf
Bölvuð gigtin tauga,
Því varla að gagni í hausnum hef
Ég helming vinstra auga.

Einars læknis líknar-geð
Lyfin bruggar, velur;
Duftum, smyrslum, dropum með
Hann dagsljós allt mér felur.

Byrgir sjónum svartleitt traf
Sól og græna haga.
Svona hef ég lifað átján af
Axlar-Bjarnar daga.

Svo ekki máttu þykkja það,
Þó ég ekki skrifi.
Við slíkt má kallast allgott: að
Ég enn þá kveð og lifi.

En bréfritara setztu í sess
Samt með póstferð hvorri,
Og láttu mig góði ei gjalda þess
Glæps, að ég varð þorri.

Þó bætist skuld við skuldina,
Skrifaðu og þig ei kærðu.
Heilsan þegar sitt „heffata“
Hrópar, borgun færðu.

Því áttu að svara, ef að spur
Þig um mig nokkur maður.
Ég er að verða voteygður —
Vertu nú margblessaður.
Stebbi.

*Jónas Hall.* Cash City, Alta, 17. des. 1890.

Jónas minn. — Um næstl. mánaðamót var ég staddur í Calgary. Kristinn fékk þá bréf frá þér þess efnis, að þú mundir koma. Ég áminnti mág að svara þér strax, og „næsta helgi“ var yzti dagur hans, sem sá reikningur átti að ljúkast á. Ég hefi því átyllu til að ímynda mér, að þú hafir ekki orðið bréflaus héðan, þó ég hafi dregið þig á svari upp á seinasta bréfið þitt. Ég er nýl. búinn að skrifa Jonna frænda langt bréf og merkilegt, ef hægt yrði að lesa það. Í því voru allar fréttir héðan, frá byrjun þess, sem enti ég seinast, til bréfsloka. Veðrið í haust hefir verið inndælt og svo er það enn. Það er eins og árið ætli að halda sér sem bezt til með tíðarfarið seinustu mánuðina, svo menn gleymi æskubrekum þess og öllum rostanum. Auðvitað gránar af snjó, en svo er eins og veðráttan iðrist óðara eftir því, hún er núna einhvern veginn svo Péturs-postullega-sinnuð, næstu daga er óðara komin hláka. Í fyrradag voru svolitlir snjódeplar hér og hvar. Þeir höfðu dregið sig saman undir þúfnakollana og víðirunnana, standandi vissir um það, að nú yrði ekki langt þangað til veturinn kæmi, og eftir það myndi sér nú óhætt. En í gærmorgun var komin ofsahláka, sem reytti og tætti upp úr hverri holu og gjótu. Mér ofbauð, hvað hann belgdi sig gífurlega við jafn smáa og meinlausa fönn, svo hefði ég haldið það væri maður með viti, eins og til að mynda þú, þá hefði ég sagt með allra

mestu hógværð: „Eyddu ekki svona miklum vindi á svona litla snjóbletti, Jónas minn“. En það var allt annað í efni. Ég kynntist karli heima á Íslandi, sem kallaður var Kristján Núff. Hann var barasta ræfill af manni, auminginn, það vantaði sem sé á báða endana á honum. Reyndar sýndist efsta *tasían* á honum að mestu leyti heil að utan, en öll innanbyggingin var fyrirtaks óhentug, enda hafði heimurinn ekki lagt sig stórt í framkróka um að laga hana. Svo var hann fótalaus. Þá hafði einu sinni kalið af honum í manndrápsbyl, þegar hann gat ekki bjargað sér sjálfur og var algjörlega kominn upp á guðs miskunn. Enda sagði fólkið, að forsjónin hefði tekið fæturna af Stjána, til að „stöðva á honum ganginn til helvítis“, því hann hefði verið að verða efni í mesta illmenni, og það setti upp slíkt helgidómsandlit, að Kristján trúði því líka. Auðvitað „stöðvaðist gangurinn“ á Núff heitnum, þegar hann var orðinn fótalaus og varð að fara á hreppinn, en það sýnist samt vera viðfelldnara „betrunar meðal“, hefði höfuðbygging Kristjáns verið löguð ofurlítið (því hún var stóri gallinn á manninum), svo forsjónin hefði ekki þurft að skemma á honum hinn endann. En hvað um gilti, það sem eftir var af Kristjáni, lærin og bolurinn, var enginn ræfill. Hann var ákaflega sterkur og fékkst löngum við blágrýti, svo sló hann stundum. En sá sláttur! Hann stóð upp undir hendur í tómum ljámúsum, hvar sem hann skreið á hnjákollunum með orfið sitt. Það hefði nú verið sök sér í finnung og þess konar illþýðis grasi, sem engin járn bíta á, en hann neytti sömu orku þar sem jörðin var gljúp og grasið ekki bitvant. Hann komst þar barasta svo miklu dýpra með spíkina sína. Hann komst einu sinni í hlaðvarpann, af því ekki var litið eftir honum. Þar spratt mikið af fíflum og súrum og áður en að var gáð, var Kristján búinn að losa allan grassvörð, taðan var helmingur mold og varpinn orðinn rótlaust torfflag, sem ekki var búið að ná sér aftur, þegar askan féll seinast.

Og því var það, í gærmorgun, þegar ég kom út í hlákustorminn, gaf ég honum enga leiðbeiningu. Ég sagði einungis: *Þetta er Kristján Núff að slá hlaðvarpann.*

Í dag var veður kyrrt og milt, loftið skýjað og jörðin alauð. Þú segist vera „skotinn í nýja landinu“. Mér varð svona hálf bylt við og fór að hugsa um, hvort ég hefði logið nokkru, ekki svona af illvilja, heldur að *andinn* hefði einhvern veg-

inn hringlað mér svo af leið, að ég hefði *glamrað* of mikið. En svo mundi ég ekki eftir neinu, sem ég þættist skyldugur að iðrast eftir, og svo þvoði ég mér í framan og um hendurnar. Mér þykir nú ógnar vænt um, ef þú flytur hingað, og það er sannfæring mín, að hér sé mesta framtíðarlandið, af þeim íslenzku nýlendum, sem enn er um að velja. Vitaskuld, ég geng út frá því, að maður *þurfi að flytja,* hafi einhverja ástæðu til þess aðra en flugfálkaskap, og svo veit ég er fyrir þér. Mig furðar mest á einu, að þú lifir! En ég vildi ekki vera orsök í því, að neinn færi að dreyma um Paradís eða Eldóradó, því sá staður mun allténd liggja „austan við sól og vestan við mána". Mér er ekkert illa við skrattann, nema ef hann er það, sem menn kalla *húmbúg,* og þá geturðu nærri ég vilji ekki líkjast honum.

Frá Edmonton hefi ég frétt ágætis uppskeru á öllu, nema hveiti sums staðar frosið, eins og ég bjóst við. Út lítur fyrir, að brautin kannske leggist um 7 mílur austur af Edmonton yfir ána, eða nálægt *Clover Bar Settlement,* sem þú sérð á kortinu. Þrjár línur mældar, ein þar, önnur við Edmonton, þriðja 4 mílur ofar. Edmonton-menn hafa fengið Calgarymenn í lið við sig og sent þeim bænarskrá að fá stjórnina til að neyða fél. til að byggja til Edmonton, hvað sem það hefir upp á sig. Það er nú ekkert að marka, en mig grunar, að austasta línan verði ofan á. Og ég skal segja þér hvers vegna. Einhvers staðar þar um slóðir á landsölsarafél., sem kallar sig The Saskatchewan Homestead & Colonization Co., landflæmi, sem það fékk frá stjórninni fyrir löngu síðan. Reyndar er félagið nú kallað „brostið" (bursted) — en ég trúi því ekki. Manstu svo eftir Gvendi smala í Útilegumönnunum, allt var sama sem stafurinn „g" hjá honum. Ég álykta líkt og Gvendur smali, og þú mátt brosa að því, allt er C. P. R. hjá mér. Canada stjórn er C. P. R. — grunsamlega, brautin hérna er C. P. R. — augljóslega, þetta Colonization Co. er C. P. R. — líklega, — ergó, leggst brautin að vilja þess.

Já, hvað því viðvíkur, að þú komir norður í vetur. Vinna er reyndar nóg norður með braut og vestur í fjöllum, lítil í Calgary, nema fyrir einstaka „innanhandarmenn" *„mattedóranna"*, það er að segja yfir háveturinn, „Ties"-högg norður með braut, milli hér og Edmonton, kaup $ 26.00 per m. Alls konar skógarvinna í fjöllunum. En þú ert „of góður" í það

hvort tveggja, að minnsta kosti á veturna. Kannske Kristinn geti komið þér að í Calgary, hann er þar mjög kunnugur og veit um allt, sem til fellst, og ég veit hann hefði góðan vilja á því með þig, ég heyrði það á honum og hann líklega skrifar þér. En svo, Jónas minn, við erum á ferð til Langdon, og skröfum tveir saman, svo þú mátt ekki taka mig fyrir almennings slaðursstamp, þó ég segi sem svo, að það er ekki örgrannt um ofurlítinn „góðfélagsskap" meðal landa í Calgary, ekki svo að skilja, það sé fyllirí, né að ég sé að hnýta að þeim fyrir það (Ég er enginn engill né býst við að verða), en ég lít á þetta hagnaðar-augum. Með lélegri eða stopulli vinnu á vetrum í Calgary græðir enginn nema Nabal, hefði hann búið þar í bæ.

En umfram allt, komdu og sjáðu sjálfur. Komdu í vor, einn, á undan, snúðu svo aftur, ef þér líkar ekki, búðu í haginn næsta sumar, byggðu, heyjaðu, og flyttu svo allt að hausti; eða vinndu, sjáðu þig um, byggðu að vetri og flyttu annað vor, allt eftir því sem kringumstæður þínar leyfa. Geturðu orðið forsprakki fyrir ofurlitlum hóp og komizt frítt? Jón Gotti lætur yfir, að margir ætli þar norður frá (í bréfi til E. læknis), hann er náttúrlega sjálfur forustan þar! Ætlar að reyna að útvega fríflutning o. s. frv. Gætirðu ekki komizt í það kompaní, ef kompaní það er? Um fram allt, komstu inn á Winnipeg agentana og hafðu þig inn á þá frítt fram og aftur að sækja familíuna, útvegaðu þér pappíra sem *delegate* hjá einhverjum landleysingjunum syðra, eða „manúfaktaðu" þá sjálfur, og láttu svo Heimskringlumenn hjálpa þér. Þetta eru nú bara *suggestions*. Heyrðu, núna rétt nýlega sá ég það í Edmontonblaðinu, að þingið í Ottawa veitti nú hverjum innflytjanda fjölskyldum $ 30.00 fyrir hænsna parið — nefnilega hjónin sjálf — og $ 5.00 eða $ 10.00 fyrir hvern kjúklinginn — ég meina króann — ef það hreiðraði sig í Man. eða Terr. Komstu fyrir, hvort þetta er satt, það gerði þig ríkan. Þetta er svo nýskeð, sem ég sá að tarna, að ég hefi ekki getað komizt fyrir hið sanna í því.

Því tekur þú ekki bræður þína hingað, en sleppir þeim til Man.? En ég líkl. spyr nú ólíkl.

Enn er gamli Ólafur landlaus. Annar maður tók nú loksins landið, sem karl situr á, og það, sem merkilegast var, maðurinn tók það óviljandi. Hann var nokkurs konar félagi Ól-

afs, auðkenndur Litli-Gvendur, vita-meinleysis rýja. Enn má karl flytja.

Nú ætla ég að fara að drekka mér te. Klukkan er 22.7 mín. eftir nýja matinu og ég man ekki meira bréfsefni í þetta skiptið. Við sendum öll vinakveðju til þín og þinna með ósk um *gleðileg jól* og *gott nýjár*. Þessi *við* erum 7 að tölu, ef ég tel ekki sjálfan mig, sem verð einn að skrifa undir þetta allt saman og ber ábyrgðina. Ég get svona um töluna, ef einhverri kveðjunni skyldi verða stolið úr bréfinu á leiðinni; þú svona hefir auga á því, ég legg þær allar ráðvandlega innan í.

Þinn einl. Stefán.

*Sveinn Björnsson.* Cash City, Alta, 9. jan. 1891.

Vinur. — Ekki er nú nema ár síðan ég skrifaði þér seinast, en skrambi er það víst langt, því hreint er ég búinn að gleyma, hvenær það var, og það, sem verst er, ég held ég sé búinn að týna addressi þínu. En samvizkan í mér er reyndar ekki tiltakanlega áhlaupasöm, en mesta seiglingsskepna er hún, hún hefir aldrei látið mig þess óminnugan, að þú ættir hjá mér bréf, og þess vegna kem ég til þín á „örkinni“, og svo er mig farið að sárlanga eftir línu frá þér.

Hvernig hefir þér þótt útlitið í vetur? Í íslenzku blöðunum hérna hafa komið fram veðrabrigði ekki lítil, og það er eitthvað vorlegra í veröldinni síðan. Guð minn góður! Ég er svo kátur yfir því, að ég ræð mér varla. Hvað það er þreytandi að berjast allan daginn úti við erfiði og illviðri og hvíla sig inni á kvöldin við að lesa blaðasneypur, sem að lýja menn og „útsvína“ andlega, eins og líkamlegu störfin á daginn, með þeim eina mismun, að fyrir allar sletturnar á daginn fær maður kannske tvo dollara, en fyrir að fá að ösla forina í blöðunum á kvöldin fær maður kannske að borga einn eða tvo dollara. En svona eru blöðin okkar, allt þangað til nýlega, með fáum undantekningum. Tollmálið í „Lögb.“ og verkamannamálið í „Hkr.“ eru mitt uppáhald. Náttúrlega er ég líka mjög ánægður yfir „verkunum og trúnni“ hans Gests míns, og fleiri þessum flatt-uppá löðrungum, sem hann gefur „guðs útvöldu“ hér og þar.

Nú er aumingja „Bergmann frændi“ þagnaður alveg. Þeir segja mér, að „Jón frændi“ Þorláksson í Vík hafi mýlt sauð-

inn, en það getur varla verið, ég held það sé heldur hitt, að enginn „leiðandi maður“ né rithöfundur hafi „látið í hann“ nýlega, svo maðurinn er fremur þunnur til að teygja til muna úr sér. En Hafsteinn, hann vill, að íslenzku prestarnir fari að stæla eftir tveimur nafnkenndustu *sensationalistunum,* svo kirkjan lifni við. Ólukkans bjálfinn, hann hefir ekki heyrt nefndan séra Hyacynthe úti í París, hann hefði átt að lofa honum að vera með, því ekki er hann neitt óbermilegri en hinir. Hafsteinn kann víst ekki vísupartinn eftir Kristján: „Þær dyr að knýja ónýtt er, því engin lifandi sál er heima“. Ræður trúlítilla presta verða aldrei trúartraustar fyrir það, þó þeir kasti frá sér blöðunum, eða geymi þau í vasanum, því líklega veit Hafsteinn, að allar afbragðs ræður hafa kostað langan undirbúning, eins og allt annað gott í heiminum, að það, sem kallað er *extempore,* er það oftast nær ekki, eigi það að þýða hugsað og flutt samstundis.

Nei, hvítasunnu-ræðumenn gera nú tæplega sömu lukku eins og fyrir nærri nítján öldum, og himnesku eldtungurnar hafa allt af síðan verið mikið sjaldséðari en jafnvel hvítir hrafnar.

Fréttir kann ég engar. Mér og mínum líður vel, því við dummum svona við lífið og höfum heilsu. Afi býr enn í Calgary. Hefir góða atvinnu, getur ögn notið heimsins og græðir held ég ögn. Við kannske flytjum norður til Edmonton næsta ár, mágarnir. Skoðuðum þar í sumar og leizt fremur vel á. Þar verður bær og *boom,* þegar brautin kemur að sumri. Viltu ekki flytja þangað og taka sjálfur upp á einhverju? Tíðin í haust og vetur hefir verið inndæl. Núna aðeins snjóföl og frostlaust oftast um daga, eða því nær. Sumarið var ekki eins gott. Votviðrasamt seinni hlutann og frostnótt hörð 16. ág., svo akurgróður skemmdist að mun. Ég skrifa ekki lengra í þetta sinn. Máske bréfið húsvillist og komist ekki til þín.

Kær kveðja til þín og konunnar þinnar frá hjónunum hérna.

Vinsamlegast þinn einl. Stephan G. Stephansson.

*Sveinn Björnsson.* Cash City, Alta, 13. apr. 1891.

Sveinn minn góður.

Þú krympar þig hálfgert við kuldann hér nyrðra
Og klökugu fjöllin, sem girða mann af,
En unir því betur við sólskinið syðra
Og sumarið langa og spegilslétt haf.

Við mjöllina og klakann ég *mér* uni betur —
Því mjallar og klakans ég fósturbarn er,
Og ég á í æfinni oftast nær vetur
Einn fleiri enn sumrin mín,[1]) hvernig sem fer.

Ég veit það er inndælt við sjávarins sanda,
Þar sólarlags-gullþiljum ládeyðan felst;
En mætti ég þar lifa, sem lang-flestir stranda,
Og líknað ég gæti, ég byggi þar helzt.

Ég veit það er lukka að lifa og *njóta,*
Að *leika* og *hvílast,* sem hugurinn kýs;
En mér finnst það *stærra* að stríða og brjóta
Í stórhríðum æfinnar mannrauna-ís.

Þann ferðamann lúinn ég lofa og virði,
Sem lífsreynslu-skaflana brýtur á hlið,
En lyftir samt æfinnar armæðu-byrði
Á axlirnar marg-þreyttu og kiknar ei við.

Og oft fannst mér vorbatans veðrátta blíðust,
Sem veturinn grimm-lyndi hálf-seildist til;
Og kvöld-skinið inndælast, hvíldin sú þýðust,
Sem kom rétt í úthall á myrkviðris-byl.

Þegar hér var komið bréf-sögunni, þurfti ég að hlaupa frá henni, til að slökkva sléttueld með sveitungum mínum. Vakti við það í nótt eð var, svaf svo ögn í morgun, en vaknaði samt nógu snemma til að brjóta einn plóg. Svona er mitt bóndalíf, svona upp og niður, æði mislitt, en ég kann samt tiltölulega betur við það en flestar aðrar „stöður" lífsins, sem ég gæti hugsað mér, að ég væri fær til, barasta af því mér finnst þar ögn rýmra um mig.

---

1) Pilturinn er fæddur um haust.

En svo ég sleppi öllum skáldskapar-vífilengjum, þá er ég nú ekki lengur að leita þess í lífinu, hvar léttast sé að komast af, heldur hvar bezt verði komið við þeim litlu hæfileikum, sem ég hefi, svo þeir geti orðið að einhverju gagni. Svo virði ég hlutina svona fyrir mér: Ef hann Sveinn félagi Björnsson tekur land í einhverjum afbragðs-stað, sem alveg fyrirhafnarlaust verður honum margra 100 dollara virði, fljótlega, þá ann ég Sveini þess ofurvel, en ekki sýnist mér það stór kostur á Sveini. Taki hann aftur land í einhverju einkisvirðisplássinu, sem eftir nokkur ár verður mörg 100 dollara virði fyrir fyrirhöfn Sveins, þá ekki einungis ann ég honum þess ofurvel, heldur sýnist það stór kostur á Sveini. Það er munurinn á *Sveini tilbúnum* og *Sveini, sem býr til.* Svona er það með allt, en ég er að reyna að tala sem bóndalegast og miða svo allt við landtöku og búskap. Þig vantar peninga til að *byrja á einhverju fyrir sjálfan þig,* það þykist ég vita sé satt. En trúðu á hvern þremilinn, sem þú vilt, nema það hæfulausa húmbúg, að þú hafir ekki „höfuð" til annars en að búa til vegglím og bisast með tígulsteina. Strjúktu heldur og steldu og leggstu út, eins og Gyðingar frá Faraó út úr tígulsteina-vinnunni á Egyptalandi forðum.

Ég hefi alltaf staðið í þeirri trú, að það væru til í þér „kostir" og þú ættir ekki að vera eintómur „áburðarklár", og því er ég að rugla þetta, en ég meina það hvorki sem ákúru né lífsreglu handa þér, vinur, ekki fremur en væri ég að tala við sjálfan mig.

Þeir eru lausir í blaða-sessinum, ritstj. nýju. Jón oltinn og Gestur riðar. Heldurðu þeir brosi nú ekki í kampinn, bræðurnir heima, yfir allri kirkju-blaða-krítikinni, gortinu og rabbinu úr okkur, sem séra Friðrik einu sinni skírði hinu makalausa orði „andans-veður" — og Einar tók það til uppfósturs í „Lögberg" sitt — þegar þeir sjá, að eftir að við höfum gullhamrað út úr menntunarleysinu heima tvo ritfærustu mennina þar, þolum við þá ekki með skömm og skapraun árið út? Er það ekki makalaust mennilegt? Mér gremst meðferðin á Jóni og sárnar að missa Gest, sárnar það enn meira, af því Gestur er framsóknar-maður síns tíma, en Jón er orðinn tímans-barn, framgjarn og frjálslyndur eins og hann er. Það tjáir ekki að tala um það, hvað stutt sem mannsæfin er og hvað hart við hlaupum, þá nær tíminn okkur á endanum

flestum, hann þrammar seint, en einstaklingurinn hefir ekki ólýjandi seigluna hans. Jón er þarfur og gagnlegur maður eftir sem áður. En hans „hrópandi rödd á eyðimörku“ er þögnuð, „Íslendinga-bragur“ verður ekki kveðinn nema einu sinni, hún er nú náttúrlega rödd yngri manna. Gestur hefir sagt okkur, „að íslenzkan, þetta hljómfagra mál, sem sé eins og skapað fyrir stórar hugsanir, sé málið, sem allir séu hættir að hugsa á og liggi eins og brotinn lúður á jörðu, sem enginn hugsi um að þeyta“. Hvað mönnum verður bilt við þetta, rétt eftir endurbótina á íslenzkunni, málhreinsunina og það allt. Ég bara tek *þessi* dæmi.

Þykir þér ekki „kærleikinn“, sem kom í hann Einar vesling um jólin, linast um kosningarnar í deilunni við gamal-kunningjann Gest. Ég kvað svona lagaðar skammir einu sinni:

Ég sit úti í horninu hlustandi á
Hátíða-söngvarann „Lögbergi“ frá
Klökkvan um kærleika söngla.
Svefns milli og vöku, upp hrokkinn til hálfs,
Hræddur við andlegar fylgjur sín sjálfs,
Það er hann Einar að öngla.

Ég enda þar, sem aðrir byrja, á fréttunum. Næstl. vetur var góður. Vetrartíð aðeins yfir febrúar, frá Dakota sjónarmiði sagt. Það er von á innflutningi hingað í sumar, að sagt er, en það er svo ógreinilegt enn, að ég geymi að segja þér frá því. Ég á aðeins von á Jónasi Hall og kannske Jonna frænda, til að skoða hér. Ólafur gamli er alfarinn. Líklega fer hann vestur til Seattle. Lengi ætlaði hann annað hvort austur eða vestur, en seinast varð vestrið hlutskarpara. „Afi“ býr inn í Calgary enn, en út læzt hann ætla bráðum. Öllum líður fremur vel, en flestum fátæklega.

Ég þakka þér fyrir álit þitt á vísunum mínum í „Hkr.“, ekki fyrir metnaðar-sakir, en það er svo lagað, að flest af þeim var kveðið með það í huganum, sem hafði haft einhverja þýðingu fyrir sjálfan mig, og svo hefði ég viljað geta gert öðrum það ljóst.

Ég hætti í þetta sinn, en vonast eftir línu aftur. Ég og konan biðjum að heilsa ykkur hjónum.

Þinn einl. Stephan G. Stephansson.

*Jónas Hall.* Cash City, Alta, 17. júní 1891.

Jónas minn. — Einu sinni lagði Indíáni upp til að skjóta eldinguna og settist upp á háan hól, bak við stórt tré, með bogann sinn, í húðar-dynjandi illviðri, og leiftrin léku í öllum áttum. Áður en hann var búinn að miða á eldinguna í norðrinu, leiftraði önnur að baki hans í suðrinu, og þegar hann svo var búinn að snúa sér við, var hún horfin líka, og svona gekk það koll af kolli, Indíáninn hringsnerist átt úr átt, en náði aldrei „sigtinu". Þegar hann svo var spurður, því hann hefði ekki skotið eldinguna, sagði hann bara: „Ugh, of seinn að hitta hana". Eins var fyrir mér, ég skrifaði þér ekki með seinustu ferð, af því þá bjóstu við að fara suður, og hélt ég yrði „of seinn að hitta þig" í Calgary, og nú verð ég það sjálfsagt með þetta bréf.

Tíðin var þurr og fjarska heit nokkra daga eftir að þið fóruð, svo rigndi nú loks hér um bil dag, þessi smáa, samfellda löðurrigning, sem hér gerist oftast, sem gerir allt yfirborð rakt, en gegnbleytir ekkert. En þó hefði það nú dugað um stund, og dugði vel grasi, en svo kom frostnótt aðfaranótt 7. þ. m., sem skemmdi alla akra hér, og síðan hefir sáralítið rignt, tíð verið svöl, engin næturfrost nú um tíma, og í dag er fjarska heitt. Með uppskeru lítur því illa út. Sem stendur tel ég allar korntegundir frá; ef úr því rætist nokkuð, er það móti von minni, en kartöflur og garðar geta lifnað enn, ef tíð leyfir. Kartöflur eru nú sem óðast að koma upp, en regn vantar. Gras kalla ég komið gott á engjum á þessum tíma. Annars er sónninn um tíðina hérna í fólkinu sá, eins og enginn sé gróður né gras, en það er „húmbúg". Þórarinn og hans hús ætla að setjast að hérna á sléttunni, milli okkar Húnfjörðs, nálægt miklu engjunum þar. Nú eru þeir að höggva húsavið í „spruce"-toppnum, þar sem kofinn var.

Þó tíðin hérna hafi nú verið of köld og þurr fyrir akurgróður, þá segi ég þér satt, að í skrokkum manna og málleysingja er hún afbragðs góð. Þú trúir ekki, hvað hún fer vel með mann. Annars máttu reiða þig á eitt, *Red Deer er ekki öll Alberta.* Það bæði rignir meira og frýs minna annars staðar í Alberta en hér. En samt sem áður, hér má full vel komast af og hjarðlönd fást ekki betri. Þau kunna að vera eins góð.

Litlu eftir þið fóruð, lögðumst við öll í „influenzu", ekki reyndar þungt né lengi, en þessi djöfull hefir hangt við mann síðan, eins og göngukvenna rógur, og ætlar aldrei að mást af manni. Ég er rétt nýorðinn sendibréfs-fær. Með seinasta pósti fékk ég 10 ex. af Jóni Ólafssyni, bréflaust og umboðslaust. Ég gaf út tvo daga til að rölta um byggðina og selja þau; ég vissi, að kæmust 2 eða 3 út í almenning á undan, væri salan á hinum búin, því allir vilja lesa frítt, vilji þeir annars nokkuð lesa. Ég kom þessum ritum öllum út með þessu. — — — —

*Jónas Hall.* Cash City, Alta, 24. ág. 1891.

Jónas minn. — Fyrir fáum dögum fékk ég bréf frá þér og ætlaði reyndar að svara þér strax, en heyannir hafa hamlað. Í dag var nokkurs konar innistöðudagur, regnskúrir og mikið regn í nótt sem var, svo ekki var hægt að stakka. Nú er kl. 4 e. m., glaða-sólskin og blíða, en enn er hann skúralegur. Ég hefi samt ekki haft neinn „sabbatsdag" upp úr regninu. Ég keypti mér grís hjá granna mínum og bar hann á bakinu heim fyrir morgunverð, svo bjó ég til „grímu" á sugukálf, makalausa hugvits-maskínu. Þar „gengur járngaddur nístur, gegnum lófa og ristur" á gamalli vatnsausu, sem er höfuðstykkið í þessari herjans vél, og „í kvöld, ef ég lifi, skal verða gaman" — þegar ég fer að reyna hana og hleypi „Brodd-Helga" undir bauluna. Og — nú er ég farinn að skrifa þér, svo eitt rekur annað, en hvað friðurinn verður langur, veit ég ekki — það kemur maður ríðandi, en ég rabba svo lengi sem hægt er.

Tíðin í sumar hefir verið stirð. Þessir sífelldu þurrkar og regnleysur fram seint í júní; svo fraus annað veifið, svo ekkert spratt nema gras og hagi. Svo kom bezta tíð. Mátulegt regn og hlýindi, svo allt fór að spretta í óða önn, en júní-frost spillti þó um. Afbragðs gróðrar tíð svo fram að 10. þ. m., þá kom grimmt frost, svo kartöflur frusu sums staðar og kannske fleira. Ég hefi heyrt, að þetta frost hafi gert miklar skemmdir, en veit óglöggt um, hve miklar, og er hræddur að segja nokkuð ákveðið í þá átt, því í fyrra voru sögurnar verri en hvað varð á endanum. Kartöflurnar mínar frusu, byggið mitt er lítið skemmt, sé það nokkuð, hafrar ekkert. Það er yfirgengilega fallegt, eftir því hve vorið fór illa með það. Ég væri ó-

hræddur að leggja hafrablett minn móts við þetta marglofaða Dakota-uppskeru-útlit, og veit ég vel, það er gott. Aðeins er ég hræddur, að þeir fái ekki tíma að fullþroskast, af því hve örðugt þeir áttu uppdráttar svo lengi fram eftir. Ég taldi þá alveg frá um miðjan júní, jafnvel fyrir „græn-fóður", því þá sást varla stingandi strá upp úr akrinum. Sannleikurinn er, hér sprettur ótrúlega fljótt, hvenær sem tíð leyfir. Byggið hjá Dahlmann er fullmóðnað og slegið fyrir nokkru, ákaflega stórvaxið að sögn. Blettur hans var eldri en minn. Hafra kvað hann hafa ágæta. Um uppskeru skrifa ég betur seinna, þegar ég get sagt eitthvað fullyrðandi. Flestir hafa víst nokkuð af kartöflum, sumir mjög góðar. Ég býst við að verða þar einna verst úti. Það hefir verið skúra-samt um heyskapinn, aldrei rignt heilan dag, góður þerrir á milli, hey með lang-bezta móti að gæðum, spretta með minna móti. Hey öll óhrakin og ódrepin, það ég veit til. Eitt hefi ég lært af þessu sumri og það er, að miklu munar hér á gömlu og nýju akurlendi með sprettu. Sumarið í fyrra var betra og frosta-minna en þetta, en akrar okkar Íslendinga spruttu þá ver.

„Maðurinn ríðandi" er strák-muðlingur frá Bárdal. Auðvitað vill hann tefja fyrir mér, en ég hefi skrifað áfram og svarað þeim smá-herra út í hött. Ég er nú búinn að stakka 33 ækjum, á dagslægju í drýlum, byrjaði heyskap fyrstu daga þ. m. Ég fór túr til Calgary seinast í júlí að sækja 2 hryssur, sem Kristinn mágur hafði keypt. Ég fór inn með lestamönnum og norður ríðandi með 3 hesta í taumi og 2 folöld eltandi, sem ég tók af löndum þar, fór úr Calgary kl. 3 e. m. á mánudag og komst á þriðjudagskvöld til Jóh. Björnssonar, lá úti í þrumuveðri og steypiregni aleinn og langt frá mönnum.

Það lítur út fyrir, að margir af löndum í Calgary flytji út hingað í haust. Strandar-Jón, Laugi, Siggi, Reinholt og Halldór. Jafnvel von á sumum þessa dagana. Vinna með minnsta móti í Calgary núna. Þú segir satt um frostin, ég hefi áreiðanlega tekið eftir því, þegar hér frýs hart, stendur jafnvel Rauðárdalurinn hætt. Ég má ekki vera að þessu lengur, þarf að skrifa fleirum. Gæfa og góð uppskera er ósk

Stefáns.

„Supplimentum", 26. ág. — Ekki reyndist „nashyrna" — svo átti nýja vélin að heita — sem bezt. Það eru á henni svo

margir smágallar, eins og „eilífðar-hjólinu“ hans Lambertsens heitins, að þeir verða mér lífstíðar-viðgerð, eins og hjólið varð honum. En þetta átti ekki að verða suppliment-erindið. Ég ætla að biðja þig og Jonna að koma til mín og útvega mér með ferðum að sunnan hingað í haust hálft bush. af góðu, hreinu vorhveiti, helzt einhverju hveitikyni, sem sprytti fljótt. Ég ætla að reyna það að ári að gamni mínu, en hér er svo erfitt að fá útsæði, nema með mestu fyrirhöfn.

Siggi Jónsson kom alfluttur hingað í gær. Þeir Gunnl. og hann setjast að í húsi gamla Ólafs, hafa held ég keypt það. Reinholt kom með 2 „team“ til að heyja við Swan Lake. Ég náði upp heyi mínu í gær. Nú á ég 49 æki uppsett.

Ég er argur yfir því að missa Gest frá „Kringlu“, því að mínum dómi hefir hún verið fremur gott blað, síðan hann tók við stjórninni, og stundum ágæt, hvern skrattann — hvern fjandann — sem íslenzka alþýðan og gáfna-eftirmynd hennar, hann Magnús Nýja-Íslands-skáld, segja um það.

Viltu ekki kaupa „Open Court“ eða útvega mér kaupanda að því? $ 2.00 árið. Bezta blað í Ameríku.

Þinn, viðlíka og vant er, Stefán.

*Jónas Hall.* Cash City, Alta, 20. sept. 1891.

Jónas minn. — Það er sunnudagur í dag og nú er ég að byrja á 4. bréfinu, sem ég hefi skrifað frá miðdegi. Ég fékk miða frá þér fyrir skömmu og á þessi að borga hann. Nú er heyskap lokið hjá flestum, þó eru nokkrir að enn. Hey eru mikil og góð, ég fékk um 50 æki, mest í bollum hér nálægt. Þó voru þeir ekki vel sprottnir, eftir því sem við köllum hér. Frost kom hér í hverjum mánuði og, eins og þú segir, á svipuðum tíma og syðra. Þegar frýs hjá okkur, standið þið hætt, jafnvel neðan við fjöllin. Ég er nú í 3 ár búinn að taka eftir því. Kartöflur hafa brugðizt hér víða fyrir frost. Hjá sumum eru þær aftur góðar, t. d. grönnum mínum, Sigurði og Jónasi, hjá Sigurði Árnasyni, Ben. Bárdal o. fl., öllum á hólum. Ég fæ góða hafra, sumt af bygginu er frosið, kartöflur mínar ónýtar, baunir (ertur) og kál og rófur spratt allt vel. En svo höfðum við eitt versta vor, sem hugsazt getur hér, fram yfir miðjan júní, sást varla vottur fyrir grænku í ökrum þá. Einhvern tíma sendi ég þér bygg og hafra-hausa, svo þú getir séð sjálf-

ur. G. Dahlmann fékk ágæta hafra og bygg, alveg ófrosið. Það móðnaðist fyrr en mitt, líklega af því það var í eldra landi. Ekruna mína óbaksettu seldi ég fyrir $ 15.00 fyrir „græn-fóður“ manni, sem hafði hesta. Af hinu hefi ég aðeins slegið sumt, en tek hitt þessa viku. Því gengur verst að móðnast, enda er tíminn síðan í júní ekki langur.

Í nótt var mikil harka, sást frost á rúðum og jörð ekki hélulaus fyrr en kl. 9 í dag, annars er bezta tíð, hlýindi og smáskúrir, og við 10. september-hretið sluppum við nú alveg, fengum aðeins kalsa-regn þann dag. Siggi Jónsson er fluttur hingað frá Calgary á land gamla Ól. Guðm. Þorl.son setztur á sitt land. Dickson nokkur, mera-kongur, setztur að á landi því, sem gamli G. Sæmundsson yfirgaf, móti S. Jósúa, og Brown og félagi hans nýr, sem Marshall heitir, setztir að við efri *spruce*-topppinn, sem við skoðuðum, með hjörð, segjast hafa fengið þar leyfi fyrir 2 sect. og heyja 150 tonn þar bak við hólana upp með læknum, sem við riðum yfir. Öðrum stór-byltingum man ég ekki eftir. Hér var Baldvin „agent“ og Sveinn „agent“ á ferð nýlega. Fóru norður til Edmonton og þóttust hafa farið þar um allt. En (okkar á milli) lugu þeir nú út í það, ég komst að því, af því ég var ögn kunnugur. Þeim leizt illa á allt hér, en í Edmonton voru þeir skotnir. — Skoðuðu allt með Argylskum-Manitoba-100-ekra-hveiti-brillum. Hvað sem þeir nú segja, þegar til Wpg kemur, en ég býst við engu góðu. Bárdal gamli seldi 70 fjár hér um daginn fyrir $ 3.50 kindina, allt gamalt.

Hér varð slagur nýlega. Tveir sveitungar voru að slá. Þeir voru reyndar gamlir í dúsbræðra-skap og enn eldri í frændsemi. En svo er nú annar þeirra giftur, og hinn varð í vor „giftur fyrir guði“, eins og ástfangin mann-krókapör kalla þá gifting, sem enginn prestur né friðdómari er látinn fjalla um. Ég veit ekki nema þetta atriði hafi þýðing fyrir söguna á dómsdegi og þess vegna set ég það hér. Ég er hræddur um, að þetta svo kallaða familíu-líf sé oft mesta rotnun í frændsemi og dúsbræðraskap mannanna. En svo varð þeim sundurorða út af vísindalegu spursmáli, og af því hvorugur þeirra er neinn vísindajötunn, svona hversdagslega, held ég, að eitthvað eldra og eldfimara hafi legið niðri fyrir, þó það tæki á sig þennan vísindalega búning. Annar átti vélina, sem hinn sló með, og svo varð umtal, hvort hollara mundi fyrir vél-

ina að bíða með sláttinn nokkrar mínútur, þangað til betur þornaði af. En þeir gátu ekki komizt að sömu niðurstöðu. Sá, sem vélina keyrði, reiddist því, að hinn lét ekki sannfærast, jafngóð rök og hann þóttist hafa fyrir sínu máli. Honum fannst það mundi sljóleik vitsins að kenna og hélt það mundi lagast, gæti hann á einhvern hátt rumskað í því. En svo hafa vísindin aldrei orðið ásátt, hvar í manninum vitið hefir upptök sín, og annað hitt, var þessi maður svo kynlega vaxinn, að til þess hefði þurft sérstaka reglu að finna út, hvar vitið í honum byrjaði. En til allrar varúðar vildi þó vélstjórinn byrja nógu neðarlega og fór að dumpa hinn með písknum kringum ísetuna. En það var fljótt auðséð, að þar inni bjó ekki viturleg sannfæring, heldur tómur þrái og þrætugirni. Hinn hirti rauk á hirtandann og reif af honum svipuna og lét hana ríða til baka-slags á vélstjóra, eins og vitið í honum þyrfti nokkurrar uppvakningar við. Ökumaður sá, að sér mundi hafa misheppnazt tilraun sín, og hörfaði undan, meðan hann var að velta því fyrir sér, hvar í eiginlega misheppnin lægi. Jú, það var nú svo sem auðséð, þó enginn hefði getað varazt það — hann hafði slegið á skakkan enda á manninum. — Hann rýkur því í tólaskrínuna á vélinni og rífur upp skrúfubítinn — „The Wrench“ — og rekur nokkrum sinnum á skallann á hinum. En það, sem merkilegast var, að þó að kúpunni lægi víða við að dalast, gat hann ekki slegið einn einasta neista af sannfæring út úr henni, heldur réðst nú þessi þrákjálki aftur á hann, þreif af honum verkfærið og barði hann svo í þokkabót. Svo varð sá söguendir, að Einar læknir fékk borgun fyrir að „plástra upp“ blóðrisa hauskúpu. Vélstjóri keypti sér nýjan „mower“ á Poplar Grove, hann þorði ekki að eiga lengur undir, hvað jafnvel verkfæri jafn ósveigjanlegs manns kynnu að taka upp á. — En heimurinn er engu nær en áður, hvar vitið hefir aðsetur sitt í svona kynlega vöxnum mönnum. — Með beztu kveðjum frá mér og mínum.

Þinn Stephan.

P. S. — Þegar ég skrifa sögur, ætlast ég ekki til þær fari nema milli nánustu frænda og kunningja í bráðina. Ekki svo að skilja, ég er engu að ljúga, en mönnum kannske félli ekki stíllinn, en ég hefi hálf gaman af að sjá þig brosa. St.

*Séra Björn Pétursson.* Markerville, 24. okt. 1891.

— — — Mér lízt efnilega á Öldina. Svipurinn og vaxtarlagið þykir mér fallegra en á hinum ísl. blöðunum hérna, líkari því sem gerist á betri innlendu blöðunum, ég á við þau blöð, sem hafa nokkurs konar menntasnið á sér og ekki eru gefin út af „vasabókar"-ritstjórnar-kænsku eintómri, og ég „geri mig til af" að hafa kynnzt þess háttar blöðum nokkrum sinnum.

Mér þykir vænt um, að Öldin ætlar ekki að hlífa sér við að minnast á trú, ekki fyrir það, að ég búist við, að hún verði vantrúar-blað og — af því ég er „vantrúar-maður" — muni leysa mig af trúar-hólminum og verði mér nokkurs konar andlegur blámaður, sem skammist og berjist við óvinina fyrir mig, fyrir dollar og hálfan um árið, svo að ég geti setið í friði í litla trúarríkinu mínu, sjálfur erfiðislaus og meiningarlaus „meðlimur" þess „að vera með", — eins og sumt fólk heldur „Lögberg" og „Sameininguna". Ég býst við að hafa aðrar skoðanir en Öldin. En trúarmálum vorum er ekki til neins að hlífa sér við; það er bara að svíkja sjálfan sig. Þau verða að ræðast og útkljázt. Ekki hvort guð er þrí-einn eða einn eða enginn. Það útkljáum við ekki fyrir alla. En hitt verður við að útkljá á annan hvorn bóginn: *hvort að nokkurt íslenzkt vit, menningar- og þjóðræknis-viðleitni, tímanleg eða „eilíf" sáluhjálp sé til, utan við lúthersku kirkjufélagið;* og við það mál ættum við að geta skilizt svo, að ekki yrði til tvær skoðanir. — — — — — — — — —

Vinsamlega Stephan G.

*Jónas Hall.* Poplar Grove, Alta, 25. nóv. 1891.

Jónas minn góður. — Þú átt hjá mér bréf og ég verð að borga það eins stuttaralega og ég get, n. l. bæði seint og illa. Með þessu bréfi er ég að hugsa um að reyna að smeygja gegnum póstinn ögn af uppskeru minni í sumar innan í tveimur blöðum af „Victoria Times", sem einhvers staðar er í kappræða milli Putnams guðlausa og einhvers Drapers guðhrædda, ef mig minnir rétt. En það er samt bara hending, ekki ásetning. Utan á tvo strangana innan í er klórað, á annan „Hall Oats", það eru hafrarnir frá þér, rétt meðal haus, á hinn er

skrifað hvenær sáð, n. l. seint í júní, höfrum, byggi og hveiti. Ég reyndi það að gamni mínu og það spratt svona. Lausu hafrarnir og byggið er það, sem ég hafði sáð, þegar þú komst, byggið af betri endanum, því sumt af því varð ónýtt, en hafrarnir ekkert úrval, margir hausar betri og bletturinn fjarska jafnt sprottinn En ekki fleiri orð um þetta. Kannske það komist aldrei til þín. Veðráttan, síðan ég skrifaði Jonna: Gerði hér föl um miðja seinustu viku, síðan blíðviðri, lítið frost á nóttum, hlýindi um daga, sést snjógrámi í rót sums staðar, jörð alauð yfir að líta og regndropar í kvöld. Uppskera víða góð hjá innlendum. Bannerman gamli, ferjukarlinn við gömlu Crossing, fékk 220 bush. af höfrum af 2 ekrum, sem hann hafði þar í hvamminum. Kemp nokkur, Red Deer-maður, tók fyrstu og aðra „premíu" á Alberta sýningunni fyrir bezta hveiti, $ 50 og $ 25 bush. af Ladoga-hveiti. Það er líkl. það, sem við köllum „White Russian". Því Ladoga er vatnið á Rússlandi, sem forfeður okkar kölluðu Aldeygju-vatn. En þetta er bara gáta mín. Kringum Antler-Hill er hveiti sagt ófrosið, þar er land hátt. Hérna innan við ána höfðu tveir hveiti, Sinclair og Wildman. Sagt er, að Sinclairs sé frosið, Wildmans ekki, Míla er milli þeirra, og sá einn munur, að blettur Sinclairs liggur eins og hann væri á lág-sléttunni, vestan við hrygginn austur af þér, en Wildman er á hrygg, svipuðum þínum. Marteinn gamli á sect. 14, rétt hjá Kolgröf, eins og þú manst, fékk 150 bush. af góðum höfrum af 3 ekrum. Jóhann getur um hann í „Kringlu" og segir hann búist við 75 bush. af ekr. Ég sá þá hafra áður en Marteinn sló þá, þeir stóðu engu betur en mínir, enda gizkaði ég á 50 bush. hjá mér. Ekki get ég talið, ég fengi neinar kartöflur. Sigurður Björnsson, nágranni minn, fékk 14 bush. af einu, Jónas Húnfjörð 18 og Sigurður gamli Árnason 15, af vor-nýplægðu. Rófur, kál og ertur spruttu vel hjá mér og svo kann ég þá sögu ekki lengri. Norður við Edmonton er uppskera góð, svona yfir höfuð. Þó er frosið þar sums staðar.

Gísli Eiríksson er kominn hingað frá Wpg, setztur að í eyðihúsi Einars læknis. Víðimýrar-Siggi í húsi Ólafs gamla og Gunnlaugur verður þar og í vetur. Einar gamli Guðnason nýkominn í tóttir Sig. gamla Árnasonar, þar sem við supum á pottflöskunni frá Hudson's Bay, sjö ára gömlu, nóttina í sumar. Á morgun er von á Ólafi „góðmennsku", Íslands-kóngi frá

Calgary, og fl., sem hingað flytja, Auðna-Bjarna og Sigurbirni, sem reyndar er kominn sjálfur, en lætur kerlinguna fylgjast með hirð Íslandskonungs. Illa gekk gripum Einars ferðin. Höfuð-gripurinn í lestinni var einhver Jafet. Tvær kindur stönguðust til bana í Gretna. „Carið“ var aðeins tekið til Calgary. Einar ætlaði sjálfur út úr í Wpg til að fá „carið“ til Innisfail — svo heitir nú vagnstöðin við Poplar Grove, — en var drifinn inn af pólitíi, því hann hafði ekki „stop-over-ticket“. Jafet hafði einn hleif til matar sér og aðeins „feed“ fyrir gripina, náði engum dropa úr kúnum, sá hvorki sól né mat né vatn handa sér né kussum alla leið, hafði ekki ráð né rænu að biðja guð né menn um neitt þess háttar og komst loks örmagna til Calgary. Þaðan voru kussurnar reknar landveg. Jafet, Sigurbörn og Hólm voru kapteinn, kokkur og háseti. Fengu hríðina, sem gerði liðna viku, nálægt *Scarlett,* en þar er æfinlega umsveljandi. Þá kól Sigurbjörn á nefið, Jafet studdist fram með vagninum og grét sína eigin eymd, en Hólm sat við stýrið á uxunum og „kruðsaði upp í“. Allar kussurnar komust óskemmdar. Tvær gullkistur gamla Einars týndust honum á „traininu“ frá Calgary, hefir ekki fengið þær. Á morgun fer ég yfir á Poplar Grove að leita þeirra. Þú mátt ekki láta þessa sögu komast norður hingað aftur. Við Einar erum kunningjar, en hann þolir ekki kímni.

Okkur var neitað um pósthúsið. En Baldvin ætlar að reyna enn. Við tækifæri sneypi ég hann í blöðunum fyrir ferðasöguna hans í „Kringlu“. Ég á hálfan hlut í „Öldinni“. „Heimskringla“ hefir heimtað af mér kvæði. Ég sendi henni nokkur og „Öldinni“ eitt, hvort sem þau sjást. Aðstandendur beggja blaðanna hafa beðið mig að skrifa í þau. Jón stal greininni „Úr bréfi að vestan“ frá mér, úr bréfi til gamla Björns. Ég kem ekki fleiri orðum á þetta blað. Láttu engan sjá það, nema Jonna frænda og fólk mitt þar. Sendu mér mánaðardag fyrir nýárið. Skrifaðu bráðum og vertu sæll.

Þinn Stephan.

*Jón Jónsson eldri.* 1891.

Tengdapabbi. — Af því það kostar mig nú ekkert, og af því ég nenni ekki annað að gera í kvöld, þakka ég þér kærl. fyrir „referatið“ af fyrirlestri Gests. Ég sé þú hefðir getað orðið

langt betri fregnriti blaða, þegar þú varst í blóma lífsins, heldur en blaðaútburðirnir hafa vanalega verið.

Og af því mér finnst ég þurfa og geti gert athugasemd við Gest, skrifa ég líka. Það er rangt að segja, að Bjarni Thorarensen hafi átt við „auð“ að búa og því ekki fundið eins til erfiðleika lífsins og svo ekki haft sömu áhrif og Jónas, sem átti bágra. Bjarni var beinlínis fátækur maður, svo fátækur, að hann oft og tíðum var í miklu basli. Laun hans koma því ekki grand við. Þetta er nóg. Þau gerðu hann aldrei ríkan. Og Bjarni fann líka til þess sjálfur. Ég skal benda þér á vísurnar í bók hans, sem byrja svo: „Þú, sem fæðir fugla smá“. Það er annað, sem gengur að Bjarna. Hann er kraftaskáld í orðsins rétta skilningi. Ef honum blæðir, leggst hann á sárið eins og björninn nafni hans. Bjarni, Vídalín og Bólu-Hjálmar eru allir heiðnir menn í anda, hvað mikið sem þeir rausa um trú. Auðmýktarandinn er kristindómsandinn, eins og t. a. m. Hallgr. Pétursson, Matthías (efa-trúarmaðurinn) og fl.; þeir tala um „beygingar“ og „bljúgleik“. Bjarni skipar guði að láta „vanblessunar vítin skilja við sig“, ef hann ekki hafi gert svo og svo. Vídalín talar um „ofríki við himnaríki“ og Hjálmar um að „rjúfa ramtimbrað himnarjáfur“. En Bjarna vantar æskufjör, er of alvarlegur og þungur, of fornyrtur, eins og Gestur segir, og ekki nógu jarðneskur. En þarna ofan úr hæðunum, sem hann situr upp á, frá „reið Sólveigar til sólarinnar“, „gullgrindunum við Gimla konungs höll“ og „vetrarbrautinni“, sem hann danzar á í tunglskininu með Sigrúnu sinni, lítur hann oft svo glöggu og skörpu skáldauga ofan á mannlífið, að ekkert íslenzkt skáld hefir gert betur né jafn vel. Hann getur sagt heila æfisögu í 4 til 5 svo einkennilegum og sönnum orðum, að maður gleymir þeim aldrei. Ég skal bara benda á eftirmælin eftir S. M. Hólm, tortímdan gáfumann. Bjarni sá, að þetta gekk að: *„Að hann batt ekki bagga sína sömu hnútum og samferðamenn“*. Svo afbragðs íslenzkur skáldskapur. Í þess háttar á Bjarni ekki sinn jafningja.

Þá segir Gestur um Grím Thomsen, að hann hafi ekki „séð“, að með því að víkja orðunum við, hefði rímið fallið og smollið. Þetta hlýtur að vera misskilningur. Grímur er alþýðuvísnaskáld. Það er að segja, hann yrkir undir alþýðuvísnalögum, svo einfalt og viðhafnarlaust sem hægt er. Skáldskapur hans felst oftast í því að tína upp smá sannleikskorn rétt við fæt-

urna á manni, svo maður verður hissa, hvað Grímur getur fundið í jafn litlu og nauða-hversdagslegu lítilsvirði.

Nú eru tveir vegir að yrkja sem einfaldast. Skrúðlaust og létt, en binda sig þó við rímið. Eða kveða eins og talað er og láta rím og stuðla koma eins og af hending. Hvort er réttara? Um það má margt segja. Íslendingar kunna ekki að fyrirgefa rímbeyglur, en stórbjálka af röngum orða-áherzlum sjá þeir ekki. Eitt er víst, Grímur hefir vitandi valið seinni aðferðina. Ég skal tilfæra eina hending: *„Sagt er að mér þyki sopinn góður“*. Allir sjá, að hitt er liðugra að segja: „Sagt er að mér sopinn þyki góður“, en það er ekki eins og menn tala, því menn segja: „Mér þykir sopinn góður“, þ. e. setja æfinlega „þykir“ á undan „sopanum“, og svo kveður Grímur eins. Ég get tilfært ótal dæmi fleiri. Grímur er einmitt að — —

(Hér vantar kafla í bréfið, en það heldur svo áfram með kvæðinu, sem hér fylgir, er ort var út af heimsókn Gests Pálssonar til Dakota-nýlendunnar).

*„Gestrisni“.*

(Vísur úr bréfi til Br. Brynjólfssonar).

Hann Skáld-Gestur „vantrúarvilltur“,
Sem *verk* heldur betri en *trú*,
Að sunnan kom silfraður, gylltur
Af sæmdum frá *lútherskum* múg.

Og stórmikill vegur hans varð þar —
Og væn fékk hann gersemin slík,
Sem gullhamra-bauginn frá Garðar
Og grásilfur-stafinn úr Vík.

Stefán.

P. S. — Systir. — Segðu Jonna að senda mér eitt *Box* af gullpennunum frá Lynn & Co. okkar farsæla, ef þeir eru ekki dauðir og hann fær ferð hingað. Annars skal ég aldrei, nei aldrei framar skrifa ykkur skáldskap. Ég átti upplag af þeim, en nú eru þeir uppgengnir. Mér eru það ákaflega góðir pennar, en staklega ónýtir. Punktum. S.

Pennarnir heita „Aluminum Pens“, en ekki gullpennar.

Helga.

*Jónas Hall.* Poplar Grove, Alta, 8. jan. 1892.

Jónas.

Þó að þetta ár
þilji allt mjallar-hrönnum,
gráni ei þitt geð né hár
grand af lífsins fönnum.

Síðan ég fékk byl-bréfið frá þér, hefi ég oft ætlað að senda þér línu, en það hefir alltaf dregizt svona fram og aftur úr árinu, sem leið, og nú er ég nýbúinn að skrifa Jonna og tína allt fémætt fréttaleysi í hann og hefi beðið hann að láta þig heyra það. Síðan hefir ekkert gerzt, nema þrettánda-dags-hátíðin kom í uppfyllingu tímans, eins og fyrir var spáð. Þangað komu allar tvífættar skepnur byggðarinnar, nema hænsnin, og einstaka kona, sem annað hvort lá í rúminu eða þurfti að vera heima til að mjólka, og einstaka bóndi, sem var heima til að verða ekki fyrir útlátum, því þá grunaði sem varð, að lesin mundi verða *betli-collecta,* eins og hjá kristnu fólki gerist. Fyrst var haldinn langur fundur, hússtjórn og nefnd kosin til að sjá um það, sem vantar til hússins, ákveðið að leita skólakennslustyrks, húsið látið jafn-opið öllum funda-, ræðu- og fyrirlestramönnum, — þegar þú kemur, mátt þú krossbölva í því, ef þú getur fengið fólk til að hlusta á þig. Reyndar átti ekki fyrst að opna það nema fyrir messum, allra sízt frítt, en ég tók af því skarið. Svo var tekin upp *collection* — fengust um $ 7.00. — Sem stendur vantar við í sæti, tvo glugga, spón á þakið, en liðugur doll. í sjóði. Svo hélt ég vígsluræðuna, sem ekkert kom málinu við, nema svona bláþráðótt. Jósúa orti hátíða-kvæðið. — Síðan Lazarus hans komst í faðminn á „Öldinni", segir Gottvill mér, að miklar hreyfingar séu komnar á í kirkjunni, sem vel getur verið, ég er þar svo ókunnugur, en Gottvill hefir líklega þumalfingur sinn á lífæð hennar. — Annars var þetta kvæði Sigga dágott og ekki eins lasið eins og „Lassi", að mér fannst, en kannske er það ekki eins hreyfinga-drjúgt. Fólk hér vill endilega, að ræðan og kvæðið komist í blöðin. Mér er náttúrlega sama, en sjálfur sendi ég það hvergi. Kerlingar eru búnar að panta mig til að koma heim til sín og lesa ræðu mína yfir körlum sínum, sem hírðust heima, en lofuðu þeim í staðinn inn í alla dýrðina og unaðinn, og karlar eru búnir að biðja mig um þessa postillu, til

að lesa hana yfir kerlingum sínum — þeir þurfa mig ekki með, jafn læsir og þeir eru — kerlingunum til huggunar og yndisbóta fyrir að ýldast heima, meðan karlinn var að „súnna“ sig. Hvað mannlífið er annars skringilega svartkolótt! Seinast var sungið og danzað á nótt fram. Þó fóru allir heim einhverntíma að nóttunni, konur og hvítvoðungar. Veður var hið bezta. Síðan var í gær og dag talsvert frost og nokkur gola, en okkur finnst nú allt kalt eftir blíðviðrin. — Í kveld er kyrrt og bjart og blítt, en bakki o'ní fjöllin vítt, og frostdynkjanna hvellskot köld, sem kljúfa vetrar jaka-skjöld, nú dynja kringum byggð og ból, svo bergmálar í hverjum hól. Úr klaka-skorpu skurði inn, þeir skera í gráa hlíðar-kinn. En tunglið aleitt yfir jörð með andvökunni heldur vörð.

Það er nú heldur lyfting í sumum hér með ánni að fara að útvega sér efni í annað skólahús, strax í vetur, hvað sem verður. Ég hlynni að því, allt sem mér er hægt. Líklega yrði það byggt hér, eða mílu sunnar, hjá Guðm. Þorlákss. Ég skipti mér ekki af því. Þeir, sem eru úti á sléttunni, eru nú farnir að hálf-öfunda okkur, sem við ána búum, að við höfum bezt lönd og öruggast vatnsból. Já, það hefir komið til umtals að halda *prívat-skóla* í húsinu nýja í vetur, en ekki held ég af því verði. Mín hugmynd er, svona í kyrrþey, að koma hér upp öðru húsi að vetri, koma svo á kennslu með einum kennara góðum á víxl í báðum þessum húsum, svo gætu öflugustu krakkarnir fylgzt með kennaranum hús af húsi, ef þyrfti.

Á Poplar Grove — Innisfail öðru nafni — eru þrjár varningsbúðir, gistihús, járnsmiðja, ketmarkaður, járnvörubúð í smíðum með loftsal (hall) upp yfir, barnaskóli, prestssetur (prestsbýli) og kirkja í vændum. 29 bæjarlóðir voru mældar í sumar. Nú kváðu þær allar seldar og engar fást, fyrr en mælt verður meira. Þær kostuðu kringum $ 75.00 í þremur afborgunum, en $ 25.00, eða seinustu borgun slegið af, ef maður hefir þá byggt á þeim hús $ 200.00 virði. Prísar voru þar í seinustu viku: Bezta hveiti (mjöl) $ 3.35 (hundr. pd.), haframjöl $ 3.50, kaffi doll. virði 3 pund, molasykur kringum 10 pund, steinolía 50 cent gall. Fyrir smjör fékk maður 20—25 cent pundið. 50—55 cent eggja tylft, kartöflur 50 cent bush. Bygg kostaði í búðunum 75 cent bush., en um innlagsverð á hinu vissi ég. Sá það selt, ég vissi í það boðið og *finis*.

*„Bergur“.*

Skjótt í ekkert skamma-pex
Skrið-fær verður Bergur.
Auglýsinga lopinn vex,
lítill smækkar mergur.

*„Sámur“.*

Áður skyrpti hvert í horn,
Hrækti á alla Sámur.
Nú er hann lotið kyrpings-korn,
Á kórgólf spýtir rámur.

*„Kringla“.*

Svo er hún „Kringla“ komin á slig
Í kvæða mykju-haugum.
Beinkerling, er býður á sig
Blökkum leirskálds-draugum.

*„Öldin“.*

„Öldin“ verður sleggja að slá,
Sleip að reka og stæla,
Ef ei þjóðin þreytist á
Að þakka, borga, hæla.

*„Fjögur í einu“* — eins og guðspjöllin.

Blaða-andinn okkar þó
Alltaf finnst mér snauður,
Ullar-rotið rytju-hró,
Sem rýr ferhyrndur sauður.

Þetta er gert um leið og það er skrifað. Ekki vert að flíka því við marga. Það er ekki svo úr garði gert. Þó það væri nú „gull“ hjá gullkornunum hennar „Kringlu“ okkar. Það gæti kostað mig blaða-útlegð. — Vertu nú sæll.

Þinn Stefán.

*Jónas Hall.* Tindastóll, Alta, 23. okt. 1892.

Herra Jónas Hall. — Dómari í ófriði.

*Málsflutningur.*

Ég *appellera,* hvort ég ekki hef
Hlotið of stóra refsing minna *smáu* klækja,
Í átta barna kös að klóra bréf
Í kringum mig sem fljúgast á og veltast um og skrækja.
En fjórir gamlir fullum rómi arga
Um frið og hefnd, að siða þessa varga. —
Í samsöng slíkum margur barki brestur,
En *bassinn* hinna gömlu er þó verstur.

Ég skulda þér ekki nema tvö bréf, fari það norður og niður, og skuggann þinn, myndina, sem heitir ekki bréf, svo hættu að telja til fjögurra bréfa. Nú, ég þakka þér öll bréfin, Jónas minn, og bið þig vægðar fyrir trassa-skapinn að skrifa, en ég hefi átt fjandi annríkt í allt sumar og lítið næði. Já, tíðin hérna, síðan einhvern tíma: Lítið sleða-færi fyrstu vikurnar af febr. Það var allur vetrarsnjórinn. Jörð auð að mestu fyrst í marz. 3. þess mán. var hveiti sáð við Innisfail. 4., 5., 6., 7., var kalt nokkuð og smá fjúk, eins frá 11. til 19. Vorveður hina dagana. Apríl framan af of þurr. Regn kom fyrst 17. og gránaði, sem strax tók. Svo rigndi aftur 24. Frá 25. til 29. stóð yfir apríl-kastið, sem fækkaði svo blessunarlega á fóðrunum, að „Lögberg" sagði. 26. var heill hríðardagur með talsverðri golu, hitt voru lognfjúk-dagar með köflum og þiðnaði og fauk á víxl. Snjórinn hefir kannske verið hér 8 til 10 þuml., tók strax á eftir. Öllum hér var hann að skaðlausu. Maí var venju fremur þurr og kaldur. Mesta úrfellið var 5., 6., 7., dauðafjúk um tíma og skæðadrífa undir kveld seinasta daginn, sem náttúrlega þiðnaði um kveldið. Náttfrost fram undir 20. öðru hverju. Þegar fram í júní kom, var gróðrar-tíðin afbragð, stórar skúrir og hitar. Frostnótt aðfaranótt 19. Um miðjan júlí urðu hitarnir allt of sterkir og rigndi ekki nóg, fyrir t. d. hafra á hálendi og jafnvel hveiti, sem var langt til sprottið. Frostnætur voru 18. og 26. Fram úr miðjum ágúst var ágæt heyjatíð, stillur, þurrt, en nokkuð heitt. Úr því fór að rigna öðru hverju mánuðinn út og var illt með hey-stökkun, en slá hefði mátt bæði gras og hveiti oftast. Frostvart varð sums

staðar hér aðfaranótt 13. og alls staðar 29. Fyrstu dagana af september héldust enn óþurrkar og stór-frost kom aðfaran. 4., að því leyti, að það náði yfir allt. Eftir það var hver dagurinn öðrum stilltari og blíðari fram að 15. þ. m., þá kom hríð og setti niður einn hinn dýpsta snjó, sem ég hefi séð koma hér í einum rykk, hann varð þetta í ökla og hné á sléttunni og þar í milli. Ég heyri, að C. P. R. *agentar* kalli 6 þuml. snjó í Manitoba 3 fet í Regina, 2½ í Innisfail og Edmonton, en mér er ómögulegt að skilja í reikningi þeirra hér, því mér eru ekki nema 4 þuml. til ökla og 18 til hnés, því ég er af kyni lágfætlinga. Síðan hríðardaginn hefir verið sólbráð eða þíðvindi alla daga, hart frost sumar nætur, aðrar aðeins héla, allt vatn og lækir íslaust, frostskorpa að koma í jörð, hæðir hrein-auðar, snjógráð enn alls staðar á lágsléttu, er misdjúpt, nógur hagi alls staðar. Snjóinn setti hér niður stormlaust og frost var lítið. Kálfar okkar lágu alls staðar úti hríðarnóttina, því þeir höfðu ekki vit á að koma heim.

*Daginn eftir hríðina.*

Sólin breiða bræðir gljá,
Byljir reiðir móka,
Enni heiðu hnúkar frá
Hríðar greiða flóka.

Gras spratt með lang-seinasta móti í sumar, vegna vorþyrringanna. Engi ekki fullsprottið fyrr en undir miðjan ágúst. Mikill sónn var hér um grasleysi, en það var ósatt, seinni part heyanna. T. d. sló ég með tuddum 15 væn æki á 3—4 kl.t. hérna yfir í tungunni. Úr gripa-nagi hérna heima í kring sló ég aftur ekki nema 26 æki á 3 til 4 dögum. Uppskeru veit ég ekki vel um, en hún er sögð góð kringum Innisfail og Red Deer, en varla mun hún þó eins góð og í fyrra. Ég veit upp á víst, að kringum Innisfail sá mest frost á görðum, síðan ég kom hér. Íslendingar í suðurhluta byggðarinnar fengu með minnsta móti af öllu, þeir sáðu hafra-útsæði, sem aldrei kom upp, hefir verið skemmt — ætluðu sumir til Okanagan til að eiga gott og lögðu árar í bát í vor og vildu ekki lengur eiga hér illt. Og einn, já, hann kom út einn morgun árdegis, þegar kartöflu-grasið hans var að hvítna í morgunhélunni og stóð stíft og mjallhvítt eins og kaldar marmaraplöntur. Og manninum sárgramdist, af því hann var svo glögg-

sýnn á hið nytsama, en blindur fyrir hinu fagra, og í skaða-fátinu, sem á hann kom, þreif hann reku-spaðann sinn og færði allt kartöflugrasið sitt í 6 þuml. kolsvarta kaf í moldar-garða, og hann hamaðist við að moka, eins og vinnumenn hömuðust við að moka ofan í grafir sálaðra hreppslima heima á Íslandi, þegar þeir áttu von á staupi eftir „jarðsetninguna afstaðna". En kartöflugrasið lifnaði aldrei aftur og rís víst ekki héðan af upp fyrr en hreppslimirnir á Íslandi, sem hafa heit prestsins síns fyrir því að fá að rísa upp á dómsdegi og vera viðstaddir, veslingar, þegar hrepps-reikningar þessarar veraldar verða upp gerðir. Og moldargarðarnir standa enn óhaggaðir í laukagarði búandans, allt til þessa dags, eins og múgarnir í Stórólfshvolsengi, eða leiða-rastirnar í Reynistaðar-kirkjugarði. —

Hér við ána var reynt við jarðyrkju með mesta móti og lukkaðist bezt. Hafrar, bygg eða hveiti spruttu hjá B. Ólafssyni, Guðm. Þorlákssyni, Þórarni Guðmundssyni og Jónasi Húnfjörð; auðvitað, svo litlu var sáð, að það var fremur til gamans en gagns. Dálítið frost held ég hafi þó sézt á öllu hveiti, en engu hinu. Kartöflur urðu dágóðar hjá öllum þessum, nema Guðm. og Sigurði gamla Björnssyni; honum brugðust þær að miklu leyti þetta sinn, garður hans orðinn of léttur. Alls konar rófur, kál og garðbaunir spratt ágætlega. Mér brugðust aðeins akurbaunir, af því ég sáði þeim nærri mánuði of seint. Jonna hefi ég skrifað um mína uppskeru og sent honum *samples*. Fáðu að heyra það bréf og lestu því fólki mínu þetta, við tækifæri.

Nú er eftir skaðræðisfréttin, sléttu-eldarnir í haust. Þeir byrjuðu í september suður við Red Deer, nálægt Vigfúsi, settir út af enskum mönnum, sem þar voru við heyskap í nágrenni. Þeir tóku sig upp hvað eftir annað, þó við hjálpuðumst, nærri öll byggðin, að kæfa þá. Eitt kvöld hefði allur hagi byggðarinnar eyðilagzt í sunnan stormi, ef þá hefði ekki komið húðarregn. Þessi eldur brenndi samt allmikið hey fyrir enskum á endanum, 2 gamla heystakka, ónýta, fyrir Ó. Goodmann, fá tonn fyrir Vigfúsi, 10 tonn af heyi og fjósræfil fyrir Gunnari Jóhannessyni og bróður hans, og 30 tonn fyrir B. Bárdal. Samt varð haginn þar að lokum varinn, svo að flestir ná þó í hann. Svo settu vinnumenn Browns út eld hér fyrir norðan okkur. Brown hefir nú *rancha* sína við „spruce"-topp-

ana næstu, sem við skoðuðum forðum við ána. Við allir nágrannar hér við ána réðumst strax á hann, 2 mílur norðan við Húnfjörð, vörðum honum suður yfir byggð og komum honum austur yfir Fell. Þar brenndi hann 10 tonn heys fyrir Kolgrafar-feðgum, 60 til 70 tonn fyrir Gillingham ríka, líklega $ 200 til $ 300 virði af heyi o. fl. fyrir Indriða greyinu Reinholt út við Swan Lake, hann hafði þar *hey-contract* —, og meiri skaðar hafa ef til vill orðið á heyjum enskra þar. Sigurður Grímsson missti hey og gott fjós. Enginn var þar heima. Ekkert misstist hér við ána, nema Kristinn mágur missti 3 tonn af heyi. Hagann vörðum við, svo hann er nógur, en mikið verk og andvökur gengu í þetta allt. Við börðum á mörgum mílum, plægðum á þriðju mílu og vörðumst yfir höfuð drengilega og vel samtaka, svo ég hefi ekki vitað betra. Alltaf tók eldurinn sig upp aftur, þó að við slökktum, seinast vakti nærri öll byggðin og barðist í 2 fylkingum alla nóttina fyrir hríðina, sem þá kom loks, líklega til hamingju, og tók af eldinum seinasta skarið. 12 dagsverkum eyddi ég sjálfur í eld-barsmíð.

*Um nóttina, þegar eldurinn brann í Fells-giljunum.*

Stendur vörð við áhlaup end
Elds- yfir jörðu -voðinn.
Fells í skörðum skína brennd
Skjalda börðin hroðin.

Nóg vinna var hér í sumar hjá Gillingham ríka. Hann heldur tóma Íslendinga, 6 og 8 stundum, kaup til $ 30 pr. m. og fæði, svo gekk sögunarmyllan oftast. Alltaf að fjölga hús og búðir í Innisfail. Í Calgary byggt í sumar mjölmylna, bruggerí og tannerí—lóðerí og fyllerí var þar áður, en fiskerí lítið. Emigration til Alberta mikil í sumar, mest frá Nebraska og Washington.

Fjárinn hafi, ef ég nenni yfir á 8da arkið með þig, Jónas minn, og hefi ég þó nóg efni. Beztu kveðjur til fólksins þíns, og gangi þér æfinlega vel

Þinn Stephan G. Stephansson.

*Jónas Hall.* Tindastóll, Alta, 4. marz 1893.

Áfram japlar, Jónas minn,
Jörðin, tungl og sólin,
Jafnvel Cleveland, karlfuglinn,
Kemst í dag í stólinn.

Vondur bíður veturinn,
Veizlur, púns og jólin.
Og ég er seztur, Jónas minn,
Jafnvel í skriftastólinn — eða kjaftastólinn.

Þú munt eiga hjá mér ofurlítinn bréfsnepil, að stærðinni til á borð við það, sem Pétur, garpurinn, skóf utan úr hnullungnum, sem sat ofan á herðunum á honum Malkusi heitnum, og er ég hér kominn til að borga það, í sömu mynt, því nú eru „annálar“ stuttir.

Tíðin var góð eftir október-hretið, fram að 19. nóv., blíður oft, svo snjó tók upp, nema rétt drefjar í lagningum; svo voru kuldar miklir fram að 3. des, og snjóaði þá aftur, svo jörð tók af fyrir innistöðugripi, þó hjarðmenn létu þá slarka gjaflítið fram undir jól. Mánudaginn fyrir jól versnaði aftur, var stirt veður um jólin, kalt og hríðar-slitringur stundum, en á nýársdag batnaði aftur og hélzt bezta tíð, stillur og blíðviðri, fram til 23. jan., þá kom grimmur frosta kafli, sem hélzt til 14. febr., sá lengsti og harðasti kuldatími, sem ég hefi lifað hér í einu. Síðan var góðviðri til mánaðarloka, en fjúkmyglingur þó í 2 eða 3 daga núna um mánaðamótin seinustu, svo 3 til 4 þuml. af nýjum snjó féllu. Enn er mikið frost á nóttum og framan af degi, þiðnar fyrir húsdyrum um stund seinni hluta dags, snjór sígur ekkert, skafheitt, bjartviðri og stillur. Hve lágt frost sté hér, veit ég ekki upp á víst, þessir smá-húsmælar þeirra komust víst ofan í 50—60 n. Z., en það er markleysa. 40 eða 40½ stig hefi ég heyrt, að frost hafi stigið lægst (n. Z.) á einhvern áreiðanlegasta mælinn í Innisfail, og því get ég trúað, en meiru ekki, fremur en 70 st. frostinu neðan Z., sem St. Thomas Times segja, að verið hafi þar um slóðir. Ekki veit ég heldur, hve djúpt snjófallið hefir orðið samanlagt. Í góðu köflunum þiðnaði hann alltaf — seig —, og aldrei var hann í einn tíma dýpri en einmitt nú, hann er frá 16—18 þuml. á sléttu, dýpri í skógi.

Aldrei tepptist járnbrautin milli Calgary og Edmonton, og póstur hefir gengið með reglu hér alls staðar, bæði með járnbrautum og eftir akvegum, og engum orðið misdægurt af flutningsteppu. Ein Indíánakerling varð úti í Edmonton, ég get þess, af því hún kvað hafa heitið „Bob Sleigh", en mér þykir nafnið kvenlegt! Einn maður varð úti suður við Mc Leod í bylnum, sem þar kom í nóv. Það var „runner" frá Wpg, sem var að fara milli byggða eftir óbyggðum. Og milli Medicine Hat og Swift Current varð maður til, sem ætlaði að hlaupa þá leið fyrir $ 5.00 þóknun móti hríð og grimmdar frosti í ófærð. Það eru 9 mílur. Önnur slys veit ég ekki frá Alberta og les ég þó stöðugt „Free Press", sem er bezta og áreiðanlegasta frétta-hylki hér vestan lands og yfir höfuð langtum betra blað en bæja-blöðin öll í vestur fylkjunum syðra. Hér við Red Deer hafa engin slys orðið, svo ég viti til, og aldrei komið stórhríð, þ. e. blizzard, svo sumir hér segjast varla vita, hvernig eða hvenær þessi snjór hafi eiginlega fallið, því þeim er engin hríð minnisstæð. Svo hefi ég sagt þér um tíðina eins satt og rétt og ég get. Allir kalla þennan vetur aftaka harðan. Heilbrigði almenn, hey verða nóg, einstaka mann vantar kannske 1 eða 2 tonn, ef ekki kemur næg jörð í marz, en margir hafa þá afgangs.

Þessi blaðsíða er um sjálfan mig, og hljóðar, sem fylgir: Ég drakk mig hálffullan á jólanóttina á „alkóhólpúnsi" hjá Kristni (Kristinn er nefnilega forntrúaður á „alkóhól"), því þá var hann nýfluttur í nýja húsið sitt og ég setti upp með honum allar hans byggingar. Svo var hér stóreflis samkoma, lestrarfélagssamkoma, seinustu kuldanóttina 13. febr., hjá Jóh. Björnssyni, í hússkriflinu skóla-lausa. Þar voru líka viðstödd ný hjón, Ingibjörg, systir Jóh., sú sem Borgar-Jón lagðist á, og Sig. Jóhannsson, sonur Jóhanns gamla, sem lengi var vitskertur og dó hér í haust og var komið fyrir með tilstyrk Benidikts Bárdals, smiðs, og Vigf. Halldórssonar, kirkjufél. „akolúts", í sandhrygginn hjá Jósef Stefánssyni, því þar á að verða kirkjugarður. Nú, samkoman var fjölsótt, hér um bil öll byggðin, og flest hús auð um nóttina. Við höfðum leikrit, söng, ræður, danz, púns, kaffi og kökur. Leikritið var — já, manstu ekki eftir andskotanum, Hraunshöfðadraugnum svo nefndum, sem ég og þú og fleiri náungar keyrðum frá Garðar norður á Hallson til að sjá um vetur í illri færð „og

endur fyrir löngu", þegar ég og þú fyrir staka guðsnáð og milligöngu Ásgeirs Helgasonar særðum loks 2 flöskur af sviknum patent-bitter (Svo sviknum, að við vorum allir heilbrigðir daginn eftir) út úr gamla Skjöld, fyrir 75 cent eintakið, niðursett um 25 p. c. að „Skjöldung kvað". Vel og gott, það var sama horngrýtið, sem hér var leikið. Þú mátt geta nærri, hve vel mér var við það, eftir allt og allt. Í alvöru talað, allir voru samdóma, að ritið væri ómynd, en hefði verið vel leikið. Meðal annars, ég las þar alllangt erindi um bóklestur, sagði fyrir hjónaskálinni, svo sumum þótti það gert af miklum hagleik og snilld. Í einlægni, skemmtunin var góð, sú langbezta, sem ég hefi komið á síðan skemmtanir okkar á Garðar fyrstu árin, áður en Bergmennsku og kirkjudrunga þyrmdi yfir þær. Okkur tókst betur en ég bjóst við, bara af þessu, hver gerði sitt bezta, viljugur og óhindraður, blátt áfram og samkvæmt eðli sínu, því enginn reyndi að steypa samkomuna „sínu móti". Þú heldur nú sjálfsagt, að ég segi þetta af því ég hafi fengið þar „púns", og þá sé allt fengið. Onei, skammi mig þá. Púnsið, sem *allir* fengu, var ekki meira en svo, að ég hefði næstum getað drukkið það *einn*, fylleríis-lítið, og er ég þó farinn að „bila yfir höfðinu", eins og grasa-kerlingar sögðu. En þegar maður fær ekki að skemmta sér og öðrum eins og maður getur bezt, af því maður finnur á sér, að það liggur í loftinu, að það sé ekki leyft, já svo, þá er að tjalda því, sem til er, og fá sér einn „hívert", sé hann fáanlegur. Þeir, sem ræður héldu, voru Kristinn mágur og J. Húnfjörð, og sagðist þeim vel. Sesselja Bárdal las upp háðsögu eftir sjálfa sig um Jón Gottvill og mig helzt. Jón hét Óðinn og var náttúrlega eineygður, og var löng saga um framkvæmdir hans hér, myllubyggingar og aðra loftkastala; ég hét Bragi skáld, hafði verið eitthvað við kvenfólk riðinn um dagana og fremur innundir hjá því, og höfðu sumar þeirra ort til mín ásta-ljóð, og svo var frásögn um, hvernig ég hefði tekið móti Kristni mág, þegar hann kom norður í sumar, og svo ögn skop um hann. Það var mest tekið úr bréfi frá gamla Ólafi, sem hann hafði skrifað kunningja sínum í Okanagan, og hann svo aftur kunningja sínum hér, þó Labbi hafi sjálfsagt sízt ætlazt til þess, en hann er óánægður við okkur Kr., af því hann gat hvorugum okkar komið til að flækjast neitt með sér í nýjar Edenir, sem hann er

allt af að uppgötva, og langar, en treystir sér ekki *einum* að komast í. Ég hefi átt í hálfgerðu þrasi við suma síðan út af þessari „króníku“ Sesselju. Fólk tók það hálfilla upp, þótti þetta óþarfa skop, en ég er ekki á því að vera svo hörundssár. Það er of mikil vesalmennska að geta ekki þolað það, sem á að vera spaug, þó það sé um sjálfan mann, og væri gagn að geta vanið fólk af slíkri spéhræðslu. Jón bar sig líka roggin-mannlega, en ekki veit ég, hvort svo hefði farið, hefði ég ekki verið með „í kvartélinu“. Stíll var nokkuð góður hjá Settu, en kímnin var of lítil, eða heldur of dauf, svo ritið væri nú vel gott. Ég þóttist hálfgert sjá af einu bréfi þínu, að þig hafi grunað, að ég hafi hjálpað henni með greinina um Bergmann. Langt frá. Ég vissi ekki um hana, fyrr en hún kom út, en ég þekkti strax, að hún myndi vera eftir hana, og það var þá eins og henni yrði hálf bylt við. Að hinu studdi ég (án þess að skrifa eina línu af því), að hún segði til nafns síns, þegar í bölvunina var komið, enda þorði „Lögb.“ þá ekki lengra þar, því eins og þú sérð, var málið orðið ískyggilegt fyrir B. og betra að þegja, svo S. gerði það líka. Annars erum við S. allgóðir mátar, en þurfi ég að sneypa einhvern, skal ég aldrei hafa aðra til þess. Sjálfs er hönd hollust.

Ég hefi nýl. sent til „Lögb.“ kveðju mína til Línu. Ekki veit ég, hvort það tekur hana. Skömmum hennar svaraði ég engu, aðeins þessari „dauðaskoðun“ vantrúar skáldanna, í samanburði við „kristnu skáldin“, sem hún tyggur upp eftir séra Jóni og þeim prestunum, því hún er að reyna að sleikja utan af því, að ég sé heiðingi og svo náttúrlega „bölvanlegur“, samkvæmt því, sem hún hefir lært af prestinum. Auðvitað hefir hún ekki kjark til að segja það beint út, því það kynni að verða tekið upp misjafnt fyrir henni. Mér annars sárleiðist að eiga við hana. Ég er ekki reiðari við hana en þig, en hún er svo rugluð, að það er ómögulegt að tala við hana með skynsemi, svo að hún hafi gagn af því. Hún er eins og leirhver, maður getur undrazt yfir hitanum í honum, annað einkennir hann ekki frá öðrum forarpollum.

Nú nenni ég ekki að rabba lengur við þig, ég hefi haft fluggigt í höfðinu í allan dag og er því ekki „upplagður“ lengra en þetta. Þér mun líka kannske þykja það nógu langt. — Alla tíma sæll. Þinn Stephan.

*Sigurður Jónsson frá Víðimýri.* (1893).

Rymur í skógum, rofna ský,
Rýkur af mó og túnum.
Það er snjóa-ergi í
Írðum Góu brúnum.

En hvað um það, vinur. Ætli okkur væri ekki betra að taka leyfi á loggunum? Taka sem sé skógarleyfi okkar, húsa-viðinn, í sögunarloggum; ég held það fáist. Thomson, *inspector,* var hér og sagði, að stjórnin ætlaði að líta vel eftir, að enginn hjyggi leyfislaust í vetur, hvað sem úr því verður. Láttu mig vita, hvað þú vilt. Jafnvel, ef þú færir til Red Deer og tækir leyfi, útvegaðu mér „Blank form“ að fylla upp fyrir mömmu.

Mér er gleði, þín til, þá
Þrýtur hreða élsins,
Hesti og sleða ek ég á
Ofan breða fellsins.

Þinn Stebbi.

*Jón ritstjóri Ólafsson.* Tindastóll, Alta, 11. des. 1893.

Kæri vinur. — Bréf þitt frá 6. f. m. fyrir löngu meðtekið og jafnlengi trassað að svara því. Góða þökk. Það gladdi mig, að það lá vel á þér og lífið hafði gengið þér ögn í vil, það er sjaldnast of dátt samt. Séra F. frænda er enn ekki jafn-kring lögfræðin eins og guðfræðin, í henni gat hann smokrazt gegnum örðugt próf í Kristjaníu og í gegnum annað léttara í Philadelfiu. En séra Steingrímur var ekki jafn-hygginn, hann ætlaði sér að „vaða elginn“, en treystist loks ekki til, svo að þeir urðu að vígja hann hálf-strokkaðan, en nú er hann að *stúdera* ofan við vígslu.

Já, ég sendi þér aftur sömu kvæðin, sem glötuðust. Ég lét þau hið fyrra skipti með eigin hendi inn á pósthúsið. — Ég sparkaði þau upp aftur, sama kvöldið sem ég fékk bréfið þitt, en var þá orðinn of syfjaður til að skrifa þér bréf — en hafa þau nú komið fram? Eða kannske kveðlingur sé nýlega póstforboðin vara, vegna þess hann „ati út“ aðrar sendingar, en þá verður „Lögberg“ og „Dagsbrún“ að kosta sína eigin pósta.

Ég þakka þér kærlega fyrir þýddu greinina eftir Proctor heitinn í seinustu „Öldinni“. Ég er nefnilega mjög andvígur þessum vesturheimska *spiritualismus*, hann er svo viðbjóðslegt húmbúg hjá trúgjörnum mönnum og flögurum. Sumir skynsamir landar, sem ég þekki, hafa þó aðhyllzt hann. Innganga þín til sýningarinnar var ljómandi, hafðu beztu þökk. Hún er svo fjörug og hreinskilin eins og — ja eins og vel kveðið ljóð, það í henni eins, sem ekki eru ljóð. Ég hefi *trakterað* suma nágranna mína á því að lesa þeim hana upp, þegar þeir hafa heimsótt mig að kvöldi dags, jafnvel þó þeir væru búnir að lesa hana sjálfir, og þeim hefir orðið það að „góðgerðum“. Einn bóndinn hérna kom til granna míns, sem er spaugsamur, og fór að aumka þig fyrir fjósleysið núna um hávetur! Hinn stakk upp á, að hann skrifaði þér og réði þér til að lóga kúnni, en að hann sendi þér þá heldur smér við og við, og kvað bóndi ekki sjá svo mjög í það, en sér væri grunsamt um, að járnbrautir mundu aka sméri jafn langan veg. Svo þú sérð, að greinin þín er á orði.

Þú kvartar undan ritstjórnarþrældómnum. Ég hefi aldrei í ritstjórn hnýst, og þó kann ég forsögu fyrir að gera hana létta. Allur galdurinn er, að ganga á hönd einhverjum einum pólitískum flokk, tyggja allt eftir honum, rífast fyrir hann, skammast fyrir hann, og líta hvorki til hægri né vinstri, vera hans Bíleams-asna, en alla tíð klumsa og þræta aldrei við spámanninn. Þannig undirbúinn getur maður á svipstundu ritað tólf hundruð tólfræð af pólitískum „þumlungum“, því þá er maður laus við tvo mestu erfiðleikana — umhugsun og sanngirni. Og svo ég sanni þetta eins og guðfræðingur, þá er þetta „fyrirmyndað“ í sælukjörum þeirra galdramanna, sem gerðu „kontrakt“ við djöfulinn og stóðu við samninginn, eins og t. a. m. Jóhann heit. Faust, velnefndur.

En í alvöru, ég vildi, að þú hefðir ekkert að gera, nema að rita „Öldina“ og þá „forustugreinarnar“ í „Kringlu“ við og við, og þannig hefðir þú átt að fá að lifa, hefði ekki lífið verið svona klaufalega ranghverft eins og það er. — Já, ég á við þig ofurlítið erindi. Ég hefi sent ráðsmanni ykkar $ 2.25, eiga að vera borgun fyrir tvö eintök af „Ljóðmælum“ þínum. Annað í bandi, sent til Mrs. Sesselju Bárdal, Tindastóll, Alta, hitt í kápu, sent til ungfrúar Kristrúnar Benidiktsdóttur, Skútustöðum, Þingeyjarsýslu, Ísland. En kannske nemur

burðargjald á bókinni heim æði miklu og það skal ég jafna, þegar ég sendi „Hkr." peninga næst, ef ég fæ að vita það.

Þá er annað. „Heimskringla" kemur nú tvívegis viku seinna en áður var, kom engin vikuna þar áður, en síðan svona, án þess að blað félli úr. Ég bað pósthirðirinn hérna að láta ykkur vita það. Pósthúsið í Calgary er oft hirðulítið, að minnsta kosti veit ég til þess um íslenzk blöð. Ég sting hér með seinustu erindum mínum. Ég gerði þau á gangi til vinnu minnar fyrir nokkrum dögum. Svo óska ég „Heimskr." árs en ekki „friðar", því stríð er hennar starf og ég vil ekki með nokkru móti, að hún „alveg svíki sína köllun" sem blað, eins og Einar frændi Hjörleifsson sagði mér einu sinni í fyrirlestri, að Steingrímur Thorsteinsson hefði gert sem skáld. Ég kalla hann frænda, bara af því hann kvað vera hættur að geta rakað sig, og ég hefi heldur ekki getað rakað mig fyrir annríki nú í þrjár vikur.

Komandi tíminn færði þér sjálfum margar hátíðir og gleðidaga, hefði hann skap eins og ég.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Jón ritstj. Ólafsson.* Tindastóll, Alta, 14. jan. 1894.

Kæri vin. — Alúðarþökk fyrir útgerðina á ljóðum mínum í „Öldinni" seinast. Ég sendi þér með bréfi þessu 10 smákvæði, flokk, sem ég hefi skírt „Úti á víðavangi". Þau eru kveðin fyrir 2—3 árum síðan og nokkrum sinnum hefi ég ætlað að hreinskrifa þau og senda „Hkr.", til að gera við þau hvað henni gott þætti, en það hefir dregizt, þangað til næstliðna viku, að ég meiddi mig ögn og var frá verkum, þá gafst mér tími.

Þessi kvæði hafa um nokkurn tíma verið eins konar eftirlætiskrakkar mínir, ekki vegna þess, að ég haldi þau nein sérleg afbrögð, borin saman við góðan skáldskap eftir aðra, heldur hins, að ég er efins um, að mér auðnist nokkurn tíma að gera betur í þá stefnu, sem þau fara.

Ég geng að því vísu, að fólki finnist þau „dul" og „sérvitur", en því get ég ekki breytt. Þau eru öll kveðin út af náttúrunni, en ég hefi þann „smekk", „sérvizku" eða hvað það er, að náttúrulýsingar finnast mér þá fegurstar, ef þær eru virkilegar og minna mann um leið á eitthvað úr mann-

lífinu innra eða ytra. T. d., mér þykir „Niagara“ eftir þig fagurt kvæði, en hástig skáldskaparins í því finnst mér vera:

„Þú til ægis, eg til grafar,
Yrkjum sama vögguljóð —“

og þau hin önnur erindi svipuð því. Ef að það, sem menn kalla „fagurfræði“, er á öðru máli, þá afsaka ég mig ekki með því, sem væri þó satt, að ég hafi „ekki lesið lögin“, því sannleikurinn væri, að ég er á öðru máli en hún og spyr ekki um, hvort „löglegt“ sé hitt eða þetta. Eftir þessari „sérvizku“ hefi ég kveðið þessi ljóðmæli, sem ég sendi þér nú. Þannig er fyrsta kvæðið, „Flóðið“, sem mér finnst sjálfum „dulast“ kveðið, lýsing á hugarástandi manns, þegar maður fullvissast um, að margt hið viðtekna, óyggjandi, er bara ímyndun ein. Svo er og „Laufblaðið á straumnum“ lýsing á stórmennskunni, sem þýtur upp með suma öldungis fyrirhafnar- og verðleikalaust. Seinasta kvæðið, „Dagsetur“, notaði ég til að prédika (van-)trú mína. Reyndar ber ég ekki traust til né áhyggjur út af „öðrum heimi“, en ég notaði tækifærið til að afsegja okkar gamla, góða, lútherska himnaríki, því ég finn það í eðli mínu, að hvernig sem allt veltist, þá fer ég *þar* „annað hvort fyrir ofan eða neðan garð“.

Og svo geri ég ekki fleiri afsakanir fyrir efni kvæðanna. „Sendu þau eða brenndu“, eftir því sem bezt horfir við fyrir þig og *públíkum*. Auðvitað er ég svo hégómagjarn, að ég hefi ánægju af að sjá kvæði eftir sjálfan mig í riti eins og „Öldinni“, en ekki þykki ég það, þó mér sé „vísað frá“ með kveðling, en það gæti komið fyrir með málefni önnur. Í kvæðunum kunna að vera orðskrípi einhver, ég veit ég er oft djarftækur um orðmyndanir, af því ég hefi engan málfræðislærdóm, en vil heldur skapa nokkuð, þó sumt verði aftur vanskapnaður. Réttritunin er bjöguð — ég kann enga, en hefi lesið of margar og ekki skeytt um að giftast neinni — í vanaógáti hefi ég sums staðar tvöfaldað samhljóðendur, sem ég ætlaði ekki.

Fyrirgefðu svo þetta forsvar. Ég er á glóðum um, að það sé einhver hæfa í fréttinni í „Lögb.“ seinast, um að þú sért að yfirgefa „Kringlu“, þó það hins vegar hefði verið allgott bragð til að hræða kaupendur frá að borga fyrirfram, núna um árgangamótin, en ég veit svo vel, að laun þín eru þér svo ónóg, að fréttin er ekki öldungis ólíkleg, og það gleddi mig að

vita þig hljóta eitthvað betra, — en bölvað ólán er það fyrir „Hkr.“ og kaupendur hennar, að þú gazt ekki „átt betra“ hjá henni, og næst því, að hún sé þá „frá með lögum“, eins og trúin hans Þorst. Erlingssonar.

Ef að „Öldin“ lifði og væri hægt að halda henni í þá stefnu að gefa ljóst og greinilegt yfirlit yfir nútímans skoðanir af vísindum og menntun, visk og visk í senn, eins og þú ert byrjaður á í grein þinni um *evolution*, þá væri vel að verið og mundi gott af leiða, þó það sæist ekki þegar. Reyndar kærir almenningur sig ekki um þess háttar rit enn, — hann vantar bara „sögur“ og „fróðleik“, sína ósamstæðu pjötluna úr hverri áttinni, eins og pilsið hennar Vitlausu-Önnu sálugu, — en það þarf að reyna að „ala upp“ nýjan „smekk“.

Þú hefðir átt að geyma ritgerðir þínar um þá skáldin, Einar og Hannes, fyrir „Öldina“. Þar áttu þær heima og geymdust betur — ekki svo að skilja, ég las þær með jafnri ánægju í „Heimskringlu“ og hefðu þær staðið í „Öldinni“, en ég hefði heldur viljað prýða hana með þeim. Fyrirgefðu málalengingarnar

þínum einl. Stephani G. Stephanssyni.

*Jónas Hall.* Tindastóll, Alta, 23. sept. 1894.

Jónas félagi. — Ég skrifa þér til málamynda, rétt til að láta þig vita, að ég „stend enn þá tveim fótum á mínum eigin palli“, eins og fulli karlinn sagði, þegar hann dunkaði ofan í gólfið hjá sér, og svo hitt, að ég fékk frá þér bréf fyrir nokkuð löngu, sem ég þakka kærl.

„Hvað sé í fréttum?“ Tíðindaleysið eitt, lagsmaður. Ég kem til að spyrja þig frétta. Hvernig líður þér nú í haust? Ég hefi gaman af að vita það, því einum tvisvar sinnum hefi ég rekið mig á þá sögu hér í byggðinni, að nú sé „Hall kominn á höfuðið“. Ekki veit ég, hvort nokkrum hefir verið skrifað það hingað, eða það hefir bara verið ágizkun hér, sem þeir hafa glatt mig með, af því þeir vissu, mér var meinlaust við þig.

Ég get ekki sagt þér greinilega um hagi okkar hér. Það stjórnast mikið af gerðum „dairy“ félags, sem við landar allir erum riðnir við. Sveitin okkar á í því hluti upp á $ 1000 (helm. útborgað), hefir lagt inn ósköpin öll af mjólk í sumar, en

reikningar allir ógerðir og mikil óánægja og vonbrigði, hvort sem úr því rætist í vertíðarlokin. Um það skal ég skrifa þér greinilega, gæti ég nokkurn tíma vitað greinilega út í það. Búð kvað eiga að koma hér upp innan fárra vikna, undir forustu Wests kaupmanns frá Innisfail. Gras spratt í meðallagi, akrar lakar en í fyrra, kartöflur spruttu nú alls staðar. Hér er nú harðæri með meira móti, en allt um það, bústofn minn eykst en minnkar ekki, svo ef upp birtir, sé ég ekki annað en horfurnar séu lífvænlegar.

Þetta bréf getur nú ómögulega orðið bréf, bara skrifleg bréfsafsökun, sem þú verður að afsaka.

Vel á minnzt, heldurðu þú gætir selt nokkra „Úti á víðavangi“ fyrir mig, í félagi við Jonna frænda. Verð 25 sent. Sölulaun 25 pr. c.

Í huganum skýlausa skyldu þá hef,
Þinn skuldugur bréfa-þræll,
Seinna að rita þér betra bréf —
Svo blessaður og sæll.

Þinn Stephan.

*Jónas Hall.* Tindastóll, Alta, 23. marz 1895.

Sæll vertu lagsmaður. — Það er nú skrambi langt síðan ég fékk seðil frá þér, og rækallans lengi hefi ég ætlað að skrifa þér, en það hefir nú dregizt sis svona og sis svona einhvern veginn úr hömlu, þó ég hafi ætlað og ætlað, og get ég þó eiginlega ekki sagt, að það sé neinu að kenna nema þessu, að það hefir aldrei getað orðið af því. Mér hefir nú liðið þetta bærilega, síðan þú vissir seinast, ekki oft verið kaldur né svangur, en haft það heldur kort með peninga og brennivín, og heilsan hefir nú mátt heita góð, nema hvað það er heldur að ágerast með að molna úr þessum eina skemmda jaxli, sem ég hefi, einkum eftir að hann kemur á suðaustan, því það er hvassviðrisáttin hér, og sama held ég almenningur hér megi segja, hvað heilsufar snertir. Þá er nú tíðarfarið í vetur svona viðunanlegt, af því aldrei komu miklar frostheljur né mokhríðar í einu, en seiglingslangur vetur er þetta orðinn, og fannkergjan varð með grófara móti, og nú eru enn ekki komnir upp úr henni nema hólar og hæstu hörgur, en samt ganga þíðurnar daglega og er líklegt, að bráðum

geti stórgripir lifað á útiganginum. Fólkið bjakar svona þetta heldur áfram hérna, en í ár hefir það knurrað um kaupböndlunina og peningaleysi í frekara lagi. Mikið er látið af mjólkinni hérna í smérgerðina, og þó að sá félagsskapur hafi ekki lukkazt sem skyldi og engir peningar innkomið til bændanna, þá er það samt nokkuð sem stoðar, hvað þá ef betra lag kæmist á það. Ég get bara sagt, hvað ég hafði upp úr því í sumri var, en það var $ 10 til $ 12 eftir kúna í tæpa 4 mán., kostnaðarlaust, og kálfinn, og þó mun meðalverð smérsins, að frádregnum sjálfs míns tilkostnaði, ekki hafa orðið yfir 13 cent pundið, fyrir ólag og óheppni í útsölunni. Í vetur gekk það betur og hafa bændur haft sjálfsagt 25 cent fyrir pundið, en þá var ég í þurrabúð.

Svo er að verða hér fjörugt af pólitík. Í haust kusum við hann Simpson á Reginaþingið, unnum svo vel að því, að allir landarnir voru gerðir að enskum borgurum, því þrír sóttu um brauðið, en karlinn, sem *ég* vann fyrir, komst að, og hinir töpuðu og ætla að flýja héðan í vor báðir alfarnir, hann Wilkins, þingmaðurinn, sem áður var, og hann séra Geatz á Red Deer, því þeir vita, að þeir komast aldrei upp, fyrst *ég* og Simpson höfðum það.

Svo ætlar hann Simpson að gera mig að „jústisa písa", hvenær sem landshöfðinginn hérna, hann Mackintosh, sem einu sinni var ritstjóri Inter-Ocean Courier" í Chicago, hefir tíma til að undirskrifa „commiss-jónina", sem ég er hræddur um, að verði ekki fyrr en eftir alþingiskosninguna, sem nú kvað eiga að koma, en þá mun sá asni og mannfýla vísa því öllu suður og ég aldrei í embættið ná mér, því hann heyrir til svikamyllu-afturhalds-stjórnar-stefnunni í Ottawa, en ég er heitur fyrir grundvallar-prinsípum „liberalanna" og berst með Frank Oliver frá Edmonton, sem Íslendingar kalla Ólaf frá Edmonton og útvegaði mér farbréfin með C. P. R. handa ykkur Jonna um árið, en móti mér er Kristinn mágur, Kolgrafar-Jón og Sigfús Goodmann, með Cochrane „conservatíva", bölvuðum þorpara og andskotans óþokka, svo ég segi ekkert persónulega um manninn. Reyndar voru allir þessir menn liberalar áður, en Kristinn var keyptur fyrir hveitisekk, Kolgröf fyrir „gallónu" af „viskí" og Goodmann fyrir „ticket" til Calgary, og yfir höfuð er það allt viðbjóðslegt. Samt eru þeir nú vissir með að fara á helvítis hausinn með þetta allt

saman, því með mér greiða atkv. bæði Jóhann Björnsson, póstmeistarinn, og Jón Pálmason, einn af helztu bændunum við Tindastólspósthúsið, sem æfinlega hefir reynzt vorum flokki góður drengur. Eftir kosningar geng ég líklega inn með „patrónunum“, sem hingað eru nýbúnir að senda mann til að stofna deild af sínum félagsskap meðal Íslendinga hér, og er ég allareiðu kosinn í framkvæmdarnefnd í því máli.

Þó mér hafi þótt sumt af þessu taka upp vel mikið rúm í einu arki, hefi ég ekki getað viðrað fram af mér að minnast á það allt, í fáum orðum; með því líka, að nú kvað vera ritstjóralaust við „Lögberg“, síðan Mr. Hjörleifsson fór frá blaðinu, væri þér ef til vill innan handar að gera þá útgefendurna vara þess, hverjar skoðanir ég hefi á opinberum málum, og hversu „Lögbergsku“ vandað mál og frágangur er á bréfi þessu, barasta gat ég ekki komið hér við, í þetta skipti, sýnishorni af „Tribune Editorials“, eins og ég klæði þá upp á íslenzku, og vitaskuld var hér heldur um engar þýðingar að ræða, því bréfið er allt frumsamið.

Bréf að ending óskar mitt,
Að hjá þér í sumar
Verði að hvölum kvikfé þitt
En hveiti-öxin rumar.

Stephan.

*J. Magnús Bjarnason.* Pokan, Alta, 28. júní 1896.

Kæri herra. — Kæra þökk fyrir vingjarnlegt bréf, sem ég fékk framsent að heiman hingað út í óbyggð.

Ég er við landmæling sem stendur, á annað hundrað mílur frá heimilinu, það er ekki til neins að segja þér hvar, staðurinn finnst hvergi, nema ef til vill á landabréfi yfir Undirheima. Komist ég til Mannheima aftur, skal ég skrifa þér, þetta er aðeins málamynd, því hér hefi ég engin tök á að skrifa. Ég hefi þar að auki erindi við þig. Beztu þökk fyrir hlýlegheitin til mín, sem ég alls ekki hefi unnið til.

Þinn einlægur Stephan G.

*Eggert Jóhannsson.* Tindastóll, Alta, 18. júlí 1897.

Eggert minn!
Fékkstu ekki forðum bæði
Frá mér bréf og nokkur kvæði?
„Ertu dauður“, Eggert minn?

Eggert minn!
Óánægður eg hef grátið
Aldar-fall og Kringlu-látið.
Þó var skap mitt stolt og státið
Stæðist ritstjórinn.

Eggert minn!
Hvort sem þú ert lífs eða liðinn —
*Lifðu* samt — í versa sniðin
Eyk ég línu, ljóða-iðinn.

*Lifðu!* svo að óðar-kliðinn
Þurfi ei teygja í eilífð inn,
Eða lengja líksönginn,
Eggert minn.

Stephan G. Stephansson.

*J. Magnús Bjarnason.* Tindastóll, Alta, 24. okt. 1897.

Vinur Magnús. — Það var fyrir óralöngu síðan, sem ég fékk frá þér bréf, gott og langt, og kem nú loksins til að þakka það. Ég hefi dregið það svona, í von um næðisstund til að skrafa við þig, en ég er ekki viss á henni enn, jafnvel þó nú sé sunnudagur og alveg ólögmætt af náunganum að gera mér messuspjöll. En dag skal að kveldi lofa. Ég sat svo vel við biblíu- og postillu-lestur, þegar ég var yngri, að nú á efri árunum nota ég hvíldardaginn til bréfaskrifta, í jöfnunarskyni.

Ég skammast mín samt fyrir, fyrst og fremst, hve ólærður ég æfinlega er og hve flausturslega og „óforhugsað“ ég æfinlega verð að ganga frá öllum skriftum, hverju nafni sem nefnast, en sem ég helzt vildi vanda af öllu, sem ég geri. Því valda matarspursmálin. Ég setzt niður við kvæðin og bréfin mín rétt í hversdagshamnum og hefi engu að treysta nema tómri „strákalukku“, sem faguryrðingarnir kalla stundum „andagift“.

Ég dáist að, hve prýðilega þú ert að þér, einkum þegar ég gæti þess, hve sjálfsmenntun unglinga er landsvenju-glapin hér vestur frá. Þó hér séu tækin betri, er þess konar menntun sjaldgæfari hér en heima, þó undarlegt sé. Fámennið, skemmtanaleysið, að vera innibyrgður, dregur hugann að bókunum þar; fjölmennið, lífsnautnin, ysinn og þysinn hér, dregur mann frá þeim. Ég ann þér líka fyrir þá skoðun að vilja ekki vera eftirbátur frænda vorra heima að andlegum listum, né líkjast þeim, sem verða eintómir búrar og kaupmenn og pólitískir gaukar. Það er nú loksins að ná viðurkenning, að við séum „um fram allt bókmennta þjóð, að fornu — og *nýju*", en höfum ekki dáið andlega „anno" 1400, eins og sagt hefir verið og við trúðum á sjálfir. En við erum eins og hann Jón „langur", sem var svo langur, að þó hann drykki brennivínspottinn, fann hann ekki á sér fyrr en eftir viku, slík óraleið var milli heilans og magans. Ég segi þetta, af því yngri íslenzku ritin eru fyrst þetta árið að tala um sömu niðurstöðurnar sem ég, strákurinn, var að glíma við í huganum fyrir 20 árum síðan.

Ég á orðið örðugt með að fylgjast með straumnum í blaðaheiminum, einkum næ ég í fátt enskt og ekkert, sem ég geti gert að umtalsefni, og er það þó sjálfsagt til. Aftur er ég mjög ánægður með íslenzku blöðin 3, „Dagskrá", „Bjarka" og „Ísland". „Dagskrá" þykir mér bezt. Hún er bezt um vönduð og útvíkkar sjónhringinn mest, líkust tímariti. „Íslenzk skáld" er víða vel ritað, sérstaklega um Briem og Erlingsson, Briem fær þá ofanígjöf, sem hann þurfti, en enginn fannst til að gera honum, og okkar á milli er þetta satt um Þorstein, þrátt fyrir hans snilld, verður tilfinningin honum stundum yfirsterkari, svo hann „kveður sig út úr ríki fegurðarinnar". Ég held ég hafi samt misst úr „Dagskrá" eitthvað um Gest Pálsson — mig vantar fá blöð í hana —, en á það er óvíst ég hefði fallizt. Einar er sterkgáfaður, mergjaðastur yngri skáldanna, þá sjaldan hann kveður, en lausamálið hans er stundum nokkuð einræningslegt. Afbragðs saga „Úr dýralífinu" er sagan „Móri". „Bjarki" er ákaflega góðviljaður öllum góðum skáldskap og miskunnsemi. „Músin í brekkunni" (eins og „Ísafold" nefndi árskveðju Þorst.) og „Menntun" eru afbragðs greinar. Annars er „Bjarki" of lítill. Þorsteinn getur ekki notið sín á snepli, sem aðrir fylla óðara, þó hann hefði blaðstjóra hæfi-

leika í bezta lagi, sem ég efa. Hann ritar af tilfinning, góðri og hárréttri, orðin falla í ljóðstafi, létt og mjúk, en dimma rómminn, röksemdafærsluna, skerpuna, vantar stundum. Honum svipar í því til Matthíasar. „Ísland“ er mest við alþýðu hæfi, málslétt, skemmtið, alvörulaust blað, eins og skólapiltur. Hið bezta í því er eftir Bjarna frá Vogi. Þorst. Gíslason er ljós og orðhagur, en það „gutlar stundum við“ hjá honum. Það eru annars almennar andlegar hreyfingar heima, og þú mátt trúa mér til þess, þær eru fyrirrennari líkamlegu, verklegu hreyfinganna, sem við Vestmenn erum alltaf að stagast á, þó við kannske sjáum þær aldrei, ég og þú.

Ekki er ég ánægður með ensku þýðinguna á „Þú stóðst á tindi“, og ég skal segja þér, hvers vegna. Enginn þekkir Jónas af henni. Létt form er eitt af aðaleinkennum Jónasar, því hann er ekki frumlegur. Þýðingin er stirð, saman barin, ljóðstafirnir þvingaðir óeðlilega inn, málið fornlegt. Slíkt var rétt við Thomsen, en rangindi við Jónas.

Athugun þín viðvíkjandi ritdómum Küchler's er alveg rétt. Við sjáum stundum ekki hið sérkennilega hjá sjálfum okkur, af því það er of dags-daglegt.

Já, lestu „Hænir“, félagi, en varaðu þig á, að tröllið taki þig ekki. Það eru 4 eða 5 grá hár í skegginu á mér og ég nota þau sem aldursleyfi til að aðvara þig. „Hænir“ komst inn á Jónas, rjálaði mikið við Gröndal, knésetti Kristján og er langt kominn að gleypa Hafstein. „Hænir“ er viðsjáll. Auðvitað þekki ég hann aðeins eins og tornæmt barn kverið, hefi lært hann utanbókar og hlaupið yfir smáa stílinn, n. l. lesið hann í þýðingum. „Hænir“ er rómantisti og kynjamaður, eins og Thorarensen og Talmadge, en svolalegri en Bjarni. Hans mikla verk var, að hann þorði að kveða „allt of gróft“, þorði að yfirstíga kredduna — „konventsjónalismusinn“ — í skáldskap síns tíma. Sú grýla er meir en dauð. Realistarnir kröss-uðu hana sundur, og „Hænir“ er nú bara „dúsbróðir“, en ekki kennari. Fyrirgefðu, ef þér sýnist þetta goðgá, ég kasta því svona út, fyrir það sem það gildir, því mín kredda er: Um fram allt, þú sjálfur fyrst og fremst, Stefán minn eða Magnús. Hefurðu ekki til nýja sögu núna fyrir „Svövu“, „Sunnanfara“, „Eimreiðina“, „Dagskrá“ eða „Ísland“, sem öll ættu að standa þér opin, og ofurlítil ritlaun með? Af þeim, sem ég þekki nú og man um, að frá skildum Einari, Gjallanda og seinustu

sögu séra Jónasar, segir þú bezt sögu af Íslendingum, og langbezt vestan hafs. Ég miða við seinustu söguna þína í „Lögbergi“ og veit það er miklu betra til í þér.

Hvað getur þú sagt mér um Snæ Snæland? Ég veit þú þekkir hann.

Ég heyri sagt, að Eggert okkar Jóhannsson sé kominn til Nýja-Íslands. Ef þið sjáizt, berðu honum kveðju mína kæra.

Já, „dag skal að kveldi lofa“. Þegar ég var neðarlega á fyrstu blaðsíðu bréfsins, kom maður, sem ég varð að skrifa 2 bréf á ensku fyrir. Annað um hrút, sem drukknaði! Hitt um 3 kýr og reikninga, og þýddi honum svo undanþágu-(exemption)-lögin á íslenzku, og nú hangir póstferðin yfir bréfinu og maður bíður eftir því. Já, dag skal að kveldi lofa.

Auðvitað vona ég eftir línu frá þér, þakka bréfaskiptin, vil halda þeim áfram, bið forláts, ef þú verður stundum undir í kaupunum og færð lakari „skepnu“, og óska þér alls góðs.

Með vinsemd Stephan G. Stephansson.

*Jónas Hall.* Tindastóll, Alta, 21 .des. 1897.

Jónas minn. — Með seinasta pósti fékk ég bréf þitt og heitir varla, að ég geti svarað því sökum annríkis, ég hefi svo marga flóra að moka núna í skammdeginu. Lengi hefi ég þó ætlað að senda þér línu, en svo hafa skriftirnar lent í allt öðru, hafi þær nokkrar verið. Nú, jæja, ég held, að mér sé heldur að þoka áfram með búskapinn, þó ekki líði mér vel. Ég er að lýjast samt og alltaf fækka tómstundirnar, góðu bækurnar, sem ég næ í og endist til að lesa, og yfir höfuð alltaf að verða meira vatnsbragð að lífinu. Það lítur samt nærri því svo út, sem ég sé að lenda í andlegum uppgangi, yngri mennirnir heima eru að hæla mér fyrir það, sem ég hefi skrifað, eða að minnsta kosti láta svo í bráðina. Svo heyri ég það utan að mér, að sumir alþýðumenn hér eru að dást að því; hvernig því víkur við, veit ég ekki, því bæði kirkjan hér og „andmælendur“ hafa agnúa á mér, hún fyrir guðleysið, þeir fyrir það, að ég skuli ekki ræskja mig og bölva eins hávært og þeir vilja. Ég hélt það væri enginn milliflokkur. Annars býst ég við veðrabrigðum, skammabyl úr einhverri átt áður lýkur, þetta góðviðri getur ekki staðizt.

Ég held fólki hér líði nokkuð vel, árleg efnaleg framför, hæg

og bítandi. Andlega lífið er eins og vindur næturvarðarins, logn. Íslendingadagshald á sumrin, smásamkomur á veturna, ein verður nú á gamlárskvöld, leikið „Ebenezar og annríkið". Barnaskólinn í allgóðu lagi, 8 mán. skóli nú og kennari ágætur. Ein stjórnar-smjörgerð nálægt Swan Lake; Helgi Jónasson (bróðir Sigtr.) gerir ost hér við Medicine, verzlar ögn, en á í harða höggi, kostnaður mikill í byrjun, og Jón Benediktsson (bróðir Bjarna ykkar Bened.ss. við Vík) er keppinautur, býr líka til ost og verzlar í næsta húsi við Helga. Sumar og haust afbragðs gott, uppskera ágæt, tíð síðan í nóvember köld og snjóasöm yfirleitt, blíða í dag og nærri frostlaust í nótt sem leið.

Hvergi veit ég veröld dingla í verri sálarskort: Illt er „Lögberg", aum er „Kringla", „Óeiningin" gort. En ég hefi öll yngri íslenzku blöðin 3, „Ísland", „Bjarka", „Dagskrá", hvort öðru betra.

Þú ert alveg hárréttur með skólann, Ég hefi verið að leika skóla-taflið í huganum, en því var alls staðar mát; vanefni, ísl. kennara skortir, og verst af öllu: lærisveinaleysi. Á *þinn hátt* gæti forsjónin bjargað því, en hún stígur ekki æfinlega í vitið, fremur en ég. Niðurstaðan verður, þegar *general council* pokarnir fella gamla páfann Jón, verður sjóðnum dyngt í *councilið* fyrir hlunninda loforð. Nei, lagsi. Íslenzka kirkjan sú arna klofnar enn, einhvern veginn, það er of mikið af Loka Laufeyjarsyni í henni.

Þá er hún Magga með Kvennablaðið. Auðvitað er ég ekki skotinn, né líklegur til að verða: Ég veit ekki betur en ég sé líka bólusettur. Ég hvorki veit „address" Möggu né biðla til hennar bréflega upp úr þurru, ég er of bréflatur til þess. En skyldi svo fara, að blað hennar kæmi út, yrði myndarlegt og ekki ofstækisblað, skal ég heldur hlynna að því. Annars vildi ég helzt koma þessari vatnaskessu, henni Möggu okkar, einhvern veginn með lagi inn á kristna kvenfólkið með blaðið sitt. Heyrðu, Lauga systir er kvenfélagskona hér og Kristinn æfinlega eins og þú veizt. Láttu Möggu reyna að smeygja sér til hennar með útsölu, ef á liggur. Svo er Mrs. Hólmfríður Goodmann kvenfrelsiskappi, sunnudagaskólafrömuður og kirkjufélagsbroddborgari alveg nauðsynleg. Þá Mrs. Bárdal, dugleg en áhrifalaus hjá kvenfólki, sjálfsögð til atfylgis.

Jæja, Jónas minn, ég veit þér leiðist — „Ég skil" — mál-

tæki vinar míns W. H. Paulsons. — Eigir þú ekki annríkt eitthvert haust, kauptu þér $ 10.00 emigranta farbréf, vertu svo hjá mér veturinn og hvíldu þig (Ég slátra kálfi eða gelti og hleypi þér í mötuna, svo þú verðir ekki svangur, og verði ég ekki búinn að byggja, sofum við í fjósinu). Þú tekur land til málamynda, svo reyni ég að koma þér suður frítt, sem fyrirlesara um ágæti Alberta, því það hefir mátt.

Sankti Kláus sendi þér
Sopa í jólakútnum.
Ef einhver þá að þefa fer
Þrívefðu um þig strútnum.
Sogaðu sótrautt nef,
Segðu þú hafir kvef,
Bara af brjóstgæðonum
Bragð þú færð hjá honum.

Vinsaml. þinn Stefán.

*J. Magnús Bjarnason.* Tindastóll, Alta, 24. des. 1897.

Góðvinur. — Beztu þökk fyrir bréfið þitt seinasta, alúðlegt, vænt og gott, miklu betra en svo, að ég nú geti borgað það. Já, þú hélzt það skáldskap í seinustu línunum frá mér, þar sem ég spáði sjálfum mér verkatöf áður bréfinu lyki, hvað muntu þá ímynda þér nú, að hér sé hjá mér jólakvöldið — já, gleðileg jól til þín, af öllu hjarta, þó þessar 900 mílur af vetri og snjó, sem eru milli okkar, færi þér óskina á eftir tímanum — og þá sé ég ekki meira en svo viss um að eiga ráð á því. Nágranni, vinur og mágur minn hefir nýsent til mín, til þess að fá mig til að drekka með sér „porter“ í kveld, og ég neitaði, en er á glóðum, að annað hvort komi hann sjálfur, eða sendi eftir mér aftur, og þá verð ég að fara og hætta við bréfið. Sem stendur er ég aleinn í kofanum mínum að tala við þig. Hvort tveggja þetta eru samt sannar sögur, ýkjulausar, þurrar og glerharðar, eins og viðburðir í annálum. — Hluturinn er, ég hefi mjög sjaldan tómstund, æfinlega meira að vinna en ég kem í verk — það er nú einkenni á skussum —, hefi tekið dálítinn þátt í félagslífinu, þar sem ég hefi verið, svo það hefir vanizt á mig, vil nú draga mig út úr sollinum og gerast einsetumaður sem mest, og verð svo kallaður fyrir

það — ekki sérvitringur, ég hefi nú æfinlega verið það, heldur ófélagslyndur og duttlungaseggur, þó ekki væri duttlungur til í mér, fremur en sjálfstæð skoðun hjá safnaðarfulltrúa. En eitthvað verður nú að leggja í sölurnar. „Þessi skal nú ganga í súginn", sagði hangikjötssalinn heima, þegar hann gæddi sér með magálnum af pestargemlingnum á sumardaginn fyrsta.

Þú biður mig að álíta þig vin minn. Það hefi ég alltaf gert, síðan við kynntumst bréflega. Hvernig ætti ég að geta annað? Jafn vingjarnleg bréf hefi ég kannske aldrei fengið, né einlægnislegri. Ég er aðeins hræddur um eitt, að álit þitt á mér og því, sem ég hefi gert, sé allt of hátt. Fyrir mörgum árum las ég sögu, hún loðir við mig enn. Það var einu sinni málari, listamaður að draga upp ketti og tígrisdýr. Hefðarfrú, sem dáðist að verkunum hans, gerði sér þá hugmynd um hann, að hann bæri með sér allt, sem prýðir veiðimanninn og riddarann. Svo kom hún til að kynnast honum, en þá hitti hún aðeins krypplíng, nærri hálfvita, í öllu minni en meðalmann, nema í því að draga upp tígrisdýr og ketti. Ekki að ég sé nú krypplingur né hálfviti, — ég er ekki nema lotinn, „mæðulegur á herðarnar" hafa stúlkurnar sagt — og hefi „sinningsbóndavit", nú orðið — en sagan rætist svo raunalega á ímyndunum okkar um mennina stundum, við viðkynninguna sjáum við aðeins vígahnött, þar sem við bjuggumst við að finna heila stjörnu.

Og vináttu mína hefir þú að þessu leyti, að þú ert einn af þeim mönnum, sem mér er annt um, sem ég veit, að hefir góða hæfileika, sem ég trúi fastlega, að sé bezti drengur, sem mér er ánægja að kynnast og tala við. Annars vex hin dýpsta vinátta aðeins upp með tímalengd og persónulegri viðkynningu.

Seinast öfundaði ég þig, hve vel þú ert að þér — nú af því, hve mikill reglumaður þú ert með tímann. Mér er það ómögulegt. Búskapurinn, veðrið, jafnvel kýr og hestar setja einlæg núll í alla mína reikninga, svo ég verzla við lífið alveg reikningslaust, þó prestarnir spái mér reikningshalla á dómsdegi, og náttúrufar mitt mæli gegn því. Ég vinn, held ég, meðalmannsverk á hverjum degi, svo á kveldin, helzt í skammdeginu, því þá er ég ólúnastur, af því nóttin — —

NB. — „Já, komdu nú sæll aftur" er kveðja hinna húsgöngulu, ætli hún dugi ekki fyrir samtengingarmerki í sundurslitnu bréfi?

Það fór nærri, sem mig varði, þegar ég ekki kom til að drekka „porterinn“, kom „porterinn“ sjálfur til að láta mig drekka sig, þ. e. a. s. sá, sem bauð mér, kom með „brúsann“ til mín, þar sem punktur stendur neðst á annarri blaðsíðu, og því fór bréfið í jólaköttinn, Síðan enginn friður, gestagangur og „æfingar“ svo kallaðar á hverju kveldi. Það á svo sem að leika „Ebenezer og annríkið“ hérna í skólahúsinu annað kveld. Þar verður mest öll íslenzka byggðin — ég segi *byggðin* fyrir *fólkið*, því menn eru byggðir eins og hús, í sumum er ekkert loft, eða það er tómt uppi, eða stundum tómt rusl í því — og annað kveld verður skvaldrandakveld og árið byrjað með andvökum. Það hálfsækir að mér, mér þykir reyndar gott að vita fólk glatt, en mér leiðast þó þrengslin, ég bý við skólahúsið, og verð svo að lenda í þvögunni.

*Framhald.* — — er þá svo löng. Þegar aðrir fara að dotta og verða málstirðari, fleygi ég mér ofan í stól eða upp í rúm, drekk mér tebolla, kannske, rispa svo með blýanti á pappírsmiða einhvern erindi úr kvæði, sem ég þá hefi í huganum, eða les í bók, hafi ég þá nokkra bók, sem ég hefi „lyst“ á, — ég er allra manna vandætnastur á bækur, svo það er ekki kyn, þó ég sé nokkuð fastur á bjórinn, úr ekki meiru en ég hefi að moða. T. d. les ég örsjaldan dagblaðaskáldsögur, það yrði tæplega ein af tíu, sem ég gæti lesið út. Ég hefi reynt að lesa Rider Haggard og Sylvanus Cobb, sína söguna eftir hvorn, en ég „sprakk“ á fyrri helmingnum á báðum. Allir lesa þá þó með ánægju, en það er eins og ég einn sé ekki almennilegur maður. En svona er þá mín andlega æfi, aldrei tómstundir, bara andvökur og hjáverk, sem eins og allt gerir sér að skyldu að fipa fyrir. Ég segi þetta eins og er, en ekki til að barma mér yfir því. Þrátt fyrir allt hefir maður marga ánægjustund af að vera svona láðs og lagar dýr, þó það sé nú aldrei nema froskur, maður skreiðist stundum upp úr leðjunni út í sólskinið.

Að *skrifa* þér álit mitt á vestrænum hagyrðingum er bara gönuhlaup, hofmannshlaup, næstum Hæringshlaup. En hví? Vegna allra forsendanna, sem við ættum eftir að koma okkur saman um. Ég gæti *talað* um þá við þig til „eilífðar nóns“. Eftir engan þeirra er til ekki einu sinni heillegt brot, nema sögumennina og Sig. gamla „Manaskál“, og kver hans hefi ég þó ekki lesið. Allt er á stangli, það sem út er komið, manni

er það horfið eins og vængjaþytur í lofti. Hið bezta er, ef til vill, óprentað, eða ókveðið jafnvel. Ég hefi eina aðal-ímyndun um okkur alla, að við ættum að krjúpa á kné með postulanum, eða hver það nú var, og játa: „Ónýtir þjónar erum vér“. Og hérna eru sýnishorn af hugrenningum mínum. Sé það skáldskapur að geta sett hversdagshugsanir í rím, þá erum við allir, sem kveðum hér, *skáld*, og sé það íþrótt, að geta sett saman lýtalitlar hendingar úr holt og bolt máli, þá erum við allir *listamenn*. En, ég skal minnast á það við þig, sem nýtt er uppi, þegar við skrifumst á, ef ég man. Og nú er „Lögberg“ með jólakvæði eftir „Manaskál“. Það byrjar á „stjörnunni“ margkveðnu. Siggi segir, að hana sé að „líta“ á himninum „stærri“ og „skærri“ en aðrar, eða svo mun það eiga að skiljast, þó hann nefni hana „blys“. Hann segir hún „boði“ fæðing frelsarans. Þetta höfum við þúsund sinnum heyrt, oft í betra rími, sem ekki afbakar söguna, því samkvæmt henni „boðaði“ stjarnan það, sem fyrir löngu á að vera skeð. Þá segir hann, að þetta blys eða stjarna (sem er að „líta“, þ. e. *sést* í fyrsta erindinu), sjáist ekki af „holdlegum augum“, né „beri þeim birtu“, sem ekki trúa á „fórnargildi frelsarans“. Hvað er nú þetta Sigurðar-blys? Stjarnan gamla er það nú ekki, seinna erindið skákar því, því öll er sagan byggð á því, að holdleg og heiðin augu sáu hana, augu vitringanna. Kristur sjálfur er það ekki, fyrst og fremst skín hann ekki á himninum, ekki einu sinni fyrir trúuðum, og svo getur hann ekki „boðað fæðing“ sjálfs sín. Jólasagan er skemmd, í staðinn fáum við á bragðdaufu pokaprestamáli í rími það, sem líklega á að vera líking — symbol — en endar í botnleysu. Næstu 3 erindin eru þessar skáldlegu athugasemdir um jólin: Menn eru kátir, börnin fá ný föt, verum góðmenni. Næst er kvæði eftir Þ. Erlingsson, sem væri „fremur létt“, ef það þyngdist ekki svo ákaflega af samanburðinum við glypjuna hans Sigurðar. Þorst. yrkir líka um þjóðsögu, flutning álfa. Hann fer rétt með söguna, en hefir ekki prýtt hana heldur með úrfelli né auka. Um rímið er ekki að tala, honum er það æfinlega eins náttúrlegt og andardrátturinn. En tvisvar í kvæðinu verður hann „skáld“, þegar hann segir, að við drekkum líka skál þeirra álfa, sem „bera ekki nema á einum“. Þorst. orti inn í álfasöguna mannúðinni, sem fagnar líka fátæklingnum, sem kemur öllu búinu fyrir á einni dróg. Og svo, þegar það er meir

en verðugt, að drekka skál hinna ungu, sem kynda gamlársglóðir með glaumi og fjöri — það er erfi afturhaldsins og fagnaðarminni framfaranna.

„Gullnámskaldan“ hans Kristins í „Heimskr.“ er kveðin af allmiklum lærdómi, en minni andagift, enda er það ekki nema smákvæði, lýsing á viðburðum, sem höf. sjálfur er hálfkaldur fyrir, en fyrirlítur þó tæplega nóg til að ná sér vel niðri á. „Veturinn rekur sinn slagbrand í hliðið“ er fallega stokkið, ef „skóplögg og sokkar“ væri aftur ekki svo lúalega fetað, að það er eins og hugsunin verði móbröndótt. Hví er Kristinn ekki „rómantisti“ æfinlega, fer það honum ekki bezt? „Holdsveikin“ eftir „Snæland“. Að byrja söguna á flækju eins og hann gerir, held ég sé formgalli, það vinzt verr ofan fyrir lesaranum, þó úr henni sé greitt. En látum það vera. Aðalgalli sögunnar er sjálfsmorð söguhetjunnar. Ekkert söguskáld má fremja þess háttar morð, nema að hann hafi fyllilega réttlætt það, þ. e. gert það náttúrlegt, nærri sjálfsagt, því fremur vegna þess, sem það er í eðli sínu óeðlilegt. Það hefir Snæland ekki gert. Stúlkan hans er ekki ákaflynd, hún reiknar út ást sína með hagsýni, lífið hafði borið hana á höndum sér og holdsveiki hafði hún aldrei séð né hugsað um, og þó fyrirfer hún sér. Það kveður svo rammt að þessum „ónáttúrleika“, að höf. finnur sjálfur til þess, vitandi eða óafvitandi, að undir þessum kringumstæðum er stúlkan hans ekki réttdræp, og þrífur svo til þess óyndis að láta hana drekka brennivín í ofanálag, svo hann geti með góðri samvizku fleygt henni í fossinn. Með þessu eyðileggur hann allar sínar fyrirætlanir með holdsveikina, svo lítið er eftir af morðinu nema lélegur texti fyrir bindindishetju. Lýsingin á morðinu sjálfu, fossinum og fl., ber auðvitað vott um ótaminn skáldakraft og orðgnótt, en maður heyrir of mikið veðurhljóð, finnur oflítið til stormsins sjálfs. Svona kom mér sagan fyrir.

Er ég nú ekki búinn að segja nóg illt um náungann í bráðina? Það hefir verið oft sagt um mig, að ég lastaði allt hjá öðrum og þætti ekkert gott nema eftir sjálfan mig.

Nei, Magnús minn, ég hefi hvorugan lesið, Otway né Savage, þeir eru báðir frá duggarabandsöld skáldanna ensku, svolar og klámskáld innanum. Otway líktist Shakespeare, var „eðlilegur“, ef honum tókst upp. Er annars vert að eyða lestri upp á alla höfundana smáu, þó maður kæmist yfir það, ætli

maður ekki að rita bókmenntasögu? Ég held ekki. Margar bækur, mörg tungumál, eyða um of naumum tíma, sundra kröftum okkar takmarkaða heila, en kannske er ég rangur og miða allt of mikið við afkastaleysi sjálfs mín.

Það er nú komið fram yfir miðnætti, en ég er líka að merja af bréfinu, þetta er sjöundi kapitulinn, við þeim áttunda snerti ég ekki, hann endar á næturþjóf og dómsdegi, og ég ætla Manaskálar-Sigga að yrkja um það fyrir kirkjufélagið, honum Sigurði með „blysin“ og „holdlegu augun“ á Lögbergs-jólunum. Annað eins skáld og hann og gamla vin minn, Þorlák Jónsson „þungan“, vil ég láta kveða alla kirkjunnar sálma.

Svo verð ég biðja þig að virða mér allt til vorkunnar, efni og útbúnað bréfsins. Ég og forlögin höfum samið það svona og ég veit ekki, hvort á flest lykkjuföllin. — Góða nótt og gleðilegt nýár.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Sigurður Jónsson frá Víðimýri.* 10. apr. 1898.

Vinur. — Ég sendi þér „*Vorbatann*“ í ljóðum — svona.

Svipnum breytir, lagi, lit:
Loftið, sveit og vegur;
Á sig veit sín valda slit
*Vetur* þreytulegur.

Blána lít ég himin hjá
Hnúka strýtum bröttum —.
Hjallar ýta allir frá
Enni hvítum höttum.

Vona, að rifin verði af sér
Veðurdrifin mjöllin;
Vita, að svifið *Vorið* er
Vestan yfir fjöllin.

Vor, sem frjóvi lífgar lund,
Litkar mó og víðir,
Vetrarsnjó af gili og grund
Geisla lófum þíðir.

Hnappa skæra í hárið fá
*Hlíðir*, ærið snoðnar;
Jafnvel hærum *Hóla* á
Hvíti blærinn roðnar.

Klaka æki áin ber,
Ísaflækju rastar;
Vakrir lækir leika sér —
Lífið hækjum kastar.

Einkis rétt ég man til meins
Meðan þetta er kveðið —.
Vorsins frétt þig yngi eins
Upp og létti geðið!

Svo tek ég þunglamalega ofan fyrir Breiðfjörð okkar og Þorsteini mínum, sem kváðu kveða hringhendast, en set upp fyrir Eldon og Ásgeiri.

Með beztu kveðju. Þinn Stephan G. Stephansson.

Stillt er tíð. Ei þjáir það,
Með þrjózku-hríðum drifnum,
Lognsins blíða laðast að
Löngu-hlíðum snifnum.

Fjör og græska ef hörfa í hlé,
Hugur æskir betur,
Þó hverfi æska, að ellin sé
Eins og gæzku-vetur.

Þinn Stebbi.

*J. Magnús Bjarnason.* Tindastóll, Alta, 20. júlí 1898.

Góði vinur. — Við verðum að hafa þetta upp á katólsku, þú verður að gefa mér syndakvittun, áður en ég sem bréfið, því nú er ég ekki upplagður til skrifta. Bréfið þitt fékk ég fyrir tveim vikum, kæra þökk, en strax gat ég ekki svarað því, ég átti þá ekki þak yfir höfuðið. Húsið mitt gamla var ég að rífa niður og byggja upp aftur. „Púltið“ mitt stóð úti á hlaði með öllum mínum fjársjóðum í, kvæðunum mínum og skræðunum, en ég náði ekki í neitt af ritfærum og gat hvergi verið,

ekki einu sinni úti undir beru lofti, því oftast rigndi. Í dag hefi ég unnið síðan kl. 6 í morgun, vel og svikalaust, þangað til kl. 9—10 í kveld, fór svo að hátta, en ég er svo ólánssamur, að ég get ekki sofið, hvernig sem ég reyni, og þó á ég það skilið, ekki er ég svo ranglátur. Ég reyndi að lesa mig í rot, en það var ómögulegt, svo fór ég á fætur kl. 12 til að skrifa þér. Þegar „andvökusvölurnar“ setjast við gluggann minn, hefi ég aðeins eitt ráð til: Að vinna sjálfan mig úrvinda og tilfinningalausan, þó það taki marga sólarhringa. Já, mér var farið að detta í hug, að eitthvað gengi að þér, en þó varð mér hálf bylt, þegar þú sagðir mér frá því. Nei, þú ferð aldrei að kvonast upp svona ungur, þú hefir svo mikinn áhuga á bókmenntum og ert svo vel undir búinn að hlynna að þeim, að íslenzkan má ekki missa þig svo fljótt. Þú ættir að verða manna færastur að halda á lofti þessum fáu gimsteinum hennar í bókunum, meðal hérlendra manna, sem skilja okkur svo lítið. Gera það sama hér, sem Küchler gerir meðal Þjóðverja, og auka sjálfur við. Við þörfnumst þess, og það er ekki ein vinnandi hræða í þeim akri.

Hvað hefi ég nú lesið nýtt íslenzkt? Jú, „Sunnanfara“, náttúrlega. Ritdómur Guðmundar frá Sandi um „Grettisljóð“ græddi ekkert í huga mínum. Hann er sundurlaus, aðfinnslan að hortittafambi Matthíasar náttúrlega sönn, en mér duldist alveg gildi sums þess, sem hann hældi. Kvæði Guðmundar eru góð, einkum hið fyrsta, en hví þarf hann og Einar Hjörleifsson að taka fram væmnar samlíkingar, þar sem viðbjóður getur ekkert gagn gert, nema gera manni óglatt. Ég sem sé veit, að skáldin mega leika á þá tilfinning manns eins og aðrar til siðferðislegra áhrifa einungis, en er það ekki smekkleysa að líkja t. d. fjúki við hrákaklessur? Mér finnst fegurðartilfinning minni misboðið að raunarlausu. Mig hefir æfinlega væmt við fyrsta kvæðinu í Bólu-Hjálmari Hafsteins.

Söguna þína í „Lögbergi“ las ég og sá, að einhver hefir reiðzt henni líka. Ánægður er ég ekki með hana — en láttu þér nú ekki mislíka, vinur, ég verð að tala í hjartans einlægni, eða þegja, þó ég varla fái nokkurn mann til að gera mér sömu skil — mér finnst háðið ekki verða nógu neyðarlegt, of dauft og hversdagslegt á köflum. Kannske er þetta skoðun mín á skáldskap, sem þessu veldur, og hún er kannske skökk. En hún er svo, að ég er ekki nema hálfvolgur *realisti*, sérvizkan

loðir æfinlega við mig. Það verður aldrei skáldlegt listaverk, segi ég, að taka nákvæma ljósmynd af öllu, sem sézt getur og við borið í sögu. Lífið, eins og það líður, er ekki skáldlegt, herra trúr! Ég vil aðeins fella saman áhrifamestu kaflana, einn héðan, annan þaðan, stryka yfir allt, sem vefst bara fyrir og ekki hefir þýðingu, gera heilt ár að einum degi, ef á þarf að halda. Mér leiðist stundum sjálfur Tolstoj og Zola, af því þeir gera gagnstætt. En, Magnús minn, þú skrifar svo tilgerðarlaust, þér er svo létt um málið, allténd, að það er furða, og hafa þó enga aðhlynningu haft, og búa þó sífellt meðal þess fólks, „sem saurugar hefir varir", eins spámaðurinn forðum og við allir Vestur-Íslendingar verðum að gera.

Þá las ég sögu „Snælands" í „Lögbergi". Mér fannst hún ætla að verða góð, meðan ég las fyrri partinn, engin tilgerð í stíl, þráður góður og málið snurðulaust og traust. Aðeins hélt ég hann ætlaði að verða einn erfðasyndarprédikarinn, sjá ekki annað en holdsveiki og brjálsemi, sem gengi miskunnarlaust í ættir eins og matarást hjá þeim, sem æfinlega er svangur. En svo kom seinni hlutinn, sem ruglar allt, þegar allt er borið til baka og maður fer að skera úr, hver er brjálaður, en veit hvorki af né á. Öll skipshöfnin var vitlausraspítali, liggur manni við að segja, og skipherrann hafði lausa skrúfu í höfðinu líka. Ég man nú ekki eftir, að ég hafi lesið nýlega annað, sem umtals er vert. Um framferði náungans og búskapinn tala ég ekki við þig, það geymi ég nágrönnunum.

Þökk fyrir álit þitt um kvæðin mín, sem komu út heima. Já, hreinskilnislega, það er ögn af nýjum taugum í þeim, en þau eru ákaflega stirð og samanrekin, það er gallinn, en kannske þau tóri ögn samt, því þau eru úr lifandi lífi kveðin.

Viðvíkjandi kvæðasending til Kühlers, þá hefir mér aldrei komið hún í hug. Einu sinni var ég kominn á flugstig með að skrifa honum þökk mína fyrir velvild hans við íslenzkar bókmenntir, því þeim ann ég. En aðeins það og þegja svo.

Magnúsi heitnum Eiríkssyni var einu sinni ógnað með brennu bókanna, sem hann reit, og sæti hann svo sjálfur í hlaðanum. Mér finnst stundum nærri, að ég hefði átt að gera þetta, ef ég með því hefði getað brennt fyrir allt, sem ég hefi gert af kvæðum, en það er nú ekki. Sé annars Víti gólfað með góðum ætlunum, hefði ég gaman af að koma þar og sjá aftur

upphöfin að ýmsu, sem ég ætlaði að gera, en lífið sleit úr höndunum á mér.

Nei, ég hefi aldrei sent Küchler neitt og býst ekki við að gera það heldur. Því er svona varið, ég er tímalaus maður til útúrdúra frá daglegu striti, hefi gaman af skáldskap og því kveð ég, hann „verður mér allt“, eins og harpan Tegnér að lokum, vona ég. Ég skrifa eitt handrit af kvæði, sem ég sendi frá mér, það fær prentarinn, svo veit ég ekki um það meir. Nái ég blaðinu, sem það kom út í, klippi ég það úr, lími inn í syrpu, sting inn í skápinn minn og hugsa ekki um það framar. Það er svo eina eintakið, sem ég á, en hefi ekki tíma til að skrifa upp aftur, né nenning heldur. Ekki samt svo að skilja, ég er vinur hvers, sem ann kvæðunum mínum, ég finn vel til þess, að þau eru brot af sjálfum mér, það sem ég er og vil vera, og að hver, sem ekki getur skilið og metið þau rétt, hann hvorki skilur né metur mig, hvert sem gildi okkar annars er. Ég hefi aldrei reiknað *það* hátt.

Jón Ólafsson og fl. hafa boðið mér að útvega mér útgefanda að kvæðum mínum. Ekki hefi ég enn þekkzt það. Allt hefir risið gegn því, að ég yrði það, sem ég varð, og verst nú, því sé ég, hvaða hálfverk það er. En kannske hefi ég einhvern tíma geð til að bjarga einhverju af því úr annarra höndum, sem ég hræðist mest. Samt gæti ég kvatt áhyggjulaus um það. Jæja, svona liggur nú slagurinn þá.

Blessaður, láttu þér fara að batna, sem ert svo ungur og þarft endilega að lifa til að láta eftir þig stóra minning. Hálf öld er reyndar engum manni nóg, hvað þá skemur, mestur tíminn gengur í að sofa og fella og taka tennur, nema fyrir mér, sem vaki dag og nótt og á ekki nema einn jaxl útdreginn. Steingrímur er einhvers staðar að ríma um það, að það standist á innlegg og úttekt í lífinu, það, sem þekkingin græði, missi viðkvæmnin. Ég vildi að mér hefði reynzt svo, en í minni úttekt er fullt eins mikið af hinu síðara og er mér illa við.

Klukkan er að ganga fjögur, Magnús, bráðum birtir *úti.* Ég ætla að sofna hérna ögn fram á púltið, þangað til ég smala kúnum, á meðan getur þú ráðið fram úr, hvort þú fyrirgefur mér. Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Þrem dögum seinna.* — Dálitla póstskrift, fyrst bakið er autt á blaðinu. Ég hefi nú sofið vel tvær nætur og veðrið er

ágætt, svo það liggur á mér eins og ólúnum hesti í góðum haga. Bara, nú hefi ég engan gestafrið.

Hvað, er það meiningin, að ég sendi Küchler *skrifað* það, sem út hefir komið af ruglinu mínu núna upp á síðkastið? Ég sé af „Eimreiðinni", að hann jafnvel notar handrit af því, sem aldrei hefir verið prentað, þó mér þyki það kynlegt. Það liggur nú svona í því, ef K. fer að geta mín, eins og hann hefir gert ráð fyrir, þá vil ég helzt hann hefði mig allan séð. T. d. í fyrra kom út í „Dagskrá" *Sigurður Trölli* eftir mig, ja, við skulum kalla það *ljóðsögu*, öllu má nafn gefa, það kvæði ætti hver að lesa, sem lætur svo lítið að minnast á ljóðagerð mína, og sama er um fleira.

Ég kann þér þökk fyrir álit þitt á þeim kvæðum, sem þú minntist á, einkanlega af því þér leizt vel á *Patrik frænda*. Það var mitt eigið uppáhald. *Hjónabandið* veit ég verður fljótkunnara. Það á víðar heima. — Betra bréf seinna. — „Þú skalt fá betra kaffi hjá mér, næst þegar þú kemur", segja kaffihítirnar, þegar illa *trekkist* á könnunni. Runólfur Marteinsson er að „messa" rétt núna og ég hlusta ekki einu sinni á hann, og nú þarf ég á Íslendingadags-fund.

Alúðarfyllst Stephan.

*Jón ritstj. Ólafsson.* Tindastóll, Alta, 2. okt. 1898.

Vinur. — Af því það er tvíheilagt í dag, bæði sunnudagur og 45ti gamlársdagur minn, þá held ég megi gera úr honum iðrunardag og skrifa þér og senda kvæðaþuluna, sem ég eitt sinn bauð þér, en hefi svikið þig um svo lengi. Að ég hefi ekki gert það fyrr, er af því, að ég hefi frá eilífð verið ákvarðaður til að „velkjast í sorgum þessa lífs", svo ég tali eins og guðfræðingur, — og endirinn á því verður — ja, við vitum, hvað sá hásæli Calvin sagði um það, og hann var brezkur í anda, eins og „Lögberg".

Í vor eð leið fékk ég þitt vingjarnlega bréf, eintakið af „Öldinni" þinni með „Hjónabandinu" eftir mig, etcet. Kæra þökk fyrir það allt saman og það, sem þú sagðir um mig og spáðir mér í fyrirlestrinum í „Sunnanfara".

Sjálfsagt meiri sómi en ég á,
en sæmd að þiggja vitrum manni frá.

Ég les „Ísland“, „Bjarka“, „Dagskrá“ og „Öldina“ þína, sýknt og stöðugt, og þykir einhvern tíma á árinu vænt um þau öll. Vor eigin vestan-blöð les ég, eins og séra Jón Ingvaldsson las „faðir vor“, *tafsa* þau með leiðindum, af því ég má til. Það er hér almæli, að fyrirlesturinn þinn sé mjög sanngjarn. „Lögberg“ hefði átt að sjá sóma sinn og borga þér gott vinnumannskaup fyrir árið sem leið, það fyllti sig svo oft á þér. Jæja, Jón minn, ég vissi *þá* eins vel og *nú*, að „Lögberg“ fór með róg, og það hafa líklega fleiri séð. Páfinn dæmir bók á máli, sem hann skilur ekki. „Lögberg“ dæmir þær óprentaðar og óséðar. „Hinn heilagi faðir“ ætti að deyja, eða *resignera.* Hann er páfa-mátaður.

Í bréfinu þínu sagðist þú senda mér „Sunnanfara“ ykkar. Hann hefi ég ekki fengið. Misskildu mig samt ekki svo, að ég sé að tala utan að að fá hann ókeypis, ónei, ég hefi ekkert til þess unnið, en það hefði verið skyldugt að segja *mange tak,* eins og „selskinnsskórinn“ hans Thoroddsens, og ég hefi oft misst bréf og blöð í pósti og því get ég þessa.

Ég hefði viljað mæla vel fyrir kvæðinu mínu, sem ég sendi þér núna, en einhvern veginn get ég það ekki samt. Það heitir „Á ferð og flugi“, er með mínu einrænings-lagi að efni og hugsun og málið eða rímið með liðlegasta móti. Ég hafði það í ferðasögubroti, svo enginn gæti heimtað af mér strengdan *söguþráð,* en ég gæti gert, að ósekju, mína útúrdúra út í náttúruna og inn í hugann. Það er nú kannske of langt eða of illa gert fyrir „Sunnanfara“, ég veit ekki um það, en nú á ég ekkert nýsmíðað og eins vel gert né betur, svo ef þú átt einhvern blaða-krókbekk auðan og hæfan því, ja, svo er ég ánægður að sjá það þar, og bind ég svo enda á áheitið að senda þér langt kvæði með „vorinu“, ef ég ætti það til. Það er nú reyndar haust, en komi til! Ég er ekki tímans herra, það væri enn vor, ef ég réði.

Rithönd og rangritun bið ég þig að vorkenna. Nýja stöfunin ykkar var mér áður ókunn, er ég byrjaði að hreinskrifa, en svo var ég nú áður villtur nærri henni, nema helzt á „ennum“ — mans — og „setum“ — lenskur — og þessu smáræði, að ég hefi aldrei kunnað að stafa íslenzku rétt, í hreinskilni sagt. Ég kann þér aðeins þökk fyrir lagfæring á mismælum og orðalýtum — eins og t. d. í „Hjónabandinu“, — ég hefi aldrei tíma né eiru til að hefla, en sé samt oft ýmislegt á eftir,

smíðalýti, sem urðu í „hitunni", og skil oft, að eitthvað sé rangmæli, þegar mér er bent á það. Annars er ég ómálfróður og veit það. Ég hefi lært að tala, eins og sauðirnir að jarma, það er ættarfylgja og eftirhermsla. Ég skrifa nú tæplega læsilega orðið, skógarexin og heytjúgan hafa gert mig stirðhentan á pennanum. Svo hefi ég slitið taug í hægri öxlinni og fingurnir dofna stundum. Ég hefði líklega átt að láta „taugina" vera. Ég held ég fari að verða afturhaldsmaður og söngla: „Sjaldan fer betur þá breytt er". Svo er nú þetta útrætt.

Þú stakkst upp á, að ég gæfi út kvæðakver og bauðst mér að gangast um samninga og prentlestur. Innilegar þakkir fyrir. En ég er einrænn þar, eins og oftar. Það er ekki trúlegt, en ég hefi nærri beig af kvæðabók eftir sjálfan mig, jafn vænt eins og mér þykir um ljóðasöfn annarra. Mér finnst eins og ég helzt vilja alltaf gera eitthvað nýtt; á meðan það er í smíðum, þykir mér ögn í það varið, en að því búnu, varpa því í eitthvert blað eða tímarit og — sjá það aldrei framar. Svo finnst mér ég hafi aldrei enn náð mér sjálfum almennilega niðri á því, sem í mér sé til. En, maður getur ekki „gengið í sig aftur", og skynsamlegast er að yfirlíta reikninga sína sjálfur, það veit ég. Ef mig rekur að kvæðabók, leita ég til þín með útgerð og eftirlit, en samt svo aðeins, að ég sæi, að ég gæti borgað það einhverju — lífsbjörg þína — bókstarfið — gæti ég ekki þegið fyrir ekkert.

Hvað sé í fréttum? Ja, svona almennt, að hann hérna „höfðingi þessa heims" leiddi Bretann upp á ofurhátt fjall, sýndi honum öll ríki veraldarinnar o. s. frv. og bauðst að gefa honum það *allt*, ef hann félli fram og tilbæði sig. Og Bretinn gerði það með ánægju. Því eykur hann líka sjóher, leggur undir sig lönd og launar Sigtrygg í Winnipeg til að skamma Rússakeisara, af því hann læzt vilja stofna allsherjar frið, því þá gæti Bretinn ekki barizt til meiri valda. Nú hefir „höfðinginn" teymt Vestmanninn upp á sama hnjúkinn og boðið honum sömu kjörin, og Vestmanninum þykir líka veraldareignin girnileg. Hefir krækt í Hawaii-eyjarnar, á nú tangarhald á Filippseyjum og tögl og hagldir á Cuba og dreymir um herauka og heimsvald, hugsar alveg eins bolalega eins og Bretinn, faðir hans og fyrirmynd, nema að Sigtryggi vill hann ekki mat gefa, af því Sigtryggur vill hafa íslenzka skólann í Winnipeg og mundi húðskamma séra Bergmann í allra heyrn

á kirkjuþingi, ef séra Jón sliti ekki fundi til að firra kristnina vandræðum.

Í alvöru, í skólamálinu eru Sunnanmenn orðnir undir. Þrái Sigtryggs og slægð Magnúsar báru nú af gumi Halldórssonar og lævísi Friðriks. En illa varð Sunnlendingum við ósigurinn. Séra Friðrik faldi sig fyrir seinustu átveizlunni, sem kirkjuþingið hélt yfir slit sín í Winnipeg, og Móritz hvað nú tala um presta-ráðríki og kirkjufélags-sprengingar. Auðvitað er skólamáls-glamrið spaugilegur gauragangur. Við orkum ekki skólanum hérna, Vestur-Íslendingar, þó við værum *allir* af vilja gerðir. Einn vegur er aðeins til, ef einhverri borg — t. d. Winnipeg, sýndist skólinn svo mikill bæjarhagur, að fólk og fé fengist hjá *öðrum* þjóðum fyrir þessa *íslenzku stofnun,* — en ætli að íslenzku-bragurinn færi þá ekki af. Annars órar mig helzt fyrir, að skólasjóðurinn steypist með kirkjufélaginu, þangað sem yngri prestarnir toga það, í ginið á general council. Séra Jón, auðvitað, spyrnir enn á móti, en þess nýtur nú varla mjög lengi. Manni óar við að sjá verk sín hverfa inn í annað, eins og eitthvað hafi svelgt mann lifandi.

Þú þekkir andríki íslenzku blaðanna okkar. Nú ætlar séra Magnús að gefa út nýtt blað í stað „Dagsbrúnar“. Það á að heita „Dagur“. Svo hefir Magnús þýtt *Age of reason* eftir Paine og ætlar að prenta, góð bók auðvitað, en nokkuð forn. Annars fer Magnús batnandi. Honum fer eins og mörgum öðrum, trúarbyltingin í hans eigin huga gerir hann stundum nærri gáfaðan og dálítið mælskan. Svo eru þau herra og frú *„Freyju-kettir“*. Þú lagðir þeim liðsinni í „Öldinni“ af velvild, en þau nota svo góðsemi þína, að gefa út reglulega blaðaskömm. Nú ætlar Sigfús að fara að gefa út annað blað, „X-geislann“ — trúleysisblað. Hvernig heldur þú, að það verði? Hann skrifaði mér boðsbréf. En hvenær sem ég kemst til, skal ég láta þau hjón fá að vita, hve ánægður ég er með ritstörf þeirra, hvað sem úr verður. Annars er það skaði, að konan skuli bulla svona hirðulaust, það er sagt hún sé gáfuð. Ég held Skúli Thoroddsen gefi út ljóðakver eftir gamlan kunningja þinn, J. Magnús Bjarnason. Ef svo fer, legðu því ofurlítið liðsyrði, ef þú samvizkusamlega getur. Magnús er prýðilega að sér orðinn, ann íslenzku og íslenzkum bókmenntum, er einn síns liðs og einangraður og heilsulaus.

Mig hálf-langaði að segja ögn um íslenzkar bækur, en verð að sleppa því nú. — Líði þér vel!

Vinsaml. Stephan G. Stephansson.

*J. Magnús Bjarnason.* Tindastóll, Alta, 4. jan. 1899.

Gleðilegt ár, Magnús minn, og kæra þökk fyrir langt og gott bréf í ágúst, árið sem leið. Ég veit, þú hefir nú verið hættur að eiga von á mér fyrr en um aldamótin, því þá fara allir heim nema ég, svo ekki ætti skvaldrið að glepja fyrir. Ja, þú hefir nú víst heyrt það um *Búrbóna-kóngana,* að þeir lærðu aldrei neitt, en gleymdu heldur engu, sem þeir höfðu lært. Kóngablóðið í mér er nú eflaust þunnt, kannske frá Hrærek kóng á Kálfsskinni, eða einhverjum jafnaldra hans — en aldrei *læri* ég að standa í skilum með bréf, en svo *gleymi* ég heldur aldrei, að ég sé í botnlausum bréfaskuldum, því samvizkan bítur mig alltaf í hælinn.

Ég ætlaði að skrifa þér um jólin, eins og í fyrra, en það strandaði á mat og fyllerii, þó Páll postuli áliti það „utan múra“ í guðsríki; en Leifur okkar hafði þá ekki fundið Vesturheim, né Sigurður Jósúa Alberta-nýlenduna, svo Páll gat ekki vitað, hve stórt ríkið var. Þá átti gamlárskveld eða nýárið að verða afturhvarfsstundin, en gamlársdag sagaði ég eldivið, hirti 40 stórgripi og keyrði 8 mílur yfir óbyggðir til æskufélaga míns, sem hafði fengið þá grillu, að ég yrði endilega að éta og drekka með sér það kveld. Fyrir dag gekk ég heim, hálfsyfjaður, lúinn og einn míns liðs, eins og gamla árið. Í birtingu stóðum við þrír saman á fellsbrúninni fyrir ofan dalinn hérna, *nýársmorguninn, brunanæðingurinn* og *ég,* og áttum eftir 4 mílur heim til mín. Við reyndum okkur niður hlíðina, en þeir urðu svo langt á undan, því þegar ég kom heim, sat *nýársmorgunn* undir vesturveggnum á húsinu mínu, bláleitur í framan og hálfskjálfandi. Hann var kominn fyrir góðri stund og búinn að ráfa kringum húsið. Og *brunanæðingurinn,* hann var búinn að snuðra upp hverja smugu á húsinu, við dyrastafinn og gluggatrén, kominn inn í hvert herbergi, upp í rúmið mitt og inn á milli rekkjuvoðanna, sem voru svo kaldar, eins og hann hefði legið við þær alla nóttina. Þá var enginn tími til að skrifa þér, Magnús, ég þurfti að saga við í ofninn minn.

Hvað á annars að skrifa? Mér finnst ég hafi engan skáldskap heyrt né lesið nýlega, engra andlegra hreyfinga orðið var í bókaheiminum, en um annað vil ég varla tala við þig. En allar góðar bækur liggja líka langt frá mér nú, og lestrartíminn alltaf að styttast. Ég er að verða hroðalega aftur úr, hálffjaraður uppi. Svo er ég kannske að eldast og „missa bragðið“, svo ég finni ekki saltkeiminn að hlutunum. Ensku skáldin, sem nú eru uppi, eru öll agnarsmá og leiðinleg, hvað sem menn tauta. *Caine* ritar biblíusögur í rómanformi og tyggur sjálfan sig upp. *Stevenson* er hvorki skáld né listamaður, en hann kann að segja fólki lygasögu, eins og glaðlyndur drabbari. *Hawkins* er langafi, sem alltaf stagast á mönnum og dýrum, sem vóru honum samtíða í æsku hans, svo miklu betri og meiri en þau, sem nú eru til, svo jafnvel ættingjar hans vita, að hann er bara karl á raupsaldri, með öll einkenni afturfarar-bernskunnar. *Kipling* er einungis enskur ferðalangur, sem kann mörg orð í mállýzkum ýmsra hálfvilltra manna, en það eru samt einhverjir hressandi slagir í kvæðunum hans, eins og ruggið á góðum seglbát. *Hardy* er beztur, hann getur setið hjá manni úti í skrugguveðri og gengið inn í hjartað að luktum dyrum, ort út af almennum, daglegum viðburðum. *Vinstri hönd Dodsons* eftir Watson (McLaren) er ágæt smásaga, ekki háfleyg né íþróttasmíð, en þetta hérna hitt — sem *þú* hefir mikið af og mun gera þig að beztu skáldi — þetta innilega, þýða og góðmannlega, sem ekki er tilfinningin ein, heldur „upplag“ mannsins sjálfs — lofaðu mér að skíra það bráðabirgðaskírn og kalla það „skáldskap hjartans“. Það er víst annað eins og sú saga, sem höf. nærri lét hempuna fyrir.

Nýlega las ég *Hans frá Íslandi* eftir Victor Hugo, sem sumir telja andakonung (genius) nítjándu aldarinnar, og sem er auðvitað víða skáldkonunglegur í *Hinir voluðu*. En *Hans frá Íslandi* er svo hörmuleg bók frá hverri hlið sem er, að það er blind hending, ef nokkuð er þar rétt og satt, ekki einu sinni riddarasögublærinn sjálfur, því Hugo eyðilagði hann æfinlega fyrir sér með heimspeki-innskotum og fræðikáki, þó hann væri „rómantisti“.

Fjöld hefi ég farið,
Flest hefi ég séð.
Að þernur hefðu hökuskegg
Ég hefði lagt í veð.

Eða eitthvað álíkt, segir í enska þjóðkvæðinu, að kokkálaði bóndinn hafi ort, þegar hann kom að riddaranum í rúminu sínu og kerling hans var að reyna að innprenta honum, að þetta væri þerna, sem „mamma“ hefði sent sér. Svipað segi ég við Hugo, þegar hann fer að segja mér norræna sögu. Eftir hverju íslenzku man ég nú helzt? Haustkvæði eftir Kristinn í „Lögbergi“ ætla ég eitt með hans jafn-beztu kvæðum. Viðlíkingar góðar flestar, enginn rembingur til að komast merkilega að orði, sem verður svo að lúalegum gloppum. Hátturinn einn minnti á *einkenni* Hafsteins. Ég veit þér finnst ég nú smásmuglegur að gefa í skyn, að slíkt geri meira til en þó við rituðum báðir kvæði okkar á jafnstórt pappírsark. Þó undarlegt sé, trúi ég því samt. Það er undarlegt, hve fljótt áhrif, jafnvel góðs kvæðis, deyfast, ef það minnir mann einhvern veginn á annað, sem manni þykir betra. Sumir hættir eru sameign allra, svo sem hringhendur, sumir eru næstum eign einstakra manna og eru sárvarasamir, nema maður geti siglt eigandann af sér á betur gerðu kvæði. Því segi ég þetta um kvæði Kristins. *„Valið“* hefi ég ekki séð. „Kuðunginn“ hans Alb. Jónssonar í jóla-Lögbergi byrjaði ég að lesa, en varð að hætta í það sinn, mér fannst hann vera að verða svo guðræknisvæminn; kannske hann batni, ef ég kemst einhvern tíma ofan í botninn. Þetta er víst öll „vestrænan“, sem komið hefir, síðan ég fann þig seinast.

Austan að þá. Ég hefi lesið „Grettisljóð“. Það eru ágætar brýr í þeim, en sundurlaus eru þau og flekkótt. Kvæðið um viðureign Grettis og Gláms er ljómandi og mun standa þó annað fyrnist, eins og ræktuðu túnin á bæjunum heima, sem lagzt hafa í auðn. „Völuspáin“ er smekkleysa, stór og framúrskarandi, af því á undan er gengið kvæði sama efnis, en náttúrlegra og sannara og sögunni samkvæmara, þó hún segi ekki viðburðinn. Sem sé, samtal foreldranna um forlög Grettis er eðlilegt, skáldlegt, nokkurs konar inngangur, sem bendir til þess, sem verða skal seinna í sögunni. Völuspáin er útúrdúr. Annars hefir Matthíasi ekki tekizt að finna *skáldlegan* þráð í Grettis sögu, en *söguþráðinn* hefir hann náttúrlega kubbað, svo kvæðin eru sundurlausir liðir, en engin heild. Allt hans „theologium“ um heiðni og kristni, sem togast á um skap Grettis, er misskilið sálarfræði-klastur. Grettir var blátt fram heiðið afarmenni að afli og viti og hefði aldrei reynt að vinna Glám

með föstum og bænahaldi. Hin „dramatíska“ þungamiðja sögunnar er, þegar hann sækir eldinn í skála Þórissona og brennir þá óviljandi. Hetjan leggur sig í hættu til að frelsa mannhrök úr voða; vitmanninn, sem þekkir mannlífið, órar fyrir afleiðingunum, en framgirnin og drenglundin vinna hann til þess. Eftir það er gæfu Grettis lokið. Það er gamla sagan, ómennska margra smámenna vinnur sigur á gæfu eins mikils manns. Grettis saga er skemmd með því að yrkja inn í hana helgisögur og þjóðkvæðaæfintýri, eins og Matthías gerir.

Enn hefi ég ekki séð kver Einars Benediktssonar, en ég hefi áður séð margt, sem í því er. Ég held mikið upp á ljóð Einars, t. d. *Ásbyrgi,* sem er eitt með einkennilegustu náttúrulýsingum, sem ég hefi séð. Sagan hans „*Valshreiðrið*“ er nú ekki eftir mínu höfði. Fyrst er efnið gamalt stagl, sem maður er orðinn leiður á, hégómagjarna, hjartalausa unnustan, sem fleygir glófa sínum í ljónakrána til að beita valdi sínu yfir riddaranum sínum og láta hann sækja hann og hætta sjálfum sér. Afleiðingin af því er líka eins og hjá Einari og hvergi man ég eftir einkennilegum orðalýsingum í sögunni, sem Einari lætur þó svo vel. En sögu las ég í „Dagskrá“, í flokk „Úr dýralífinu“. Hún er nefnd „Móri“ og er um forustusauð. Hún var höfundarlaus, en ég eigna Einari hana. Sú saga var ljómandi, frásögnin svo einföld og átakanleg, þar sem heill heimur af hugsunum opnast lesaranum, bak við efnið og orðin, líkt og hjá Turgenjeff, Kielland og Gesti okkar Pálssyni, sem segja söguna bezt að mínu skapi, þó ég eigi fleiri uppáhöld, svo sem Dickens, Eliot og Zola, — þegar hann er ekki alltaf að hella úr hrákadallinum framan í mig.

Ekki máttu sleppa við hann Gvend minn á Sandi, þó þér finnist hann gera gönuskeið og stíga stórum. Hann á það, sem íslenzk skáld (að fráskildum Agli Skallagrímssyni) eru of fátæk af, skáldlegum orðtökum og líkingum, þessa vorfrjóvu hugsun, sem skreytir allt litum og lögunum. Svo eru flest kvæðin hans. Auðvitað hefir hann til að tala sóðalega, en trú mér til, hann er sá eini af allra-yngstu skáldunum heima, sem enn hefir borið á, sem nokkurt andlegt tak er í.

Já, Magnús minn, ef bókin þín kemur út, skal ég viljugur segja það gott um hana, sem ég hefi vit á. En er það til nokkurs sem stuðningur til álits? Ég efast sem sé um, að nafn mitt geri eins dropa hækkun á fjöruborði almenningsálitsins. Al-

þýða byggir álit sitt á *mannanöfnum,* en ekki andlegu atgervi þeirra, og ég held helzt hún kannist varla við nafn mitt og andlegt atgervi á ég varla nóg í eitt lítið sendibréf. Nýlega skrifaði ég Jóni Ólafssyni og bað hann að geta þín að góðu, ef þú kæmir út. Hvað sem öðru líður, er Jón enn eitt með stærri ríkjunum í okkar litla íslenzka bókaheimi, og hlýlegt orð frá honum er mikils virði. Við Jón erum nú hálfgerðir mátar og „þúumst" eins og drykkkjubræður. Svo er hann hálfgerður skírnarfaðir minn, ég meina síðan farið var að gefa mér nafnið „skáld", en við höfum aldrei hitzt, svo ég kalla það *hálfgert* og býst við það standi svo þangað til árið eftir upprisuna. Þorsteini Erlingssyni skrifaði ég líka, minntist ögn á þig og þakkaði honum fyrir það, sem hann sagði um kvæðið þitt í „Bjarka". Mér datt í hug, það vekti hann til að segja meira seinna.

Þú spyrð, hvort þú eigir að halda áfram með sögu. Fyrir alla muni, já, ef þú mögulega getur og annað hugðnæmara efni hefir ekki komizt „upp á milli". Skálddísin er ósveigjanleg örlaganorn og öfundsjúk eins og Jehova. Það er um að gera að sitja og standa eins og hún vill, þ. e. a. s. yrkja aldrei utan við sig. „Helvítis konuríki er þetta" sagði karlinn, þegar kerlingin hans hengdi á hann grútarlampann, svo hún sæi til hans, þegar hann gekk í myrkrinu með vinnukonunni út í fjósið. Svo er hitt, maður verður að vera ósérplæginn eins og haustið, sem sáir legíónum frækorna þar sem ekki nema eitt nær að frjóvgast. Fyrir hverja eina línu, sem lifir mann, fara líklega þúsund í ruslakistuna.

Lestu í málið, ef þú annars getur lesið nokkuð. Reiðstu mér ekki, en kenndu í brjóst um mig, sem ýmist skrifa með gleraugum eða gleraugnalaust, milli heygjafa og brynninga. — Og vertu svo blessaður og sæll.

Stephan G. Stephansson.

*J. Magnús Bjarnason.* Tindastóll, Alta, 30. apríl 1899.

Góði vinur. — Reyndar hafði ég ætlað að draga að skrifa þér, þangað til ég gæti talað um eitthvað annað en sjálfan mig; ég hefi ekkert gaman af að segja þér, að það hafi verið hríð í dag, né að nú séu sumir farnir að veiða og ég hafi borðað fisk, en svo veit ég ekki neitt eftirtektarvert úr nýjum

bókum, svo allt bréfsefnið verður að lenda á mér. Skárri er ég þó en bölvuð ótíðin og beingarðurinn í sugfiskinum.

Jæja, fyrst fékk ég fáeinar línur frá þér, svo *Ljóðmælin*, viku seinna. Ég þakka hvort tveggja kærlega. En hjónaskilnaður póstsins á bók og bréfi féll mér illa, greinin mín dróst úr hömlu fyrir það, ég bjóst við þig mundi gruna, að ég væri að svíkja þig í tryggðum, og ég hálfkveið, að einhver „bókabéusinn“ eystra yrði fyrri til sökum nálægðar og tæki vindinn úr seglinu fyrir mér, ekki að hann næði því, sem ég mundi segja, heldur alþýðu-eyranu á undan mér. Svo kom bókin. Ég ásetti mér að reyna að gera þetta. Finna einkennið á þér sem skáldi og marka þig til aðgreiningar frá hinum sauðunum sanna af kverinu þínu, að þetta væri þitt mark, finna hreinskilnislega að, en aðeins svo, að það væri bending, sem þú gætir skilið og hver, sem bækur les með athygli, án þess að leggja mig í neina framkróka um að koma alþýðu í skilning um hvert smáatriði, sem mér þætti fara betur. Ég hefi séð þess dæmi, að séu þess háttar gallar teknir mjög skýrt fram, verður það alþýðu afsökun að líta ekki við bók, einmitt af því hún grípur æfinlega smámunina betur en heildina. Svo er hitt, ég er bæði illa að mér sjálfur og ófyrirleitinn með allan þenna „útvortis“ búnað. Þó ég kannist við, hve ógnar mikla „þýðing“ hann hefir, kann ég ekki við að vera svo harður við aðra, að ég hýði sjálfan mig, komist ekki nema fáa þumlunga áður en ég hrasa um mín eigin lög. Slettótt mál finnst mér ekki jafn ill íslenzka hjá þeim stýl, sem allur er ein „lulla“, hvorki lipur né þá heldur kjarnyrtur. Frá þessu sjónarmiði ætlaði ég að skrifa greinina um „Ljóðmælin“ þín, og gera það svo vel og skemmtilega sem ég gæti. Það er skrítið, en ræða eða grein flutt fyrir almenningi hefir minni áhrif, ef hún er fastbundin við efnið, jafnvel þó hún sé snilldarlega gerð. Það er eins og það sé betra að fara útúrkróka við og við, aðeins að sjá um, að þeir liggi aftur inn á brautina. Menn segja sem svo: „Ja, það er þægilegur maður þessi Stefán, ég held ég megi kaupa „Ljóðmælin“ hans Magnúsar“! Svona hugsunarfræði er kannske gölluð, en svei mér ef hún er ekki almenn.

Annars vil ég láta þetta verða seinasta og fyrsta skiptið, sem ég legg opinberan dóm á ný skáldskaparrit. Ég trúi sem sé, að það sé neyðarúrræði, að þeir þurfi að dæma um þess

háttar, sem sjálfir fást eitthvað við það. Það fer bezt, ef það gerir skáld, sem aldrei hefir sjálfur ort, fagurfræðingurinn. Hvert skáld fylgir sinni „stefnu“, sem hann er „innlífaður“. Mælisnúra skáldskaparins er óendanleg, eins og hann sjálfur. Hver okkar á sinn spotta af henni og trúir stundum, að það sé snúran öll. Svo er hitt, sé nokkuð til í manni af embættisríg eða afbrýðissemi, er tækifærið of freistandi; jafnvel þó maður reyni að vera óvilhallur, kemst maður ekki hjá grunsemi annarra. T. d. stefnumunurinn: Þú ert „realisti“, segirðu. Nú, ég er það ekki, nema hálfgert, þó ég kannist við ósköp mikið gott og fagurt í „realismanum“. Mér finnst það ekki skáldskapur, þó maður telji upp viðburðina hárrétt, eins og þeir koma fyrir í lífinu, það er saga, sönn árbók, mikils virði auðvitað. Skáldskapur er það að hrífa einkennissálir, útskýrandi viðburði, út úr þessari hrúgu af sambandslausu rusli, lífinu, flokka því, til að lýsa fyrir einhverri hugsjón, en ekki svo höfuðprestslega, að hún verði að kreddu, eða maður fari að prédika hana. Auðvitað, mennirnir og viðburðirnir eiga að vera alveg eins náttúrlegir og á sér stað. Þeir eru úrval höfundarins úr sannleikanum, til að skýra hugsjónina og listina. Þetta er nú mín „kredda“, en að hún sé óskeikul, dettur mér ekki í hug. Að hún sé eins tæp á sinn hátt eins og „realisminn“, veit ég. Einni hársbreidd of langt á þessari stefnu, og maður er orðinn siðferðiskennari, en ekki skáld. „Guð gefi, að hann Jón minn hafi farið vel, hann var svo fjarska breyskur“, sagði kerlingin um manninn sinn dauðan. Hún gat ekki gleymt því, að honum hafði einu sinni þótt vænt um eina vinnukonuna þeirra. — Á mánud. var kom ég heim kl. 2 um nóttina, þreyttur af að berja á sléttueldi. „Pósturinn“ minn var kominn, fyrst las ég bréfið þitt, svo ritdóm „Snæs“ og þarnæst „Stjórnartíðindi“, kafla um vegamæling úti í óbyggðum, á svo vandræðalegri ensku, að fádæmi var, aðeins sá þar svip af vinum mínum, öræfunum, eyðiskógunum og heiðavötnunum. Hvað mér þótti vænt um, að ég hafði ekki meitt tilfinningar þínar í greininni minni. Ég hálfkveið fyrir því, ef svo færi, ekki sízt vegna þess, að ég hefi gert þér órétt í glánaskap einu sinni áður. Því er svo varið, að oft þegar ég skrifa kunningjum mínum bréf, dettur upp úr mér hending um nýjustu viðburði, sjaldan er það nú gert í fullri alvöru, tilraunin er að segja einhverja hugsun, sem ég hefi getað glott að sjálfur.

Fyrir löngu síðan varst þú að verja gömlu „Torfu“ Holm á móti einhverjum dómara (Ég man ekki, hvort það var Jón Ólafsson), mér hálfgramdist við þig, því það er „kerling“, sem ég legg smátt upp úr sem skáldi. Hún er sómi kvenfólksins sem fjölhæf kona og fróð, en í skáldskap lítið annað en leirburðartröllskessa, eða *mér* finnst svo. Ég var að skrifa kunningja mínum bréf — ég man ekki hverjum — ég gerði um þig vísur eða vers — ég man ekki hvernig eða hve mörg, nema þau voru tannhvöss eins og ég er stundum. Svo er ekki meira um það. Ég bara segi þér þetta, ef að einhvern tíma (kannske þegar ég er dauður) einhver skrattinn kynni að grafa þessar stökur upp, þá hefir þú bréfið að tarna til að bera fyrir þig, vitnisburð frá fyrstu hendi um, hvernig á þeim stendur, svo þér verður síður bylt við. Verðum við komnir inn á Ódáinsakur áður en „þetta mun ské“ (sem líklega skeður aldrei, fremur en dómsdagur), þá stendur okkur báðum á sama. Þar kvað ekki einu sinni þurfa að varast orð og gerðir og illar hugrenningar, hvað þá annað.

Jæja, Magnús minn, ég óska þér lukku með „Ljóðmælin“ þín, á allan hátt. En ekki máttu taka þér nærri, þó einhver hörð „krítik“ kunni að taka þig í lurginn. Manstu eftir forfeðrum okkar, gömlu galdramönnunum, sem lærðu meira af einu blaði í Rauðskinnu, sem þeir náðu með kvölum, en af öllum Gráskinnunum, sem þeir höfðu átt áður. Það er eins með vægðarlausa „krítik“, hafi sá, sem fyrir henni verður, stillingu til að athuga, hvar hún er sönn, og færa sér það í nyt. Þegar „Úti á víðavangi“ kom út, reyndi ég að koma til tveimur andstæðingum minnar stefnu — E. Hjörl.s., sem þá var að verða íhaldsmaður í skoðunum, og Þorst. Gíslasyni, sem lagði svo mikla áherzlu á liðleik og mál og vegsamaði Torfhildi — ég fékk bara almenn hólsyrði og á eftir að fá allar útásetningarnar, þegar dagurinn er liðinn og ég hefi ekkert gagn af þeim lengur.

Auðvitað er ég Frímanni þakklátur og veit, að þessi gífuryrði taka vel hjá fólkinu, en ég er hræddur um þau hefni sín, eins og hver önnur ofspenna. Hví getur ekki hann og Þorgils Gjallandi — í „Bjarka“ — sagt mér hlýlegt orð, án þess að upphefja mig til að minnka aðra?

Já, ég las ritdóm „Snæs“. Í næsta bréfi þínu, segðu mér allt,

sem þú finnur í honum, hreinskilnislega (ég skal ekki flíka því), svo skaltu fá mína skoðun næst, jafn einlæga.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*J. Magnús Bjarnason.* Tindastóll, Alta, 1. okt. 1899.

Magnús minn góður. — Ég lá flatur í koddalausu rúminu, eins og saltþorskur á tunnubotni, þegar mér barst seinasta bréfið þitt. Ég gat sem sé ekki öðruvísi verið, svo vel færi um mig, ég hafði teygzt í baki við að lyfta spýtu, tekið nokkurra augnablika kast nóttina á eftir og komizt inn í bæjargöngin á öðrum heimi, að fólki sýndist, en það hefir víst verið utarlega samt, ég hvorki heyrði til heimafólksins inni né sá glampa af baðstofuljósinu. Í nokkra daga var ég þó eftir mig, og mikið dæmalaust kom mér vel að fá bréf frá þér á sængina til mín, beztu þökk fyrir það.

Þú baðst mig að skrifa þér fljótt. Nú eru tvær vikur síðan ég fékk bréfið og ég er kominn þetta á leið með svarið, sem þú sérð. Eftir mínu tímatali er nú þetta fljótt. Ég og forsjónin förum eftir sama almanakinu víst stundum, þegar ég þarf að skrifa bréf, en hún að bænheyra.

Jæja, minn góði, ég hefi ekkert bréfsefni, og þó er þetta þriðja bréfið, sem ég skrifa í dag, en langömmur okkar hrærðu flautir, þegar „búsvelta" var, og fylltu samt askana. Ég vil ekki vera ættbálki mínum í gröfinni til minnkunar og fylli svo arkið til þín einhvern veginn.

Seinustu „Nýju Öldina" hefi ég ekki séð, annars læzt hún vera djúpfróð aðeins og rammvísindaleg og lítið fjalla um skáldskap að svo stöddu, sagði fyrsta blaðið. Ég hafði hálf gaman af því og fannst hún þurrari á bragðið en nokkurt blað byrjaði hjá Jóni áður, sem ég hefi séð, en svo var þar samt margt gott, eins og æfinlega. En ekki vildi ég harðloka alþýðu-riti fyrir öllum skáldskap, fremur en að hlaða byssu púðurlaust og búast við að hitta. Skáldskapur er auðvitað ekki allt skotið í orustu mannsandans, en hann er oft það, sem fyrst kviknar í. Bréfið, sem ég skrifaði Þorsteini, kom aldrei til skila. Ég sendi honum kvæði, en allt hefir drukknað.

Mér er ánægja að því, að Dakota-menn hafa keypt bók þína

vel. Ég átti þar alltend góðan vinaflokk, sem einhvern veginn höfðu traust á mér, en líka andstæðinga, sem nú láta vinalega sumir. Það er um að gera að lifa af sér róg og misskilning, ef maður getur. Annars nær hól sumra um mig engri átt, þó ég auðvitað sé þakklátur fyrir það og geti ekki mælt það af mér opinberlega, eins og gefur að skilja. Það lítur út eins og vanþökk við vini sína. En lofið vekur öfund og hártogun hjá þeim, sem eru að reyna að amla í sömu átt og ég. Þeim finnst enginn taki eftir sér fyrir andskotans buslinu í mér, en hamingjan veit, að ég hefi enga löngun til að færa þá í kaf, ég sigli minn eiginn sjó, hvort sem þeir eru til eða ekki, á enga sök við þá, þó ég strandi. Eins vil ég, að þeir geri. „Snær" ritar varla svo grein, að hann ekki skjóti að mér olnboga, út í loftið og á bak við málið. Ég auðvitað skil það, en svo verður hann að ganga nær, eigi hann nokkuð vantalað við mig.

Jón Einarsson þekki ég ekki og veit engin deili á honum né hann á mér. Hann ritaði langt mál um orðabækur og nýyrði eitt sinn í „Lögb.", að mig minnir. Ég er hræddur um, að hann sé einn af þeim, sem heldur, að tungumálið allt sé bara málfræðin og orðabókin, kannske ófullkomin og illa lesin, en ekki búningur lifandi hugsana, með fortíð og framtíð. Annars veit ég ekkert í málfræði og hefi aldrei af því látið, en ég sé stundum í hendi minni, hvað sé rétt og rangt, fari vel eður illa, og get kannske gert öðrum það skiljanlegt, ef að kreppir. Við Jón er ill-eigandi, hann hártogaði, líklega af einfeldni en ekki illvilja, gat ekki varið það, sárnar svo sem von er og reynir að hefna sín með glósum og dylgjum, það er allt og sumt. Slíkt er nú stinn málfræði.

Ég held „Family Herald & Weekly Star". Það er að mörgu leyti gott og nytsamt blað, en siglir of nákvæmt almenningshófið til að vera vekjandi. Það er ekki nógu vekjandi, býður manni ekkert djarft og nýtt né annað en þá höfunda og hugsanir, sem tíminn er búinn að viðurkenna. Þetta er samt ekki hallmæli um það, þvert á móti, sem dagblað er það eitt hið óhlutdrægasta, vandaðasta og fróðlegasta. Svo les ég „Open Court" og allt annað íslenzkt og enskt, sem ég næ í og kemst yfir.

Heyrðu, þú hefir ekki haldið, að ég vildi, að þú útvegaðir mér „Poet Lore". Ég þakka þér auðvitað, en slíkt fór fjarri, ég ætlaði að reyna blaðið sjálfur, en benti þér á það og hafði

tvennt í hug. Það flytur þýddar sögur eftir erlend afbrögð. Er hvergi vegur fyrir þá, yngri bókavinina mína, sem íslenzku unna og enskuna kunna, hugsaði ég, til að vekja innlent athygli á okkar bezta, segjum Gesti, komast í kynni við blöð, og upp úr því, ef til vill, ná sæti fyrir sitt eigið. Hin hugsunin var sú, þarna getur Magnús kynnzt nýrri skáldunum, Björnstjerne, Sudermann o. fl. Hver veit nema honum verði það til góðs. Magnús er ágætlega víðlesinn í skáldskap og honum góðum, en hann er tæplega „up to date", að ég held. Skáldalandið er eins og Ísland, tómir firðir og víkur, eitt skáld ræður yfir hverri, stundum tvö eða fleiri. Enginn er konungur yfir því öllu. Mér hefir fallið bezt við þá yngstu, sem fyrst byggðu í afskekktustu fjörðunum, sem enginn vissi áður af. Þeir kunna að þykja hvassyrtir, en þeir eru hressandi eins og fjallgolan og hjartagóðir eins og sólskinið og geta spennt strengina á kletta og klungur. Ég hefði gaman af að sjá Magnús í „slagtogi" með þeim.

Fyrirgefðu þessar hugrenningar, ég gat ekki að þeim gert. Og svo býð ég þér góða nótt.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Jón ritstj. Ólafsson.* Tindastóll, Alta, 11. okt. 1899.

Góði vinur. — Það er liðugt ár síðan ég skrifaði þér langt bréf og leiðinlegt, en þú hefir ekkert undan því kvartað við mig enn, svo að ég er nærri óánægður, eins og fyrirtæki mitt hefði misheppnazt. Spauglaust, ég sendi þér bréf og langa ljóðaþulu í fyrra haust, en veit aldrei, hvort það hefir komið til þín. Þulan hét „Á ferð og flugi", hún var nokkuð „laus í bandinu", illa stafsett og greinamerkt, en mér fundust vera notandi sprettir og kippir í henni, þó þráðurinn væri mjór og „bláþráðóttur". Fékkstu þessa „sendingu", og verður hún notuð til nokkurs? Tvær, eða svo, línur frá þér, þó það sé bara „skömm í hattinn" fyrir þuluna, gerðu mig rólegan, ég hefi þó ögn upp úr því.

Hafir þú annars ekki fengið bréfið mitt, þá var eitthvað, að mig minnir, í því, um að mér þætti alltaf hálf vænt um þig, ekki einungis fyrir það, sem þú hefir oft sagt gott um mig, heldur líka fyrir margt annað gott, sem þú hefir sagt. Mér þótti skemmtilegt að lesa „Milli skers og boða", og greiði

ég þó alltaf atkvæði móti „miðluninni“ ykkar, þegar ég og hólarnir hérna sitjum að þinga um Íslands mál, en á Valtýskuna „hræki“ ég, eins og Frakkar hrópa að eigi að gera við drottins „úrvöldu“ (ekki útvöldu), Gyðingana. Langbezt af öllu fannst mér þó grein þín um list og nytsemi í skáldskap, út af sögum Guðm. Friðjónssonar. Það var afbragð, svo vel og satt leyst úr víðtækri spurningu, sem flestir flækja. Svo fórst þér svo dæmalaust góðmannlega og umhyggjusamlega að koma fótunum undir Munda okkar, sem Einar Hjörleifsson er að smáflangsa í, og slasar sig þó stundum á því. Margt var gott fleira og skemmtilegt, kvæði þitt í „Bjarka“ og allt, sem þú hefir sagt um Filipseyja-málið. Ég er ekki að segja þér þetta, af því ég hyggi, að minn dómur um það sé neinn úrskurðardómur, en það gleður mann stundum að fá að vita, að einhverjir menn séu þó til, sem skilja það, sem menn eru að segja þeim.

Tímarit þitt, „Nýju Öldina“, hefi ég lesið, hún er fróðleg og skynsöm, eins og slíkri vitsmunakonu sæmir. En mér finnst ég sakni þar fjörs og andagiftar, og þar beri oftast meira á kennaranum en spámanninum. Ég óska þér og henni langrar og góðrar sambúðar.

Hér í Vesturheimi er árferðið gott, en stjórnirnar safna skuldum. Innra aldarfarið er alls staðar eins, hermennska og yfirgangur, þeir kalla það, trúi ég, „imperialismus“, og endir hans er mannblót og einstaklinga offrið, eins og í Dreyfusmálinu á Frakklandi.

Við Íslendingar, sem vestur höfum flutt, erum orðnir eins ríkir, frægir og heimskir eins og við nokkurn tíma verðum í þessu lífi. Við aðeins skiptum nú gömlum lömpum fyrir nýja; fáum nýja, illa lærða andríkis- og gáfnaleysingja fyrir presta, en óvandláta og meinlitla, ef þeir hafa stóran söfnuð og nóg að éta. Þeir eru einmitt eftir alþýðu hjarta. Úr hinum gömlu, betur að sér gerðu í öllu, nema trúarofsanum, er nú óðum að draga, alþýða hefir víða ímugust á þeim og guð slær þá með sjúkdómum og öðrum þjáningum í viðbót.

Nú skal ég ekki tefja þig lengur, en líði þér alla daga vel.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Jón ritstj. Ólafsson.* Tindastóll, Alta, 11. des. 1899.

Góði vinur. — Bréf þitt dags. 9. næstl. fékk ég með næst liðnum pósti, 6. þ. m. Hvort ég sé ánægður með meðferð þína á okkur „Á ferð og flugi“ máttu geta nærri, þegar ég segi þér alveg eins og er: Hún er öldungis óvænt, ánægjan, sem þú hefir gert mér, og sem ég get ekkert lagt í móti, nema alúðar þökk mína Ég sendi þér þetta kvæði í fyrra að gamni mínu, og Þorsteini okkar Bjarka nokkur stef, sem síðan hafa verið prentuð í „Kringlu“. Ég mun hafa sent bréfin til ykkar nærri samtímis, líklega í „fyrstu snjóum“, þegar ég treystist ekki úr húsaskjóli. Stefin til Þorsteins Bjarka komu hvergi fram, hefi ég heyrt, þau hafa annað hvort ekki þolað sjóganginn eða öræfaloftið á póstleiðinni heim. Svo datt mér í hug eitt sinn í haust, hvort „Á ferð og flugi“ hefði reynzt sams konar lestamaður og kafnað undir nafni. Þá rauk ég til og skrifaði þér fyrirspurnina og ætlaði þá, ef þú gætir ekkert úr sendingunni gert, eins og ég bjóst við, að sletta því einhvern tíma í vestanblöðin okkar, þau dekstra mig stundum til uppfyllingar og eru fáráð, tetrin, og öðru nær en ég þykist ofgóður að gera þeim greiða, ef ég gæti í nokkru, ef þau aðeins hefðu þá æfinlega sæmilegt vit og vilja til að laga heldur en lýta fyrir manni, það sem í upphafi er lýtavert, oft á tíðum, og aldrei má verra vera. Svona er nú sú saga um allar mínar vonir og ætlanir um „Á ferð og flugi“. Í hjartans einlægni, Jón, eintökin, sem þú talar um að senda mér, þigg ég auðvitað með þökkum, verð hróðugur af þeim, ekki að öllu leyti vegna „centanna“, sem fyrir þau fást, því ég hefði orðið það nokkuð samt, þó þú hefðir aðeins sent mér eitt eintak eða ekkert. Ég held þú megir senda Halldóri bóksala kverin, sjálfur er ég langt út úr allri bókaleið; Magnús nenni ég ekki að ónáða, ég sé að hann hefir alls staðar smeygt sér úr bóksölu. Ég geri samning við Halldór svo fljótt sem ég get, borga toll og burðareyri á kverunum, það er að segja, þú verður líklega að sjá um burðargjaldið fyrst, en láttu mig vita, hversu mikið það er, og ég skal endurborga það við hentugleika. Svo læt ég það mál gleypt en ekki gleymt, að sinni, því þú mátt vera viss, að ég hefi vit á því, að þér hefir farið drengilega við mig í svona löguðum viðskiptum, bæði

fyrr og nú, og hafa þó aðrir reynzt mér vel, eftir efnum sínum og framkvæmdum.

Þá er hitt málið, um útgáfu ljóðakvers eftir mig. Ég skal ekki vera margorður um tilboð þitt í sjálfu sér, ég er meira en ánægður með minn hlut af þeim skiptum, hagsmunalega, og geng að því, en frá minni hendi verður kversefnið svona:

1. Nærri allt, kvæði áður prentuð á víð og dreif í blöðum —
2. og í handriti, sem þyrfti mikillar lagfæringar, að stafsetning og greinamerkjum —
3. og sem ef til vill ekki gæti orðið nógu snemmbúið frá mér.

Ef við getum klifið þessa þrjá hamra milli okkar með einhverju lagi, svo þeir standi ekki í vegi, þá er ég til að mínu leyti.

Sendu mér fáeinar línur með fyrsta pósti, gefðu mér sem lengstan tíma að búa út handritið að þú getur, þér að hallalausu, og segðu mér, hve margar línur, á að gizka, að prentörkin taki eða blaðsíðan í áttablaða-brotinu, ég reikna það kannske vitlaust, því ég er nærri eins ókunnur prentsmiðjum eins og himnaríki. Ég hefi aðeins séð bækur, sem komið hafa úr prentsmiðjum, en aldrei hitt engla, sem áreiðanlega höfðu átt heima í himnaríki. En svo ætla ég á meðan að róta í mínum andlegu fjársjóðum, tína þá saman og raða þeim í kesti hjá sjálfum mér.

En heyrðu, ég held helzt þú verðir afskiptur með heimaríkið eitt, að minnsta kosti í bráða hönd. Það, sem hér seldist af kveri mínu, seldist fljótt og ég held nokkuð vel, ef lag væri á útsölu og kirkjumenn annað hvort svæfu af sér róður eða kæmust ekki að með laumvinnu. Mér er sagt, að sumu yngra fólki sé hlýtt til mín fyrir sumar vísur eftir mig, hvað sem í því er; en nokkrir mundu eflaust láta mig njóta þess, að ég er Vestur-Íslendingur, sem ögn hefir verið hælt, og kaupa mig sem sýnishorn af afurðum landsins. Ég hefi heyrt, að Manaskálar-Sigurður okkar hafi selt 300 eintök af sinni syrpu í Winnipeg einni, en svo eru ljóð hans svo mátulegur allra flokka hugljúfi, að þau eiga sér engan andlegan vin né óvin og því svo útgengileg. Ég kann ekki við að láta þig vera nýlendulausan á þessari ríkisaukaöld. Ég vil, að þú hafir t. d. Minnesota og Chicago, semjir við einhverja, sem þú þekkir þar, borgir mér ekki nema mest ⅜ af upplaginu og ég sleppi engu af mínum bókaher inn yfir þín landa-

mæri. Annars er ég hálfgerður gjöreyðandi um kvæðin mín og gæfi aldrei neitt af þeim út, ef ég fengi að gert, ég er óánægður með þau, þau eru aldrei það, sem ég ætla þeim að verða. Ég kvæði þau svona, eins og ég hefi gert, við samtíðarmennina í dagblaðinu eða tímaritinu, rétt til daglegs viðtals, og styngi þeim í eldinn um leið og ég kveddi, ef ég gæti. En svo er það ógerleg grilla aðeins; maður nær því ekki, sem dreift er út af veðri og vindi. Einhver kann að tína það saman á annan hátt en maður kýs, löngu seinna, og sá, sem maður sízt vildi Nei, maður er aldrei fjár síns ráðandi, þó það heiti svo, Þig kýs ég mér fyrir forleggjara, einkum ef ég vissi, að þú slyppir frá því með hag, en ekki halla. Að svo er fyrir mér, kemur ekki af því, að maður trúi alltênd vinum sínum bezt fyrir sér, heldur líka hinu, að þú kannt manna bezt að lagfæra einmitt svona ritningar, sem verst er að leiðrétta af öllu, sem skrifað er, og svo finnst mér þér æfinlega, framar öðrum, sýnt um snoturt útlit. Sjálfur er ég ánægður, ef ég slepp hallalaus frá öllum kvæðaskap og bókagerð og get sungið með góðri meðvitund: Ekkert grætt og ekkert misst. Fárra dollara hagur væri happ, sem ég auðvitað þigg, en tel ekki upp á. Af þessu sérðu, að samvizka mín er járni varin og getur ekki lekið, hvernig sem okkur tekst. Kostnaður minn getur ekki orðið stór, ofurlítill tími við skriftir, bara ef ég get nurlað hann nógu fljótt út úr árinu sem kemur.

Nú er andlegt hrakviðri í Manitoba, — fylkiskosningar. — Það er enginn efi, að Manitoba væri það stundarhapp að minnsta kosti, ef Greenway-stjórnin félli. Sigtryggur og Baldvin sækjast enn á í Nýja-Íslandi, sem er geymt þangað til viku seinna og kosningum í flestum öðrum kjördæmum er lokið. Þar verður fallegur leikur, ef svo færi, að Nýja-Ísland gerði út um flokksmun á þingi. Sigtryggur býður að gefa með sér bæði á vatni og landi, ef kjördæmið visti sig til fjögurra ára þingmennskunnar aftur — járnbraut til Nýja-Íslands og bryggju á Gimli. Seinna veit hvað gengur!

Ég held ég megi segja þér skrítlu af Moritz lækni, ekki þvottakerlingasögu, heldur reglulega sanna spaugsögu. Moritz er merkilegur andi, og víst sú amalegasta flís í holdinu á kirkjufélaginu stundum, mest prestanna. Hann er sára-trúlítill, en sækist ekki eftir neinu eins og félagsskap við presta og altarissakramenti á kirkjuþingi. Hann hefir í heitingum

að sprengja kirkjufélagið, en skreytir og gefur til kirkna rausnarlega. Hann er duglegur og djarfur læknir, sem enginn íslenzkur prestur kemst af án, því þeir verða allir heilsulausir, og þó er hann geigvænlegur, hann tæki sér það ekki nærri, þó honum fipaði um hársbreidd í uppskurði, svo hann skæri að ófyrirsynju ólánseyrað af hjartanu í bezta prestsskrokk, heldur en þó honum misheppnaðist að tálga hrífutind. Moritz er alveg óhjákvæmilegur og þó er hann svo ferlegur. Í sumar lét hann kjósa sig kirkjuþingmann í Garðarsókn, enda var það auðgert, því þar stendur ríki hans vel meðal vanheilla Berglinga. En svo var Moritz ekki ánægður með það. Hann er þaullesinn í grundvallarlögum kirkjufélagsins og sá, að þau bönnuðu hvergi, að sami þingmaður mætti fyrir margar sóknir, allt þingið gæti líka orðið einn maður, samkvæmt lögum, sem líka væri vafningaminnst. Hann rauk því í Hæðasókn séra Jónasar Ara, sem þú nefndir „fjósamanninn“ einu sinni, kom sér þar í kjör líka og nærri steypti Ara sjálfum í hans eigin þinghá. Nú kom á þing. Ari kærði Moritz þegar í byrjun þess fyrir ófræging við sig og vildi fá hann rekinn af þingbekk. Þingmenn greindi á um málstaði og vildu sumir reka báða sakaraðila og hreinsa svo þingið. Þó fór svo á endanum, að goðorðið var dæmt af Moritz; hefir hann víst goldið þess, að hann var maður óvígður. Moritz undi illa sínum hlut, brá við þegar, kvaddi kjósendur sína kringum Garðar til fundar við sig og sagði þeim sem var, að fulltrúi sjálfra þeirra var af þingi rekinn og byggð þeirra mikill óréttur og óvirðing gerð. Nú eru Garðarmenn stórlátir mjög, telja sig höfðingja í guðsríki í Ameríku og hvarvetna. Er mér það kunnugt, sem sjálfur hefi staðið í flokki þeirra í viðlíkum málum. Reiddust þeir nú sem von var og endurkusu Moritz til þingsetu með miklu fylgi. Nú fær séra Björn Minnisóti pata af þessu þar á þingi, en hann var forustumaður þess. Bregður hann þá nokkrum innan-héraðs-ríkustu Garðarbúum á einmæli og tjáir þeim, að til vandræða horfi, sé því ei afstýrt, að Moritz sæki þingið. Muni þeim yngri prestunum um það kennt, er nú hafi þingleiðslu, meðan hinir eldri klerkar ríði út norður á Íslandi. Lagði hann mjög að þeim að fá doktorinn ofan af slíku óráði, en þeir hétu loks góðu um. Varð það og að tilstilli þessara manna, að Moritz lét þingför sína hina síðari falla og sat um kyrrt. Hefir hann

eflaust séð, hvílíkt óráð það var að fjarlægja sig svo hugum hinna ríkustu manna í læknishéraði sínu, sem fæstir gengu heilir til skógar og bráðum kynni að steyta uppskurði næst. Lauk svo því máli.

Eitt skipti í haust fann Moritz upp á því að rjúka norður á Garðar, slá upp mikilli drykkju fyrir bændur þar, sem átti að vera gullbrúðkaup foreldra hans. Hann bauð 100 bændum, en aðeins þremur konum, og sá ósköp eftir að hafa gleymt að bjóða öllum hinum, sem heima sátu. Svo skaut boðsfólkið að lokum saman 100 dollara gjöf til gullbrúðhjónanna, gamla Halldórs Kristjáns og „beðju“ hans, hvað sem hún heitir.

Nú er ég víst búinn að kjafta þér til leiðinda, enda er pósturinn á förum.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*J. Magnús Bjarnason.* Tindastóll, Alta, 23. des. 1899.

Magnús minn góður. — Það er víst orðið mál að hreyfa sig og þakka fyrir góðgerðirnar, ég meina bréfin frá þér og *Poet Lore*. „Hérna er handarskömmin“ fyrir það allt. Í liðlangt sumar og haust hefir heilsa mín verið svipuð ensku sigursældinni við Transvaal núna, nokkuð millifóðruð með skrumi og ýkjum og samt æði gisin, fremur til stáss en slits. Enn er ég linur í dálkinn, en svo ætla ég að sofa mikið, vinna lítið, éta eins og hestur, gleypa Dodds pillur og löðra mig í hvíta „linimentinu“ hans Bole eða Bola ykkar þarna í Winnipeg í allan vetur, og mig grunar það, að sjúkdómum og öðrum púkum þyki ég ekki árennilegur í vor, eftir slíkar „föstur og bænagerð“. „Eiríkur“ þinn „Hansson“ náði mér í rúminu, og þar las ég hann. Ég kaupi „Alþýðubókasafnið“. Ég þakka þér fyrir „Runka“, *gratulera* þér upp á sonareignina, þykir hann mannvænlegastur af lausamálssonum þínum, þeim sem komnir eru úr föðurgarði, las hann með meiri ánægju en ég bjóst við; ég kveið fyrir að lesa hann (ef mér fyndist þér hafa misheppnazt mjög), rétt eins og að lesa nýprentað kvæði eftir sjálfan mig, ég þarf æfinlega að herða mig upp til þess, en verð að gera það til að tína saman prentvillurnar, sem æfinlega úir og grúir af í „Kringlu“ minni, eins og og hnökrar á sölubandi hjá óhöndugri tókerlingu. Þorsteinn Bjarki var þér góður, okkur vestanmönnum má þykja vænt um hann. Dæmalaust

er „Söngvarinn“ fallegt kvæði, þessi brennandi hiti og andlega fjör, sem yrkir mannssálina alls staðar inn í náttúruna. Það er nú það, sem mér líkar. „Guð blés lifandi anda í mannsins nasir“, segir *Genesis*. Það gerir skáldið einmitt við náttúruna. „Sem frostbundin á milli skara“, segir Þorsteinn. Jafnvel þar er líking við mannsandann. Er „Snær“ okkar bráðnaður í hjarn? Hann ætti svei mér nú að bjóða þig velkominn í ríki sitt, skáldsöguna, eða ríða móti þér með miklu glamri og lúðraþyt, til landvarnar. Vel á minnst, mikið snilldarlega mátar Þorsteinn Bjarki mig á aðfinnslu minni á viðlaginu þínu í „Grímur á Grund“, þar sem hann minnist á það kvæði í ritdómnum, því það er svar til mín, og þér til réttlætingar, þó ekki sé ákveðnar talað. Hafi hann beztu þökk fyrir skarpleikann. Ekki sé ég í mitt tap. Hvernig líkar þér *„Poet Lore“*? Mér þykir hún efnileg, víðsýni talsvert í smáathugunum um nýju rithöfundana, Kipling, Daudet, Zola og fleiri. Sænsku sögurnar heldur góðar, einkum æfintýrið, þar á *symbolisminn* svo vel heima. Aftur ganga spurningakverin um sum dauðu skáldin afguðadýrkun næst. T. d. það er ekkert vit að reyna að koma því í hausinn á mér, að rímgallar Brownings séu djúp og hulin list í rauninni. Ég brosi að því, og sama vona ég, að andi Brownings sjálfs geri, hvar sem hann er niður kominn. Ég bið kærlega að heilsa Eggert mínum Jóhannssyni og þakka honum gamalt og gott. Hvað getum við gert fyrir hann? Segðu mér það, stingdu upp á einhverju, ég þekki hann ekki persónulega, skaplyndi hans sem sé. Verður honum enginn hagur í stjórnarbylting ykkar Manitobamanna nú, er hans eiginn flokkur kemst að? Ég þyrði víst að stafa að því við Baldvin prívat, þó það kannske gerði litla hreyfingu. Hér vestanhafs er ofurlítill skækill af óyrktu ritstarfalandi, sem enginn lítur við: Kaflar úr íslenzkum bókmenntum, þýddir fyrir hérlenzk tímarit. Ég er hárviss það ynnist með þoli og seiglu, sem tilraun í hjáverkum auðvitað fyrst, fremur lélegt brauð æfinlega, en ofurlítill hagur og ánægja, þegar fram í sækti. Ég er t. d. hárviss, að *Poet Lore, The Cosmopolitan, The Transatlantic* og önnur slík blöð, sem við heimsbókmenntir fást, tækju um síðir, eitt eða öll, t. d. þýðing af einhverri sögunni hans Gests, og þegar lagið er eitt sinn komið á, gengur allt liðugar og maður gæti fært sig upp á markið við fleira. Lærðu mennirnir okkar gera ekkert

íslenzkum bókmenntum til gagns, meðal enskra, þeir bara stauta aflagða „exegesis“ og húðgengna guðfræði, til að hafa hæglega ofan í sig. Hvernig væri, að við leikmenn reyndum þá? Vanbúnaðurinn okkar er auðvitað illur, en svo er skarpgreindum leikmanni miklu færra ofvaxið í ríki bókmenntanna en hann heldur.

Heyrðu félagi. Í febrúar eða marz verða kannske á gangi hér vestan hafs fá eintök af sérprentuðu kvæði eftir mig. Þó þig langi til að gera mér greiða og segja hlýlegt orð um það opinberlega (sem ég veit ekki, hvort þú gætir samvizkusamlega, því snilldarverk er það ekki), þá slepptu því. Ég skal segja þér hví. Kvæðið verður ekki vinsælt hjá kirkjufólki, að minnsta kosti ekki undir niðri, og þó þykist ég ekki fara að neinu klunnalega, en sama um það, eitthvað kann að bíta. Nú hefðir þú tjón af því að tala hlýlega um slíkt, ég veit það upp á hár. Þú varst ungur og ekki orðinn vopnfær, þegar við eldri mennirnir leiddum saman hesta okkar út af skoðunum, trú o. fl. Láttu okkur klykkja það út og hættu ekki framtíð þinni á hvoruga hlið. Ég vil ekki etja neinum í sumt, sem ég hefi mætt, en þó að leikurinn sýndist lengi ójafn, þá „hlær sá bezt, sem hlær seinast“. Svo ekki meira um það. Það er ekki ómögulegt, ef við lifum báðir út næsta ár til enda, að þú sjáir eftir mig stærra safn af því, sem ég hefi kveðið, að minnsta kosti verður það líklega mín eigin sök, ef það ekki verður.

Heyrðu, færðu hvorki *honorar* í bókum þín sjálfs né peninga í þóknun hjá þeim, sem „forleggja“ þær? Auðvitað er það „prívatmál“ þitt, sem mér kemur ekki við, en sé svo, ferst þeim hundslega við þig.

Það er ekki til neins að bjóða þér „gleðilega hátíð“, ég kem ekki nógu snemma, svo ég verð að láta mér nægja að óska þér tólfmánaða jóla í bráðina.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Jón ritstj. Ólafsson.* Tindastóll, Alta, 10. febr. 1900.

Kæri vinur. — Þrjú bréf hefi ég fengið frá þér, eitt í mánuði hverjum, nóv., des. og jan. næstliðnum. Tvö hefi ég skrifað þér, fyrirspurnina um „Á ferð og flugi“ og svar upp á það, sem þú minntist á, viðvíkjandi ljóðakveri. Hefir þú

fengið það? Síðasta bréf þitt kom með seinustu póstferð hér og eintakið af „Á ferð og flugi“ með. Alúðar þökk fyrir það og allt og allt. Lengra ávarp út af því ætla ég þó ekki að gera í þetta sinn, því það bara skemmdi það, sem ég hugsa og finn til. Frágangur þinn á kverinu er alveg ágætur. Það og Ljóðmæli Páls bróður þíns bera af öllum nýrri bókum íslenzkum að „líkamlegri fegurð og styrk“. Ég vil helzt horfa á „Á ferð og flugi“, en ekki þurfa að lesa það. Ég kvíði æfinlega við að lesa nokkuð prentað eftir sjálfan mig og þurfa svo að reka mig á það í því, sem ég vissi mér hefði mistekizt og var óánægður með. Það er eins og að horfa á mynd af sjálfum sér í þeim fötum og stellingum, sem fara manni verst. Eiginlegar prentvillur hefi ég ekki fundið. Í tveim eða þrem stöðum kannast ég ekki við orð, en hefi ekki rýnt það nógu vel enn. Í „Canada“, sem þú tókst úr „Kringlu“, er ein orðavilla, sem þú ómögulega gazt varazt — þú hafðir leiðrétt tvær eða þrjár, sem ég tók eftir. — Villan er: Hollenzkum anda í óð gaztu birzt. Ég meinti: *Hellenskum* (af Hellas) = forngrískum. Fyrir hug mínum vöktu Vestureyjar — Hesperides — Grikkja, í mótsetningu við Vesturálfu-fund Íslendinga. En svo klaufaði ég, eða „Kringla“, eða þriðji maður enn, setu (z) í orðið: Hellenzkum, eins og það væri dregið af „land“. Það var von, þú læsir það: Hollenzkum, því í því var þó vit, þó það sé annað en ég hugsaði. Allt mitt rusl í „Heimskringlu“ er rambjagað, þó það sé ekki ásetningur hennar. Verst fellur mér, þegar vitleysan kemst í góð blöð heima, eins og „Bjarka“ í fyrra: *Hljómast,* sem ég veit ekki að sé til í máli, í staðinn fyrir: Hjómast (af hjóm), sem að minnsta kosti er skagfirzka. — „Það hjómast varla af ljánum“, sögðum við um snögga slægju. Verst fór þó „Kringla“ með mig nýlega á „Transvaal“ og „Rennes“. Hún jafnvel stakk undir stól heilum orðum og ljóðstafnum með!

Nei, Jón, hann Einar gamli forskrúfaði, Jochumsson, kvað hafa ort um þig heilar drápur og reiðulegar, sem hann var að reyna að fá „Lögberg“ til að prenta. Það eru ný „Biblíuljóð“: Þú ert Golíat, hann Davíð. Það er mæða, að aumingja karlinum datt ekki í hug, að séra Jón væri líkur Sál konungi.

Ljótt er að vera ekki við yrkisefni staddur stundum. Það er í munnmælum haft, að Lögbergingar hafi haft mikla löngun til að snúa einhverju úr „Transvaal“ eftir mig á ensku,

víst til að fýsa að landráðasök á hendur „Kringlu“ og mér, sem líka var hægt, með duglegum vilja og nógu viti. En svo var ekki um auðugan garð að gresja, þegar til „þýðinganna“ kom. Hefði ég verið nær, skyldi ég hafa boðið þeim að taka „accorð“ á útleggingunni, ef þeir hefðu „sómasamlega við mig gert“. Annars kváðu margir vera mér reiðir fyrir þau kvæði og þá batnar ekki, þegar „Á ferð og flugi“ bætist við. „Líf“ séra Friðriks „fær“ víst „nýja fart“ undir linditrjánum — „Unter der Linden“, hann varð að hnupla jafnvel titlinum — næsta ár.

Nú er Greenway fallinn og uppvís. Hann hefir, sem sé, skuldbundið fylkið fyrirfram, upp á væntanlegan sigur og meiri hluta á þingi næst, og þá hefði enginn vitað um neitt. Síðan er komin sú horloðna á pappírinn í „Lögbergi“, að stafirnir líta út eins og nótnamerkin á gamla grallaranum, tómar taðreinar.

Bara að Baldvin fari nú ekki að ráða skúminn hann Sigurð Júlíus fyrir ritstjóra. Ég veit enga von til þess, en ég hefi óbeit á honum, ekki vegna þess eingöngu, að hann prentaði upp „Lögberg“ í „Dagskrá“, heldur af því, að allt, sem hann hefir sagt og skrifað, mætti auðkenna með tilvitnunarmerkjum, sem eyða stæði milli.

Nú er Kristinn okkar Stefánsson, Lögbergingur, í lágum hávegum. Hann og Snæland sagnaskáld fóru að bera verk sín saman og óvinguðust út úr því, sem von var, en Snæland er kallaður meðritstjóri „Kringlu“ og er Tjaldbúðarmaður. Snæland fannst um sjálfan sig, að nú myndi hann ósigrandi, og tók að rita um hagfræði. Þá réðst Clementz frá Chicago móti honum, villumaður, sem þú líklega þekkir, og sem ekki vill gjalda keisaranum skatt af öðru en landi einu, svo brennivín verði tollfrítt. Clementz þóttist hafa þreifað vel um alla grein Snælands til að leita að samhengi og kom frá því tómhentur. Síðan hefir Snæland steinþagað, er líklega sjálfur að leita að samhenginu, en fer hljóðlega, svo hann styggi ekki skepnuna frá sér. Svona eru okkar andlegu straumar vestan hafs, og þó er „Lögberg“ enn verra, tíu sinnum niðurbældara og suddadrungalegra, nema þegar það glennir sig upp í að fúkyrðast.

Jú, Jón, ég las fréttirnar, sem þú ritar fyrir Bókmenntafélagið. Fyrst þegar ég las þær, fundust mér þær betur ritaðar

en áður, svo stór munur var á, ekki lengur langort þingstapp hvers einstaks lands, flækt og sambandslaust, heldur áhrifamál ársins og þjóðanna, skýrð og leidd til réttra raka. Svo hefi ég oft hugsað, að fréttir ættu að skrifast. Ég les allt, sem ég næ í, eftir suma menn — helzt samtíðarmenn — og þú ert einn.

Fyrir eitt gleymdi ég að segja þetta mitt gamla: „Guð laun og slepptu“, n. l. eftirmálann við kverið. Það, sem þú finnur að, er alveg satt og rétt, ég brosi oft að því sjálfur og veit, hvernig á því stendur. Winnipegmenn kváðu kalla mig og Einar Benediktsson „moldviðris-skáldin“, og ég held þeir lofi Kristni Stefánssyni stundum að vera með! En það, sem þú spáir mér, er ég hræddur um, að „embættisbræðrum“ mínum vestan hafs þyki að minnsta kosti oftrú, þó þér sé sjaldan um hana brugðið. „Illa gretta sig Íslendingar þá, er Brandólfur biskup fer til guðs“, sagði Krukkur gamli. En einlæga þökk fyrir það allt saman.

Svo hætti ég að sinni. Ég er allur stirður og stamur eftir fjósstörfin og eldiviðarhöggið í dag, eins og þú sérð og finnur á bréfinu. — Líði þér alla tíma vel.

Þinn einl. Stephan G. Sephansson.

*J. Magnús Bjarnason.* Tindastóll, Alta, 27. maí 1900.

Góði vinur, Magnús. — Ég má til að láta þig vita, að ég sé á flakki og ferli enn þá og hafi fengið bréf frá þér, sem ég þakka, þó það þakklæti sé langsamlega langt á eftir tíð og tíma. Ég hefi verið að bíða eftir næði til að rabba við þig, en það fæst ekki, svo ég rýk á stað með endaslepp bréf og tæpi á einu og öðru. Fyrir nokkru sendi ég þér *„litlu tilviljunina mína“*, kverið mitt „Á ferð og flugi“, fékkstu það? Reykjavíkur-blöðin hafa hamazt á því, þessar fáu arkir hafa gert þar allmikinn þyt. Ég er harðánægður. Allur fyrri hluti ritdóms Einars, um einkennin á okkur Vestmönnum, er tekinn eftir sjálfum mér, úr vísum eftir mig til Matth. Jochumssonar: „Því listin flutti' ei enn þá inn / Á óðul fyrir vestan / Við gætum heldur *hjörinn* þinn / Í hendi greipt og hvesst hann“ — „Svo enginn þurfi að flytja frétt, / Er föllum loks í valinn, / Um Hólamanna *höggin* létt, / Þó höndin væri kalin“ o. s. frv. Það er síður en svo, að mér þyki fyrir, að Einar les mig svona ræki-

lega, er mér svona samþykkur og allt það. Jafnvel það, sem hann segir um *viðleitni* okkar Vestmanna að rita, í samanburði við aðra þjóðflokka nýkomna, sagði ég fyrstur manna í greininni um kvæðin þín í fyrra. Mér er æfinlega sama, hvaðan gott kemur, þó það sé frá *sjálfum mér*. Þú ert samt undantekning, hvað „list“ og „högg“ snertir, og þess hefði Einar mátt geta, úr því hann fór að spjalla svona út um allt. „Þjóðólfs“ greinina gerir það gagnslausa og verra en það, að höfundur hennar vanrækir alveg að ná skynsamlegu höggfæri á mér af ákafanum að skamma Einar og Jón. Allir skamma þeir mig svo hatramlega og vegsama mig svo gífurlega, allt í sömu andránni, að mér þykir vænt um, það er svo hispurslaust og óhikað, að það verður fallega gert, jafnvel þegar logið er. — Jæja, Magnús minn, þeir mega nú skeggræða um „íþrótt“ og „skoðanir“ eins og þeir vilja, sannaðu til, það verður að lokum langlífast, sem er skáldskapur, studdur af glöggum, djörfum siðferðis-skoðunum, íklæddum þeirri íþrótt, sem prýðir, en ekki er rósakögur, aðeins til að hylja í skrælnaðar greinir útlifaðra skoðana.

Í haust eð var missti Canada sinn lang-merkasta rithöfund, Grant Allen, hefir þú lesið nokkuð eftir hann? Ég hefi lesið „The Evolutionist at large“ og „Vignettes from Nature“ og eina eða tvær sögur. Mönnum þótti vænt um hann sem vísindamann, af því hann kom skáldskap inn í vísindin, en svo sneyptu þeir hann fyrir, að hann hefði þurrkað upp skáldskap sinn með vísindum. Sögur hans eru að mínu viti miklu betri en látið er af, en þær eru um efni, sem fæst fólk hugsar um, og svo var Grant Allen vantrúaður. Ég sakna hans. Það eru ljómandi góð tök í þessu nýja Bandamannaskáldi, *Markham*, fljúgandi ímyndun, sem gerir náttúruna að lifandi andlegum heimi, og mannúð, sem gengur til hjartans. En svo dettur hann líklega úr sögunni og fer að „standa með hrossabrestinn í túninu“, eins og Einar Hjörleifsson og öll góðskáld Engilsaxanna á seinni tímum. Ég las *Quo vadis* í vetur, strípladist innan um lystiskógana í Róm með hálfberu og drukknu kvenfólki og fannst lítil „íþrótt“ í því, kynntist Páli og Pétri postula og hefi ekki fyrirhitt öllu ómannborlegri og leiðinlegri „fígúrur“ í ímynduninni (síðan ég hætti að frétta nokkuð af Jóni okkar Runólfssyni), og fannst lítið „víðsýni“ í því, las svo langan og útþynntan kafla um brennu Róma-

borgar og botnaði í engu, nema ef ég hafði séð lofsælan stórhöfund geispa, í því fannst mér lítil „snilld“. Eina bók las ég eftir Balzac, „Faðirinn“. Hann lýsir sálinni svo, að hún sé ein stór ástríða, sem rænir mann að lokum bæði hjarta og heila, þar sem reyndar nokkur „lifandi sál er heima“. Balzac er talinn mestur íþróttamaður franskra höfunda, en sumir segja hann hafi verið mjög lítið skáld. Það getur verið, að þetta sé *list*, einn stór kostur eða ókostur höggvinn í kaldan marmara og skírður mannsnafni. Í mínum augum er mesta listin í að draga upp *líf*, reikula hugi og umskiptasöm hjörtu. Bezta kverið, sem ég hefi lesið, er „Story of an African Farm“, eftir Olive Schreiner. Það gæti verið viðburðaríkara, en ómögulega sýnt betur inn í undirheima mannsandans.

Ég fer nú að slá botngjörðina á bréfið þetta. Alltaf hefi ég verið smáslitinn upp úr því, orðið að hlusta á mál manna um Íslendingadags-útbúnað, málnytu og safnaðartillög, skrifaði fyrir aðra eitt „Timber Permit“ og eitt bréf á banka um peningamál, svo það er ekki furða, þó það leki einhvers staðar með löggunum. Þú verður að drepa í það.

Þegar ég byrjaði, var sólskin og bjartviðri. Mig langaði meira hérna upp á hólana en inn að skrifborðinu. Svo var líka sunnudagur.

Einn að róla sér með sitt
Soll og ólund fyrtir.
Út um hóla er yndið mitt,
Ef af sólu birtir.

Nú er kominn hráslaga-gustur og þykkt loft, og ég þarf senn að fara að sækja kýrnar. — Líði þér vel, Magnús minn.

Vinsamlegast Stephan G. Sephansson.

*J. Magnús Bjarnason.* Tindastóll, Alta, 4. sept. 1900.

Magnús minn góður.

Nú slapir allt niður af slyddu
Svo slakt — fæst ei hljóð í brag —
Því himininn hangir og lafir
Með húðar-regn, nótt og dag.

Og sálin mín morrar í móki,
Og mér hvorki heitt eða kalt. —
Já, forirnar streyma ekki fjörugt,
Í fúlviðri er slepja yfir allt.

Og því er nú það, að þeir, sem æfinlega yrkja helzt um rosa, þoku og vorhretin, eins og hann Einar okkar Hjörleifsson, þó þeir geri það nú með mestu list, eins og hann, verða samt hálf-leiðinlegir, það kemur nöldurs-hljóð í tónana, en svo eru þeir ekki „æsinga-menn“ og „engin hætta á, að þeir strandi“. En varaðu þig samt á því, Magnús. Og komdu nú sæll. Nú er ég eiginlega að byrja bréfið.

Fjandi hefi ég nú dregið lengi að svara þér, eins og vant er. En svo sendi ég „Quo vadis“ með pósti til þín, hann átti að segja þér, að ég væri lifandi. Gerði hann það ekki? Þú mátt hafa hann ár eða lengur, ef þú nennir að hýsa hann. Ég sakna hans ekki sérlega. Ég dáist að mörgum minna en Pétri og Páli postula, og ekki hefði ég gert þá að leiðinda lyddum, sem alls staðar eru í felum, en ota öðrum — nærri því. Það má vera, að það sé list, til að reyna að hefja upp kraft „nýja siðsins“ í þessum ræflum, sem á að sigra á endanum, en mér skilst svo, að ræfillinn verði sjálfur fyrst hetja fyrir hugsjón sína, annars hrifi hann ekki hina ræflana. Guðfræðingar mega dást að þessu fyrir mér og finna í því fjöður í hatt sinn. Ég gerði það ekki, þó ég væri guðfræðingur. Svo er hún maddama Neró, Poppea. Þar er ég samt ekki eins viss, ekki nógu kunnugur sögunni út í æsar. En mig minnir, þar sé ekki fullsönnuð saga, aðeins líklegur grunur, að hún væri sá djöfull, sem „Vadis“ gerir hana. Og hamingjan veit, ég vildi síður rægja dauðar, sögulegar persónur, en lifandi menn. Jafnvel listin verður ógeðsleg með róginn í höndunum. Hún þarf hans ekki við, nema fyrir klaufaskap. Svo ekki meira um það. Nei, Magnús, er það ekki misskilningur, að E. H. sé öfundsjúkur? Ég trúi þér ekki, en þori ekki að bera þetta ofan í þig, af því þú þekkir hann af viðkynning, ég ekki. Í mínum augum er Einar höfðingi, oddborgari (aristokrat) að upplagi, sem í æskufjörinu gleymir sér, hrifinn af nýrri stefnu, verður frjálslyndur byltingamaður um tíma, óafvitandi, í bága við eðli sitt. Hann er ekki andlegt karlmenni, þolir ekki bágt til

lengdar fyrir það, sem aldrei átti þá við náttúrufar hans. Svo kemur afturhvarfið, hann verður flokksmaður hinna ríkjandi skoðana, glöggur um margt og aðgætinn, eins og fyrr, aldrei andríkur og ósanngjarn, ef því er að skipta. Svona stendur hann fyrir mínum hugskotssjónum, en það getur líka verið rangt.

Hefir þú lesið „Story of an African Farm“ eftir Olive Schreiner. Hún er andleg systir mín, eldri og fullkomnari eflaust. Ég sá hana ekki fyrr en í vor. En eitthvað því líkt hefði ég getað skrifað „þá er vér várum yngri“. Ég óska þér til lukku með búkinn af Eiríki þínum, og svo náttúrlega með fæturna líka, þegar þeir fæðast. Um fram allt, gleymdu ekki þessu rólega, skemmtilega, meinlausa háði í frásögninni sjálfri, sem þú nærð víða svo vel í fyrsta partinum og mér þykir vænst um hann fyrir — einn aðalkostur Dickens og — Gests Pálssonar. Undarlega hugsum við Þorsteinn Erlingsson ólíkt. Hann hælir þér mest fyrir að hafa „byrjað á byrjuninni“, eins og íslenzku sögurnar. Ég hefði viljað stytta byrjunina hjá þér fyrst framan af. Hvor okkar skyldi nú sjá réttara — kannske báðir skakkt.

Ég hefi ekkert nýtilegt lesið né gert nú lengi, enda velkist ég allur í „búksorgum þessa lífs“, eins og gömlu guðfræðingarnir sögðu. Ég er hálfleiður á heiminum, öld hugsjónanna er liðin í bráðina, öld ofbeldisins tekin við og við hana hefi ég ekkert gott að sýsla. Af öllum smáþjóðum á að kúga þjóðerni, alheimurinn að verða Rússi eða Englendingur eða Þjóðverji, en það er sama sem að höggva á rætur heimsmenningarinnar. Allar þjóðir, eins þær smærri, hafa lagt henni sinn skerf, sem engin önnur gat gert á sama hátt, einmitt af því þær voru hver um sitt. Ein þjóð eða tvær, og menningin trénast. En svo verður það aldrei, líf og andi gengur aldrei svo sjálft fyrir ætternisstapa, aðeins heimskuleg og blóðug tilraun í bráðina, sem strandar og klofnar fyrr eða síðar.

Já, þá er það. Ég var að lesa dóm „Bjarka“ um kverið mitt í nótt og ég er óánægður við hann. Ekki af því hann hæli mér ekki nóg, ekki af því hann finnur að, en af því mér sýnist hann ekki hafa nennt að lesa mig svo, að hann gæti sagt *neitt*. Ég sleppi kaflanum um leturbreyting, bæði er það nú satt að sumu leyti, svo er það sérstaklega uppáhaldsmál „Bjarka“, hann hefir allténd fælzt við skáletur og upphafsstafi, og svo

geld ég líka Jóns Ólafssonar að nokkru. En ég brosi bara að því, þó ég hafi skömm á að rita langt mál um slíkt, það er svo andlaust og vesallegt, ein eða tvær línur er nóg og kalla það sérvizku, tilgerð, heimsku, hvað sem vill. En það er sú fyrirmunun á því, að þegar hann þykist ætla að sýna gott erindi eftir mig, tekur hann einmitt það, sem mér er minnst um í allri bókinni. Svo rammt kvað að því, hve lítið mér er um það gefið, að ég var að hugsa um að nema það alveg burt og breyta því, þegar ég skrifaði það. Það sem að því er, er, að af öllum vísum í bókinni kemur það næst því að sýnast skrípamynd (karikatúr), dregin af keskni, og skrípamynd er ekki skáldskapur. Hið eina, sem forðaði því frá að vera algerð skrípamynd, er hugsunin um gamlan íslenzkan moldarbæ, sem liggur bak við mannlýsinguna, af því *það* átti ekki illa við hugsunina um andlega ástandið innan í manninum, frá *mínu miði!* vel að merkja (Og *meira* krefst ég ekki). „Hlað-kampar", „burst", „vind-skífur" og „skjár", minnir allt á torfbæinn, og fyrir það lét ég erindið vera. En samt er það með þeim lökustu. Gerir „Bjarki" þetta af smekkleysi — eða hrekk? En svo get ég nú líka glott að því og sagt: „Skýzt þó skýrir séu", eða: „Frændur eru frændum verstir", hvort sem á þar betur heima. En það, sem mér í alvöru fellur illa, er það, að „Bjarki" segir, að kvæðið sé „árás á prestana vestra", því *það* er hauga-vitleysa, tekin eftir Einari, en hjá honum, kirkjuflokksmanni, gekk ég að því sjálfsögðu, því hvar sem honum finnst eitthvað muni verða til að rýra dýrð sinna presta-vina, er honum að mæta, eins áreiðanlega og sandur rýkur í vindi, hvaðan sem hann stendur, en þeir Þorsteinar þurfa ekki að tönnla þetta upp, af því það er ósatt.

Jæja þá, efnið í „Á ferð og flugi" varð svona til, og mér er það kunnugt. Íslendingar hafa týnzt hér oft á sama hátt og Ragnheiður. Við höfum talað um það oft og illa, okkar á milli, einkum um stúlkurnar, en aldrei upphátt. Við höfum skellt skuldinni á einstaklinginn. Svo sezt ég við að kveða um Ragnheiði. Hún er góð stúlka að upplagi. Hefir mikið betur verið lýst tryggð barns til foreldra og heimilis í íslenzkum ljóðum en ég hefi gert hjá Ragnheiði, eða hafi það aldrei bærilega gert verið, er það ekki bærilega gert? Það er einn sá kafli í kverinu mínu, sem mér er annast um. Hví fór sem fór? Hvert var uppeldið? Slitin frá þjóðerni og heima-vana, kristnuð og

fermd að nafninu einu í félagi (kirkjunni), sem mest berst fyrir með öllu móti að fá fólk til að játa og hópa því upp; var við öðru að búast? Í stuttu máli, ég var að reyna að gera ljósari okkar nútíma sögu af stúlkunni, sem Kristur átti að hafa sagt við forðum: „Kona, svo fordæmi ég þig ekki heldur". Og ég jafnvel gaf lesaranum lykilinn að því, með að velja þau orð sem fyrirsögn seinasta kaflans. Ég reyndi að segja ljóta sögu svo, að engan væmdi við, reyndi að forðast allt gróft, allan sorann, án þess að leyna þó nokkru. Það er í mínum augum list, fegurri en snjallasta rím. Þessa sögu sagði ég svo í lausasta formi, sem til er, ferðasögu-formi, þar sem alls konar útúrdúrar eru leyfilegir. Það er kannske ekki bezt valið form, en ég braut það ekki. Svo vafði ég um það vestrænum náttúrulýsingum, eins vel gerðum og ég gat. Mér hefir ef til vill mistekizt. En „árás" á „prestana" er það ekki. Það, sem helzt er „címerað" því til sönnunar, að prestinn væmdi við að vera opinber ræðumaður við jarðarförina, er ekki einungis af því hann er prestur, heldur tilfinningin, sem okkur er flestum sameiginleg, að reyna að standa sem fjærst þeim, sem orðið hafa þjóð sinni til minnkunar, lífs og liðnum, auðvitað, náttúrlega aukin hjá þeim, sem vita, að ætlazt er til, að sjálfir séu öðrum fyrirmynd og reyna að vera Rómverjar með öllum Rómverjum almanna-dómsins. Ég reyndi af öllum efnum að láta prestinn lýsa þessu — því það er satt, — ég vissi fyrir, að þar yrði ráðizt að mér. Einar hefir gert það — og mér kannske misheppnazt. Nú getur þú gert mér stórgreiða. Bók Küchlers kemur út bráðum. Hann hefir heitið að minnast á mig. Ég hvorki mælist til né biðst undan því. Bara tek því með þökkum. Ef þér sýnist nú, að ég lýsi kveri mínu rétt — annars ekki — viltu skrifa Küchler, sýna honum fram á það, svo hann gleypi ekki „presta árásar-fluguna" íhugunarlaust. Hún hefir ekkert út um Þýzkaland að gera og gæti verið, að menn fyndu seinna, að Küchler hefði rétt séð. Ég sendi honum í sumar „Úti á víðavangi" og „Á ferð og flugi", en með gömlu addressu hans, hvort sem hann hefir fengið það, því þá var hann víst fluttur, eftir því sem þú skrifaðir mér. Ekki skrifaði ég honum. Kæra þökk fyrir hefti af „Poet Lore". „Nú get ég ekki lengur", sagði karlinn, sem uppgafst við tólftu grautar-skálina. Eftir mér er beðið. Líði þér prýðilega.

Vinsaml. Stephan G. Stephansson.

*J. Magnús Bjarnason.* Tindastóll, Alta, 29. des. 1900.

Magnús minn, komdu nú blessaður og sæll. Ja, seint kem ég nú „lasm“, eins og og vant er, en samt skal ég nú ná háttum fyrir aldamótin, svo slakur er ég þó ekki, og innilega þakka ég þér bréfið seinasta, en rækallinn hafi, ef ég man, hvar ég geymi það, svo ég er ekki viss, um hvað við röbbuðum. Það er heldur sleifarlag á „kontórnum“ hjá mér, eins og æfinlega, en nú er hann eins og vesturheimsk vitleysu-ábreiða, eða pólitísk McKinley-þýðing eftir „landann“ í „Lögbergi“, eða eins og þar sem „öllu er snúið öfugt þó, aftur og fram í hundamó“. Ég er nýfluttur 3 mílur út úr „lifandi manna landi“, ég meina mannabyggð, á land, sem ég á þar sjálfur — hvar svo sem ætti ég annars staðar heima, mannfælna myrkra-barnið, sbr. seinustu „Aldamót“. Ég er enn ekki búinn að koma sama ólaginu á hlutina hjá mér eins og var, og ruglast í nýja ólaginu.

Nýlega lauk ég við að lesa *„Hypatiu“* eftir séra Kingsley gamla, sem þú þýddir „Sands of Dee“ eftir. Það er ágæt bók, með nokkrum gloppum og mikilli heimspeki, en *hjartað* í sögunni — mannúðin — er svo stórt, að maður fyrirgefur það allt. Nú er ég að lesa „The Master Christian“, eftir Marie Corelli, en er ekki búinn. Þar ferðast maður á þriðja farrými skáldskaparins, ef ekki í „lestinni“. En góð er meiningin og hreinlyndið nóg. En svo er bókin mestmegnis ógurlega langar og skáldskaparlausar vandlætisræður um, hvernig allar kirkjur falsi kristindóminn. Allt saman satt, en þrumað fram andagiftar-laust, eins og Sig. Júlíus eða Ólafía væri að halda bindindisræðu. Þessi nýja María mey er samt trúkona sterk, svo ekki gengur það að. Góðir smákaflar eru þó í „Meistaranum“ og áhuginn brennandi. Þessi bók er nú keypt með ákefð.

Sjálfsagt lýsir þú viðskiptum ykkar E. H. alveg rétt. Ég rak mig á sömu aðferð hans við kunningja minn og „númeraði“ Einar þá strax í huga mínum sem mann, sem að minnsta kosti stundum breytti eftir reglu, sem ég ekki fellst á. Velviljaðir menn kalla þá aðferð „hagsýni“, aðrir kalla það „fals“, en hvort sem réttnefnið er, þá kemur það af „flokksfylgi gegnum þykkt og þunnt“. Kunningi minn reit langa grein um ferð, sem við flestir Vesur-Ísl. höfum farið, ekkert bar við venju fremur og hið gamla og alþekkta var ekki séð frá neinni nýrri hlið. Hann sýndi mér grein þessa. Ég lét hann skilja, eins

hreinskilnislega og hógværlega eins og ég hafði vit á, að greinin væri lítilsvirði fyrir vestanblað og réð honum frá að senda hana. Honum þótti við mig, auðvitað, fylgdi ekki ráði mínu, sendi Einari greinina, fékk neitun, því greinin væri of löng í „rúmið“, en um leið allmikið lof fyrir ritverkið. Kunningi minn sýndi mér bréfið, hróðugur yfir að „reka mig á stampinn“ með áliti Einars á grein sinni, þó hún væri ekki tekin. Ég þrætti ekkert um það, náttúrlega, en glotti kuldalega, sbr. Aldamót, — ég hélt ég þekkti heiminn ögn, þó ég segði ekkert. Og viti menn, nokkru seinna komst þessi kunningi minn í orðakast við Lögberginga, blað-deilu allharða, og *þá* brigslar Einar honum um greinina hans löngu og óteknu með fyrirlitningarorðum. Ég sagði ekkert heldur þá, en glotti kuldalega og „númeraði“ aðferð Einars, eins og ég hefi gert. Ég ann honum samt alls hins bezta. Hvað sem sagt er, íslenzkar bókmenntir eiga „krítik“ hans mikið að þakka, viðleitnin að skilja er oftast nær svo einlæg, þó víðsýnið að dæma sé stundum of takmarkað.

Ekki furðar mig, þó séra Friðrik talaði hlýlega um þig í „Aldamótum“, fyrst og fremst áttu það skilið og þar næst, þú ert ljúfmennskan sjálf, Magnús góður, og hefir ekkert nema gott fyrir þér gert, jafnvel frá þeirra sjónarmiði. Það er öðru máli að gegna um Víga-Barða eins og mig, og sjáðu, hve vel ég slepp þó. Taktu þetta ekki svo, að ég finni að því, nei, þér lætur ljúfmennskan náttúrlegast, vonar mig, og það er heldur ekki vert að fara í „herklæðin“, fyrr en maður er orðinn svo gamall, að maður ómögulega vex upp úr þeim framar. Svo er annað, þeir eru að verða varhyggnari að egna ekki góðar gáfur til mótþróa með óþarfa hranaskap. Það lengist á þeim „lærið“ með lífinu, eins og á kerlingunni. Svo enn eitt, við erum Vestmenn. Þrátt fyrir allt, rennur þeim blóð til skyldu, og er ekki víta vert. Sjáðu, hvernig þeir hálf-hlífast við mig, en forherðast alls staðar við Guðmund Friðjónsson. Ég get litið á öll þessi mál beiskjulaust. Hið eina, sem ég finn að dómi séra Friðriks um þig, er, að hann er of varorður, ekki nógu skorinorður og skýr. Mér þykir dómur hans um mig betri að því leyti, litirnir á honum eru gleggri, hvað sem niðurstöðum líður. Stórgreiða gerir hann mér með að reka til baka — fyrir sinn smekk — það, sem „Þjóðólfs“ G-ið kallaði „tóman leirburð“ almennt. En rangt er það

tilfært, að mér sé „illa við mennina í ljósinu“, þó ég segi, mér sé geðfelldara *rúmt myrkur* en *ljósþrengsli*. Það getur ekki þýtt annað en að ég kjósi fremur frjálsræði við döpur kjör en aðkreppu, þó lífið sýnist þar bjartara. Þetta er misskilið ófyrirsynju.

Já vinur, hví ég leyfði ekki, að þú segðir eitthvað um kver mitt? Af engu öðru en þessu: Ég var hárviss um fellidóma frá vissum, öflugum flokki, ekki af því ég þættist hafa stofnað til þess, heldur af því ég sá, hversu öðrum fór, sem varlegar gerðu, og taldi svo hið almenna sjálfsagt á mér. Utan við það vildi ég halda *þér*, sem ég sá í hendi minni, að yrði flokksmál. Þú gazt ekki talað í *því máli* afsökunarorð til *mín*, án þess að styggja *þá*. Ég vil helzt vita þig vinsælan hjá öllum, að minnsta kosti ekki *sjálfur* stofna til annars. Þú þarft þess, ef úr þér á að verða höfundur. Það er öðru að gegna um mig, sem er bara flökkukarl í skáldskapnum, sem hvergi á heima og kvað svo einu sinni:

Heimtaðu aldrei verðlaun vits,
Vertu á hverjum oddi,
Því skáldið er til skits og slits —
En skeiðs í farar-broddi.

Þetta er nú bara kveðið fyrir mig, en ekki viðbót við almennu boðorðin.

Hin ástæðan mín var, Magnús, að hversu vel sem þú hefðir forðazt að oflofa mig, hefði almenningur sagt: „Fari þeir bölvaðir. Ekkert að marka þá, skjalla hver annan, hafa stofnað sameiginlegt sjálfsaðdáunarfélag, eins og Lögbergs-klikkan gerði, til að halda sér uppi á því“. Nú, ég kann ekki við líkindalega lýgi, þó ég viti hún sé *lýgi*. Hún hefir hvekkt mig og ég vil heldur sneiða úr vegi hennar, öllum að meinalausu.

Svo þakka ég þér innilega, alúðlega, fyrir alla velvild þína til mín. Hið bezta, sem maður ber úr býtum í lífinu, er ef greindum og vænum mönnum verður vel til manns.

Þó að kvöldi um kvæðin mín,
Kvakar fjöldi róma. —
Nýja-öldin eflir þín
Óðar-völd og sóma.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*J. Magnús Bjarnason.* 24. jan. 1902.

Ertu veikur?
Ertu reiður?
Eða hvað?
Þrumi ég smeykur,
Þagnarleiður.
Það er að.
S. G. S.

*J. Magnús Bjarnason.* Tindastóll, Alta, 14. febr. 1902.

Magnús minn góður. — Gleðilegt ár og styrkt hjarta framvegis. Jú, einmitt var það svo, ég var að bíða eftir línu frá þér, var orðinn hræddur, að annað hvort værir þú alveg kominn í kör, sem sé veikur og rúmfastur, eða það væri duttlungur í þér við mig og hefðir gleymt að skrifa. Ég hefði margsinnis kosið hið fyrra hefði verið fals-spáin, en svo hefir það ekki getað heppnazt. Ekki máttu ímynda þér, að ég sé að sneiða þig með duttlungasemi heldur, þó ég segi svona. Ég veit nefnilega ekki grand um það, þyrði ekki að aftaka, að þú værir það ekki, og þaðan af síður að bregða þér um neitt þess háttar. Sko til, stúlkur — og Frakklendingar — eru sagðar að vera til með duttlunga, og það er satt, ég hefi nú reynt það sjálfur. Svo segja sumir, að skáldin séu litlu betri. Það læt ég liggja milli hluta, ég hefi aldrei átt neitt við þau saman að sælda, eða ekki eins mikið eins og við stúlkur.

Hér um kveldið, um leið og ég var að ljúka við viku-bréfaskriftirnar, var ég einu sinni sem oftar að hugsa til þín og undrast þögnina. Ég rispaði sexhyrnda stöku yfir „oktavista", daglausa og nafnlausa — það var nótt en ekki dagur, og þú munt nú þekkja sparkið eftir hægri klaufina á mér — svo tilskrifaði ég þér þetta, klessti á frímerki og sendi. Það var fallegt nýárs-bréf, skammabaga á lengd við hálfan tólf-fótung. Þú mátt ekki verða vondur, fyrr en þú kemst í höggfæri, annars læt ég æfinlega vera 3 faðma á milli okkar, svo þú getir ekki seilzt til mín. „Um að gera að vera praktiskur", segir Skafti Jósepsson og Ameríkumenn, báðum er trúandi.

Vandræði er, hve þér batnar tregt. Hefir nokkur almennilega fær læknir skoðað þig eða reynt að lækna þig? Blátt fram,

það þarf að hjálpa þér til heilsu aftur, sé það unnt, ég meina að koma þér til góðs læknis eða lækna, því eflaust hefir þú lítil efni til þess. Jafnvel þó þú hefðir sull eða mein við hjartað, þarf það ekki endilega að ríða þér að fullu. Ég átti einu sinni kunningja, sem slíkt mein hafði, það holgróf út. Nú er hann orðinn gamall maður. Annars óska ég enn og vona, að þú takir það upp hjá sjálfum þér að láta þér batna læknislaust og getir svo sagt við þá eins og barnið, sem komst úr keldunni: „Þú þarft ekki, guð, ég gat það“. Láttu mig vita öðru hvoru, hvernig mein þitt hefst við og hvort þú héldir ekki, að eitthvað væri reynandi, ef ekki raknar úr.

Nú hefi ég enga nýtilega bók lesið, enga nýtilega hugsun hugsað æfar lengi. Höfuðið á mér er eins og Dakota-fjóshaugarnir hans Ásgeirs míns Líndals, fjósin þarf að flytja frá þeim, og verra og tilkomuminna en þeir, því úr þeim varð þó illfylgin deila í blöðunum, enn minn kollur er ekki einu sinni þess verður sem stendur. Annars brennur þetta víðar við, allt, sem ég sé getið um að ritað sé, er tómt „fikt“, eftir lýsingum að dæma. Það er líka von, allt vill vera „praktiskt“, með Skafta og Ameríkumönnum, og Þorsteinn Gíslason vill hverfa aftur í kvið sinnar móður og fæðast að nýju Englendingur. Íslenzku blöðin vestan hafs eru nú orðin það lang bezta. Þó þau prentvillist og deyi stundum, eru þau á batavegi. „Dagskrá“ er þó bezt, hún gengur ekki í bindindi um neitt, nema „spíritus“ og kvenna-daður. Ég er hreykinn yfir henni, við þurftum einmitt svona lagaðan Sigurð Slembi, eins og ritstjórinn er. Gangi honum vel og líti aldrei aftur til Sódóma, svo hann verði ekki að saltstólpa, eins og Einar okkar Hjörleifsson og barnsmóðir hans Lots sáluga. Eggert Jóhannsson og Pétur Sólmundur hafa ritað bezt um skólamálið. Heyrðu, „hver var ’ann svarna“, sem reit um „menntun“ í „Lögbergi“ í vetur, þessi Halldórsson? Getur þú sagt mér deili á honum? Og hver er hann „H“, jólablaða-dómari í „Dagskrá“, sem fannst kvæðiskafli þinn um „Árna lögmann“ vera „dimmur og sorglegur“. Ég hló svo mikið að því, af því það var svo mikil fjarstæða og undarlegt að láta sér detta *hana* í hug.

Með alvöru, mér sýnast meiri lífsmörk með íslenzku skákinni hér vestra en áður, þó skólamálið okkar sé enn hrákasmíð, meðan íslenzka er ekki nema utanreiknings skóla-mál. Þó stúdenta-félagið sé fremur illa enskt en vel íslenzkt, eru nokkrir

álitlegir unglingar í því og vel íslenzkir, svo ég hefi nokkra von um framtíð íslenzkunnar. Ekki samt svo mikla trú, að ég ímyndi mér, að íslenzka verði hér til eilífrar frambúðar, þó ég ekki sjái hún þyrfti samt að vera neinu góðu til fyrirstöðu, en hinu treysti ég betur en áður, að hún falli nú síður eins og vandræða-skepna, sem allir vilja losast við, eins og út leit fyrir, heldur eins og sá, sem nokkur missir er að, svo

„Þeir, sem ganga hjá, þeir segja:
Þessi átti ei svo fljótt að deyja".

Nei, þýðingu Ingvars á „Kærleiksheimilinu" hefi ég ekki séð. Ég bjóst við illu einu af þeirri frammistöðu að hola nokkru vel gerðu í enskt *dagblað*, þó ekkert væri annað að. Hamingjan veit, þau og lesendur þeirra hafa engan unað af né kunna að meta það, sem ekki er fyrir *neðan meðallag*, nema þau taki „í trú" eitthvað gott eftir fastviðtekna, marghelda höfunda, helzt dauða fyrir jafnvel Gests minni. Jafnvel í beztu þýðing er Gestur of mikill listamaður, of frjálshugsandi andi fyrir ensku hálfmenntunina. Hann nýtur sín ekki, nema ef það kynni að vera í víðsýnu bókmenntalegu tímariti. Að Ingvar gæti þýtt Gest, datt mér ekki í hug, eftir greinum að dæma, sem ég hefi lesið eftir hann í blöðunum, ég sleppi alveg búning þeirra, en maðurinn er andlegur efnaleysingi. Hann getur verið góður drengur, haft „sinningsvit" til lærdóms og embættis, en bókmennta-gáfuna hefir hann ekki til. Hún ristir dýpra en svo, að hún fljóti í Ingvari. Ekki nenni ég þó að ámæla honum. Hann gerði tilraun, sjálfsagt eftir beztu efnum. Kannske hann með því láti færari menn skammast sín út, svo slys hans verði samt til góðs.

Ætli það gangi annað að *Eiríki* þínum en efnaleysi Odds fóstra hans. Ég trúi, að „Norðurland", sem hann prentar, sé voðalega útbúið, bæði til höfuðsins og fótanna. Ekki veit ég það samt, en ég hefi hugsað mér, að drátturinn á *Eiríki* mundi stafa af einhverju þess háttar getuleysi. Ég þekki þenna Alþýðu-Odd ekkert, en mér er vel til hans, hann er smekkmaður um bækur og ann þeim svo mjög. Ég teldi ekki eftir mér að senda honum línu, ef þér væri nokkur hugnun að því, en ég held, að hann taki ekkert mark á, þó fjósakarl vestur undir Klettafjöllum færi að hotta á hann.

Ég þakka þér kærlega fyrir það, sem þú minntist á Eggert og Leó, þó þú, því miður, getir ekki sagt mér, að Eggert líði

eins vel og ég gjarnast vildi. En þrátt fyrir það, hvort sem „mínum mönnum“ líður vel eða illa, er verst að vita ekkert um þá. Svo felli ég talið að sinni.

Þig árið svo gleðji með gjöfunum sínum
Að gleymist allt misst,
Og hamingjan sendi öll hjú sín til þín,
En heilsuna fyrst.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*J. Magnús Bjarnason.* Tindastóll, Alta, 13. apríl 1902.

Góðvinur Magnús.

Ég kem ei með bréf-skulda borgun,
En bara að heilsa upp á þig —
Gott kveld. Það er kyndugt við mig:
Ég heilsa ei hádag né morgun.

Eiginlega skrifa ég þessar línur með eftirriti af seðli til Bóka-Odds þess, sem við vorum að tala um seinast. Ég vil láta þig sjá, hverju ég spýtti í hann og hvað ég sagði ljótast um þig og hann. Annars var ég hálf-ráðalaus, hvernig ég ætti að komast að skepnunni, ég hefi aldrei við hann átt og veit ekki, hvort hann er íslenzkur eða þýzkur smyrill. Ég vona ekki eftir neinum árangri af seðli mínum til Odds, þetta er sjálfsagt heldri maður, sem lætur sig engu skipta, þó kúasmalar vestur í Alberta séu að trutta. En *þú* verður að taka vilja minn fyrir verkið og er þér það ekki vorkennandi, skaparinn er sagður að mega til að gera það dagsdaglega. Annars í alvöru, ég ímynda mér, að Oddur sé fjárhagslega á þeim endanum, sem enginn oddur er á, ég ræð það af því, að hann er að reyna að seilast í heldur góðar bækur og því fylgir æfinlega vanblessun, næst því að hafa sjálfur skrifað góða bók. Alþýðuhausunum er raðað niður öðruvísi en bóka-fyrirætlunum Odds, þeir eru guðsverk, en ekki manna. Ég hygg alltaf, að „Eiríkur“ þinn komi þegar Oddur getur reytt á hann spjarirnar. O, sussu nei, Magnús, það var enginn ritdómari þessi „H“ í „Dagskrá“ og hann sagði ekkert illt um þig. Hann sagðist „sjá úr enskum bókmenntaheimi“, en mér fannst eins og tröllunum forðum, að það hefði mátt laga hægra augað og hagræða vinstri glyrnunni. Taktu þér aldrei ritdóma nærri, ef þú mögulega getur.

Þú þarft þess ekki. „Bjarki“ gat þín til góðs, „Aldamótin“ vingjarnlega, „Nýja-Öldin“ jafnvel hlýlega og er ég þó hræddur um, að þú þykist eiga þar úlfs von, sem þú sérð eyru Jóns míns Ólafssonar. Hver ætli annars hafi skap til þess að fara illa með þig, lambið mitt, þegar til alvörunnar kemur? Það er öðru máli að gegna með illindamenn eins og mig. „Dagskrár“-H sagði, að annað kvæðið mitt í Jóla-kringlu væri „tæpast einhama“ og í hinu sagðist hann „lítið skilja“. Mér þótti hvort tveggja gott.

Ef þú skrifaðir Küchler áður en þú færð bréf frá mér aftur, gleymdu ekki að bera honum alúðar-kveðju frá íslenzkum „bónda vestur undir Klettafjöllum“, og kæra þökk hans fyrir frændrækninna, sem eyðir æfi sinni til að vinna Íslendingum til sóma.

Svefn og leti leita á mig,  
Lengra get ei skrifað,  
Klúra letrið klessir sig,  
Krumlu get ei bifað.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*J. Magnús Bjarnason.* Markerville, Alta, 22. des. 1902.

Góðvinur Magnús. — Þökk fyrir bréf þitt og „Eirík“ þinn víðförla. Mér var ekki til neins að skrifa þér, fyrr en ég hafði þó lesið hann. Ekki þess vegna, dómgreindin verður sú sama á undan lestri og eftir, nefnilega engin, alveg eins og safnaðar-guðrækni messufólksins. Ég vil aðeins njóta skáldskapar annarra, kannske rabba um hann, væri ég í minn hóp, sízt að rita um hann. Sagnaskáldskap hefi ég lagt fyrir róða nú um tíma og er orðinn utanveltu í honum, nærri meira en ég var. Það er samt ekki af hugðnæmisleysi fyrir honum, heldur hirðuleysi eða tímaleysi. Ég finn, hve örðugt er að fylgja með augunum öllu, sem fyrir ber, og líta rétt í hvert horn. Dómur minn um sögur yrði því eins og dómar „Baldurs hins hvíta áss“, hann „héldist ekki“. Munurinn bara sá, hann var of réttsýnn, ég yrði of missýnn. Þó dylst mér ekki, að íslenzk söguskáld standa langtum verr að vígi en höfundar flestra annarra þjóða, sem ég þekki til. Ég efast um, að við Íslendingar getum nokkurn tíma unnað nýsögum eins mikið og þær gera, þó við gerðum þær alveg eins vel. Ógæfa okkar höfunda er

sú, að við höfum fornsögurnar til að mæla þá við. Kaflar í þeim eru svo mikil meistaraverk, að ekki er auðvelt að sjá, hvernig betur má gera. Það er eins og mig óri fyrir því, að þar hafi andans-afbragð Íslendinga náð öllum þroska í þá átt og lifi það aldrei upp aftur. En nýsögur geta haft og hafa þýðingu fyrir því. Þó fornsögurnar hefðu tæmt okkar mestu list, þá hafa þær ekki lokað öllum andlegum sundum.

Fyrirgefðu nú þetta, Magnús minn, og hugsaðu ekki, að ég sé að fetta fingur út í þessa hliðina á skáldiðninni, af því ég þykist hafa sett mig á betri stað og í hærra hornið. Brostu bara og segðu: „Já, maður verður að sjá í gegnum fingur við grillur Stebba greysins, vegna þess mikla kosts, að hann er allra manna einrænastur".

— Ég las „Runka" þinn með ánægju og þakka þér kærlega fyrir hann. Ég hefði þurft að lesa fyrri og seinni hlutann saman, vel og dyggilega, og liggja svo á þeirri meltu í nokkra daga, eins og hákarl, ef ég hefði átt að gera honum full skil, en það varð ekki í þetta sinn. Það, sem ég segi því um hann og þig nú, er því aðeins skyndihugsanir í miðjum lestri, en ekki glöggt yfirlit.

„Eiríkur Hansson" er æfisaga þín sjálfs, svo langt sem komið er, ekki svo að skilja, að hver sögu-viðburður hafi komið endilega svona fram við þig, en þú hefðir alls staðar breytt og hugsað nærri eins og hann. „Eiríkur Hansson" er sveitasaga úr dauðlygnasta nýlendulífi Íslendinga vestan hafs — enn sem komið er. Svona efni er dagsatt, en verður ekki gert áhrifamikið. Þú tekur ljósmynd af þér og öllu kringum þig. Sjálfur ertu ljúfmannlegur og allt í kringum þig, svo manni verður vel við þig, aðeins grunar mann stundum, að þú snúir sem sjaldnast duttlungasemi mannlegrar náttúru að okkur; að við hefðum komizt af með færri „sæta meinleysingja". Skáldskapurinn hjá þér liggur í látlausri kímni í atvika-lýsingum, ekki í orðunum sjálfum (eins og t. d. sumu um frú Patrik), eða þá í ímyndunum Eiríks sjálfs, æfintýra-kynjuðum útúrdúrum (eins og t. d. þeim um íkornann í trénu, í auðu Íslendingabyggðinni). Mannlýsingar þínar eru flestar glöggvar, hið ytra; en af því þú kynnist svo mörgum, eru sumar ekki nema óopnuð skel; það er ekki tími til að sýna innviðina, lyndisfarið. Frú Patrik er fullgerð, við sjáum þar sál og líkama: Skrokkurinn sællífið sjálft, sálin eigingirnin ein, en meinlaus

og makráð, af því þar vantar vit, vilja og ástríður. Gestgjafinn í sjómanna-hælinu er önnur mynd, stutt, en svo góð, að við sjáum hana alla. Þar sem trúar-boðskapur leggst á jafnmikla volueinfeldni, stenzt maðurinn ekki neitt „próf“ og verður til einkis hæfur, nema að bera mat á borð í lélegu gisti-húsi. Stundum bregzt þú samt vonum manns ónotalega. Lýsing þín á Braddon lækni er ágæt, ég þekki piltinn í góðmennskugervinu, allt hans innra líf er skáldskaparlaus, helköld hagfræðitafla. Lýsingin á öllu heimilinu, einkum konunni, býr okkur undir það, sem við vitum að er, nefnilega annar verri draugur í húsinu en sá við hurðina Eiríks; það er beinagrind í hjónakistunni; Eiríkur er þar heilan vetur og sér hana aldrei; nei, Magnús minn, það er tæpast vel notað efni sitt að draga upp öll tjöld fyrir sorgarleik og sýna svo bara móður-sjúka konu. Láttu þér nú samt ekki sárna við mig, vinur, en reiðstu mér heldur og segðu, að í staðinn fyrir að kyssa á svona vitlaust bundinn vönd, ætlirðu þér að brenna hann.

Nú hefi ég þá lesið ögn í höfuðið á „Eiríki“ þínum. Þú ætlast kannske til, ég spái fyrir honum líka. Jæja þá, honum verður vel fagnað, hvar sem hann kemur fram, og hann verður maður langlífur. Hann kemur úr nýjum heimi, hann eykur við landnám íslenzkra bókmennta; því verður honum vel tekið. Hann er „Landnáma“ Vestur-Íslendinga (meira en ártal, nöfn og plægðar ekrur), fólkið, sem landið nam, landið, sem numið var og þjóðin, sem það fólk bjó við; því verður hann framtíðarbók.

Ef þú rekur það smiðshögg á „Eirík“, sem hann þarf, að koma honum nokkur ár vestur í aðalbyggðir Íslendinga, þar sem sögulegir atburðir gerðust, þær, sem ekki eyddust, þar sem andleg landnámsstríð voru líka háð með búskaparstríðinu og verða háð til úrslita, — ef þú getur leyst þá þraut af hendi, þá ritar þú meira en „Landnámu“, þú ritar „Sögu“.

Svo nenni ég ekki að skamma né skjalla ykkur „Runka“ meira. Aðeins ein athugasemd, meinlaus. Þú lætur Eirík segja Dallas lækni, að „Thorvaldsen hafi verið fæddur á sjónum“. Þetta gerir ekkert og alveg eðlilegt, að Eiríkur segði svo, hverju svo sem þú sjálfur trúir um það. Þessi saga gekk lengi sem sönn væri og mér nærri sárnar, að fæðingarsveit Thorvaldsens var ekki hafið, það var svo skáldlegt. En ég veit ekki betur en hitt sé áreiðanlegt, að Th. fæddist í Khöfn. Danir

grófu í þessu og létu letra á húsið, það sem hann fæddist í, nafn hans og afmælisdag, að stórþjóða sið. Svona smámunir gera í mínum augum ekkert til, en einhver ritdómari kann að reka hnífilinn í það.

Jæja þá, Magnús minn, þér mun þykja ég mikið sagt hafa og margt ómaklega. Ég skal líka skriftast þér að endingu. Ég er sjaldnast alveg á öllu máli neins ritdómara, enginn höfundur í mínum augum, sem sé gallalaus. Shakespeare brýtur lög og landsvenjur í leikritum sínum, fer þvert ofan í siði og sögu. Inn í flest leikrit hnoðar hann fífli, til að láta loddarana hlæja, þó það komi annars hvergi við söguna. Algengar hversdags-hræður tala í tvímælum og orðskviðum dýpstu heimspeki. Það er þvert ofan í allt náttúrlegt, það er hann sjálfur með illa gerða grímu, sem svona leikur. En Shakespeare fer með mann samt inn í andlegan jötunheim, þar sem ástríðurnar hefjast upp úr öllu mannlegu valdi og tildrög og leikslok eru svo náttúrleg, að við sjáum alltaf, að öðruvísi gat ekki farið. Á þessu sérðu, að ég trúi á engan fullkominn anda.

Þeir voru rétt áðan að ræða „Úr heimahögum“ G. Friðjónssonar, Einar H. og Sigurður „Dagskrá“. Ég hefi lesið Shakespeare einu sinni yfir, fyrir 20 árum, „Úr heimahögum“ ekki enn. — Samt get ég ekki fallizt á þeirra vitnisburð, í mörgu. Ég sleppi því stærsta hjá Einari, þræðinum í ritdómi hans, að sanna Guðmund þröngsýnan og skilningslausan utan Þingeyjarsýslu. Það er of langt mál. En svo er smekkleysan, sem Einar fann í vísunni úr „Mömmu“. Sú vísa er í mínum augum ágæt, af því hugsunin er svo stórskáldleg og á heima í æðra veldi en list og smekkur, eins og stormur og stórsjór grípur með áhrifum, sem engum lista-lögum skeyta. Sigurður kallar það hugsunarvillu að segjast sjá mál eða hljóð. Jæja, oft hefi ég *séð* menn tala saman. Ég hefi jafnvel séð þytinn af hvirfilbylnum.

Og víst höfðu af golunni gaman
Hin glóhærðu blómstur — ég sá,
Þau hölluðu höfðunum saman
Og hvísluðust á.

Svona er ég oft á öðru máli en allir beztu menn. Og þó er hér fæst talið.

En Magnús, ég veit ég hefi aldrei límt mig ofan í höfunda,

eins og þú, né lesið mig inn í íþróttina, eins og Einar, né hefi vit á málfræðinni, sem Sigurður hefir prófgengið. Því afsegi ég allan dómarasess með þeim, sem hafa allt lögmál fagurfræði og máls „skrifað í sitt hugskot“.

Ég hefi grillur, en engin lög.

Fyrirgefðu þessa langloku og bita, sitt af hverju. Það er allra kristinna manna siður að lifa í óhófi um jólin, ef þeir geta, og það hefir víst sótt að mér og því rugla ég svona. — Þökk fyrir allt gott og gleðilegt ár.

Þinn Stephan G. Stephansson.

*Vilhelm Pálsson.* Markerville, Alta, 24. nóv. 1903.

Góði vin Vilhelm. — Gefðu mér fáein augnablik til að afsaka mig. Það kvað hafa komið eitthvert vitleysis-bréf frá stelpu-ræflinum héðan, sem við stefndum að Ólafi lækni; ég hefi ekki séð „plaggið“, en eftir afspurn af því, um atferli hennar, er stelpan ólæknandi óhemja. Mér fellur þetta illa, af því ég var við það riðinn, að hún lenti á ykkur. Ekki að ég hræðist svo mjög reiði ykkar, þó hún sé nú full-ill, en ég hefi aldrei ætlað mér að gera kunningjum mínum ómennilegan átroðning að raunarlausu, og það var heldur ekki svo nú með Rönku. Ég hefi aldrei séð hana; eftir sem fólk lýsti henni, var hún myndarleg, greind, búin að vera veik í fjögur ár; fátækur unglingspiltur, Jónathan bróðir hennar, vann fyrir henni; hún komst ekki norður hingað frá Montana með honum og móður sinni, þegar þau fluttu hingað, hún lá þá á „hospítali“ og átti að skerast upp við brjóstveiki einhverri, að sagt var; en sá skurður varð enginn, eða kák; svo var hún flutt á heilbrigðislausrahæli eða vitskertrastofnun, og þangað sótti svo Þorsteinn bróðir hennar hana og við sveitungar hans hjálpuðum honum ögn. Að hún væri nokkur vandræða-gripur á geði eða viti kom mér ekki í hug, enginn þóttist vita til þess; en ég bjóst við hún væri veikluð og langþjáð. Viljandi hefði ég ekki seitt að ykkur vandræðamann. En ég hefi gert það óafvitandi og bið afsökunar.

Það er annars ekki ein bára stök fyrir mér núna. Ég ætlaði að bjarga tveimur andarungum villtum, sem sátu ófleygir á ísnum eftir, þegar foreldrarnir flugu suður í haust.

Í gær komst annar út, og ég hefi hvergi fundið hann. Vitleysan drepur hann.

Ég hefi lagt svo fyrir Þorstein, bróður stelpunnar, að skrifa nú Ólafi lækni strax, og líka öðrum fornkunningjum sínum í Winnipeg, sem hann líklega á þar, til að leysa vandræðin, ef hægt er.

Pólitíkin er logn. — Enginn veit, hvenær útnefnt verður þingmannsefni okkar, né hver það verður; en tvö atkvæði eigum við Íslendingar hér, til að kasta við hana.

Nýdáin er Helga Davíðsdóttir, kona Jóns frá Strönd.

Ekkert get ég ort fyrir þér,
Allur svona á nálum.
Það fer nú að þyngja á mér
Í þessum kvenna-málum.

Gleðilegar hátíðir. Vinsaml. Stephan G. Stephansson.

*Sigurður Jónsson frá Víðimýri.* 1903.

Góði minn. — Ég hefi lúrt á bakið mikið fyrirfarandi, og allt góðviðri byrjar nú fyrst á því að senda mig í bólið. Ég hefi því verið frá verkum um tíma og ekkert gert, nema svarað nokkrum bréfum, sem ég hefi trassað að borga. Hér var Íslendingur á ferðinni, að líta eftir högum manna í Ameríku: Stefán Einarsson frá Möðrudal á Fjöllum, efna- og dugnaðarmaður, og greindur og gætinn maður, að ég hygg. Honum lízt vel á hagi manna, yfir höfuð. Ekki veit ég, hvort hann flytur, hann var óráðinn, og á líklega ekki neitt hagsbóta-erindi hingað, að því er sjálfan hann snertir. Eitt sagði hann sig furða, hve vel við töluðum íslenzku — bezt samt í Alberta — og hve eldri mennirnir, sem farið höfðu unglingar af Íslandi fyrir 20—30 árum, væru öllum heima-högum kunnugir, hve vel þeir hefðu haldið öllu íslenzku við, í fjarlægðinni.

Þú hefir gaman af næsta blaði „Kringlu“. Ég var orðinn leiður á þeim sið blaðanna vestrænu að prenta allan ljóðaleirburð, sem þeim býðst, og lofa svo öðrum að skamma allt út fyrir leirburð, í sömu dálkunum. Ég sendi svo „Kringlu“ fáeinar hendingar af skénsi. Vara-ritstjórinn hefir reiðzt,

og yrkir „Lækurinn“ neðan við. Það er undir rós, en á að þýða mig, og er auðvitað nafnlaust. Af þessu hefi ég gaman, og bjóst við að fá hnútu. Hefði Kristján Ásgeir verið ögn frumlegri og ekki rubbað inn 2 eða 3 smekkleysur, hefðu vísur hans verið góðar.

Sólskins-stundin ögrun er,
Ama að lund hún setur — —
Inni-bundinn óska ég mér
Út á fund þinn vetur.

Nú ætla ég að passa mig að vera nógu latur um tíma. Allt, sem að manni gengur, er, að maður hefir ekki verið það — þó fáir myndu trúa.

Þessi vetur aldrei um þig illa næði,
Snúi fjúki og frostum bæði
Fyrir þig í söng og kvæði.
— —

*Sigurður Jónsson frá Víðimýri.* 5. apríl 1904.

Vor er að byggja upp bústað sinn,
Blæs upp falda elda — — —
Gætir þú komið, kæri minn,
Kálfana mína að g . . . .?

Hnífur sumra er harðleikinn,
Hagur að drepa og lama,
En ég hygg að helzt um *þinn*
Heilsunni standi á sama.

Hlýleg er hvítan á fjöllum,
Hlánar í dölunum öllum,
Móeygar vakir í völlum,
Víknandi breðar í höllum.

Himininn hvíslar og þrumar,
Hrifinn af fáti og leiðslu — — —
Haldi þér sólskin og sumar,
Sex mánaða veizlu!

Þinn Stephan G. Stephansson.

*Sigurður Jónsson frá Víðimýri.* 1904.

Vinur. — — Í gærkveldi fyrst frétti ég um veikindin hjá þér, og nú er Mundi á förum út til þín, til að vita með vissu, hvernig líður — — því eins og fyrr, „vitnisburðir" þeirra urðu ekki samhljóða. Ég treysti mér ekki við kuldann í svipinn, annars hefði ég komið með Munda. Ég er í hömlum af

*Tauga-gigt*:
Raun er að gjalda roku-dags
Rosans kalda, ef sólbráð dvínar,
Og í valdi veður-lags
Vita í haldi taugar sínar.

En þínum svein þú hugull hézt
Heimur einu: meiðslum, bótum.
Yndi og mein þín öll eru fest
Inn að beini og hjarta-rótum.

Vonandi þér og þínum bata. Þinn Stebbi.

*Eggert Jóhannsson.* Markerville, Alta, 23. des. 1904.

Þökk fyrir forna vináttu og sittu heill margar hátíðir enn, Eggert minn! Jú, reyndar skrifa ég margt bréfið utan við mig, og oft fæ ég línu úr áttum, þar sem ég vissi mér engra vina von. T. d. nýskeð bréf frá séra Þórhalli Bjarnarsyni og „Skólaljóð" hans. Ég vissi ekki fyrr, að ég var þar settur meðal „spámannanna", og nú á að gefa þau út á ný og Þórhallur bað mig að kjósa mér óskabarn, sem þar ætti heima, og segja sér, hverjir aðrir hér vestra ættu að „inntakast" og hvað eftir þá. Ég „studdi" þá Kristinn og Magnús og sagði, hvern veg ég hefði valið, og benti honum líka á Sigga Júl. Þú stingur þessu hjá þér. En ég hefi gaman af ólíkum aðferðum, og þegar „kirkjufél." okkar ætlaði að gefa út íslenzka söngva fyrir „Bandalögin" (sem ekkert varð úr), var ég að reyna að læða að einum úrvalsmanninum „Sólskríkjunni" eftir Þorstein og „Stynur fold við stormsins óð" eftir Einar B., en sá maður gaf mér enga von: „Mér væri sama, en þeir eru svo strangir á móti þeim". En hvað sem annars ég hugsa um bréfa-byrðar, Eggert, máttu trúa mér til þess, að mér er skemmtun að sjá við og við

línu frá gömlum sessunautum. Það gerir heiminn líkari því, sem hann var, er „vér várum yngri“.

Þá til efnisins. Ég vissi, hvern veg sakir stóðu. Magnús hafði skrifað mér tvö bréf, eftir áfallið, og ég svaraði. Ég vissi, hvað hann meinti, þó hann segði það ekki nema undir fótinn. Ég reyndi að tala í hann kjark, en ekki gerði ég nú betur. Ég vil honum sannarlega vel, skil hve hörundsár hann er og bara vorkenni það, en álasa ekki — en sit í vandræðum. Það vildi ég, að ég gæti gefið honum svo sem fimm fjórðunga af kæruleysi mínu — ég hefði sjálfsagt bjargálnir af því samt. Ég sé ekki, að dómur Árna sé slíkt skaðræði. Maðurinn sjálfur er enn ekki bókmennta-stórlax, sem vitnað verður til. Hann á það kannske eftir. Dómurinn er einhliða yfirgrip, sem engan krók gerir að leita neins, sem betur fer. Matthías og Küchler, báðir nafnfrægir, lofa Magnús, og alþýðan kaupir upp ritið, svo nærri kvað uppselt — er ekki svona lagaður bráðabirgðadómur vel viðunandi í þessari upp-og-niður veröld? Svo lít ég á. Enginn sleppur slysalaust. Meistarastykki fá öfundardóm, sé öðru ekki til að dreifa. Svo veit ég líka, hversu vandfarið er með Magnús, og vorkenni það. Sjálfur hefi ég varizt ritdómum af ásettu ráði. Sá, sem sjálfur færir mál, ætti ekki að vera dómarinn líka. Þeim er sýnast um snilld og mis-smíði annarra, sem ekki gætu gert það sjálfir, eins og Brandes og Taine. Tvisvar aðeins hefi ég brotið þessa reglu mína — fyrir vinsemdar sakir —, í annað skiptið fyrir Magnús, og það var strangt tekið ekki ritdómur. Ef það var annað en þvagl, þá var það skemmtileg hugvekja bara. Jafnvel um minn eigin frægasta kappa, Guðm. Friðjónsson, hefi ég þagað, af því ég kom mér ekki svo fyrir, eins og ég vildi — og þó er mér nær að halda, að honum hefði verið það í mun. Svona liggja böndin á. Ég hefi sett mér að gera aðeins það, sem eftir mig liggur, lýsa áliti mínu á skáldskap í vísu hér og hvar, oft í ertni. Við skáldsögur er mér verst lagið að eiga. Ég yfirgaf þær fyrir löngu, aðeins les þær stöku sinnum, eina og eina, til gamans, ekki til gagnskoðunar. Viljandi er ég þar ekki heima. Í uphafi var í eðli mínu nokkuð, sem er í ætt við söguskáldskap. Kvæðin mín sýna það. Í þeim flestum er sögubrot — frá „Heimskautaförunum“, gegnum „Loft gamla á Vaðli“ ofan til „Innri mission“. Það er það, sem Helga Pétursson o. fl. órar fyrir, þegar þeir eru að gizka á, hvað orðið hefði, ef ég hefði oftar ritað óbund-

ið mál. En kringumstæður breyttu þessu í mér. Tími minn var tóm aðskot og löng tómstunda-leysa; sögufjörið sofnaði út á þeim seinagangi, eða var byggt út af yngra efni og nýrra. Ég gat ekki haldið sömu hitunni við um tugi ára. Því gerði ég ljóð, en reyndi að gleyma sögum. Ég er ánægður; ljóðagerð er elzt og bezt allra dísanna, og verður til veraldar enda. En þegar maður viljandi forðast fornvinina, verður maður óglöggur á þá. Svo er ég.

Ég ætti bágt með að bjóða „Eimreiðinni" ritdóm. Valtýr er mér hliðhollur, ég veit það. Hann hefir hvað eftir annað, ótilkvaddur, gert sér krók til að minna á mig til góðs. Hann hefði þegið kvæði mín sum, að ég held, en ég hefi lítið sem ekkert sinnt því. Einar Benediktsson skrifaði mér fyrir „Dagskrá", Þorsteinn fyrir „Bjarka". En ég hefi öllum brugðizt — látið vestanblöðin njóta mín, ef nokkuð væri í mér, af því mér fannst þar brýnni þörf. Þetta segi ég nú máli mínu til skýringar, en ekki mér til skrums. En niðurstaðan er sú, nú veigra ég mér við að biðja Valtýr að taka við því, sem ég hefi ekkert orð fyrir að geta gert og honum er engin frægð í, fyrst ég var svo naumur á hinu. Allt þetta eru kannske heimskur — en svo kváðu allir vera einhverri þeirra bundnir, og víst munu þær vera til skiptanna. En til að sýna vilja — er þér eða Magnúsi það nokkur huggun, að ég minnist á „Eirík Hansson" í „Heimir", þegar ég hefi séð seinasta þáttinn, ef ég og hann verðum þá uppi? Fyrr get ég ekki gert það, svo laglega fari. Ég hefi ætlað mér að gera ögn fyrir „Heimir", ef ég annars geri nokkuð framar. Hann er auðvitað ekki víða lesinn enn, en hann kemur til sumra þeirra manna á Íslandi, sem ég veit að lesa grein eftir mig, hvern veg sem þeim fellur hún. Svo er þessi orðalengja úti, Eggert minn. Ég klóraði hana milli þess sem ég sagaði jóla-eldiviðinn, og nú getur þú kveikt upp við hana á nýárinu. — Svo kveður þig

með vinsemd Stephan G. Stephansson.

*J. Magnús Bjarnason.* Markerville, Alta, 30. des. 1904.

Magnús minn góður. — Ég vildi, að þessi miði sækti að þér með andlegri árgæzku, því það væri betra hverju bréfsefni, enda er nú, sé til þeirra þrifið, auðnin ein fyrir hendi. Til mín hefir enginn jólasveinn enn komið, hvorki blað né bók, svo

um ekkert er að ræða. Jafnvel „Heimskringla“ bað „Lögberg“ að afsaka fótaferð sína. *Kvásir* kafnaði í mannviti, sögðu þursar, — skyldi „Kringla“ hafa veikzt af vandvirkni?

Bölvað stríð er það, að þú skulir taka þér svona nærri dóm Árna-Páls. — Ég sé ekki, að Árni-Páll þurfi að verða þér meiri skaðvaldur en „G“ varð mér í „Þjóðólfi“ forðum, þegar hann var að þurrka úr sér ónotin við kvæðin mín, mig og Jón Ólafsson, í ritdómi sínum um „Á ferð og flugi“. Honum varð það arðlaust erfiði, algerlega. Enginn gegndi honum, en svo lítur út, eftir nokkur ár, sem „Á ferð og flugi“ hafi svarað honum sjálft, sé það að marka, sem um það rit hefir síðan verið talað. Og þú stendur ólíkt betur að vígi en ég gerði þá — þú, með þá Matthías og Küchler, sinn undir hvorum handlegg, eins og Móses á hólnum, meðan Gyðingar börðust við Filistea — og íslenzka alþýðu, sem kaupir upp allt eftir þig, jafnótt og það fæst. Getur þú ekki verið hreykinn af svona meðferð, þó einn Árni-Páll maldi móti þér. Ég hefi verið staklega heppinn sjálfur, en varla eins og þú; en ég er meira en ánægður yfir minni strákalukku. Mér hefir verið tekið betur en ég hefi til unnið. Samt á ég fjölda útúrsnúninga og öfundarmenn, sem von er. Kverin mín tvö hefir enginn *viljað* eiga vestan hafs, heima seldist þetta 200 ex. upplag vel, að sagt er. Fimm dollara og 25 eintök, sem ég gaf mörg, hefi ég haft upp úr 200 eintökum af „Á ferð og flugi“, sem vestur komu og Jón Ólafsson gaf mér. Og þó hefir mér farnazt betur en ég vænti. Auðvitað, forleggjarar og blöðin okkar öll íslenzku lifa á kauplausu starfi þeirra, sem rita. Að því verður ekki gert. Íslenzkar bókmenntir eru til aðeins sem „brauðlaus list“, frá upphafi bókmálsins. Jónas og Bjarni kváðu í þegjandi þögn allra nema örfárra vina, yfir samræðum. Það voru engin blöð til að geta um þá, og ef að var til blað, var það ekki blaðasíður. Munur er *nú* á — jafnvel þó einhver Árni-Páll taki mann í karphúsið. Og því finnst mér, að þú hefðir ekki átt að hafna allgóðu boði, Magnús minn, þó einn ritdómur gengi þér þunglega. Ný bók og betri er hvers höfundar bezta vörn fyrir lögréttu bókmenntanna. „Að kæra sig bölvaðan“ er auðvitað „ellefta boðorð“, en alveg eins áríðandi og sum hin — þó það komi frá Öræfajökli, en ekki Sínaí-fjalli — þegar maður finnur samvizkusamlega hjá sér, að réttur manns er brotinn.

Svo enda ég þessa hugvekju á þeirri bæn, að þér megi allt gott „tilleggjast“ á árinu nýja.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Eggert Jóhannsson.* Markerville, Alta, 11. jan. 1906.

Eggert minn, góði gamli vinur. — Beztu þökk fyrir bréfið og myndina. Þú hefir mikið lið og mennilegt; ég óska þér og því sæmdar og sigursældar í lífinu. Mér er vel við þig frá fornu fari og það hefir aldrei slitnað upp úr því, og mér þykir vænt um að vita, að þér er enn hlýtt til kvæðanna minna, eins langt og nú er liðið síðan ég kvað við þig og „Kringlu“. Þá er reyndar nóg, ef vænir menn og vitrir minnast manns heldur sér til ánægju en ama. Myndina, sem ég sendi þér, lét ég taka af krónni minni hérna og borðinu, og á því hafði ég ýmislegt, sem vinir mínir hafa sent mér að gjöf. Þar eru í miðju hólfi „Milton“ og „Tennyson“ frá þér og „Kringlungum“. Svo sendi ég eina mynd hverjum, öllum þeim, sem þar höfðu lagt hlut á borð. Ég vissi ekki, hvernig ég átti að borga þeim, nema ef þeir hefðu gaman af að geyma þessa ómynd til minja. En svo hefir öllum þótt hún aðfinnsluverð, nema þér, sem enn hafa á hana minnst við mig.

„Ja, svona er að vanta veraldar-auð“. Svona er að geta ekki sett upp hvers manns auga. Ég var ekki viss á heimili þínu í Winnipeg, svo að ég rataði þangað með bréf, því sendi ég Baldvin, annars hefði ég látið línu fylgja með til afsökunar. Annars var það ætlun mín, að á myndinni sæist borðið mitt, eins og nótt væri, því er ljós á lampanum og klukkan eftir miðnætti, en það hefir oft verið kvæðatíminn minn, þau eru fæst fædd að degi til. En svo kvað þetta vera tímavilla í ljósmyndalistinni, af því þær eru teknar aðeins ef sól er á lofti. Matthías Jochumsson hefði kallað það „fótógrafiska anakrónismu“, hefði hann verið að rita heimspeki á íslenzku.

Nú skal ég reyna að svara hinu, sem þú spyrð um, eins hreinskilið og vöflulaust og ég get komið orðum að hugsunum mínum. Mér er það bjargföst meginregla, en engin uppgerð, að landslýður eigi að sýna einhvern sóma öllum sínum snilldarmönnum, fullt svo mikið fyrir framtíðar heiður sjálfs sín eins og þóknun handa þeim. Auðvitað koma fyrst upp í huga mínum, oft og tíðum, skáldin og listamennirnir brauðlausu, ekki

af því, að ég viti ekki, að fleiri eru til, sem líkra launa væru verðir, heldur af því, að hugur hvers manns er „kvikastur um kunnugasta ranninn“, og kvæðamennirnir verða mér þess vegna hendi næst. Þetta hefi ég ekki lagt í lágina. Í „Fíflið“, sem „Öldin“ þín flutti forðum, setti ég það í seinustu vísuna. Í „Vögguvísur“ („Það var fæddur krakki í koti“), sem ég kvað út af hugsun um, að Þorst. Erlingssyni var annað hvort neitað um styrk, eða létt á honum gjöfinni (Nú man ég ekki hvort heldur var), gerði ég það að aðalefni. Svo held ég „Heimir“ geymi enn eina ferfætlu frá mér um „Minnisvarða Jónasar“ tilvonandi, sem er í sama tón. Svona hefi ég marg-sagt það og vík nú varla frá því. En svo getur maður brotið gullvæga meginreglu, eins með því að fylgja henni þar, sem hún á ekki við, eins og að brjóta hana þar, sem hún kemur bezt niður. Það er þar, sem skórinn kreppir að, þegar ég hugsa um sjálfan mig sem verðlauna-grip. Kvæðin mín, sem ég endranær gæti sætt mig við, jafnvel varið fyrir því, sem mér fyndist svaravert, sýnast mér þó of fá og smá. Þá man ég allt, sem mér entist ekki orka til að yrkja, sem kringumstæður bönnuðu mér að kveða, það, sem ekki tókst eins vel og ég vildi, það, sem annirnar unntu mér ekki að gera, en það, sem eftir er, sé einkisvirði og óhæft á boðstól fyrir borgun. Ég er ekki ánægðari við sjálfan mig en þetta, og þó get ég engan beðið fyrirgefningar á öllu hálfverkinu, því ég hefi farið svo sem fært var í mínum sporum og aldrei svikið af mér sjálfráður.

Gull og gæði
Gleðja skáld og fagna kvæði —
Þó það vildi um vænni laun
Velja mega í kvæða-raun:
Framhlaupið í fylking hverri,
Fyrsta stökk að ryðja knerri,
Hvar sem ofrar eldi og brandi
Ódyggðin á sjó og landi
Vopnfært vera,
Ljóðið sitt úr býtum bera.

Hér um bil er nú þarna sagt rétt upp af málinu, eins og það einmitt horfir við mér. Ég þigg velgerð vina minna, glaður og þakklátur við þá, en óánægður við sjálfan mig. Það er eftir

allt durgsháttur og heimska að neita þeim að hlynna að sér, sem vilja gera það af alúð og eftirtölulaust; það, sem þeir virða, er stefnan og viðleitnin að líkindum, en ekki er það, sem upp á vantar, virt til verðleika. Sjálfviljuga, beina gjöf frá alþýðu, gæti ég þegið — ekki það, sem flagað er út með kökusamkomum, öskjuuppboðum og þess háttar narri, ég hefi óbeit á því. Fyrir það, sem ég hefi afkastað, get ég þegið greiða, en ekkert boð tek ég í „köttinn í sekknum" frá þeim mönnum, sem héldu þeir væru að kaupa af mér framtíðar-vonina í einhverju miklu meira og betra. Atvik ráða skáldskapargróðrinum, eins og vortíðin grassprettunni, og gott kvæði er eins upp í erminni manns eins og sólskinið á morgun. Þá er, hverjir fyrir því skyldu gangast að kvabba fyrir alþýðunni. Nú ætla ég að tala um þetta blátt áfram, eins og það snerti ekki Stefán Guðmundsson, en kringumstæður væru hinar sömu. Ekkert væri fallegra en að yngri námsmennirnir gengjust fyrir því, eins og þú stingur upp á, svo framarlega þeim væri það ljúft verk. En segjum nú, að kvæðin mín hafi verið einhvers virði (bara til að ræða málið út), að þau hafi verið viðurkenningar virði, þeirrar, sem þú hugsar, þá var engum skyldara að styðja þetta mál en íslenzku blöðunum öllum, vestan hafs. Ég hefi sent þeim öllum kvæði, að undanteknum einætis kirkjuritum, „Sameiningunni" og „Dagsbrún" t. d. Þeim blöðunum hefi ég unnið mest, sé annars um nokkuð að tala. En í alvöru Eggert, ég býst við engum undirtektum. Segjum kvæðin mín væru svo og svo, þau eru samt ekkert almennings eftirlæti, hann heimtar minna jafnvægi milli vits og tilfinninga, þó aldrei væri annað að, meiri vílmóð.

„Og ljúflega létu þeir hljóma
Sín litlu fráfærna-hljóð,
Og draumljóðin dillandi óma,
Svo dæmalaust viðkvæm og góð".

Það er eins satt enn eins og þegar Heine kvað, að minnsta kosti hjá alþýðu. Svo er hitt, ég er flokksleysingi, er vinur þeirra allra, meðan þeir fara réttara, en geng úr liði, þegar þeir álpast til að velja verri leiðina. Ég fylgi þeirri hlið, sem er illskárri, til að gera þó svolítið gagn. En slík liðveizla þykir hverjum flokki völt, sem von er. Þeir þurfa að eiga mann með

húð og há, og þannig lagaða fasteign geta þeir einungis lagt fé sitt í. Hversu mikið mannkaup er í okkur, er miðað við málafylgju-vogina, og á þeim metum er ég léttur.

Þess vil ég geta, að án þess ég sé ríkur, bý ég við engan skort á algengum þörfum né er líklegt, að ég þurfi þess. Meinið er ekki það, að hafa fárra þæginda notið í lífinu, né hitt að hafa þurft að strita. Féskorturinn kreppir þar að, að eiga aldrei aflögu til liðs mönnum né málefnum, sem manni er annt um. Fyrir mörgum árum byrjaði ég að búa, áhöldin öll voru exi og reka og 75 cent átti ég í vasanum. Þetta hefir lagazt, áhöldin eru nú ólíkt fleiri, og vasa-peningarnir oft meiri og stundum minni. En að vera svolítið hneigður til ritstarfa einhverra, geta aldrei eignazt áhöldin, ýmsar stuðningsbækur, sem manni eru ómissandi til að minna sig á, né helztu ritin nýjustu, til að haldast í hendur við stefnur samtímans, það er eitt af því, sem sverfur að. Og svo saknar maður þess stundum að þurfa út til vinnunnar, rétt þegar það hefir rignt ofan í huga manns kvæðisefni, sem manni finnst fallegt og langar til að gera eitthvað úr. Maður veit það þarf að grípast strax til að hemjast, en má það ekki.

„Þið farið með klökkvandi kvaki,
Og komið ei framar til mín“.

En að ég er ekki ríkur, Eggert minn, kenni ég engu nema sjálfskaparvítum. Hafði ég beitt því litla viti, sem ég hefi, til fjárdráttar, eins í öllu, sem lög leyfa, þá trúi ég ekki öðru en að ég hefði getað staðið þar hverjum óvönduðum meðal-maura-þegn jafnfætis.

Áður en ég kveð þig. — Hvar er Magnús Bjarnason nú, er hann kominn frá Dakota? Ég þyrfti að skrifa honum með tímanum. Mig minnir hann eigi hjá mér. Ef þú skrifar honum, berðu honum kveðju mína og að mér hafi þótt bezt í Almanaki Ólafs litla sagan hans. Ég veit honum þykir vænt um að hafa skemmt mér. Að vísu er sagan hans Magnúsar eitt af beðum „kálgarðs-skáldanna“, eins og Englendingar hafa nefnt þá Skotana, Barrie og McLaren, sem hann séra Gordon ykkar stælir svo klúrmannlega. Munurinn er þessi, litla beðið hans Manga er lýta-laust og vel gert í kálgarðinum, en reitirnir hans séra Gordons eru allir sparkaðir, Klettafjöllin hans og Ontario-skógarnir fara illa í beðum frá Skotlandi.

Úr þessu bréfi máttu lesa öðrum hvað sem þú villt, sumt,

allt, eða ekkert. Mér vanalega stendur á sama, hver sér bréfin frá mér. Í þeim er sjaldan annað en mitt eigið rugl um almennar skoðanir. Aðeins er þetta, ég læt orðaskipun og stafsetning brokka við lausan taum, eins og við sætum og skeggræddum. Fyrirgefðu, að ég var seinn til svars. Fyrst var hátíðaónæðið með öðrum fjósaverkum, síðan einlægir ársfundir héraðsins og félaga, og ég þarf, því miður, oft að eiga of mikinn þátt í þess háttar. Og svo verð ég að biðja þig að lesa þetta spark í málið. Ég man, þú ert gamall ritstjóri og misjöfnu vanur. — Með ósk um vellíðan þín og þinna.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Sigurður Jónsson frá Víðimýri.* Markerville, 8. febr. 1906.

Góði minn.

Við höfum elzt — — en allt um það,
Upp er ei fjörið losað:
Meðan við getum meinlaust að
Mannlífinu brosað.

Reiðmann sjái ég sendast hér,
Sem að á er sprettur,
Oft ég gái út að þér
Yfir gráar sléttur.

Meðan víða um völl og hól,
Vetrar-hríðir ganga:
Eig þú blíðu-yl og skjól
Undir Hlíðar-vanga.

Þinn Stephan G. Stephansson.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerville, Alta, 22. febr. 1906.

Góði vin. — Í gær fékk ég béf frá þér (Æ við skulum hætta að þérast, ég nenni því ekki) með mynd frá Magnúsi (lögfr. Brynjólfssyni) innan rifja. Beztu þökk og berðu Magn. kveðju mína, ef þú skrifar honum eða hittir hann, ég kannske útideyfi sjálfur að gera það. Heyrðu! Fyrir viku síðan sendi ég þér bréf með kvæðum í og leiðrétting við tvö orð í kvæðunum degi seinna, en ég húsnúmeraði þau bæði til 785 Notre Dame ave. Ég vissi ekki betur — en hefir þú fengið þau?

Ef þú færð þessi bréf, veit ég þú sérð, að „Snækollur“ er tekinn úr „Grettlu“, upp á kirkjuþings-vísu. Ég og vantrúin höfum lengi staðið í sömu-myntar-skuld við „Aldamót“ og „Sameiningu“; lengi hefi ég ætlað að sýna lit á borgun, en eitthvað hindrað, þangað til nú. Jæja, það er nú gert og æfinlega gott hvað afkemst, svo maður þurfi ekki að hafa það á samvizkunni lengur. Það kemur auðvitað nýtt í staðinn, en það kæmi samt.

Ég sting hér með blaði með aleigu minni á af nýjum kveðskap, ef þú vilt hirða það fyrir „Heimir“. Öll blöð, sem ég hefi kvæði sent, hefi ég látið vita, að ég byggist ekki við, að þau tækju neitt af mér sér til skaða eða sínum kreddum. Það hefi ég gert vegna þess, að ég vil ekki það þiggja, sem mér er ekki velkomið, og með blaða-rúm var slíkt nauðsynjalaust. *Það* hefir aldrei kreppt að mér. Ég gerði það svona úr garði, til þess að gera ekki opinbert stapp og óvild úr því, sem engan varðaði, nema mig og ritstjórann. Ég ætlaði að taka þegjandi við afturrekstri og metast ekki um það við neinn. Um úthýsing var mér sama hjá einum og öðrum, ég vissi hvar ég fékk að vera, ef ég endilega vildi. Þetta sagði ég „Hkr.“ oft. Rögnvaldur, ef við eigum skipti saman, gerðu mér aldrei sama bragðið og *B. L. B.* núna. Neitun sárnar mér ekki, en — *aðferðin*. Sjálfs mín vegna er mér sama, ég stend jafnréttur, eða rangur, eftir sem áður, en það er svo hart að þurfa loks að játa það, að menn, sem maður hafði aldrei látið á sig ganga að væru annað en sómamenn, þó þeir væru andstæðir manni í skoðunum, séu, nú þegar til alls kemur, annað hvort svo *grunnhyggnir* að grípa það ráð, sem báðum kemur verst, ef í milli ber, eða hafi snert af þeirri sýki, sem heitir *varmennska*. Sé það ekki allt lýgi, sem um mig hefir verið sagt, átti „Heimskringla“ mér ekki illt upp að inna fyrir 17 ára viðkynningu. Þetta vil ég biðja þig að varast, ef við eigum viðskipti. Ég æski engrar ívilnunar, en þigg hana, ef hún er boðin; en ég heimta siðaðra ritstjóra sið af B. L. B. og öllum.

Svo óska ég þér og „Heimi“ velgengni, honum þess fyrst og fremst, að hann dotti ekki svona af sér hálft árið framar, ef unnt væri. Þessi svefnþyngsli hljóta að vera honum verkatjón, þó ég viti, að þau eru vorkennandi og fram yfir það.

Láttu mig vita, hvort „Snækollur“ berserkur (þ. e. bréfið mitt hið fyrra) komst til þín, eða var drepinn á „Vorfrúar

stræti". Nafni hans sálugi var slysinn í bónorðsförum, og kannske að kvenkennd orð ein séu þessum seinna nóg til tortímingar.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Eggert Jóhannsson.* Markerville, Alta, 11. apríl 1906.

Góðvinur. — Þökk fyrir bréfið þitt síðasta, alla þína velvild og fyrirhöfn. Nú ætla ég að segja við þig fáein orð í einlægni og einrúmi, en ekki í annarra áheyrn, ekki af því, að ég ætli að segja þér neinar dylgjur um sjálfan mig né aðra, heldur vegna hins, að sumt af því, sem ég *verð* að segja við þig, gæti orðið matur fyrir óvildarmenn manns, þá sem er sú list lagin að gera hreinskilna frásögn ískyggilega og lesa inn í hana lof um mann sjálfan og last um aðra.

Ein aðalástæða þess, að ég gat ekki neitað uppástungu þinni í fyrra bréfinu er sú: Ég á heima í liði þeirra manna, sem kallast „fríþenkjarar" og verst hafa verið ræmdir við almenning af leiðtogum hans. Hver virðingar-vottur alþýðu við þess konar menn er ósigur fyrir ófrjálslyndið, sem maður má ekki sitja af sínu málefni fyrir sérvizku sakir, þó engu öðru væri eftir að líta. Með þessu er ég samt ekki að telja mér neitt til gildis, ég veit, hve smár ég er. Ég er bara að segja þessa sögu, eins og mér sýnist hún í sannleika ganga, en fer ekki eftir því, að ég á hlut að máli — það kann að vera sá, sem sízt skyldi.

Sé verið að prenta ljóðabók eftir mig í Khöfn, eða nokkru öðru kauptúni heimsins, er það án minnar vitundar — ég hefi enga ávænu af því fyrr né síðar. Ég hefi oft verið hvattur til að gefa eitthvað út, stundum í blaða-greinum, stundum bréflega. Þú gerðir það í bréfi fyrstur manna, nú fyrir löngu síðan. Þorsteinn Erlingsson hefir skrifað mér um það, og fleiri. Prentari í Winnipeg bauð mér einu sinni einhver vildarkjör, að hann sagði, ef ég vildi „forleggja" sjálfan mig hjá sér. Jón Ólafsson bauð mér sína umgöngu, prófarkalestur og alla fyrirhöfn ókeypis hjá útgefandanum í Rvík. Hann hefir reynzt mér bezti drengur frá upphafi. En að vinir mínir, sem ekki eru fjáðari en ég sjálfur, vinni mér kauplaust, gæti ég ekki þolað. Alþýðubóka-Oddur falaði kvæðin mín líka, en við kringumstæður hans var varla eigandi, þó annað hefði fallið í ljúfa löð, sem er nú ekki.

Svona hefi ég hafnað hverju boði — en hví þá? Fyrst og fremst, ég hefi aldrei á æfi minni átt það tóm og áhyggjuleysi frá lífsnauðsynjum, sem ég þurfti til að setjast við ljóða-bókargerð. Ég þyrfti að eiga til þess heilt ár, sem ekki kallaði neitt örðugra að mér. Lífið hefir hlaðið á mig öllu því erfiði, sem ég fékk orkað, og sveitungar mínir öllum þeim skriftum og félagsmála-ragi, sem þeir kunnu og ég hlífðist við að þverneita. Nú er ég þollaus til vinnu og hlífist við. Ég er enn bundinn við nokkuð stórt bú, mitt og krakka minna, og oft úr vöndu að ráða. Auðvitað gat ég varið mínum fáu næðistímum svo, að safna því gerða, en gera ekkert nýtt, en til þess hefi ég enn ekki haft skap. Ég þarf að eldast enn meir til þess. Næst er þá hitt, ég hefi aldrei verið full-ánægður með það, sem ég hefi ort, alltaf fundizt, að ég gæti gert betra og meira með óskiptari kröftum og nægari tíma, og viljað bíða þess. Sú von er nú samt að eldast af mér, eftir að ég slapp yfir fimmtugt. Sumum höfundum er það lífsnauðsyn að vera heftir inn í bók — sumir foreldrar sjá ekki nema eitt barn frítt í veröldinni, og það er krakkinn þeirra sjálfra. Báðar þessar driffjaðrir vantar mig, og því hefi ég orðið svona aftur úr með ljóðabók. Sé séra Friðrik slíkur, sem ég þekkti hann, byggist ég við honum sem andstæðing þessa máls, en á sína vísu. Hann var ekki „niðurskurðarmaður“, heldur útideyfumaður, það er, hann vildi eyða með lagi þeim málum, sem honum var ekki um, en þó svo að gera sig aldrei út úr húsi hjá þeim, sem yrði ofan á, né ganga svo í berhögg við óútreiknanlegan tíðaranda, að ekki mætti sýnast svo, sem þeir sigruðu saman, hvers sem vinningurinn væri. Ég er að lýsa manni, sem ég þekkti — ekki að lasta hann. Eigin-hagsýni getur orðið góðu máli að liðsauka stundum, og það er vit að sjá hvað verða vill og bjarga sér í tíma. Blátt fram sagt, ég hygg séra Friðrik yrði móti, ef hann gæti, en með, ef hann mætti til, í þessu máli, og það sökum mín, en ekki þín. Hann er svo séður maður, að hann veit eins vel og ég, að kirkjustefnan ynni það sér í vangá að hlynna að mér. Þeir fyrirgefa mér aldrei, prestarnir yfirhöfuð, „Loft gamla prófast á Vaðli“ né „Snækoll“ og fleira. Og hver ætlast nú til þess? Ekki ég — ég veit, að hverju ég geng. Og svo bætist þar við, að förupresturinn í „Á ferð og flugi“ hjá mér sé eftirgerð af séra Friðrik. Hann hlýtur að hafa komizt á snoðir um það, jafn-algengt og það er, og erfa það við mig. Ég man ekki, hvort mér flaug

séra Friðrik nokkru sinni í hug, þegar ég kvað þann bálk, en allir þykjast þekkja hann þar. Einn embættisbróðir hans, sem hér kom, lauk svo við það mál: „Ja, kannske þú segir satt, að Stefán hafi ekki meint hann, en ætli það sé samt ekki svipað honum?“ Allir prestarnir, sem hér hafa komið, kenna mér það, að æði-margir eru utan-safnaðar. Um síðir ganga þeir kannske inn á, að ég láti þau mál hlutlaus, nema þegar á mig sé yrt, en þeir segja, að af því ég standi utanvið, *þori* hinir það líka. Þeir hafa sagt mér einslega, að trúleysi geri ekki öðrum eins manni neitt til, fengist ég bara í söfnuð. Um allt þetta vita þeir, forkólfarnir í Winnipeg, í gegnum trúboðana, og telja mig spilla ökrum sínum og uppskeru. Því býst ég við andróðri úr þeirri átt. Hví datt séra Friðrik í hug að senda mig til Íslands? Út af Matthíasarsamskotunum, segir hann. Ef til vill. Ég hefi ástæðu til að halda, að fyrir 2 til 3 árum hafi einhver eða einhverjir heima á Íslandi látið sér detta í hug að bjóða mér heim, mér að kostnaðarlausu. Hverjir það voru, veit ég ekki, né hvort það var alvara, né hvort það er útdautt. Ég hefi aldrei eftir því grennslazt. Hitt grunar mig, að séra Friðrik hafi eitthvað um það heyrt, ef til vill meira en ég. Fær hann þessa hugmynd þaðan? — Eða vill hann, ef úr þessu ætlaði að verða, geta tekið vind úr því segli, sem hann gæti ekki komið í veg fyrir að upp yrði dregið, með því að verða fyrri til? Ég set mig í spor andstæðinga minna, og af tvennu illu væri illskárra, að Vestur-Íslendingar gerðu þetta en þeir, sem eru heima, metnaðar eins vegna, málstaðar ekki, og svo hygg ég séra Friðrik myndi hugsa. Annars í gamni og alvöru, við skyldum segja, að þessi uppástunga séra Friðriks væri orðin að framkomnum forlögum, þá veit ég samt varla, hvernig færi, því bágara ætti ég með að binda mig við þann flugdreka, sem hefði þessa heimferðar-taug í skottinu. Ætti það fyrir mér að liggja að koma heim, vildi ég síður vera sendur þangað. Og að lokum, ætlan mína um kvæðabók, ef þú hefir gaman af að heyra hana. Hún hefir verið byggð á þessu: Einhvern tíma í ellinni — og gamall ætla ég að verða — hefi ég komið efnahag mínum í það horf, að ég geti lifað svo sem eitt ár eins og þeir, sem „hvorki sá né uppskera“, þá fer ég yfir ljóðaruslið mitt og geng frá því eins og mér sýnist helzt það ætti að vera umbúið, þegar ég skila af mér lífinu. En ef þetta fæst ekki, hvað þá? Ja, það er slys,

sem ekki verður við séð, að þurfa að leifa það allt í óreiðu og afbakað. Hefðu engin dagblöð verið til, gat maður grafið það með sér — í eldinum. — En svo er þarfleysa að vera að kvíða því.

Nú hefi ég setið hjá þér á eintali eins lengi og ég get í bráðina og bréfið er orðið bæði of langt og of stutt. Fyrirgefðu. Mér þykir jafnvænt um ykkur, sem viljið mér vel, hvort sem nokkuð verður af sjóði þessum eða ekki. Það er *velviljinn hjá þeim, sem maður virðir mest,* sem maður huggar sig við. Viðleitni manns með öllum sínum göllum varð ekki til einkis, það er það, sem mest bætir úr, gerir mann hjarta-hlýrri og rólegri með sjálfan sig. Ég sé mest í eitt, fyrirhöfn þína, vinur, og ef til vill annarra.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Sigurður Jónsson frá Víðimýri.* 13. júlí 1906.

Eigir þú, fornvin, frá í kvöld,
Fjörs í gróður-högum
Fyrir höndum hálfa öld
Af hlýjum sumar-dögum.

Og þótt þú væðir eld og elg,
Æfin þar til dvínar,
Alltaf kasti elli-belg
Æsku-vonir þínar.

Þú átt annríkt, fyrst og fremst
Frátök skeytir engra.
Ég ei núna í kútinn kemst — —
Kveð því ekki lengra.

Blessaður og sæll. Þinn Stefán.

*Eggert Jóhannsson.* Markerville, Alta, 23. júlí 1906.

Góði vin. — Ég held ég geti hraflað upp eitthvað hér handa Guðmundi. Ég leita þeirra, sem kynnu að hafa klippt úr kvæði, eða geymt blöð með þeim í. Fyrsta kvæðið mitt í „Heimskr.“ var „Krítik“. „Vorir beztu og vitrustu menn“ voru í þá daga háværir um það, að sú þokkabót, sem við, sem góðir

Íslendingar, ættum að senda heim, væri „dynjandi, þrumandi krítik“ fremst af öllu. Gegn því kvað ég „Krítik“. Ég sendi Birni heitnum Péturssyni hana í sendibréfi og hann kom henni í „Kringlu“. Þú, sem varst ritstj., skrifaðir á tölublaðið, sem „Krítik“ stóð í og mér var sent sem kaupanda, ensku orðin „*come again*“ neðan við kvæðið, fangamarkað. Þau voru upphöf viðskipta okkar „Kringlu“. „Leifi“ man ég ekki til að ég sendi neitt — en fari ég ekki villt, komu út í „Framfara“ tvær eða þrjár vísur eftir mig, ómerkar og illa gerðar, sjálfsagt „Bandaríkja-minni“ fyrir 4. júlí, kveðið fyrir „bón annarra“ austur í Wisconsin og eflaust 10 árum eldra en „Krítik“, eða meira. Ég man hvorki blað né árgang og hefi sjálfsagt skrifað mig Stefán Guðmundsson. „Lítið er í eiði ósært“. — Ég segi þér „svona í trúnaði“, að séra Friðrik skrifaði mér mjög vingjarnlegt bréf og bað mig að kveða fyrir „Breiðablik“. Ég og hann erum gamlir lagsmenn. Ég brást vel við því, ef ég gæti nokkru afkastað. En verið getur, að hann hafi þykkzt við svar mitt. Hann gaf mér í skyn, að hann vonaði, að ég fældist ekki „klerkinn“. Svo sagði ég honum kurteislega og vöflulaust, að ég kynni að gera grein á „stétt“ og „einstakling“ og að ég tryði því, að honum myndi láta vel ritstjórn margra-málefna blaðs, því ég teldi hann fremur hagsýnis- en flokksfylgismann, Innan síns eigin kirkjuflokks væri hann nú talinn undir niðri í vantrúar-flokknum, og þá vildi ég síður vera honum auka-óhugnun. Svo veit ég ekki meira og hefði ekki verið að fræða þig um þetta, nema af því skeð getur, að þið eigið saman tal um mig. Annars er annað eins bara hégómi.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Eggert Jóhannsson.* Markerville, Alta, 16. sept. 1906.

Góðvinur. — Þökk fyrir bréf ritað 4. þ. m. og allan vinskap þinn, áhuga og fyrirhöfn, og færðu þeim vinum vorum, sem eru að hugsa málið með þér, alúðar heilsan mína.

Þú gazt rétt í áttina, séra Friðrik kom með tilboð frá Ó. Þorgeirssyni, bauð mér 10 dollara í örkina. Ég samdi ekki, en boðið held ég standi. Ég hefi engan tíma til jafnvel að hripa bréf, fyrr en skammdegisnóttina lengir „svo enginn getur erfiðað“, hvað sem þá verður. En helzt vildi ég selja útgáfu-

rétt á þann hátt. Ég bý svo langt frá bókagerð og útbýtingarstöðum alls fróðleiks, að ég get þar í engu hjálpað mér sjálfur, og Franklin vildi ekki lofa þeim mönnum neinu fyrir guðs hönd, sem svo var ástatt fyrir. En svo hugsa ég svona: Þó tilboð Óla sé þakkarvert og eflaust ríflegt, eftir hans mælikvarða, þá finnst mér ég yrði fengisleppur á því og held eins og Sesar, að ég sé ekki rétt metinn, þ. e. a. s. að það megi með lagi hafa meira upp úr kveri eftir mig en svo, að ég væri fullsæmdur af, segjum 200 til 300 dollara fyrir 20 til 30 arka bók. Þetta kemur nú kannske af því, að ég finn, að reyndar er ég að selja allt æfistarfið, það sem ég vann bezt, fyrir lítilræði, þegar ég hugsa um tímann, sem ég þarf enn til að gera það að heiman. Með ánægju getur maður gefið eftirlætis reiðhestinn sinn — hitt er örðugra að selja hann fyrir neðan meðal-verð til gróðamannsins tilvonandi, út úr kröggum sínum. Þetta er lýsing á hugarfari mínu, en ekki sneið til neins.

En Eggert, þökk fyrir allt og allt, — en getum við ekki fækkað brotunum á nýju áætluninni ykkar? Ég skil, að hún er svo úr garði gerð, að minn geti orðið hagurinn sem mestur, en hún verður ómaks-sæl fyrir ykkur, sem viljið mér bezt, og gott ef ekki óþakklát hjá sumum aðstandendum að síðustu.

En — eru til segjum 50 landar vestan hafs, sem vildu hætta 10 dollurum hver fyrir einkarétt til alls, sem ég hefi ritað í ljóðum upp að þessu? Ég efast nú um það. En þeir gengju þá í það áhættuspil undir sinni eigin stjórn, sem líklega yrði sjálfkjörnir forgöngumennirnir, að borga mér 500 dollara um aldur og æfi, í eitt skipti. Svo gæfu þeir út, eða seldu til útgefanda, sér að kostnaðarlausu. Fyrir handritinu, sem yrði ógert, skyldi ég gefa trygging, veð — mortgage — eða ábyrgðarskjal — bond — um ákveðinn tíma, svo ekkert væri í hættu, þó ég „ræki upp tærnar“ — en hefði þó „ráðstafað húsi mínu“. Með þessu ynnist þetta, þið gerðuð mér fært að leggja mig fram að ganga eins vel frá og ég orka; yrðuð þess valdandi, að til væri þó handrit af öllum mínum sérvizkum með minni síðustu hendi álagðri, hvort sem útgáfa þess drægist þá enn, eftir góðu færi. Það gerir minnst. Ég hefði þá frelsað þessa ættingja mína, kvæðin, undan hunda og manna fótum í framtíðinni, eins vel og við varð komið, og vinir mínir yrðu aðeins fyrir smáskaða, ég vona helzt engum, ef þeir seldu til útefanda, sem ég trúi að væri bezt — einkum heima, og ef ekki

fengjust peningar út í hönd, þá svo mörg eintök og einkarétt til sölu vestan hafs.

Fyrirgefið, ef uppástunga mín er fjarstæða, sem vel getur verið. Ég segi eins og mér býr í brjósti, úr því þetta er að verða alvöru-mál. En þið ráðið aðferð og ég skal verða eins leiðitamur með handrit og annað eins og mér er unnt.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Eftirskrift.* — Einu gleymdi ég að svara, Eggert minn, áður en ég lokaði bréfinu sjálfu. Það var viðvíkjandi ljóðabókarútgáfu. Ef ég lifi það, að hagur minn standi svo, að ég geti sagt upp öllum veraldar-áhyggjum, segjum hálft til heilt ár (Því að hafa ofan af fyrir mér og mínum, og öðrum aukagetum), svo að ég geti sagt við þær: „Ég hefi sagt sundur með okkur um nokkra mánuði og kem ekki nærri ykkur“ — þá skal ég vinza ruslið mitt. Fyrr get ég það ekki, hve feginn sem ég vil. Ætti ég til dæmis fjölmennari þjóð, sem ætti „forleggjara“, sem sæi sér fært að bjóða mér 20 dollara um mánuðinn í eitt ár til að „búa upp“ það, sem ég hefi skrifað um dagana, gengi ég óðara að því. Það er að segja, ég skyldi selja strax allt, sem ég hefi gert, fyrir eins árs framfæri og föt. En slíku er ekki að heilsa. Ljóðagerð er „brauðlaus list“ hjá okkur, sem von er, og þó vonlausust vestan hafs. Ég er af vilja gerður — en annað kreppir að. Ég er ekki sá þrákjálki, að ég vilji ekki skiljast sem hreinlegast við sjálfan mig, eins og ég gæti, og fara að vilja þeirra, sem unna mér svo góðs hlutar í þessu máli. Nei, þessu valda önnur álög. Forláttu þínum vin S. G. S.

*Eftirmáli* handa þér einum Eggert minn. — Viðvíkjandi boði Ó. Þorgeirssonar, þá vildi ég heldur eiga skipti við mína líka, ókirkjulegu mennina. Óla þekki ég ekki. En maður þarf að hafa auga á öllu. Þú veizt, hve ókirkjuleg kvæðin mín eru. Ég vil síður eiga undir andstæðra skoðana manni útgáfu á þeim, nema ég þekkti hann að víðsýni. Útgefandi á svo hægt með að fara fram á alls konar utanafsleikjur, ef hann vill, og allt stapp um það yrðu leiðindi. Helzt vildi ég gefa út í smá bindum. Ég hefi lengi um það hugsað. Og Þorsteinn Erlingsson fer fram á það sama í bréfi nýfengu. Við skrifumst á, einu sinni eða svo á tveimur til þrem árum, og alltaf elur hann á mér að láta prenta, og sama gera fleiri heima. Hann

segir svona: „Við erum alltaf að vonast eftir því hér, vinir þínir, bæði þeir, sem þú veizt af og hinir, sem þú veizt ekki af, að þú farir að safna kvæðum þínum, og af því þau eru nú orðin töluvert umfangsmikið verk, þá vildi ég benda þér á, að ég teldi hentugast að prenta þau í heftum, svo sem á 1 kr. 50 aura eða 2 kr. Þá geta flestir eignazt þau, sem það þrá“. Þessu er ég samþykkur. Og heima vildi ég helzt þau yrðu prentuð. Þar er þeim sýnna um það verk. Þar er það ódýrara. Þar seldist ég bezt! T. d. þar er „Á ferð og flugi“ löngu uppselt. Hér var það og er næstum óseljandi. Margt væri fleira að segja, en ég er laraður af vikuverki á engjum og ökrum og á marga snúninga ógerða í dag, og þér fer að leiðast að hlusta á mig.

Þér til smekkbætis set ég svo kveðju Þorsteins úr bréfinu umgetna: „Sorg er að geta ekki masað saman eitt kvöld ... og tala um allt ... skyggnast um nútíð og fljúga um framtíð, þegar farið verður að snúa kvæðunum mínum á „nýíslenzku“ svo Íslendingar skilji þau, og þín ljóð eru orðin eina minningin um veru íslenzks kynstofns vestan hafs. Þetta kemur fram. ... En á þér lifa þeir lengi, landarnir þaðra.

Fyrir vestan voga
Verður bjart á haugi,
Gulir glampar loga,
Gull er nóg hjá draugi.
Allt er dæmt í eyði,
Eilífð falið sýnum,
Nú fá landans leiði
Ljós frá haugi þínum“.

Vertu nú blessaður og sæll. Þinn S. G. S.

*Sigurður Jónsson frá Víðimýri.* 1906.

Góði minn. Ekki þori ég að fara að heiman, ég er enn óleystur úr banni, og allt bitnar á mér, sem húsráðanda. Við veikis-flutning er ég ekki hræddur. Við höfum enga „Diphtherits“, því betur, en hr. Georg vill ekki hafa það svo.

Húshæfur ég orðinn er hjá engum manni —
Una verð í eigin ranni
Alheill svona í pestar-banni.

Drengir koma samt. Láttu þá hjálpa þér það, sem þú getur. Mundi gæti tekið niður fyrir þig, það sem selt er. — — —

*Eggert Jóhannsson.* Markerville, Alta, 16. okt. 1906.

Góðvinur. — Þökk fyrir bréf dags. 5. þ. m. Hvað mér þótti vænt um, hversu ljóst þú skildir, hvernig í öllu liggur. Án þess að hafa tillit til „okkar máls“, þá hefir mér oft sárnað að sjá andstæðinga okkar geta unnið það með lagkænsku, að allt, sem vel er gert, sé sér að þakka, eða líti svo út. Það var þess meira en verðsins vegna að ég neitaði boðinu. Ég hefði getað sagt vini mínum, séra Friðrik, „hvaða spil hann átti á hendinni“, hefði slíkt ekki verið á móti „spilalögum“. Og þau spil voru, sem þú segir. En ekki gat ég sagt svo við ykkur vini mína að fyrra bragði, það var svo líkt því, að ég væri að særa ykkur til fjárframlaga. Ég stend við tillögu mína árið út, vona ég. Mér er annt um að verða við ósk vina minna og lesa allt saman, eins vel og ég get — og svo er það sjálfsagt einn hluti af „skyldunni við sjálfa oss“, þó það standi ekki beinlínis í „kverinu“, svo ég muni. Um hitt er mér ekki síður annt að gera vinum mínum sem minnst fjárútlát og fyrirhöfn, að því ég frekast fæ séð fyrir fram. Hvern veg sem allt færi, vildi ég eiga það vað fyrir neðan okkur alla, að enginn skaðist tilfinnanlega á brallinu. Ég finn og þakka, að þið viljið vita minn hlut sem vænstan, en það, sem ég stakk upp á, er mér full gott, og meira en það. Aðeins að hægt sé að sjá svo um, að þið náið seinna ykkar upp, og það held ég megi vinnast með lagi, nema „öll sannindi hafi rengzt“ við mig, eins og Steingrímur hélt um Hannes Hafstein forðum.

Við ræðum ekki um útbúnað nú. Ég geri mínar tillögur um hann seinna — en *eigandinn* ræður ályktun, ef úr þessu verður. Ég skil það og kannast við það.

Já. reyndar stendur nú í mér að sanna, að „Á ferð og flugi“ hafi selzt illa vestan hafs, en ég veit ekki betur. Það kvæði sendi ég Jóni Ólafssyni fyrir „Sunnanfara“, sem hann var þá annar ritstjóri að. Hann gaf það út vandlega í bókarformi. Sendi mér til Wpg 200 eintök að gjöf. Magnús Pétursson var millimaður okkar Jóns, borgaði toll og burðargjald — frá Skotlandi — og tókst á hendur útsölu. Ég réð verði, 50 cent fyrir eintakið, eftir tillögu Jóns við mig. 25 eintök

fékk ég mér send, mörg gaf ég af þeim, nokkur seldi vinur minn hér til nágranna minna og kvartaði undan „daufum markaði“, verðið of hátt, pappírinn illur og ljótur o. s. frv. Guðmundur Dahlmann frá Minnesota skrifaði mér þá, að hann væri aðstoðarmaður Magnúsar við bókaverzlan mína þar og gengi tregt. Hann kenndi kirkjufélags andstreymi um það. Vinkona mín, forn og í fjarlægð, bað mig að senda sér 10 eintök, hún vildi selja þau í sinni sveit í greiðaskyni við mig. Ég fékk þau frá Magnúsi handa henni, en hún sendi mér 5 dollara og það er allt, sem ég veit reikning yfir, og eintökin 25. Vinkona hefir kannske keypt slattann ein. Það væri vísir til bókasafns, allar í sama broti. Hvort Magnús fékk nóg í ferðakostnað kveranna og verndunartollinn, veit ég ekki. Hann hefir aldrei sent mér sögu um það. — Bókaskrá Bárdals segir hann selji þennan bækling fram á þennan dag. Hvernig hann komst í hans vörzlur, veit ég ekki. Ég held óánægðir kaupendur skili honum þar alltaf af sér, til að „snuða“ þann næsta, eða hann sé orðinn að peningi í búð Halldórs, eins og fimmtíu-„centa“-seðill. Í alvöru, Eggert, allt, sem ég vissi bezt, var, að „Á ferð og flugi“ flaug hér ekki út. Heima er það uppselt fyrir löngu — eða svo var sagt í íslenzku blaði, og sama sagði Þorsteinn Erlingsson í bréfi til mín fyrir þremur árum.

Góða nótt, Eggert minn, og hérna er hendin!

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerville, Alta, 26. okt. 1906.

Góði vin. — Hér með legg ég langt kvæði, ef „Heimir“ vill hafa það. Ef til vill er það of trúlaust, jafnvel fyrir hann. En gerðu svo vel og sendu mér það aftur, ef „Heimir“ gerir það „afturreka“. Taki hann það upp, gerðu svo vel að gefa mér 2 eintök af því blaði, sem það yrði í.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerville, Alta, 19. nóv. 1906.

Góði vin. — Þökk fyrir bréf þitt, langt og vinveitt. Nei, mér verður ekki hægt um vik að koma til Winnipeg um næstu hátíðir, — því er nú verr. Það liggur við, að ég hafi verið ófær til alls nú fyrirfarandi sökum óhreysti. Það er nú aðeins

samt kvellisýki, sem rénar við hvíld. Ég er ögn að eldast og þetta ár gekk ég illa undan sumarbrúkun.

Af ýmskonar rangsnúning reigðum og beygðum,
Svo röskuðust „sigtin“,
Af saglandi langnúning sveigðum og teygðum
Nú sezt að mér „gigtin“.

Svo er annað, ég hefi frá tilveru-byrjun mesta og matsælasta félagsins hérna, „Smérgerðarinnar“, verið ritari þess og féhirðir. Ég tek við og borga út í smáskömmtum yfir $ 1000.00 um árið. Aðalfundur þess er rétt upp úr nýári. Ég lærði aldrei bókfærslu né reikning, og vinn þetta nauðugur vinum mínum hér til geðs, sem héldu þessu að mér. Auk ársreikninganna hefi ég yfir 100 hlutabréf að skrifa fyrir nýár og koma til skila, og jafnmörg bréfboð um ársfund. Allt þetta geri ég í hjáverkum, og svo þarf ég að lesa blöð og kannske kveða vísu. Þó ég gæti hirt kýr og kálfa hugsunarlítið, þá kemst ég ekki yfir meira fram að jólum. Sem sé, ég gæti ekkert erindi gert til að flytja fyrir ykkur. Ég fyndi til þess, að ég nyti mín ekki og væri að gera mér til skammar. Ég veit, hversu hæpið það stendur, að mér gæti tekizt þolanlega, þó mér væri engra muna vant, — en nú vissi ég skömmina upp á mig, fyrirfram. En alúðar-þökk fyrir boðið, til þín og vina minna allra, sem um þetta hafa verið að hugsa. Ég finn, hversu mikill vandi er að neita jafn-vel boðnu. Ef ykkur finnst ég „hornrekulegur“, þá er það þó sökum forlaga minna, að ég er það — en ekki fyrir náttúrufar. Ég kann líka að meta skemmtun og skilding, og hefi oft orðið báðum feginn.

Velti eg guðum — var ei nokkur véstallfastur,
Mammon einn varð erfiðastur!

Ef ég lifi — og ég hefi ekkert ferðasnið á mér að komast úr heiminum — og geti ég „vatnslímt mig í kollinn“ nokkru fyrirfram, svo búið standi og smérið eigi sig, þó ég sitji í veizlum í Winnipeg, vil ég koma, þó á seinni skipum sé — kannske að vetri. Ég þarf endilega að kveðja gamla vini og góða og heilsa nýjum og ungum, áður en mér verður sagt upp vistinni hérna, og ég geri það nema því verra babb komi í bátinn. — —

Það er illt um þessi jól í þögn að lenda,
Vita ei hvar má hending henda
„Heimis“-vinum til að senda. — —

Nei, ég þykkist ekki við það, að „Heimir“ kunni gamalt kvæði eftir mig. Ég ætlaði að þakka þér fyrir að hafa kennt honum það, en hefi líklega gleymt því. Jú, svo er ég nú hégómlegur, að mér er ánægja að að heyra vísu eftir mig hafða yfir tvisvar. Var það ekki Gauti gamli geirmennski, sem sagðist hafa skotið ör og kvæði út í bláinn og ekki vitað, hvar niður kom? Áratugum á eftir, sér að óvörum, fann hann örina í tré og kvæðið — *í minni vinar síns.*

Hérna á fyrri tíð og yngri árum, „er glaður ég raust mína hóf“, var öllum kennt, að ég væri torskilinn og bölsýnn, þangað til að það varð þjóðtrú. Þá var fáum um það gefið, að fólki fyndist það skilja mig, — eins og við var að búast! Mönnum er illa við áreynslu, og sannleikurinn á nærfötunum einum þykir aldrei prestur í hempu. Þættist múgamaðurinn skilja, hvað ég sagði, hlaut „krítikin“ og lærdómurinn að vita, að það var ekki svo. Sjálfsagt var þetta að sumu leyti satt. En hvað mikið af því var satt, aðeins á þann hátt, að það, sem ég var að reyna að segja, var nýung í hugsunarhættinum, sem menn þekktu ekki deili á og var öðruvísi en það, sem þeir voru vanastir við — og hvað mikið var aftur mitt „myrkra-verk“, það eru sakir sér. Nú er þagað um bölsýni og dróttkvæða orðaskipun, það sem skilningurinn helzt steytti á. Mér er ekkert gramt út af neinu þessu. Ef eitthvað af því voru hindurvitni, þá fer það sömu leið eins og önnur hindurvitni. Yfir höfuð hefir kvæðunum mínum verið vel fagnað — kannske um skör fram. Ég er hjartans ánægður með það „meðalverð allra meðalverða“, sem út úr því fæst. — Berðu Brynjólfssonum, og fornvinum mínum öllum, hvort sem ég þekki þá eða ekki, kveðju mína og þökk. Svo mælist ég líka til vináttu við æskuna. Þorsteinn Erlingsson segir maður sé feigur, ef hún rétti manni ekki „örvandi hönd“, og ég hygg það orða sannast.

Það gleddi mig, ef nýárið yrði ykkur „Heimir“ til hagræðis.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Aðalsteinn Kristjánsson.* Markerville, Alta, 3. des. 1906.

Góði vinur: Svo það varst þú, sem ég var að hnýta í í „Kringlu“ forðum. Beztu þökk fyrir bréfið og boð þitt, en ekki sízt fyrir drengskap þinn, sem ekki erfir það, sem einhver kveður út í bláinn, en sem þó má taka til sín. Satt að segja eru það málstaðir en ekki menn, sem fyrir mér vaka, þegar ég kveð — en auðvitað: Einhver maður stendur bak við hvern málstað; annars væri enginn málstaður til, en oftast veit ég ekki, hver maðurinn er.

Um árið, þegar ég kvað og hitti þig, skildist mér, að þú myndir vera frjálstrúarmaður, þrátt fyrir það að þú héldir hinu fram, að trúleysingjar hlytu að vera tilfinningaminni fyrir böli annarra en trúmenn eru. Kannske misskildi ég orð þín, en þetta er gömul ásökun kirkjumanna í garð okkar vantrúarmanna, sem ég hefi lengi mætt og er sár við, því ég veit, að hún er yfirleitt ekki sögð að maklegleikum — og því kvað ég. Við þig átti ég enga sök aðra — þekkti þig þá ekki, né nú heldur, nema nú hygg ég þú sért góður drengur, af bréfi þínu að ráða. Og nú hefi ég sagt þér allt, sem ég kann, hreint og frómt.

Vinir mínir nokkrir, heima og hér, hafa hvatt mig til að safna kvæða-þulum mínum, í blöðum og bréfum til mín, nú í nokkur ár. Ég hefi ekki getað sinnt því enn; ekki verið svo fjáður, að ég gæti keypt að búskapnum það tíma-tóm, sem mér fannst ég þurfa, til þess ég nyti mín við það. Nokkrir kunningjar mínir eystra hafa undir höndur tilboð frá mér um afsalsrétt til kvæða minna, safnaðra af mér. Það er það, sem þú hefir heyrt ávænu af. En þetta liggur enn í þagnargildi og er óútkljáð, en verður líklega bráðum. Hjartans þökk fyrir þitt drengilega tilboð — og ef að úr þessu verður alvara, skal ég skrifa þér nákvæmar, og víst skal ég þiggja þá liðveizlu þína, sem er svo vel og vingjarnlega boðin.

Vinsamlegast S. G. S.

*Eggert Jóhannsson.* Markerville, Alta, 7. des. 1906.

Góðvinur. — Mig langar til að segja við þig launmæli, en ekki til neinna illræða. — Maður heitir Aðalsteinn Kristjánsson á *Beverly* þarna í Wpg. Ég sagði eitthvað í hendingum

hérna um árið, þegar hann og Jóh. Sigurðsson öttu hestum sínum í „Hkr.“ út af trú, sem Aðalsteinn þessi hefði getað tekið upp sem slettu og erft við mig, væri hann eins og vanalegir menn eru. Nú ritar hann mér vingjarnlega, segist hafa heyrt, ég muni þiggja styrk til útgáfu kvæða minna, vill fá að vita, hversu mikils við þurfi, býður mér styrk frá sér og umgöngu við aðra. Ég þakkaði honum boðið bréflega. Sagði honum sem var, að ég hefði boðið vinum mínum eystra kvæðin mín fyrir víst verð, en það væri enn ógert mál, en yrði því tekið, yrði hans boð þegið með þökk. Nákvæmara sagði ég ekki. — Nú, Eggert, ég vil láta þig vita um þetta. Aðalstein veit ég ekkert um, hvert lið hann getur lagt. Þú getur getið því nærri. Að hann sé bezti drengur og eigi það undir sér, sem hann býður, efa ég alls ekki. En — jafnvel vænstu menn geta orðið svo skrítnir, að þeir ætli sér ekki í öllu af. — Þetta er nú efni bréfsins, en legðu það í lágina. Glaðra daga og auðnusæls árs óskar þér

Stephan G. Stephansson.

*Eggert Jóhannsson.* Markerville, Alta, 21. des. 1906.

Eggert minn góður. — Þökk fyrir svar þitt. Með spurningunni um arkarfjölda hefir þú nærri rekið mig í vörðurnar. Út í bókagerð og þá reikninga hefi ég aldrei hugsað, svo mér er það allt völundarhús.

Nú, ég hefi samt lauslega kastað tölu á ljóðlína-, þ. e. hendinga-fjöldann, sem ég hefi látið prenta eftir mig um dagana, sleppt mörgum heilum kvæðum, en tekið fyrirsagnir kvæða, þar sem þær voru, en ekki reiknað þessi mörgu kapitulaskipti í kvæðunum, sem ég vanalega merkti með rómverskri tölu og býst við að halda, með þeim eða öðrum merkjum, sem allt kemur að einu með rúmið, það fer línubreidd í það í hvert sinn.

Línu-fjöldinn er hálft tólfta þúsund. „Á ferð og flugi“ ekki talið með. Það kvæði er prentað á hér um bil hálfa fjórðu örk. Ég taldi heldur ekki nema eina línu neina hendingu, sem brjóta varð í tvær línur sökum lengdar, eins og oft verður. Ætli maður 25 línum á blaðsíðu, þyrfti um 34 arkir. Þó ég felldi enn meira úr af kvæðum, yrði arkarfjöldinn alla tíð frá 30 til 40. Eins illa og mér er við það, má ég líklega til að

gefa skýringar yfir margt. Ég er verstur allra, sem á íslenzku kváðu, með það að draga líking af öllu í sögu eða hverjum fróðleik, sem fyrir mér varð. Til dæmis í kvæðinu „Áin“:

„Hvort gröfin Atla er ekki þar,
Og auður Niflunganna“.

Það verður víst að minna fólk á, að Atli Húnakonungur er sagður vera grafinn undir á, og að Niflungar hentu gullinu í Rín. Eða:

„Mun skugginn, er stöku af þeim stendur nú hjá,
Um stjörnu-heim annan og fegurri spá“

heimtar eflaust það, að fólki sé sagt, að sortinn út í sjóndeildarhringnum við strendur stjörnuhvelsins, sem menn kalla „kolasekki“, hafi verið grunaður um að vera ginnungagap og um heims-endir, af sumum sérvitringum. Og svona er margt og margt. Og þá er registur og upphöf, fæðingar-ártöl við hvert kvæði, sem mælzt hefir verið til að ég setti og ég líklega geri þeim til geðs, sem það vilja; svo að öllum kurlum í gröf komnum þyrfti um þau frá 35 til 40 arkir, nema ég ætli arkinu of lítið, sem vel getur verið. En þið getið bætt um það. Það er ekki von, að neinn hafi hugmynd um, að ég hafi eytt fyrir heiminum svona miklu af bleki og pappír um æfina — en svona er það, ég hefi skipzt á milli svo margra blaða, að úr mér verður þessi hrúga, þegar upp er rakað. Þess má líka geta, að ég á í höndum ritstjóra í Winnipeg frá 10 til 12 blaðsíður af nýjum kvæðum, ótöldum hér. — Það, sem ég felldi úr tölunni, er t. d. allt, sem ég átti í Gimlis-„Svöfu“. Allt, sem ég hefi gletzt við þá, sem hreytt hafa í mig persónulega í blöðum, auk margs fleira. — „Krítik“, sem út kom í „Kringlu“ endur fyrir löngu, taldi ég ekki, né „Snækoll“, sem var í „Heimi“ í fyrra, auk fleira af þess háttar. Reyndar er rangt að skafa bæði þau kvæði úr, en verður vinsælla, af því allt er miðað við persónur. En „Krítik“ er andmæli gegn þeirri stefnu, sem nú er döguð uppi hér vestan hafs, að úthúða allri nútíð á Íslandi með oflætis gorgeir, og „Snækollur“ er þeirri stefnu gjöld, í sömu mynt, sem reynir að sletta allri varmennsku úr gullaldar-sögum Íslands á þá, sem ekki eru lagsbræður hennar í þröngsýninu. Við bæði kvæðin stend ég enn og alltíð, en ekki er mér kappsmál að halda þeim uppi í bráð-

ina. Örfáar þýðingar hefi ég gert um dagana, en enga þeirra tel ég hér. Þó er það líka rangt með þýðing eins og á kvæði Drachmanns um Finsen, sem stóð í „Heimi“, vegna þess að þó efni sé þrætt, gerir háttur og mál það nærri að nýju kvæði. Svo hefi ég þá sagt allt sem ég get um þetta í bráðina.

Með vinsemd, þinn einl. Stephan G. Stephansson.

Eggert minn. — Hér er nokkuð okkar á milli einna sagt, nema þú kjósir að sýna það þínum mönnum, þá er mér alveg sama.

Ef rubbið mitt yrði prentað, má ég tileinka þér fyrra eða fyrsta heftið? Ég hefi hugsað það svona:

Tileinkað

Eggert Jóhannssyni
fyrrum ritstjóra Heimskringlu og Aldarinnar.

Þú hafðir svo lengi svo lifandi trú
Á ljóðinu mínu,
Þó sjálfur ég trúi því naumlega nú
Fyrir nafninu þínu.

Höf.

Næsta hefti myndi ég svo tileinka á líkan hátt fóstbræðrum mínum frá yngri árum, „Menningarfélagsmönnunum“. Og ef ég segði í „þriðja og síðasta sinni“, eins og prestar og uppbjóðendur, myndi ég ánafna Jóni mínum Ólafssyni það númer, og vinum kvæðanna minna heima. Þetta er ekki af neinni fordild sagt. Á þennan hátt get ég sýnt, hverjir hafi reynzt mér vel, án þess að lesa upp langt erindi. Þar sem bækur yngjast upp, fara „vísurnar“ inn í textann á næstu útgáfu, og geymast svo. Ég býst ekki við að yngjast upp, en það er saklaust að gera ráð fyrir öllu, að gamni sínu. En því vil ég nefna þig fyrstan, að þú ert sjálfsagt forsprakki þess, að mér tekst að gera tilraun til að „gera hreint fyrir mínum kvæða-dyrum“, hvernig sem heppnast. En fyrsta heftið verður ómergjaðast, ef til vill. Sendu mér svo þínar athugasemdir um þetta í tæka tíð. Vinsamlegast S. G. S.

*P. S.* — Má ég biðja þig bónar? Hún er sú, að skila til Bárdals bóksala að senda mér: 1. Orðabók (ensk-ísl. og ísl.-ensk) G. Zoëga. 2. Ritreglur Vald. Ásmundssonar, og 3. Stafsetningar-bók B. Jónssonar, seinni útgáfu, — hina hefi ég, —

allar, eða hvað, sem hann hefir af þeim, og reikning, sem ég skal borga. Hann hefir áður sent mér kver þannig og ekki orðið að slysi, svo ég hygg að hann geri það enn. Ég hefi ekki bókaskrá hans við hendina rétt núna, annars gat ég skrifað beinlínis og ekki gert þér átroðning. Afsakaðu kvabbið.

S. G. S.

*Eggert Jóhannsson.* Markerville, Alta, 25. jan. 1907.

Góðvinur. — Bréf þitt dags. 14. þ. m. fékk ég fyrst þann 22. og á morgun 26. er næsta póstferð héðan, síðan bréf þitt kom, og með henni fer þetta. Öll viðskipti manna eru eitthvað veðurteppt.

Fer að standast frostin gróf
Fæst, sem andað getur.
Þjakar land með þyngsla-snjó
Þessi fjandans vetur.

En einlæga þökk fyrir bréfið, peningana og allt, og beztu alúðar heilsan mína og þökk til allra hinna félaga þinna, hverjir sem þeir eru. Persónulega þekki ég aðeins Brynjólfssyni, við erum gamlir mátar.

Samningurinn er ekkert nema það, sem þarf að vera. Hann er aðeins uppástunga sjálfs míns, og ég vildi heldur vita ruslið mitt í ykkar höndum en annarra flestra, ef ég þyrfti að sleppa af því hendi óloknu. Það eruð þið, sem leggið fé ykkar í óvissu. Ég skal reyna að koma því í verk, sem heilsa og elja leyfa. Mér er ánægja að fá ráðrúm að gera þessa tilraun, en kvíði þó hinu, að ég orki ekki að vanda þetta eins vel og vera ætti. Eitt félli mér samt verst: Ef þið sköðuðuzt. Ég held alltaf, að til að sjá ykkar fé borgið, væri vissast að selja útgáfurétt fyrir einkasölurétt vestan hafs á eins mörgum ókeypis eintökum sem manni mundi teljast til, að ríflega myndu borga ykkar útlát öll og vöxtu af þeim, og sölulaun eins duglegs útsala. Fyrir nokkrum árum kom sá kvittur upp, eins og oftar, að í vændum væri að gefa út kvæðin mín. Ég held það hafi verið spunnið upp úr einhverju, sem sagt var í blaði heima. — En Bárdal bóksali skrifaði mér strax og bauð mér sína umsjón á því gózi mínu vestan hafs. Nú — er ekki viðbúið, að í kyrrþey verði amlað móti sölu á vöru, sem einn flokkur

býðst að annast um að öllu, en gengur samt úr greip hans? Er það ekki hygginda-ráð, ef sanngjarn samningur fæst um eitthvað, að binda flokkinn svo við borð með því að semja, að ef hann fer í andróður, eigi hann líka á hættu að skerða hag einhvers samliða síns? Þetta er „prívat-mál“ og aðeins bending, og nú á ég annað eftir, sem er því að þessu leyti samkynja, og það er þetta: Jón Ólafsson, sem mér hefir reynzt bezti drengur, bauð mér fyrir löngu að gefa út kvæði mín, gera fyrir mig samninga og lesa prófarkir borgunarlaust og unna mér alls ágóða, sagði sig langaði til þess. Nú, ég afþakkaði, af því ég hvorki gat misst mig frá daglegri vinnu né gat þegið, að Jón gæfi mér, sem kannske var sjálfur snauðari en ég. Ég sagði samt víst, að hvenær sem ég gæti að sjálfsdáðum við snúizt, myndi ég leita liðs hans við útgáfu. Ég veit, hvað fundið er að ráðsmennsku Jóns, en engar sönnur á neinu og ber sjálfur fullt traust til hans af reynslu. Þið þekkið hann vel sumir. Ef þið treystið honum eins vel og ég og þurfið umgangsmann fyrir borgun, væri mér þægð, að þið reynduð Jón. Ég nærri held, að hann hafi gaman af að hlynna að þessu. En svo er þetta bara bending.

Og nú vil ég „hafa nokkuð fyrir snúð minn“, þ. e. bending fyrir bending, við hentugleika. Ég sendi sýnishorn af skýringa-hugmynd minni. Fallegar þykja mér rauðar línur utan við texta og tilvísanir utan við. Fallegastar þykja mér útgáfur í eins gerðum, þunnum, handhægum heftum, frá 12 til 14 arkir hvert. Heftin í Matthíasi og Páli hefði ég kosið þynnri og fleiri. En slíkt eru smámunir. Hefði ég þorað fyrir stafsetningar forneskju-hjátrú lærðra manna, hefði ég hvorki ritað x, y, ý, né z. En svo eru það smámunir líka, sem ekkert er leggjandi í sölurnar fyrir og yrði mér til tafar af óvana.

Leið er mér kvæða-bók í ártalaröð einungis, það er sú fyrirhöfn að fá þráð í höfundinn, sá hræringur ruglar mann. Ég vil flokka niður á annan hátt, en hafa kvæðin í ára-röð í hverjum flokki. Ég hefi hugsað mér sjö, eins og vikudagana, og sunnudaginn sýknan dag.

I. „Gripið úr lausu lofti“ — það verða stakar stökur, spaug og orðskviðir (þ. e. epigrams).

II. „Út í veður og vind“ — það verða árstíða-kvæði.

III. „Yfir minnum lands og lýða“ — það verða samsætiskvæði, ættjarðar-kvæði, erfiljóð.

IV. „Staddur í heima-húsum“ — það verða kvæði um ýmsar stefnur, en í ljóðabréfs-formi.
V. „Úr sögnum og sögum“ — það verða kvæði úr fornsögum, um goð og menn.
VI. „Úti á víðavangi“ — það verða náttúrulýsingar.
VII. „Dreymt fyrir daglátum“ — það verða ljóðsögur úr samtíðinni, sem hafa gerzt eða eru ímyndaðar.

Hvernig lízt ykkur á?

Fyrirgefðu, að ég hefi þreytt í þér þolrifin með þessu mælgisbréfi. Líði ykkur öllum sem bezt.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Eggert Jóhannsson.* Markerville, Alta, 22. febr. 1907.

Eggert minn góður. — Hræðstu mig nú ekki, ég ætla ekki að bulla við þig endalaust núna, heldur verða fáorður. En fékkstu bréf frá mér, viðurkenning fyrir sendingunni frá ykkur félögum? Allur póstur hér hefir verið á ringulreið og sumt tapazt, annars hefði ég bara haldið, að þú værir ekki búinn að lesa það, sem ég sendi þér seinast, og ekkert furðazt á því, það var ekki hlaupið að því, ef ég man arkatöluna rétt. Ég bað þig að biðja Bárdal bóksala að senda mér 3 kver. Hafirðu ekki þegar gert það, þá hefi ég nú búðarnúmer Halldórs og get gert það sjálfur. En hvað er um arkar stærð í handriti mínu, sem ég spurði um, mér er þægð, ef þú gætir sagt mér það. Ég annað hvort sá eða mér var sagt, að stærra ark en „octavisti“ væri prenturum óþægra við að „setja“. Hefi komið í eina prentsmiðju um æfina, „Leifs“ heitins, en þú varst að lesa sundur. Samningana hefi ég undirritað fyrir friðdómara undir vitni. Á að senda þér eða Skafta þá? Ég hefi þegar farið yfir „tíu mikið örðug ár“, eins og Þorsteinn kvað, ruglið mitt frá fermingaraldri til 25 ára, og valið úr og lagfært, en ekki hreinskrifað; hálf-beðið eftir svari frá þér um pappírsstærð, flokka-röðun, skýringa-merkin o. fl.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Jón ritstj. Ólafsson.* Markerville, Alta, 8. marz 1907.

Góði, gamli vinur, Jón Ólafsson. — Þökk fyrir bréf þitt, dags. 31. jan. n. l. og framkomið í fyrradag. Beztu þökk fyrir

útgáfuboð þitt, og svo er að segja, hvernig sakir standa þar og ljúka því af. Seint í sumar hófst hreyfing í Winnipeg, meðal vina minna þar, án þess að ég ætti upptök að, um að koma út kvæðarusli mínu. Í fyrstu var ætlunin önnur, en þetta varð ofan á. Frumkvöðull held ég sé Eggert Jóhannsson, forðum ritstj. „Heimskr.“ og félagar hans, unitarar og „vantrúarmenn“. Ég veit aðeins um Skafta og Magnús Brynjólfssyni og Magnús prentara Pétursson, kunningja — tengda-mann? — þinn, en svo eru víst einhverjir aðrir um þetta. Fyrst buðu þeir mér að leggja til fé og forsjá fyrirfram og unna mér alls ágóða yfir kostnað fram, hugmyndin er allt af hjá þeim að gera mér allt gagn. Mér þótti þetta of mikil þríliða, fannst, að allt þetta hlyti að vefjast upp í milli-manna reikninga og vinir mínir hætta of stórri upphæð í upphafi verks. Ég sagði þeim það og fór um leið fram á hitt: Hættið engu stórfé, gefið mér 500 doll. fyrir allt, sem ég hefi kveðið upp til næstu áramóta, reynið að ná ykkur niðri einhvern veginn. Ef ekki vill betur til, takið aðeins í ykkar hlut einkasölu vestan hafs og nógu mörg eintök til að borga ykkar kostnað, við seljum alla tíð svo mörg. Þetta samninga-boð mitt við sig þáðu þeir, af því það væri einfaldara en sitt, en héldu, að á sínu boði yrði ég efnaðri, og ég nærri held, að þeir ætli að hafa það svo enn, í framkvæmdinni. Á milli mín og þeirra var loks samningur gerður í næstliðnum janúar, alveg eftir minni uppástungu.

Um fyrirkomulag og fæðingarstað þessarar gráskinnu höfum við ritazt á lítið eitt, en allt mun óráðið. Ég stakk upp á smá heftum, tólf—fjórtán örkum hvert, þeir hafa hugsað sér allt þykkra — fyrst eina bók. Þeir vildu helzt, að ég fæddist í Winnipeg, því þar má prenta vel, nú orðið, og þeir ætla að vanda sig á mér! Ég hafði betri trú á Reykjavík. Nú held ég Winnipeg sé úr sögunni, en Kaupmannahöfn og Reykjavík verði spurðar um „hvar billegast brennivín sé“, ég ætlaði að segja bókagerð. Ég mundi eftir, hvað okkur fór á milli, og sagði þeim það í bréfi og hitt með, að hagi þína og hug um það vissi ég ekki nú, en ég tryði þér manna bezt af minni reynslu og mér væri þægð gerð, ef þeir leituðu þín eins fljótt og annarra. Meira veit ég ekki í bráð og enn held ég enginn hafi verið ávarpaður í þessa átt, því í endann á þessu skall blindbylur — Baldvins og Roblins kosninga-hríð — yfir Wpg

og Man., og allir eiga líf sitt að leysa og ekki upprof fyrr en um miðjan þ. m.

Í útgáfunefnd munu vera: S. B. Brynjólfsson Wpg, 623 Agnes Str., Eggert Jóhannsson Wpg, 689 Agnes Str. og Magnús Pétursson Wpg, en húsnúmer hans kann ég ekki, en duga mundi að fela Skafta eða Eggert bréf til hans. Ég set þetta svona, ef þú kynnir að vilja senda þeim línu beint (sem mestur væri vinur þinn), þegar þú veizt málavöxtu. Sjálfur skal ég senda Eggert línu í þessa átt enn á ný. Ég vildi, að pappír og próförk lenti hjá þér — allt sem væri ómaksvert, sjálfs mín vegna, því ég vissi, að ég væri þar í vinarhöndum og að þér er manna sýnast um prent og „próf“, — þegar þú hefir tök á að leggja þig fram. Ég veit, hvar ég stend í stafsetningu og máli. Ég var eigin-kennari og gerði lærisveininn minn fljótt fullnuma og var ekki harður á honum. „Ég stökk yfir námsskeiðið“, eins og Einar okkar sagði forðum, og nú erum við í vandræðum með mig, hann og ég, og ráðum ekki við efra skeiðið. Ætti ég þig að þar, mætti kannske stytta sum gönuskeið. Þetta, sem ég hefi sagt þér, er aðeins á örfárra manna vitorði enn, og þér einum ætla ég að vita það í bráðina, svona greinilega, aðeins til þess að þú vitir, hvaðan veðrið stendur, ef þér sýndist við þitt hæfi að eiga nokkurn hlut úti í því. Að öðru leyti koma öll svik upp um síðir, jafnvel þau, að maður eigi bækling í vonum. Ólafur Þorgeirsson prentari í Winnipeg gerði mér líka boð í haust sem leið, 10.00 doll. á örkina — „lárviðarskáldið“ hvað einhvern tíma hafa boðið Ólafi sig mun lægra, en gleymdu því. — Ég gekk ekki að því, ekki kaupsins vegna, heldur hins, ég var ekki viss, hvernig kvæðunum mínum liði í lútherskri prentsmiðju; ég hefi lesið, hvernig fór fyrir kölska, þegar hann steypti sér í skírnarsáinn hjá prestinum forðum.

Þökk fyrir, hve vel þig hefir dreymt um framtíð mína. — Enn hefi ég verið matvinnungur, orðið að vera það. Krakka á ég 7, erum í sambýli. Yngsta telpan mín er 6 ára, stytzti strákurinn minn á 14nda. Tveir þeir elztu giftir og hafa gert mig að afa. Bú hefi ég ekki svo lítið, eftir þessarar sveitar sið, en í verunni sýnist ég efnaðri en ég er. Ég hefi flotið, en með áhyggjum og erfiði, og býst við að fljóta fram úr því svona, að kringumstæður krakkanna minna verði ekki alveg

eins þröngar, í byrjun, eins og mínar voru á þeirra reki. Hærra hugsa ég ekki. Einn míns liðs yndi ég við lítið, og yrði eitthvað til í lengstu lög. Ef mér bregzt ekki framtíðin því meira, vonast ég til að geta losazt við ýmislegt vafstur og áhyggjur næsta ár, og það ætla ég að gera, þá hefi ég frírri hendur, þó efni verði aldrei stór. Þrek mitt til erfiðsvinnu er þrotið. Í vetur hefi ég varla tekið handarvik úti, gat það ekki, fyrsta sinn á æfinni, sit inni og svelti mig til að hafa heilsu, en vonast eftir að skríða úr híðinu í vor, ögn horaður og úfinn, en bráðólmur eins og bjarndýrin. Ef ég endist og mér hrakar ekki, held ég tími fengist til heimferðar og skemmtun hlyti það að vera að öllu sjálfráðu, en heimasetull er ég mjög og orðið ósýnt um og afvenja ferðalögum; ég býst við það lærist manni þó. En svo er tvennt, mér finnst því fé fleygt á glæ, sem upp á ferð mína væri kostað, ég er svo mikil hversdagsskepna að öllu leyti, að varla væri útflutnings virði í, en þar næst hitt, ég er hvorki reglulegur snyrtimaður né almennilegur villimaður heldur, og væri vonbrigði í húsum heldra fólks, án þess ég sé þó dóni að eðlisfari. En sleppum því, mann langar þó stundum að hafa heilsað upp á suma menn og fengið að sjá sveitina sína aftur.

„Reykjavík“ þín er ókomin, fer líkl. hægar en bréf berst. Ég þakka hana samt. Hefi aldrei séð blað af henni. Vissi samt, úr bréfi að heiman, að hún fór með kvæðið mitt. Þakka þér fyrir það og eins, að þú last það tvisvar (sumt) að gamni þínu, eins og séra Friðrik neyddist til að gera við „Á ferð og flugi“ forðum, að hann sagði í „Aldmótum“. Nú kenni ég í brjóst um séra Friðrik, allir amast við honum jafnt, helgir menn og heiðingjar, fyrir þau afglöp hans ein að standa ekki við allar vitleysur séra Jóns til veraldar enda. Sérðu „Baldur“ — ég meina ekki þann, sem þú varst með einu sinni heldur „Baldur“ frá Gimli — Gimli hérna neðra, sem þeir Baldwin og Sigtryggur eiga einir. Ég hefi nýlega sent honum grein útaf séra Friðrik, en veit ekki hvort hann tekur hana. Ég vildi, að utankirkju menn hefðu látið Friðrik í friði sem mest, en lofað hinum að bíta hann í næði.

Fyrirgefðu margmælgina Jón — því ég er farinn að skammast mín. Þegar maður hefir ekki sézt í sjö ár, kippir manni í móðurkyn sitt, þótt karlmaður sé, því kvenleggurinn kvað alltént vera tiltölulega mælskari í heima-húsum en við erum

vanalega, sem heima eigum í hinum fætinum á þessum Ými, sem þeir kalla mennskra manna kyn.

Ég vil þú eigir eftir marga glaða daga, Jón minn!

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Eggert Jóhannsson.* Markerville, Alta, 14. marz 1907.

Eggert minn góður. — Þökk fyrir bréfið og bendingar þínar og sendingu Bárdals á bókunum. Nýlega kom til mín bréf frá Jóni mínum Ólafssyni, dags. seint í jan. þ. á. Hann vill kaupa útgáfurétt af kvæðum mínum, var að hugsa um það fyrir sjö árum síðan, eins og ég sagði þér. Það strandaði þá líklega meira á mér en honum. Hann segist vera einhver mesti pappírssali heima sem stendur og hafa betri aðstöðu en áður til góðrar bókagerðar. Hann segist vilja vanda sig í öllu við bækling eftir mig. Ég sagði honum blátt áfram í bréfi, hvar þessu máli væri komið. Það er enn sem áður, og ég ítreka það aftur, mér væri þægð í því, ef þið og Jón gætuð komizt að geðfelldum samningum um þetta.

Mér hefir dottið nokkuð í hug. Hví má ekki prenta skýringar aftan við bók í sama formi eins og fyrirsagna-registur, án þess að leturbreyta, línutelja eða merkja á nokkurn hátt „textann“, sem skýringin á við? Sem sé, segjum ég þyrfti eða vildi skýra „Gröfin Atla“ í „Transvaal“ eftir mig. Ég einkenndi þau orð ekkert, en í skýring setti ég samt:

| Fyrirsögn kvæða | Bls. | Lína | (Dæmi) |
|---|---|---|---|
| Transvaal | 20 | 12 | |

*Gröfin Atla.* — Atli Húnakonungur var heygður í afveittum árfarveg, sem settur var í samt lag aftur. Hugsunin er: Ég leita þess, hvort hér sé nokkuð fémætt falið.

Ef svona er að farið, er skýring auðfundin, sé hún gerð og vilji maður vita hana, án þess að útata bókina sjálfa með táknum og stórmerkjum. Þið getið hugsað út í þetta betur.

Engri í Roblin óþökk ryð,
Eða lof hans skrifa —
Fyrst hann lafði völdin við
Vinir mínir lifa.

---

Flesja og hlíð er frerum huld,
Frost og hríð ei kveður —
Árið stríða er í skuld
Um sín blíðu-veður.

Til veðra-giftu í vinsemd hverf,
Vonum lyfti hljóðu —
Þig hún svipti ei þínum skerf
Þegar hún skiptir góðu.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Eggert Jóhannsson.* Markerville, Alta, 1. apríl 1907.

Góði vinur. — Einlæga þökk fyrir bréfið þitt síðasta, ávísanina og öll ykkar góðu viðskipti við mig og þau boð bið ég þig að bera frá mér til þeirra, sem eru í þessu „samsæri“ með okkur.

Um arka-fjölda get ég ekkert frekara sagt en áður. Þið verðið í samningum að miða við einhverja tölu minnst, og aukakostnað, ef fram úr því fer. Mín aðferð verður sú: Ég vinza úr allt frá upphafi kveðskapar míns til þessa dags, prentað og óprentað, sem ekki er einskær leirburður, allt sem á einhvern hátt kemur við sögu hugsunarháttarins, aldarinnar, sem við lifum á, eða sýnir aðferð mína við að kveða og hugsa. Á þessu læt ég reka, algerðri „tilhreinsunar-sölu“. Svo ræður hver sínum dómi nú og síðar, hvað sé þunnt og þykkt af því. Leirburð og keskni við einstaka menn legg ég í eldinn. Af því fyrra er margt til hjá mér, af því seinna mjög fátt. En svo er hitt guðvelkomið, að hvað sem vill af kvæðum mínum sé látið liggja eftir óprentað, því megið þið ráða eftir eigin vild, eða í samráði við aðra. Ég hirði allt, sem mér finnst einhverja þýðingu hafa og eitthvert fé sé í, til minja um aðra og mig sjálfan, kem til dyranna með allt dótið mitt, í þessari erfða-skrá.

Skýringar hefi ég annað hvort ómerktar, eins og ég stakk upp á, eða engar, fyrst þið fallizt á það. Menn hafa mælzt til þeirra við mig ef ég gæfi út bók, og því stakk ég upp á því, en mér er meinilla við þær. Þær gera sitt gagn, en þeim helzt, sem án þeirra gætu verið. Fáir kunna með þær að fara. Ég er þér samþykkur um það, því miður. Mér er hjartanlega

sama, hvort bindin yrðu eitt eða tvö. Þið alveg ráðið því, og ég er ánægður. Ég aðeins hefi í hug þetta: Lítil bók og verðlág gengur almennast út, og svo hitt: Mér er vel við litlu, léttu kverin, sem sjálfur hefi lesið allt á hlaupum alla æfi. En það, sem þú hefir á móti því, er alveg jafn-rétt fyrir það, skoðað frá sjónarmiði lesborðsins og bókaskápsins, og þess, sem einkum þarf að hafa auga á, óþarfs kostnaðar.

Í einu orði, ég er ánægður með hvern þann útbúnað á þessum förumanni mínum, sem ykkur semur um. Sjálfan mig langar til að gera hann úr garði, eins og ég kann bezt að geta gert, og sé hvorki í tímalengd né fyrirhöfn, eins og ég hefi vit og ending til, enda veitir ekki af því, svo mín skömm af þessu verði sem minnst. Ég kvað aldrei með ljóðabókar útgerð í huganum og geld þess nú á ýmsan hátt, og því biðst ég enn friðar fyrirfram, ef ég þyki seinn, en ekki skal ég ganga að öðrum verkum fyrr en þessu er lokið, nema þær stundir, sem ég verð ofleiður að vinna það verk mitt. — Ég er ánægður, fyrst Jón Ólafsson fær að reyna sig með öðrum. Já, ég veit það, Eggert minn, þið viljið hafa minn hlut sem mestan upp úr öllu saman, en ekki vildi ég, að minn hagur yrði að annmarka á sanngjörnum samningi, ef við Jón er að eiga. Svo er þetta ekki lengra að sinni, og vertu nú sæll á meðan.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Jónas Hall.* Markerville, Alta, 15. apríl 1907.

Jónas minn. — Mér láðist að svara — og ég veit þú misvirðir það ekki — því sem þú varst að stinga upp á að gamni þínu um útgáfu-félag. Ég ætla mér að vera við enga fjöl felldur, nema skáldskap og búskap héðan af, og það þó aðeins í því stórgróðaskyni að komast lífs af sjálfur sem lengst. Ég hefi aðeins ekki uppgefið þennan fjárhags-andróður fyrri, til að koma ár krakkanna minna fyrir borð, það sem ég entist til. — Ólafur Þorgeirsson er maðurinn, sem ætlar sér að verða íslenzkur „forleggjari“ vestan hafs, og eins og á stendur er víst setinn Svarfaðardalur af *einum* í því landnámi. En — ættum við höfunda, framgjarna, fjöruga og orðhaga, og „forleggjara“, sem kynni og þyrði að virða slíkt og hefði dugnað til

að koma „vörunni í peninga", mætti vinna íslenzkum bókmenntum bæði gagn og sóma vestan hafs, jafnvel þó að þessi eilífi íburður af andlegu skolavatni og sóðaskap í búningi og hugsunarhætti hafi gert yngri mennina lystar-lausa á allt nema óæti. Vegna slíkrar handvammar í allri bóka-uppeldisfræði er ég „barn í lögum", eins og eðlilegt er. Á minn hátt þykist ég vita, hvernig sálin í þeim eigi að vera, en um vöxt og viðgang líkamans veit ég lítið, hvað hentast er.

Gerðu mér greiða, fyrst þú hefir orða-belg Guðbrandar undir höndum. Ég hefi aldrei séð hann, en sé hann „vísindalegur", vitnar hann til bóka um einstök orð. Er orðið „kul" (sama og „kylja") til í fleirtölu nefnifalls? Ef svo er, er það eins og eintalan, sem sé bara „kul" (samanber: eitt „korn" tvö „korn"). Það er sama, ef fleirtalan finnst í einhverju hinna fallanna, sem yrðu „kulin", „kula" eða „kulanna", eftir hætti; nefnifallið yrði sjálfgefið, þó það stæði ekki beint í tilvitnun. Annað enn: Manst þú, eða getur haft upp á, *hvar* í Noregssögum eða einstökum söguþætti sagt er frá því, að Ólafur konungur helgi söng „saltarann" í kirkjunni í Stiklastaða-orustu? Er það í sögu Odds munks af Ólafi? Sú saga er auðvitað lýgi, kirkjan á Stiklastöðum var þá ekki til, en óx líklega upp úr helgi Ólafs konungs seinna. En ég notaði þessa sögusögn í kvæðinu „Á Stiklastöðum" af því hún féll við anda kvæðisins, sem búnings-bót. Nú man ég ekki, hvar ósannindin standa, og hér er enga hjálp að fá hjá mönnum né bókum, til að minna sig á neitt. Ég las allar okkar fornsögur og Eddur, þegar ég var innan við fermingar-aldur, það sem þá var til, síðan ekki við söguna meir. Ég hefi tórt á því, sem í mér tolldi og rifjazt hefir upp. Nú hefi ég gleymt, hvar sumt verður staðhæft. Þetta er eitt. Ég hefi alla tíð staðið uppi á kveðskapar-akrinum verkfæra-laus, og orðið að trúa á mátt minn og megin, því ég gat aldrei eignazt þau húsgoð, sem heita bækur.

Fyrirgefðu kvabbið og fréttaleysið. Hér er aðeins komin allgóð jörð upp, en ekkert vor. Getur þú ekki sagt mér margt úr Wpg, ef þú nenntir og hefðir tíma? Ljáðu eða gefðu séra „Kr." næsta „Heimir", ef í honum verður kvæði eftir mig, sem kallast „Nikódemus". „Kr." er auðvitað enginn „Nikodemus", hann vantar víst *vit* til þess — en ég vildi sýna honum „Krist" sinn, eins og hann var, þegar hann var ekki á

Chicago-skólanum. Heima-fólkið mitt sendir þér kveðju sína, og svo kveð ég þig.

Með vinsemd Stephan G. Stephansson.

*P. S.* — Hefi gleymt að þakka seinasta bréfið þitt. S. G. S.

*J. Magnús Bjarnason.* Tindastóll, Alta, 4. ágúst 1907.

Magnús.

Það er ég sem á,
Eflaust *þér* að skrifa,
Kveðja mín er þessi þá:
*Þú mátt til að lifa.*

Ég fékk „spjald“ frá þér með hálfgerðri fyrirspurn um bréf-reikning okkar. Nú hefi ég svarað því í byrjun, og ég held rétt. Þegar ég fékk seinasta bréf þitt, gat ég ekki svarað í svipinn, og sendi þér svo „Meistarann“ eftir Maríu vora kóralrauðu, svo sem til viðurkenningar. Rétt á eftir sá ég það einhvers staðar, að þú lægir veikur. Ég vildi ekki vega að þér í rúminu, en langaði að vita, hversu þér reiddi af, og skrifaði kunningja mínum, Ný-Íslendingi, fyrirspurn um þig; en hann hefir engu svarað. Mér hálf-leiddist það, þó ég gæti spáð vísast í eyðuna þannig: Blöðin geta um Magnús, ef hann — deyr. En þau þögðu um þig. Ég vona þú sért nú mikið til jafngóður, eða betri, þó þú segir ekkert um það, og mér sýnist skriftin þín á spjaldinu óveikluð og langlífisleg. Sjálfra okkar vegna er nú ekkert að því að leggjast út af — en svo er ekkert að því að vera á flakki heldur um þessar mundir, þegar allir menn eru að kannast við, að við Íslendingar höfum ritað sögur allra manna bezt og „klassiskast“. Auðvitað tók það upp 500 ár eða lengur að læra það svona vel. Nú eigum við að vera úrkynjaðir mjög. En bíddu við, seinna verður hitt sagt: „Í önnur 500 ár, eða meira, snéru þeir sér að ljóðakveðskap, og jafnvel um 1900 var lítilla muna vant, að þar kæmust þeir líka manna lengst“. Þetta er nóg til að lifa fyrir, ef maður mögulega getur. En svo þarft þú að koma honum „Runka“ syni þínum undan hunda og manna fótum.

En í alvöru, hvernig líður þér? Hvað er það, sem gengur að þér? Er ekki einhver von og bót við því?

Hefir þú séð „Sunnanfara“ Einars og Björns stöðugt? Þar

var nýlega afbragðs kvæði, eftir Guðm. Friðjónsson — „Ertu að fara, elsku vinur“ — tókstu eftir því? Ekki svo mjög að efni til, en hindrunarlaus og fljótandi djúp-straumur af flæðandi rími og fallegum hugsunum.

Nú kvað Hjörtur okkar Leo vera orðinn kirkjuþingsmaður að trú og „symbólisti“ í skáldskap. Ég segi það ekki honum til niðrunar. Ætti ég flokk andstæðra skoðana, væri það ekki mér tjón, þó í honum væru góðir drengir. Öll góð skáld eru meira og minna „symbólistar“, en „symbólismus“ er leiðinlegur eins og allar einmetis-stefnur í skáldskap, eins og Egilsson lýsti Eddu: „Hana að brúka of mjög er eins og tómt að éta smér“. Manni leiðast þankastrik og kveinstafir, eirir ekki um aldur og æfi í dauðans-skuggdal, á Lethe-bökkunum í Svipheimum goðfræðinnar grísku, en sú er veröld „symbólistans“. Þá er betra að ganga stundum í norrænan haug og heyra drauginn kveða: „Ég hef' — því að — orustur / Átt sex-tíu, nafnfrægur / Og hundrað fríar hólmgöngur / Háð, þeim í ósigraður“. Og það þó margir séu gallarnir í hendingunum.

Meðan ég var að skrifa þetta, varð ég að svara ótal póstmálum í bréfsformi fyrir kunningja minn, upp úr miðju bréfi. Ég missti svo flugið og verð nú að hætta, þangað til ég fæ næst miða frá þér. Egg. Jóhs. bið ég kærl. að heilsa.

Veðrið góða, Magnús minn,
Máli rjóða fölu-kinn,
Heilsu í blóðið andi inn —
Auki hljóði í strenginn þinn.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Eggert Jóhannsson.* Markerville, Alta, 14. ágúst 1907.

Eggert minn góður. — Má ég biðja þig bónar? Sé handritið, sem ég sendi þér, enn í þínum vörslum: Viltu líta yfir reggistur og I. kafla, hvort þar er vísa með fyrirsögn: *„Hver fyrir sig. Andskotinn á þann aftasta“*, og upphaf: *„Mér þó hroll og hjarta-þrá“*. Sé svo, breyttu fyrir mig þessari hendingu svona: Mér þó *hrolls í* hjarta-þrá. Sem sé, bættu einu *essi* aftan við „hroll“ og strikaðu út *„og“* og settu *í* í staðinn. Ég held ég hafi gleymt vísunni úr „registrinu“, og sé hún samt í handritinu, hafi hún af van-ritun lent þar með mál-villu

í sér — en kannske eru þetta höfuðórar, ég man það ekki. — Fyrirgefðu, og vertu blessaður.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

•

*Eggert Jóhannsson.* Markerville, Alta, 19. nóv. 1907.

Eggert minn! Ætli ég hafi ekki gleymt að leiðrétta athugasemd um Kristján kórvillu, sem mig minnir væri í kvæðinu: *Fullkomleikurinn, I. kafla, 15. bls.* — Ég man ekki, hvers var ávant, en vísurnar kann ég svona upp úr mér:

Til fullkomleikans litla ber
Ég lotning, þó til hann væri hér,
Svo hver yrði heilagur hengill.
Að stökkva út úr manninum, mér,
Ég mælist ei til skal ég segja þér,
Og standa svo storknaður engill.

Að hlaupa um lífsins hála svið,
Að hrasa og falla — en upp á við,
Er ferill að framfara-auði. —
Og heiminn ei bagar um heilag-leik enn,
En hann þyrfti stærri og göfugri menn
En langt færri saklausa sauði.

Vanti orð í handritið, eða staf, leiðréttið eftir þessu, og fyrirgefið kvabbið. Vinsaml. S. G. S.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerville, Alta, 10. des. 1907.

Góði vinur. — Seinasta „Heimi“ hefi ég nú týnt og áritun þinni, svo ég kem krókinn til Eggerts míns, til að spyrjast leiðar, og þaðan kem ég nú. Í mörg ár hefi ég verið féhirðir allra smér-kúa hér í byggð, og setið í reikningum upp fyrir augu um þetta skeið árs. Ég hugsaði oft skynsamlega yfir því, en í ár sagði ég af mér embættinu og syndum þess með, að ég hélt — „en vaninn verður að forherðingu“. Nú kvað ég „Ársreikninginn“, sem þú sérð þarna. „Heimir“ má eiga hann, með þínu leyfi.

Svo átti ég ekki annað erindi núna, nema að bjóða þér og þínum góðar stundir og gleðilegar hátíðir.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Eggert Jóhannsson.* Markerville, Alta, 12. des. 1907.

Eggert minn góður. — Heilsan þér og bræðrunum. Von er, þó trúmenn hugsi margt, því skrítnar sam-lokur gerir eðlilegur gangur oft úr viðburðum. Í gær var póstdagur hér, og af því ég hafði haft samvizku-verk af því, að hafa ekki sent „Heimir“ neitt svo lengi, lagði ég í póstinn bréf til séra Rögnvalds, en falið þér, af því ég hafði gleymt hústölu hans, en viti menn, mér var borgað það með bréfi frá þér, löngu og góðu.

Beztu þökk fyrir alla fyrirhöfn, drengir, yfirlestur, leiðréttingar, athugasemdir, aðfinningar og allt. Meðan ég sat á fordæmingar-stólnum við að skrifa upp, óskaði ég oft, að skemmra væri á milli. Ég öfundaði höfundana okkar í Reykjavík, sem vinna í flokkum með nægar bækur og hjálpa hver öðrum um hugsanir og athuganir. Ég hafði ekki einu sinni handbæran mann til að lesa með mér, hvort ekki vantaði mig orð né staf. Af því ég flokkaði niður, varð ég að fara sjö sinnum yfir allt dótið. Ég er hróðugur, að okkur ber ekki meira á milli en varð. Ég veit, hver vandi er að velja og hafna sínu eigin. Verulegir vinir höfunda og bóka vilja allt um þá vita, og jafnvel unna þeim á vissan hátt fyrir kvæðin, sem þeim ekki hafa heppnazt vel. Sumt, sem ekki er þó ljómandi skáldskapur í sjálfu sér, verður maður þó að taka, af því það hefir sögulega eða sálar-fræðilega þýðingu, þó maður sjái því sé ábótavant sem íþrótt. Og svo kemur aðal þátturinn, íþróttin sjálf, að taka þó ekki upp leirburð, neitt, sem ekki ber neinn keim af list. Tvær leiðir liggja til listar í formi, að láta orðin liðast saman, létt og mjúkt, eins og silkiþráð, eða greipa þau saman, sterk og tíguleg, eins og stuðlaberg. Ég hefi þreytt hvort tveggja. En í æsku byrjaði ég á reglu Tómasar heitins Sæmundssonar, „að læra fyrst að hugsa, svo lærði maður að tala“. Ég kunni þá ekki spakmælið sjálft. En merki þess báru kvæði mín oft, og aldrei hafði ég tíma til að hefla. Kaflar hjá mér voru „tyrfnir“ og orða-skipun dróttkvæðisflókin, og þó var ég ekki svo ó-orðhagur né heyrnar-laus um hljóm í málinu. Þetta reyndi ég að laga sem bezt, nú við reikningslokin, en að mér hafi heppnazt það alls kostar, er alveg óhugsandi. Mest beitti ég þessari aðferð við kvæði eins og Illugadrápu, sem mælti sig fram oftar, en varð svo stirfin



*Stephan G. Stephansson hálfsextugur.*

*Myndina sendi Stephan Þorsteini Erlingssyni 1907, konungskomu-árið, með þessum vísum:*

*Þarna kem ég, Þorsteinn minn —*
*Þetta er gestastofan,*
*Og ég hef' góði glannazt inn,*
*En gleymt að taka ofan!*

*Er það nú ei annars fró?*
*Eftir nakta skalla*
*Og pott-lokin á hverri kló*
*kóngs-vikuna alla.*

á köflum, svo búningurinn á sama kvæðinu varð bröndóttur. Enn er annað, það er ekki minni vandi að kunna að klippa rétt af vængjunum en að þenja þá alla út. Ég hefi tekið marga sauma úr ýmsu, af því þeir voru, að mér fannst, laglegir í sjálfu sér, en óviðeigandi brot í dúknum, sem ég hafði nælt þá í, og að mínum dómi hafði mér allténd fremur hætt við að leika mér að of-mörgu í senn.

Í hreinskilni sagt, með þessar grillur í höfðinu fór ég yfir kvæðahraunið mitt, eins beint og ég gat. En ég held ég vildi nú heldur vera svo sem mánaðartíma í hreinsunareldinum en að fara þá ferð aftur. Á næstu blöðum fer ég orðum um einstök atriði úr bréfinu þínu og ykkar. Fyrirgefðu formálann!

*Formáli og tileinkanir.* — *Formála* ætla ég engan að skrifa.

*Tileinkanir.* Verði bindin tvö, sem ég held að verði, tileinka ég fyrra bindið (með leyfi) Menningarfélaginu okkar gamla, með orðunum á fyrsta blaði og vísunum, sem fylgja. Svo er kvæðið: „Láttu í háttum meðan mátt“, formáli minn til lesarans fyrir því bindi, tekinn út úr réttri ártalsröð og settur fremst til þess.

Hvar sem næsta bindi byrjar, hvort heldur eins og ég skipti niður, eða öðruvísi, byrjar það með *tileinkunar-orðunum:* „Til þeirra manna, sem lögðu gott til ljóðanna minna“, og þeirri tileinkun fylgir kvæðið: *„Hver er allt of uppgefinn“*. Kvæðið: „Ef þig fram á lífsins leið“, er formáli minn til lesarans fyrir því bindi, og seinasta kvæðið í handritinu er „eftirmálinn“ við allt, verði bindin eitt eða tvö. Öllum þessum kvæðum er kippt út úr réttri aldurs-röð, til að nota þau svona. Verði bindið aðeins eitt, verður seinni tileinkunin að falla úr (lesmálið eitt sem sé), en kvæðið að komast í réttan „flokk“ og „ár“.

*Nafnið mitt* er á titilblaði fyrra handritsins, með minni meðal vana-hendi, en stórletraðra. Má ekki nota það? Eða er það of stórkarlalegt?

*Myndir.* Umliðinn vetur skrifaði vinur minn hér bróður sínum, séra Sigfúsi Jónssyni á Mælifelli í Skagafirði, og bað hann um mynd af Kirkjuhólnum, hvað sem hún kostaði. Sjálfur þekki ég engan í Skagafirði nú orðið, svo ég viti til, nema Halldóru Briem á Álfgeirsvöllum. Klerkur hefir engu anzað. En bréfið hefir hann fengið, við vitum það af öðru.

Nýlega var honum send árétta í bréfi, en líklega til einkis, Meira gat ég ekki í því. Tvívegis fékk ég hingað myndasmið til að ná í fjöllin. Mér var annt um það. Hann hefir ekki rétt tæki. Engin fjar-myndavél (telephoto) er til hér neins staðar, svo ég viti. Í annað skipti varð myndin alveg ónýt, í hitt skiptið veikari en svo, að hann gæti „prentað" eftir. Við sendum plötuna til góðs félags í Ontario og báðum það reyna. Svar þess er ókomið.

*„Á ferð og flugi"* skuluð þið alveg ráða, ég er samþykkur, svo hafið þið allan rétt til þess, samkvæmt sölu. Mér gekk þetta til: Mér ofbauð, hvað digur ég var orðinn, þegar ég hafði sleikt innan hjá mér, og kostnaðurinn við að unga því út. Þá datt mér það í hug, sem ég ekki íhugaði við samningsgerðina, hvort mér færist ekki illa við Jón Ólafsson, eða honum finnast svo, að farga þessu án hans vitundar, þó lögum samkvæmt hefði ég aldrei selt honum það. Það væri illt, ef við þrösuðum um þetta, hann og við, þó ekki væri nema í ertni. Jón á gott eitt af mér skilið og mér annara um aðra af flækingum mínum en „Á ferð og flugi". Það á að koma inn í seinasta flokkinn: „Dreymt eftir daglátum", í árið 1898, þá var það kveðið, prentað 1900. Ég breytti því lítið sem ekkert. Er ekki nóg, að ég sendi ykkur prentað eintak, með þeirri litlu aðgerð, sem mér dettur í hug, pennamerktri? Ég nenni ekki að skrifa það upp að óþörfu og umsjónarmaður getur lagfært greinamörk og stöfun og samrímt það. Handrit mitt sjálft þarf þess með, hvort sem er.

*Kvæðin, sem úr eru felld.* Ég gerði mér að skyldu, þar sem ég hafði kveðið tvö kvæði út af hér um bil sama efni, að taka aðeins það, sem mér fannst betur gert. Að láta lausar stökur liggja, þar sem ég mundi, að hugsunin í þeim var ofin inn í lengri kvæði einhvers staðar, að svo miklu leyti, sem ég gat. Tökum „Smalana" til dæmis. Þegar ég kvað það kvæði, fannst mér það fullgott, náttúrlega. Það eru samt á því 2 eða 3 rímgallar illir, því ég verulega vandaði það ekki. Seinna kvað ég „Prófastinn" — „Hvort þekkti ég, lagsmaður, láttu mig sjá" — alveg sama efni, en margfalt fjölkunnugra kvæði. Síðan fannst mér minna varið í „Smalana" mína. Þannig er um flest, sem vantar, og stykki úr kvæðum. Kunnugleiki minn á öllu, sem ég hafði hugsað mér, olli þeim úrvinzlum, Mest skar ég þó niður vísur um loft og láð, náttúrulýsingar.

því þar átti ég flest, og þó hefi ég endur-tekið sjálfan mig þar, tekið of margt. „Hirð-skáldið“ er undantekning á kafla, ég reyndi að verka það kvæði upp, svo mér líkaði, en náði ekki tökunum og lét það svo eiga sig í bráðina.

*„Við förum saman fámenn sveit“* er ekki eilíflega og allt glatað. Þegar handritið þitt hætti að vera til, átti ég aðeins snepla af uppköstum, eitt kvæði alveg týnt og nokkuð af kvæðinu, sem þú meinar, en mörg voru heil. Nú, það væri enginn skaði. Ég sauð upp stúfana af kvæðinu, sem þú kallar „Við förum saman“ — upp-haf á annarri vísu í röð.— Nú heitir það „Mála milli“ og byrjar eins og áður: „Æ, bjóddu vin þinn velkominn“. Það stendur í V. kafla, bls. 90 (hrd.), auðvitað ekki líkt sú „langin-tes‘“ og áður.

Hrein sagt, ég vil helzt ekki þurfa að bæta við bókina, en þó skal ég bjóða boð fyrir mig. Ef þið heimtið og kemur saman um, skal ég taka upp eitthvert heilt kvæði, sem á vantar og þið takið til, en hlífið mér við því, sem ég hefi klippt út úr kvæðunum, því það er eins og andi vor eftir dauðann, hefir bara haft „hnatta-skipti“, færzt til í kvæðunum.

*Sigurður Trölli, Illugadrápa og „Eloi, Eloi“* eru þau kvæði, sem ég vildi síður hafa skemmt, því ég veit það, séu hvergi „tök“ í þeim, þá „hefi ég til lítils skrifað“, þá fækkar um boðleg kvæði hjá mér. — Það kostaði mig nokkra sjálfsafneitun að höggva skottið af Sigga mínum Trölla, því mér þótti það sjálfum fallegt, en fannst það lýta hann. Ég hugsa svona: Ef Trölli minn er nokkuð í nokkru, er hann (ný) sögu-ljóð. Listin er að segja sína sögu, en ekkert um hana. Draga upp mannsmynd eins vel og maður kann, en skyggja sem sjaldnast á hana sjálfur, með því að ganga fram fyrir hana til að halda ræðu; það gerir maður í ljóða-bréfum, lausum vísum, jafnvel í ferðasögum sínum — öllu formi, sem föst lög ná ekki yfir. Svo fannst mér áhrifamest að láta hann Sigga minn skilja við lesarann og prestinn í æfi-sögulok sín með þeirri yfirlýsingu, að til að hefna sín og sinna, gerði hann nú það eitt að bjarga öðrum, án þess að láta hann halda lengri ræðu, þó mér finnist enn í dag ræðan hans lagleg og geymi hana. Og eftir sömu reglu dró ég tvær hendingar af Illugadrápu, sem ég er þó há-ánægður með að hafa kveðið, þó orða-skipun ætti að vera beinni í fyrri hendingunni: „Aldrei á fold vorri“ etc. En það er víst, þó reglan mín væri

nú rétt, er hún minna áríðandi við Illuga-drápu. Innst í eðli mínu reyni ég að mæla mér út í sama mæli eins og öðrum skáldum, þó sagt hafi verið um mig: „Að Stefáni þætti ekkert gott, nema eftir sjálfan sig“. En piltar góðir, mælirinn minn kann að vera rangur— en hann er sá réttasti, sem ég á til. Okkur ber hvergi á milli um efnis-breytingar í að-gerðum mínum, enda voru þær allar gerðar til að leita uppi eðlilegri orða-skipun. Að ég hefi sums staðar breytt frá betra til verra, er sjálfsagt. Ég mun sjálfur sjá margt þess konar seinna, þó nú geti ég ekki aðgert. Ég var allténd óánægður með hendingar mínar yfir svar Ingjaldar í „Hergilseyjar bóndinn“, þegar Börkur hótaði honum afarkostum. Ég hefi ekki söguna við hendina, en svar Ingjaldar voru örfá orð, hér um bil þetta: „Ég á vond föt og læt mér á sama standa, þó ég þurfi ekki að gera þau að meiri görmum“, sem sé: Þyrfti að deyja. Orðin eru miklu færri í sögu-málinu, en í þeim felst öll raunahugsun fátæklings, sem allténd lifði við basl, jafn styttingsköld og þau eru. Að teygja þau á langinn með að bæta inn í þau matar-skorti, eins og ég geri, er að spilla. Hjá því sneiðir seinni útgáfa mín, en hvorug er góð. Mér er sama, hver er. Svo fátt finnst mér okkur beri hér á milli, svo óviss er ég á, að ég sé þar réttari, að þið megið taka upp gamla „textann“ minn í Illuga-drápu og „Eloi“, ef ykkur sýnist svo, eftir að hafa íhugað það, sem ég segi um, *hví* ég hefi breytt til. Eða, sendið umboðs-manni útgáfunnar heima gamla „textann“ og „nýju breytingarnar“ á þessum kvæðum, og látum hann skera úr, segjum það verði Jón Ólafsson, eða einhver annar, sem skynbær er á slíkt, og við hlítum hans dómi.

Hvort sem þið gerið, sendi ég athugasemdirnar hér með, til að létta verkið, því þær eru orðnar lykill að málinu og ykkur kunnar. Það er satt, að það, sem þið kallið „óljóst“ hjá mér, er „torf“. Ég þreytti við að rista það betur, en þá hékk ekki hugsunin í því. Svo verð ég að biðja ykkur að hjálpa mér enn og leiðrétta skakkt skrifuðu og úrfelldu orðin hjá mér í handritinu. Ég hefi sett × við þau í athugasemdunum. Svo þakka ég ykkur öllum innilega fyrir alla fyrir-höfnina, allt og allt, og bið ykkur að fyrirgefa, hve fjölorður ég varð. Ég vildi reyna að gera ykkur mig skiljanlegan, en sendibréf eru allténd svo klár-víg.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Eggert Jóhannsson.* Markerville, Alta, 14. des. 1907.

Eggert minn. — Fáein orð undir fjögur augu, út af ágreiningi okkar um kvæðin; það sem ég segi, er ekki öllum ljóst, en ég held þú skiljir mig.

Á nokkuð að rita um mig, sem æfisögu? Ef svo, þá er lafhægt að koma þar inn kvæða-bútunum, sem þú sízt vilt missa, og nota þá sem lýsing á mér. T. d. það, sem vantar í „Ég vildi ég yrði ungur“. Fyrir mig hafði það sína þýðingu að kveða: „Hvern prédikandi poka“ o. s. frv. fyrir nokkrum árum síðan, og ég skammast mín ekki fyrir að hafa gert það, öðru nær. En ég kinoka mér við að vera sjálfur að rifja upp, að ég hafi hrækt svona hraustlega strax í byrjun. Hitt er annað mál, frá þessari byrjun má sýna, hvernig ég hefi staðið mig við þetta áheit í seinni kvæðunum: „Prófastinum“. „Við söfnuð þinn tortryggðu sóma-mann“. — Í „Á ferð og flugi“, nærri á öðru hverju blaði. En — það væri annars manns verk. Og án þess er ekki til neins að rifja upp vísur þær, sem vantar, þær eru nú úreltar. Nógu góðar á sinni tíð. Eins er með „Smábros í hendingum“. Segjum, maður notaði „Gott þótti Halla Gaulaþing“, o. s. frv. til að sýna t.. d. „Heima-trúboð“, „Á ferð og flugi“ og margt og margt, sem í sama anda er kveðið, en miklu almennara og skáldlegra, um þessi kristnu láta-læti. Sams konar er vísan „Og ættkvísl við ungri það erindi boðum“, sem mér þykir góð og þið víst saknið. Frá því rekti ég upp til „Mennta-mennirnir“, „Gert upp úr gömlum reikningum“ og „Barnaskólinn“, og sýndi sambandið — hvað höf. hyggði menntun, þ. e.: „Hvassan skilning, haga hönd, hjartað sanna og góða“.

Eins mætti nota seinni hlutann á „Menntamennirnir“, sem ég stakk undir stól í bráðina og byrjar á: „En eigi þeir íslenzku að ræða“. Hafa þau tvö vers yfir, sýna svo, að ég hafi heldur reynt í kvæðum mínum að fylla flokk þeirra manna, sem andmæla gorgeirnum vestræna yfir sjálfum sér og fyrirlitning hans á flestu íslenzku, sem eitt sinn gekk hér fjöllunum hærra. Þar er kvæðið „Krítik“ vitni, „Vesturheimskan klædd í kjólinn“ og yfir höfuð flest mín kvæði, sem minnast einhvers íslenzks. En — ég orti þær vísur sérstaklega út af „spraðabassa“ ræðu einni Vilhjálms greysins Stefánssonar. Menn kunna enn að kannast við skeytið og vita, hver

á. Það mál er nú dautt og ég vil gjarnan sleppa Villa, svo að kvæðið lendi hjá mér og í almennan sjóð. Hann var unglingur þá. Á líkan hátt má taka upp halann af Sigga Trölla og benda með honum á marga staði og heil kvæði mín, sem halda því á lofti, að eina hjálp mannanna sé hjálp mannanna, t. d. „Betlarinn", afgamalt kvæði mitt.

Svona mætti greiða úr þessu, okkur öllum í vil og lesendum í hag, og það alveg upp á „Darwinsku".

Ég segi þér þetta, af því ég held þú „komist fljótast inn" í sérvizkurnar mínar, en þú mátt trúa þeim fyrir því, sem þú kýst, því þetta er ekkert klækis-mál svo sem.

Gott var, að E. H. var vel tekið okkar megin. Af því hann eitt skipti var okkur ekki þægasti ljárinn í þúfunni, stóð sómi okkar nú í veði að mæta honum drengilega. Hafið þökk fyrir. Séra Rögnvaldur vildi fá mig í fyrra. Ég lofaði honum þá að koma núna og er feginn, að hann gengur ekki eftir því. Slíkt eru nú málefni, sem þola biðina.

Fyrirgefðu mér, Eggert minn. Ég drep í þér augu og eirusemi á að skrifa svona oft, langt og illa. Vertu svo æfinlega heill og hamingjugefinn.

Þinn einl. Stephan G. Stephansson.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerville, Alta, 14. des. 1907.

Góði vin. — Áðan fékk ég bréf frá þér, þú manst hvers efnis. Um líkt leyti og þú varst að skrifa mér, hefi ég verið hér að hugsa um þig:

„Heldur leggjast hugir stórra höfðings manna
Á mig nú og eðli banna"

sagði Skrámur jötunn, þegar hann gat ekki sofið og hélt það væri aðsókn. Ég mundi eftir þér og „Heimir" og sendi allt, sem ég átti núna handbært.

Mætti sjálfráð sálin mín
Söngtól úr sér gera,
Þér í höndum harpan þín
Hún sér kysi að vera.

Eitthvað líkt þessu er sagt, að Thomas Bailey Aldrich heitinn hafi sagt í kvæði til Grieg's. — „Ein er dáin dýrð á jörð" —

s. s. „There's glory passed from Earth", hugsa ég stundum, þegar snillingarnir falla, einkum ef það voru norrænir menn, þó ég hvorki hafi kunnað að meta list þeirra, né hefði tök á að kveða um þá.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Eggert Jóhannsson.* Markerville, Alta, 19. jan. 1908.

Eggert minn góður. — Fyrir þremur dögum síðan fékk ég bréf þitt hið síðasta, og nú sendi ég þér svarið í sérskildum böggli. Við það verðið þið að sætta ykkur, því ég þver-neita að taka fleira. Væri ég horfinn til ykkar um stund til að kjafta, skyldi ég sýna ykkur og sanna, að ég er réttur, þið rangir, allir í hóp, ef þið eruð enn óánægðir. Svo mikið vit hefi ég þó, jafnvel á mínum eigin kveðskap. En að skammast um það í brèfi er allt of langt mál.

Þá er breytingin á vísunni. Nú, ég segi satt, ég virði það við ykkur að biðja mig þess og benda mér á það, veit það er bara vinar-bragð. — En, vísan fer eins og hún er. Ég kvað hana viljandi svona, ég hugsaði um það, þegar ég kvað kvæðið, í fyrstu. Ég mundi (las meira að segja) hvað stóð í Snorra-Eddu. Ég las allar Íslendinga- og fornsögur og margt fleira, flest í gömlum afskriftum, þegar ég var í Víðimýrarseli. Ég hefi varla litið í þær síðan. Í þessu rusli voru sagnir á ýmsa vegu, og einhvers staðar þessi, sem ég kvað um Hjaðninga-víg. Annars er sagan ekkert nema æfintýri — „legend", og að breyta þeim er ekki söguvilla, það er skáldum frjálst, ef breytingin á betur við efni og anda kvæðisins en uppruna-sagan. Í kvæði mínu held ég því uppi, að afturhaldið í heiminum þokist ekki úr stað, fyrr en það sé rænt svo að segja sínum síðasta pening og megi til. — Því fannst mér skáld-legra að láta Högna vera ræntan konunni en dótturinni, eftir-förin var þá enn minna undanfæri. Því kvað ég svona, vit-andi að það braut bág við Eddu-söguna. Þetta verður kannske fordæmt. Vel og gott, ég hefi búizt við því.

Annars hefi ég syndgað annars staðar verr en þetta, hafnað sannri sögu Snorra Sturlusonar í öllu kvæðinu „Á Stikla-stöðum", en farið eftir „munka-kroniku", sem ég las í æsku og man nú ekki hvað hét, aðeins af því hún var svo góður líkami utan um anda kvæðisins, eins og hann lagðist í mig —

en þar er mér skellurinn vís fyrir sögu-fölsun. En, ég tek honum.

Jæja piltar — þið megið nú gjarna syngja um mig „Einráður var í æsku fyrst“, ég skal jafnvel raula undir með ykkur. Þetta er ekki af því, að „hvað ég hefi skrifað, það hefi ég skrifað“, heldur hinu, að „ég get ekki annað“, af því, eftir mínum skilningi á skáldskap, gerði ég mér og honum rangt til að gegna ykkur öðruvísi en ég hefi gert.

„Á ferð og flugi“ hefi ég lagt með. Leiðrétti fyrir löngu síðan 3 eða 4 prentvillur, og eitt orð breytt, að mig minnir.

Kvæðin tvö eru ykkur velkomin. Mér er bara ánægja að því, að þið óskið að hafa þau með. Ég gat ekki skrifað upp nema annað. Á enga afskrift af „Óskari“, en man ekki almennilega tvö erindi í því. Þið verðið að bæta því inn í.

Kvæðunum, sem ég sendi, verðið þið að raða í rétta flokka og „registera“, ef þið notið þau. Seinna skrifa ég um fjöllin. Nú er ég frá af klóri. Með þökk fyrir alla fyrirhöfn á mér.

Þinn einl. Stephan G. Stephansson.

*Fjöllin. Yfirlit.* — Héðan að sjá samfelld röð í vestur, eins langt og augað nær, norður og suður, ef engin hula er í lofti, en sé sefja í því, sjást þau í köflum, lengst deild í þver-vestur (yfir húsin, sem á lægðinni sjást á myndinni, sem ég sendi), smærri flokkar og ýmislega brotnir upp til suðurs, en hverfa kannske alveg að norðan. Aldrei eru þau hvassbrýnd né tindótt, einn óslitinn veggur upp í sjóndeildarhring, — langt sagarblað, með ýmislega máðum og slitnum tönnum — há hafsbrún, sem Drangeyjar og Þórðarhöfðar og Málmeyjar raðast eftir — löng vegglægja, sem mokað hefir verið upp, en hvergi jöfnuð að ofan, snyddur, hnausar og strengir bugast allavega yfir vegg-brúnina, með geilum á milli, og þó er garðurinn aðeins örlítið lægri syðst og nyrzt en í þver-vestur, þegar glaðviðri er á. Þau eru sjaldan kollóttir hólar, eins og á myndinni. Það er helzt að kveldi, þegar grunnurinn hverfur ofan í skuggann til jarðarinnar, þá geta þau orðið sem þúfna-röð, sem flyti á vatns-borði, sé lofti svo farið.

*Afstaða.* — Héðan vestur að fellum (Foot Hills) eru frá 70 til 80 mílur enskar. Í þver-vestur (hér um bil) er Mt. Wilson (10500 fet) og til hans þverskurðarlína frá 110 til 120 mílur. Nálægt 6 mílum norðar er Mt. Coleman (11000 fet) og kring-

um 12 mílur norður af Wilson, Mt. Alberta. 24 mílur norðar og miklu vestast Mt. Hooker. 6 mílur (á að geta) *suður* af Mt. Wilson er Mt. Lyell (12000 fet). 12 mílur suður af Wilson er Brush Peak og Mt. Forbes (13000 fet) og 24 mílur suður af Wilson Mt. Thompson og suðaustur af honum Sawbuck Range, norður af Banff. — Héðan kann ég ekki að þekkja nefnd fjöll úr. Allt rennur saman í einn garð, og ef til vill standa ónefnd fjöll næst og sjást eingöngu.

*Einkennilegasta fjallið.* — Í suð-vestur héðan (á myndinni líklega frá einum til tveggja þuml. suður af syðsta húsinu, sem á henni sést) er einkennilegasta fjallið, rís upp sem höfði, með víð og lág skörð að sunnan og norðan, nærri þverhnýptur upp að sunnan, en flatur í koll, ávalur norður af með öxl í miðri hlíð eða heldur ofar. Um þann pilt er mér annt. Hann heitir Skollakollur (Devilshead), líklega Indiananafn. — „... Hann vetur ... hleypir í deyjandi brýr frá Skollakoll hret-skýja hnyklum“ — stendur í „Syrpunni“, — og einstæðingslegastur allra fjallanna.

*Tilsýndir.* — Málara gæti næstum ekki misheppnazt að ná fjöllunum hérna í einhverri af þeirra myndum, ef hann vissi afstöðu þeirra héðan og loftlínu að ofan. Hér er hillinganna land, þau sjást sjaldan eins að lit né lögun stundu lengur. Þau breyta sér að lit með sólar-göngunni, taki augað eftir því. Þau koma og hverfa í gufum og gráði, þau grettast og gyllini-skýjast í brúnum af hafþokum að vestan. Það mætti taka af þeim tugi mynda, og yrði þó engin eins, en allar sannar, og fáeinar fallegastar, og þar í liggur vandinn. — Nærri æfinlega sýnast þau hærri en á myndinni, í hillingum nærri ⅔ju, og óslitinn grunnveggurinn undir núpunum. — Þau eru á vetrarmorgni: „Með hábjartan dag um hvern náhvítan núp, en nóttina utan í hlíðum“. — Svo verða þau: „Röð þessi af heið-hvítu hrönnunum, kingjunum, hnjúkum og strókum“. Svo „Rúðra þau fatið sitt gyllt eða grátt, forsælu-feld með á herðunum“. Það er: Fjallgarðurinn vestur og suður verður hvítglóandi á suð-austur rönum og hlíðum, en forsælu blá-skjöldóttur í norður skörðum og hvylftum í hlénu undan hádegis-sólinni, en norður fjöllin blá-hekluð með lágar, drif-hvítar kollhúfur. Eða þau verða aðeins mararblár garður af skötubörðum, öll fjöllin suður og norður. — Að kveldi geta þau lyfzt upp „ginhvít og glóandi öll, eitt guðs-

ríki af kveldroða, af nótt og af mjöll". Eða þau geta gægzt út úr kaldri kveldskímu sem fölir svipir, undir blá-rauðri loftskör:

„Efst er á fjöllum ísfölt gráð.
Af er sólar gylling máð.
Rofar belti roða-dimmt,
Raðað loft-skör jökla við,
Éljum korgað, kulda-grimmt,
Kyrðar-dapurt, þungbúið. —
Slettir lofts á slétta spjald,
Slikju-grænum, úfnum fald".

Eða þau verða aðeins mjótt og slétt, stálblátt belti, með dökkgráum jaðri og svona litri dagsbrún yfir sér. — Í morgunhillingum eru þau hæst og fegurst:

„Opnast snilli og fegurð full.
Fjöll í hillingunni
Viðra á syllum sólskins-gull
Sitt í stillingunni.

Það er svartblá skugga-móða til jarðar að sjá, vestur að fjöllum. Kaflinn í þver-vestur rís upp þver-hnýptur og öndverður í þrefaldri hæð. Ekkert fjall er kúpt, þau eru þver-stýfð að ofan, eða ská-skornar bríkur. Manni finnst maður svo nærri, að næstum glitti í hengiflugs-hamra. Í blámanum, sem þau hjúpa sig frá rótum til topps, er einhver móbleikja, eins og þau ætli að fá bergslit, og sums staðar eins og vottur fyrir röndum, sem ætli að verða dauf gylling. Suður og norður af eru að fæðast bláar súlur, hyrnur, höfðar og bríkur, sumar hanga í lausu lofti, sumt eru keilumyndaðar strýtur, eða eins og stunda-glas í laginu, einkum suður; norður-fjöllin koma upp meira í tíglum; allt er á breytinga-rennsli, eins og maður sjái svif-myndir.

„Bakkinn sprakk —
Brött sem tröllа-kista
Hnakka upp stakk
Hyrnan þarna fyrsta.
Eyja blá
Önnur hækkar, stækkar —
Dauða sjá
Drungans lækkar, smækkar".

Og eftir litla stund er allt orðið að einni samfellu af dagsdaglegum kletta-fjöllum. En lista-verk var það, meðan það stóð yfir. — Svo bið ég fjöll og menn að fyrirgefa mér.

Stephan G. Stephansson.

*Eggert Jóhannsson.* Markerville, Alta, 5. febr. 1908.

Eggert minn góður. — Enn þá kem ég að kvabba, sé handrit mitt ekki siglt. Í V. flokk, bls. 127, er kvæðið: „*Í seinustu snjóum*". Við höfum skrafað um orðmyndina *læni*, því að orðið „hik" er þar kannske í röngu falli. Ég man það ekki nú. — Standi þar bara: „Lænir hik að öllu", þá setjið fyrir mig stafinn *i* aftan við orðið hik eða úrfellis-mark norðan við „káið" — mér er sama hvort er — svo þar standi: „Lænir hiki (eða hik') að öllu". En hafi ég skrifað: „*Læna* hik að öllu" „saa la' gaa", þá er *allt* í fleirtölu, þó hitt væri ljós-kveðnara, en lakara orð-bragð. Fyrirgefðu.

Drauga-slöngull fækka fer,
Fylgju-þröngin dvínar. —
Lengur öngar ami þér
Aftur-göngur mínar.

Taki þér ókomnu árin sem vini
Í um-liðnu tímanna þakklætis-skyni.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Eggert Jóhannsson.* Markerville, Alta, 28. febr. 1908.

Eggert minn góður. — Gaman væri við tækifæri að fá línu um, hvað „Syrpu" okkar gengur að „gefa sig út", og hvort Jón Ólafsson, eða annar maður, verður þeirrar „Brönufóstri". Hefir þú fengið með pósti eftirfylgjandi „góss": 1 stutt skamma-bréf, 1 eintak af „Á ferð og flugi", 1 bindi af skrifblöðum, inn-skota viðbót í „Syrpu", og 1 bréf úr fjall-göngum, með keim af grasa-graut. Þetta allt hefi ég sent þér, síðan þú skrifaðir seinast.

Hér er að versna vindstaðan og vori legast. —
Um þig viðri veðráttan sem vinsamlegast.

Stephan G. Stephansson.

*Jónas Hall.* Markerville, Alta, 15. maí 1908.

Jónas minn góður. — Þökk fyrir bréfið þitt, nýlega komið. Víst átti ég línu hjá þér, það er að segja, sé það ekki að sökkva sjálfum sér í skuld að hafa skrifað einhverjum seinast. — Lifðu marga glaða daga og góða í húsinu þínu nýja. Mér þótti vænt um, hvernig þú byggðir það, því lengi hefi ég haft eftirlæti á steypuhnausum í hús sem bezta byggingarefninu, síðan ég fékk ávænu um þá aðferð. En að þú yrðir fyrstur til að byggja svo í þinni sveit, kom mér ekki heldur til hugar en það, að ég yrði höfuð-skáld í kristilegu menningar-riti. Ja —

„Því var þó aldrei um Álftanes spáð,
Að ættjörðin frelsaðist þar“.

Hér er nú viðburða-laust, en norðan veður hið bezta. Hér eru tveir þriðjungar manna í kristnum söfnuði, en sárleiðir á presti og kirkju, það er að segja hjá okkur Íslendingum. Einn þriðji er heiðingjar, þangað til þeir eru jarðaðir. Þeir kvarta ekki um neitt ólag á guðs-ríki þangað til og þegja síðar.

Í sumar verður árleg iðnsýning í Kanada hérna í Calgary. C. P. R. flytur víst alla farþega ókeypis á hana og af, til þess menn kaupi að sér far-bréf. Hvað koma margir Ísl. frá Dakota? Ég hefi rúm handa einum í húsinu, og stórt og gott fjós autt, því kýrnar liggja úti í júlí — nema ef snjóar.

Þú hefir misskilið það, sem ég minntist á mat og drykk, ef ég kæmi suður. — Það er hreina satt, ég hefi hálf svelt mig nú í tvo vetur til að hanga á fótum. Svo er maginn í mér bölvaður. En, ég er að skána af því. — Við þetta var ég að spauga. Ekki sleppti ég niður vinnu, þó ég kæmi suður, því ærlegt handar-vik hefi ég varla tekið í heilt ár, ekki af því mig langi til að vera latur, en elja mín er orðin „banka-rot“, og sé ég þó eftir því að mega ekki sörlast í fjósum og ösla úti á engjum. En það er lítið gagn, en ergir illt skap og teygðar taugar. En ég þyrfti að ganga í haug til þess og „drífa upp peninga“, eins og Metterníkur í „Heljarslóðar-orustu“. Ég ætti að fara að flækjast. Ég vil ekki ríða hjólum C. P. R. fyrir ekki neitt.

Auðvitað er ég grár á kjálkum, en ég sker það af mér

um helgar. Skallinn á mér er eins höfðinglegur og áður var, og ég er einn af „jústísum“ Játvarðar Engla-konungs, svo ekki er afturförin að meini. Ég hefi aldrei verið fallegri! Nú get ég ekki glamrað meira í þetta sinn, kvarnirnar ætla að fara að urga af alvöru.

Konan og krakkarnir
Kærlega heilsa þér. —
Kristinn og krakkarnir
Kominn í rúmið er;
Iðrun hann ásækir
Að hafa ei skrifað þér.
Allt af hann að þér spyr,
Ef ég fæ bréf frá þér.

Lifðu hvern dag eftir annan öðrum fegri!
Sífellt yngri og öldungslegri.
Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Þorsteinn Erlingsson.* Markerville, Alta, 10. júní 1908.

Þorsteinn minn góður. — Komdu nú blessaður og sæll karlinn, og kæra þökk fyrir ýmsa skemmtun í kvæðum og bréf, sem nú er „komið á þriðja árið“. Ég ætlaði ekki að skrifa þér, fyrr en ég gæti sagt með vissu, að nú ætti ég bók í vonum, en svona hefir það dregizt og enn get ég ekkert sagt áreiðlegt. Kunningjar mínir í Winnipeg vildu fá að gefa út ruglið mitt og stofnuðu einhvers konar félag til þess, víst fyrir milligöngu Eggerts Jóhannssonar, fyrrum ritstjóra „Heimskr.“. Ég veit ekki nema um örfáa, sem fyrir þessu eru, og sumir eru mér víst alveg ókunnir menn. Ég lét til leiðast, lauk við handritið í ágúst í fyrra sumar, því þeir vildu í fyrstu, að ég flýtti því sem mest. Síðan hefir ekkert gengið með prentun. Ég heyri, að töfin stafi af drætti fyrir Jóni mínum Ólafssyni að skrifa undir gerðan samning um umsjón á útgáfunni, sem hann hafði boðið að takast á hendur. Ég studdi það sem ég gat að því, að „syrpan“ yrði sett í bókaröðina heima og að Jón fengi að annast um hennar útgang og inngang í smiðjuna. Annars ræð ég engu um nesti hennar og nýja skó. Ólafur Þorgeirsson vildi kaupa að mér útgáfuréttinn, og hann er eflaust vænn og vandaður — *en,* en hann er kirkjuprentar-

inn í Winnipeg, *og* ég hefi aldrei riðið neitt fallega þeim megin hryggjar! Jón Ólafsson bauð mér líka að „kaupa mig út“, en bréf hans kom eftir samning minn við hina. Jón hafði mælzt til þess sama fyrir sjö árum og ætlaði ég alltaf að verða hans kaupamaður, en svo hafði hann ekki minnzt á það meira og ég hélt hann vera því orðinn afhuga. Satt að segja herti það á mér að ganga að samningum við einhvern, að ég var fjandi lasinn til heilsu og var ekki viss um, hvort mér var ætlað, en þótti skömm að leggjast í haug eða bólið frá húsi mínu óráðstöfuðu. Nú væri það nær, en ég er brattari og ólíklegri til þess.

Ég vildi nota þitt ráð, hafa hefti mín fleiri, en smærri, því ég kann sjálfur svo vel við litlu kverin annarra — en, umráðendum sýndist annað, þegar við skiptumst orðum á um það.

Þú spyr mig um „Vorblóm“. Ég las þau, en ekki vel. Mér fannst sem svo: Hér er unglingur, sem einhvern tíma kann að búa sig vel, ef hann vex svo, að hann fylli vel út í fötin. Ég hafði séð kvæði eftir Indriða á Fjalli, sem mér þóttu ágæt, en svo sýndist mér hann nýlega sitja á þóftunni of mikið upp að Einari Benediktssyni, og skammta sér sjálfum svifrúm. Annars á ég illt með að fylgjast með, Þorsteinn. Ég er ekki svo fjáður að geta keypt öll ísl. rit, þó ég kysi það helzt. Ég sé því flest af því seint og margt aldrei, og lendi svo andlega úti í horni.

Það er ekki einleikið með fjarskyggni þína Þorsteinn, að þú skulir sjá á myndinni af kofa mínum, að glugginn minn muni snúa við austri; mér fer að standa stuggur af slíkri ófreskis-gáfu, ofan á annan anda-gang. En ögn hefi ég þó villt þér sýn, en það gátu engir töfrar varazt. Hér hagar svo til, að skaparinn hefir víst verið átta-villtur, eða ögn hornskakkur, þegar hann lagði árfarveg og mokaði saman hólum og hryggjum. Ég byggði húsið mitt eftir hans lögum, svo gluggarnir á horninu mínu hérna vita: Sá næst dyrunum *í austur*, sá næsti í suð-austur, og sá fjærsti suð-vestur. En nærgetull ertu samt, það skal ég segja.

Ég er nýbúinn að lesa hlaupa-fregnir blaðanna hérna um millilandasamning ykkar. En allt er enn ólesið ofan í kjöl. Fyrsta boðorð mitt er jafnrétti. Annars er nú gott að fá að vita, að manni sé ekki ætlað það, og kysi ég nú að basla einn.

Það er þó komin hláka, og ósköp verður nú sagt og sungið.

Leysing spræk fékk ræskt og ræst
Raddar-tæki strauma-dunu.
Smæstu lækir hafa hæst,
Hrína og skrækja í hverri bunu.

Heyrðu, ég legg í póstinn ofurlítinn böggul til þín. Í honum eru 2 miðar til að leggja í bók, sem maður er að lesa. Ég ætla þér annan, en Guðrúnu hinn. Þeir eru ekki eins laglegir og ég hélt að þeir yrðu, og efalaust eigið þið sjálf fallegri miða en þessa, en samt sendi ég ykkur svona ófémætt og ófélegt glingur og bið ykkur að þiggja — ef það kemst nú til ykkar. — Ég bið alúðlega að heilsa þínu heimili og óska, að allténd megi vel um þig fara.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*E. S.* — Ég gleymdi því! Hvínandi haglskúr nýafstaðinn í dag. Ég á 50 ekrur af fallegum akri og sánum, sem ég veit ekki, hvað kann að verða úr — og brotinn glugga á kofanum hérna, en ekki þó á horninu mínu. Það snéri undan. S. G. S.

*Eggert Jóhannsson.* Markerville, Alta, 21. júní 1908

Eggert minn góður. — Í gærkveldi fékk ég bréf frá þér, upp á fyrirspurn mína um „Syrpu"-ljóðin mín, og nú sendi ég þér annað, en hefði þó heldur viljað kunna að kenna þér ráð við gigtinni.

Myndin, sem var í „Lögbergi", er ekki sú, sem ég sendi þér af kytrunni minni, en ég er ekki saklaus samt í því máli. — Lögbergs-myndin er mynd af „rúg-akri" mínum í fyrra, við húsið, sem sést á *stafninn* á, upp brekku. Hún er ekki frá mér, heldur myndasmiðnum sjálfum, Þorsteini Davíðssyni, tekin fyrir Magnús Pálsson og gefin honum af Þorsteini. Sjálfur keypti ég af Þorsteini 2 eða 3, sem ég gaf einhverjum. Hús-myndina, sömu og þú hefir, gaf ég Magnúsi fyrir stjórnar-bækling um Vestur-Kanada, sem út kom í fyrra, og þar er hún í, en ekki „Lögbergi". Það er *mín* skuld, og var ekki alveg rétt gert, og meira að segja, ég vissi það þá, eins og nú. En svona var, Magnús var að reyna alls staðar að fá mynd af einhverjum húsum hér í byggð, eins og hinum nýlendunum, en fékk engar, af því enginn átti neina til, svo

gat ég ekki stillt mig um að láta hann fá þessa. Þarna er sú saga, eins og hún leggur sig. Ég skal útvega aðra mynd, en hún verður bara tekin á horn hliðar og stafns þess, sem glugga-götin eru flest saman á á þeirri, sem þú hefir. Láttu mig vita með línu, ef þú vilt hafa það svo, og ég get líklega útvegað myndina, og kostnaðinn við það skulum við láta eiga sig. Á Kirkjuhóli var ekki nema eitt þil, um bæjardyr bara, fremur lítið, og torfveggir út frá til beggja hliða. Gluggamynd, ein eða tvær rúður, í þilinu ofan við dyr, sem ögn lýsti upp göngin, þegar hurðin var lokuð. — Reykjavíkurteppan er ekki einleikin. Þar er einhvers staðar fiskur undir steini: „Pólitískar" ástæður eða „orðabókar"-ástæður. Það kemur seinna fram. Ef svo dregst, þarf að fá góðan og gagnlegan landvarnar-mann í Reykjavík til að láta Jón hrökkva eða stökkva. Hann á að svara einhverju um þetta, hvað sem öðru líður.

Þó að Kára þyki ég
Þróttar-smár að ferja,
Mínum árum mæli ei veg
Millum báru og skerja.

Vertu nú sæll og vegni þér alltænd vel.

Þinn Stephan G. Stephansson.

*Eggert Jóhannsson.* Markerville, Alta, 27. júní 1908.

Eggert minn góður. — Einu gleymdi ég í seinasta bréfi. Þú hafðir spurt um ártal við kvæðið „Lækurinn" (V. bls. 85) og ég svarað, að ég myndi ekki, hvenær ég kvað það, í Dakota, eins og satt var. Nú segir Guðm. Friðjónsson í „Skírni", að það sé gert 1893 (minnir mig, ég hefi ekki þann „Skírni" við hendina núna: Síðara heftið, sem greinin um mig er í). En ártalið hjá honum mun rétt. Hann hefir það víst eftir „Freyju", sem kvæðið var prentað í, og ég hefi víst sett við það ártal rétt, því það var gamalt þá og ég hélt rusli mínu í áraröð, en rispaði upp í handritið eftir öðru blaði, sem var ártals-laust, og mundi ekki eftir „Freyju". Takið ártal Guðmundar og setjið það við, ef ykkur sýnist. Það er rétt. Líklega er þó kvæðið sett seinna í ára-röð í handr. en rétt er. Mig minnir það. Væri hægt að þoka því framar í prentun?

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.



*Skrifstofa skáldsins — „hornið mitt“ (1905).*

*Myndin send frú Guðrúnu J. Erlings 20. des. 1905 með þessari vísu:*

*Ég rétti þér fimmtuga hönd mína hér —*
*Nú haustar og enduð er förin —*
*Ég veit hún er hrufluð og hnúa-ber*
*Og hörgulli' á gullið en örin.*

*Eggert Jóhannsson.* Markerville, Alta, 12. ágúst 1908.

Eggert minn góður. — Mér hefir flogið í hug að bregða mér austur um Íslendinga-byggðir í haust, segjum í byrjun október — og hafa yfir fyrir fólki 2 eða 3 kvæði ný. Útlit er hér nú, að sumar-önnum ljúki snemma. Veturinn og skammdegið hafa verið mér óholl núna nokkur ár og ég treysti ekkert upp á jóla-hugrekkið mitt. Ég færi mér til skemmtunar, fróðleiks og fjár, út í alla íslenzka buska, sem líklegir væru til þess háttar nota, en ég er alls staðar ókunnugur byggðunum, fólkinu, hugsunarhættinum. Hvaða gengi hefði ég í Winnipeg, svona almennt? Hvað getið þið, vinir mínir þar, gert fyrir mig úti í byggðunum, ykkur að ómakslitlu? Ég held séra Fr. B. yrði mér ekki andvígur, það sem hans köst ná til. Ætti ég að senda honum samkyns meðmæla-bón með sjálfum mér, eins og þessi er til ykkar? Eða, er ykkur það ekki um skap? Sýndu og segðu Skafta mínum frá þessum bollaleggingum mínum, og þeim, sem þú kýst, og láttu mig vita svo fljótt sem auðið er, hvernig vinum mínum lízt á þetta. — Fyrir óvinum mínum gæti ég mín sjálfur, séu þeir ekki of margir. Fyrirgefðu, að ég níðist allténd á þér með bréfin mín og kvabbið. Hinir njóta þess, að ég næ síður til þeirra — veit ekki um álitun þeirra.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Eggert Jóhannsson.* Markerville, Alta, 24. ágúst 1908.

Eggert minn góður. — Alúðarþökk fyrir bréfið og undirtektir þínar og þinna. Hugsið ykkur hentugasta daginn í 4. eða 5. viku októbers (Hvern sem vill, frá 18. til 31. þess mán.), að ég yrði þá staddur hjá ykkur, og látið mig svo vita dagsetningu, og svo kem ég þá, eða einum eða tveimur dögum fyrr — að forfallalausu. Ég hefi það *svo* með tilliti til Dakota. Ég flýti mér ekkert, ef ég fer á annað borð. Tek mér 2 mánuði eða dag fram yfir, ef þarf. Ég er ragur við Minnesota. Held ég fengi þar tóman gang og ferð. Þar mun vera óíslenzkust byggð Ísl. vestan hafs. Ég þekki þar engan mann, fyrr né síðar, því fornkunningjar mínir liggja þar nú grafnir. Fólkið yrði mér auðvitað gott, en íslenzkt kvæða-rugl, eins og mitt, fer forsending, nema til kunningja sinna. Til Edmonton ætla

ég að skrifa og komast eftir, hvernig „Kanada-Norðri" vill flytja mig. Ég hafði einmitt ætlað mér að flakka inn í ísl. nýlendurnar í Man. og Sask., svo margar sem færi gæfist á. Ég veit, að í sumum þeirra eru menn, sem kannast við mig. Ýmsir vinir í Dakota og Duluth hafa svo margboðið mér og beðið mig að koma (að ég ekki tali um ykkur Winnipegmenn), að ég er farinn að hálf-skammast mín. Þeir fara að halda, að ég vilji ekkert gott þýðast. Þó er nú „skelkur" í mér. Ég er ekki góður kvæðamaður og hefi aldrei lesið upphátt fyrir aðra. Ég bregzt sjálfsagt skemmtunar-von fólksins. En það verður ekki í allt séð. Í Duluth er fátt af mínu fólki, jafnmikið langræði sem þangað er, ég næ ekki svo langt. Ég skrifaði Jónasi mínum Hall líks efnis línu og þér, um sama leyti. Hefi ekki fengið svar. Hvað eftir annað hefir hann alið á þessu við mig í bréfum. Seinast varð ég einhverju að svara. Hann er sá eini, sem ég hefi enn bollalagt þetta við, annar en þú. Mér hefir samt dottið í hug að skrifa Sigga Júl. í Foam Lake. — Alltént blessaður.

Þinn Stephan G. Stephansson.

*Eggert Jóhannsson.* Markerville, Alta, 19. sept. 1908.

Góði vin Eggert. — Bréf þitt nýkomið. — Jú, ég vissi nú um umtal um Canada kosningar 3. nóv. þegar ég skrifaði seinast, en ég vissi af getspeki minni, að sú dagsetning var „humbug". Gamall og gráhærður „pólitíkus" eins og ég veit, að kosningar Bandamanna og okkar verða tæplega settar svo, að það verði „í dag mér, á morgun þér". Móti því eru of margar „pólitískar" ástæður, enn sem komið er. En — ég hélt þá, að okkar kosning dragist fram yfir hina, til desembers. Þar skeikaði spámanns-gáfu minni, svo ég verð að sætta mig við, í þetta sinn, að smeygja mér einhvers staðar inn á milli 12 smærri „prófetanna", en samt vil ég hafa bæði Malachias og Jón Jensson fyrir aftan *mig*. Ég fékk með bréfi þínu blöðin, sem setja okkar kosning 26. okt. Október er þá úr minni ferðasögu. Setjið þá „fæðingar-dag minn í Winnipeg" í fyrstu viku nóvember, eða annarri, ef ykkur lízt. En látið mig sem fyrst vita hvern. Winnipeg verður líka á nálum 4. nóv. og dagana fyrir, ef mig grunar rétt. Væri þá ekki bezt að hafa „krossfestingar-kveldið" mitt þar (þ. e. kveldið, sem ég læsi þar upp)

einum eða tveimur dögum seinna? Þið um það. Ég vildi koma til Wpg einum eða tveimur dögum fyrr og jafna mig ögn, áður en ég „gengi í gálgann“, svona í kyrrþey og á fárra manna vitorði. Til dæmis, ég er orðinn vangæfur með svefn heima, hvað þá á vagna-lest. Auðvitað reyni ég að fylgja „prógrammi“ ykkar eftir bezta megni, verði nokkur sanngirni í því og veður og vegir gera enga „rebellion“. Þið þurfið ekki að óttast, að ég sé óþægur í samvinnu, þó ég sé bölvaður á að samþykkja margt. — Sig. Júl. hefi ég enn ekkert skrifað, af því ekkert var afráðið. — Jæja, drengir góðir, farið með þetta eins og ykkur er hentast og hægast og mæðu-minnst. Til Gimli og Selkirk þyrfti ég að koma. Á Gimli eru „socialistar“ og í Selkirk séra Steingrímur, sveitungi gamall og frændi minn, að því er mæður okkar sögðu. Ég þarf að heilsa honum, þó honum líklega hrylli nú við mér. „Öll skepnan er góð, sé hún með þakklæti meðtekin“, segir bókin helga, og þó það sé vitleysa, þá er það handhæg ritningargrein á ferðalagi.

Þú sérð á skriftinni, að þetta er „prívat“-bréf, nema það, sem er opinber „pólitík“.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Eggert Jóhannsson.* Markerville, Alta, 27. sept. 1908.

Eggert minn góður. — Já, ég skal reyna að samþykkja og lifa eftir því, sem um semst milli ykkar um ferðalagið, en látið mig sem fyrst vita, hvenær upp skal leggja og hitt að gefa mér 2 eða 3 daga forskot, áður ég á að skríða upp á pallinn í Wpg. Ég held ég geti náð „Norðra-lestinni“ í Edmonton sama kveld og ég fer héðan, en hængur er á, og ég ókunnugur. Það er, sem sé, 4 mílna „transfer“, með „skussum“ eða gangandi, milli Edmonton og Strathcona, þar sem C. & E. R. R. okkar endar, yfir Saskatchewan-ána. Þar má litlu muna. En svo gerir það ekkert. Ég líklega kemst það í striklotu. Annars kæmi ég þá bara degi seinna til Wpg. Í Edmonton gisti ég ekki í það skiptið, nema ég mætti til.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Eggert Jóhannsson.* Edinburg, N. D., 10. des. 1908.

Eggert minn góður. — Hérna er ég þennan morgun heima hjá Hall, eftir að hafa farið náttfari frá Duluth og náð hingað í gær.

Víst er gott að vera hjá
Vina-sveit og grönnum
Og kunna réttar áttir á
Allri byggð og mönnum.

Með kærri kveðju. — Þinn S. G. S.

*Jón Jónsson yngri.* Pt. Winnipeg, 7. jan. 1909.

Góði frændi. — Hér er ég heill á húfi. Komst frá Grafton 4 kl. tímum á undan áætlun með lestinni, sem fara átti kveldinu áður, en komst ekki fyrr, sökum ófærðar. Ég keypti mér svo keyrslu heim til Eggerts í gærkveldi (Það eru um 2 mílur af bæjargötum), og komst áður hann lagði upp ofan á vagnstöð, til að mæta mér kl. 11, eins og hann ætlaði.

Hjartans kveðjur til allra þinna, og

Jonni minn, ég þakka þýtt —
Þýðra en orðin sýna —
Fyrir bæði fornt og nýtt,
Frændsemina þína.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Eggert Jóhannsson.* Churchbridge Man., 22. jan. 1909.

Góði vin. — Kominn hingað heill á húfi. Hress og í góðviðri — rigningu.

Það er blítt í byggð og tind,
Bezti veðra kostur.
Ráðin yfir veðri og vind
Vann ég svona af Foster.

Þinn S. G. S.

*Eggert Jóhannsson.* Wadena, Sask., 2. febr. 1909.

Eggert minn góður. — Hér er ég strandaður, fyrsta skipti á ferðinni, og ég veit ekki, hvenær ég losna. Brautina fennti í kaf nálægt Loydminster, öll gögn brautarinnar, vagnar og vélar, teppt fyrir vestan haftið, svo ekki kemur nein lest frá Winnipeg í dag, að minnsta kosti, fyrir vagna-leysi eystra. Ferðin gekk annars vel og veðrið var gott, en oft lá við skömm, að ég kæmist leiðar minnar, en það var eins og allténd væri hamingja, sem var óvænt, með mér. Í Sinclair leit illa út um stund, að ég kæmist til Elkhorn í tíma. Bárdal ætlaði að verða ráðalaus, því sjálfur hesthúshaldarinn treysti st ekki þegar til kom, en Jóhann G. Jónsson, gamall Skagfirðingur, bjargaði mér þá. Í Tantallon var ekki Guðm. Ólafsson til taks. Hann fékk aldrei bréf séra Rögnvaldar. En Jón Bartels tók upp hjá sjálfum sér að mæta á stöðinni. Hann var nágranni minn í Víðimýrarseli á stráksaldri okkar og mundi það enn, þó ég hefði gleymt því. Í Vatnsdal las ég upp á tveim stöðum. Í Þingvalla á þremur og Foam Lake á fjórum, og gróðinn er liðugir $ 60. — Magnús Hinriksson gerði mér allt til góðs og sóma í Þingvalla, og þeir Tómas Pálsson, Sig. Júl. og séra Fjeldsted í Foam Lake. Fjeldsted keyrði mig um allt og Tómas hingað. — Svo var mér fagnað með veizlum og ræðuhöldum, og á Wynyard með nýju lagi við eitt kvæði mitt, sem Helgi Helgason hafði ort. Ég er frískur og fær og ekkert að nema biðin. Held til á hótelinu hér. Var í gærkveldi í boði hjá Vatnsdalsbræðrum og las þeim upp kvæðin mín eftir ósk þeirra. Hjá þeim er Grímur Laxdal, greindur maður og skemmtilegur, svo mér líður vel, eftir vonum.

Vertu margblessaður. Bréf, þegar ég kemst heim. Bið að heilsa öllum þínum alúðlega og litlu stúlkunum mínum sérstaklega.

Þinn einl. Stephan G. Stephansson.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerville, Alta, 8. febr. 1909.

Góði vin. — Alúðar þakkir fyrir síðast. Ég slapp heim á laugardaginn þann 6. Öllu leið vel. Ég sendi þér kvæði eftir Sig. okkar Júl., ef þú vildir það í „Heimi“. En gott væri að fá handritið aftur, þegar búið væri að nota það. Ég er varla

búinn að átta mig enn, né þurrka ferðastírurnar úr augunum, svo ég læt við þessar fáu línur sitja í dag.

Páll postuli bað æfinlega að heilsa bræðrunum. Það geri ég líka, og bæti systrunum við.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Eggert Jóhannsson.* Markerville, Alta, 17. febr. 1909.

Eggert minn góður. — Mig minnir, að ég skrifaði þér frá Wadena. Ég sat þar tepptur í tvo daga. Kanada-Norðri var kaf-fenntur nálægt Vonda, og sumir fóru í kring, til Dauphin, Prince Albert, Warman, um 600 mílna lykkju, en þó þeir legðu upp 2 sólarhringum á undan mér frá Humbolt, komust þeir ekki fyrr til Edmonton. Dagana tvo, sem ég dvaldi í Wadena, borðaði ég hjá Þórði Vatnsdal og svaf í skrifstofu hans, hjá vinnumanni hans, Grími Laxdal, skemmtnum manni og greindum og Hannesar Hafsteins manni traustum, svo þú getur nærri, að mér leið vel í ferða-teppunni. Svo komst ég til Edmonton föstudagsmorgun (5.), til Red Deer um kveldið, en gisti þar, og heim laugardagskveldið (6.) með pytluna óeydda í töskunni og tappa-togarann í vasanum — þú manst, hvernig á því stóð. — Nú, ég á „togarann" óeyddann, hann liggur uppi á skrifborðinu hjá mér. Ég sendi nokkrum vinum mínum bréfspjald, dagsett heimkomu-daginn. Fékkstu eitt? Fólk segir ýmist, að ég sé 2 eða 3 árum yngri en þegar ég fór. Skilaðu því til konunnar þinnar frá mér, og að ég sé að segja þetta satt. Þú manst, hvað hún var hrædd um, að ég borðaði ekki nóg. Kona mín biður kærlega að heilsa henni og þakkar fyrir meðferð á karlfuglinum sínum.

Síðan ég kom heim, hafa gengið hörkur, ég slapp rétt fyrir þær verstu. En fyrst í dag er blíða. Heilsaðu kunningjum mínum í Wpg kærlega frá mér. Séra Rögnvaldi skal ég senda kvæðin með tímanum. Það á, trúi ég, að halda eitthvert gildi hér bráðum, og þar á ég að lesa þau í þrítugasta og þriðja sinni. Ég nenni ekki að farga þeim fyrr.

Hefir nokkuð frétzt af Skafta og Gróu? Og hvernig er heilsa þín núna? Mig langar að vita um það, svona við tækifæri. Enn hefir enginn skrifað mér, sem von er, þó mér finnist

það óviðkunnanlegt við það, sem var, áður ég fór. Mér þóttu þá bréfin stundum nógu mörg.

Þökk fyrir allt og allt, líði þér og þínum vel.

Þinn Stephan G. Stephansson.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerville, Alta, 19. febr. 1909.

Góði vin. — Þökk fyrir síðast. „Ég hefi mál fyrir yður að kæra, sýslumaður góður“, sögðum við í þjófa-spilinu forðum, íslenzku stelpurnar og strákarnir, og sá formáli var æfinlega inngangurinn að því, að einhver yrði hýddur.

Mann í skólanefndinni hérna langar til að ná í íslenzkan kennara, í þetta skipti fyrir 8 mánaða skólaár, sem byrjar með vorinu. Hann hefir skrifað séra Friðrik, en engan ádrátt fengið. Veizt þú um nokkurn pilt eða stúlku, sem fáanleg sé? Og væri svo, gætir þú bent mér á það bráðlega og bréflega? Og svo sting ég því að skólanefndinni. Er t. d. Fríða Harold í festum þar eystra? — Svo ekki meira um það.

Lútherski söfnuðurinn hérna söðlaði séra P. af sér um nýárið, eins og ég bjóst við, en ekki hefir hann söðlað um fyrir það og er prestslaus, nema hvað séra P. ætlar að messa „gratis“ við og við, ef nokkur vill þiggja. Svo „kristnar“ hann og „fermir“ sóknarbörn, sem ekki vilja heita heiðin. Séra P. býr sem bóndi hér. Líklega fellur honum útreið sín illa, sem von er. Hann er tilfinningamaður all-mikill, og það eru víst smáræði ein, hótfyndnin eða hagsmunasemin, sem veldur því, að trúfólk telji hann óviðunanlegan.

Ég sendi þér boð í gær, í bréfi til Eggerts, um ljóðmælin, sem ég lofaði „Heimi“. Þau koma einhvern tíma með froskunum og mýflugunum í vor.

Ég bið að heilsa öllu þínu húsi og „Heimis“, fjölskyldunni, en konunni þinni sérstaklega.

Nú er hér sólbráð og blíða í dag og gær, þó ekki sé líklega allur vetur úti.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Eggert Jóhannsson.* Markerville, Alta, 22. febr. 1909.

Góði Eggert minn. — Á föstudagskveld fékk ég bréfið þitt alúðlega, en degi áður hafði ég skrifað þér og spurt um Skafta. Hjartans þökk mína fyrir allt og allt, Eggert, og þú mátt ekki tala um, að neitt hafi verið ábótavant hjá þér né þínu fólki. Þar var ég í bróður-höndum. Já, Eggert minn, eins og það er ljúft að hafa notið svona mikillar velvildar eins og ég hefi hjá nokkrum mönnum, og þér sérstaklega, eins ráðalaus er maður á hinn bóginn með að geta sýnt nokkurn lit á, að maður hafi þó fundið það og metið það að nokkru, sem alúðlegast hefir að honum verið hlynnt um æfina. Þegar ég kem næst til Wpg, kem ég ekki auglýstur við stundir og stað, og þá kem ég fyrst til þín, eins og núna.

Það er sjálfsagt, ef þið kjósið svo, skal ég bæta við því af þessu rusli, sem til hefir fallizt síðan ég lauk við handritið. En bókin stækkar um *einn fimmta* við það, að ég held. Ég skal flýta því, það sem ég get, en nokkuð lengi verð ég. Skal senda viðbótina við (segjum) 3 til 4 fyrstu þætti eins fljótt og ég get. Mestu varðar viðbótin við seinasta þáttinn. Mér er allt ögn umhendara, af því nú er ég búinn að gleyma um niðurskipun og fleira, en ég skal gera hvað ég get að fella þessa neðangerninga rétt við.

Eitt er enn. Ég hafði lofað séra Rögnv. upplestrarkvæðunum fyrir „Heimi“ og það ótilkvaddur. Ætlaði að gera það í endurgjaldsskyni fyrir velvild ritstjórans til mín, ef „Heimir“ teldi sér nokkurn feng að fara með þetta. Ég stend við það. En telur nefndin sér ógreiða að því, séu þessi kvæði prentuð í tímariti? Útkljáðu það fyrir mig við séra Rögnv. við tækifæri. Hann er einn í útgáfu-nefndinni líka og í báða bundinn skó. Friðr. Sveinsson sýndi mér „tilraun“ af Kletta-fjöllum og Kirkjuhólnum. Ég gerði eina eða tvær athuganir, sem hann merkti á „uppkastinu“. Við það sat.

Sendingin er ókomin enn. Ég þakka hana samt kærlega. Ein póstferð liðin síðan bréfið þitt kom. Hún kemur ef til vill í kveld. Ég vildi ekki bíða með að skrifa þér, svo þú gætir svarað Skafta.

Fyrirgefðu rissið. Þetta eru nú förin eftir 5 doll. lindarpenna. Andskotans verkfæri er það. En ég er að venja mig

við. Stálpennar verða bráðum ríkismanna-stáss og fást hvergi nema á „himnaríkis forngripa-safni“.

Marg-sæl og blessuð öll.

Tell my little girls, that they will have to go with me to the theatre, when I happen next in Wpg. Since I went with them when I was there last.

Mér finnst ég hálfgert eiga heima í Wpg nú, og eitthvað af mínu fólki sé þar.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

P. S. — *Mýraþingmaðurinn.*

Hann með Sigurðssyni vann,
Sat og stóð sem þjóðhetjan.
Fæti er von hann verði á
Valtari — Jón er kyrr og frá.

S. G. S.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerville, Alta, 24. febr. 1909.

Góði vin. — Ég hefi meðtekið 50 doll. bankaávísun frá Winnipeg-Íslendingum, og fengið tilkynningu um minjagrip, sem mér hefir verið sendur, en er ókominn.

Innilega þökk til þín og gefendanna fyrir þetta allt saman.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Eggert Jóhannsson.* Markerville, Alta, 24. febr. 1909.

Góði vin. — Hjartans þökk til þín og gefendanna allra fyrir 50. doll. bankaávísun, gjöf frá ykkur vinum mínum í Winnipeg. Minjagripurinn, sem þið senduð líka, er enn ókominn hingað, en getur verið nú í Innisfail.

Ég hefi líka sent séra Rögnv. og séra Friðrik þökk mína.

Verði ykkur vel fyrir allt ykkar mannlyndi við mig áður og nú.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Eggert Jóhannsson.* Markerville, Alta, 25. febr. 1909.

Góði vin. — „Hornið“ kom í gærkveldi. Innilega þökk mína til ykkar allra fyrir það og allar aðrar góðar gjafir, nú og áður. „Hornið“ er dýrgripur, haglega gert og af snilld, eftir mínu viti að dæma. Ekki er vísan úr Sigrdrífumálum sízt. Hún er sú kristnasta drykkjuvísa, sem ég minnist, þó margar séu þær góðar. Ég bjóst við, ég þyrfti einhvern tíma að þýða hana enskum kunningja, óviðbúinn svo í mér stæði, svo ég sneri henni samstundis. Brosið þið nú líka að enskunni minni, en svona er hún:

„Beer I bring you
Bold warrior
Brewage cf good health
And greatest honour.
Fraught with sounding songs
Sorcery of kindness
Magic of friendliness
And mirthful tokens“.

Berðu kæra kveðju mína öllum veitendunum að „Vinaminni“ cg vertu sjálfur blessaður og sæll.

Þinn einlægur Stephan G. Stephansson.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerville, Alta, 15. marz 1909.

Góði vinur. — Það er bezt við klárum þetta kvennamál fyrst! Júlí-jómfrú gagnar ekki skólanum hérna, nema allar aðrar hryggbrjóti hann. Hann átti í réttu lagi að vera harðgefinn fyrsta þ. m., þó hann sé ólofaður enn vegna kvenmannsleysis. Svona er nú það, þó bvölvað sé. En hér eru fleiri skólar íslenzkir að aðstandendum, en kennaraskortur mikill, svo ef við ættum staka stelpu til, jafnvel þó það væri í júlí, væri gaman þú létir mig vita um það. Helzt vildi ég einhverja svo kennaraskóla-fermda, að hún gæti búið hér að okkur eitt eða tvö ár, ef svo sýndist, af því það borgaði sig bezt, sökur langferða-tollsins á henni hingað. En svo er nú ekki meira um það. Ég er orðinn skussi að skrifa bónorðs-bréf.

Nýlega sendi ég þér „Forsetann“, ferhyrnda skepnu-kind.

Þú ræður sjálfur, hvort þú markar Birni eða Hávarði eyrun á henni. Annars staðar en í Bandaríkjunum eru nú ekki nýkosnir forsetar. Ég sendi þér *„Draupnir“* þann, sem ég var að flækjast með. Geti Gísli ekki lesið hann fyrir ferðablettunum, skal ég koma til. Ég las hann upp seinast hér á föstudagskveldið var og nennti ekki að sjá af honum fyrr en því væri lokið. En svo er hitt, eftir ég kom heim, bað Skafti mig um öll mín kvæði í safnið „upp til þessa dags“. Nú hefi ég verið önnum kafinn í því stauti. Samt efni ég það, sem ég lofaði þér og „Heimi“. En ef þið nefndin haldið, að betur fari á, að þessi kvæði komi mönnum ekki fyrir sjónir fyrr en „syrpan“ ungast út, þá bregð ég um það, með samþykki þínu og „Heimis“. Úr þessu verðið þið að greiða og koma ykkur saman um.

Héðan er ekkert að frétta. Nógur snjór, en frostleysur frá forsjónarinnar hendi, og fólkið allt heiðið síðan um nýár, og þó er það trúaðra en ég. Því eins og þú veizt, þá trúi ég ekki einu sinni á munn og maga, ekki að minnsta kosti síðan maginn sveik mig kringum 1882.

Gott þótti mér, að „Leysingar“-Gvendur skyldi nú þurfa að rýma skrifstofustjórnina á þessu þingi fyrir „Ofureflis“-Einari. Hann hafði mokað í sig hjá Hafsteini, meðan hann gat, og hann Hannes minn sat fram til fullra eftirlauna, og Jón minn varð skrifari í neðri deild, svo allir hafa að éta. Síðan Hafsteinn brást mér í „millipilsa“-nefndinni, trúi ég engum, sem til Hafnar fer. Bíð átekta og býst við að þurfa að kveða um þá — skammir. Mér er ekki betur við annan danskan mann en Jörund sáluga hundadagakóng (nema ef það væri Rask heitinn). Stjórnar-skráin, sem hann gaf Íslendingum, sálugur, var minni meinloka en milli-landa-frumvarpið og hreinskilnara. Ég vildi þú værir kominn í „sófann“ hjá mér hérna til að rífast um þetta, einkanlega um Jörund.

„Stjórn Jörundar *grams á grund,*  
Gæfu-stund þó byrgði,  
Helzt má undra hal og sprund  
Hún þó stundleg yrði“ —

sagði „Tíðavísna“-Hjaltalín, að mig minnir. Jú, Ísland er æfinlega „grams-grund“ — Danakóngs-land!

Ég bið kærl. að heilsa Gísla og prentsmiðjunni og bið þau

að fyrirgefa útganginn á „Draupnir“. — En hvað um það, ég er kominn hér á heimsenda blaðsins og er enn þinn einl.
Stephan G. Stephansson.

*Eggert Jóhannsson.* Markerville, Alta, 15. marz 1909.

Eggert minn góður. — Þökk fyrir bréfið þitt nýl. komna. Sendi þér línu og „eftirlegu-kvæði“ degi áður Ég vildi mér hefði hugkvæmzt „einka-málið“ þitt á heimleiðinni. Þá stóð betur á, án þess það geri nú reyndar neitt „útslag“ í einu né neinu hjá manni, sem ekki má sín meira en ég. En það er sama. Mér er blátt áfram ánægja að gera tilraun í þessa átt. Þó ég enga von hafi um árangur, skortir mig ekki vilja né áræði, þar sem ég næ í. En ekki meir um það — að sinni. Það verður sjálfsagt erindisleysa hvort sem er, en ég hefi gaman af að gera mitt til.

Það er gott, að gigtin hvarflaði frá. Ég vildi, að hún ætti aldrei aftur-kvæmt. Hvert lítið skýja-rof verður þeim manni þó nautn, sem heilsuna hefir.

Mig langar til að geta lokið uppskrift kvæðanna þennan mánuð og sent þér. Hefir þú minnzt á prentun þeirra í „Heimi“ við séra Rögnv.? Ég lofaði honum þeim og efni það, ef hann gengur eftir. Ég sendi honum *Draupnir* í dag.

Ég legg hér með bréf til Skaftasonar. Það er opið. Lestu það. Enn verð ég að níðast á þér og kvabba. Ég veit ekki áritun Jóseps. Bættu henni á umslagið fyrir mig og „póstaðu“ eða talaðu við Jósep gegnum „fóninn“ ykkar um bréfsefnið, ef þér sýnist það betra, og brenndu þá bréfið.

Ég las upp hér á Markerville þann 12., næstliðinn föstudag. Inngangseyrir varð $ 25. Hér er ekki mannmörg byggð. Menn sóttu vel, hér um bil eins og að Einari í fyrra, en ég „smalaði“ ögn fyrir hann, en ekkert fyrir sjálfan mig.

Fimm vinir mínir hér (Séra Pétur Hjálmsson var einn) gáfu mér hvílu-bekk (sófa) og færðu mér hann nokkrum kveldum áður.

Heima er ég sem hetjan forn
Í haug sem gekk,
Ég sit nú með „hring“ og „horn“
Í „hvílu-bekk“.

Segðu ég biðji kærlega að heilsa þeim „dúsbræðrunum“ mínum, Þorsteini og Kristni skáldum. Við kvöddumst nokkuð stuttaralega, þó það væri í vinsemd, en vorum aftur þeim mun lengur saman. Og hann Kristján minn Stefánsson, hann á hjá mér kveðju og meir en það. En ég borga aldrei vinum mínum með neinu nema því, sem ég má til með: Að láta mér verða vel við þá.

Blessaður og sæll, piltarnir og stúlkurnar þínar — og stúlkurnar mínar.

Þinn einl. Stephan G. Stephansson.

*Eggert Jóhannsson.* Markerville, Alta, 21. marz 1909.

Eggert minn góður. — Á morgun, um leið og ég greiði atkvæði á M-ville, sendi ég þér „registeraða“ í póstinum seinustu pjönkuna af kveðskapnum mínum. Nú er allt komið. Ég held þeir villist í þessu heima, stykkin eru orðin svo mörg, og hefi ég þó reynt að gera það sem glöggvast. En það verður nú ósamræmara, af því svo langt leið milli og ég búinn að hálfgleyma, hvernig ég útbjó í fyrstu.

Stafsetning verður auðvitað að laga á orði og orði. Ég býð ekki fé við, að ekki séu hér og þar ofaukin g og j, *bæjir* fyrir bæir eða *drógst* fyrir dróst o. s. frv. Sjálfur myndi ég sjá það sums staðar á prófórk, þegar ekki væri um annað að hugsa. Kannske væri betra, að einhver ykkar hlypi yfir að lesa þetta, t. d. Kristján Stefánsson, ef menn hafa tíma. Mér skjátlast oft mest að skrifa rétt mitt eigið, sem ég hálf kann, vil hlaupa yfir orð og stafi og eins við yfirlestur. — Kærar kveðjur.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerville, Alta, 28. marz 1909.

Góði vin. — Nýbúinn að fá bréf þitt og nýbúinn að senda þér „Bæjar-göngin“, rétt í galsa. En ef þú prentar þau, þá settu ofan við: *Snúið kvæði eftir E. A. Poe.* Það er meinlaus hrekkur. Ég var að stæla „delirium tremens“-skáldgáfuna hans Poe's og hefi gaman af, ef einhver fer að hafa fyrir að leita í honum að frumkvæðinu.

Jú, ég skal hugsa um kvenfólkið þitt, en ekki er nú víst, hvað mér tekst. Sem stendur eru hér 2 Íslendingaskólar kenn-

aralausir, sem áttu að vera byrjaðir. En bráðum koma út nýgervingar frá kennaraskólanum í Calgary og kannske uppfylla allt. Við sjáum til. Jú, þú ættir að koma hér, þegar sumrar, ef þú gætir þægilega, þín og fjárhagsins vegna. Hver árangur yrði, get ég ekki sagt. Ég skal reyna að útvega þér þá áheyrn, sem ég get, en ég orka ekki stóru og fólkið er hér eins og annars staðar varasamt. Ég þyrfti að vita þína von svo sem mánuði áður. Séra Pétur er farinn að messa aftur, upp á eigin reikning, eða öllu heldur reikningslaust. Átta hlustuðu á hann seinast. Þú gerir ekki verr. En þú þarft að fara hljóðlega fyrst, en koma þó fyrir kirkjuþing, eða upp úr því. Þeir líklega senda hingað einhvern hálf-fiðrunginn frá útungunar-vélinni í Chicago, ef þeir vissu, að þú værir að „grassera“ hér.

Hér er engin veruleg vantrú til. Við séra Pétur erum einu vantrúar-mennirnir, hvor á sinn hátt, og ef þú „umvendir“, er ekkert eftir, nema annað hvort að kristna eða heiðna alla trúleysingjana, og þeir „rísa upp með hval í hvopti, hvora leiðina sem þú fer“, — ef ekki þarf að borga fyrir það. En fyrirgefðu nú samt, í þessu er ögn af galsa-öfgum, til að koma þér til að brosa — eins og í skafa-hljóðinu hjá eldabuskunni minni í bæjargöngunum.

Veðrið er milt, en snjórinn þungur og þrákelkinn yfir allri sveitinni enn. Einstaka hóll stingur svart-plægðum kolli upp úr kösinni, eins og fyrstu kúpurnar úr kirkjugörðunum á dómsdegi. Himininn er krapahríðar-kembdur, með vatnsbláa vætuskör yfir samruna lofts og láðs, suður og vestur, eins og pilsfaldur á mynd af Maríu mey, eftir Mikael Angelo. — Verið öll saman blessuð.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Jónas Hall.* Heima, á páskadaginn 1909.

Gleðilegt sumar, Jónas minn, bæði þér og þínum.

Hér er alltaf veðrið valt,
Vorið svalt með byljum,
Stundum kalt — og yfir allt
Ísa-salt í giljum.

Aðrar eru ekki fréttirnar. — Ég skilaði boðum þínum um bréfið til Kristins mágs. Hann fékk snöggan samvizku-sting,

að mér sýndist. En ég held hún sé orðin svo gömul í honum, samvizkan, að það grafi aldrei í henni. Þú sérð það á því, hvort þú hefir enn fengið bréf frá honum. Reyndar er ég lítið betri — ég hefi aldrei skrifað þér heldur og áttir þú þó betra skilið fyrir fornt og nýtt. En ég hefi átt í penna-annríki, og er þó að letjast — jafnvel við það. Strax og ég kom heim, vildu þeir fá í „Syrpuna“ væntanlegu allt, sem ég hefði kveðið til þessa dags, frá 1907, því lengra náðu ekki samningar okkar. Ég gerði það, en það var all-mikið, sjálfsagt fimmtungs stækkkun á skruddinni. Nú stend ég uppi næstum öreigi. — Ég svík þig um bón þína. Manstu hana? Ég kom aldrei til að sjá Sylvíu þína. Kom mér ekki fyrir með það, vegna atviks, sem mér kom við, en olli hvorki né þykkti nokkru sinni. Tengdadóttir þín hafði lofað Wpg-vinum mínum að syngja lag, kveldið sem ég las þar upp, að sagt var. Hún brá því loforði upp, sama daginn og ég átti að lesa upp að kveldi. Barði við, að hún lægi í lungna-pípu-bólgu. Þennan dag söng hún í kirkju séra Jóns. Ég álpaðist þangað af hendingu og sá hana og heyrði, hafi mér verið sagt satt til nafns, sem ég efa ekki. En ekki þekki ég hana fyrir aðra. Sjálfur var ég jafn-sáttur við hana, eftir sem áður, en vinir mínir voru óánægðari, sem von var. Þeir höfðu fyrir þessu haft og orðið fyrir vonbrigðum. Þeir kenndu samt henni það minnst — en „norðangirðingi“ Norðursafnaðar, sem þau hjón heyra til, miklu fremur. Ég veit ekki, hvaða götu-sögur þau hjón hafa kunnað að frétta út úr þessu, en af því ég mætti þeim hvorugu annars staðar, eftir að ég kom til Wpg síðar, kom ég mér ekki fyrir að troðast inn á þau að óþörfu. Ég vissi ekki, hvort ég var þeim aufúsu-gestur, eða heldur hitt. Nú hefi ég sagt þér alveg eins og er, en aðeins mér til afsökunar.

Mundi sonur minn er nýfluttur með hús sitt héðan frá mér til Markerville. Hann verður þar við verzlun, með Jóni Benidiktssyni. Já, Jónas, það ætlar að rætast úr okkur betur en einu sinni áhorfðist. Hver myndi hafa trúað því, að við ættum nú sérstaklega að verða kaupmanna-feður?

Hver er áskrift K. Ns. míns Jónssonar, ef ég skrifaði honum, sem ég ætti að gera einhvern tíma. Ég bið kærlega að heilsa honum. Alúðarþökk fyrir fyrst og síðast, Jónas minn, og berðu Sigríði kveðjuna mína.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Eggert Jóhannsson.* Markerville, Alta, 11. apríl 1909.

Ánægjulegt sumar til ykkar allra, Eggert minn, því of seint kem ég til að biðja ykkur góðs um páskana. Þökk fyrir síðast og fyrst, og þökk fyrir síðasta bréfið, það kom í fyrradag. — Jæja, Eggert minn, „einkamálið“ höfum við hvor hjá sér, svona fyrst. Ég hugsa um það að gamni mínu og blessaður skrifaðu mér, ef þér dettur nokkuð í hug, sem þú hefðir gaman af, að ég kæmist eftir fyrir þig. Stefna þín er hyggileg eins og stendur, af því maður veit ekki enn, hvort nokkuð fengist, né auka-atriðin: Launin og ætlunarverkið. En hugsaðu ekki um að hlífa mér, í öllum bænum, mér bara er ánægja að að reyna, þó mér sé ami að, hvað ég er ónýtur.

Skólinn hér er ályktaður 8 mánaða skóli. Átti að byrja í marz. Kennari fékkst þá ekki. Það hefir verið skrifað og auglýst og enginn efi, að einhver rolan býðst um næstu mánaðamót. Ég á kunningja í skólaráðinu hérna, mann, sem er allt það gott, sem ég er ekki, t. d. „konservativ“ „gúdtemplari“ og „amerískur repúbliki“, en hann vill allt fyrir mig gera. Til hans fór ég og bað hann að tala við hina meðráðendur sína, eða bauðst að gera það sjálfur, ef þeir héldu fund, og reyna að koma í veg fyrir, að nokkur umsókn yrði samþykkt, þangað til L. yrði laus, það munaði hvort sem væri lítið um einn mánuð héðan af. Hann féllst á þetta, lofaði sinni aðvinnslu, og enginn er enn ráðinn. En fari svo, að þetta heppnist, skrifa ég strax sem ég veit um það, og þá verðum við að gera áreiðanlega út um, að L. komi og kenni hér, ef til kemur. Ráðgjafinn svarar mér stuttlega, að hann viti ekki til, að nein niðurfærsla sé á kennara-fari. En reyndu járnbrautina á 6 mán. „return“. Sú, sem hér kenndi seinast, hafði að sögn þannig lofað farbréf frá Quebec-fylki, eitthvað niðursett. Kennarakaup hér frá $ 50 til $ 60 um mánuðinn, en hýsing og þess konar frá $ 12 til $ 15.

Nú, fengist þessi skóli handa L., þá er svo sem hálf míla frá kofanum mínum, og L. mætti vera hjá mér, meðan honum entist þreyja til, og ef hana brysti, skyldi ég hjálpa honum að koma sér þar niður, sem hann heldur vildi vera, ef ég gæti. Hjá mér færi ekki eins vel um hann og ég vildi, og þó er það lítið betra annars staðar hér og ekki heldur stórt verra en í sumum byggðum Ísl. hér, að undanteknu Argyle og

Dakota, eftir því sem mér leizt á nýlega, svona í svipinn séð. Fyrst ekki fæst lækkun á fari fyrir L., hefði ég ánægju af, ef ég gæti séð um, að vistin hérna yrði honum ekki óguðlega dýr, ef til þarf að taka, sem enn er ósýnt. En svona stendur nú það mál.

Kæra þökk mína fyrir ávísunina upp á $ 95, sem ég fékk áður. Ég stein-gleymdi að minnast þess í síðasta bréfi, ég var þá í því flaustri. Og hann Ross minn. Ég gæti nú vel unnt þessum sköllótta „Skota" að fá eitthvað fyrir ruglið sitt um mig, úr því hann asnaðist út í það. Ef þú sérð hann, ráddu honum að luma á þessari lang-loku sinni nokkuð fram eftir, þó enginn vilji enn „kaupa hann út". Ég nærri held, að ef „syrpa" mín kemst út í ár, muni Poestion geta hennar, eða nota eitthvað úr henni með tímanum. Séra Friðrik segir hann vera að safna til sýnishorns af ljóðagerð Vest-Ísl. Nú — „Þegar mestu manna er getið, mín er líka getið, svanni", kvað „Hænir", og Poestion má til að geta mín til ills eða góðs. Hann hefir getið mín til góðs áður og sagzt myndi seinna leiðrétta órétt, sem hann hafi gert mér og Þ. E. í „Ísl. blóm", að taka ekki fleira eftir okkur, en færra þá eftir suma aðra. Nú, færi svo, að þýzkur maður bæri mína sögu bærilega, gæti viljað til, að Ross gæti fært sér það í nyt og fengið eitthvert verð fyrir sína vöru.

Senn er vor um vang og höf,
Varmi í jörð og geði,
Sendi það þér í sumar-gjöf
Sína heilsu og gleði.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Eggert Jóhannsson.* Markerville, Alta, 11. maí 1909.

Góði vin. — Samstundis er hér kominn kunningi minn, skólaráðsmaður frá Hecla Schl. Distr. Einmitt þeim skólanum, sem ég ætlaði að koma Guðm. O. Thorsteinsson að, ef ég gæti. Ef Guðmundur sendir *strax* umsókn til mannsins, sem áritun á umslagi fylgir, er líklegt, að hann fái skólann. Hann verður að ákveða kaup — frá $ 55 til $ 60 um mán. í 6 mán., — *en það má ekkert dragast, að hann sæki.*

Ég er nýbúinn að senda þér bréf um umsókn Thorsteins-sonar um annan skóla. Þó hann hafi sent hana, láttu hann sækja strax um hinn, og *taka* þennan, sem ég skrifa nú um, ef hann fæst. Ég kýs heldur, *hans vegna*, að hann yrði þar.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Magnús Hinriksson.* Markerville, Alta, 12. maí 1909.

Góði vin. — Alúðar-þökk fyrir góðu viðtökurnar í vetur, og kær kveðja til heimilisins þíns og allra vina minna í þinni byggð. Bréfspjaldið og vísurnar með laginu sendi ég þér til mála-mynda, í bréfs-stað, svo þú héldir, að ég myndi þó eftir ykkur, þó ég nennti þá ekki að skrifa öðruvísi. Vortíðin hérna hefir að þessu verið allra-gæða-laus, en ekki stór-ill, framkvæmdalaus og frátefjandi. Það er heldur að hlýna, en með hangandi hendi. Vorsáningunum litlu hérna aðeins lokið á stöku stað, flestir að enn. Við hérna erum búnir, enda var nú ekki um mikið að véla.

Þú hefðir nú átt, Magnús minn, að létta þér upp og fara vestur að hafi á sýninguna í sumar. Það verður svo ógnar-lágt fargjald, framar venju. Svo gætir þú skroppið frá Calgary hingað norður — einar 75 míl. — og heimsótt okkur Jón Sveinsson. Ég færi nú ekki samt hálft eins vel með þig eins og þú með mig, en af því erum báðir bændur, yrði það okkur ekki að vandræðum. Mig langar stundum til að sjá sjóinn aftur, og þó þekkti ég hann svo sem ekkert. En það er eins og mér finnist nú, að í eðli mínu sé þar einhver blóðdropi, sem renni til skyldunnar. Hvernig ert þú? Nú er hávaða öld, og hálf-gaman að, það er þó umrót í kirkjunni hérna og stjórnmálum heima. Auðvitað sér maður ekki á sinni æfi nema aðeins örla á sigri þess, sem maður vill, en það er samt vottur þess, að vonirnar manns eigi framtíð fyrir sér, og það þó afturhaldið verði enn ofan á. Það fer að verða valtara, þegar það er véfengt svona víða.

Sumar-tíð þér sæl og góð
Sé til hags og verka. —
Færi hún þér falleg ljóð,
Fjör og heilsu sterka.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Baldur Sveinsson.* Markerville, Alta, 18. maí 1909.

Góðkunningi. — Þökk fyrir bréfið þitt, sumar-kveðjuna á íslenzkri dala-hlíð á spjaldinu, og annað hlýlegt. Það væri ekki nema ef ég stæði uppi í einhverju sérstöku bráða-fári blaða-væringanna, sem að mér stæði kannske ekki á sama, hvort staka eftir mig kæmi út vikunni fyrr eða seinna. Og viðvíkjandi prentvillum er ég aldrei ugglaus, að ég kunni ekki að hafa fellt úr orð óvart sjálfur, einkum ef ég skrifa upp kunnugt, hugur minn fylgir þá hendinni svo hvikult.

Mér þykir vænt um, að þú ætlar að segja eitthvað um „syrpuna" mína, þegar hún kemst nú á kreik, og ég þakka þér fyrir þann ásetning. Kveðlingar mínir hafa átt lítið erindi upp á pall-borð ýmissa um dagana, eins og von er, þeir þykja hafa sín brek til brunns að bera. Þó hræðist ég ekki harða dóma, sem eitthvert vit er í. En, ég skal segja þér, hvar mér förlast kjarkurinn: Það er við ritdóma eins og þá, sem stundum sjást í þunnildinu, sem liggur innan í „Kringlu", þar sem allt umtalið nær ekki neinni átt til efnisins. En mér datt eitt í hug: Hér er það alsiða, að þeir, sem um nýjar bækur ætla að rita, fá „hlaupa-arkir" — *advance sheets* — af þeim smám saman, og bíða ekki eftir innheftingu né annarri seinustu útgerð, og verða svo til með dóm sinn nærri jafntímis og bókin býðst fyrst. Þetta hefir þann kost, að maður hefir lengri tíma að lesa og hugsa sér, getur áttað sig á allri heimskunni í hægðum sínum, unnið vandaðra verk og sér léttara en ella, og komizt fyrstur í verið og yfir til ónumins lands. Okkar á milli, fyrst þú hefir hugsað þér að gera mér þenna greiða, væri ekki vel, að annar hvor okkar gerði tilraun að fá þessa „fyrirrennara" senda þér?

Stig fyrir stefið er á stutt-línum tveim:
Komstu yfir kvefið, svo í kost-gæði heim!

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerville, Alta, 24. maí 1909.

Góði vin. — Fyrsta ágúst næstkomandi verður að líkindum skóli laus hér í nágrenninu: Pine Hill Schl. Distr. No. 451, hálf íslenzkt-bandaríiskt. Létt verk, fá börn. Tveir Íslendingar í skólaráðinu, einn „Yankee". Senda mætti umsókn til hvors

sem vill þessara: Ó. Sigurðsson, Sólheimar, Alta (Trustee). Chr. Johnson, Sólheimar, Alta (Chairman). Thomas Leppard, Markerville, Alta (Secy-treas).

Stelpurnar, sem þú gazt um, gætu reynt að senda þessum körlum biðilsbréf að fá að verða andlegar barnfóstrur hjá þeim, ef ykkur sýnist svo. Ég held landarnir yrðu þeim hlynntir. Við annan hefi ég talað. Þetta þarf að gerast sem fyrst: Senda umsókn. Nógir bjóðast nú. Líka rita menntamálastjórninni hér. Hún er kröfuhörð nokkuð. Þessi skóli er kannske stuttur. Man það ekki. En annar fengist líklega að honum loknum. Þinn einl. Stephan G. Stephansson.

*Eggert Jóhannsson.* Markerville, Alta, 8. júní 1909.

Eggert minn. — Þá er nú Laurenz kominn heill á húfi, byrjaði að snúa skóla-kvörninni í gær og er nú nýgenginn í vinnuna núna í morgun. Líklega leiðist honum eitthvað, sem von er, hér er allt svo ólíkt því, sem hann er vanastur við, en ekki minnist hann á það. Það er enginn efi á, að hann dugar til kennslunnar, börn eru skammt á skóla-vegi hér, og hann er svo samvizkusamur piltur og vill vanda sig. Auðvitað eru bækur og fyrirkomulag ögn annað hér en í Manitoba í sumu, en það lærist bráðlega. Þú þarft ekkert að óttast um það. Það fer ekki eins vel um hann hér eins og heima, og hann verður ögn sveita-durgslegri við samveruna með okkur, ef til vill, en að hinu leytinu kannske vitund rosknari og ráðnari, þegar þið fáið hann aftur heim. Mannlífið er svona, einhver kostnaður og svo lítill hagur í hina hendina, þegar vel gengur. Já, gaman hefði víst verið að sjá þig hér vestra í góðri tíð, og áreiðanlega þyrftir þú að litast ögn um — bæði land og lýð — áður en þú afréðir burtsókn þaðan, sem þú ert. Ef nokkru yrði til þokað, þyrfti það að vera breyting til bóta og eitthvað víst, áður en öðru væri sleppt.

Nú hefi ég launungar-mál að leggja fyrir þig. Baldur Sveinsson (með-ritstjóri „Lögb.“) er, að ég held, vinur kvæðanna minna, eða hlýtt til þeirra sumra. Svo held ég, að Stefán sé engu síður, undir niðri. Baldur hefir sagt, að hann ætli sér að skrifa um kvæði mín, þegar þau koma út, og hvort sem hann verði þá hér í landi eða heima. Ég þekki hann ekki nema af máli og einu eða tveimur bréfum. Hann er hægur á manninn

og seintekinn. Ég réði honum til að reyna að ná þá í kvæðin jafnóðum og þau eru prentuð. Tvennt finnst mér gott við það: Ritdómari hefir lengri tíma og betri tök á að vanda sig, og hitt, þá kemur dómurinn út jafnfljótt og bók er til sölu, og hún nýtur hans eða geldur strax hjá almenningi, hafi hann áhrif. Utan Íslands er þessi aðferð alsiða. Ég nærri býst heldur við einhverju vingjarnlegu hjá Baldri, og hann þykist nú ætla að skrifa hvort sem er, hefir heitið því á mig og sig. Gætir þú nú eða vildir útvegað honum *syrpuna* eftir hendinni, eins og hún kemur út. Þar að auki ert þú svo kunnugur mér og mínum krökkum, að hann gæti líka haft gott af, hefði hann lag til að leita þess. Mér er alltaf í mun að láta einkis ófreistað, sem mér dettur í hug, að ekki sé óhugsandi, til að skruddan gangi betur út. Mér hálfgremdist, vildi enginn ljá henni hús, meira af því mér fyndist það yrði óvinafagnaður, heldur en ég hugsi svo gróflega um gróðann.

— — —

*Baldur Sveinsson.* Markerville, Alta, 12. júní 1909.

Góðvinur. — Þökk fyrir bréfið, boðið um að senda mér „Ingólf“ og viðtöku vísnanna í blaðið. Ég fæ „Ingólf“ frá Bárdal, en það er oftast seint og síðar meir. Kunningi minn heima hefir samt sent mér hálft blað af honum með grein eftir Sigurð frá Mjóvadal, um „Á ferð og flugi“. Ég sá ekki af henni, að sú grein ætti sér upphaf né framhald í öðru blaði „Ingólfs“. „Heimskr.“ hefir nú prentað upp „Matta“ í „Norðurlandi“, um sjálfan sig og Sveinbjörnsson, Englendinga, Völsunga-drápur, íslenzk skáld lífs og liðin og mig. Fróðlegastur er Matti þó í Bandamanna-sögu, um skáldin og „Unitarana“ hans 8, sem allir voru ríkisforsetar! Emerson, Longfellow, aumingja Poe! Þetta áttu þið eftir.

Ég hefi lagt drög fyrir, að þú gætir fengið „syrpuna“ tímanlega, en hvort það tekst nú, veit ég ekki enn. Veðrið hérna er ljómandi gott núna og ég hlakka til næstu mánaða, því sveitin mín er sérstaklega sumarkveld-fögur. — Gangi þér sem bezt. Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Guttormur J. Guttormsson.* Markerville, Alta, 16. júní 1909.

Góði vinur. — Innilega þökk fyrir síðast og bréf nýlega komið. Ekkert vissi ég um, að þú hefðir aftur lent í þessum trölla-höndum á bölvaðri tauga-biluninni, fyrr en ég sá það í „Kringlu“, og þótti mér hálf-hverft að frétta það. En ég vona, að þér batni. En þú verður að fara laglega með þig, lagsmaður, svo ekki verði illt úr þessu, því annars getur þú ekki neytt þín á Steina, og það væri heldur engin frægð fyrir hann að vinna á þér illa á þig komnum. Þið farið að líkindum sína leið hvor í kveðskapnum, og skáldfrægðinni eru allar leiðir opnar, nema sú: Að elta aðra á röndum. Ég óska ykkur fremdar og framtíðar, fyrst að náttúran var á annað borð svo stjúpmóðurleg við ykkur, að hneigja ykkur að kveðskapnum. Ég hefi aldrei alls kostar verið ánægður með sjálfan mig, en þó er ég nú þeim þakklátur, sem geta gert sér kvæðin mín að einhverju góðu, og líklega er ég aldurs-forseti þess, sem ófyrirleitnast var einu sinni í íslenzkum kveðskap, þess, sem að villzt hefir vestur á bóginn. Huggunin í öllum leirburðinum er nú þetta, að hafa „ærlega reynt að gera sitt bölvaðasta“, eins og við strákar sögðum stundum heima, þegar við unnum dýran eið og drengilegan. Víst væri gaman að fá Gvend frá Sandi vestur, ef þú getur komið því til leiðar, en ekki held ég, að „Matta“ skáldi lítist á það, því honum er síður en svo um, að Gvendur sé jafn-oki sinn í neinu, og við sendum „Matta“ til Chicago, eins og þú kannske manst, sýningarárið góða, þegar hann villtist á járnbrautinni í Minnesota og kom hvergi fram í mannabyggð, og laumaðist frá unitörum yfir í lútherskra-land, sem segir í „Chicagoför minni“. Jæja, Guttormur minn, ég óska þér heilsu til að hreyfa þessu, hversu heilbrigðar sem almennings undirtektir yrðu, eða hvort sem Gvendur kæmist frá konunni svo lengi að heiman eða ekki, að hann gæti sinnt því. Mér er sagt, að hann sé fátækur, svo maður þyrfti að geta boðið honum ögn meira fé en farar-efni í byrjun, svo hann þyrfti ekki að skilja við skildinga-laust bú og forstöðu-laust í heilt ár.

Ég hefi engar fréttir að skrifa, af því ég veit ekki til, að þig eiginlega varði um nokkurn mann hér, en Jónas minn Húnfjörð lætur þig vita í „Heimskr.“ hvernig á sér liggur, því veðurfréttir hans héðan fara oftast eftir því. Það held ég, að

„skruddan“ mín sé nú um að vera hálfprentuð í Rvík, og klekist út undir haustið. Þá verður „ófagur leikur“ í gagnrýninni. Öllu því, sem er skáldkonunglegt í hugsunarhættinum, finnist ekki til um það, ef ég yrði vinsæll, því þykir ég hafa ort í trássi við sig, guð og góða menn. Þú verður nú að lofa mér að vita með línu, hvernig þér líður til heilsunnar. Mér leiðist að gruna þig um að vera í lamasessi. Svo bið ég alúðlega að heilsa konunni þinni og vinum mínum í þinni byggð, öllum. Ég hefi annars hlerað, að för mín þar um í haust hafi ollað hnippingum og hreppa-ríg, enda var ekki við öðru að búast, mér hefir víst ekki verið gefin sú íþrótt að „stofna frið á jörðu“, enda varð honum basl úr þeim búverkum, sem kvaðst vera kominn til að gera það. — Blessaður og sæll og fáðu heill og heilsu.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Eggert Jóhannsson.* Markerville, Alta, 17. júní 1909.

Góði vin. — Bara nokkur orð, því naumt er nú að ná í póst. Bréf frá Skafta í gærkveldi og 14. örk af fyrra bindi. Þau verða aðeins tvö, og hvorki „Á ferð og flugi“ né „Viðbótin“ kemst að. Mín tillaga væri nú sú: Gerum okkur ánægða með það, sem orðið er. — Hvort hefti verður um 20 arkir. „Viðbótin“ yrði um 10 arkir, „Á ferð og flugi“ um 5 í sama broti, og nú á ég enn nýtt, nóg í 2—3. Geymum það ögn. Gefum það út sem þriðja hefti, jafnstórt hinum, síðar — þegar ég er sextugur. — Ein örk á ári, síðan ég settist að í þessum heimi. — Er það ekki fallegt! — Blessaður allténd.

Þinn Stephan G. Stephansson.

*Eggert Jóhannsson.* Markerville, Alta, 5. júlí 1909.

Góði vin. — Nei, Eggert minn, bréf um önnur efni en það, sem að gengur helzt, eru mér engin nauðung. Við þeim þarf ekki að hlífa mér. Geti maður mögulega tekið því, eru andlegar og líkamlegar annir eina bótin, þegar svona gengur. Maður verður gegnum allt að láta sér vera hugleikið um þetta líf, fram í lengstu lög. Ég hefi bent öðrum á það og reynt að fylgja því sjálfur.

Blessaður brostu að viðskiptunum við „Westvard Ho“ og „Telegram“, en láttu þér ekki gremjast, sízt við sjálfan þig.

Ég þakka þér kærlega fyrir velvildina og fyrirhöfnina alla, nú og fyrr. Ég man ekki til, að Englendingar né Ameríkumenn hafi rekizt á gott hjá annarra þjóða mönnum fyrr en Frakkar eða Þjóðverjar höfðu sýnt þeim það. Í bókmenntum eru menn af ensku kyni þröngsýnastir sjálfbirgingar af menntuðu stórþjóðunum. Og dagblöðin hérna, þau hafa flest ekki vit á neinu öðru en því, hvernig því og því verði snúið upp í glamur og gylling fyrir sig og sína. Ef t. d. „Westward Ho“ hefði fengið tvær línur af stirðasta leirburði frá Kipling með nafninu hans undir, hefði það gleiðgosalegað þeim á titilblaðið með miklum kostnaði og sent Kipling svo sem $ 1000 ávísun. Brandes, Björnson, Ibsen, Tolstoy, allir heimsfrægir bókmenntamenn, láta aldrei sjá sig á Englandi. Þeir fara til Frakklands, Þýzkalands, Rússlands, jafnvel Póllands. Þeir vita hvers vegna. Er þá von, að snáðar eins og ég eigi þangað erindi?

Jú, ég ætla að hætta við að selja kvæðin mín hér, ekki af því, að ég kjósi að hlífa mér við því né haldi, að aðrir selji meira, þvert á móti. En t. d. einn sveitungi kom til mín nýlega, bað mig að selja ekki sjálfur. *„Við gömlu mennirnir ættum nú að taka það að okkur“.* Ef ég þægi ekki boð hans, þýddi það óhugnun, hvað sem öðru liði.

Þó þið fáið handritið hjá Margr. B., verður hún að fá að prenta kvæðið í „Freyju“, ef hún vill, fá afskrift eða eitthvað, því ég tek það ekki af henni aftur. — Nýkomið bréf frá Gvendi á Sandi. Hann hefir fengið fyrsta heftið og lætur meira en vel af.

Ég sendi miðann þinn til baka með leiðrétting ofan línu. *Í* hafði fallið úr hjá mér. Fékkstu þann miða? Má ég segja Baldri Sveinssyni, að þú skulir láta hann hafa kvæðin eins fljótt og hægt sé að fá þau? — Blessaður allténd.

Þinn Stephan G. Stephansson.

*Eggert Jóhannsson.* Markerville, Alta, 17. júlí 1909.

Eggert minn góður. — Í gærkveldi laust elding yngsta drenginn minn, Gest, til bana, skammt hérna frá húsinu. Að öðru leyti líður öllum vel. Ég reyni að gegna skyldum mínum við þá, sem lifa, eins fljótt og mér er auðið aftur.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Eggert Jóhannsson.* Markerville, Alta, 23. júlí 1909.

Eggert minn góður. — Laurenz þinn sækir póst okkar í kveld til Markerville og ég afréð að senda með honum viðbótina eins viðlokna og ég get, hún leggur þá héðan til þín á morgun rakleiðis.

Allt er tínt upp, sem til er, nema eitt kvæði í vörzlum „Freyju". Það heitir „Díkónissa", er nærri eins langt og hin öll. Það verðið þið að fá til uppfyllingar. Bæði á ég ekki áreiðanlegt handrit af því og er óhægt um skriftir nú, svo ég verð að biðja þig eða séra Rögnv. að fara til Mrs. Benedictson, færa henni meðlagðan miða, fá handritið hjá henni, það sjálft, prentun eða afskrift, koma því inn í handr., sem ég sendi, þar sem „rófan" með orðinu *athugasemd* er límd inn, og framhalda blaðsíðu-tali á því og blöðunum, sem aftan við það verða svo.

Verði prentað kvæði sent, verður það með stafsetningu „Freyju" og þyrfti að lagast, t. d. upphafs-stafir lína engir eða ofmargir, hvorri reglunni, sem fylgt væri.

Fyrirgefið, að ég get ekki gengið betur frá þessu núna og þarf að ónáða ykkur með þetta.

Geti ég bætt við 4 eða 5 erindum, sem ég hefi nú í huga, sendi ég þau beint til Skafta héðan fljótlega, ef þau næðu í seinustu eyðuna. Annars er ekki víst það verði og gerði ekki, þó það kæmist þá ekki að.

Láttu mig vita strax, hvað vinnst við Mrs. Benedictson — og vertu allténd blessaður.

Þinn Stephan G. Stephansson.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerville, Alta, 27. júlí 1909.

Góði vin. — Hjartans þökk okkar allra til þín og þeirra vina vorra allra, sem annt er um okkur og hlýtt hafa hugsað til okkar núna. Já, Rögnvaldur minn, ég er viss, að ekkert varð af engu og ekkert verður að engu. Ég og allt, sem ég ann, er innan tilverunnar, og hún verður okkur móðir að eilífu, hvað sem breytist, og þó ég missi eitthvað, lifi ég fyrir það, sem eftir er, meðan til vinnst. Ég legg hér með ný-gert kvæði, einungis svo að þið, sem um mig hugsið, sjáið, hvernig ég ber mig. Öðruvísi get ég ekki lýst því betur. Séra Bergmann

sendi ég fáein orð líks efnis, sögð við gröfina. En misskiljið ekki, nú er ég að skrifa vinum — ekki að rita ritstjórum. Þökk fyrir bréfið og böggulinn frá Þorsteini Erlings. Í bögglunum var úrkeðja og næla, frá þeim hjónum til okkar. Þorsteinn skrifar mér veikur í rúminu, en segist ætla að láta sér batna eftir fáa daga.

Mér datt í hug að síma þér, þegar slysið bar að, en árstíðin bannaði alla bið. Séra Pétur sagði sitt bezta og margt vel, því það vill hann fyrir mig gera, þó okkar sam-mál séu fá. Hann er nú leikmaður, en ekki prestur.

Grímur sagði þú mundir koma hér í haust. Velkominn! Og ég vona, að þú og aðrir vinir mínir, þeir sem ég kann enn að hitta, þekki mig enn fyrir sama mann, þó þetta hafi gengið að okkur. — Blessaður og sæll.

Þinn einl. Stephan G. Stephansson.

*Eggert Jóhannsson.* Markerville, Alta, 30. júlí 1909.

Ég þakka þér og öllum Wpg-vinum mínum fyrir hlýjan hug og vorkunnsemina við okkur. Um sjálfan mig er það að segja, mér var það lán núna að hafa stundum fundið til áður, bæði í raun og ímyndun.

Já, ég sendi þér allt, sem ég átti af kvæðum, um síðustu helgi. Þætti gott að vita, hvort það hefir komið fram. Ég vissi varla, hvernig útgerðin á því varð á endanum. Ég sendi Skafta nú í pósti sama kvæðið og ég sendi séra Rögnvaldi, og bið Skafta að setja það síðast í 3. bindið, komi það út. Ég fékk miða frá Þorst. Erlingss., dags. 26. júní. Þá var annað bindið svo að segja fullprentað. Jæja, ég fel þér alveg að sjá um, að Baldur Sveinsson fái skrudduna eins fljótt og auðið er, og hin blöðin eftir sem þér sýnist.

Nei, Laurenz þinn er ekkert fyrir okkur, hann vildi víst allt fyrir okkur gera. Gestur heitinn og hann voru að byrja að kynnast. Mér þótti vænt um. Hélt, að Laurenz yrði það ögn til skemmtunar. Þeir voru á líku reki að aldri til, og Gestur var góður drengur í raun. Heimilið er líkt og það var, ögn daprara. Ég hefi minnzt á það við Laurenz, en hann virðist ekki kæra sig um að breyta um fyrir það. Strax kveldið það, sem slysið bar að, bauð ég honum að fara til Kristins og hafði búið svo um þar, að það var meira en velkomið. Ég hélt Laur-

enz yrði ömurlegt hjá okkur, að minnsta kosti fram yfir jarðarför, og vildi hlífa honum við því. En hann sagðist heldur kjósa að vera. Hann reyndi að hafa af fyrir Jakob mínum það sem hann gat. Jakob þótti víst vænzt um Gest heitinn allra manna. Þeir höfðu sofið og sveitzt saman alla sína æsku. Annars var víst Gestur eftirlætið allra systkina sinna. En sleppum því. Laurenz verður hér meðan hann vill. Kristinn mágur, frændi hans, vill taka hann um tíma. Langt síðan það kom til orða, þó Laurenz vissi það ekki. Ef til vill réttara að þiggja það, einhvern tíma áður en Laurenz fer aftur. En alveg skal hann ráða því.

Ég fékk bréf frá „Dead Letter Office", sem ég skrifaði þér fyrir meira en mánuði, strax sem Skafti sagði mér, hvað hann hafði gert og áður en þú fórst að skrifa mér um það. Ég hélt þú hefðir fengið það fyrir löngu. Ég legg það innan í að gamni mínu. — Með kærri kveðju.

Þinn einl. Stephan G. Stephansson.

*Guttormur J. Guttormsson.* Markerville, Alta, 6. ágúst 1909.

Góði vin. — Fyrirgefðu, hve seint ég svara bréfinu þínu. Það hefir ýmislegt hamlað og dregið úr dugnaðinum. Ég vildi sannarlega, að heilsa þín færi nú batnandi, og sé ekki hví svo mætti ekki vera, jafn ungur og hraustlegur eins og þú ert. Ég held þú bítir þessa bilun af þér.

Ég hefi rétt nýlega fengið fáeinar línur frá Gvendi á Sandi, dags. 3. júlí. Það kveld lýkur hann við að slá túnið, sem er svo vel sprottið, að það flekkjar sig sjálft. Hann segir árgæzku í tíðinni. Ef þú ferð að bagsa við að koma Gvendi vestur, sem væri nú gaman, þá fáðu fyrst í kyrrþey nokkra menn á hverju Íslendinga-bóli hér vestra til að lofa gjöf til fargjalds, og um leið loforð um að mega birta það í blaði. Sendu ávarp og láttu prenta og biddu fólk um fé. Ekki til neins, held ég, að biðja, nema byrjað sé að framkvæma, svo fólk haldi, að úr því verði, hvort sem þeir sjálfir séu með eða ekki. Því viðbót þess, sem verða á, vilja margir helzt vera, og koma skást til á þann hátt.

En eitt er að varast, Guttormur, — yrði annað en umtal úr þessu, — þ. e. að forða Guðmundi frá íslenzkri pólitík hér. Það yrði reynt að siga honum út í hana, af vissum frekju-

flokk hér, þó ekki væri til annars en ná sér niðri á öðrum, sem þeir eiga í höggi við, út af því máli. Það yrði Guðmundi til ógagns og öðrum vinum hans til óánægju. Mér þykir vænt um Guðmund, enda á hann það meira en skilið. En mér dylst ekki hitt, að þrátt fyrir gáfur og góðan vilja hefir hann að þessu verið pólitískur kútbyltingur, yfir á þá hliðina, sem enga viðreisn verðskuldaði, og það vanalega þegar Guðmundi sjálfum gegndi verst. Ég virði honum þetta ekki til hverflyndis, heldur hamingjuleysis, að hrökklast svona um stefnur sínar. En þessu vildi ég vara þig við, og svo er það sagt. Ég bið hjartanlega að heilsa Jónasi og öllum vinum mínum við Grunnavatn, og ekki hefi ég gleymt honum, sem keyrði mig löngu nóttina frá Lundar. Berðu honum kæra kveðju mína. Yrði ég einhvern tíma í Wpg aftur, kæmi ég líklega út til ykkar. — Verið svo blessuð og sæl.

Þinn einl. Stephan G. Stephansson.

*Eggert Jóhannsson.* Markerville, Alta, 8. ágúst 1909.

Eggert minn góður. — Grímur segist hafa ritað þér og vísað þér á Jón Guðmundsson í Calgary sem sölumann. Íslendingar þar eru fáir. Í dag skrifa ég Ásgeiri Helgasyni — Baldvinssonar, Helgasonar — nálægt Edmonton og bið hann. Ég þekki hann frá fyrri tíð. Áreiðanlegur og keppinn, þar sem hann tekur því. Hvort hann fæst er óvíst. Læt þig vita. Á kunningja í Edmonton, en ekki veit ég, hvort þeir „ómökuðu“ sig fyrir okkur. — „Telegram“ hefir ætlað að gera vel, þó svona færi. Ég er búinn að sjá það allt, klippa úr og safna í „syrpu“ mína. Blaðinu hefir þótt kvæðið gott og ætlað að „stássa“ það upp, það sýnir prentunin. Auðvitað er þýðingin ekki orða-þýðing, hún var ómöguleg, en andi frumkvæðisins leikur sér í þýðingunni og það er nú um að gera. Sjálfur hefi ég þýtt kvæði á íslenzku, en oft farið langt frá bókstafnum, hann drepur skáldskap. — Okkur líður eins vel og við má búast. Tíð góð þessa dagana hér, en haglskaðar í nágrenninu fyrir sunnan, nálægt Innisfail.

Beztu kveðjur til allra kunningjanna, og vegni þér og þínum vel.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Eggert Jóhannsson.* Markerville, Alta, 19. ágúst 1909.

Eggert minn góður. — Bréf þitt í gærkveldi. — Nei, nú er ég ruddur af ljóðum. — Gæti heldur engu þess háttar sinnt nú. — Reikninga Skafta, þó þeim beri ekki saman, má láta báða duga eða hvorugan, allt eftir því, hvað hagsýnn maður er í bókagerð og hvað maður ætlar sér að gera og hvort maður vill drýgja efni og eyða í það pappír, án þess þó það stingi um of í stúf við fyrri heftin, né vekji eftirtekt almenns lesara.

Það fyrra, sem ég sendi ykkur, voru kringum 130—135 bls. mínar, hitt segir þú sé 66, samtals um 200 bls. eins og ég skrifa; þær gera um 140—150 bls. prentaðar. „Á ferð og flugi" eru 64 bls. í líku formi, 2 kvæði meira en það og stuttur eftirmáli. Skafti hefir annað óprentað, sem því svarar. Blaðsíðutal er þá komið ögn á þriðja hundrað, sé þetta allt prentað. — Fyrsta hefti af Andvökum eru 309 síður, auk registurs.

1. Getur ekki Skafti fengið, segjum, mynd af Drangey og sett við hana úr kvæðinu Drangey: „Þú sjónarvöllur sögu", eða mynd af Sauðárkrók, og við hana hendingarnar: „Er byrþrota við Krókinn hímdi hópur fleyja, sem hillti upp við sundið milli lands og eyja", úr kvæðinu „Í dag er sumarveður". — Fjórar myndir fylla hálfa örk.
2. Bilið (spacing) milli kvæða-móta má víkka um einnar línu bil, án þess að á beri.
3. Það þyrfti aldrei að byrja kvæði á sömu blaðsíðu og annað endar á, nema örfáar línur sé.
4. Fjögur löng kvæði verða í bindinu: „Á ferð og flugi", „Aftaka óeirðarmannsins", „Flutningurinn í nýja húsið" og „Díkónissa". Ég hefði sett sérstakt smærra háttar titilblað á undan hvoru þeirra, eins og gert er við hvern flokk. Sett eina línu úr hverju kvæði neðan við nafnið á titilblöð þessi, ef svo þætti fara betur, af því vísur voru á hinum. Þetta myndi gera hálft ark.
5. Svo er registur og eftirmáli, ef svo vill verkast. Eftirmáli, aðeins um útgáfuna sjálfa, ekki um kvæðin.

Væri ég heima, mætti reikna og ráða, trúi ég ekki öðru en ég gæti, án þess á bæri, þynnt út mjöðina, svo að úr henni yrði kver svipað hinum. Ekki yrði enskum bókagerðar-mönnum stórt fyrir því. En auðvitað, maður má ekki reikna tunnu-

stærðina, eigi að drýgja mjöðina. Það er: Ekki að sjá í að eyða 2—3 örkum af prentpappír, fyrir samræmis sakir, sem vel var hægt að komast af án, ef stærðin á bókinni mætti vera hvor sem vera vildi.

Því er nú miður, að ég get ekki lagt betra til en þessar bendingar. Auðvitað er ég ykkur jafn þakklátur þó ekkert verði úr þriðja bindinu. Ég var lengi ragur við það, en hefi nú vanizt svo við að hugsa fyrir því, að ég trúi ég kysi það nú loksins heldur, úr því sem ráða er orðið. — Fyrirgefðu flaustrið vinur. Ég er í óða-önn. — Blessaður og sæll.

Þinn Stephan G. Stephansson.

*Eggert Jóhannsson.* Markerville, Alta, 20. ágúst 1909.

Góði vin. — Reyndar skrifaði ég þér í gær. — Í dag datt mér í hug að senda ykkur skruddu, sem ég á, með smá-sögum eftir mig, sem ég kallaði „Ar“. Þetta eru klippingar úr blöðum, einu handritin, sem ég á af því dóti. Mætti ekki nota eitthvað af því til uppfyllingar? Ég sé ekki hví. Þið Skafti, eða hver sem þið kjósið, megið velja úr sem ykkur lízt, allt, sumt eða ekkert, eins og ykkur sýnist. En skrudduna sjálfa þarf ég að fá aftur, að minnsta kosti allt, sem ekki væri prentað upp. Ef eitthvað yrði prentað, mætti skera það upp úr. Ég hefi hvorki tök né tíma að skrifa neitt upp núna, né laga hjá mér. Þetta verður að fara eins og það stendur, og þið takið viljann fyrir verkið.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*P. S.* — Skruddan fer sérstök samferða bréfinu. S. G. S.

*Eggert Jóhannsson.* Markerville, Alta, 22. ágúst 1909.

Góði vin Eggert. — Bréf frá Skafta í gærkveldi, dags. 30. næstl. Hann vantar 150 bls. í 3. bindið. Þá eru mínar 66 (eða 70, með kvæðinu, sem ég sendi honum héðan) ókomnar. Líklega vantar þá um 70 blaðsíður upp á 20 örk. Ég rita honum í dag ágrip af því, sem ég lagði til málsins í bréfi til þín, hvernig teygja mætti úr; að öðrum kosti að fylla út með einhverju úr skruddunni, sem ég sendi þér seinast. Við þetta get ég engu bætt, svo þarna stendur þá sök við súlu með þriðja

heftið, að því er mig snertir. Ég segi Skafta líka, að nú orðið kjósi ég nærri heldur, að allt komi út.

Gott þætti mér að fá að vita sem fyrst, hvað afræðst, svo ég geti svarað spurningu um það. — Bezt kvaddur.

Þinn Stephan G. Stephansson.

*Eggert Jóhannsson.* Markerville, Alta, 29. ágúst 1909.

Góði vin. — Nú hefi ég fengið svar frá Ásgeir Baldvinssyni í Edmonton upp á kvæðasölu þar. Ég legg með þann hluta bréfsins, sem um það fjallar, og áritun hans á umslagi. Svo get ég ekki meira í því.

Ef svo fer, að 3. bindi kemur út og sögu-ruglið verður notað til uppfyllingar, þarf ekki nema eina mynd, eins og hin hafa, og væri það samræmi: „Kirkjuhólinn“ (hafi Skafti náð í hann) eða „Fjallasýn“ héðan. Skafti taldi hana „brúklega“, en ekki tilkomumikla. *Efni* nægði líklega samt, þó ekki væri millifóðrað meira. Hefir þú getað útvegað blöðunum — Baldri Sveinssyni — forhlaups-eintök? Á ég að senda þér þau, sem ég hefi, að láta einhvern fá þau í Winnipeg? Í dag er ég þreyttur og mér hlífinn eftir viku-verk. — Alltend blessaður. Þinn Stephan G. Stephansson.

*Þorsteinn Erlingsson.* Markerville, Alta, 12. sept. 1909.

Kæri Þorsteinn minn. — Sé Guðrún og þú blessuð fyrir sendinguna! Bæði hún og bréfið kom með beztu skilum seint í júlí. Konan mín þakkar innilega fyrir sig, og ég ekki síður — fyrir næluna. Ekki hefi ég sett upp festina enn, en geri það við fyrstu hentugleika, því ég á gullúr og allt að tarna. En ég á ýmislegt smávegis, sem ég tími ekki að bera á mér við kúasmölun og heyskap. Ég er hræddur um, að kussur eða önnur slys slíti það af mér, og þykir það of gott í þann súg. Eitthvað fann ég, eftir minni mínu aðeins, sem ég var að leiðrétta í fyrra bindi og 8 örkunum fyrstu af öðru bindinu af „Andvökum“. En láttu þér ekki detta í hug, að ég saki þig um það, sízt allt, né haldi, að þú breytir mér til skemmda. Sumt er handritinu sjálfsagt að kenna, því þó ég reyndi að vanda mig, flýtti ég mér um of, enda var að mér lagt að flýta mér í byrjun, því prentun átti að vera gerð fyrir löngu, eftir

upphafsáætlun kostnaðarmanna. Svo er hitt, mér er lítið gagn að lesa yfir handrit sjálfs mín af því, sem ég hálf-kann utanbókar, mér sést yfir orða- og stafavillur, einmitt af því ég man efnið svo vel. Sannleikurinn er, Þorsteinn, mér þótti á annan bóginn vænt um, að þú last „prófin", af því ég þóttist vita mig þar í vinar-höndum — en á hina hliðina fannst mér þú ofgóður til að pínast við helvítis „prófarka-lestur". Ég þakka þér kærlega alla fyrirhöfnina, og útgangurinn á „Andvökum" verður þeim varla að miklu meini. Nýkomið „Lögberg" hefir orð á, að hann virðist góður. Þriðja heftið má til að koma út. Í sínu nafni hafa kostnaðarmenn hér lofað kaupendum því bréflega, svo ekki er úr að aka. Eggert Jóhannsson hefir skrifað þér og beðið þig að sjá um það, verði Skafti farinn yfir. Svo bað Eggert mig að skrifa þér líka. Annars er ég nú hálf-tilkvaddur utanveltu ráðgjafi aðeins um þessi útgáfu-mál, en skrifa ekkert á annarra kostnað.

*Versti* gallinn með 3ja bindið er, það verður minna en hin. Nú verður þú að hafa það við mig eins og Kristur við strákinn, sem sagaði borðið of stutt. Þú verður með öllum ráðum að teygja úr borðinu mínu, gera bókina nærri eins þykka og hinar, að því sem hægt er. Til dæmis setja fjögur titilblöð í bókina eins og þau, sem eru framan við flokkana, eitt við hvert þessi lengstu: „Á ferð og flugi", „Aftaka óeirðarmannsins", „Flutningurinn í nýja húsið" og „Díkónissa". *Eina línu eða svo úr hverju kvæði,* hvað sem þú kysir, mætti prenta á þessum smá-titilblöðum í samræmis-skyni, af því vísur standa á hinum. Svo mætti gleiðka ögn bilin milli kvæða-móta, án þess á bæri. Einnig mætti stinga inn 2—3 myndum, hefði maður þær til laglegar og viðeigandi. Svolítill eftirmáli frá kostnaðarmönnum væri ekki úr vegi. Einhverja afsökun þess, að síðasta bindið yrði ögn öðruvísi en hin, þannig, að þar yrði flokkaskipun engin, því öllu verður að raða aðeins eftir aldri kvæða — ártölunum við þau. Þetta er nú allt og sumt, sem ég hefi getað bent þeim á, og líklega hefir Eggert skrifað þér um það. Svo fel ég minn „anda í þínar hendur", Þorsteinn minn góður, — bið kærlega að heilsa Skafta, sé hann enn þarna á ykkar Víkur-vegum. Ég hefi engu við að bæta, það sem ég hefi skrifað honum áður um þetta mál.

Vertu svo blessaður Þorsteinn minn og innileg kveðja mín til Guðrúnar þinnar, með þökk fyrir alla tryggð við okkur,

kvæðin mín, konuna mína og mig. Í bráðina er ég ýmislega hálf-uppgefinn, en sef það senn úr mér, og allt á endanum.
Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Eggert Jóhannsson.* Markerville, Alta, 13. sept. 1909.

Eggert minn góður. — Bréfið þitt fékk ég í fyrrakveld, og letur-bréfið degi áður. Ég þakka þér kærl. alla þá fyrirhöfn. Nú, ég skrifaði Þorsteini í gær eftir ósk þinni, Skafta ekki. Ég sá það ekki til neins, ég var búinn að skrifa honum í seinasta bréfi allt, sem ég hafði í huga um þetta þriðja bindi, og láta hann skilja, að nú æskti ég eftir, að það kæmi út. Þorsteini sagði ég, að það mætti til að komast út — væri bréflega lofað kaupendum hér. Að öðru leyti fól ég honum verkið, aðeins gat um, hvernig ég héldi að teygja mætti úr lopanum, svo bókin þykknaði undir belti. Já, ég er þér samþykkur, að lakara var mér við að hafa ljóð og lesmál saman. En af tvennu illu finnst mér það sé nú svo komið, að það myndi minni frágangssök en hitt, að þriðja bindið strandaði alveg á fáeinum blöðum, sem ekkert væri til í. En svo er bókin betri, ef hún verður ekki botnótt.

Ég varð hissa á Freyju, eins og þú, ekki því, að hún tók þýðinguna, en á hinu, að sjá ekki á efni vísunnar, að hendingu vantaði, af því án hennar var allt hálft versið bullandi og vitlaust, og sá svo hver maður, sem kann að telja, að þarna voru ekki nema 7 hendingar af 8, svo ein hlaut að hafa slæðzt niður, og svo rímleysan, sem af því varð. Annars er kvæðið í blaðinu, sem ég sá af „Freyju", stórklessu-máð, svo að ill-læst er ókunnugum efninu. Hún ætti að prenta allt upp aftur og rétt í næsta blaði. Annars er öll blaða-mennska að verða það fjandans flaustursverk og ísull, að varla er viðvært, nema helzt í tímaritum, og það þykist „Freyja" mín víst vera. Með vandvirkni hefir „Lögberg" reynzt mér bezt í seinni tíð af blöðum vestan hafs. Heima er það skárra, ennþá sem komið er. — Ég kenni í brjóst um þig fyrir alla þessa ógnar fyrirhöfn og skriftir, sem þessi útgáfa veldur þér. Þú pínist nóg með pennann samt, þó það hefði ekki bætzt á. — Vertu svo blessaður og sæll.

Þinn Stephan G. Stephansson.

*Eggert Jóhannsson.* Markerville, Alta, 28. sept. 1909.

Eggert minn góður. — Enn kem ég til að kvabba. Gerðu svo vel að sjá um, að S. G. Thorarensen, Gimli Man., verði send „syrpa“ mín strax og hún kemur, fyrir þessa $ 3.50 póstávísun til Hannesar Péturssonar, sem ég legg hér með.

Hafi blöðin - - „Baldur“ — og „Freyja“ engin eintök fengið, býzt ég við, að þau taki það úrstinnt upp og þykist sett hjá og áliti það ásetning okkar einhverra, þó svo sé ekki. — Blessaður og sæll.

Þinn Stephan G. Stephansson.

*Baldur Sveinsson.* Markerville, Alta, 3. okt. 1909.

Góði vin. — Ég skulda þér afsökun, en hefi ekki náð tökum á að senda hana fyrr. Þegar til kom, komu lausu arkirnar af kvæða-skruddunni minni einhvern veginn svo á afturfótunum til manns, fyrsta örkin kom æfinlega seinast, að ég sá ekki til neins að senda þér það svo úr garði gert. En loks, er allt var þó komið að, og ég var að hugsa um að senda þér það nú í samhengi, þá kom næsta „Lögberg“ með þá frétt, að það hefði fengið alla „syrpuna“, svo að ég hætti við að senda þér nokkuð.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Eggert Jóhannsson.* Markerville, Alta, 24. okt. 1909.

Góði Eggert minn.

1. Nei, ég á ekkert til, sem ég vildi *skemma*, það sem þó er komið, og hvorki *tíma* né *þol* til að byggja upp nýtt né lagfæra gamalt. Um það er ekki að gera í svipinn. Ég er á þönum við heimaverk alla daga, og get ekki nú orðið, unnið á nóttinni við skriftir né hugsanir, ef ég kúg-þreyti mig á daginn.
2. Ég skal reyna við skýringar, ef einhver vill „þefa upp“, eins og þú kemst svo vel að orði, það sem honum finnst helzt sé skýringar-vant.

— — —

Prentvillum þyrfti ég að safna í bindunum, sem komin eru, þær eru þar nokkrar til meins, og kunna að vera mér að kenna (handritinu) sumar. Þær þarf svo að prenta aftan við

síðasta bindi. Ég get leiðrétt orðavillur og hið áríðamesta handrits-laust, eftir minni. Skökk greina-merki á ég ekki við, eða upphafs-stafi of eða van.

Nú með skýringar, hvernig hver einn kann að skilja hugsun mína í mæltu máli get ég ekki elzt við. Sem dæmi hendingin í „Breiðablikum“: „Og sjálfur guð má sig fyrir honum (sannleikanum) lækka“. Það má hver sem vill þýða svo, að ég eigi við hugmyndir manna um guð, sem rangar hafi reynzt. Meira að segja, það er rétt, því það innibindst í því líka. Aftur þeir, sem á engan óraskanleik (absolute) trúa, en skilja svo, að sú hugmynd sé mannaverk, þeir finna, að hendingin grípur yfir það líka, svo ég nenni ekki að vera að skýra *hugsanir* til að „taka úr“ né „auka í“ fyrir mér sjálfum. Aftur á móti, allar *tilbendingar* (allusions) til sögu eða sagna eða viðburða er ég til með að skýra, eins og ég get. Til dæmis við sögukvæðin ætti að vísast til sögunnar og kapítulans í henni, sem varð tilefni kvæðisins, segjum við „Illugadrápu“ yrði sett: Grettis saga, kap. ..., sem við á. Slíkt gæti ég gert, en ill yrði mér þó leitin, öll mín kvæði eru kveðin eftir æsku-sögu-minni mínu, því bækurnar sjálfar hefi ég aldrei átt, en ég gæti kannske gramsað þær upp hjá lestrarfélaginu hérna, og Eddurnar á ég. Bendingar um það, hvað skýra þurfi af nafnorðum manna og hluta, sem stafa af skilningsleysi manna á fornsögum eða háttum manna nú eða fyrr, ólíkum landsvenjum og þess háttar, *er það, sem ég vildi fá,* að „þefað væri uppi“.

Þetta er þá allt um spurningarnar. Ég vil allt gera, sem ég held ég geti. Nóg er ykkar amstur samt, þó ég ekki auki við það með firrum frá mér. Fyrirgefðu, hafi ég ekki getað sagt þetta nógu skilmerkilega. Ég er alveg ærður af hringlanda. Húsfylli af gestum og heilum her frá Finnmörk, því nú stendur þresking yfir hjá mér, í gær og á morgun. En ég vildi svara þér með morgunpóstinum, annars dróst það til miðrar viku, að það kæmist frá Markerville. Menn eru að kvarta um æfisöguleysi með bókunum, fleiri en B. S. í „Lögbergi“, ekki sízt ættartöluleysi. Ég hefi fengið bréf um það.

Ég bjóst við, að stíll fengist ekki hér alveg samkynja, en sé ekki sjónarmun á stærð, aðeins agnar-skil um feitleik; sakar það lítið. Svo er nú ferns konar letur á hinum bókunum. Á bandi, gylling, broti, pappír, má engu muna.

Ég sé ekki önnur ráð en að raða nú kvæðum *eftir aldri* þeirra aðeins. Því kalla ég þennan flokk „Á rúi og strúi“. Það er „allt í graut“, „hrúgum og hræringi“. Ég sé ekki til neins að raða í þessa bók eins og hinar, úr því hver kafli varð ekki fullger í fyrstu. Það er eins og að fara að reyna að prjóna aftan við sjö sokka í einu með tveimur fingrum sínum. Ég ætla að laga þetta allt við næstu útgáfu, hvort sem ég verð viðstaddur eða ekki, og þó hún verði aldrei prentuð.

Byrjið að prenta, hvar og hvenær sem þið viljið. Setjið *tileinkunina* fremst við titilblað, eins og á hinum, og með líku skáletri. Takið frá gamla sögukvæðið, „Hirðskáldið“ minnir mig það héti, sem umtalið varð um milli okkar, sem ég kvað um, en eftir varð hjá Skafta, prentið það með flassaletri sem *formála,* eins og „Bragamál“ og „Boðnarleiði“ í hinum. Þar næst minna háttar *titilblað* með 8. flokki, orðunum: *Á rúi og strúi,* og *vísunni,* eins og fyrir hinum flokkunum. Rekið svo kvæðin út eftir ára-röð, nema ef þið viljið hafa smátt titilblað framan við 4 þau lengstu, þar sem þau koma inn, til að fylla út „formið“. Þau eru þessi: *Á ferð og flugi, Aftaka óeirðarmannsins, Flutningurinn í nýja húsið* og *Díkónissa.* — Nú má ég til með að kveðja og fara að smala kúnum. — Með vinsemd.

Þinn einl. Stephan G. Stephansson.

*Jónas Hall.* Markerville, Alta, 27. nóv. 1909.

Jónas minn góður. — Tvö bréf áttu hjá mér, annað kom í gærkveldi. Mér þótti vænt um, en þó ætlaði ég að draga þig á borgun fyrra bréfsins ögn lengur. Eins og vant er, hefi varla bréf-frið fyrir amstrinu við að þurfa að éta, sofa og vinna. Nú er Kobbi minn einn eftir heima, en all-mikið að gera. — Í gær skrifaði ég Jonna, það var kapítuli úr uppreistarsögu Alberta-safnaðar, heldur en ekkert. Annað ekki fréttnæmt fyrir hendi. Ég bað Jonna að sýna þér sögu-brot það; þið þekkið ögn hér til og hafið kannske gaman af að koma inn á fund, þó að ég geti ekki enn tekið ykkur á talsíma-fund með „Markerville upp og niður lestinni“.

Ekki held ég, að Kristinn akist úr hjassa-stæðum í vetur. Þeir eru 3 piltar á bænum, en alveg á kafi í gripa-hirðingu. En í vor kæmist hann, ef hann vildi. Hingað kom Geirhjörtur,

granni minn gamli, fyrir skemmstu. Var hér ögn, er sem stendur í Edmonton, kemur aftur bráðum. Ég bauð honum, ef hann vildi, að vera hjá mér svo sem mánuð og hvíla sig, eða lengur, ef honum lægi lítið á, mig grunar, að karl hafi þotið úr einhverjum klípum, þó ég hvorki viti það né langi til að inna hann eftir því. Hjörtur gamli lézt mundi þiggja þetta, og er hálfgert von á honum. Þú manst eftir Jónasi gamla Stefánssyni á Gimli, „kirkjuþingsmeðlim“ okkar, sællar tíðar, karlinum, sem fór að „skjanna upp á fyrir mér“ fyrir ætt mína, þegar þú og ég komum inn á „hótel“ í Wpg forðum. Dóttir hans er nú kennari hér á skólanum í vetur og heldur hér til. Reyndar kom ég henni hér að, fyrir tilmæli kunningja míns. Annars kvað hún vera heldur greind telpa. Bókin seldist hér ágætlega, um 50 eintök. Auðvitað keypti ég og mitt fólk 6 af þeim, en svo eru íslenzk heimili alls hér kringum 50, og sum keyptu ekkert. Safnaðar-afskipta minna hér, veit ég, að bókin galt í tveimur stöðum. En mér þykir nú slíkt smáræði ekki illt — bara broslegt. Úr Argyle hefi ég frétt af hendingu, að Árni Sveinsson hefði selt 37 og ætlaði að gera betur. Það var gott, því okkar á milli, Argyle var ekki mjög vistleg að sjá fyrir vantrúar-ljóða bók, þegar ég kom þar fyrst í vetur. Auðvitað sýndist mér hún liðkast við lengri viðkynning. Ég veit eitt, skruddan fær hér máls-verða sölu, eftir því sem íslenzkar bækur gera, auðvitað af því, hvernig að er unnið. En ekki er von, að allt seljist. Séra Björn biður nú guð sinn, með Byron, um „bara þrjá“. En við þurfum 2000. Á Íslendingadag í sumar rakst hingað til mín Norðmaður frá Minnesota, kaupmaður Lunde, úr bæ skammt frá St. Paul. Hann kom úr Seattle sýnis-ferð sinni, en átti erindi um Alberta. Af því leið sín hefði legið svo nærri, kvaðst hann hafa orðið að heimsækja mig, og ekki geta hjá því sneitt, af því ég væri íslenzkt skáld, því það kvaðst hann hafa séð í norsku blaði, sem hann nefndi, og lesið þýðingu þar af kvæði eftir mig, en skáldskapurinn norræni væri yndi sitt og eftirlæti, þegar annir leyfðu, og móður sinni væri það að þakka, því í Vesturheimi hefði hann sjálfur alizt upp, en hún hefði verið gáfu-kona. Hann minnti, að það, sem hann las um mig eða eftir, hefði verið ritað eða þýtt af Thorgrímsen. Ég stakk upp á H. B. (séra Hansi), hann hélt sig ranka við því. Einu sinni datt mér í hug að skrifa Thorgrímsen, en nú getur þú einhvern tíma fært honum

kveðju mína og þökk fyrir „skrifið“, sé það eftir hann. — Skrítið bréf fékk ég frá karli einum í Minneapolis eða St. Paul — Ameríkumanni. Hann kvaðst með margra ára elju og mikilli fjáreyðslu safna bókum eftir aðeins beztu höfunda heimsins, hverrar þjóðar sem væri. Öll önnur bókasöfn veraldar væru handaskömm, því þau tækju líka allt rusl. Ekki kvaðst hann gera þetta í gróða-skyni, því áður lyki skyldi alþýða fá aðgang að dýrgripa-safni sínu. Nú sagði hann, að ég stæði einn af „heimsins stóru“ á framtíðar-bókaskrá sinni, og nýja bókin mín væri „útvalin“. En vildi ég gera svo vel að „autographa“ hana fyrir sig með fáum línum úr bókinni sjálfri, eða hvað sem mér kæmi í hug. Flestir heimsins frægu höfundar gerðu sér þann greiða nú orðið alveg orðalaust, en hefðu verið tregir fyrst. Bækurnar keypti hann sjálfur og sendi mér til áskriftar kostnaðarlaust. Ég svaraði karli, sagðist skyldi klóra eitthvað á kverin, væri honum þægð í, en í safninu hans ætti ég að líkindum ekki sæti. Svo veit ég ekki meira um það. Hermannsson við Fiske-safnið í Íþöku skrifaði mér líka um æfisögu atriði mín fyrir íslenzka höfunda-skrá, sem hann ætlar að semja á ensku. Mig vantaði allan „lærdóm“ og „embætti“, sem um var spurt.

Það er engin von, að Mountain kaupi það, sem gæti verið „köttur í sekknum“ um hana sjálfa. Hún heldur náttúrlega, að allt, sem Eiríkur minn heitinn orti, en ég og aðrir „innblésum“ og endurskoðuðum, henni til ergelsis, muni vera þar svart á hvítu. Nei, nei, ekki enn. En mér er sagt, að sú syrpa sé til í handriti á landsbókasafninu í Reykjavík, hvernig í horngrýti sem það hefir við borið. Jæja, Jónas minn, kannske að þessi Mountain-svik komi upp um síðir, eins og önnur — en þá verðum við „sælir hjá Máríu okkar“, eins og Jón gamli Krukk. Ég bið kærlega að heilsa Sigríði þinni, Kristjáni (K. N.) okkar og Munda og Rönku á Garðar, yfir höfuð öllum vorum vinum. — Með beztu óskum í bæinn þinn.

Stephan G. Stephansson.

*Eggert Jóhannsson.* Markerville, Alta, 28. nóv. 1909.

Eggert minn góður. — Í gærkveldi fékk ég bréf frá þér. Þökk. Sjálfur hlífðist ég við að skrifa þér. Grunaði, að þú myndir hafa meira en nógar skriftir, alls og alls. Ég er hjart-

ans ánægður með ráðstöfun 3ja bindis. Í bókinni sjálfri er ekki til neins að afsaka dráttinn. Ef einhver fer að skrattast um það í blöðunum, má svara og segja, hvað olli: Þessi þrefalda þúsunda-mílna fjarlægð milli allra „höfuðpaura", sem að þessu unnu. Gott er að sleppa við skýringar, mér er svo þrælslega við þær og ófáanlegur til að skýra annað en við hvaða sögustaði ég ætti, eða hvaða æfintýri hefði fyrir mér vakað. Maður gerir ljóð að lakasta „prósa" með flestum lesmáls-skýringum. Lofum lesaranum að skilja og misskilja: „Hreina íslenzk hefð er frá hálfri vísu deyja". Einn les svo, að íslenzk ljóð séu svo mikilsverð, að það sé upphefð í að yrkja fram í rauðan dauðann, deyja loks frá hálfkveðinni vísu. Annar skilur hinn veginn, að það sé komin íslenzk hefð á það (séu íslenzk skáldaforlög) að deyja frá öllu hálfgerðu. En hugsunin er gripin úr sögnunum íslenzku um skáldin þau öll, sem þjóðtrúin lætur deyja með hálfkveðna vísu á vörunum: Þormóð, Hallgr. Péturss. o. fl. Reglulegur skáldskapur er ekki einskorðun, hann er krafturinn, sem vekur „þúsund þanka", eða ætti að geta, því er svo bágt að binda með skýringar-grein. Ég segi ekki hér með, að þetta eigi víða við um mín kvæði.

Þegar ég kemst höndum undir, skal ég tína saman helztu prentvillur og senda Steina. Já, æfisögu-sóttin er býsna almenn, en mína æfisögu, allt sem fólk varðar um, sé það nokkuð, má lesa í kvæðunum sjálfum. — Þetta, sem Laurenz var hjá okkur, máttu ekki láta þér illa falla, góður minn. Við gerðum það okkur sjálfum til gamans, ekki af vorkunnsemi. Í bréfi til Gríms sá ég, að þú varst aumur yfir fyrirhöfn og óhugnaði, sem af þessum kennslumálum hér hefði stafað. Þú mátt trúa mér til þess, fyrst var það aldrei nema smámunir, og það allt firrur úr fólkinu og „inspector", sem það „át ofan í sig" áður lauk. Laurenz fékk að lokum góðan vitnisburð, bæði hjá því og honum.

Heyrðu, meðan ég man: Hefir þú sent mér til baka „úrklippubókina", sem ég sendi þér í sumar? Sé svo, hefir hún týnzt í pósti, en ég vona, að svo sé ekki. Ég bara spyr, af því þú gerðir eitt sinn ráð fyrir í bréfi að senda hana fljótlega. En ekkert liggur mér á henni. — Beztu kveðjur til þín og allra þinna.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Þorsteinn Erlingsson.* Markerville, Alta, 4. des. 1909.

Þorsteinn minn góður. — Mér er sagt, að handritið mitt mjögsiglandi muni nú vera í þinni vörzlu, og þú sért nú beðinn að hreiðra það í höfninni við Gutenberg. Ég á því að senda þér fáeinar leiðréttingar, sem ég hefi gert við nokkur orð í I. og II., og þær legg ég hér með. Þú ræður alveg, hvort þú vilt breyta laginu á þeim. Ég hugsaði um það eitt: Að hafa þær sem smæstar fyrirferðar, svo þær lýttu sem minnst. Upphafs-stöfum nokkrum, ofauknum og úrfelldum, hefi ég alveg sleppt. Eins því, að z og s og rl og ll hafa stundum setzt niður á mis í sama orðið hjá mér. Líka það, að ég ætlaði hvergi að rita c né w, þó í ensku-slettu væri, nema ef málsgreinin öll var ensk. En út af því hefi ég líka brugðið í einum eða tveimur stöðum. Um þetta allt skrifaði ég nákvæmlega þeim mönnum í Winnipeg, sem fóru yfir handrit mitt. En það hefir gleymzt. Ég er óvanur ritstörfum, átti að flýta mér og var löngum lasinn og þreyttur við pennann, svo sumt hefir orðið verra en ég reyndar veit. Samt er ég ekki neitt samvizkumórauður yfir þessum smástafa-syndum. Fræðimenn um þess konar þurfa að hafa eitthvað, stafsetningar-syndurum til viðvörunar. Svo þakka ég þér kærlega alla fyrirhöfn á mér, og þú verður að fyrirgefa, það sem ég bjó þér illa í hendur. — Heilsaðu Guðrúnu kærlega frá okkur.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Guttormur J. Guttormsson.* Markerville, Alta, 10. des. 1909.

Góði vin. — Það hefir dregizt fyrir mér að svara fyrir mig. Ég á svo annríkt í fjósum, því sólarleysið er nú sem hæst og frostin köld, svo það hélar jafnvel tilvonandi skegg á ungu piltunum. Annars eru engar fréttir, sem þig getur varðað um, nema ef þú vildir vita það, að hjá mér er til húsa ein af sveitarsystrum þínum að fornu fari, Jónasína Stefánsson. Maður á ekki að segja eftir sér né öðrum, illt getur af því hafzt, og ég bið þig fyrir það, en ég kom inn í herbergið hennar hér um daginn og sá, að þar hékk á þili afklippa úr „Baldri". Kvæðið þitt um Nýja-Ísland. Ég er ánægður með „Austfirðing" fyrir mitt og þitt leyti. Helzti galli hans finnst mér, að hann sé of-hlaðinn hugsunum sums staðar, en það þykir mér

þó fremur lánsmerki á ungum höfundum, því flestir eiga fyrir sér að þynnast í roðinu, og hafi maður verið veigalítill um þrítugt, verður lítið frálag á manni sjötugum.

Snurða rann á þriðja kapítulann minn hjá þeim, sem tefur, svo hann kemur varla út fyrr en í marz. Eins og á stóð, varð ekki við því gert, og allt stendur jafn-rétt, því engin brögð eru í tafli. Þetta eru nú samt ekki almenn tíðindi enn. Skánar þér nokkuð? — Gleðilegar hátíðir þér og þinni byggð.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Magnús Hinriksson.* 13. des. 1909.

Helgin skyldi — hefði ég mátt —
Hlýtt um ykkur skína,
Því ég hefi hjá ykkur átt
Æfi-hátíð mína.

Stephan G. Stephansson.

*Baldur Sveinsson.* Markerville, Alta, 28. des. 1909.

Góði vin. — Þökk fyrir greinina þína alla um „Andvökur". Hún verður eflaust einhverjum til uppörvunar af öllum þessum sæg, sem segir sig skorta bæði höfuð og hjarta til að lesa kvæðin mín. Greinin er vingjarnleg, öfgalaus og misskilnings — nema ef vera vildi þessi fáu orð um trú mína, að hún sé „óljós". Það nær ekki til niðurstöðu, því hver kristinn maður sér, að ég er heiðingi og *aþeisti*. En svo er ég nú ekki að setja út á þetta, af því mér þætti það svo miklu máli skipta. Það gerði víst engan óleik, þó leikslokin drægjust — var ef til vill betra: Lesendur voru minntir þar aftur og óvörum á það, sem þeim var gjarnsamlega gleymt. Jæja, ég kann þér þökk mína, óska þér auðnu og ársælda, lengur en allar hátíðir kunna að endast.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Jónas Hall.* Markerville, Alta, 7. jan. 1910.

Jónas minn góður. — Bréfið þitt fékk ég, og þökk fyrir. Ekki held ég, að Kristinn né Lauga komi, hvað sem um aðra verður. Sem stendur hefir Kristinn aðra ferðaflugu í umtali, sem sé vesturför til Prince Rupert, endastöð „Grand Trunk"

við vesturhafið. Þar býr nú Þorsteinn Davíðsson, sáluhjálparhertogi sem var. Hann var nágranni Kristins hér. Annars er allt þetta ferðatal tómt rabb enn, nema það, að ef ég ræð við allar mínar kringumstæður, vil ég, að Helga skreppi suður til ykkar.

Vel ganga að vísu útflutningarnir úr kirkjufélaginu, og alltaf hallar deilunni meira og meira á gömlu kristnina. Sjálfur „Kaífas" þessa árs hefir ekki einu sinni talið til 12 miljóna, án þess helmingi sé logið að minnsta kosti, og það hvernig sem því er velt. Reyndar er maður leiður á öllu þessu ódrengilega mishermi, sem ekki er annað en gamla vörnin þeirra, sú: Með öllum brögðum að gera andstæðinga sína ærulausa lygara í grun fólksins.

Það gengur annars sama á alls staðar milli okkar Íslendinga, heima og hér: Barátta milli framkeppninnar og sjálftreystandi æsku annars vegar, en hinum megin valdasjúk og gamal-ær herrastétt, sem aldar-andi okkar hefir verið að grafa undan í nærri hálfan mannsaldur, unz nú lendir saman til úrslita. Nú ætti séra Hans að segja sig úr kirkjufélaginu, sem sé nota þá sanngirnis ástæðu: Að úr því söfnuður sinn hafi sýnt sér þann drengskap, að leyfa sér að standa í því félagi, sem meiri hluti hans vildi ekki eiga saman við að sælda, þá geti hann nú ekki heldur, drenglyndis síns vegna, haldið lengur í þá árangurslausu stefnu, að hanga í kirkjufélaginu að nafninu einu til. Þetta yrði honum til virðinga meðal velhugsandi manna, því hitt er ómynd.

Nú hefi ég sannar sögur af ársfundi safnaðarins hér. Hann var langa-vitleysa. Fimm sögðu sig úr, kirkjufélagsmenn nema einn. Engin úrsögn tekin gild, þeim frestað óákveðið, Kosinn í safnaðarnefndina sjálfa sá, sem þrisvar hafði sagt sig úr, bæði munnlega og skriflega, og seinast á þessum fundi — og hann tók kosningu. Talað um, að þrátt fyrir allt myndi kirkjufélagið láta þá fá prest, ef þeir bæðu. Sögðust þó hafa sagt sig úr, af því þeir vildu losna við kirkjufélagið, en eiginlega væri sér sama um skoðanir séra Jóns eða séra Friðriks. Einhverjir sögðu ráðlegra að semja við prestinn, sem væri, um einhverja andlega huggun, heldur en að bæta öðrum ofan á. Ekkert var ákveðið. Heyrt hefi ég eftir séra Pétri, að hann hafi þvertekið um, að við sig yrði samið, nema sem kirkjufélags-prest við kirkjufélags-söfnuð, þegar honum var

sögð fundarsagan, því hann kom þar hvergi nærri. Annars er ómögulegt að vita, hvað verður. Kirkjufélags trúboðskapur er búinn að gera fólk hér alveg að andlegum grútarstamp, sem hvorki á höfuð né hala. Safnaðarlíf hér er aðeins hnotabit milli vissra umkeppenda, hver mestu eigi að ráða í félagsskapnum og sitja næst prestshjónunum, hvort sem þau eru samsinnendur Friðriks eða séra Jóns eftir-ætur. Prestsþjónustan hérna hefir orðið að reglulegri mannskemmd, og svo mun víðar vera, nema þar sem vantrúarmenn hafa hamlað móti frá upphafi. — Tíðin er blíða og bærileg líðan allra. Ekkert veit ég, hvernig „Andvökur“ seljast yfirleitt. Ég sé af blöðum að heiman, að kostnaðarmenn eru um 20 talsins. Ég vissi um 6 eða 7. Ert þú einn? Við þetta rugl læt ég nú sitja í þetta sinn og bið kærlega að heilsa á heimilið og í héraðið.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*P. S.* — Vel á minnzt. Ég hefi nýfrétt, að Jóseph Walters sé útleigður frá Garðar, á förum til Winnipeg í vor. Þar missir Garðar-Lúther mikinn bakhjarl. S. G. S.

*Baldur Sveinsson.* Markerville, Alta, 8. jan. 1910.

Góði vin. — Bréfið þakka ég þér, fyrst og fremst, og vildi, að þér mætti ætíð vel vegna, þetta ár og öll þau, sem í vændum eru. Ég skildi það vel, að grein þín var fremur eins konar velvirðing á kvæðunum en ritdómur um þau, og að mér var það ekki síztur greiði, að til þess væri tekið, sem ég kynni að hafa kveðið léttlyndislegast. Það var búið að drepa því svo vel inn í almennings-hlustirnar, að ég væri tómt torf og kaldlyndi, að menn höfðu á reiðum höndum ástæðuna, sem afsakaði það, að kaupa sér ekki „köttinn í sekknum“ í „Andvökum“, eins dýrar og þær urðu líka. Um það var ekkert að sakast, af því það var eðlilegt. Kvæði mín voru óvinsæl í æsku fyrir uppivöðslu, og þarna var handhægt vopn á þau, en svo heiðarlegt þó, að blindni var að beita því ekki, fyrst þeir vildu gera mig grályndan. Þú, og séra Friðrik nú, hafa borið þetta til baka, og ég á von á, að fleiri taki í þann streng, þó lengi geti lifað í þeim kreddu-kolum, sem vel hefir verið blásið að; menn sakna reyksins, sem úr þeim rauk, þó aldrei sé annað.

Það er rangfærsla, ég held móti vitandi viti þess, sem les grein séra Friðriks, að hann hafi gert mig að trúarskáldi. Auðvitað veit hann, okkar á milli, hve vantrúaður ég er, að ég held. Allir kunnugir mér renna réttum grun í það. Ég ota því ekki fram upp úr þurru, né svífst að segja eins og er, þegar það ber á góma, sem oft hefir orðið. Auðvitað, séra Fr. sagði ekki berum orðum, að ég væri guðleysingi og glötunarsonur, en til að sýna, hvernig ég væri þar, las hann upp önnur eins kvæði eftir mig eins og „Vantrúin“ og „Kirkjuvígsla“ og sagði menn réðu, hvað menn vildu kalla það: Trú eða vantrú. Og satt að segja, ég hefi trú á lífinu, mönnunum — en guð og himnaríki finnst mér fátt um. Í fám orðum, ég held við þetta: Lífið er eilíft, eins langt og séð verður, var til verður til. Það er alls um vert, að um það fari sem bezt. Það, sem einstaklingurinn á sameiginlegt með lifandi manna lífi, lifir þótt hann deyi. Þegar þess arna kennir í kvæðunum mínum, er það ekki af því, að ég telji mig „trúboða“ vantrúarinnar, heldur hitt: Hefði ég nokkurs mátt mín, hefði ég freistað að flýta fyrir degi, þegar það yrði lengur engum unnt að falsa vigt manngildisins á villu-vog guðfræðinnar. Svo hefi ég sagt þér eins og er, Baldur minn!

Ég hefi stundum ætlað í gamni að geta þess: Móðir þín og föðursystir mín og tengdamóðir voru kunningjar. Við eigum enn gamla mynd af mömmu þinni, sem flækzt hefir með ætt okkar utan af Íslandi. Og heyrðu, átt þú bróður í Reykjavík, sem heitir Þórður? Einhver, sem skrifar hálf-líkt þér og kallar sig Þórð Sveinsson jnr (líklega yngri, við Vestmenn skammstöfum það „jr“ bara), hefir tvívegis verið svo hugull að senda mér blöð að heiman, með greinum í um mig. Fyrst „Ingólf“ — grein Sigurðar Guðmundssonar (sem strákar kölluðu „Sigurð gráa“ á skóla-árunum) og nú „Þjóðólf“ — með grein (ég held) Hannesar um „Andvökur“. Mér þótti vænt um þetta, og hefi sömu tilfinning eins og landinn nýkomni, sem enginn vildi gefa vinnu, því hann var ekki útgengilegur, unz einhver Ameríkumaður, sem enginn þekkti deili á, bauð honum vinnu að fyrra bragði. Landinn varð svo hrifinn, að hann bað íslenzku túlkana sína að spyrja hann „hverra manna hann væri“, fyrst hann væri svona almennilegur við sig! — Vel sé þér fyrir góða viðkynningu, Baldur, og vertu nú sæll.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Eggert Jóhannsson.* Markerville, Alta, 9. jan. 1910.

Góði Eggert minn. — Hann Kristján Ásgeir „Kringluræfill" er nýbúinn að gera okkur og sér ógreiða með bulli um „Andvökur" í blaðinu sínu. Ég á nú ekki við, hvað hann segir um efnið í þeim, það er nógu mikið hól um mig, þó það sé sagt mest út í bláinn af öllu, sem mín hefir minnzt, hvergi neitt sýnt né sannað. En annað verra er, að hafi hann nokkur áhrif, þá ætlar hann (eða klaufar því svo óvart), að þeir fái einhverja minnkun af, sem að útgerð „Andvakna" unnu og hinir líka, sem tóku vingjarnlega við þeim í orði kveðnu. Hans listafræði eina og æðsta boðorð er: Skammir eru beztar. Hann fellir víst fleira undir þá reglu. Bölvunargreiðinn í greininni er þetta, hver sem les hana, en veit enga mála-vöxtu, hann heldur, að annað hvort séu ritstjórar „Lögbergs" og „Breiðablika" kostnaðarmenn kvæðanna, eða þeir unnið fyrir borgun frá ykkur. Greinin segir ég hafi *„selt eða gefið útgáfurétt"* og svo að verið sé að *„guma og skjalla í eigingjörnum tilgangi"*. Ég veit vel, að maðurinn kannske meinar annað en þetta. Það er mark á öllum skriffinnum, að þeir segja æfinlega annað en það, sem þeir ætluðust til. En niðurstaðan verður söm hjá ókunnugum, sem mark taka á því, að þessi maður viti þarna, verandi í Winnipeg, að ritdómarnir séu á einhvern hátt auglýsinga-skrum kostnaðarmanna. Væri nú ekki betra, úr því „Heimskringla" fór að flagga með svona getsök, að þú eða þið auglýstuð aftur í henni, að allt, sem þessi ritdómur kunni að gefa í skyn um eigingjarna samninga við höfundinn, og eigingjarna ritdóma, sé rugl og bull, svo langt sem til ykkar kostnaðarmanna nær — sé bara blaður úr manni, sem ekkert þekki til. Mér finnst, að eitthvað í þá átt hefði þurft, til að girða fyrir ranghermi, og nöfnin ykkar einhverra undir myndi tekin trúanlegri en Kristjáns, all-víða.

Fyrirgefðu, að ég er að ónáða þig með þessu. Fyrir 10 árum innhýsti „Þjóðólfur" líka grein í anda, en betri að búningi en Ásgeirs-greinin útaf mér nú. Aðal innihald hennar var sama sinnið og Benediktssonar nú, að reyna að gera þeim mein, sem eitthvað höfðu að mér hlynnt. Hvað mér finnst sú aðferð vera heimsk eða níðingsleg. Nú er „Þjóðólfur" nýlega búinn að eyða miklu rúmi um „Andvökur" (þó Ásgeir hafi ekkert

séð). Þar er reynt að gera grein fyrir mér af góðum hug og vinir mínir látnir vera. Ég hefi alltaf búizt við skömmum frá Hafsteins-blöðum, trúmála-gögnum, Dana-dúsum og öllum andlegum trúðleika tildrum hér heima. Við sjáum hvað setur. — Kært kvaddur.

Stephan G. Stephansson.

*Jónas Hall.* Markerville, Alta, 26. jan. 1910.

Jónas minn góður. — Það eru nú ekki nema 3 bréf, sem þú átt að mér og óþökkuð. Ég held þú sért að safna glóðum elds að höfði mér, af því ég hefi æfinlega lafað á þeirri litlu ærutaug, að þykja sæmilega áreiðanlegur maður í bréfaviðskiptum, en nú ert þú langt kominn að hafa af mér „mannorðið" það líka. Í alvöru, þakka þér kærlega fréttirnar. Ég hefi gaman að frétta á undan blöðunum. Víst gengur vaggan vel ennþá. En nú er um að gera, að þeir úrgengnu geti þraukað prestlausir og ekkert sé borgað né þáð af hinna hendi, en á það treysta þeir, að fólk bresti þolinmæði, en kirkjufélagið hafi okurhald á öllum prestamarkaði og geti boðið birginn. Í þessari andlegu útsveltu (boycott) mega þeir ekki vinna, þá væri til einskis unnið. Afskiptaleysið á Mountain var víst það hyggilegasta, sigurvonin var svo lítil, með afskiptalausan heimaprest, sem situr karlvega yfir brennandi bókstafskenningunni, þó hann sjálfur trúi henni, og kemur niður á annan hvorn fótinn, hvorn veg sem allt hrynur, eins og sjálfsagt er orðið hyggilegast fyrir hans krafta. Afskipti þeirra með ósigri væri óleikur, afskiptalaus sigur stórgagn, og ósigur má fegra með að hafa látið allt hlutlaust. Heyrðu, hafið þið Garðar-menn engan strák á því skólareki og fáanlegan, að hann gæti gengið á prestaskólann heima? Ef svo væri, ættuð þið að dubba hann upp og senda heim með biskupi í sumar, ef hann kemur. Hér var haldinn safnaðarfundur nýlega, ég held ársfundur. Ég var þar ekki nærri og hefi ekkert nema skotspóna-fréttir, enda gat ekkert markvert verið uppi. Heyrt hefi ég samt, að nú séu aðeins orðnir um 40 í söfnuði. Ásmundur Kristjánsson, pósturinn hér, sagði sig úr söfnuði eftir fundinn í sumar, sem Kristinn var á, og bréflega á fundinum, sem ég var á í haust. Hann er ágengastur maður hér í viðskiptum, að sagt er, og traustur kirkjufélagsmaður. Nú kvað hann

hafa beðizt eftir upptöku aftur. Kristján okkar Jónsson sagði sig líka úr nú, en ekki hefi ég frétt, hvort það hreif. Þeir höfðu einhverjir verið að telja honum hughvarf. Það má meir en vera, að honum hafi gengizt hugur við eftirsjá gömlu samsöfnunga sína. Ég var alltaf að búast við, að innan skamms verði einhver þessi ungi kirkjufél. sendill smyglaður hingað inn til reynslu, og í læmingi. Að því voru þeir Ásmundur og Kristján að vinna, að minnsta kosti með sjálfum sér. En séra Pétur er ofurlítill þröskuldur. Hann situr brauðlaus í brauðinu, en vill vera prestur. Ég er óviss, að hann yrði þægur safnaðarmeðlimur neins þessara yngri — honum þætti þeir kannske „busar“ hjá sér. Það nærri þyrfti að færa Pétur úr vegi, til að tefla hróknum fram, en Pétur er búfastur og landfastur. Það verður annars gaman að sjá, hvað setur. Jæja, Jónas minn, mér er þetta hugleikið, af því ég held, að kirkjufélagsuppbrotið sé nauðsyn. Fólkið verður meira og meira vitsmunaleg og siðferðisleg óhræsi, eftir því sem þetta gengur lengur, að sýnast og samþykkja móti betri vitund og vilja, að trúa á stofnun en ekki stefnur. Nýja guðfræðin er ekki mín niðurstaða, en hún er vagn á vegi í hennar átt. Hún er umburðarlynd, eðlilega, þangað til hún nær allri yfirhönd og á í engri vök að verjast. Almennt viðtekin og einvöld verður hún seinna eins herraleg eins og hinar stefnurnar — eins og hún hefir þá vald til. Mér þykir hálf vænt um eitt: Það má glöggt rekja það í þessari deilu, að hvar sem áhrif eldri Íslendinganna í Norður-Dakota, trúaðra og trúlausra, ná til fólksins í byggðunum, þar bíður kirkjufél.-stefna lægra hlut. Eftir mannsaldur erum við loksins að vinna svig á afturförinni. Það er huggun á efri árum, þó smátt sé nú skammtað og bágt sé að þurfa enn að berjast svona fyrir því — maður á þó á meðan alltaf einhver ítök í lífinu, hversu sem allt gengur.

Tíð er hér einmuna góð nú. Næsta land við mig (gott land) hefi ég til sölu, $ 15.00 ekran. 5 afborganir, 5-tungur niður, 6% á eftirstöðvum. Viljið þið kaupa? — Nú kváðu peningar vera að verða „skít-nógir“ aftur, segja fjárglæfra-fræði-blöðin.

Við biðjum hjartanlega að heilsa ykkur. Ég skrifa Jonna núna. Ég hefi engar fréttir, svo þetta varð „hirðis-bréf“, eins og „pistlarnir“. — Blessaður og sæll.

Þinn einl. Stephan G. Stephansson.

*J. Magnús Bjarnason.* Markerville, Alta, 27. jan. 1910.

Komdu nú sæll, Magnús minn góður. — Einu sinni ætlaði ég að senda þér jólakveðju á bréfspjaldi, en hvort af því varð, veit nú ekki ég. Hvað um það, þökk fyrir bréfið og gott allt frá gömlu árunum, og rætist alltend vel fram úr fyrir þér í öllu, því að sumu leyti er það sælla en þó allt gangi að óskum.

Tvær nýjar ljóðabækur íslenzkar er ég nýbúinn að lesa: Jóhann G. Sigurðsson og „Huldu“. Jóhann dó auðvitað ungur, enda er flest hans óþroskað og viðvaningslegt — sögurnar tiltölulega betri en ljóðin, hvort tveggja borið saman við sína líka, af því sem nú er uppi — svo sem tvö kvæði og tvö sögubrot, sem bæði séu ætluð til ágætis og langlífis. Að ljóðum „Huldu“ er mér mikið yndi, ég er „skotinn“ í þeim, hvað sem hver segir, og það á fleiri en einum eða tveimur stöðum; hún er bezt af öllum stelpunum og ég er hræddur um, að hún ætli að verða drottning í leiknum hjá okkur strákunum stundum. Hefir þú ekkert farið til æfintýralands, nema í Almanaki Ólafs? Það var nú annars góð dægrastytting, vel sagður sveitar-viðburður fremur en æfintýri, og ímyndun mest í því, að hugsa sér út herbergja-skipun, sem hæfði villandi úrlausn. En, þakka þér fyrir hana, — en máttu annars nokkuð gera, vegna heilsunnar? — Vinsamlegast.

Þinn einl. Stephan G. Stephansson.

*Eggert Jóhannsson.* Markerville, Alta, 17. febr. 1910.

Eggert minn góður. — Ég fékk bréfið þitt í gærkveldi. Góða þökk. Ég var að halda heilagt — komst ekki í fjósin fyrir bakverk; nú er ég góður, meðan ég tek ekki á neinu. Litlu áður en Mundi fór héðan, kom hann að kveðja. Út úr umtali um ferð hans heim, barst hingað-koma hans að ári óbeinlínis í tal okkar, án þess ég væri að grafa upp fyrirætlanir hans. Hann sagði mér hiklaust, að hann kæmi ekki að sumri, gæti það ekki sökum þess hann yrði að bíða seinustu prófa, af því hann „féll í gegn“ í sumu í fyrra, og svo sagði hann, að nýtt skólahérað væri ef til vildi „á stokkunum“ í nágrenninu, þar sem faðir hans býr nú. Þessi ætlun hans hefir líklega breytzt. En ég vissi ekki annað. Annars hefði ég ekki einu

sinni gert þá fyrirspurn til Björns, sem ég gerði. En kannske verður það allt ónýtt samt. Skólaráðið í Hecla er eina héraðið af 6, sem Markerville ætlaði að gleypa, sem það kvað vilja, hvað sem gjaldendurnir kunna nú að segja, ef það verður látið koma til þeirra kasta. Ef það verður ofan á, verður enginn kennari á Hecla. Segið Munda að sækja strax, áður lengra er komið, rétt til reynslu — sé hann ekki búinn að því.

Láttu Laurenz til reynslu, en strax, sækja um skólana bæði á „Pine Hill" og „Happy Hill". *There will be summer schools. Let him say when he could commence, what qualification he has, and what experience he has had here as a teacher.* — Sendið umsókn um Pine Hill skólann til: *Ófeigur Sigurdson, Sólheima, P.O. Alta.* En um Happy Hill til: *James Craig, Markerville, Alta.* — Líklega verður það árangurslaust. En það er þá litlu tilkostað. Ég veit um *Pine Hill.* Skóli á að byrja þar í marz, samkvæmt samþykktum, og verður, *fáist* kennari þá. Það var *ekki* fyrir 2 vikum. Yrðu þeir að bíða þess vegna, er ekki vonlaust. Við urðum að hafa skóla í vetur, til að vinna upp það, sem samþykkt var í fyrra, 8 mán. skóla á árinu, sem árið entist þó ekki til (nema 7 mán.). Fjárhagur er sá, að til að laga hann, höfum við enn ekki lagt upp með meir en 6 mánuði þetta ár. Markerville sleit sig út úr okkur fyrir rúmu ári síðan, minnkaði inntektir um þriðjung, skildi okkur eftir skuldirnar, bygginga-kostnað, en er þó sjálft svo lítið, að það verður að dúsa undir dráps-sköttum. Þetta gagn er að þessum þorpara-brag, sem hver smábúð og pósthús er að reyna að setja upp, til að líkjast borgum. Ég var nýbúinn að skrifa þér um Kristján Ásgeir. Nú iðrast ég eftir því, bara þessu, að hafa verið að ónáða þig lasinn og lúinn með svona hótfyndni. En mér þótti við Ásgeir. Grein hans er öll stíluð í þeim tilgangi að kasta rýrð á það, sem aðrir hafa vinsamlega til mín gert, án þess að hafa kjark til þess að eiga mikið við mig sjálfan. Til dæmis: Að pappír sé lélegur, af því að móti fyrir prenti í gegnum hann. Það gerir það, jafnvel á betra en meðallagspappír, hvar sem lína öðrum megin á blaði liggur yfir óprentað hinum megin. Ég hefi hérna hjá mér kvæði „Huldu", vel um vönduð, og kvæði Jóh. Sigurðssonar. Frágangur á báðum er talinn hóls-verður. Pappír í þeim er litaður (tainted), svo minna beri á útbrotum. Þó sést letur alls staðar í gegn á auðum síðum. Sannleikurinn er, pappír

og band á báðum þeim bókum er enn verr um vandað en á „Andvökum", þó kvæði „Huldu" séu glæsilegri að gerð. Annars, í gamni, Eggert, ég er „skotinn" í „Huldu", hvern fjandann sem þeir segja, það er, í mörgum kvæðunum hennar. Bókin hennar hefir oft verið í vetur „stelpan mín".

Einmitt eins og þú segir bjóst ég við séra L. Ég lái honum ekki, hafi hann líka tilfinninganæmi og ég. Ég fæ óbeit, þ. e. *antipathy,* alveg ástæðulausa og heimska, að mér finnst, á sumum ókenndum mönnum, sem ég mæti snöggvast. Mér er það ósjálfrátt. Ekki vil ég þeim né veit um þá neitt illt. En mér finnst ég hafa hjá mér eitthvað, sem mínu eðli sé andstæða. Svo var það með séra L. Aðeins þetta: Ég mundi engan afletja að hlusta á ræðu hans, heldur hlynna að, að hann fengi áheyrn, hvað svo sem ég kynni svo að segja eða hugsa um frammistöðuna.

Það er leitt, hvað skammdegið er að verða þér örðugt. Myrkrið, inniseturnar, erfiðið, áhyggjurnar, tilbreytingaleysið, sömu óyndisverkin dag eftir dag, svo maður kvíðir við því að kveldi að þurfa að vakna til þeirra að morgni; það eru illar aukagetur við lúa og lasna heilsu. Maður skilur það og þykir illt að vita, að ekki verði aðgert, því það má, að nokkru leyti, væru ástæður manns aðrar. Hefðir þú bara mátt missa þig út í áhyggjulaust ferðalag, eitthvað út fyrir fangelsis-múrana. Annars ætlaði ég nú „sízt að tala um svefn við þig", að eins að láta þig vita, að ég skil oft, hvað um er að vera, þó ég jafnaðarlega bíti á jaxlinn, eða þyki gera það, yfir meinum annarra. Svo slær maður þá botninn, í, með þeim vor-vonum, að þú eigir eftir að komast á flakk, einhvern veginn enn þá, austur til Íslands, vestur yfir fjöll og firnindi, eigir t. d. eftir að sjá aðra eins Miklagarða og Markerville, og nýi yfirfrakkinn verði þér þangað til hið sama og skyrtan var Högna.

Hjartans þökk, Eggert minn, fyrir tryggð þína og vinsemd við mig, allt það gott, sem þú hefir um mig hugsað, en ég verðskulda svo lítið af. Berðu heimili þínu kæra kveðju okkar konu minnar og krakkanna, sérstaklega til Laurenzar, sem þau eru kunnugust.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Supplementum epistolorum.*—Já, komdu nú sæll aftur, Eggert minn, það er að segja ef þú sérð það utan á þessum tveimur bréfum, hvort þú eigir að lesa fyrr. En komdu sæll samt. Ég gleymdi alveg því, sem þú minntist á Bárdal gamla, og þú hefðir mátt halda, það væri guttur í mér við hann. Ó nei. Mér fannst um stund í Sinclair, að ég ætla að verða hrepps-vandræði, eða ætti að gera mig að þeim. Ég veit ég er óþarflega hörundssár með þess konar. Ég fann, að þar lágu einhverjir fiskar undir steini, en gat ekki áttað mig á hvar, var þar aðeins frá kl. 6 um kveldið til kl. 4 um nóttina, hjá öllum ókenndum. Kristján varð í vandanum hjá mér og sveitungar hans skelltu skuldinni á hann við mig. Reyndar lagði ég ekki stórt upp úr því. Það raknaði vel úr öllu og eflaust á ég Bárdal það að þakka. Fólkið var mér vel, en ég áttaði mig ekki á mönnum, en eins og grunaði, að einhver höfðingjametnaður ætti þar uppeldis-sveit. Þegar ég kom heim, sendi ég sem flestum bréf, bréfspjald, eða kvæði með nýja laginu, til mála-mynda, heldur en ekkert. Eitthvað þess háttar sendi ég Bárdal, hvort sem það skilaði sér. Í sumar fékk ég bréf frá honum. Hann bað mig að yrkja nýtt Íslandsminni, fyrir Íslendingadaginn þeirra. Ég neitaði með bréfi — ég gat það ekki, neitaði Seattle-Íslendingum um sama. Þá sendi ég honum: „Þó þú langförull" — nótnablaðið, og stakk upp á, að þeir reyndu að syngja það. — Svo er búið. — Er hann annars ekki í Wpg núna, vika-karl við þingið, mér skildist það á „Heimskr.". Sé svo, bið ég að heilsa honum, ef þið hittist. Vins. S. G. S.

*Eggert Jóhannsson.* Markerville, Alta, 1. marz 1910.

Eggert minn góður. — Kennari er nú ráðinn, og tekinn til, á Hecla, þrátt fyrir að ég heyri sagt, að Munda hafi verið gefin þar góð loforð í sumar. Það fór illa. Eins fór með Pine Hill, sem ég var að vaka yfir. Þangað kvað kennari kominn. Happy Hill einn er ónuminn enn. Ég sendi Frost á Craig. Þeir eru meiri kunningjar en ég og hann. Laurenz hafði þá ný-skrifað Frost og ég bað Frost að skrifa Laurenz strax. Það gerði hann. Ég bara skrifa þetta, svo drengir sæti hverju öðru færi, sem bjóðast kynni, ef skrifarar vanrækja að svara. Hér er víst að verða kennara urmull, eins og við var að búast á þess-

ari lærdóms-villuöld. Annað hvort barn á að verða kennari, en hitt barnið „business“ maður, jafnt í byggð sem borgum. Þökk fyrir bréfið síðasta. Ég veit, að menn gleypa ekki sögu Ásgeirs saltlausa, þar sem hann er þekktur. Sumir ókunnugir halda, að hann sé annað en hann er. Það er von, að ykkur væmi við að opna á honum elginn. Mér leiddist það nú líka. Gizkið þið nokkuð með vissu á, hvenær 3ja hefti kemur út? Menn eru að spyrja mig að því í bréfum. Getið þið útvegað mér óbundnar arkir af því, eins og Skafti sendi mér í sumar? Ég sendi Þorsteini engar leiðréttingar, nema orðavillur. Vildi ekki lýta með löngum leiðréttingum. Óbundnu arkirnar leiðrétti ég nákvæmar, læt binda þær inn og skila þeim af mér sem erfðafé. Því bið ég þessa.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Baldur Sveinsson.* Markerville, Alta, 6. marz 1910.

Góði vin. — Þökk fyrir bréfið þitt og ég vona, að þessi vorkvilli, sem að þá sat í þér, sé nú sneyptur burtu fyrir blíðara veðri og betra yndi. Auðvitað léti Hafsteinshjátrúin, hér og heima, pynda þig fyrir „Lögbergs“-greinina, ef hún væri þess um komin, og gerir það með launklípni, ef að annað þrýtur. En svo er það manni engin eftirsjá, eitt sinn, þegar þessi fólsku-alda sjatnar, að maður hafi eitthvað reynt að stýra frá því, að hún kæmist alls staðar innanborðs. Manni finnst þá, að skip sitt sé komið að landi, er hið réttara verður ofan á að lokum. Manni finnst maður hafa svo góðan rétt til að fagna sigri hvers sannleika, hafi maður ekki tafið uppkomu hans með því alltaf að þegja. Sjálfur fæ ég því meira ógeð á Hafsteins-flokknum, sem mér skilst ég sjái betur gegnum hann. Björn ráðherra var og verður ekki mitt úrval í hinna liði, — en hvað um það, sem stendur er hann merkismaður þess, sem betra er í stefnunni, og hættan er augljós: Láti hans flokkur fleka sig til að steypa honum fyrir aðeins smámuni og róg, hefir dönsk stjórnarlymska aftur orðið ofan á. Til þess er Hafsteins-mönnum teflt, enginn efi.

Bankamálið var hættu-spil Björns. Hagsmunataugar mannanna eru viðkvæmastar, eins og líka allt hefir staðið í viðskipta-lífinu heima: Blindtrú gróðavona, spiluð á bankapappírum. Því lengur sem ég les varnir „Lögréttu“, þess viss-

ari er ég, að Björn gerði þarft verk, hve „ópólitískt“ fyrir hann sem það er. Jafnvel Tryggvi gamli ver sig á því, að þó hann aldrei nema hefði látið bankann tapa þessum 400.000 í 16 ár, hafi hann samt nælt fyrir hann yfir 60.000: Sem sé, á 16 árum hafa nálægt 6 af hverjum 7 kr. græddum glöprazt út um greipar hans aftur. Lárus Bjarnason er forviða yfir því í ræðu sinni, að rannsóknarnefndin skuli ekki gera ráð fyrir, að menn geti erft fé eða unnið svo í „lotterii“, að menn geti kannske borgað bankaskuldir! Er mögulegt, að heilbrigð íslenzk skynsemi geti villzt á slíkri banka-flónsku? Nefndin grunar með réttu þá, sem alltaf endurnýjuðu lántökur, en aldrei borguðu. Forsjálir bankar endurnýja ekki lán upp aftur og aftur. Borgunar er krafizt, og komi hún sem sönnun fyrir fjár-ráðum lántakanda, er nýtt lán veitt, ef þarf. Æ, Baldur minn, fyrirgefðu, að ég er að rausa um svona leiðinlegt efni. En mér eru íslenzk málefni alltaf einhvern veginn svo áhyggjusöm, og finnst þið ritstjórarnir sumir róa helzt á það borð, er síður skyldi, og aðrir aftur viðra of mikið fram af sér.

Það voru 3 smávillur í kvæðinu til Björnsons, sem heldur skemmdu það. Ein talsvert.

Nú er „þriðja þynningin“ mín líklega um það að vera lekin gegnum „Gutenberg“ í Vík. Líklega fær „Lögberg“ hana, þegar safnið verður rekið hér í réttina.

Dr. Helgi Péturss. í „Ísafold“ og séra Matth. í „Norðra“ hafa mér verið sendir, líklega af Þórði bróður þínum. — Láttu þér batna, Baldur minn, og vertu blessaður.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Eggert Jóhannsson.* Markerville, Alta, 13. marz 1910.

Eggert minn. — Ég kem til að aftala það, sem ég var að kvabba um seinast: Nl. lausar arkir af þriðju þulunni minni. Þess þarf nú ekki. Þorsteinn sendi mér nú fjórar arkir hinar fyrstu og fullgerðar. Hann hafði þá lokið lestri á 10 örkum 10. febr. og þær voru allar fyrir aflinum í smiðjunni. Hann segist ýta á þá, allt sem hann geti, og þó séu smiðjumenn seinfærir. Hann segist teygja allt sem hann geti upp í 15 arkir, og heldur það kannske takist, og prúðbúnasta bindið verði þetta, sem sé snotrast að útliti.

Helgi minn Pétursson hefir minnzt ykkar fyrir útgáfuna í „Ísafold" öðruvísi en Ásgeir. Annars höfðu ritstjórar bæði „Ísafoldar" og „Norðurlands" getið ykkar til góðs fyrir tiltækið, strax í haust. Matthías gamli rýkur í „Norðra" og ritar grein um kvæðin, af mjög hlýjum hug til mín nú. Ritdómur er það ekki. „Matti" hefir aldrei kunnað tök á því. Hann verður æfinlega „hrifinn" á annan hvorn bóginn, svo allt verður að lofgerð, bæn og „prédikun", einmitt, þegar honum er mest umhugað að fagna manni vel. En blessaður karlinn: Aldrei getur hann gleymt því, að sjálfur sé hann máttugastur. Ég segi það ekki af óánægju.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Þorsteinn Erlingsson.* Markerville, Alta, 23. apríl 1910.

Þorsteinn minn kær. — Ég kem bara til að þakka þér sendinguna seinustu, örkin 10 eða 11, þessar efstu stundir af „Andvökum". Það er nokkuð frá því ég fékk þær, og ég átti fyrir löngu að vera búinn að segja svo, en mig hefir bagað tæpur tími, sökum ýmissa anna, sumra óboðinna. En alltaf mundi ég eftir því, að ég ætti að láta þig fá að vita, að varan væri viðtekin. Jæja, hérna er þá gleðilegt sumar og þökk fyrir alla fyrirhöfn þína á mér og mínum. Þriðja kverið er nú reyndar eftirlætis-krakkinn mín sjálfs, þó hann minnstur sé. Mér þykir einmitt smæðin prýða hann, fremur en hitt, og það, sem á langinn var dregið innan í, hafa gert svipinn eins og frjálsmannlegri og ríflegri, af því hvergi yrði eimt í um auða línu. Svo má varla heita, að finnist stafvilla, aðeins „*sorg* og sinnuleysis-verk" fyrir „sarg og sinnuleysis-verk" og „sem að lengi *hýttist* við" fyrir „sem að lengi hnýttist við". En slíkt er nú svo lítið, að það er næstum „sært" í eiði fyrir að stafur hafi stolizt úr vist. Svo finnst mér sjálfum, að margt í þessu hefti hafi ég ekki lagt minnsta vilja-rækt við að vinna dyggilega að. En svo er ekki nema náttúrlegt, að öðrum sýnist það ljótara og lélegra en sumt annað, sem sjálfum mér væri kannske sárara um, eins og t.d. „Aftakan". Enda þykkist ég ekki við þess háttar, heldur vík að því sem vísu og án þess ég hafi heyrt nokkurn nefna það enn. Verið þið Guðrún svo sæl og þökk fyrir okkur „Andvökur".

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Sigurður Jónsson frá Víðimýri.*

Markerville, Alta, 26. apríl 1910.

Gleðilegt sumar, Siggi minn. — Bréf hefi ég fengið nýlega frá þér, en á skotspónum frétt, að þú hafir verið í Red Deer að leigja Íranum land þitt og bú — hvort sem það er nú satt. Svo hefi ég líka heyrt, að krakkarnir hans einhverjir hafi kveikt í og brennt upp fyrir ykkur kornskemmu þína.

Baldur og hans fólk er nú komið heim. Aðeins er yngsti anginn hans hér enn. Sjálfur kemst ég ekki út fyrir túngarð fyrir snúningum, lari og lasleik. Hefi enn burðarkýr og alisvín á samvizkunni.

„Baldur", Gimli-blaðið, steindauður. Jói Sólmundar uppiskroppa, börn hans og kona á dreif milli kunningjanna. Eða svo var það. Í orði er, að hann sækji um kosning til næsta Manitoba-þings.

Á Gimli eru aftur risin upp 2 blöð, „Gimlungur", vikublað, og Heimilisvinurinn", þriggja mánaða tímarit. Ritstjóri er Sigurður gamli, séra Gísla Thorarensen sonur. Kostnaðarmenn félag á Gmli, víst helztu efnamennirnir þar.

Tvö blöð „Gimlungs" hefi ég séð. Frágangur er góður, en blaðið smátt. Ég les alltaf heimablöðin, „Ísafold" „Lögréttu", „Norðurland" og „Ingólf". Þar hefir allt logað bara í bankamálinu. Hvernig sem fer, er ég viss á, að ráðherra hefir gert þar þarft verk. Annars hefi ég ekkert frétt lengra að.

Þriðja heftið af „Andvökum" hefir Þorsteinn sent mér, í lausum örkum. Það ætti nú bráðlega að koma. Það er ögn minnst (15 örk), en mér þykir vænt um það. Frágangur svo góður, að varla getur heitið, að í því sé villa. Vinir og óvinir mínir heima hafa allir minnzt mín til góðs, þeir sem enn hafa um kvæðin getið og ég séð nokkuð eftir. Auðvitað eiga einhverjir Hafsteins-klikku menn eftir að lúskra mér. Þeir hafa beðið þriðja heftis. En svo er ekki um það að sakast.

Frískist ég með veðrinu og fái nokkra frístund, langar mig alltaf að koma austur, ef þú getur ekki komið áður, en svo er bezt að hafa þar ábyrgð á sem fæstum orðum, því það er eins og ég sé hættur að geta ráðið nokkuð ferðum mínum sjálfur, nú orðið.

Heilsaðu Sigríði hjartanlega frá okkur, og blessaður æfinlega.

Þinn Stebbi.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerville, Alta, 28. apríl 1910.

Rögnvaldur minn. — Þökk fyrir bréfið og „Markvarðar"-erjurnar allar. Nei, ég reiðist ekki af svona meiningamun. Hann er sjálfsagður, jafnvel milli vina. Tíminn einn sker úr, hver gleggst sér. Ég er þaulvanur þessu í lífinu, að mönnum sárni við mig, eða þyki vænt um mig fyrir annað hvort að hafa stangað sína kreddu eða kreddu óvinarins, þegar ég veit sjálfur, að það, sem varð mér yrkisefni, voru algengar anda-stefnur einhvers flokks úti á víðrar veraldar vegum, straumar úti á Rússlandi eða stríð í Transvaal. En að sér getur Íslendingurinn hvorugt það tekið, því þar var hann ekki við yrkisefni staddur. En „móðins" prestur í „Á ferð og flugi" er náttúrlega séra Friðrik, og „Í páfagarði" kveðið um séra Jón. Þó man ég ekki til, að ég hvarflaði hug til séra Friðriks sunnudagana, sem ég sat einn uppi í gamla skólahúsinu og rubbaði upp „Á ferð og flugi". Og hitt man ég upp á hár, að „Í páfagarði" kvað ég upp úr miklum blaðalestri út af viðureign páfans, sem nú er, og „modernistanna". En auðvitað, „Heimir" og „Breiðablik" sögðu ekki sína skoðun um það mál, fyrr en misseri eftir að ég kvað, og ég veit ekki, hvort Guðmundur minn á Sandi hefir komið auga á það enn. Að minnsta kosti segir hann, að Einar Hjörleifsson sé látinn gjalda þess hjá séra Jóni, að Einar hafi tekið þetta kvæði um séra Jón í „Skírni". Samt tek ég mér nú þetta til þakka að öðru leyti. Það er einhver sannleiks mynd þó í þessu handa-hófs-hrafli mínu, fyrst menn kannast þar við sig eða aðra, á sama hátt eins og ef ég drægi upp úr mér mynd af jökli, og svo sæi Skagfirðingur og segði það vera mynd af Hofsjökli, en Hindúi væri jafn viss á, að þarna hefði hann fyrir sér einhvern hjallann á Himalaya-fjöllunum sínum. Ekki svo að skilja, ég fer sízt að bera af mér, að ég hafi kveðið kvæði í garð íslenzkra flokka og einstakra manna: „Krítik", „Prófasturinn", „Snækollur". Nei hamingjan forði mér.

Þetta segi ég af því, að þú segir, að þér finnist, „ að ég hafi gert ykkur að of miklum músum". Hverja? Únitara? Hafsteinsmenn vestan hafs? Nei, „Markvörðinn" kvað ég upp úr miklum lestri og jafnvel ræðu-rubbi „marxistanna" (óðustu socialistanna) : Úthúðun á öllum umbóta-tilraunum annarra en sín, sem valt á enskri pólitík. Svo hafði ég í huganum þenna

hliðsjónarlausa einstaklings-ofurvöxt, þ. e. „individualismus“, sem þeir héldu svo fast á, t. d. Spencer og Ibsen, að argasta ófrelsi andlegt og veraldlegt getur rökrétt flíkað þeim sem forsvars-mönnum.

Já, ég hefi aldrei leynt því, að ég heimta ekki af einstaklingnum „allt eða ekkert“. Ekki einu sinni af mínum tíma. Ég misskil ekki menningarsöguna svo, að ég taki ekki illindalaust að minnsta kosti því, sem er aml í áttina. *Annarra* vegna, ekki *mín*, verð ég jafnvel feginn vatnsdrykk fyrir sjúkling, sem ég veit, að linar aðeins lítið, en læknar ekkert. Þess vegna hefi ég getað tekið svari „demókrata“ og líberala“, Björns Pétursonar og Magnúsar Skaftasonar, Björns Jónssonar og séra Friðriks, o. s. frv., að *þetta* var betra hjá öðru *verra*, og gagnvart *því* var hvorki vit né sanngirni að úthúða mér á því. En við ekkert af því er ég sáttur. Ég er hvorki flokkheftur pólitíkus né guðfræðingur, ekki marxisti né demokrat, lútherskur né únitari. Hvert straumarnir stefna vil ég reyna að skilja, og aldrei snupra jafnvel barnshendi í fálmandi framfara-viðleitni, þó ég sjái, hve hún seilist skammt.

Hannes Hafstein! Hann er nú orðinn aurgoði íslenzks afturhalds. Hann kemur þessu máli ekki við. Hannes Hafstein, mér kom hann ekki í hug né hjarta, þegar ég kvað „Markvörðinn“ minn! Það veit trúa mín! Hannes Hafstein, hann er nú orðinn sá mannvænleiki, sem aldrei þreifst, því miður! Hvorki sem skáld né stjórnmálamaður. Það er svo áreiðanlegt sem orðið getur, hvað sem stefnum líður. Persónulega skyldi ég hafa unnt honum betri málstaðar en Birni Jónssyni — af því Hafsteinn er skáld, og mig tekur eins og ofurlítið sárt til þeirra sveitunga. En maður æskir honum samt framtíðar, og vonar hana, þó of miklu hafi hann spillt. — Um allt þetta skal ég ybbast við þig, ef ég verð uppi þegar þú kemur vestur. Að deila um það í sendibréfum er ókleift. Skrifuð orð eru svo köld og klunnaleg, milli kunningja, þegar rómur og svipur er alveg útundan. Ég reyni þó ekki að rekja til dæma. Aðeins sýna sjálfan mig. Svona *hefi* ég verið, *ætla* mér að verða og vona að verða — síðan ég fékk vit og eins lengi og ég fæ að halda því.

Ég hlakka til að fá að rabba við þig ögn í sumar og vertu velkominn. Ég er að reyna að ýta af mér önnunum, sem ég er nú ekki orðinn samur maður fyrir og þá „vér várum yngri“,

hversu sem það tekst nú. Langar að hætta sem mest við búskap. Aðeins hjara.

Þetta er aðhrapað verk og ólesandi illa skrifað. Fyrirgefðu. Með beztu kveðjum til kunningjanna.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Eggert Jóhannsson.* Markerville, Alta, 6. júní 1910.

Eggert minn góður. — Beztu þökk fyrir bréfið. Nei, ekki var ég svo hræddur um „fúss“ í þér, en hitt datt mér stundum í hug, hvort vorið hefði svikið mig og veturinn lægi enn yfir heilsu þinni og högum. Skyldu skræður mínar hafa brugðið sér afleiðis til að vera við greftrun kongsins, því það er aldrei fyrir að synja, hvað krakkar kunna að ólíkjast sínum næstu, því ekki hefði ég lagt þá lykkju á beina leið. Það er von, að ykkur sé farið að leiðast. Ég hafði alla tíð trú á heimasölunni, en satt að segja var ég líka orðinn veikur í henni, þegar ég sá, hversu stór og dýr skruddan varð. Það þarf meira en litla bókaást eða forvitni til þess að finna hjá sér 10 til 12 krónur fyrir annað eins, eins og árar nú heima. En hitt vissi ég, að þar voru nokkrir drengir, sem er vel til okkar fyrir allt tiltækið og ekki liggja á sínu liði. Helgi Pétursson hefir látið sérprenta „Ísafoldar“-grein sína „Tvö skáld“, eða einhver af vinum vorum í „Vík“. Mér var sent eintak. Það er allténd hugnun, þegar vel mælist fyrir verki manns hjá gáfuðum drengjum og góðum, hvern veg sem fjárhöldin fara. Hér eigum við í höggi við bókmenntalega afturför fjöldans íslenzka, óalþýðleika sjálfs mín, óttann við skoðanir mínar, stirfnina, tilfinningaleysið og „torfið“ og bölsýnina, sem búið var að núa inn í almenning, og ofsjónina yfir þessari „frægð“ minni — heilög hamingjan! Ég skal segja þér sögu, nýskeða, hún lýsir svo napurlega „frægðinni“ minni og ég hefi lifað margt svipað. Hér kom ferðamaður. Hann ávarpar mig „frænda sinn“ og segir öðrum frá því og ég tek það vel upp, ég held það satt vera. Hann býr 3 mílur frá einum staðnum, sem ég las upp á í fyrra. Kom hvorki né neinn hans. Hann þakkaði mér fyrir kvæðin mín: „Því Íslendingar ættu að virða það, sem aðrar þjóðir mettu svo vel“. Nú veit ég ekki, hvaða „þjóðir“ það eru, en svo kann ég minnsta tölu á þeim. Þessi „frændi“ hafði verið undir

handarjaðri eins „Andvöku"-salans okkar í sinni sveit, en varizt að kaupa, en einn salinn okkar hérna seldi honum seinasta eintakið, sem óselt var hér, svo hann slapp ekki við útgjöldin af „frændseminni". Þetta var ekki ógreindur maður og kvæðavinur nokkur á sinn hátt. Svona hefi ég rekið mig á svo margt svipað um dagana, ekki að ég sakist um slíkt, en maður veit svo vel af því, hvaða peninga-gildi vinnan manns í verunni er, og svo hættir maður að vera „rómantiskur" um sjálfan sig. Nei, það verður ekki ykkur að kenna, ef illa selst hér, heldur afstöðum. Hvernig sem fer, verður nú salan samt eins dæmi þegar alls er gætt, verðsins og þess, sem viðfangs er. Mér þykir sjálfum vænst um síðasta heftið.

Mér þótti gott að frétta af Laurenz og við biðjum að heilsa honum öll. Annars er ég ekkert hræddur um, að hann dugi ekki vel, hann á efni til þess, er svo vandaður, skortir aðeins áreynslu þá, sem gefur manni sjálfs-traustið, eins og von er, en nú er hann að ná því. Gott að hann fékk skóla. Ég var ekki ánægður með Happy Hill fyrir hann. Ekki svo, það var ekki frágangs-sök við allt um þrotið, og ég vildi lafa á henni sem varaskeifu og ég held það hefði tekizt, en ég varð feginn, að ég held, að betra hafi boðizt.

Ég hálf sé eftir gamla *Rutherford*. Ég er svikinn á svipsjón á manni, ef hann er ekki góðmenni og einlægur, hrekkjalítill og velviljaður, ekki kannske skarpvitur og þaðan af síður tortryggur við sína vini. Cushing er duglegur, eigingjarn, metorðafíkinn hræsnari og heimskur í öllu nema að græða. Það var spilað í metorðagirnd hans og enginn hefir þó traust á honum, hvað sem við hann verður gert. *Sifton* hefi ég aldrei séð. Vandaðir menn, sem ég þekki, sögðu hann vænan dreng, traustan, hérna á árunum, þegar hann var í stjórn N. W. Terr. Í þeirri stjórn báru þeir ekki meiri persónulega virðingu fyrir neinum öðrum. Sem dómari þótti hann refsingasamur, og málfærslumönnum fannst hann leggja lítið upp úr lagaflækjum. Dómaraembætti var allténd keppikefli hans hér á árunum. Hann vildi þá komast út úr „pólitíkinni". Mig skyldi ekki furða, þó forsætið væri ekki að ósk hans sjálfs, heldur verk Péturs míns Talbotts „senators". Annars hefi ég varla lesið „pólitík" nú lengi, en ég var ögn kunnugur einu sinni, af því ég er svo gamall — eða ég hélt ég væri það. Ekki vantar mig vilja, að þér tækist þetta, ef til kæmi. Sem stendur er

ég líklega í lægra gengi hjá Simpson, þó ég viti ekki, hve djúpt það ristir, og standi reyndar á sama, því aldrei hefi ég æskt neins af honum fyrir sjálfan mig. En eftir þingið í fyrra og kosningarnar lét ég hann vita í bréfi, hversu vel mér þótti stjórninni hafa farizt við okkur í mínu Tsp. í ýmsu, sem okkur lá á — í samanburði við sveitirnar næstu. Auðvitað kenni ég ekki Simpson um það sjálfum. Ég veit, að hann sagði við kunningja sinn, að sér hefði ekki staðið á sama, af því bréfið hefði verið frá mér. Hann vissi vel, að það, sem ég sagði, var satt og hefir ekki svarað. Og ekki sneiði ég hjá honum, ef svo ber undir. Þetta er annars hvorki þar né þér, því ég má mín einkis. Bara þori að tala við þá, hvern veg sem þeim líkar það. Margblessaður og sæll.

Þinn Stephan G. Stephansson.

*P. S.* — Bara í rælni: Selst nokkuð af „Andvökum" í Foam Lake? Þar eru um 80 íslenzk heimili. Kona þar skrifaði bróður sínum hér, að „Andv." væri þar ekki á boðstólum. Ég veit, að hún býr um 6 mílur frá einum útsölumanninum. Bróðir hennar sendi eintak héðan.

*Baldur Sveinsson.* Markerville, Alta, 19. júní 1910.

Góðvinur, Baldur Sveinsson. — Ég býst við, að nú sé gleðinni gengið eftir „júblið", ég meina sem sé: Afmælisveizla kirkjufél. sé nú setin út og sungin úr garði. Mér fannst ég ætti að koma og hafa ögn ofan af fyrir þér, þó nú sé drottinsdagur, en þá mundi ég allt í einu eftir því, að þú ert svo sem ekki staddur á neinu flæðiskeri alls fagnaðar, þó þessi „júbileum" étist nú upp; pólitík og kosningar annast mann, eins og englar guðs — og þú ert að kvarta um andlegan hor! Skyldi það annars hafa verið nálægt hundadögunum og sumarhitunum, sem Steini kvað: „Þennan sælgætis hundamat", sem nú er orðinn blaðatexti Hafsteinsmanna, eins og þessi Gunnar gerði eitthvað eftir mig að „mottó", sem hann var að raula fyrir munni sér, þarna þegar hann var að sverja sig um, að drengskapur Hannesar væri ekki í „kjötpottinum" í „Kringlu", eftir að þú hélzt, að hann hefði brunnið þar við botninn. En vel á minnzt, mikið ólán varð þeim Hafsteins-

mönnum hér sá paurans pottur. Þú komst á stað, með þinni grein um hann, þeirri bannsettri íkútkvaðningu á Hafsteins meðhaldið, af því það reisti sig svo hátt og fannst hnífur sinn kominn í svo feitt, þegar kjötpotts-hvalrekinn barst upp á þessa „pólitísku“ náströnd þeirra. Í alvöru, ég er ánægður yfir afleiðingunum, og satt að segja, mér er ómögulegt að geta gert við því að brosa, jafnvel að beztu drengjum og vinum mínum góðum, sem urðu hreyknir af kjötpottinum, því „það gæti ég djöfulinn ekki“.

Já, þér þótti undarlegt að sjá „Sál meðal spámanna“ — mig meðal kirkjufeðranna, og fór það að vonum. Hvað þá, ef þú vissir, eins og ég, að ég slapp með nauðung frá að verða vígslu-biskup, eða sama sem, sem sé það, að vera kosinn varaformaður. Ég þverneitaði. Skrítnustu hlutar kirkju-sögu okkar Vestmanna eru ósagðir enn, og eru þeir þó skemmtilegastir. Það er oft gaman að að hafa lifað og þekkja til sögunnar. Það er von, að þér komi margt undarlega fyrir sjónir í þessum órannsakaða fornhaug okkar, af því þú varst ekki við, þegar við bárum fé okkar og vopn í hann. Ég vildi þú værir kominn, svo ég gæti sagt þér mína kirkju-sögu nákvæmar og glott með þér að henni. Í gamni ætla ég að stikla með þig hér og þar á þessum smámunum.

Við Páll heitinn Þorláksson, „synodu-prestur“, vorum vel til vina og nákunnir. Hann vissi víst vel vantrú mína, ég var þá strákur um tvítugt og auðvitað ekki eins hreinvantrúaður og nú. En hvað um það, það var eins og séra Páll þyldi mér allt, og samdi hann þá stundum „prédikanir“, sem ég sat undir og átti einna mestan mat í. T. d. einu sinni hafði ég alveg ótilætlað lent í deilu við stráka á mínu reki þá, en sem nú eru kirkjufélags-ljós, út af „Opinberunarbókinni“, og orðið þetta að orði: „Opinberunarbókin er ekkert nema nokkurs konar „Heljarslóðarorusta“ elztu kristnialda, gerð af einhverjum Gröndal þeirra tíma“. Auðvitað orðaði ég þetta svona í ertni, þó mér væri alvara, að bókin væri ekkert nema mannasamsetningur. Viti menn, næsta sunnudag lagði séra Páll, sem ekki var við deiluna, út af voða þeim að efast um „innblásturinn“, og hættuna, sem af þeim mönnum stæði, sem segðu t. d., að Opinberunarbókin og Heljarslóðarorusta sætu á sama bekk. Slíkt lét ég nú sem vind um eyrun þjóta, í þá daga. En undir dælunni datt mér í hug vísa eldri Gröndals:

„Þessa alla þekki ég hjarla þér að baki,
Af skömmum fulla í karm og króki.
Kennirðu skeytið, Pálna-Tóki?“

Séra Páll var þá prestur Norðmanna í Shawano Co. Wisconsin, en messaði stundum yfir okkur Ísl., sem þar bjuggum, en safnaðar-lög áttum við ekki við.

Í deilu séra Jóns og Páls lagði ég Páli stundum liðsyrði við mína sveitunga. Sagði hér um bil svona: Þessa menn greinir aðeins á um aðferð guðs við glötun mannanna. Endalokin eru eins hjá þeim báðum, eilíft helvíti. Þetta og annað eins er mér sama um. Satt að segja, sé til guð, sem glatar sálum mannanna, er séra Páls aðferðar-kenningin honum líkari.

Séra Páll stofnaði fyrsta söfnuð á Garðar, N. D. Þar var ég skrifari. Allir rituðu sig undir safnaðarlög hans, sem við voru staddir. Ég las upp gerninginn í fundarlok til samþykkta. Páll bað mig að því búnu að lofa sér að sjá hann. Ég gerði það. Eftir stund sagði hann, að allt væri gott, annað en það, að á safnaðarlögin vantaði nafn og samþykki skrifarans sjálfs og bað mig að leiðrétta það. Ég neitaði. Hann baðst skýringar á því. Ég gerði það. Sagðist (eins og var) hafa *einn* greitt atkvæði móti tveimur greinum í lögunum, þeirri, sem um játningarritin fjallaði og hinni, sem atkvæðisrétt kvenna bannaði. Ég drap ögn á, hvað mér þætti að þeim. Páll heitinn anzaði því engu, en spurði mig, hvort hann mætti ekki rita nafn mitt á skrána, ef hann setti þá athugasemd við nafn mitt, að þessar greinar væru undanskildar, að því mér viðkæmi. Ég leyfði það. Hann ritaði, las mér það svo upp eins og hann hafði tiltekið. Meira veit ég ekki, en svona stóð ég í söfnuði, þá og síðar. Eftir fráfall Páls klofnaði Garðar-söfnuður. Ofan á var barizt út af kvenna-atkvæðisréttinum. Undir niðri voru alls konar viðsjár. Ég fylgdi meirihlutanum þar að málum, „kvennamáls“-mönnunum. Satt að segja, óafvitandi var nú þetta safnaðarbrot á Garðar (tómir leikmenn) að berjast fyrir því, sem nú er kölluð „nýja-guðfræðin“, þ. a. s. neitun á óskeikulleik játninga og ritninga. Litlu seinna var ísl. kirkjufél. ráðgert á fundi á Mountain. Þar kom ég ekki. Allir íslenzkir söfnuðir voru kvaddir til kirkju-þings í Wpg, okkar andstæðu Garðar-söfnuðir 2 með. Ég tók kosningu fyrir bón

minna manna, en ekki þó fyrr en við heitingar hinna safnaðarmanna, um að útflæma okkur á kirkju-þingi svo, fyrir alla okkar frammistöðu, að yfir tæki. Við áttum þá á móti okkur alla presta og prestlinga sunnan línu, og sveitarhöfðingjana í héraði og á þingi. Vina minna vegna vildi ég ekki skorast úr leik, ef í deilu slægi á þingi. Svona var nú minn kristindómur! Engar ákúrur fékk *minn söfnuður!* Og engu varð að svara. Það var stungið upp á mér fyrir vara-formann: Skrifara. Ég bláneitaði. Magnús Pálsson varð það og mundi mér lengi spaugsyrði, sem ég sagði við hann um leið og ég óskaði honum til lukku.

Ég var kosinn vara-skrifari. Sagði sem var, að ég nennti ekki að neita slíkri þýðingarleysu, þar sem ekkert yrði að gera. Þú skilur, að aðal-skrifari, sem Magnús varð, gat í forföllum forseta gilt sama og vara-formaður, eða vígslubiskup. Reyndar varð ég það líka, en svo voða langt til vinstri handar, að tvö mannslíf sátu milli mín og biskups-stólsins. Ég var til einkis kvaddur sem vara-skrifari. Kom ekki á næsta kirkju-þing — hafði engu af mér að skila. Söfnuður Garðarmanna varð einn, með nýjum miðlunartillögum um kvenréttinn. Fyrir þrábeiðni „minna manna“ átti ég við að búa um það með prestinum. Undir nýju lögin skrifaði ég aldrei. Ég var því utansafnaðarmaður, þegar næsta kirkju-þing sat, og hefi verið það síðan. Þetta er nú mitt brot af „Hist. Eccl.“ og forláttu allt rausið!

Já, ég þakka þér líka alúðlega fyrir okkur Þormóð greyið. Mér þótti Kristján „skáldi“ hafa lítið bætt hann, þó hann kvæði sjálfur niðrí honum, og einhverjir sögumenn voru að sparka um þennan þátt af Þormóði, skilningslaust, að mér fannst, og þá kvað ég „Á Stiklastöðum“. — Mér hafa verið send að heiman nokkur blöð af „Fjallkonunni“, ef til vill af Ben. bróður þínum, annars veit ég það ekki. Mér, sem sé, þykir vænzt um „landvarnarflokkinn“ heima, og trúi í einlægni hans stefnu bezt. Þetta er nærri jafngamalt mér. Ekki veit ég hvernig á því stóð, en þegar ég fór frá Íslandi strákur, 1873, var mér jafn-illa við danska „tillagið“ og nú. Auðvitað var það tóm tilfinning, ekki röksemdir, en það lá í mér, eins og það væri okkur til bölvunar og skammar. Og mér hefir ekki skánað þetta með aldrinum. Ég vil, að við Vestur-Ísl. styðjum æfinlega þær menningar-tilraunir íslenzkrar

þjóðar, sem hæst hugsa sér og treysta manndómi sínum mest. Sýnum það óhikað í orði kveðnu og atviki, ef unnt er. Persónulega ætti okkur að vera jafn-vel við alla heima. Við kunnum bara nöfnin þeirra sumra, eða svo er það með mig.

Að gamni mínu eru hérna sexfætlur, sem ég hripaði á blað í mánuðinum, sem leið. Ég var að lesa fréttir um þessi norðlenzku:

*Vorharðindi.*

Hér léttir til — en skyldi vera að vora
Um vist og óðul kulsælust og nyrzt?
Og kvikna í dölum dílar grænna spora
Um daggvot tún, þar geislinn stöðvast fyrst?
Og skyldu unglauf upplitsdjarfleg þora
Að yfirgnæfa tyrfinn feyskju-kvist.

Hvort helzt hún enn þá, þessi beggja-blenzka:
Hvort beinar leiðir styttu ei sömu færð?
Og rénar hún ei, þessi þoku-lenzka:
Að þekkja ei sundur verðskuldun og mærð,
Ef spókast fagur-fituð lítilmennska,
Með frauð í sinna glæsi-leggja stærð?

Hvort réttist eigi söngvíst sumar-ljóðið
Úr sultarkeng hins vetrar-langa húms?
Já, manni sveið oft vergangs hlökku-hljóðið,
Með hleif í knjám á seti yzta rúms,
Hver spá: Að nú sé þykkra þrælablóðið
En Þveræinga á stöðvum Víga-Glúms!

Velkominn værir þú, og gaman að sjá þig á heimleið! En sé pyngjan þín álíka bústin og hún vanalega er hjá einstæðum skólapiltalýð, þá finnst mér kostnaðurinn sé svo óguðlegur fátækum, að ég sæi eftir honum frá þér, ef ekkert væri í aðra hönd annað en að hitta mig, það er svo lítill slægur í mér, fyrir svo langa leið. En ég skyldi vera þér eins vel og ég kann, og ekki leiddist mér á meðan. Annars óska ég þér glaðrar ferðar og góðrar heimkomu, „hvenær sem kallið kemur“. Jack London kvað hafa ritað sögu, sem heitir „The call of the wild“. Reyndar er hún um rakka, uppeldis-siðbetr-

aðan og fægðan, fram í langfeðgatal, og eftir öllum listarinnar reglum. Svo flæktu atvikin honum út á villimerkur og flæking. Þar kippti honum svo í kynið, að hann varð úlfur aftur. Það var nú hans „erfða-áköllun", eftir London's lestrar-reglum. Stundum koma líka í mig kippir, ílöngun í saltþefinn af sjónum, gjálfrið við súðirnar, endalausa-djúpið í allar áttir: Að mega sjá á sjó! Og er ég þó enginn sæfinnur, öðru nær. Mér er stundum að detta í hug, hvort þetta muni vera villimanna blóðerfðin í æðum mínum, frá einhverjum sjó-slápnum aftur í ætt minni, sem þarna sé að renna til skyldunnar, eða aðeins sama tilhneigingin, sem ég hefi til að liggja í grænu grasi og grúfa yfir gróðrarlyktina. Ég get ekki liðað þetta sundur. — En ekki lái ég þér, þó þú þráir fjöll og sjó.

Nú skal ég ekki kvelja þig lengur með orðalengingum og illri skrift. Ég skrifa oftast bréf mín svo nízkulega, að ég nærri sé eftir. Því er ég svona þaul-málgur núna — Líði þér sem bezt.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Eggert Jóhannsson.* Markerville, Alta, 25. júní 1910.

Góði vin. — Grímur mun hafa sent þér aftur 6 eint. af 60; 54 eint. munu hafa verið seld af mönnum hér. Grímur mun annars skrifa þér sjálfur. Ásgeiri Baldvinssyni sendi ég línu núna og bað hann að skrifa þér. Hann varð fyrir slysi. Lá á spítala í Edmonton lengi, í beinbroti, og er sagt það hafi setzt illa, svo Ásgeir sé örkumlaður. Áritun hans er annars: *A. V. H. Baldwin, Woodbine P. O. Alta.* Já, ég varð feginn, að skruddurnar heimtust þó um síðir. Það var nú ekki skaðinn einungis, ef þær hefðu sokkið í sjó, heldur hefði orðið örðugt að útbyggja þeim grun hjá sumum, að brögð hefðu í tafli verið af okkar hendi, eins og á stóð. Nú er það gott og blessað, annað en bölvuð fyrirhöfnin og kostnaðurinn, sem gengur í allt þetta sukk. Líklega hefir engin bók íslenzk orðið annað eins fyrirhafnarbarn með öllu og öllu, enda er hún nokkurs konar uppalningur fólksins, fremur en verzlunarinnar, sem er nú fremur óvenja. Því þarf nú heilar fjölskyldur til að bjarga þessu undir þak, ókeypis. — Verið blessuð og sæl öll.

Þinn Stephan G. Stephansson.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerville, Alta, 26. júní 1910.

Góði vin. — Komir þú hingað í næsta mán. eins og þú gerðir ráð um, gætir þú látið mig vita, hvenær helzt, ef þú vildir og vissir. Ég léti þá eina tvo eða svo kunningja þína hér vita það, og kannske gætum við í sameiningu hlynnt að því, að þú fengir að sýna þig og sjá aðra, að minnsta kosti „tekið þig út“ hjá járnbrautinni í Innisfail, ef þú kysir það eins vel eins og að pinklast með pósti.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Eggert Jóhannsson.* Markerville, Alta, 14. ágúst 1910.

Eggert minn góður. — Beztu þökk fyrir bréfið. Nú, séu lítil líkindi til, að neitt verði bundið hér, svona ekki eftir allt of óhæfa bið, verð ég að biðja þig að senda mér hingað eitt eintak af bindunum handa Kristni mínum, því hér er uppselt, en ég þarf náttúrlega að klóra á þær „Vinsamlegast frá höf.“, sem spaugsemin í Brennivíns-„Ingólfi“ fór svo maklega með núna nýlega. Þó þykir mér verra að þurfa að breyta ætlun minni, þeirri, sem ég hugsaði mér á vögnunum, þegar ég fór frá ykkur úr Winnipeg forðum, og hún var sú, að senda Kristni hér bundna skruddu, af því þið sögðuð mér, að þið hefðuð það í ráði. Séra Rögnv. er ókominn enn, en Carl Olson kvað vera hér kominn, aðlaðandi og guðfræðandi. Nú vildi ég helzt, að Rögnv. kæmi ekki fyrr en í haust að annir eru yfir, héðan af. Já, Eggert minn, um band get ég ekkert af viti sagt, en ég skal fleipra það, sem í mig dettur. Ég hefði haft gaman af því, hefðu menn getað látið það borga sig, en skaðakaup vil ég ekki fleiri gera, ef unnt er. Ég hefði komizt eftir, hvað það band, sem mér líkaði og kleift væri að kosta, yrði dýrt. Heyrðu, væri ekki hægt að fá svolítið sýnishorn af því, kostnaðarlítið (segjum svo sem 12), ég meina svo sem þumlungs„prufu“ utan um auð blöð, af því sem bandið yrði. Senda svo þessi sýnishorn til umboðsmanna og sjá, hvort kaupendur fást. Líklega mætti binda nokkru meira en lofað yrði að kaupa. Framtíðarsala yrði einhver, svona með ára-fjölda. Er hægt að binda öll heftin í eitt svo vel fari? Það yrði ódýrast, en spjöld þyrftu að slúta langt út yfir, sökum þykktar, en stærðin sjálf gerði þar ekki til á bókaskáps-

bindi. Mætti svo ekki binda afganginn í slit-band, segjum „segl“ það, sem þeir kalla buckram, ef einhver vildi hafa til „skíts og slits“, svona með tímanum, að maður gæti gert sér vöru-von úr öllu skrattans dótinu? Þetta eru nú bara uppköst mín, til umhugsunar, en ekki „uppástungur“, sem ég þykist vita, að ganga ættu í gegn. Ég renni engum grun í fjárhags-hliðina, sökum ókunnleika um kostnaðinn, og „punktum og basta“ um þetta mál. Með annað mál verð ég að ónáða þig ögn: A. V. H. Baldwin, Woodbine P. O. (sá sem seldi í Edmonton), kom þar út þrem eintökum, einu í sig, og 3. bindið fékk hann með skilum. En í janúar næstl. sendi hann póstávísun til Hannesar Péturssonar, Unionbanka, $ 9.00 borgun fyrir bækurnar. Hefir enga viðurkenningu fengið og þykir verra að vita ekki, hvort skildingarnir komu til skila.

Já, mikið hefir verið sagt um „Andvökur“, og ég er öllum þakklátur, hvort sem þeir lofa eða lasta, og hið síðara hefir enginn eiginlega gert enn. Ég hefi aðeins ömun á tvennu, ef ég yrði fyrir því til muna: Það eru heimsku-dómar og hártoganir. Ég er ekkert sár yfir því, en hitt er það, það er skroppið skyn hjá „Heimi“ vorum núna að gefa í skyn, að 3ja bindi sé lakara en hin, sem sé, það er álita mál, hvort *nokkurt* bindið sé bærilegt, hitt er bókmenntaleg missögli eða missýni, að 3ja bókin sé lökust, eða vitið í *því* steytir sig þar á steinum trúar eða pólitíkur, það *skal* ég ábyrgjast að sannast einhvern tíma. Sama er það, „Draupnir“ getur ekki verið mitt bezta kvæði, til þess er hann of yfirgripslítill. Dr. Helgi Pétursson og Þorsteinn Erlingsson skiptu mér víst ögn upp á milli sín og tóku hlið hvor á því, sem þeim fannst mér farast skást. Þar sem hvorugur vissi, en gizkar á, fer Þorsteinn nær, t. d. hvað gagn ég hafi af enskum skáldum. Helgi heldur það, Þorsteinn neitar því, og hann er réttari. Ég hefi, næstum með ásetningi, forðazt önnur skáld, og lagzt sem grynnst í þau. Ég segi það ekki í skrumskyni, því það getur eins vel orðið manni tjón eins og tekja.

Það þótti mér gott að frétta, að Árni bróðir þinn á góða akra nú. Allt, sem dregur úr ótta manns af þessu missfelluári, er manni hugnun. Með beztu kveðju til ykkar allra og segðu Kristjáni Stefánssyni, að ég biðji hjartanlega að heilsa honum, nær sem þú hittir hann.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

P. S. — Enn var það eitt. Ég fékk hringinn með góðum skilum. Þú mátt segja Ingjaldsson, ef þú hittir hann, að ég sé harð-ánægður, hringurinn betri en ég ímyndaði mér fyrir verðið, sem ég sendi.

Hvernig væri að „kúska“ „Kringlu“ til að taka upp einhverja greinina íslenzku um „Andvökur“, dr. Helga úr „Ísafold“, Hannesar úr „Þjóðólfi“, Þorsteins úr „Þjóðviljanum“ eða Matthíasar úr „Norðra“? Grein Þorsteins er líklega bezt, af því þar er *reynt að kljúfa innst til mergjar, brotalaust*. Matthíasar lökust, af því hún er fremur öll tómar *upphrópanir* en *athuganir*. Dr. Helga misminnir ögn um orð, sem hann tekur til athugunar, en ágæt er grein hans þó. Hannes Þorsteinsson misskilur gersamlega eitt kvæðið mitt, sem hann telur þó gott, þ. a. s. hann fer rangt með „stefnuna“ í því. Sögu-kvæðin mín eru honum tömust, enda var þess von um hann. — Mér dettur sem sé í hug, að útsala kynni að örvast við umtalið, allt sé þarfara en þögnin, meðan á henni stendur.

S. G. S.

*Guttormur J. Guttormsson.* Markerville, Alta, 14. ágúst 1910.

Góði vin. — Það er illviðri úti og ég er druslulegur eftir vikuverkið, en þó ætla ég svona milli „pistils og guðspjalls“ að þakka þér seinasta bréfið, sem ég hefi svikizt svo lengi um að borga. Ég á nú annríkt, en er orðinn seinn, svo mér verður nú tíðum tómstundavant, en þó kem ég oftast á endanum, þegar fram úr raknar. — Ég hefi séð í „Ísafold“ hlýlega grein um „Austfirðing“ þinn, eftir Gvend okkar frá Sandi. Aðeins er það broslegt, að svo lítur út, sem Gvendur hafi þá kreddu fasta, að öll „góð gjöf“ vestan-hafs komi frá „föður ljósanna“, séra Friðrik, því honum finnst „Austfirðingur“ úr „skóla“ hans. Annars er greinin vinveitt þér, en engan lærdóm græðir þú á henni, því hún sundurliðar þig hvergi, bara segir söguna þína með þér.

„Heimir“ segir, að III. bindið af „Andvökum“ mínum sé lélegast (eða sama sem það). Ég er þeim málum ögn kunnugur og hefi engin olnboga-börn, þar sem ég á öll bindin sjálfur, en satt að segja, ég hefi lagt mig bezt fram í III. bindinu yfirleitt. Hafi ég skömm fyrir! En guði sé lof fyrir meðal-lagið mitt, og allt þar fyrir neðan, því það er í tveim-

ur fyrri bindunum, og Matthías segist hafa „merkt sér“ eitt hundrað af því.

Jæja, þú ert félaus, en ekki heilsulaus, að þú segir. Ég hefði viljað vita þig hafa hvort tveggja, en heilsan er upphaf allra dyggða, en ekki guðsóttinn eins og prestarnir kenna. Ég kysi þér heilsuna heldur en að þú værir sómamaður og vel fjáður, en án hennar. Komi J. M. Bjarnason í nágrennið við þig, eins og kannske er í efni, bið ég „ósköp vel“ að heilsa honum, og þið eigið að láta honum batna. Ég ætla að eiga erindi upp til „Víðis“ næst þegar ég kem til Nýja-Íslands. Mig dagaði uppi í Árdal seinast, en svo var það nú í skammdeginu, en nú tognar líklega sólargangurinn hjá ykkur, fyrst að Baldvin „komst að“.

Ég bið að heilsa konunni þinni og dótturinni þinni, vona að heyra frá þér við og við, þó ég kunni að gerast svikull og hvílrækinn, og vertu svo alltént sæll.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Baldur Sveinsson.* Markerville, Alta, 15. ágúst 1910.

Góðvinur. — Bréfið þitt fékk ég og þakka þér fyrir. Að vísan sú arna týndist, gerði raunar ekkert, ég legg ekki áherzlu á annað eins smælki. Kveð stundum svona stökur upp úr því, sem ég er að lesa þann svipinn, fleygi því svo til einhvers blaðs, ef ég nenni, ef einhver kynni að hafa gaman af að lesa það einu sinni, eins og ég að kveða það. Þetta eru bara dægurflugur úr huga mínum, sem eiginlega eiga ekki nema augnabliks aldur. Ég held ég eigi ekki vísuna skrifaða, sízt að ég muni nú „formálann“.

Um hitt þykir mér vænt, ef þið einhvern tíma létuð „Lögberg“ flytja grein „Independents“ um „firðlendur“. Hún er greinilegust af því, sem ég hefi séð um það mál, og ég hefi áhuga á því, og heima-pólitíkin á þar sitt ítak, eins og þú veizt.

„Minningar-ritið“ á ég. O, jæja, það er lélegt efni í laglegum búningi, að mér finnst. Ég heyri alla telja „ævisögu“ Páls heitins Þorlákssonar bezta þar, kannske af því „Kringla“ sagði svo. Páll heitinn á að mörgu leyti góða grein á sér skilið, en ýmislegt vantar þarna í hann. Eigi slettan um „ömurlegan og óverðskuldaðan“ mótblástur (seinast í greininni)

við það, að Garðar-söfnuður samdi ávarp til hans og sendi nefnd með það til hans, þess erindis, að prestsþjónusta hans væri á enda í þeim söfnuði (Hann hafði þá legið rúmfastur heilt ár, en litla sem enga þjónustu getað veitt, en söfnuðurinn borgað þau prestlaun, sem lofuð voru, og vildi reyna að fá prest frá Íslandi), já, sé átt við þetta, þá er „slettan" óverðskulduð. Ég veit um það mál. Ég reit ávarpið, var í nefndinni, man hvað okkur séra Páli fór þá á milli. Hann dó litlu síðar. Fólk hans var ekki heima, það hittist svo á, þegar við nefndin töluðum við hann, en *það* gerði úr þessu rógs-mál, sem enginn okkar, sem í förinni vorum, höfum skipt okkur af. Eigi séra Jón við þetta, sem ég hygg, þá fer hann með rangt mál, eftir annarra sögn, því ekki var hann „við það yrkisefni staddur". Sem sé „sýnódu-menn" og „sýnódu-andstæður" í Garðar-söfnuði höfðu komið sér saman um „prest að heiman" sem málamiðlun og séra Páll var samþykkur, sagði það eina ráðið út úr því andlega ófefni, sem hann sjálfur og séra Jón Bjarnason hefðu komið trúmálum Íslendinga hér í. Þetta segi ég satt, og þetta var í síðasta sinni, sem við séra Páll áttum samræðu, og mér er það enn minnisstætt, og mér var vel við Pál. En ekki veit ég, hvort þeir, sem með mér voru þá, muna eftir þessu. Það eru yfir 28 ár síðan.

— Fyrirgefðu rausið um þetta, sem þú náttúrlega hefir enga hlut-töku í, aðra en þá, að æra mig upp í þessar endurminningar, með því að minnast á „Minningar-ritið" við mig.

Jæja, Baldur minn, þér leið bærilega í „Nýja-Skógi" hjá mér. Þakka þér fyrir. Ég veit vel, hvað þér kemur bezt, og hversu misjafnt ég spenni bogann minn, ekki öflugri en hann er nú.

„Ljót eru í þér augun, Tóta mín", sagði telpan við drauginn sinn forðum, sem var að leika sér með henni. „Ekki verður aðgert, telpa mín", svaraði draugurinn. Sama vildi ég svara Matta, þegar hann er að drepa í skörðin um Dumb og Grænlands-ís í dælunni um „Kvisti" Sigurðar. Bara hann væri ögn skýrmæltari. Annars eru allar þessar meinlausu skrokk-skjóður bara salt út í vatns-graut lífsins, hann yrði of væminn annars.

„Ég hefði haft gaman af að sjá hann, ég man svo vel eftir mömmu hans og hún var svo góð við mig", sagði konan mín, þegar hún sá bréfið frá þér.

Það er sízt aftakandi, að við sjáumst heima, ef ég endist lengi og gæti draslað eftir mínu skapi. En hvað um það, ég einhvern veginn vil vita þig heima, held að hlutur þinn liggi þar. Ég bið að heilsa, þegar þú kemur þar. Vertu nú sæll og þökk fyrir skemmtunina og hlýleikann.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Þorsteinn Erlingsson.* Markerville, Alta, 6. sept. 1910.

Þorsteinn minn kær. — Ég fékk bréfið og dóminn þinn, allt með skilum, og þarna kemur nú þökk mín loksins. Auðvitað er ég meira en ánægður með allt það hrós, sem mér er mælt, þar sem ég finn vinsemdina og skilninginn í gegnum það, það gerir manni hlýtt í hug og hamingjusæld. En það er þó oftast eins og ég finni fljótara rök til þess, að menn skripla á mér, þegar það vill til, en að ég sjái ástæðu til þess, að mér sé hælt, og veit ég þó, að ég vildi kveða vel, eins vel og efni og annir leyfðu. Þú gizkar rétt á það, sem aðrir ætla, að sé öðruvísi varið, að það er hér um bil gagnslaust að grafa upp, hvað ég hafi af öðrum skáldum lært, þeim, sem ekki eru íslenzk. Svipi einhverjum hugsunum saman, mun það oftar, að hending ræður því, eða þá líkt loftslag af andlegu andrúmi, sem tveir ókunnugir menn hafa lent í, en mér hafi borizt það í bókum þeirra. Yfirleitt er ég dauðans illa að mér í veraldar-skáldskapnum og tel ég mér ekki það til gildis. Fátækt mín og tímaleysi stóð þar í vegi, og — eigin sérvizka, sú, að ef maður límdi sig ofan í einhvern, stæði sá í hættu með það, að apa eftir kækina hans, en kæfa sitt eigið, og því verr, sem sá væri voldugri, en maður sjálfur vesælli! Vikuna sem leið sagði einn lærði maðurinn okkar *mér sjálfum*, að ég væri þaullesinn í Browning. Ég hefi lesið eitt eða tvö kvæði, smá-húsganga, eftir Browning. Ekki er frægra frá að segja. Og tilveran, Þorsteinn! Utan mannanna og kringum mig er hún hvorki ill né góð, og ásetningslaus, en mig dreymir um, að við myndum geta gert okkur hana bærilega með viti og góðum vilja, en henni að þakkarlausu.

Hafðu heill tekið svari telpunnar minnar, hennar Huldu. Ég hefi dálítið dálæti á henni og hálf-gramdist fyrir þetta olnboga-barn. „Kirkjublaðið“ sá ég ekki, annað fannst mér þurrt og skilningslaust, sem um hana var sagt, nema Karls

Finnbogasonar, þó mér fyndist, að jafnvel hann ekki duga henni eins vel og skyldi og heldur ýta að einu kvæðinu hennar, sem ég ann.

Það, sem þú segir um stafina okkar, er glöggt og greinilegt, og eflaust rétt til rakið. Ég skildi það allt. Rámaði áður í sumt. Annars tala ég um stafsetningu meira af rælni en alvöru, og af ímyndun, en ekki af fróðleik. Tungurnar brjóta sínar eigin samræmis-reglur upp úr þurru og eins og bara til að svíkja þær og sanna okkur, að reglusemin í tilverunni ráði ekki við neitt; svo flækja þær i-hljóði fram fyrir e-hljóðið, þó það ætti að koma á eftir, samkvæmt guðslögum annarra hljóðstafa, og úr þeirri óreglu er ég til með að skapa é, úr því allt er svo, að ekkert stendur heima. Útlendir villast á því, auðvitað, en út í það hafði ég aldrei fyrr hugsað. Alveg rétt, y og ý hefir þann kost, sem þú telur, vekur hugsun um ætterni orða. Ég get séð það á sjálfum mér. En ég sætti mig ekki alveg við, að aðferðin til þess þurfi að vera óþarfur stafur. Um eitt skeið skrifaði ég hvorki x né z, og enn er mér jafn-illa við báða. Annars týnir maður niður allri næmni fyrir skynsamlegri stafsetningu af að sjá dags-daglega vitfirringa-stöfunina á ensku. Ég held, að k og j verði okkur til bölvunar áður líkur, klofni sums staðar upp í blístursshljóð. G-ið er nú svo orðið hér, í túlum sums yngra fólksins, og k-ið eins, þvogl-hljóð úr ensku, náttúrlega. Annars er þessi stafsetning í lifandi máli sama sem að sníða föt á uppvaxandi, það má gera allt slétt og einfalt, en forðast sem mest rykkingar og dinglumdangl, en ómögulegt að dúða fyrirfram um visnun eða æxli, og jafnvel vandaverk á eftir.

Ég held ég gleymi nú stundum sjálfur, hvað það var, sem vakti fyrir hverri tilbending, sem oltið hefir upp úr mér í hendingum. Ég veit ekki, ef þú og Guðrún færuð að spyrja mig út úr því, nema ég þyrfti stundum að hugsa mig um. Gaman væri nú samt að hafa getað gert það. Og þetta „eitthvað“ í „frændkonu minni“ — ég held það sé nú ekki annað en þetta, sem almennt er: Það gildir nærri einu, hversu framúrskarandi einhver eða eitthvað er, dagdóma aðfinnslan sér þar æfinlega einhverja vöntun til að rekast í, jafnvel heimtar, að tveir ósamanrímanlegir og ósamkynja kostir eða íþróttir eigi að sjást í einu á því, sem um er dæmt. Auðvitað kemur þetta eitthvað svo kynduglega fyrir í kvæðinu mínu, að

það verður „langt að seilast til lokunnar“, en með þessari hugsun var ég víst að hreyfa hana, eins óglöggt og það varð.

Já, gaman hefði verið að hafa náð saman stundum, og ekki hefði ég óttazt fjandskap út úr meininga-mun. Ég kann að þykja „þrár og stífur“ um málefni, en sjaldan hefir kunnugum orðið illa við mig, þrátt fyrir allt. Heldurðu annars ekki, að tilveran sái okkur svona sínum á hvorum stað illskunni til útbreiðslu og akri guðs og góðra manna til sem mestra meina? Það væri þó tilgangur. Ertu nú annars kominn heim? Ég sá í blaði, að þú hefðir ferðazt norður að Víðimýri með þessum leirkera-smið, standmyndaranum ítalska. Ég hefði „beðið að heilsa norður“, hefðir þú komið við hjá mér morguninn, sem þú fórst, og sagt mér, hvert þú ætlaðir. Einu sinni þekkti maður Víðimýrar-land og lýð.

Hér ganga nú haustdagar og verkleysu-veður, þeim, sem úti þurfa að vinna, svo ég gat komizt að þessu Kínaletri. Nú, mig langar til að koma aftur í haust eða vetur, ekki til að „bæta þetta upp“, eins og aðrir gera, heldur til að gera illt verra.

Þú ert að kvarta um þína illu skrift! sem skrifar alltaf svo prýðilega vel, nema of smátt fyrir þreyttu augun þín.

Svo bið ég að heilsa heim til þín, Þorsteinn minn góður, og kveðja frá konunni minni átti að ganga á undan. Ég vildi, að lífið og Guðrún entist þér bæði lengi og vel, og verið þið nú blessuð.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*J. Magnús Bjarnason.* Markerville, Alta, 8. nóv. 1910.

Góði vin, Magnús. — Nú hefi ég svikið þig síðan í september um borgun á bréfinu. Það getur vel verið, að þess háttar sé eitt af dauðasyndunum sjö, eða þá sú áttunda, og sjö sinnum versta, en ég er nú orðinn því svo vanur, að ég er hættur að finna til iðrunar, tel þetta svo sjálfsagða og óhjákvæmilega synd að ekkert sé að afsaka. Ég er orðinn „presbýtari“, skorðaður í skömminni að skaparans ráðstöfun, og er því hættur að berja mér á brjóst. Hann hefir nú sagt svona fyrir. Já, að vísu var það nú illt, að byggð þín eyddist svona utan af skólanum þínum, þú varst svo vel kominn þarna á laggirnar, en sjálfsagt getur þú víðar komizt vel niður, af því þú kannt nú

aðferðina til þess, og ef vill er þér tilbreytingin holl, þó þér finnist kannske, að allt sé fyrir friðnum. Ég veit þetta á mér og mörgum fleiri. Það er, sem sé, þetta eðli, að geta ekki orðið mosavaxinn, en leysast heldur upp, þrátt fyrir mikla venjufestu og heima-hollustu. Það er næstum bezt að fara svo langa ferð, að maður viti ekki, hvort maður nær „nokkru landi eða engu", ef maður þarf að hrista sig upp á ferðalagi. Bæjarleiða-standið er bara tímaþjófur og aukning við annað arg. Eða svo hefir mér virzt það einatt vera.

Ég sé, að sögurnar þínar nýju eru nú auglýstar í blöðunum heima, en ekkert hefi ég séð um þær sagt, sem varla er von, þær eru svo ný-skriðnar úr skurninu.

Jú, jú, maður ætlar að leggja þá óvenju af sér að rita. En Adam hefir víst aldrei lokið forboðna eplinu, við nörtum í það aftur og aftur, hverju sem við lofum okkur og hvað sem samvizkan segir. Við líklega veltum út af með hýðið af því milli tannanna. Sú eina bindindistilhneiging, sem ég hafði, var kvæðabindindi, líklega af því mér var svo létt um að brjóta það. Svo hefi ég nú skrifað bæði seint og illa, Magnús minn, og má nú heldur ekki sitja lengur að að sinni. Ég óska þér nýrrar heilsu og nýs heimilis, og held að það fáist og verði þér til margra ára frambúðar.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*J. Magnús Bjarnason.* Markerville, Alta, 7. des. 1910.

Góði vin, Magnús. — Þökk fyrir „Vornæturnar". Þær komu þrem dögum eða svo fyrr en bréf þitt, frá Bárdal, og miði með bóksala-rithöndinni þar innan í, sem sagði, að bókin væri frá þér. Ég las þær allar, þegar sama kveldið, og hafði skemmtun af, og er þó mjög mikið af skáldsögum, sem ég hefi enga eiru til að lesa, tiltölulega fátt af skáldsögum, sem mér finnst ekki ég vilja stryka orðið „skáld" framan af. Ég held, að þessu kveri þínu verði hlýlega tekið. Ef til vill ekki langt mál um það ritað af hverjum einum, af því þú ert ekki „nýr fugl", en kunnur af Eiríki. „Brennivíns"-Ingólf hefi ég einn séð minnast á „Vornætur" enn. Hann telur lengstu söguna lakasta, en segir ekki hvers vegna. Hann vill ekki, að þú hefðir skilið við Hrólf í miðri gátu óráðinni. Það er nú ákveðið sagt, en gæti verið álitamál. Greinin er ofurstutt, ekki óhlýleg, sízt ill-

víg, þó efnið sé aðfinnslur, og til eru þeir ritdómendur, sem á þá stefnu trúa, að tala aðeins um lesti bóka, því kostirnir sjái um sig. En ekki myndi ég hafa fallizt á það, þó ég hefði verið bókrýnni en ég er. Það verður aldrei ofviðrasamt um þig, Magnús minn, á hvoruga hlið, og segi ég þér það ekki til lasts, því flestum mun það farsælast. En, þú lumar á til lengdarinnar.

Vænt þætti mér um, að vísurnar mínar eftir Magnús heitinn urðu þér til geðs. Ekki einungis það, að ég veit, að það er mest að marka, sem málum-kunnir segja um hvert efni sem er, heldur er mér í þetta sinn hugaðra um annað. Manstu? Einu sinni þegar við vorum að rabba saman um árið, heima hjá þér, mæltist þú til, að ég kvæði um Magnús; sjálfur sagðist þú hefðir gert það, en fyndist þú ekki ná þér niðri. Þú manst, hve vænt þér þykir um hann. Ég varð víst hvumsi og dróst ekki upp til þess, eins og ég geri oft. Oft hvarf mér þetta í hug samt, en ekkert varð úr, og sízt átti ég von á að verða til að erfa hann, svo ungan. En fyrst að svona fór, þykir mér nú gott að vita, að þú ert ánægður með erfið. Þakka þér kærlega fyrir það og allt gott við mig.

Já, Magnús, í hamingjubænum hvíldu þig — við bækur. Flakkaðu, slarkaðu, lestu markatöflur, eða safnaðu beinakerlingavísum í vetur, til að hanga í heilsunni. Góða heilsu þá og gleðilegar hátíðir.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Baldur Sveinsson.* Markerville, Alta, 8. febr. 1911.

Góði vin. — Mér hefir láðst lengur en ég ætlaði að efna loforðið og senda þér línu, og svo verður það tóm lokleysa, loksins þegar ég ætla að sýna lit á því. Í þrjá mánuði hafa vesöld og veikindi gengið hér á heimili. Móður mína missti ég. Þó þess háttar sé ekki annað en hversdags-böl lifandi manna og öllum auðvitað, og þó það sé færrum lánað að verða ekki foreldralaus fyrr en á sextugs aldri, þá verður maður ögn þreyttur og eftir sig, þó hitt fólkið mitt, sem veikt varð, sé nú að frískast. Við mamma heitin vorum æfinlega á sama bæ, síðan ég fæddist, nema ein þrjú ár.

Þakka þér annars kærlega fyrir bréfið. Þess háttar er mér allténd ánægja, aldrei ömun, hvernig sem á stendur. Það, sem

heldur við, er að hugsa út fyrir sjálfan sig — að minnsta kosti mér. Þetta um ljósin þótti mér snjallt hjá kunningja þínum, án þess að ég viti, hvort það kemur rétt niður á þér. Til þess er ég þér of ókunnugur. En hitt er það: Það er eins og ljósin hafi slokknað hér í sumum, sem að heiman hafa komið. Líklega af því, að hér er nokkur súgur í lofti. Þó held ég þeir séu nú að safna olíu og gætu borið birtu, ef aftur kviknaði á, t. d. heima. Ljósin leggur þar varla eins, nema þá í pólitíkinni. Ekki í kirkjunni.

Skussi er Þorsteinn Gíslason núna í „Óðni" að ráðast ekki röksamlegar á „Andvökur", úr því hann hreyfði við þeim. Ég vissi, á hvaða dómi ég myndi eiga von þaðan, en bjóst við snjallari atreið. Ég fer að halda, að Þorsteinn geti verið sljór. Sjálfur hafði ég nú lagt honum það til, að kvæðin mín væru blaðagreinar: Ég er ei skáld, þar skal nú meira til en skrifa stutta blaðagrein í rími. — En svo er eftir að ræða, hvort blaðagrein geti ekki verið skáldskapur. Og Þorsteinn gerir þá heimsku að segja frá því, að 99 sinnum hafi blöðin ritað um sama og enginn tekið eftir, en þegar ég rími það, þá sé því hælt. En hví? Af heimsku, heldur Þorsteinn, en það er firra, því vit hafa sumir á við hann. Hann átti ekki að látast vita, að neinum þættu svona kvæði til neins, heldur hver þessara 99 miklu betri. Eins er það með Búastríðið, afleiðingarnar hafa sannað, að ég skildi það ekki! Sem sé, stjórn sú komst til valda á Englandi, sem að miklu leyti hafði líka skoðun á Búastríðinu og ég og dró úr afleiðingum þess, það sem unnt var, eins og málin stóðu þá, og þetta sannar, að ég hafði ekki skilið í því! Mér finnast svona aðfarir varla vera blaðamennsku-verksvit. En „Andvökur" gætu átt harðan dóm skilið fyrir því, en þetta nær hvergi niðri, þó gaman sé að því.

Heyrðu, hver átti þetta *þér—yður* í „Lögb." um daginn? „Hörður" hét hann þá, og ég hefi heyrt gizkað á þig. Af því *þér* meinar „komdu ekki nærri mér", sem *you* aldrei þýðir, vil ég ekkert með það hafa. Mér er sama, hvort *þú* eða *þér* er notað, sé að eins eitt og sama orð haft við alla. *Þér* er ögn örðugra og vitlausara. Annars mætti enn fjölga manninum, sem við er mælt, og segja *þeir* í staðinn fyrir *þér*. Ég hefi heyrt það hafi verið gert. Reiðstu mér nú samt ekki, hver sem á þessa grein. Ég er að spauga um það, sem mér er ekk-

ert kappsmál, meðan mér er lofað að „reka í þú-urnar“ óáreittum.

Líklega eru flestir draumar ýkjur þess, sem fram hefir farið, eða um var hugsað. Því hefir áin hérna orðið of stór í þínum augum og gljúfrótt. Þakka þér fyrir hann samt, og velkominn værir þú eins ódreymandi.

Mér leiðist að frétta nú svo lítið af högunum heima. Ekkert blað hefir borizt nú um tíma, en svo fer það líklega að liðkast með vordeginu. Héðan sé ég ekki, hvort bót yrði ráðin þó Björn steyptist. Til þess þyrftu landvarnarmenn liðveizlu Hafsteins hlutamanna, og ég vil engu við þá skipta. Mér sýnast þeir allir óvandir menn og ótryggir og ódyggir í málefnum. Jafnvel Skúli finnst mér að muni erfa missi ráðherradæmisins til Björns, meira en ég bjóst við. En, svo er maður of langt undan landi til að „vita on'í“ flokkana, þó maður geti gert mun á stefnunum.

Nú fer ég að hætta þessu. Þér fer að finnast, að einhver vindmyllan okkar Vestmanna sé að koma yfir þig, ef ég lengi þetta. — Fáðu sumarveður og glaða daga.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerville, Alta, 26. febr. 1911.

Góði vin. — Alúðarþökk fyrir komuna, skemmtunina, bréfið seinasta með hugsun þinni allri um minn hag. Ég er argur yfir, að tilviljunin skyldi gera komu þína vonum mínum verri, ykkar Eggerts beggja. Ég hafði skáldað mér hana öðuvísi, ef þið kæmuð. En svo batar ekkert að þrefa við liðna tíð um það.

Auðvitað þykir mér vænt um velvild þína til mín, viðvíkjandi því, sem þú orkaðir með „Andvöku“-sjóðinn, en *það* hafði mér ekki í hug né hjarta komið. Mér datt ekki einu sinni í hug, að hægt væri að selja afganginn nú, eins og stendur, ekki fyrr en öll kurl væri innkomin, kannske svo sem að hausti. Yrði kostnaður hluthafa þá fenginn, þótti mér vel að verið, því hann átti fyrir að ganga. Það, sem svo yrði eftir, sýndist mér bezt að selja bóksala, ef unnt væri. Öllum áhyggjum með því af ykkur létt, og ég sæti við gróðann, hérna megin heljar, ef hann yrði nokkur, sem ég hefi aldrei búizt við að gæti orðið svo sem neinu næmi. Við Eggert höfðum rétt minnzt á í bréfi, að bóksali yrði að fást að því, sem við ynnum ekki

upp, svona á endanum. Eggert setur fyrir sig, að salan gangi verr en ég ætti skilið. Hann vill mér svo vel. Í mínum huga hefir salan gengið eins-dæma vel, þegar gáð er að okkar íslenzka ásigkomulagi. En það er nú samt fyrir erfiði og fyrirhöfn einstakra manna, svo mikla, að mér hálf-sárnar. Eggert t. d. yrði raun að, að sitja hjá þessum bókum í húsi sínu, útkomulausum. Ég vildi losa hann við það. Bárdal hefði ég helzt viljað selja, ef hægt væri — ekki af góðmennsku minni, en — í hefndarskyni við guðssöfnuði! Þetta er sagt eins rétt og ég kem orðum að.

Að þið færuð að ætla mér nokkuð af því, sem nú var til í sjóði, kom mér sízt í hug. Það er ranglátt við hluthafa og gerir einhverja af þeim óánægða, sanna þú til, þeir vilja, sem von er, eiga sitt sem fyrst, enda er ekkert líkara en þeir tapi sínu, eða fái svo seint, að sama sé og aldrei, ef þetta viðgengst. Gerið því hitt heldur, skiptið þessum 400 til 500 milli hluthafa, svo sem það nær, og ef svo fer, að afgangur yrði í haust sem kemur, svo framt sem bóksali keypti að okkur skófirnar, nú þá, ja — ég á peningaveski, sem hirti það. Ég ætla ekki að reyna að telja þér né öðrum trú um, að mér sé nauðung að taka á móti skilding, sem ég þættist eiga, með góðu geði, því það væri lýgi, og mér yrði ekki trúað, þó ég segði það satt. Ég jafnvel get ímyndað mér, að það sé kannske ranglátt og bara illgerð að þiggja ekki greiða eða gjafir annarra, hvernig sem við horfir. Ég get hugsað mér, að það kunni að særa, þar sem sízt skyldi, aðhlynningar-löngun vinar manns. Ég veit ekki nema það dræpi heldur dug úr fólki, yrði því framvegis nota-vörn í hjá-hliðrun að vera íþrótta-mönnum sínum vel, ef einhverjir yrðu, hvað sem maður kann svo að virða listamennsku sjálf sín. Þetta er eins og ég hugsa, og þú mátt halda, að mér farist illa að brosa að Matta, og þó geri ég það. Ég yrði aldrei ríkur, þó ég ætti milljón. Auðvitað kæmi ég því þá svo fyrir, að ég hefði enga áhygggju um framfæri mitt og minna, né að standa í skilum við heiminn. En því, sem eftir yrði, verði ég til einhvers, til að hlynna að einhverju því málefni, sem mér er annast um, en kæmi því í enga veltu aðra. Reyndar er ég hvorki eyðslumaður né ráðleysingi úr hófi fram. Þó er hitt satt, ég eyði þar stundum 2 doll., sem öðrum lánast að lafa á öðrum, sem ég hvorki vildi né gæti. Ég er ekki fátækari þó en flestir aðrir hér, klóra mig í bakk-

ann á viðlíka. Vinna er blessun, ekki bölvun. Gallinn er, að lag og lifnaðarhættir gera hana að þrældómi, heilsu-sliti, sjálfsmorði, eins og að er farið, og maður getur hvorki forðazt það sjálfur né sannað öðrum það. Yfir lífinu á ég minna að kvarta en margur annar, en það er af því ég hefi skilið það á minn hátt, en ekki fyrir öðru vísi góða daga.

Ég er nýbúinn að lesa fundargerð Friðriklinga. Finnst hún annað en áhorfðist. Ég hefði stílað hana svona fyrir þá, að undantekinni Gamalisku þrenningunni í endanum. Hún er bæði heimsk og ónýt. Þó hefi ég nú gaman af að hugsa um, hvernig kirkjufélags apinn grettir sig í framan, þegar hann á að fara að brjóta þessa hnot, sem hinir hafa kastað í hann, á næsta þingi. Úrdráttur séra Friðriks var óþarfi. Ég sé, að hann muni eiga að vera tilhliðrun við Tjaldbúðarmenn og biskups vinveizluna heima, sem allt vilja setja í samt lag og áður. Furða það fór ekki verr, eftir því sem á var ætlað og áhrifum þingdindlanna, sem hinir stefndu að úr öllum áttum.

Þorsteinn Erl. gat þess, sem sjálfsagt er rétt, að stundum yrði mér lítið úr yrkisefni, tók til „Ætternisstapa“ og „Anda lampans“. Ég get ímyndað mér, hvað Þorst. sjálfum hefði orðið úr „Ætternisstapa“, en veit ekki, hvað hann hefði gert við „Anda lampans“.

Ég skal hugsa til skrifta þegar út á líður. Það má ekki hreyfa sig neitt meðan „Minnisvarðinn“ er að mylkjast upp. Verst, ef Þorst. liði út af áður, ef nokkuð fengist. Ekki af því, að þá sé ekki Guðrún og börnin. En honum er kannske hugnun í að mega fá að vita um það.

Hvað um Eggert? Hann mun koma aftur ráðinn heima. Hve nær á afmælisdagur „Kringlu“ að koma út? Væri ekki gaman, að flytja E. og hans fólk þann dag ofan í únitara-kjallarann, hafa þar nokkra kunningja hans til mót-töku, tala þar ögn við hann og um hann, og færa honum eitthvert kveðju-skyn, sem hann gæti tekið heim? Ég skal kveða! kveðja! Svo sendum við allt í blöðin, sem atriði í kapitulann í næsta afmælisdag „Kringlu“! — Ég má hætta. Er nú einn karlmanna heima og er að svíkjast um verk.

Fyrirgefðu fjósahöndina á þessu og vertu blessaður.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Baldur Sveinsson.* Markerville, Alta, 9. marz 1911.

Góðvinur. — Bréfið þitt skilaði sér og þakka ég þér fyrir. Mér er skemmtun að fá bréf frá sumum, orðinn latari að lesa, jafnvel ágætar bækur, heldur en ég var. Mér finnst það svo líkt því að vera að lesa upp hálfkunnar æsku-bænir, maður þekkir og man eftir hugsunum svo víða, hefir mætt þeim í eigin heima-húsum, þó bókin, sem þær hafa búizt um í, hafi aldrei orðið á vegi manns fyrr. Ég býst við þetta sé byrjun á að verða „gamall og latur". En aftur er manni órórra að frétta ekki af samtímanum, viðgangi manna og málefna víðsvegar út um heim, þeirra sem maður ann eða hefir ömun á. Ég býst við það muni upphaf að að „láta eins og forvitið barn" í annað sinn.

Ég hefi ekkert um alþing séð, en líklega hafa næstu blöð ykkar eitthvað í átt að vísa. Mér er annast um sambandsmálið, og er „bættur galli, ef merkið stendur, þó maður falli". Mér er bezt við Björn fyrir suma ráðsmennsku, sem verst líkar og líklegust er að fella hann, t. d. bankarannsóknina. En í mínum augum eru það samt aukaatriði og eins, hvort Björn eða Skúli er herraður. Af fundarsamþykktum í sveitum held ég næstum, að ekki hafi innlimendur aukizt að fylgi, og þingsetning sýnist að flokka eins fast og áður. Eitt er víst, hinir treysta því helzt, að komast að með uppþoti, en kvíða sér á allri bið.

Ja, Baldur! Veiktrúa er ég um gróðann af lestri kvæðanna minna, mér finnst allt í þeim ætti að vera svo hversdagslegt. En víst vildi ég til þess vita, að þau yrðu því til eflingar, sem mönnum verður heilladrýgst. Það eru annars fleiri en þú að segja mér það: Að þeir hafi grætt á mér! T. d. dr. Valtýr, í bréfi. Það var svo sem sjálfsagt, að hann og Þorsteinn tækju mér tak fyrir stjórnmála-kvæðin. En munurinn er: Valtýr gerir það málavillulaust, frá sinni hlið, næstum vingjarnlega. Þorsteinn með útúrsnúning og ómaga-orðum sjálfs sín, og tilliti til Jóns Ólafssonar, en þó allt svo lyddulega, eins og annað hvort hann nái nú ekki öðrum tökum á því, eða sé að segja verr en hann veit. Smátæktin er svo stór hjá honum, að hún er ekki fær um að fara í úthúðun. En Þorsteinn á mér grátt að gjalda, öðrum fremur, fyrst án þess að ég ætti þar þátt í, og nú — í pólitísku kvæðunum í „Andv.". Fyrirsagnir

kvæðanna eru úr „Lögr.“ hans. Þá sá ég ekki annað austurísl. blað. — Gleðilegt vor og velvegnun.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Jónas Hall.* Markerville, Alta, 10. marz 1911.

Jónas minn. — Beztu þökk fyrir bréfið. Það var glöggt og greinilegt, eins og við var að búast. Mér þykja úrslit eftir vonum góð, allt nema bölvuð þrenningar-tuggan í endann stungna. Ekki af því, að ég sé eingyðingur, sem hatist við þrí-gyðinga. Þú veizt það. Ég vil, að hver einn fyrir sig megi telja eins og honum þykir líklegast, þó mér virtist, að annar, eða báðir, teldu skakkt þær tölur, sem að mínu viti telja þar persónur eða persónu, sem engin er. En að stinga þessu þrenningar-djásni þarna í rófuna á fundinum ykkar, finnst mér óvit. Það er þarflaust af ykkur og ósamræmi. Þið, sem neitið játninga-bandinu, hlaupið sjálfir um með eitt hið helzta þeirra. Kirkjufélagið gengst ekki við ykkur fremur fyrir það, fyrirlítur ykkur bara dýpra, og „únitarar og aðrir heiðingjar“ erfa þetta sem óþarfa olnbogaskot til sín. Nei, það er ekki á þessari þrenning að græða. Ég hefi aldrei búizt við samsteypu ykkar og únitara, þó ég sjái, að frá beggja hlið væri það eitt skynsamlegt gagnvart heimsk-trúnaðinum. En það ætti að varast óþarfa stagl á rifrildis-atriðum upp úr þurru. Og það ætti að mega vinna hver öðrum í hag með þegjandi friðsemi og hlífni við hag og verksvið hvers annars, meira að segja skipta með sér sveitum í bróðerni, andstætt hinum, jafnvel stíga í stól hvor hjá öðrum við og við. Nöfnin lútherskur og únitar eiga að fara bæði tvö, en komast á „þjóðkirkja“ í eiginlegum, ekki lagalegum, skilningi sínum þar: „Kirkja Íslendinga“. Það er allt og sumt. Af því kjarni allrar sannrar trúar er aldrei annað en siðbót, eru öll skyldutrúar- og skyldu-vantrúar-bönd leiðin til óguðleiks, jafnvel og eins trúin á guð.

Jæja, Jónas minn, ég hafði engar fréttir að segja, svo ég skrifa bara þessa mína „réttlætingu af trú“, heldur en ekkert. Nei, ég hefi ekki séð dóm séra Lárusar um „Vökur“ mínar og fékk þó Sigurður Guðmundsson frá Mjóvadal, sem nú er nýorðinn „meistari“ í Höfn, vin sinn í Vík til að senda mér allt, sem um mig yrði sagt, að sögn þess manns sjálfs, því við Sigurður höfum aldrei hitzt að borði né bréfi.

Ég held þið Garðar-menn hafið verið heppnir með Lárusartökuna. Allir kveða hann góðan dreng, og hann iðkar íþróttir og ann þeim, og ykkur ætti að geta orðið vel við hann, hér á jörðinni. — Konan og ég biðjum kærlega að heilsa.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Guttormur J. Guttormsson.* Markerville, Alta, 11. marz 1911.

Góði vin. — Kem bara til að þakka bréfið og óska þér gleðilegs sumars, þegar þar að kemur. Þótti vænt um, að þú hafðir nokkurt gaman af að eignast „Skinnstökku" mína. Já, maður skilur þetta Guttormur, þessi kveðskapur er manni engin atvinna né orðstír, að líkindum, og maður kann jafnvel að vera óánægður yfir þessari íþrótt sinni, en hann er manni samt athvarf. Því er svo vandgert, að tefja aðra eða leiða út í hann.

Til Gvendar gæti ég ekki hugsað að þessu sinni með þér fyrr en nokkuð líður frá. Ég hefi fulla hnefa hugarins með annað, sem stendur, og minnisvarðann fyrst og fremst, því það er nú beinlínis komið svo, að það er orðið metnaðarmál allra Ísl. að verða sér ekki til minnkunar með hann. Svo þegar það kemst frá, þarf ég undir annað að taka, sem snöggvast, ef ég get nokkuð. En víst kysi ég, að Gvendur gæti fengið fé til farar, ef hann kemst og fæst, en um *það* þyrftir þú að snuðra, áður en um fé til *ferðar* hans væri beðið. Gvendur er skáld, gáfaður og allt að tarna, maður, sem ég á sjálfur gott eitt upp að unna, yfir flesta fram, fyrir velvild til kvæða minna, þó að hann hafi gefið mér undir fót, að ekki er víst, að hann stilli sig um að hefna á mér fyrir Íslands pólitík mína, sem hann má ef vill, og ég skal honum jafn-hlýr eftir sem áður, þó ég viti, að honum ferst pólitík manna lakast, slíkur veltikútur allra flokka sem hann er orðinn, og svo gleiðorður, að austan í gær, á vestan á morgun, en stefnir þó sjálfur á ekkert þar, nema ef það kynni að vera einhver matarfurðu-pólitík fyrir barnamenn í bændastétt, unz nálega enginn flokkur nennir einu sinni að eiga orðastað við hann. Ég sé þetta, þó mér sé vel við Gvend, sem ekki væri þakkandi, en ég brosi að því fremur en legg honum það til lasts. En annað er líka að, eða hefir verið, jafnvel vinum hans hefir orðið það stundum að önn, hve óþarflega dalakarlslega hann býst og ber sig, ekki minni virðingu en hann bar þá með sjálfum sér fyrir

verðleik sínum og hæfileikum, eins og líka má. Sumt af þessu kann nú að vera horfið, og ekkert vildi ég rægja Gvend viljandi, en gjarnan sjá hann komandi vestur, þó ég geti ekki móti því mælt, en búizt fremur við, að fyrirtaks-gáfur hafi fyrirtaks andkanna, einkum frá útkjálkum allra manna-móta. Veiztu enn, eða hvað? — Í ógerðum dómi eftir Jón Einarsson, um óorðna Landnámu Lárusar Guðmundssonar, kvað sú munnmælasaga hafa átt að standa: Svo kvað Lárus um Jón kargyrðing:

Kemur frá þér fávitrings
Fíni blá-þráðurinn.
Mörk hafa á sér uppskafnings
Orð þín, fá-ráðurinn.

Þá kvað Jón aftur um Lárus lausavit:

Flökku-Lár þó fullan yrði
Fleipurs-dallinn,
Hann er ekki vísu-virði
Vellu-kallinn.

Þetta kvað eiga að koma upp, þegar bækurnar verða opnaðar á dómsdegi. — Hafðu nú vor í hönd og sumar í vændum.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Eggert Jóhannsson.* Markerville, Alta, 21. marz 1911.

Eggert minn góður. — Bréfið þitt kom á föstudaginn og nú sendi ég þér þökk fyrir það. Það er gott til að vita, að þú ert skárri til heilsu í bráð, en mér finnst svo líklegt, að þessar aðsóknir gangi aftur, þegar þær sjá þig setztan í sömu stellingarnar og áður, þó þú hafir gengið þær af þér meðan þú varst á ferðinni, sem auðvitað er þó góðs viti um aðferð, sem eitthvað dyggði, gæti hún verið varanleg. En hvað sem líður, maður vill og vonar, að vorbatinn í þér vinnist sem lengst til að halda þér hressari. Já, Eggert, ég skil og veit það, sem þér fannst um komu þína hingað, frá þínu sjónarmiði. En mér var hún góð. Hingað komu aðeins góðar fylgjur með ykkur séra R., sem léttu á mér. Það er satt, þó mér fyndist ég kunna því illa, hve snubbótt hún varð ykkar hingað-koma, af því ég hafði líka áður hugsað mér það allt öðruvísi, ef þið

annars kæmuð. Ég er búinn að skrifa séra Rögnv. eins vel og ég gat mótmæli mín, að mér séu sendir þessir peningar. Ég er hjartans þakklátur velvild ykkar, en ég finn, að þetta er rangt: Ég á ekkert í þessum peningum, né þá skylda á neinn hátt. Þeir eiga að ganga til hluthafa, það sem þeir ná. Það er nærri helvíti að segja við þá, sem allt vilja manni bezt gera, að maður sé óánægður við þá, og ég er það ekki heldur við ykkur út af þessu, öðru nær. En skiptið því, sem til er, milli kostnaðarmanna. Borgið heldur út þeim, sem þið vitið, að verst muni vera við mínar „kreddur", en villzt hafa inn á að eiga hlut í því. Ég veit þeir eru til, sem lagt hafa fé í útgáfuna, en vildu nú ekki vita „Andvökur" í sínum húsum. Það eru kannske einsdæmi, eða fádæmi. En hvernig haldið þið þeir myndu nota sér það um okkur, ef þeir ættu nú líka að tapa fé sínu, eftir að hafa lagt það í óguðlegt fyrirtæki fyrir okkar fortölur, og það sem verst væri, þeir hefðu líka að mestu leyti á réttu að standa. Hugsið um þetta og fl., sem ég skrifaði séra R.

Ég veit, að það er næstum níðingsbragð að vera að gera ykkur óánægju (eftir að hafa með ómökum og góðvilja gert mér sem mest gott) í því að vera nú að þvæla þetta og auka ykkur kannske fundarhöld og skriftir. En ég held þetta blessist engum, nema mér, og þá fer verr en ég vildi. Setjum aftur svo, að „slattinn", sem eftir er, seldist, svo með því, sem nú liggur fyrir og því, sem upp úr honum ynnist, væri hluthöfum borgað, og enn gengi eitthvað af, sem þið gæfuð mér, það held ég tækist nöldurslítið.

„Andvökur" hafa lánazt vel, þrátt fyrir þegjandi andróður og lokaða flokka, sem við var að búast, bæði hér og heima. Ætli jafnvel að 14 Ólafs-almanök og 3 til 4 Friðriks „logar" hafi orðið fédrýgri yfirleitt en einar „Andvökur", sé verðsins gætt? Söluna er vel við að una, eins og kringumstæður og aðstæður okkar Íslendinga tjalda öllu til.

Ég veit ekki, Eggert minn, á hvaða andlegu reki ég er. Eins víst, að ég „betri mig ekki" úr þessu, þó ég leggi ekki árar í bát, sem kannske væri bezt. Að „forminu" til er ég kannske leiknastur nú. Sumt annað kann að fara að dofna. Hjáverkaþol mitt er frá, það er víst, og yrkisefni geymast mér miður en áður óunnin í huganum, þangað til tómstund kæmi. Hillingarnar, sem þau komu til manns í, hverfa nú

fljótar. Þegar ég nefni annríki mitt, er það í því skyni, að ég er að afsaka vansmíðar á því, sem ég vinn, fremur en telja mér raun að þurfa að vinna, því ég met það ekki svo. Auðs eður góðra daga vænti ég mér ekki. Sé ég eitthvað utan við mig og æski mér sjálfum nokkurs, þá er það aðeins eitt: Hvíld.

Nú er tíð mild og hæg. Vagnfæri komið. Þökk fyrir allt gott, og vertu nú sæll.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerville, Alta, 22. marz 1911.

Góði vin. — Aðeins örfá orð um það, sem við vorum að brjóta upp á, viðvíkjandi 100 mönnum hér og Þorst. Erlingssyni. Minnisvarða þúsundin eru óreitt saman enn, sé ég, þó þau víst heimtist um síðir. Það yrði gagnslaust og illt að ana ofan í þau. Þú ert svo nærri og kunnugur teljaranum, viltu segja mér til, með línu, þegar vel sést fyrir endann á því máli?

Svo er annað, sem ég gat ekki um í síðasta bréfi, af því ég sá það ekki þá í þann svip: Ef þið sendið mér peningana, sem þið ráðgerðuð, gæti ég ekki gengið í að skrifa mönnum t. d. í Dakota, sem ég veit, að eru hluthafar, eins og flestir eru af nánustu kunningjum mínum þar. Það væri að ganga í skrokk á velvild manna, af *mér,* á hitt ofan. Ég treysti nú einmitt *þér* til að skilja svona tilfinningar, og að þær eru ekki sagðar til að smeygja sér úr. Því hér skal ég gera sem ég get, enda er við engan að hlífast af þessari ástæðu. Hins er ekki að dyljast, jafnvel *frekjan mín* hefir líka sín takmörk.

Hér viðrar vorlega þessa dagana og fólk er frískt. Guð er bara dýrkaður með brúðkaupum og barna-spurningum, og kirkjan hérna auð og köld að öðru leyti, síðan við vorum að róta við öskunni í ofninum þar í vetur. En svo getur vel verið, að lútherska kirkjuráðið hérna eigi einhvern Olson uppi í hempuerminni sinni, þó ég viti það ekki. Ég hefi setið heima löngum. Hlustað á einn „socialista“ síðan þú varst hér, en aldrei komið á dansleik. Geng þó undan vetri lítið verr en aðrir.

Hafðu þau hlýindi upp úr sumrinu að þau endist þér yfir allan næsta vetur.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Eggert Jóhannsson.* Markerville, Alta, 2. apríl 1911.

Eggert minn góður. — Næstliðna viku fékk ég ávísanir frá Hannesi Péturssyni upp á $ 500.00. Ég þakka ykkur öllum einlæglega sendinguna og alla ósíngirnina og góðvildina í viðskiptunum við mig. Ég bið að skila því til hlutaðeigenda. Ég er ykkur þakklátur, er peningunum feginn, og þó óánægður með það, sem mér finnst hafa orðið forgöngurèttur minn í fé annarra, var jafnvel að velta því fyrir mér, hvort ég ætti ekki helzt að senda allt til baka. En ég hætti við það, þótti skildingarnir góðir auðvitað, og svo hitt, að mér fannst það svo ruddalegt við þá, sem þessu komu af stað, og það auka alla fyrirhöfn, bókun og reikninga á ný, þeim sem hafa það með höndum, sjálfsagt fyrir ekki neitt. Svo mig skorti loksins kjark til þess. Og svo ætla ég þá ekki að lengja þetta meira. Peningarnir komu mér vel, og meira en það. Eins og margir fleiri á ég í fjáreigna vök að verjast oft og tíðum, jafnvel þó ég sé hvorki rúður né ráðþrota.

Hér hefir góðviðri gengið. Í gær og dag hríðar bleytusnjó, djúpfallnari en varð í allan vetur. Óþægindi eru það í bráð, en vorbót verður úr því. Jörð var orðin of-þyrrin til góðrar sprettu, bæði hagi og einkum akurlendi.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Eggert Jóhannsson.* Markerville, Alta, 23. apríl 1911.

Góði vin. — Ég hefi enn ekki svarað seinasta bréfi þínu öðru en því, að ég sendi 3 blöðin með vísunum áskrifuðum, eins fljótt og mér var hægt. Vona að þær séu nú fram-komnar. Svo kem ég til að bjóða þér „góðan daginn og gleðilegt sumar“ og ykkur öllum, og þakka alla vináttu ykkar við mig í vetur og endra nær.

Já, Eggert, búskapur minn hættir bráðum, hann gerði það nú af sjálfsdáðum senn, hvað vinnuþol mitt snertir orðið, og svo hefi ég stefnt og mun ýta í þá átt, eins og mér er hægt að skaðminnstu. Ég held hér hægi ögn um vik, innan fárra ára. Býst t. d. við járnbraut í meiri námunda, og þá byggist landið og liðkast um margt. Ég líklega geng í klaustur um sextugt, ef ég dey ekki áður, eins og Gissur jarl, þegar hann ætlaði að verða góður og guðhræddur á Reynistað. Það var gott, að

Laurenz fékk vinnu heima. Ég bið að heilsa honum og litlu spáðum, en þær eru líklega ekki litlar lengur, orðnar tveimur árum stærri, en ég held þær eigi kveðju ennþá hjá mér. — Vorið er seint að sönnu hér núna hvað sáningar snertir, sökum hreta, sem gengu. Veður samt gott nú og gróður að koma fyrr en oft hefir átt sér stað.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerville, Alta, 30. apríl 1911.

Góði vin. — Þökk fyrir bréfið og allan velvilja þinn til mín. Ég skal segja þér nokkuð: Ég undrast ekki, þó ég fái ekki bréf frá ýmsum, sem ég skrifa, svo mjög fljótt. Ég veit, hvernig í því liggur. Kem til þeirra eins fyrir því, ef ég þykist finna erindi til, og held ég þyki ekki vera að gera átroðning — kem, með eina línu eða erindi kannske, rétt af því við þekkjumst ögn, eins og maður veifar hendi til kunningja hinum megin á götunni og heldur samt áfram.

Svo, þú ferð ekki heim í ár. Jæja, kannske þú gætir þá komið hingað sjálfur. Það vildi ég annars, að fyrir þér lægi heima-vera og heima-gagn. Viljagóður maður fær, auðvitað, meira en hann kemst yfir að gera, en mér finnst Ísland alltaf næst, vegna þarfa þess og frændsemi okkar — og satt að segja, þrátt fyrir allt, það er svo aðhlynningar-óvant, að það man manni bezt, þegar allt er loks uppi.

Ekkert hefi ég enn gert hér með Þorst.-glaðninguna. Hefi ekki þorað það, vegna dauðs Jóns Sigurðssonar. Fram úr þessu fer ég að leita lags, en um auðugan garð verður ekki að gresja, því verr. Getur þú náð til Hjálmars Bergmanns? Hefir þú tök við Magnús Hinriksson í Churchbridge? Ef ekki, skyldi ég reyna þá. Ég held hvorugur sé bankarotaður útgefandi minn, svo ég geti haldið einurð minni við þá. Heimastjórnarfundur einn, úti í sveit í vetur, mæltist til, að skáldlaun væri niðurlögð, sá ég og skildi, hvert stefndi, en svo var það sjálfskaða-vopn og heimskulegt, það skar niður Gvend og Briem og Matta með Einari og Steina. Nú sé ég, í nýkomnu blaði, að þetta á að leiðrétta á þingi, nurla af ómagaeyri skáldskaparins í þeim E. og Þ. og hækka með því meðgjöfina með gáfu Guðmundar. Reyndar hefi ég enga trú á, að þetta takist að öðru en sýna viljann, en jafnvel 1000 krónur héðan væru

beztu mótmæli þeim vilja. Þorst. mun fæddur í september. 1000 krónur eru ekki hálfur vilji, en ef þær fengjust þó, mætti samt varla ganga frá því. Það er eins og það kynni að vera eitthvert svolítið skjól í þeim undir veturinn. Og þakka ég þér kærlega fyrir umhugsunina þína um okkur Steina í þessu. Verst hvað ég er ónýtur.

Og með Eggert, ég óttast nú um *hann* meira en Baldvin, að *honum* félli ekki. En svo mætti hliðra til, að gera þetta ekki á dýrðardag „Hkr.", svo það væri ekki bein mótmæli (demonstration), eins og ég kysi þó helzt, heldur eftir hentugleikum endra nær, en svo það yrði ögn hljóðbært, að við myndum honum ritstjórn „Hkr." forðum.

Séra P. H. hér er að vaxa einhver vonarvængur um prestsskap hér aftur, að ég held, en veit ekki enn, hvað í bruggi er. Kemur upp bráðum. Væri spaugilegt. En Pétur er minni andlegur spellvirki á sinn hátt, heldur en hinir kirkjufélagsprestarnir.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Eggert Jóhannsson.* Markerville, Alta, 11. maí 1911.

Góði vinur. — Þökk fyrir bréfið það í gærkveldi og allt og allt. Já, ég renni grun í drápvægið, sem þú verður nú að bera, við doðrantana á landseigna-skránni, og þó mér þyki gott að fá frá þér bréf, sé ég í alla þá auka-áreynslu, sem það níðir út úr þér. Stundirnar, sem í það ganga, ættu að verjast í hreyfingu til hvíldar á annan hátt.

Já, það er sárt með Gunnlögsen, af því mann skortir dugandi ráð. Honum yrði líklega ekki hjálpað, sem hversdagsmanni, þó tök væru til. Hann er ættgóður og hefir með höfðingjum verið, hann gæti því aldrei á hreppinn farið, uppistandandi. Vissi maður af vini hans, þar sem hann er nú, sem væri svo laginn og honum viljaður að líta eftir honum, bægja frá honum beinum skorti og áhyggjum, án þess að karl kæmist í grunsemd um að vera gustukakind, þá er ekki víst, að um hann yrði betur búið. Hugsa mætti sér og hitt, vildu einhverjir landar hér hlynna að honum, án þess á bæri og hann yrði var: Borga honum í orði kveðnu fyrir eitthvert handrit, ef hann ætti og mögulegt er við hann að tæta um verð. Þá væri hann ekki að þiggja gjöf og kaupendum engin eftir-

spurn, hvað útgengilegt væri, ef svo stæði á. En ég veit, hvað Ísland ætti að gera: Bjóða honum kennarastöðu við nýja háskólann, þessum víðförla fræðimanna öldung sínum og samtímamanni Jóns Sigurðssonar. Ég sé ekki, að höfðingja-skap Gunnlögsens gæti þykkzt af því, miklu heldur hugnazt það, jafnvel þó hann líti smáum augum á allt íslenzkt og gæti hvorki né vildi þiggja. Ég veit, háskólinn er nafnið eitt, vísir tómur enn. Ég veit ekki, hvað mætti nefna kennslu-grein Gunnlögsens, hann er „sanskrítingur“ og eflaust fróður í því, sem ég kalla máltengdafræði (comp. phil., sem þeir nefna „samanburðar-málfræði“). En það er heldur ekki kennslan, sem ég er að hugsa um, heldur sæmdarverk fyrir þjóðina, sem henni væri lítil útlát í, þó til launa kæmi, eins og stendur á aldri.

Líklega ónytjaverk að skrifa um það heim. Öll sæti líklega fyrirfram veðsett. Gunnlögsen í þjóðtrúnni sérvitur, kaþólskur, drykkfelldur o. s. frv. Og þó hefði verið gaman að stinga upp á því, hefði maður vitað veginn og manninn, sem til mætti tala.

Bæði Alberta Central frá Red Deer og Canada Northern frá Lacombe leggjast hér fyrir austan okkur í sumar, upp til Rocky Mountain-House gamla, eða að Saskatchewan, þar í grennd í sumar. Á þeim var unnið í fyrra og er nú byrjað aftur í ár, hélt jafnvel áfram allan vetur við brúaundirbúning á Red Deer og Saskatchewan ár. Þær samhliða hér norðaustur, hvor niður í annarri. Alberta Central nær okkur, verða um 12 mílur héðan á næstu stöð norður og upp með Medicineánni. En Canada Northern hefir lofað braut gegngum Innisfail og gegnum Markerville (héraðið) á þessu sumri, ef samkeppni við aðrar brauta-lagningar sínar ekki bannaði. Þetta veit ég er satt, en ekki hvað verður efnt. *Mann* sagði þetta sjálfur, og *Clark* okkar, Ottawa þing-doktor, og *Simpson* heimaþingmaður og *Duncan Marshall,* búnaðarráðherrann okkar, fengu Sifton for-ræðismann til að lofa stjórnarábyrgð á þessa leið. Hina braut sína byggir „Kanada-Norðri“ hér leyfislaust og mælingalaust, fyrr en jafnóðum. Alberta Central klagar og lögsækir nærgöngu hans, en vinnur ekki á. Eða svo gekk það í haust og vetur. Líklega samið nú.

Svona standa nú okkar vega-vonir, hvað sem rætist.

Já, Eggert minn, ég er í alvöru að treina mig, það sem ég kann, ekki til skáldskapar né langlífis, þó ég verði við hvoru

tveggja meðan ég vinnst til — en til að líða sem skást. Senn er sjálfhætt, ég finn það. Ég var að höggva tré nýlega:

Forðum átti ég flestar spýtur
Felldar úti í skóg.
Kösturinn minn er minnstur nú,
Meiri streitan þó.

En ég verulega ann vinnu, en trúi ekki á það, „að plægja einn dag og liggja svo í viku", eins og Soffía sagði um Tolstoj sinn. Allir mega dá það. Ég heimska það, viljandi gert. Ég vil nú veigra mér sem mest við vetrarvinnu, setjast alveg í letigarð eftir sextugt — liðug tvö ár þangað til.

Já, Sig. Helgason tók hér land. Jónas á Markerville Jónsson læknis Jónassonar læknis á Syðsta-Vatni er mágur hans og réði þessu. Sigurður mun félítill. Mun ekki hafa bragðað vín í 2 til 3 ár samt. Hann kemur með lúðra frá Winnipeg fyrir flokk hér, og ég verð feginn, því baul er betri skemmtun en sumir dansar.

Nú verð ég að hætta, því ferðin fellur með bréfið. — Líði ykkur öllum vel og blessaður og sæll.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Baldur Sveinsson.* Markerville, Alta, 19. maí 1911.

Góði vin. — Ég kem bara til að segja þér þökk mína fyrir „Bókafregnina" í „Lögbergi", sem við „Andvökur" átti. Skýringin um Baldvin Einarsson var mér góð, ég á svo bágt með að gera þess háttar sjálfur, finnst ég eigi næstum rétt til að heimta, að menn, sem ég tala til, viti það allra algengasta, sem ég veit sjálfur, það, sem varla er mögulegt að hafa komizt hjá að heyra oft og sjá, jafnvel þó maður væri „leggur uppi í vörðu". Ég veit, hversu fátt ég sjálfur veit og ruglingslega, svo ekki mætti verra vera.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Björn Hjörleifsson.* Markerville, Alta, 13. júní 1911.

Góði vin. — Fyrir nálega viku kom peninga-bréfið og bókin frá þér, en einhvern veginn hefi ég ekki náð í tíma til að taka mér það til þakka fyrr og láta vita, að allt komst þetta

leiðina sína. Ég þakka þér innilega hlýleik þinn og gjafirnar. Andersen hefi ég hvorki átt né lesið hann allan, en auðvitað kynnzt mörgu eftir hann og um hann á íslenzku, ensku og dönsku, í ýmsum reitingi. Ég á því nýja bók, þar sem hann er, sem mér er velgefin. Andersen þykir mesta Dana-dýrðin í bókmenntunum. Hann á allan sinn heiður. Ég hefi unað af honum. Að finnst mér það, að æfintýra-hringur hans er nokkuð smár, þ. e. a. s. mörg æfintýri eru vafin um sama veruleikann, ef út í er hugsað.

Nei, „The Jungle" hefi ég ekki lesið, og veit varla, hvort ég læsi hana með ánægju. Sinclair en jafnaðarmaður, vitsmunamaður og margt gott, en þó hann sé höfundur, sem heimurinn hefir orðið að marka, er hann ekki að sama skapi endingargóður, enn sem komið er. Honum fer, eins og hann sagði sjálfur um „Viðjur" — Jungle — sínar: „Ég ætlaði að hæfa menn í samvizkurnar, en hitti þá í magann".

Kver Huldu á ég. Hún er „stúlkan mín" í ljóðum. Það er unaður að mörgum kvæðum hennar. Hún fékk óskiljanlega fagnaðarlitlar viðtökur hjá bókrýningum heima, jafnvel þeim, sem vildu vel um hana segja, eins og Karl Finnbogason. Þorsteinn Erlingsson bætti að vísu nokkuð um það, og Gvendur Friðjónsson ögn. — Hulda mín er bezta stúlkan í fyrra og ár!

Dalina verð ég að senda þér aftur, Björn minn. Hefði ég *átt* Andersen eða *kunnað* hann, skyldi ég hafa keypt mér bók fyrir þá, eins og þú lagðir fyrir. En nú var það ekki, og mér finnst það sama og að halda fé ranglega að þiggja hvort tveggja. Vel veit ég, að þú ert líklegri til að sakna fremur Andersens úr skápnum en skildinganna úr sjóðnum, svo þú sérð, að hér er ekki verið að hlífast við. En ég þakka það samt af allri alúð, og það frá þér, alókunnugum manni, sem ekkert átt mér að launa.

Líði Guttormi sem bezt. Ég bið að heilsa honum. Í honum er efni öðrum mörgum fremur. Hvað úr því verður, kemur undir samtíðinni. Svo er hitt ekki svo lítill mannkostur, að geta stytt manni daginn og veginn.

Með vinsemd Stephan G. Stephansson.

*Eggert Jóhannsson.* Markerville, Alta, 15. júní 1911.

Eggert minn góður. — Mér finnst einhvern veginn svo drussalegt að senda þér nú enga línu, þó ég hætti að eiga „Andvöku“-erindi til þín svo misserum skipti, að ég setzt að því að rispa þér á einu arki. Ekki til að kúga þig til skrifta, heldur bara svona að koma við, án þess endilega að setja upp að geta nú enn haft gagn af þér. „Nú er sumar í sveitinni“ og allar gróða-vonir „í essinu“ sínu, og áhyggjurnar um sjálfan sig og sitt að margfaldast, til að fá að lifa eins og mann lystir, allt eftir hvers innræti. Sjálfur er ég óánægður, ekki yfir tekjum mínum, heldur að mig brestur þol til að vinna að því, sem ég held að sé fram í veginn rétt hérna á blettinum kringum mig, því ekki ætla ég yfir neinu að gúkna. En svo á ég mína bakhjarla, dálitla samúð með málefnum mannanna, nokkurn unað í góðum ritum og er ekki alveg blindur fyrir fegurð náttúrunnar. Þetta er viðhaldið. Járnbrauta-málin hérna skaltu fá fram á þessa klukkustund. Kanada-Norðri vinnur af kappi vestur undir fjöll, frá Sylvan Lake (fyrr Snake Lake) vestur að Rocky Mountain House. Þeir segjast verða lestgengir um 1. sept. frá Lacombe (á Calg. & Edt. brautinni) vestur að Rocky Mnt. Hse. „Alberta Central“ allur enn í óreiðu. John T. Moore, forseti hans, veikur eða vitskertur austur í Ontario. En sú braut verður byggð (líkl. breytt um legu þó) á endanum, en fyrir C. P. R. eða Hill, því Red Deer félagið, sem leyfið fékk og ábyrgðina, eru bara gleiðgosar. Við þekkjum þá. Nú er verið að „frjósa út“ eitthvað af því hyski. Vestan við ána hérna, um 5 mílur héðan, hafa nýlega einhverjar brauta-skygnur flogið fyrir, en það er ekki mark á neinu takandi, varla fyrr en torfan er járngirt.

Einhver mynd af Jóns degi Sigurðssonar verður á Markerville á laugardaginn.

Hvernig líður Kristjáni Stefánssyni? Ég bið kærl. að heilsa honum. Mér hefir farizt illa við hann, aldrei getað gert honum neitt til minja. En það er nú ekki nýtt fyrir mér.

Jú, ekki skal ég fara án þess að kvabba ögn, fyrst ég mundi eftir því. Sjáðu mér út „skekkla-bók“ (scrap-book) fyrir kvæða-blaða-klippinga. Ég á 3 fullar, og sú síðasta nýþrotin. Engar fást hér, ekki sem mér hæfa, og þó þarf ekki mjög mikið, eitthvað dálítið stórt í broti og ekki ákaflega skammar-

lega bundið né skjöldótt á belginn. Sú síðasta er alsvört, skinnbundin þó, held ég (en það þarf ekki), grallara-löguð, 11×15 þuml., um 30 þykk blöð. En svo þarf ekki að miða við það, því sín skruddan er með hverju laginu, allar 3, eins og „þorskhöfða-prédikanir" séra Sigvalda. Á þessu liggur nú ekki, bara við tækifæri, en láttu mig vita verðið og burðargjald, ég borga þetta að fullu, því þetta eiga að verða fémæti á sínum tíma, og ég ætla að endast til að rugla fjórðu syrpuna út, það er að segja, ef ég hefi frið til þess fyrir járnbrautaskröltinu, sem ætlar að verða hérna. Magnús gamli Skaftason hefir skrifað mér. Þykist muni koma hingað. Vill fá mig „allan" fyrir tímaritið, hafa mig alveg einn í hnefa sínum, eins og Pat Burns nauta-ketið hérna.

Er líklegt, að Þorsteinn Björnsson, Garðar „kandidatus", komist þar að, ef úr nokkru verður? Mig sló það af „innleggi" hans um leirburð, sem stóð í „Kringlu", þó sú grein væri víðast bezta gerðin í því máli. En að öðru leyti, — ég kvíði því, að lítil gæfa stæði af Þorsteini. Alveg hafði ég ásett mér að kveða ekkert um Jón Sigurðsson, og hélt mér tækist það. Ég veigra mér æfinlega við að æpa með vegsemd allra munna. Ekki af því, að ég haldi hann ekki allrar-virðingarverðan, sem vegsamaður kann að vera, en mér finnst það nærri verk til að sýnast með, að bera í bakka-fullan læk, og vil helzt geta þeirra, sem gleymzt hafa. Þó gerði ég þetta núna, hafði það á tilfinningunni, að reyndar gerði ég ómaklega við Vestur-Íslendinga að neita þeim alveg að reyna við Jóns-minninguna, sem þeir höfðu látið sér annt um. Annars fannst mér, að mér takast skár en ég hélt að yrði, og eitt er gott, kvæðið er svo stutt, að það verður aldrei nema til smá-leiðinda, ef illa fer.

Hugsað hefi ég mér að fá vel bundið eintak af „Andvökum" handa Hirti Þórðarsyni og konu hans í Chicago, svona þegar frá líður. Auðvitað þarf ég þar að eiga ykkur að. Þau hjón hafa sent mér bækur margar og góðar og ég veit ekki, hvað annað ég gæti tekið upp. Alúðar-kveðja mín til ykkar og allra vina minna í Winnipeg.

Vinsamlegast þinn Stephan G. Stephansson.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerville, Alta, 28. júní 1911.

Góði vin. — Ég ætla að láta þig vita að gamni mínu, að þessir lúta-lúthersku (sbr. *lúta*-fullur) hérna hafa keypt því við Carl Olson að kristna sig yfir september og október í haust, fyrr hvað hann ekki mega yfirgefa þær kristilegu óspektir, sem Wynyard-búar hafa af hans völdum. Ég hefði nú nærri búizt við, að Olson yrði ekki sleppt, en Sigmar sendur, því hver ætti að sá illgresi í Wynyard á meðan? Og „hvað á hrafn að éta?“

Fleygir akuryrkjunni
Óðum fram, hjá kirkjunni,
Olson hennar illgresi
Á að sá í „Víngarði“.

Svo er nú ekki frekara um það. En verður nokkuð af að nokkur af ykkar hálfu komi hingað? Seinni hluta næsta mán. byrja sumarannirnar fyrir alvöru og öll sáluhjálp verður útundan.

Horfur með jarðargróða og járnbrautar-sprettu hér eru með bezta móti, sem stendur.

Ég held ég „komi konunni af mér“ og Helga mín skreppi til Wpg og Dakota í sumar. Ekki vænti ég, að þú verðir í Wynyard 2. ág. næst, sem þar á að haldast? Ég veit ekki nema ég verði þar. Sig. Júl, hefir alltaf viljað koma mér þangað til „vetrar-blóta“, en ég hefi lagzt það undir höfuð, en nærri boðið að koma heldur einhvern Íslendingadag. Gert það mér til málsbóta. Reyndar á ég nú allténd að kveða eitthvert „minnið“ fyrst og fremst. En það kallar svo víða að, og ég neita því svo sífellt, að ég er alls staðar orðinn útlægur, svo ég held ég megi gefa mig sjálfan upp, ganga í greipar þeirra einhverra, sem ég hefi gert þenna órétt, og láta þá hengja mig, til að losna við þetta, og Wynyard-menn eru margir gamlir Dakota-sveitungar mínir, svo ég held helzt, að ég ætti að trúa þeim til þess, og veit þeir gerðu það myndarlegast.

Baldur sonur minn hefir eignazt fjórða króann. Það fer að verða „ofurlítið í því“ að skíra fyrir hann. Hér er nú Sigurður Helgason, söngskáld. Má nú bráðum messa með „fögrum söng og saltaríum“, þarf ekki að láta hvítvoðung skæla í orgelið, eins og þú manst kannske eftir.

Ég gat nú sagt allt þetta með meiri alvöruorðum. En ég verð dálítill gárungur þangað til ég þagna alveg. Ég vil vera það. Bið kærl. að heilsa og kveð þig svo.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Baldur Sveinsson.* Markerville, Alta, 7. júlí 1911.

Góði vin. — Þökk mína fyrir bréf og bréfspjald frá þér, sem ég hefi enn engu borgað. Ég hefi engum nennt að skrifa nema konunni, nú lengi, og henni þó ekki annað en heimilisskýrslur, bara til þess hún hefði sem minnstar áhyggjur heim, til þess að geta notið ferðar sinnar sem bezt. Tíðin hérna er alltaf sífelld úrkoma og verkleysa, og andlega er ég nú líka eins og „blautur skinnsokkur“ og einhvern veginn útideyfður, svo að það verður engu að heilsa í því, sem ég get sagt, ekki einu sinni heylykt af því, hvað þá meira. Vegna bús og veðurs varð ég að hætta við Wynyard-ferðina, ég hefi æfinlega verið svo skapi farinn og þurft á því að halda að láta lífsbjörg sitja fyrir leik, og nú má ekki vera fráverandi, ef nokkur sólskinsstund kæmi. En, mér féll hálf-illa fararhaftið, mest fyrir þá sök, að ég nærri prettaði kunningja mína, þó ég hefði reyndar aldrei bundið þessa ferð sterkum fastmælum. En, maður er alltaf vís til þess að lifa betra veður enn. Þú heldur, að ég geri mér of-vonir um skilning fólks almennt. Ég veit varla. Ég hefi svo oft rekið mig á slíkt ótrúlegt fásinni, að mér finnst reyndar engrar heimsku örvænt. Sjálfur veit ég næstum ekkert og allt í graut, en hamingjan! Við Íslendingar höfum í margar aldir alizt upp á sögunum okkar og biblíunni, kunnum að nefna það helzta í þeim, og höfum lesið það, en erum alveg utan við það allt, ef í það er gripið, og það þó óskiljanlegt sé, hvernig við komumst hjá að lofa ýmsu að lafa í okkur, sem við höfum rekizt innanum alla æfi. Mér gengur næstum verra til en það, að ég búist við betra: Það liggur nærri, að ég fyrirlíti svona gisna heila, t. d. að vera íslenzkur blaðamaður og vita ekki, hvar maður getur „flett upp á“ atriði um Baldvin Einarsson, eða hvað Jón Sigurðsson hafi ritað fyrir almenning. Slíkt stafar af því, að undir niðri hefir maður skömm á að *vilja vita* annað en bláasta bull. Sjálfur hefi ég stundum í viðtali og að fyrra bragði reynt að skýra eitthvað, sem ég vissi á sauðarsvip áheyrand-

ans, að hann áttaði sig ekki á. Þá hefir oftast verið jankað, „jú, jú, maður kannaðist nú við það“ — þótt skömm að, að þekkja ekki jafn-algengt og einfalt. Út úr þessu er ég orðinn svo kargur, að ég á bágt með að gera skýring á vísu eftir sjálfan mig, á prenti og að fyrra bragði, eins ljúft eins og mér væri að svara þeim, sem innti eftir, hvað ég eiginlega væri að fara, einhvers staðar þar sem ég hefi orðið of-tyrfinn. Um skýringar annarra þykir mér vænt, það, að þeir skilja mig, og vinsemd þeirra við það, sem ég fór með, í að vilja gera öðrum það skiljanlegt. — Þarna sérðu nú „sálar-ástandið“.

Ég trúi á uppruna nýrrar aldar á Íslandi. Finnst ég finni hana hér og hvar í aðsigi. Leiðtogarnir gömlu eru eðlilega hálf-danskir, Hafnar-menntaðir í mörg ár og ósjálfrátt „innlimaðir“ meira og minna. Öðru vísi gat ekki farið. Viðskiptalífið núna eftir danskri fyrirmynd frá Alberti-öldinni, sem líka er náttúrlegt af aðstöðunni. Helztu skáldin, eins og Matthías og Valdimar, góðskáld í sumu, en reyndar vöggubörn sýkts aldaranda, sem hvergi er vilja-festa að baki, en eru andlegur reyr, skekinn af einhverjum kærleiksvindi, sem blæs hingað og þangað — þykist auðvitað blása öllum gott, og vill það víst, en blæs svo að allir verða voteygðir, og allt matur, sem kemst í þennan andlega kærleiks-maga þessara íslenzku heimsborgara-skálda. En, æskan gefst senn upp á þessum óákveðna kærleika og milli-landa pólitík, nú sjást og heyrast merki um það hér og hvar.

Ég er ekki eins óánægður með síðasta þing eins og margir aðrir. Þrátt fyrir allt, fannst mér landvarnarmenn koma sínum árum fyrir, framar vonum, eins og á stóð. Ég er helzt á þeirra bekk. Björn var nú réttilega felldur, hvað sem við tók, vegna stöðunnar, sem hann tók í botnvörpunga-gjaldinu og þingsetu hinna konung-kjörnu. Hvorugt mátti viðgangast ótalið, hvaða nýjum rangindum sem Dana-stjórn svo beitti; því verri sem þau yrðu, þess lakar stendur hún að vígi einhvern tíma seinna. En í bankamálinu á Björn sína uppreisnarvon enn vissa, það sannast á endanum.

Vel trúi ég því, að Jóhannes glímu-garpur geti átt þig á fæti. Annars hefi ég ekki séð ensku greinarnar hans, né þekki til þess máls. Í einhverju hefi ég heyrt hnjóta eins og í þá átt, að hann væri ekki laus við skrum og illfylgni. Greinin hans í „Hkr.“ fannst mér hálf-leið: Að afsaka *sig* með því,

að ritstjóri hafi látið sig segja það, sem ekki var satt, en hafa hvergi reynt að leiðrétta. Annað hvort virðist hann hafa fallizt á ranghermið í auglýsinga-skyni, eða þá látið sér á sama standa, hvað haft var eftir sér. Svo þetta hégómahang á „heimsmeistara"-titlinum. Orðið er heimskt í þessari merkingu hans, háðslegt, og tildrið við að tylla þessu á sig. — Greinin þín til „Þorv." hefði verið nóg. Ég vissi ekki um hana, þegar ég svaraði, en vildi ekki láta náungann komast upp með, að „Lögberg" hefði gert vísuna að vitleysu, af því að hann fór með heimsku. Við hinu skal ég ekki bjóða fé, að vísa geti ekki verið á annan hátt en ég hefi hana, eður eftir annan mann en ég veit hana eignaða.

Jæja, Baldur minn, þakka þér fyrir skemmtunina og öll hlýlegheitin, og líði þér vel heima, hvort sem þú ferð fyrr eða síðar, og víst væri gaman að mæta þér hér. En, Baldur, í alvöru, ég fer að reskjast og heimför mín nú svaraði aldrei kostnaði — hún yrði bara mér einum til skemmtunar, en engu því til gagns, sem ég vildi. Okkar á milli, það hafa einhverjir heima víst rabbað um, að ég kæmi heim til þeirra. Ég veit það á gömlum bréfum, sem ég á frá Jóni Ólafssyni og Einari Hjörleifssyni, og tveimur eða þremur stöðum öðrum. Ég hefi æfinlega dregið úr því, hálf-skildist ég myndi verða eitthvað „styrktur til að sigla", en Ísland hefir nóg með að gera, og hver nóg á sinni könnu, án mín. Ég hefi líka kveðið af mér hylli sumra þessara manna síðan með pólitík, sem von er, þó mig ekki iðri þess. En — hver ætlar á? Maður tekur ekkert alveg af, en leikur sér að gömlu draumunum sínum til loka, jafnvel þó vitið segi manni, að þeir þýði ekki neitt. — Virtu klórið til vorkunnar, og vertu nú sæll.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*P. S.* — Mér þótti vænt, að þér líkaði J. Sigs.s.-kvæðið. — Satt að segja ætlaði ég að þegja. Láta Baldv. Einarss. nægja mér, eins og lágmynd á ljóða-stalli Jóns. Þá kom bréf þitt. Þótti illt að neita þér og jafnvel hugsaði, að einhverjum kunningjum mínum kynni að þykja verr, ef ég þegði, Svo gerði ég eins og ég gat. S. G. S.

*Jónas Hall.* Markerville, Alta, 11. júlí 1911.

Jónas minn. — Þökk fyrir bréfið síðasta. Ég hefi ekkert að segja í fréttum. Við höfum átt við sífellda vesöld og veikindi að eiga nú um 3 mánuði, mest er það landfarsótt af lungnahimnubólgu (pneumonia). Mamma andaðist, eins og þú munt hafa frétt. Telpurnar tvær urðu veikar, eru nú að frískast. Aftur liggur nú kona Munda míns og barn Baldurs, og ýmsir fleiri hér í kring. Harðviðri gengu langa hríð eftir nýár. Nú er vægara. Hingað komu þeir séra Rögnv. og Eggert Jóhannsson snöggvast.

Þið ætlið að þinga, og sumir halda, að allt ætli að skríða inn aftur. Hefði nokkurt vit, skoðun og einlægni verið í þessari hreyfingu úrsagnar-manna, hefðu þeir átt að semja um samvinnu við únitarana. Það var bæði sanngjarnt og sigurvænlegt og vegurinn til að koma kirkjufélags-æðisgengna íhaldinu fyrir kattarnef. Það hefir lengi verið okkur voði, ekki vegna trúar sinnar á guð né andskotann, heldur af því, að það af-vitkar og af-mennir okkur, eins og nú er komið með allra vitorð og almenna þekking.

Ég ætla nú ekki að verða langorðari þetta sinn. Koma bara til að láta þig sjá, að eitthvað tórir enn, og biðja þig að bera kveðju okkar þeim, sem um okkur vilja vita, heimili Jonna og þínu.

Svo býst maður við þingfréttum bráðum, heiman og héðan, einhverju til að róta í fálætinu, meðan maður endist til að verða ekki öllu afhuga.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Baldur Sveinsson.* Markerville, Alta, 7. okt. 1911.

Góði vinur. — Þökk fyrir bréf þitt, gott og skemmtilegt. Ég hefi nú orðið seinn til svars. Það er eins og þessi aðgerðalausa votviðra-tíð, sem hér drottnar yfir Alberta í allt sumar, gangi að manni, bæði ytra og innra. Að minnsta kosti hefi ég lifað því andlega arðlausasta lífi nú lengi, sem ég man til mín — varla klórað bréf. Ekkert verður að búverkum, og samt gengur maður illa undan þeim, þegar maður er farinn að „láta sig“.

Önnur urðu nú kosninga-úrslitin í Kanada en ég hélt, og

bölvun hefi ég á þeim, þau stafa af svo almennri heimsku. Ég er nú ekki stálsleginn „liberali“, þó ég hafi æfinlega greitt þeim atkvæði síðan ég kom hér, og okkar á milli, ég held ég ljúgi því ekki, byggðin hérna væri „konserva-tisk“, að ég ætla, hefði ég aldrei spillt um það. En, reyndar er ég „liberali“ af því ég er „fríverzlari“ og jafnaðarmaður, fyrst og fremst. Svo finnst mér þetta svo roga-vitlaust, þekki ekki dæmi til þess, að nokkur þjóð hafi neitað að þiggja af annarri meiri tollniðurfærslu en hún gerir sjálf! Það er sú heimskulegasta toll-heimska, sem nú er uppi, og er þó víða að verið. Sem frjálsust viðskipti og viðkynning þjóðanna eru í mínum augum undanfari þessa „bróðernis“, sem allir staglast nú á. Mér skilst það meira en fjárhags-mál, þó það sé svo líka. Það eru heldur ekki „frjáls viðskipti“, sem „innlima“. En — nóg um það.

Hvernig datt þér í hug, að „Stórgripur á mynd“ ætti við þann, sem þú heldur? En það er rétt tilgetið. En ég má ekki láta þig halda, að það eigi neitt skylt við Garðar-safnaðarháðmyndina í „Kringlu“, að ég kvað. Svo hvefsinn er ég ekki. Ég veit, að Þorst. hugsaði hana upp fyrir þann, sem hana dró. En mér stóð alveg á sama um hana — þótti ekkert í hana varið, of-miklu hnoðað á hana, svo hún væri spaugileg. Aðeins eitt broslegt og vel tilfundið, það var Gamalíel eins og hrafn á kirkjubustinni að krunka: „Vér trúum á heilaga þrenningu!“ En — í vetri var fékk ég bréfspjald með háðmynd, mýldum hundi, og þessa vísu með torkenndri rithendi:

„Áður var mér frelsi fengið,
Fjalls af tind ég horfði á landið.
Nú er manndáð minni gengið.
Múllinn, það er — Friðriks-bandið“.

Ekki veit ég, hvað kom yfir mig, en ég eignaði strax Þorsteini þessum vísuna, þekkti þó hvorki manninn minnstu ögn, rithönd hans né kveðskap. Átti engra skeyta von frá honum. Ég hafði heldur lagt honum lítils háttar og sjálfsagt gagnslaust liðsyrði. Af því þetta lagðist svo ríkt í huga minn, sendi ég spjaldið manni, sem ég vissi, að þekkir skrift Þorst. Fékk svar, að hönd hans á því væri óþekkjanleg, en líklega gizkaði ég samt rétt til. Meðan á því stóð, sendi ég „Lögb.“ vísuna, til að „beita fyrir“, og viti menn: Þorsteinn segir þá á eftir

sama manninum, sem ég sendi spjald hans, að hann hafi sent mér vísuna, en Sveinbjörn Árnason, fasteignasali, verið skrifari sinn. Oft hefi ég hlegið að þessu síðan. Og svo er sú saga öll.

Það getur vel verið, að það sé ljóður á ljóðum mínum, að þau taki lítið á tilfinninguna, ég get dæmt um það sem mér óskylt mál, en ekki samt hliðdrægnislaust, því ég fer eftir því, sem ég ímynda mér, að skáldskapur ætti að vera, vel gerður. Því er ekki að leyna, ég er dauðleiður á mörgum tilfinninga-kveðskap, sem flestum fellur, finnst hann koma frá hjarta, sem tómahljóð er í, vera óp, fremur en næmleiki, og þá — lítilmannlegur — óskáldlegur. Ég met ekki tilfinningar eftir því, hve hátt er haft, heldur hvernig hjartað titrar. Ég kýs mér tilfinninguna, sem gengur um fáorð og aðhlynnandi, með viðkvæmni í svipnum og hlýindin í handtökum sínum, eins og móðurástin, fremur en æsing unnustunnar, sem beljar yfir banasænginni. Ég verð meira hrifinn af því, hvernig skáldin búa um tilfinningar sínar, heldur en hversu stórt þau stafa að þeim. Það finnst mér líka sérstaklega norrænt-íslenzkt, svo sem víða í sögunum okkar. Þannig hefi ég reynt að gera mörg kvæði mín úr garði. Það eru aðstæðurnar, ekki upphrópin, sem ég hugði að láta túlka mínar tilfinningar. Ég hefi þá trú, að með stærri menning rými sjálfs-bölið fyrir samúðinni, svo sem „Bálför gamalla unnustu-bréfa“ verði þá ekki tekin fram yfir „Pétursborg“ mína, svo ég taki eitthvað til (af handa-hófi, né haldi ég sé að tiltaka stórvægi). Það var annars skrítið, mótbára þessa tilfinnninga-dofa míns kom ofurlítil í fyrra, úr þeirri átt, er ég sízt bjóst við, í „Þjóðólfs“-dómi um „Andvökur“, þar voru tiltekin sum eftirmælin mín. Annars er ég að segja þér kvæða-regluna mína, fremur en að verja þetta mál. Ef ég nenni að skrifa upp, legg ég með „stælíng“ af rímnamansöngvum, nýkveðinn. Mansöngvar urðu nú alltaf fordild og leirburður. Við og við kveður þó við raunatilfinning, angurvær en íburðarlaus, svo önnur þjóðkvæði, sem meira er gert úr, hljóma ekki hreimdýpra. Ég var að reyna að ná einhverju af því, sem mér hefir fallið bezt. Farðu yfir það, og þú mátt láta það í „Lögberg“, ef þú vilt. Er ekki tilfinning t. d. í þrem síðustu vísunum? — í líkingunum, ekki í kveinstöfunum sjálfum. En, þetta eða eitthvað svipað er nú mitt lag. Svo kann ég ekki þessa sögu lengri, að þessu sinni. Gangi þér svo vel, og komist þú heill heim. Þökk fyrir

skemmtunina og hlýleikann til mín. Skrifaðu mér einhvern tíma, ef við endumst lengi báðir. Heilsaðu frá mér, eins og þröstsurinn hans Jónasar, þó það sé spaug, að ég eigi þar engil né stúlku, neitt annað en smalaminningar — og vertu nú sæll.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*J. Magnús Bjarnason.* Markerville, Alta, 23. okt. 1911.

Góði vin. — Það er hádegi og hríð hér núna, og ég búinn með morgunverkin. Svo minnir mig, að ég lofaði þér línu einu sinni á ári, minnst, þegar við sáumst fyrst. Nú man ég ekki, hvort ég á þér óborgað þetta loforð mitt fyrir 1911, en læt hríðina ráða og sezt til að skrifa þér. Ég er nú kominn á 59. árið og langar til að fara að reynast ögn áreiðanlegur, „því það er þó allténd og óneitanlega vissara, ef þetta skyldi nú vera satt, sem kirkjan kennir", eins og einn vinur minn sagði um trúarskoðanir sínar einu sinni, sem ég var viss um, að vit hans véfengdi.

Hér hefir verið mesta sumarleysa, allt reyndar sprottið, en ekkert þornað. Yfir mig hefir rignt, eins og ég væri bæði „ranglátur" og „réttlátur", eða, það hefir verið meira en nóg yfir tvo. Bæði búskapur minn og skáldskapur hefir „legið í" í allt sumar. Ég hefi haft nóg erfiði, en litla athöfn, og geng horaður undan sumri. Samt er nú sinnið og skinnið mitt svipað eins og þú vissir það seinast. Hugurinn bætir við sig svo sem einu kvæði og heilsan einum kvilla, með hverju árinu. En hvernig líður þér? Ég hefi helzt það um þig heyrt, að þú hafir ekki gegnt mér til þess að „fara út og flakka", eins og ég réði þér til, heldur kennir þú í barnaskóla enn. Þú mátt nú til að hætta kennslunni, Magnús, um nokkurt skeið að minnsta kosti, annars eyðileggur hún þig bæði að heilsu og hugsunum. Mér er það alvara, það stenzt enginn þetta tilbreytingaleysi. Sama verkið, árin út og inn, er eins og að slá alltaf ofan í vatnið með puntstrái, eða manni finnst svo, sem er hið sama; samtíð og framtíð manns verður eilíf flatneskja, þar sem hvergi markar fyrir spori, og þeim er þetta hættulegast, sem mest er fjölhugsandi, og einkum þeim, sem eitthvert listamanns-eðli er í, af því allt líf er nú hreyfing, en aðsetan óhollust því, sem mest er lifandi. Það er jafnvel stundum bót í breytingum til þess, sem virðist verra.

Þú ættir nú að geta bylt þér um, án þess að „flakka", Magnús minn, — en skipta nú um atvinnu, um tíma að minnsta kosti. Þú færð nýtt líf og nýjar hugsanir, áhuga og yrkisefni, við hreyfinguna innan um nýja umgerð. Sjáðu til, nú eiga „konservatívar" alls ráð „á himni og jörðu", eftir kosningarnar, en við „liberalar" tjöldum þar utangarðs. Ég býst ekki við, að þú sért flokksmaður, fyllir ekki einu sinni flokk þess, sem af skömminni til er skást af því, sem um er að velja, eins og ég geri. — En hvað um það, þó hlutur þín sjálfs hafi ekki beinlínis upp komið við stjórnarskiptin, þá er það heldur vina þinna og kunningja. Krefðu þá um liðveizlu um einhverja þá atvinnu, sem þú hefðir hug á. Þú gerir það eins mikið í framtíðar-þágu okkar Vestur-Ísl. eins og þína sjálfs, því seinna spyrst það af okkur, okkur til skammar, ef við látum þig kvonast upp í þessum barnaskóla-beitar-húsum. Farðu nú á fund Baldvins og krefðu hann aðstoðar, því það er skylda hans, sé hann íslenzkur flokks-höfðingi þarna, skylda hans gagnvart sér og flokki sínum að gera það, sem vel myndi fyrir þeim mælast. Sjáðu til — svona för er ekki beiningaför, hver maður á réttar-tilkall til þeirrar atvinnu, sem heilsa hans orkar, auk þess sem þú verður ekki metinn hversdagsmaður hjá þinni þjóð né sveit. Reyndu nú þetta og segðu mér svo, hvernig fór. Þú átt svo skammt til vettvangs þarna, til Winnipeg. Mest gaman þætti mér, ef þú gengir einn í hauginn til Balda og fengist við hann. Hann er allt annað en fítungur, og vinir þínir myndu ekki hlaupa frá festunum.

Nú man ég héðan af, að ég hefi efnt orð mín við þig um bréf 1911, því mér er ramm-alvara að fá þig til að reyna þetta. Ég er viss um það Magnús, að það getur heppnazt, til góðs bæði okkur Vestur-Íslendingum og sjálfum þér.

Jæja, alltaf snjóar úti og nú þarf ég bráðum í fjósin og svínastíurnar, svo bréfið verður að botngirðast, og mig skal ekki furða, þó þú yrðir hálf-feginn að mega sjá af klórinu.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Baldur Sveinsson.* Markerville, Alta, 25. okt. 1911.

Góði vin. — Þakka þér kærl. fyrir bréfið og hve vel þú skilur afsökun mína. Orðin kærleikur, ást, föðurland, eru í mínum augum „guðsnöfn lögð við hégóma" í tilfinninga-

skvaldri sumra þessara hávellandi hirðskálda venju-valdsins (þ. e. *conventional-ismans)*; fallegu orðin eru glossaleg, einhver gyllini-móða yfir allt og ekkert, eins og ísingar-sólskin, en tóm auðn, þegar inn í þau kemur. Hvernig á annað að vera? Ég þekki skáld, sem sjálft hefir sagt mér í einlægni, að hann sé „aþeisti“. Guð er hjá honum í öðru-hverju kvæði hans enn þann dag í dag. Heimspekingar og vísindamenn sumir stagast á því orði, segjast enga trú-þýðingu leggja í það sjálfir, hjá sér sé það aðeins yfirgripsorð yfir allt, sem sé gott og göfugt. Nú, ég hefi ekki skap til að leggja mér leðurblökuna til munns sem fugl, en ekki sem mús, eftir reglum kattarins, en vel veit ég, hversu almennings-hyllilaust það er.

Stundum hefir mér dottið í hug, að einhvern tíma rækist einhver í „Andvökum“ á stef eins og: „Ég stóð sem lostinn, leit með ró hinn litla, kalda náinn“, og eitthvað fleira úr sama handraða, og segði mig svo tilfinninga-truflaðan.

Farnist þér vel, fyrst þú hefir nú kastað ferða-tólfunum. Vel myndi ég unna þér góðrar stöðu. Hitt er mér að skapi, að þú gerir hana ekki að skilyrði. Væri ég það, sem ég ekki er, menntaður maður, virti ég ekki menntun mína til „eintóms brauðs“, hún væri mér nokkurs konar „lífsins brauð“ — trygging þess, að ég myndi geta tekið með sæmd sæti, hvar sem væri, hvort heldur vinnumannsins eður lærða mannsins, í baðstofunni eða skrifstofunni, við sveitastörf eða stjórnarstörf.

Gjarnan vissi ég það, að þú kæmir aftur vestur, en einkanlega til að koma því af, sem nú var þér varnað, að mega fljúga víðar um. Já, það getur verið „margur galli gleðinnar“, sem ekkert bætir annað en að una sínum hlut, eins og þú. Þrátt fyrir allt hefir þú grætt þetta: Þú hefir stækkað fyrir sjálfan þig þann hluta af heiminum, sem þú ert nú heimamaður á, og getur sjálfur komið framfærslu-árum þínum fyrir borð á, ef á þarf að halda. Konan mín sendir þér kveðju sína og óskar þér fararheilla.

Í horfi eygðu lönd og leið
Eins langt og vonir dreyma.
Þín bíði gleði og gæfu-skeið
Á götu þinni heima —
Og eins þó hlaðir hálfan skut
Og háfarm-skarir rýrast.

Sá lendir stundum hæsta hlut,
Sem hefir keypt hann dýrast.

Þetta er „ferðabænin“.
Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Eggert Jóhannsson.* Markerville, Alta, 29. okt. 1911.

Eggert minn góður. — Seinast í fyrri viku fékk ég bréf frá þér. Nærri strax reit ég til Magn. og reyndi það, sem ég kunni, að eggja hann á að hætta kennslu, en krefja stjórnarflokkinn brauðs. Við Ísl. og hann ættum heimtingu á því. Baldvin væri skyldugur, flokks síns vegna, að koma því á, sem vel myndi mælast fyrir o. s. frv. En auðvitað hefi ég ekkert svar fengið enn.

Oft hefi ég verið einráðinn í að skrifa þér, þennan og þennan daginn, allt sumar-langt, en sífellt dregizt úr hömlu. Þetta er eitthvert amasamasta og fyirhafnar-mesta sumar, síðan ég kom hér, svo var og er tíðin örðug. Enn er allt óþreskt, jörð gödduð, en engin haustplæging gerð, kartöflur hafa gaddað niður í görðum óuppteknar og varla að kornstökkun sé alveg lokið enn. Yfir höfuð eru hey hér lítil og ill, venju fremur, en fóður þó nægt og gott, fyrir góðan hálm og mikinn, og allmikið korn, vænna að vöxtum en gæðum, þó sumt af því verði gott.

Ég hefi því setið í bréfaskrifta-sinnuleysi gegnum alla sumarforina og aldrei getað mannað mig upp til að þakka þér og ykkur fyrir viðtökurnar á konu minni í sumar, auk heldur meira, en nú loksins geri ég það. Auðvitað hefði hún getað dvalið lengur og skemmt sér meira, en það var engu að kenna. Hún var hæst ánægð yfir fólki og ferð og hafði víst gott af þessari úti-viðrun, eins og allir hafa. Hún biður kærl. að heilsa ykkur, með þökk fyrir síðast. Enga samvizku hefði ég af því, þó þú fengir atvinnu hér í Alberta, stjórnar-breytinganna vegna. Hitt gæti skeð, að nú þrengdist meira á garðanum hér. Ég held þig bara, sökum kunnáttu í verki þínu og ástundunar þinnar, betri vinnumann en almennt er, og hverri land-stofudeild sem væri meiri hagur í að fá þig heldur en einhvern og einhvern. En hitt er það, ég er alltaf óánægður fyrir þig, þó þú breytir um stað, en ekki starf. Ég held þér

of lítinn akkur í því. Vildi vita þig nú fá óbundara starf, meiri tíma til umsvifa, minni aðsetur. Ég hygg helzt, að sami skrifstofu-þrældómurinn sé alls staðar. Að minnsta kosti heyri ég sömu söguna víða að. Það kann helzt að vera vægara, sé maður einhvers konar deildar-stjóri (chief). Nú, en ætti þetta nú samt að liggja fyrir þér, vildi ég heldur, að þú lentir vestur á strönd en hér í Alberta, af tvennu illu til, þó ég þægi vel, að skemmra væri milli. Ég held þar sé ögn ódýrra um aðbúnað, sökum vægviðra, og tilbreytinga-samara, miðað við Winnipeg. Reyndar er nú bezt sólskinið sunnar en Victoria eða Vancouver. Jafnvel mig munar um það stundum hér á veturna, þegar ég hefi „tvo hæla kalda“ eins og Egill, af því maður hefir ekki lengur afl til að berja þeim við frosturðina úti eins og áður. En, þú veizt allt um legu landa og veðurgæði, betur en ég, og óþarft að rita þér um það. Mér datt í hug dr. Clark, þingmaður okkar, þegar ég fékk bréf þitt, en af því enn var kannske ekki örvænt um svar til þín að vestan, hvarf ég frá því að sinni. Ekki svo að skilja, ég á ekki tak í dr. Clark, sem til sé leitandi. Við höfum bara heilsazt, og ég hefi þá íslenzku kynfylgju að reyna ekkert að halda mér til við höfðingja, svo ekki væri víst, að hann kannaðist við mig strax. En viljir þú bara, skal ég reyna, af rælni.

Kemur þú vestur? Þú veizt, þú ert meira en velkominn hér, hefðir þú aðeins tíma og ekki annað áfýsilegra til að eyða degi eða svo. Að líkindum verður flýtis-þing eystra bráðum, og langt þing-hlé undir og eftir jól. Clark yrði kannske ekki í önnum. Hann býr á jörð nálægt Olds, þegar hann er heima. Ef þú kæmir, gætum við rabbað um þetta, eða, skrifaðu mér, hvað og hvenær sem þú vilt. Það er engu eytt, þó maður færi erindisleysu, sem við væri að búast. Hafið þið nokkuð frétt af „bókbandinu“ heima? Ég hefi lengi ætlað að skrifa Þorst. Erlingssyni, en hefi beðið þess að vita, hvort „Andvökur“ þessar kæmust ekki á undan. Svo verð ég nú að þagna að sinni. Vona, að næst verði „styttra milli staupa“, því ég átti fyrir löngu að vera búinn að skrifa þér, og það er ekki eiginlega neitt að afsaka sig með, að halda að maður hafi átt síðustu línurnar inni.

Ég var kominn í bréf-skuldasúpu, en er nú ögn að grynna á henni í aðskotum frá útistjáinu, þó enn sé nokkuð í lögginni.

Gott var, að þið glödduð þessa útsölu-menn. En það er ekki mér að þakka!

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Eggert Jóhannsson.* Markerville, Alta, 28. nóv. 1911.

Eggert minn góður. — Þökk fyrir bréfið, gott og langt og greinilegt, eins og allténd. Satt að segja, ég kenni í brjósti um þig að eiga slíkan keipa-krakka eins og ímyndanir J. M. B. eru. Skárra er það nú siðferðis-nostrið, að geta ekki verið við þjóðverk, af því einhvers flokks maður sér um það í svipinn. Ég er eins og gamli hermaðurinn í „Þöglar ástir“, sem alltaf fann „ríksortið“ undir diskinum sínum, en vissi aldrei frá hverjum það var, datt í hug það kæmi frá kölska og væri kaupfestar á sál sinni, en hirti það með góðu geði samt og ósmeykur, því að hann hafði engu lofað. Auðvitað gengi ég líklega úr vistinni, ef að því ræki, að samvizkan segði einhver auka-verk frá sér.

Aldrei hafði Sigurður Helgason, sem hér var um tíma, gengið skó sína til gamla Gunnlögsens. En norskan ritstjóra þekkti Sigurður, sem var karli kunnugur. Sá kvartaði helzt undan því, að nærri væri engum unnt að hlynna að karli, sökum sjálfstæðis-lundar hans. Myndi Norðmönnum þar veita létt að líta til með honum, væri ekki þessi annmarki á. Sagðist. t. d. sjálfur hafa gengið til hans að haustlagi, þegar hann vissi Gunnlögsen klæðfáan; borið hlýja yfirhöfn yzt fata, en tekið hana af sér inni hjá karli, eins og gerist, sætt færi að láta hana liggja eftir, þegar hann fór heim, og fengið svo Gunnlögsen til að nota hana, því allt væri það fyrir hending og gleymsku sína, að hann tók hana ekki með sér, en væri sér nú alveg óþörf, því nú ætti hann aðra. Svona brögð kvað hann einu vopnin, sem bitu á skyrtuleysi þessa gamla Högna. Maður þarf að vera bæði vænn maður og kænn til að skipta við svona skap. Engin smámenni eiga vit til að virða það, og því síður kænsku til að komast kringum það.

Mér lízt nú nærri skást á vistaskipti þín í nýbyrjað bú, ef þú átt að vera við sama verk og þess væri kostur. Ég einhvern veginn held þú yrðir frjálsari þar á kotinu, eins og Hrærekur forðum, en í stóru stofunum, og átroðningurinn að ofan yrði minni þar. Mig grunar, að á þeim sé sama sagan alls

staðar. Við sjáum þá, hvað setur, enda verður allt á usli og busli, einlægar fylkja-kosningar. Mig grunar, að Sifton fari á stað upp úr næsta þingi með okkur í Alberta. Leggi nú sína „stefnu“ fyrir þingið. Ekkert komst að fyrir „Waterways“ í fyrra.

Sem stendur er nú veður dágott hér. Snjór á jörð þó og svalt með köflum. Við austanár-menn eigum allt okkar korn óþreskt enn, en löngu stakkað. Engan kvitt hefi ég af því fengið, að Sveinbjörnsson komi hingað. Það yrði þá á austurleið og upp úr hljóði. Ég hefði boðið honum, beðið hann að koma hingað, hefði ég unað viðtökunum eins og þær yrðu í bezta lagi, og áheyrn skyldi hann fá sæmilega, af því sem á er að skipa. Ég hefi sent „Lögbergi“ kvæði til hans, heldur en ekkert, en var þó hálf-ragur, vildi gjarnan segja honum eitthvað fallega-hlýlegt, en kann ekki skap hans, en kveð eins og ég hugsa, æfinlega, og „segi þá eitthvað, sem sízt ætti við“ ef til vill, eins og Þ. E. kvað. Hefði sem sé átt: Að þegja. Þetta er nú okkar á milli og sézt ekki bóla á kvæðinu, fyrr en seint í næsta mánuði, ef nafni minn þá þiggur það. Varð nokkuð úr, að þið létuð binda fleiri „Andv.“? Ég spyr, af því nú er Hjörtur og þau hjónin heima. Ég veit ekki, hvort þú manst, ég var eitt sinn að hugsa um þau við tækifæri með nýbundið eintak.

15 gripum og 20 svínum þykir ég æfinlega seinn með morgun-matinn, sumu fólki jafnvel líka. Nú, öllu koma þau og ég þó af, og ég er helzt pennafær fyrri hluta dags, nú orðið. Samt dreg ég þau ekki lengur á honum í dag. Verið *þið öll* blessuð.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Eggert Jóhannsson.* Markerville, Alta, 30. des. 1911.

Gleðilegt nýár, Eggert minn, þér og þínum, og beztu þökk fyrir bókina; hún komst hingað á jóladaginn og ég er margánægður með hana, og kannske Hjörtur hafi gaman af henni líka. Við Hjörtur fæddumst í Ameríku sama árið, vorum alltaf samsveitungar syðra (Milwaukee, Wisconsin, Dakota), þó hann sé mér miklu yngri. Hann kvað geta farið með ýmislegt eftir mig, að gamni sínu. Já, bandið var ljómandi gott og dýrt, án þess að líta íburðarmikið út, en hverjum á ég að borga? Er

Hannes Pétursson féhirðir þessa tæmda handraða enn, og hver er áritun hans? Láttu mig vita við tækifæri. Annars er ég löngu leiður á kvabbi sjálfs mín, en get einhvern veginn ekki aðgert. Mér er illa við að níðast á öðrum, helzt vinum mínum, en af því nafn mitt varð nú svona oft prentað, fæ ég ýmis skeyti, sem ég er ekki alveg einfær um að svara, en sem væri óhæf ókurteisi að þumba bara fram af sér. Frá Hirti fékk ég mörg, og því flúði ég til þín með hann. Samt er ég alltaf á hausnum með svo margt, sem ég ætti og vildi gera. Ég átti að vera búinn að viðurkenna bókarsending þína fyrr, en ég var hálf eftir mig, hver hátíðin rak aðra, uppihaldslaust, og ég að halda þær allar. Fyrst kom þreskingin, þá Sveinbjörnsson og svo jólin, hvert næstum áður en öðru var alveg lokið. Bótin var, að allt þetta gerðist samt í indælis-veðri, en nú hafa grimmdir gengið yfir og ég orðinn gunga í gaddinum og eldhúss-setull þá, eins og Egill á Borg.

Vel féll mér við Sveinbjörnsson, það sem við kynntumst. Fannst hann öðru vísi en al-danskmenntaðir Íslendingar, líkari því, sem ég hugsa mér aldraðan vesturmenntaðan Íslending. — Enda væri það náttúrlegt, einn síns liðs svo lengi, utan Norðurlanda. List hans kann ég ekki að gagn-rýna annað en það, sem leggst í grun minn, að hún sé snjallari og íslenzkari en nokkuð, sem enn er upp komið, og kannske enginn eftirbátur margs þess, sem stærri þjóðir en við telja sér mest til gildis í þeirri íþrótt. Yfir einu er ég argur, að Wpg-Ísl., sem helzt geta, hafa ekki reynt að greiða götu hans í sameiningu, ég meina, með að létta honum fargjald og ferðaóþægindi, með íhlutun sinni við þá, sem þar ráða o. fl. Hver á að kannast við og halda fram íslenzkri list, ef við tökum henni alveg þegjandi? Svo er ég hræddur um Sveinbjörnsson, hann ætlar sér varla af, bráð-hraustur eftir aldri, eins og hann er. Hann er nú samt á því skeiði, sem oft getur ekki úr-rétzt því, sem í manni bognar. Í list sinni grunar mig, að hann sé á bezta skeiði, haldi enn þá æskufjörinu hjá fjölhæfni efri áranna, eigi mikið eftir, svo skaði væri, ef við hann hlekktist. Hér er hann í óviðvenju vetrarlofti mismunandi og viðsjálu, á langferðum. Jæja, Eggert minn góður, ég skal nú ekki þreyta þig mikið lengur, þetta skiptið. Mér þætti gaman að fá línu við og við, í hægu tómi þínu, vita hversu þér farnast, hvað J. M. B. ratar í o. s. frv.

Hafa „Andv.“ selzt nokkuð heima eða hér þetta ár á förum? Ég kvíði alltaf, að þær verði hreppakerlingar á bókaverzlunum, bæði af eigin ódugnaði þeirra sjálfra og brögðum þeirra, sem þeim kunna að þykjast eiga grátt að gjalda. Við fengum fallegt jólaspjald frá Laurenz og sendum honum kæra kveðju.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*NB:* Nú eru víst litlu tátur orðnar svo „stórar stúlkur“, að karlar mega varla biðja að heilsa þeim. Ég geri það samt í þetta sinn. S. G. S.

*Eggert Jóhannsson.* Markerville, Alta, 9. jan. 1912.

Góði Eggert minn. — Bréf þitt kom á föstudagskveld (5.), bókin í gærkveldi (8.) Hjartans þökk til ykkar allra fyrir gjöfina og velvildina. Bandið er afbragðsfagurt, sjálfsagt hið vandaðasta, sem ég hefi séð á íslenzkri bók, og þó trúi ég mér þyki það mætast, sem skrifað er innan spjalda. Eini gallinn á því var, að eitt nafnið skyldi þó vanta, þó engum sé um að kenna. En það örlæti að fara t. d. í þann aukakostnað að sérstimpla rithönd mína í gyllingunni á framspjaldinu! — Innilegustu kveðju mína til þín og ykkar allra.

Stephan G. Stephansson.

*Björn Hjörleifsson.* Markerville, Alta, 18. jan. 1912.

Gleðilegt ár, Björn minn góður, og þökk fyrir síðast. — Loksins kem ég nú til að skila honum „Gleipni“ ykkar Sinclairs aftur. Ég læt hann í póstinn jafnt og þennan miða. Líklega heldur þú, ég hafi ætlað að eiga hann, eða læra. En svo var þó ekki. Ég er nú rétt ný-búinn að lesa hann. Það varð ekki fyrr en þetta, og ólesnum vildi ég ekki skila honum, það hefði verið að svíkjast um við þig. En bæði á ég oft eftir mörgu að líta, ýmsum blöðum öðrum, mínum og annarra, og svo — búhokrinu. Svo þekkti ég Sinclair ögn að öðru en þessari sögu og var ekki sólginn í hann. Bjóst ekki við neinu nýnæmi fyrir mig í „Gleipni“, án þess ég sé að lasta Sinclair. Mér þykir þvert á móti fremur vænt um hann, en frekar á annan hátt en sem gæða sögu-skáld. Ég vissi, að hann var jafnaðarmaður og „Zola-iskur realisti“. Ég hefi lesið

sumt eftir Zola sáluga, á margan hátt gott, en mér nóg, og sjálfur er ég víst „sósíalisti“ að trú. Því bjóst ég við, að hjá Sinclair myndi ég ganga um gamlar götur, og það varð. „Jungle“ á eiginlega ekkert við skáldskap skylt, en það er sögu-samsetningur, gerður í bezta tilgangi, hypjaður saman úr mannlífs-forunum í Chicago, með fremur fjálg-orðum en listfengum eða andríkum málalengingum, í ræðusniði, úr rökfærslu jafnaðarmanna. Bókin er auðvitað eftirtektarverð, en íþróttarsnauð, einn langur og illur draumur, eins og martröð í svefni. Svo íþróttarlaus er hún, að ekki er til í henni ein einasta snjöll og hagorð setning, sem festist í minni manns. Bókin er góð, sem bók, sökum sannindanna, sem í henni eru, og velvilja höfundarins, en listaverk er hún ekki, fremur en ljósmynd af maðka-veitu. Þetta er nú „harður dómur, heillin“, eins og íslenzki karlinn okkar á að hafa sagt. Og það styggir mig ekki, þó þú sért því öllu ósamdóma. Og þakka þér svo kærlega fyrir bókarlánið. — Eitthvað var það svo um Andersen. Ég skildi þig svo, sem ég kannske „tilreiknaði“ honum trú hans, þessa góðmannlegu nýguðfræði, sem liggur í undir-öldu æfintýranna hans. Langt frá, mér er meinlaust við hana, þó ég fylgi henni ekki sjálfur. En hérna er það: Andersen er afbragð, í stuttum æfintýrum, aðeins ekki frítt við, að hann segi sömu söguna tvisvar, það er að skilja, búi eina mannlífs-skoðun sína upp í tvö æfintýra-föt. Löngu sögurnar hans lakari, sumar, t. d. „Dýja kóngsdóttirin“, hálfógeðsleg helgisaga, fremur en inndælt æfintýri, á kafla. Eins er æfintýrið út af „ódauðleika-þránni“ langt um lakara og óyndislegra en Undína; er gott, væri hún ekki til, og illhugsandi við að jafnast. En, upptalinn með allt þetta, er „hann Andri minn“ æfintýra-snillingurinn samt.

Engar fréttir, sem ég gæti gizkað á, að þér væri þægð í að lesa. Sjálfur er ég lítil-virkur, lystarsmár og lang-hvílull, en þyrfti margt að gera. Mér líður samt meinlaust. Hvernig fer þér að og ykkur þarna í Ártúni? Já, þú sagðir mér, að Guttormur J. væri granni þinn. Ég bið að heilsa honum, því bréf á hann ekki nú hjá mér, svo ég þori að láta hann sjá mig.

Svo óska ég þér góð-æris, og þakka þér fyrir skemmtunina árið sem leið.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Eggert Jóhannsson.* Markerville, Alta, 21. jan. 1912.

Eggert minn. — Getur þú gert svo vel að koma til Sveinbjarnar Sveinbjörnssonar prófessors vindlaveski frá okkur Markervillingum? Það var ekki „til á bænum", þegar hann fór héðan, svo við urðum að senda það á eftir, og ég sendi þér það um leið og þennan miða. Ég býst ekki við, að þú sért *persona grata* í páfagarði, né hafir þar neinn umgang, en kannske þið Svbj. gætuð þá hitzt annars staðar, ef þú gerðir honum orð um það, eða fáðu þá einhvern af „okkar mönnum", séra R. P., Skafta eða hvern sem er, til að gera þetta fyrir okkur. Ég kann betur við það þannig en að pósta það alveg til hans. Svo man ég ekki tölurnar á áritun séra Jóns D. D. Fyrirgefðu kvabbið.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Eggert Jóhannsson.* Markerville, Alta, 2. febr. 1912.

Góði Eggert minn. — Það hefir dregizt að skrifa þér bréf, ég hefi verið í ýmsu dundi öðru hvoru. Áðan kom bréf þitt og annað frá Sveinbirni. Mér þótti vænt um, að þú fannst hann sjálfur, ég vildi, að þið kynntust, en var hræddur við, að þér væri samastaður hans um geð og þyrftir kannske að herða það að þér. Annars mun Sveinbjörnsson að öllu innræti fremur eiga heima í okkar hóp en í búri frúarinnar, frænku sinnar, þó hann alveg eðlilega yrði þar að lenda. Jú, honum er vissulega efst í hug að setjast að vestra, í Seattle eða þar í kring. Hann hafði orð á því við fleiri en mig hér. Mér fannst ekkert myndi aftra, ef kona hans væri viljuð til þess, en hann átti eftir að skrifa henni um það. Ég held hann fari sjálfur ekki til baka. Léti fólk sitt koma. Ég veit það ekki, hvernig hagur hans stendur, en mig nærri furðar, ef efni hans eru ekki heldur að þrengjast, nema giftingin hafi verið rík. Arf eftir foreldra sína gaf hann systur sinni. Það hefi ég frétt utan að. Við kennslu hefir hann ekki átt nú nokkuð lengi. Ekkert nema kostnað sinn í Khöfn, ef til vill verið svikinn og af honum haft bæði þar og á Drury Lane leikhúsinu í Lundúnum, og fyrir prentuðu lögin sín getur hann ekki hafa fengið mikið enn, enda er hann dreginn á því öllu. En svo er þetta bara getgáta mín.

Ég held Hirti Þórðarsyni hafi þótt verulega gaman að eignast þessar „Andvökur“ frá okkur. Hann segir, að í svipinn núna þyki sér vænzt um þær af öllum sínum bókum. Og Hjörtur er ekkert glysmáll. Áður hann vissi nokkuð um þetta kver okkar, var hann búinn að senda af stað til mín fáséða útgáfu af öllu „Saga Library“ þeirra W. Morris gamla og Eiríks Magnússonar. Sjálfsagt kostað Hjört eitthvað frá $ 40.00 til 60.00. Hann er ríkur sjálfsagt, en aldrei datt mér í hug, að hann minntist mín svona, þó við séum gamlir sveitungar hérna megin hafsins. Nei, bækurnar, sem ég bað um handa þeim heima, voru ekki nema fjórar, tvær í Reykjavík og tvær í Þingeyjarsýslu. Hafið þökk fyrir það. Það var einmitt það, sem ég hefði kosið með nafn Brandar, úr því sem komið var. Ég var nærri kominn á flugstig með að biðja þig að ná í það. Datt ekki í hug, að þú ættir það til, og hætti svo við til að gera ekki ómak úr öllu. En fyrst þú átt nafnið til, þá er það einmitt það, sem ég vil og við, svo ég þigg það feginn.

Þetta var sjálfsagt með „Andvökur“, að bóksali tæki við þeim. Hjá því varð ekki komizt. Hvað sem öðru líður, sölu þeirra eða þess konar, þá gat enginn „privat“ maður haft þær á höndum sér, nema til skaða og skapraunar. Slíkt eru viðskipta-forlög, sem ekki verður fyrir sneitt. En bara í gamni, varð „Park-Nikk“ allur „að gjalti“ fyrir bókagaldri Bárdals? Því setti hann ekki upp selshaus-húfuna og gekk í berhögg við „Skruddarann“?

Nú hefir blíðviðri staðið lengi og vel og allt er hóglátt og heilbrigt. Verið er að „járna“ C. N. R. frá Cal. Ed. RR. vestur til (Rocky) Mountain House í vetur og eitthvað annað að dunda. Daglega heyrast „dynamite“-hvellir norðan að hingað ofan. Nú er erindinu lokið í þetta sinn og ég kemst ekki lengra í kveld, svo býð ég þér hérna góða nótt, Eggert minn.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerville, Alta, 6. febr. 1912.

Góði vin. — Lengi hefi ég átt von á línu frá þér, viðvíkjandi þessu um Þorst. Erl.s. Ég reyndi hér í sumar. Fór hvergi synjandi frá, þar sem ég reyndi, fékk annað hvort loforð eða ónot, nærri skammir, og hvort tveggja helzt úr þeim stöðum, sem ég átti sízt von á, að nokkuð kæmi úr *því* pokahorninu.

Svo var reglulega gaman að því, að öðru en því, að þetta varð svo lítil upphæð. Ég fór aðeins til þeirra, sem ég hélt, að ekki myndu meiða sig eða sína að missa af $ 10. Nú þorði ég ekki lengur að draga að innheimta. Það hefði annars allt gleymzt. Þegar til kom, voru $ 10 ekki allir við í einum eða tveimur stöðum, en loforðið er hérna fullt samt. Viltu gera svo vel, að þú, eða einhver annar kunnur maður, skrifi undir vottorðið, sem fylgir með, og senda mér aftur? Ég þori ekki annað. Þeir gruna mig annars næstum að hafa étið þetta sjálfur, eða þó þeir kannske ekki tryðu því, mætti bæði segja það og hlusta á það, sér til skemmtunar. Ég segi svo ekki meira um þetta nú. Bara, hversu lítið og langt frá von sem þetta kann að verða allt, verður nú að senda Þ. það á einhvern hátt. Mér, til dæmis, væri frágangs-sök að skila því aftur, sem svona laklega var safnað.

Hefir þú lesið „skírnarsálm“ Steina í „Birkibeinum“? Veiztu, að þetta eru nú framtíðar sálmarnir, sem taka við af gömlu „te deunum“? Annars, verði allt svo smátt hjá okkur, að Þorst. sé ekki sýnandi, nú — sendum þá „sálm barninu“ það í tannfé, eða Guðrúnu það sem nála-mund, þ. e. pin-money.

Ég ætti víst að afsaka að bregðast að koma til Wynyard í sumar, en hvorki ég eða afleiðingarnar hefðu afsakað, hefði ég farið, eins og þá stóð á með heyskapinn hér, en sem þó var gagnstætt öllum líkum, að á daginn myndi koma, þegar ég lofaði sjálfum mér Wynyard-ferðinni.

Ég sendi Eggert þetta bréf og bið hann að koma því til þín, þegar þú ert viðlátinn. Ég sem sé veit ekki, hvenær þú ert í bænum, eða utan hans, kannske svo vikum skiptir, en ég vil, að þessi ávísun flækist sem minnst. Svo sendi ég þér kvæði fyrir jól: „Nýjársnótt“, sem ég ætlaði ykkur fyrir janúar „Heimi“, ef þið kærðuð ykkur um. Það var þar ekki og það var nú alveg sama, en kannske það hafi aldrei heldur komizt til þín.

Svo skal ég ekki hanga lengur á þér með þessi mál, og vertu blessaður.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*E. S.* — Ég ríf upp bréfið aftur, til að henda að þér hálfvaxinni hugsun, ef hún kynni að verða þér til athugunar eða ásteytingar, og var ég þó að klóra úti í garði og drepa „illgresi“, sem mjög þurfti við.

Þú skrifar stundum ritdóma „Heimis". Nú hefi ég lesið „Gull" Einars, en á hunda-vaði, eins og allt annað. Mér finnst ég ánægðari með það en „Ofurefli". Svo vildi ég fá að vita hjá sjálfum mér, hvers vegna. Og þetta fannst mér rótin:

Prests-rolan úr „Ofurefli" hefir nú mannazt svo, að konan hans sjálfs treystist nú ekki við hann í nærgöngulu en réttu máli hans, — hún, sem sjálf varð að biðja hans. Dauði gamla kaupmannsins og Sigurlaugar er ágætur, þetta: Það er einmitt einn af göllum gamla mannsins — kvennafarið — (því dyggðirnar voru engar), sem að „frelsar" hann (ég meina í okkar tilfinningum), svo við skiljum við hann með nokkurri samhyggð „af því hann reyndar unni Sigurlaugu". Þetta kann að vera ögn „Gauzkt", þ. e. líkjast einhverju í Faust Goethe's, en — hérna er það í karl-legg, þar í kven-legg, detti manni skyldleiki í hug. Þar að auki er nýr maður, skipstjórinn, efnilegt sögu-barn, og gullnáms-saga Reykjavíkur sögð eins og var. S. G. S.

*Aðalsteinn Kristjánsson.* Markerville, Alta, 7. febr. 1912.

Góði vin. — Þökk fyrir bréfið og kvæðin. Það var og satt, að ég átti ekki von á bréfi frá þér, eður datt það í hug, og eins hitt, að það getur orðið autt um mann í skammdeginu stundum, þegar efri árin sitja yfir haust-auðu hreiðrinu, og vor-félagarnir eru annað hvort flognir í hvarf eða hama sig í heima-skjólunum. En meðan maður getur ögn gleymt sjálfum sér í að hafa hugann við útheiminn, og getur einhverju afkastað, með höndum eða huganum, og finnur um sig andlegan yl frá öðrum, þá verður þó mörg dægra-styttingin, og ófyrirsynju að berast mjög illa af. Það er kannske ókleift að slíta af sér alla myrkfælni, en ekki ætti hún að verða að algerðu auðnuleysi.

Kvæðin hafði ég ekki séð áður. Ég aðeins vissi, að Kipling hafði verið eitthvað að kveða út í kvenréttinn, hafði líka séð háð-stælingu eftir einhvern, og ekki svo ólaglega, af þessu kvæði hans. Ég kannast við Kipling nóg til þess að gera mér í grun, á hvaða streng hann slægi í þessu máli. Ég dáist lítið bæði að Kipling og Hall. Kipling hefir til síns ágætis einungis dálítið einkennilegt form og ekki óformlegt málbragð (expression), en hvort tveggja þó fremur kvistótt, og þar að

auki dálítið hindúiskan blæ á yfirborðinu, sem setur á rit hans nokkurs konar nýjabrum. En, andi hans er: Trú á afarmennið og fótaskinnið hans, sem alls staðar skín í gegn. Og afarmennið hans er ekki stærri hátign en svo, að það er bara karldýrið af brezku „imperialista“-tegundinni. „Hallur“ gamli (Hall Cain) er andstæðingur hans, en ekkert meiri. Honum heppnaðist að hnuppla nokkrum örlagaþrungnum og ástríðumiklum fyrirmyndar-skapsmunum úr sögunum okkar, „Völsungu“, og víðar. Á þeim hefir hann hangið og endurtekið þær fram til lífs-leiðinda. Þó eru þær hans bezta og „rómantískasta“. Allt hans eigið, sem hann hefir innan um, er með englasvip, trúarbragða- og siðferðis-væmilegum. Svona hafa nú báðir þessir menn æfinlega komið mér fyrir sjónir, og eins núna í þessum kvenna-máls kvæðum. Kvæði Kiplings er miklum mun myndarlegar gert, gagnorðara, rösklegra, skáldlegra — en ósannara, ósvífnara, illkvittnislegra. Stjórnarlegt jafnrétti mannanna, karla sem kvenna, hvílir ekki á jöfnu atgervi í öllu. Þetta, sem kallast frelsi, er ekki nema leið, sem látin er jafn-opin öllum mannanna hæfileikum til að njóta sín og sjá um sig, en liggja ekki uppi á öðrum. Það er ónotað fé, sem mennirnir eru að grafa upp. Jafnrétti er ekki síður hagur flokksins, sem drottnar, en hins, sem í lægra haldi lýtur. Svo rammt kveður að því, að allt, sem ríkjum ræður, úrkynjast á endanum. Efnið í Kiplings kvæði er: Húsbónda og hrædýra skyldu ber saman um, að kven-eðlið sé drápvægara en karlkynið. Slík er móðurnáttúra náttúrunnar. Maðurinn má vera þræll, en aldrei þegn konunnar. Auðvitað er þetta laus þýðing, en stefnurétt. En einmitt — og rökrétt — er nú þessi drápvægi eðlilega og eina leiðin að afarmennskunni, eins og Kipling og hans nótar halda henni fram, og rekst kvæðið svo á sjálft sig. Cain gamli svaraði með tómri tilgangsfræði, hvað guð hans hafi ætlað, og gerir með því sinn betri málstað broslegan. Þar að auki er kvæðið tilþrifalaus vaðalsmælgi, langt um leiðinlegri en bola-rödd Kiplings.

Fyrirgefðu þó ég hafi sagt, hvernig mér fellur við þessa miklu menn. Það er sagt eins og er, en hvorki af öfund né yfirlæti. Ég get þagað, en aldrei sagt annað en mér finnst um það, sem ég annars hefi reynt að gera mér grein fyrir. Svo er ég nú eins og hver maður annar: Veit bara mínu viti.

Þegar ég var í Winnipeg, fylgdi Eggert Jóhannsson mér

til húss þíns eitt sinn. Þú varst þá ekki heima, eins og svo eðlilega vill til. Ég ætlaði að sitja hjá þér um stund og rabba. Ég veit ekki, hvort þú vissir þetta, því aldrei hefi ég haft þann mannasið að fara með nafnspjald mitt, eins og svo margt annað virðulegt, sem ég hefi bæði vanrækt og aldrei lært.

Svo þakka ég þér kærlega allt hlýlegt í minn garð, bæði fyrr og nú, frá „Andvöku“-árunum og utan þeirra, og óska allra heilla.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Athugas.:* Ég trúi líka á afarmenni, en ekki eins og Kipling. Mín eru þau, sem lyfta öðrum upp, jafnsætis sér, þrátt fyrir hæfileika-mun. Það er afarmennanna sérstaki hæfileiki. S. G. S.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerville, Alta, 5. marz 1912.

Kæri vin. — Bréf þitt komið fyrir nokkru. Þökk fyrir, og undirtektirnar um „málefnið“. Ég var einmitt í öngum í fyrra út af því, að þú myndir fara heim, áður en þetta hefðist af, og gætir svo ekki afhent þetta sjálfur, sem ég vildi helzt, margra hluta vegna. Samt talaði ég ekki um það við neinn „nema guð og sjálfan mig“, af því ekki varð fyrir endann séð, hvort þú kæmist þá. En af þessu sérðu, að mér fellur bezt einmitt þetta, sem þú segist vilja gera nú. Þannig fer það fæstra milli og er einhvern veginn kunningjalegast. Nei, ég get ekki skrifað með því, ég á oflítinn þátt í því til *þess.* Þorsteinn héldi ófyrirsynju, að ég væri meira riðinn við þetta en ég er, eins og þú veizt, að ég á hvorki upphafsstafinn né smáa stafrófið í þessu, svo sem ekkert, nema meðvitundina um, að þetta yrði reynt.

Ég hlakka til með ykkur, að þið fáið nú að skreppa heim. Verst þykir mér, að þú manst svo lítið, hvernig *var,* sem von er, því Ísland má ekki bera saman við annað en sjálft sig og allt, sem verra er! Ég er hræddur um, að þú verðir svo bölsýnn. Ég skal lána þér mína seinustu minning um Sauðárkrók: Tveir danskir lausakaupmenn á segl-döllum sínum við akkeri á höfninni. Tvær sjómanna-búðir, litlar og ljótar, kúrðu í fjöru-urðinni, og enginn maður í þeim. Jón á Víði-

mýri og „Bensi“ Blöndal, báðir góðglaðir, reyna sig þar á mölinni í gamla tvísöngnum við: „Sá ljósi dagur liðinn er“. Jón átti „tenórinn“ og gat því valið lagið, sem er næstum ókleift fyrir íslenzka „bassann“, sem „Bensi“ hefir, af því hann þarf að „fara upp“ á seinustu hendingunni, en þar stígur „tenórinn“ sjálfur hæst, og upp fyrir allar hellur. En það var nú samt það, sem skemmtilegast og minnilegast var á „Króknum“ í það sinn, að undanteknum nokkrum hestum.

Á Húsavík kom ég aldrei. Þar býr „Hulda“, og kveður um Vík sína:

„Kinnar-fjöllin bylgju blá,
Und bjartri mjöll,
Skjálfa öll í öldu-gljá,
Sem álfa-höll.

— — —

Hér er frítt, þótt skorti skóg
Og skjól sé lítt.
Kveldskin hlýtt og hug-rúm nóg
Við hafið vítt“.

— — —

Nei, ég kemst ekki, en bið að heilsa. Sko, mannsæfin kvað hafa lengzt í liðugar tvær síðustu aldir sem svarar 15 til 20 lögðum við eitt hundrað. Prússar jafnvel náð þar í 27 og komnir langt að verða ódauðlegir. Þegar svona er komið, lætur maður líða frá 40 til 50 ár milli heimferða, annars yrði það kallað bæja-ráp, þar sem alltaf er nógur tíminn fyrir mann og mátulegt að láta sjá sig svo sem tvisvar á öld, svo maður sé ekki of tíður gestur. En það vantar meira en ár upp á 40, síðan ég var heima seinast. Víst væri gaman að sjá þig vestra, áður en þú færir, og ég hlakka til, ef ég næði í þig, þegar þú kemur aftur, til að vita, hvað þú hefir séð. Varaðu þig á suðurlands stór-merkilegu sköpnuðunum. Hekla og Geysir eru orðin danskir Íslendingar, síðan þau hættu að gjósa, en engu betri þó, og alltend varasöm. Ef þú gengur upp með læknum í Vík, með Brietu frænku þinni, þá láttu hana fara lækjarmegin. Hún datt einu sinni á pilt, sem var svo skammsýnn, að láta hana leiða sig við lækjarhlíðina; hann hraut ofan í, og ég hefi aldrei frétt, hvort hann kom upp aftur. Hún er ekki voðalaus heldur!

Annars og án alls galsa: Ég óska ykkur innilega vel að fara og heil heim að koma, og stundum hvarflar kannske hugur minn um, þar sem þið eruð og mér eru kunnar leiðir. — Vertu svo sæll á meðan.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Eggert Jóhannsson.* Markerville, Alta, 28. marz 1912.

Góði vin. — Þökk fyrir nafn Brandar. Ég varð að líma það skáhallt neðst og fremst á Garðar-blaðið. Ekkert rúm neðst, en ofan við efsta nafnið (Magnúsar heit.) er mikil eyða. En þar vildi ég ekki hafa það. Þetta er ögn andkannalegra, en ekki svo ljótt, í mínum augum.

Mig gladdi að fá bréf frá þér. Að þér líður bærilega og hefir vestur-von, ef þú sækir úr sveitinni á annað borð. Ég hugsa mér ströndina Alberta-betri, fyrir okkar aldur. Reyndi hana kannske sjálfur, væri ég laus frá ýmsu, sem á mér hvílir. Þá er þetta gott með Magnús. Bara að ekki þyrmi yfir hann aftur, þegar hann þarf að fara að setjast aftur að og prjóna fyrir sjálfan sig.

Já, illa er Svb. stjórnað, honum og okkur til óvirðingar. Við of lítilþægir, að nota hann í okkar nábúa-krit. Hann of deigur að vera eins og hann sjálfur vill. T. d. séra Friðrik gerði honum heimboð fyrir löngu og sjálfur treysti karl sér í hófið, en þorði ekki að styggja séra Jón svo, meðan hann gengi á hans guðs vegum. Hvað sem úr hefir orðið. Svo illa er mér við þetta allt, að t. d. þegar hann í trúnaði vildi fá að vita, hvað væri satt sagt um einn misendis kirkjumann (og sem ég gat frætt hann um), sagði ég honum aðeins, að um hann færi tvennum sögum (því sá hafði blásið því í hann, að öllu væri á sig logið), en hann mætti láta sér maðurinn vel líka, hann hefði reynzt honum sem drengur.

Víst hefir enginn haft jafn vinfúsa fyrirhöfn á mér eins og Guðm. minn á Sandi og mikið á ég honum að þakka, eflaust, og ekki misskilur hann mig né af-flytur, það veit ég. Fyrir mig er ég ánægður við hann og þakklátur. En mér finnst hann stundum varla gera sjálfs sín gáfum góð skil. Sleppum nú pólitískum væringum, þær eru ekki „skaðsamlegar“ fremur en „mylsnan“ hjá Gröndal gamla Jónssyni. En það er þessi barátta við sinn eiginn skugga, hálf-afturtekna að-

finnslu hans, eins og um guð. Því hafi guð Gyðinga lækkað, sem sé: Breyti menn guði sínum samkvæmt sannleikanum, hví að undanskilja guð Guðmundar á Sandi? Segjum hann sé nú *innsti kjarni lífsins eða eitthvað enn æðra*, eða eitthvað enn óákveðnara vil ég segja, sem engin hugsun festir fingur á, hann „lækkar sig samt“ fyrir skilyrðum lífsins, að maður nefni nú ekki hitt, að mönnum gæti farið svo fram, að þeim sýndist hann guð „misendis mann-flokks“, þegar fram líður. Allt, sem um kvæðið var sagt og sýnt, er: Stephan trúir ekki á endanlegan sannleik, en finnst hann sé aðeins hið göfugasta og réttasta í hverri tíð, og svò náttúrlega — hrekja *það*. Það mun líka trauðla standast fyrir viti né fagurfræði, að endilega sé lítið varið í á, sem er fosslaus, þó er verra, að kvarta um lygnu í kvæði, sem maður segir, að „endi í fossi“, þegar maður krefst „guðs-gjafar“, sem maður nefnir „fallanda og stíganda“. Enginn stafur fyrir, að „Egill hafi vitað, að sjórinn væri ekki vitundarvera“. Hann var heiðinn og kveður til Ægis. Annars fyrir mitt vit er sú máttleysis-heift ekki *fegurst* í kvæði Egils, heldur hitt, hann sættist enn við Alföður, sem gaf honum „vini“ og „vammi-firða list“, sem sé skáldskapar listina. En um það má deila. Ég skil stundum ekkert í því, sem mér finnst kollhnísur hjá Gvendi mínum, til dæmis í „Eimreiðinni“, að láta sem hann trúi, að sönn sé sagan um dauða Örvar-Odds, sem veltur á því, að höggormur hafi átt bæli í hrosshaus norður á Jaðri. En allt fyrir það, Guðmundur er gáfaður og mér svo vænn, að alveg ótilunnu, og á fárra færi að kryfja þó „Andvökur“ eins vel og hann. Til þess þarf alúð.

Góðviðri. Snjór á förum. Ána að leysa. Lang-loku kvæði á ég í smíðum. Ekki veit ég, hversu slæmt það verður. Ætla að hætta, þegar mér finnst ég úttæmdur. Þykist ekki alveg ófær enn, líkur eins og áður, nema get ekki verið eins aðsætinn. Ekki hefi ég skrifað Magn. Er á báðum áttum. Á bréf hjá honum — heldur fleiri en eitt, en ekki bagar mig það. En gæti honum ekki fundizt ég „bombarða“ sig? — Gleðilegt sumar.

Þinn Stephan G. Stephansson.

*Aðalsteinn Kristjánsson.* Markerville, Alta, 3. maí 1912.

Góði vinur. — Ég þakka þér bréf þitt og „prédikun“ séra Hrólfs Konálssonar (Ralph Connors), sem kallar sig, og sem innan í bréfinu var. Ég las hana mest-alla, en hafði ómögulega eiru við hana til að lesa hana til enda. Ekki svo að skilja, hún er betri en meðal-lags guðfræðinga-hugleiðingar eru, um svona efni. En fyrir tuttugu árum hefir maður sjálfur öslað gegnum þennan vísindalega moðreyk, og lítið ljós í honum séð. Sem sé, maður missir lystina á að lesa eður heyra í marghundraðasta skipti sannanir, sem aldrei orkuðu að sannfæra mann, af því maður getur ekki betur séð, en þó að mannleg þekking eigi að sýnast vera undirlögin, þá sé það samt ólíklegri ályktanirnar, sem allt af sé seilzt til að smella ofan á, þegar farið er út í hið óreynda, í svona ritum. Svona hugsana-gangur er raunar ekki annað en rökleiðsla í skjóli heimskunnar, það er að segja, trúanlegleiki einhvers gerður líklegur með óvissunni, því að hann hefir aðeins hugsanleg líkindi en ekki fullnaðar reynd í móti sér, sem alveg setja getgátunum stólinn í dyrnar. Ég get ekki að því gert, að á svona vörnum er ég hálf-þreyttur, finnst þær venju-kenndar, en hvorki spakvit né hugmynda hvass-skyggni. Ég segi alveg eins og er um mig, án þess mér sé nokkuð í mun að gaspra séra Gordon til. Hann er eflaust í fremri presta röð og valmenni, og helzti maður skozka „kálgarðs“-skáldsagna-skólans svo nefnda, hér vestan hafs, þó mér finnist hann þar hvergi jafnsnjall því bezta hjá fyrirmyndum sínum, Maclaren og Barrie. Sumar tilvitnanir hans kann ég réttari. T. d. Ingersolls. Hún er: „We do not know if death is a wall or a door folding“. Hálfu fegur sagt:

> Við göngum duldir þess dóms,
> Hvort dauðinn sé múr eða dyr,
> Vængjanna síðasta sig,
> Eða svif þeirra hærra en fyr.

Svona sneri ég því fyrir 20—30 árum. — Svo er um fleiri ívitnanir, þó maður jafnvel hafi ekki séð þær fyrr. T. d. „Ég kysi heldur líf í eilífri glötun en að líða undir lok“. Þó séra G. beri bezta mann fyrir (J. Morley gamla), að einn af skynsömustu mönnum heimsins (Huxley) hafi sagt þetta í fullri

alvöru, í almennum skilningi, og hugsandi um, hvað hann var að segja, neyðist maður til að efa það. En skorti eitthvað af þessu þrennu í tækifærið, sem Huxley átti að hafa sagt þetta við, eða hafi gleymzt úr frásögninni, þá er þetta og annað eins þýðingarlaust, og verra en það, í vandaðri rökfærslu. — Annars er mér aldrei annt um að deila um svona mál, Aðalsteinn minn, aðeins drep á þetta, til að sýna þér satt og rétt, hvernig ég les og hugsa. Ég get virt og skil trúna á þetta allt, en ég uni ekki við ónýta rökfærslu fyrir henni, eins og t. d. Guðmundar míns á Sandi um einstaklings-einkennin manns. Hefði hann ekki hætt á hálfnaðri hugsun, myndi hann hafa séð, að þau hverfa manni hér í lífi jafnvel, í ellinni, á banasænginni. Að hann tók þetta til, var að gera sinni eigin góðu greind ill skil, því líkurnar yrðu ekki hans hlið að stoð, þegar til botns er rakið.

Fyrirgefðu þetta allt, vinur. Langt er frá, að ég þykist maður til að þræta um þetta, né að ég hafi rök til, sem aðrir eigi að lúta. En ég svara öllu eftir bezta viti mínu, því sem annars er alvörumál. Hið eina, sem ég gæti ímyndað mér kannske, að ég ynni á endanum við það, er, að ég hafi þá engu leynt, fyrir hentugleika sakir, og hitt veit ég, mín skoðun á rétt á sér, en hefir verið borin út sem illfygli. Ég er ekki maður til þess, en viljað hefði ég gera þeim mönnum, sem það gera, þann greiða, að þeir sæu um síðir, hversu öfugt það er og „galið", og henni þann hag, að það yrði ekki talin mannskemmd, þó einhver þyrði að halda sér við hana upp hátt. Ég er bara hversdags-maður í öllu, en hefi aðeins reynt að lifa ofurlitlu andlegu lífi eftir mínum beztu föngum. Það er nú allt og sumt.

Með alúðar-þökk fyrir vinsemd þína til mín, þrátt fyrir þetta allt.

Þinn einl. Stephan G. Stephansson.

*Jónas Hall.* Markerville, Alta, 7. maí 1912.

Jónas minn. — Reyndar skrifaðir þú mér seinast um, að þú hefðir sent Kristni mági línu. Hann kom hér og sagði mér fréttirnar og að þið hefðuð fjársöfnun í ráði. Fannst mér hann ekki taka því ólíklega. Ekki veit ég þó til, að hann hafi nefnt samskot við neinn enn. Ég heldur hvatti hann. Réði

honum til að láta fólk hér vita, að ef kirkjumála-lokin yrðu þau, sem nú stæði, myndi séra Pétur eiga einn hjallinn þeirra hérna, og kannske Kristján okkar Jónsson, sem forðum var, bróðir Rósu „supervisors", einhvern „kvóta" í honum, ef farið væri út í yztu æs. Ég sagði Kr., að ef til kæmi, skyldi hann fá svo sem dal frá mér, ef ég ætti hann til, en fyrir söfnun gæti ég ekki gengizt beint. Menn misskildu það að líkindum svo, að ég væri að því í hefndarskyni við kirkju og kristindóm, og hefðu sér það til samvizku-friðar til að láta ekkert og þurfa af engu að sjá. Öllu tók Kr. þessu vel. Fund átti að halda af söfnuðinum litlu seinna. Átti að leita samkomulags og allir boðnir að sögn, sem cent hefðu gefið til safnaðar. Kunningi minn, sem er únitari, kom hér og sagðist sækja fundinn sem erindreki sinnar kirkju og Kr. myndi verða þar fyrir „nýju guðfr.", svo ég sagði ég myndi þá verða þar líka, eini erindrekinn trúleysisins á þetta allt. Þetta var nú spaug okkar. En fundinn átti að halda, en fórst fyrir. Varð ekki fundarfært fyrir mannfæð. Af hending var ég staddur á Markerville þennan dag. Séra Pétur kom einu sinni ekki, minna en mílu leið frá. Af rælni ætlaði ég enn á fund. Stinga upp á kirkju-sameign íslenzks *almennings hér, játningarlauss.* Bjóða „lúterskum" styrk okkar utankirkjumanna við að nota þeirra heimaprest við öll aukaverk, eins og við höfum gert, gegn því að ný-guðfræðingar og únitarar mættu fá hingað prest af sínu sauðahúsi við og við, þegar fært væri og eftir því sem á stæði, sér til bragðbætis og andlegrar hressingar, ef orðið gæti, og í góðu samþykki allra skoðana. En fundurinn fæddist aldrei, svo við sama situr.

Í næstu viku, líkl. á mánudag (13. þ. m.), fer Gísli gamli Eiríksson (stundum Breiðdal), faðir Einars lyfsala í Cavalier, suður til Dak., að sögn til Flatatungu-doktorsins í Grand Forks, í sjónauka skyni. Náið í hann til reynslu. Annars taka hinir hann. Gallinn er: Karl Olson er náfrændi Gísla, Gísli heldur upp á hann, er fremur lingerður ný-guðfræðingur og hefir unnið í að koma Karli hér inn, en hann ekki fengizt. Sem sé: Karl er hræddur við „drauginn í tóftinni", séra Pétur minn, þó ekki sé uppi látið. Nú, ef þið gætuð unnið Gísla gamla með lagi til að beitast fyrir samskotum hér, væri það styrkur góður. Gísli er ekki víkingur í neinu, en allra manna þolnastur og þrár, góður karl, en svo er líka betra að halda

honum ögn til heldri manna. Ég held Gísli komi aftur í sumar hingað. Hann hefir þó leigt land sitt og selt kýr sínar, að ég heyri, og leikur svo lausum hala. En mér datt í hug að segja ykkur frá honum. Illt er ykkur að missa séra L. Th. Prestslausir megið þið ekki vera, slík blessuð lömb sem þið eruð. Úlfurinn „Kristinn“ étur upp helminginn af ykkur, nema staðið sé hjá yfir ykkur. Bágt er að skelfast greinar Steinár-Jóns Manga. Fyrir meira en 50 árum var þetta allt sagt og sýnt og hver menntaður maður bar þetta í vitund sinni, gömlu prestarnir líka. „Ekki verður aðgert, telpa mín“, sagði afturgangan.

Bezta gróður-tíðar vor, sem hér hefir lengi komið. En örðugt vegna ógerðra plæginga, leifanna frá fyrra ári, því regn og snjór hafa fallið. — Nú má ég hætta, og biðja að heilsa. Ég þarf út í annað. — Blessaður og sæll.

Stephan G. Stephansson.

*J. Magnús Bjarnason.* Markerville, Alta, 8. júní 1912.

Góði vinur. — Loksins „dreg ég nú af mér slensíuna“ og þakka kærl. línurnar seinustu, og myndina ykkar í vetur. Ég fékk hana með góðum skilum, en hafði sent þér línu degi eða svo áður hún kom og hefi líklega aldrei sent neina viðurkenningu. Nei, Magnús minn, þú átt ekkert að þakka. Ég var búinn að lofa mér að gleyma því og ætlaðist ekki til, að þú værir var um það. Ég er bæði naumur og getu-smár, að mér finnst, og gerði bara að gamni mínu.

Gott að þér er að batna; og rétt af þér að dvelja við, áður þú leggur austur aftur í vetrarinnibyrginguna og aðsetuna. Hún er engum holl, nema híðbjarnarheilsunni. Jafnvel mig langar stundum til strandanna, sjávar-niðsins og salt-lyktarinnar. Kannske þú sjáir mig þarna vestra, ef okkur endist aldur og eira til.

Auðvitað ertu marg-velkominn í kofann minn, ef leið þín liggur austur, meðan ég er uppi hér, og ég skal koma þér til Red Deer, þar sem Hallfríður Magnúsdóttir (Mrs. Guðmundsson), skólasystir þín forn, býr.

Fyrirgefðu, hve seint og stutt ég svara þér í þetta skipti. Ég hefi verið einyrki í ótíð og önnum, bæði með búskap og skáldskap, eins og þú hefir séð brot af í blöðunum. Við höf-

um verið ein um tíma „karl og kerling í kotinu". Krakkar fóru austur, eru nýkomin.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Eggert Jóhannsson.* Markerville, Alta, 24. ágúst 1912.

Góði vin, Eggert. — Mér þótti vænt um fréttirnar í síðasta bréfi þínu, fyrst þú hugðir svo á breyting. Óska ykkur öllum auðnu og ánægju í nýbyggð ykkar. Þó það væri nú, að þú ættir ekki til heilt „hótell", þegar krakkar komu. Þeim þótti víst þið góð heimsóknar og alúðleg, og ég ætlaði að vera búinn fyrr að segja þér það og þakka, með hinu, en ég hefi haft svo mikla „önn sem erfiði", eins og stormurinn stundum, að ég hefi ekki á penna tekið nú lengi, fyrir votviðraheyskap og alls konar ómaka-snúningum, af því ég er þá líklega kominn í svifa-seinku. Nei, Eggert, ég er enn ekki alveg í rónni út af öllum átroðningum mínum á þér um árið. En sleppum því svo, ég líklega borga það með þeim grámka bættum ofan á svertu að róla heim til þín vestra, einhvern góðan veðurdag, eigi ég þá nokkra enn fyrir hendi. Líklega þarf ég aldrei að ganga fram hjá „689 Agnes". Þegar ég heyri, að þú sért „áttaður" þarna vestra, sendi ég þér línu þangað, þó þú verðir ekki alveg kominn í „samt lag" fyrr en seinna. — Með velfarnaðaróskum okkar.

Þinn Stephan G. Stephansson.

*Aðalsteinn Kristjánsson.* Markerville, Alta, 24. ág. 1912.

Góði vinur. — Þökk fyrir bréfið og bókina. Ég fór auðvitað Gordona-villt, hafði víst ekki tekið eftir því, að Winnipeg „átti þá tvo bíldótta". En viðvíkjandi ræðunni og bókinni breytir það engu.

Það er rétt og skarpt athugað hjá þér, að þessir linbökuðu guðfræðingar nota biblíuna eins og skáldin þjóðsögur, sér til yrkisefnis, og upp á sitt mál snúna, oft þvert ofan í réttan, einfaldan skilning — á henni. Véfengja sannsöglina, eins og rétt er, en þykjast finna svo dæmalausa göfugleika-andagift, jafnvel í hrottalegum hindurvitnum, er handriturum kom aldrei í hjartans hug, og þetta í þjóðsögum, sem að öllu leyti standa langt að baki „Æfintýrum Andersens".

Skáldin villa engum sýn. Þau fara ekki með annað en sína eigin list í meðferð. Prestarnir svíkja lit á sér, þykjast fara með fræði, þegar þeir eru að afsaka biblíuvitleysur, með að þvinga inn í þær sína „symbólik“. Með þessu stendur margt í biblíunni fegurri bókmenntum í lognu ljósi.

Þarna er veilan. Biblían er nú aðeins nokkurra alda fornar bókmenntir einnar þjóðar, illar og góðar. Það er allt og sumt.

Þegar ég kemst til að lesa bókina, sendi ég þér aðra línu. Nú á ég fáar tómstundir.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerville, Alta, 29. sept. 1912.

Góði vin. — Ég sá í síðustu „Hkr.“, að þið væruð að heiman horfin, og velkomin vestur. Þetta bréf er nú bara til fámæla, hugur minn að heilsa ykkur og segja: Komið sæl!

Aldrei skrifaði ég þér í allt sumar, sinnuleysið afsakaði það ætíð með því, að hvernig sem ég skyggndist um öll blöð, sá ég þín hvergi getið, fyrr en rétt nýlega í „Ingólfi“ og þá á brottleið úr Vík innan skamms. Ég jafnvel hélt þú hefðir skrifað skjaldaskotið fyrir Taft forseta, gegn dr. Helga Péturss., sem þar stóð. Um Þorst. Erlingsson, sem þú sagðir mér að fela bréf, vissi ég, að hann var „austur í sveit“ í sumar, og mér nærri skilst á bréfi að heiman, að hann hafi verið óheimtur heim seint í ágúst. Mér er nærri grunsamt um, hvort þið hafið hitzt.

Ég varð svo feginn, að þið gátuð farið, eins og á stóð. Ekkert þreyir eins af manni eins og lang-ferð, svo æfintýraog anna-söm, að þunglyndið komist varla að manni fyrir ferðavolki í einhverjum ófyriséðum veröldum.

Ég spyr þig einkis, en vil allt vita. Það er ekki til neins að „katekísera“ þig að fyrra bragði. Mér dytti ekki helmingurinn í hug, nema við sætum samrýmis, af því, sem mér kæmi í mun.

Sumarið var mér afrekslaus einyrkja vegna tafasams tíðarfars og afkastaleysis sjálfs mín. Að öðru leyti er ég rogginn og næ senn í sextugasta árið.

Með vinsemd Stephan G. Stephansson.

*Eggert Jóhannsson.* Markerville, Alta, 9. okt. 1912.

Góði vin. — Bréfið þitt frá 21. f. m. hefir svona geymzt til að borga, þangað til nú. Einlæg annatíð hér og gengur þó hvorki né rekur, sökum tíðarfars. Mitt korn óstakkað enn, en búnir á löndum drengja. Í gær rigndi og snjóaði og festi föl í nótt, en er nú næstum horfið í dag, um hádegi. En fátt er svo að öllu illt: Ég hefi nú svo sem augnablik fyrir bragðið til að heilsa ykkur á nýja heimilinu, annars væri ég að hlaða upp hafra-stakk. Það er fyrir öllu, hve ánægð þið eruð, og ég held það haldi áfram. Mér hefir fundizt, að svo margir hagspekjast þó þarna vestra, að það hljóti að vera nokkuð sökum vel-viðeiru, en ekki allt vegna keldunnar stóru: Kyrrahafsins, þó hún sé auðvitað þröskuldur á leið og ekki svo björgulegt á bakkanum hinum megin, að mörgum leiki hugur á að hleypa yfir.

Vel kváðuð þið við „doktor Jón", og kvæðið hans Sigurðar vinar míns í Hásýni (Alta Vista) er skáldlegra en hans séra Ara í Seattle. — Svo er nú Sveinbjörnsson að ráða sig heima hjá ykkur.

Ekkert hefi ég frétt úr Wpg. Sendi séra Rögnv. línu nýlega, þegar ég heyrði hann var heim kominn, en náttúrlega hefi ég ekkert svar fengið enn. Eitt bréf fékk ég frá Ísl. nýlega, frá Baldri Sveinssyni, sem við „Lögberg" var. Hann unir vel í Viðey, er þar formaður P. J. Thorsteinsson & Co. útgerðarinnar: „Milljónafélagsins". Baldur er óbreyttur að skoðunum á stefnum og málefnum, frá því sem ég þekkti hann af bréfum og augnabliks samtali í Wpg um veturinn minn víðförula. „Pólitíkin" íslenzka gengur fram af honum, eins og okkur, þó hann skrifi mér minnst um hana. — —

Hefir J. M. B. atvinnu? Ég bið að heilsa honum og þykir vænt um, að hreysti hans og ánægja hefir færzt í aukana.

Hér sami svipur í sveit. Von kvað vera á Hirti Leó hingað, til trúarbóta, eða svo bjóst hann sjálfur við í samtali við Grím Steingrímsson.

Dvelstu allra vinsæld við
Vel þér falli ströndin,
Beltið fjalla og haf á hlið,
Heiðið mjalla og útrýmið.

Konan og krakkarnir senda ykkur kveðju sína líka.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Sigurður Jónsson frá Víðimýri.* Markerville, 17. nóv. 1912.

Siggi minn góður. — Já, ég var að stumra við gömlu Guðfinnu, ekki heima, aldrei þessu vanur, daginn sem þú komst. Það fer líkl. betur næst. Ég er lengstum aleinn af karlmönnum á kotinu. Kobbi fylgir þreskivél Bárdæla í haust. Ég er svona sí-dundandi milli fótaferðar og myrkurs. Kemst hvorki til bréfaskrifta né bæjasnatts og býst við, að það hæfi nú bezt. Fengi ég ekki eins mörg bréf, blöð og rit og ég geri, væri ólifandi, því ég get þó lengstum lesið, nema ég sé alveg frá. Það er nú mitt happ. Annars líður okkur bærilega, og ég er enn ekki mikið eldri en ég sýnist. Svo er maður þá svo lánsamur með veðrið. Það er víðast verra. T. d. kvað Plain ríki, í Milton nálægt Garðar, eiga 65 000 „Bushels“ óþreskt undir vetrinum syðra, og margir mikið, en flestir landar rétt sluppu. Gamli síra Jón Magnússon (Steinár) er hjá syni sínum á Garðar, og verður líklega í vetur. Karl kvað vera ern og fjörugur. Ójá, Kristján Sigurðsson, meðritstjóri „Lögbergs“, sem alþýðuvísunum stjórnar, er ekki mjög matvandur, þó hann reyndar riti stundum góða íslenzku og sé háskóla-lærður. En þrátt fyrir allt gæti þessi „Syrpa“ „Lögbergs“ orðið all-mikið aðstoðar-rit, þegar hæfur maður safnar alþýðuvísunum okkar, sem einhvern tíma verður, maður, sem kann að vinza úr og taka það eitt, sem bezt fer, þegar misjafnt er haft. Að því leyti er þetta leiðréttinga-stagl ekki alveg þýðingarlaust, þó leitt sé að lesa. Mér þykir nærri sú fávizkan lökust, sem prentar upp vísur úr algengu kvæðabókunum okkar, eftir Gröndal, Bjarna, Kristján, Fótaskinns-Sigurbjörn og fleiri, og veit ekki, að hún er að fara með prentuð ljóð, því þau er þarflaust að rubba upp, og næstum kjánalegt að vita ekki hvar eru.

Skepnu flesta, skáld og menn,
Skorpu-frestur gleður.
Kemur að vestan andhlýtt enn
Okkar bezta veður.

Fylgi þér allténd fjörleikinn,
Forðastu elli-beiginn.
Og verðirðu ungur, vinur minn,
Vertu það hérna-megin.

Vinsaml. Stebbi.

*Baldur Sveinsson.* Markerville, Alta, 15. des. 1912.

Góðvinur. — Ég hefi þegar sent þér tvo miða, síðan ég fékk bréfið frá þér í sumar, sem mér þótti vænt um. Blöð og bréf eru að verða þrautseigasta ununin mín, þegar ég fæ tómstund til. Ég sé á „Birkibeinum“, að fyrri seðillinn hefir komizt leiðina sína, en hinn, sem bar í sér liðugra 30 króna ávísun, áskriftir fyrir „Ingólf“ ykkar, er ekki til vona, að ég hafi enn fengið vitneskju um. Nú kem ég erindisleysu, til að rabba af þér verk, því ekki kann ég neinar fréttir.

Það er með „Ingólf“: „Ísafold“ var víst fjölgæfust heimablaðanna hér; hún bráðnaði, en það eimir líklega sums staðar eftir af trúnni á hana, því þyrfti „Ingólfur“ ögn að útbreiðast, til að vega á móti. „Lögb.“ verður líklega trútt og gætið (þ. e. a. s. áttavitarnir, „leiðararnir“) á innviðunum hjá Stefáni, en Kristján, þessi yztu-blaða ritstjóri, er öðruvísi, svo „Lögberg“ er ekki laust við að vera ögn bröndótt. Verst, að alþýða eignar náttúrlega Stefáni allt, sem nafnlaust er í blaðinu, t. d. eftirmæli þess um gamla Björn Jónsson, sem jafnvel fyrrum Hafsteins-sinnar finna til, að sé kaldranalegt um of, þeir sem þó þóttust þekkja Björn. Aftur er ekkert á „Hkr.“ að ætla, þó hún enn hafi verið þar vonum fremri, þá er það líkl. Tryggva að þakka. „Heimskr.“ er svo eigingjörn, að hún útbullar sig í hagsýnisskyni.

Í rælni að segja, og þó ekki alveg út í loftið: Þegar sverfur að fyrir næstu kosningar, sendið röskvan mann úr ykkar liði til fyrirlestra og féfanga fyrir ykkar hlið, út um allar lendur okkar vestan hafs, ef við þarf. Bjarni frá Vogi er líklega nógu djarfur og hiklaus, heimsborgaralegur og ferðafær af viðvenju, og vertu svo með, sem gamall sveitungi vor Vestmanna og okkar hnútum kunnugur.

Ekki hefi ég fengið „Ingólf“ sendan mér að heiman, eins og þú gazt til. Þess var heldur engin von. En Benedikt bróðir þinn sendi mér „bræðings-fréttina“ og 3 blöðin helztu, sem um hana töluðu, eða fögnuðu, að slíkt væri í bígerð, um leið og það gaus upp. Ég þekkti ekki rithöndina á skriftinni og vissi ekki fyrst, frá hverjum var, en nú er ég viss (ég man þó ekki hvernig), að sá, sem sendi, hafi verið Benedikt. Það hefir oft verið siður minn að lesa helzt um stund andstæður minna eigin ályktana á því, sem ég þóttist hafa sjálfur komizt að

niðurstöðu um, til að reyna þolrif míns máls, þangað til allt verður að uppaftur-tuggu, svo mér leiðist það. Ég las „Ísafold“ eina um stund og rækilega. Loks fékk ég mér „Ingólf“ frá Bárdal, en hann hefir orðið slitin lest og vantar í. Ekki nenni ég að rita þér um, hvorum megin minn hugur væri. Býzt við þú vitir það, og að jafnvel sumir, sem vildu mér vel, þyki ég ljóða mér til óþarfa um það í „Lögbergi“. Ojæja, skáldskapur á ekki, trúi ég, að lúta svo lágt að fást við flokksmál sinnar samtíðar, þó allar mannfélags-stefnur séu orðnar flokka-mál. Vel og gott, ég *kveð* þá, þó ég *yrki* ekki.

Þann við höfum arfinn átt
— Í hann þó menn hnjóði:
Að við höfum blítt og bágt
Borið af með — ljóði.

Ég ætla að kveða við þig *Alkemistann,* til að breyta um stíl.

Oss herrum úr háskóla-veltu,
Á hrepp eða í embættis-sveltu,
Er pólitík iðnin sú eina
Til uppeldis vænleg að reyna.

Því matur er helzt þar í holum —
En hún er í bölvuðum skolum,
Því illa menn útlátum kunna,
Með álög á blá-fremstu hlunna.

Og fáist ei fólk oss að trúa,
Né fyrir sig láta okkur búa,
Það yrði oss ófagurt gaman —
Á undan því bræðum oss saman.

Og pólitískt alkemí er það,
Sem oss gæti bjargað. Þú sér það!
Og ég er til útbræðslu hraður
Og æfðasti gull-töframaður.

Þó erlendir bjóði í okur
Sinn einveldis toll, hlaupa lokur
Samt fyrir þá fjárvon og illa
Oss ferst um þann reikning að villa.

Og takmark vort trú' ég það hneisi
Á *tekjur* og *ábyrgðarleysi.* —
Við treystumst að innbyrða tollinn.
En tilvinnslan! Það væri skollllinn!

Við hættum ei þar okkar þreki
Að þjóðfélag kaupskap sinn reki —
Við handleikum hankann á bandi
Með hagldir og tögl út úr landi.

En þá er til þrasið við Dani!
Svo þaul-æft og margbrotinn vani:
Að umhverfa og atyrðum kyrra
Það allt, er við gerðum í fyrra.

Og þjóðina þarf nú að temja
Við þörf okkar rétt sinn að hemja.
Um annað er ekki að velja
En eitthvað, sem hægt er að selja.

Í hirzluna, hve nær sem semur,
Allt helvítis „til-lagið" kemur.
Ef milljónum tosum á torgið
Að taka úr, væri oss borgið.

Til forsetans fræga við vitnum,
Í frumdrögum lang-síðan ritnum:
Að ef að við svíkjum — þá sveik hann,
Og sé okkur vikið — þá veik hann.

Nú kemur það, sem ég kalla *resúltatið,* og eru þá kvæðislok.

Í laumi við lausmælgi kvæða
Í launkofa skreið ég að bræða.
Úr lýsi og tólg er að tarna,
Svo tálbeitt, í öskjunni þarna.

Í alvöru, allt þetta afturhvarf held ég aðeins töf, en ekki leikslok. Mér er Rauður ráðgjafi í æfintýrunum svo minnisstæður.

Þú spurðir, hvort ég vildi gera þér grein fyrir einhverju um mína eigin hagi. Velkomið, það sem ég get. Sendu mér spurningarnar, og ég skal lofa þér að hlýða mér yfir. Hr. Guðbrandur Jónsson, ritstjóri „Sunnanfara", reit mér í næstl. sept-

ember, að hann hefði sent mér blað sitt. Þá sendingu hefi ég aldrei fengið. Ég fæ „Sunnanfara“ frá Baldri og borgaðan honum.

Skilaðu kveðju minni til Sig. Guðmundssonar, sem þú minntist á, og þökk minni fyrir hlýlega grein forðum, og blöð, sem mér voru send, fyrir hans tillögur hér á árunum. Ég hefi lesið mér til ánægju ýmsar blaða-greinar eftir hann, seinast dóm hans um „Hóglífi“ — Simple Life — séra Wagners franska, sem ég hefi ekki lesið, og líklega uppgæfist við. Mér þótti vænt um, hve vel hann tók fram gagnsleysið, sem maður hefir af mærð, þó falleg sé, sem gleymir að ákveða, hvaða hugtök höfundurinn hafi um t. d. hvað sé of eða van, í hverju sem er, og hann ræðir um. Ég þarf að vita, hvað ég á að gera, svo ég verði hólpinn, þar sem ég er í vafa, svo ég geti tekið því, annars læri ég ekkert lag á því, þegar í vanda slæst.

Þú gazt um Gvend minn Sendling. Illa færi mér að leggja honum út til lýta. En mér finnst stundum, að frammistaða hans sé lakari en ég hygg hann hafi efni á. Það er ekki vegna þess, að hann hafi séð vandkvæði á mínum ljóðum. Þau eru víst til, en mér þykir þetta koma víðar og verr fram í sumum öðrum ritningum hans, t. d. draumaruglinu og fornsagnalestri hans í „Eimreiðinni“. Auðvitað virðist mér honum villast vit í sumu, sem hann segir um mig. T. d. *það,* sem hann finnur að kvæðinu eftir Gest minn heitinn. „Að fosslaus á sé ekki mikils virði“, kann að fara tvennum sögum um. En hví að fjargviðrast um „lygnuna“, fyrst hann segir að lokum, að kvæðið „sé eins og á, sem endi á fossi“. Að föt og sokkaplögg sprungu utan af harmi fornskálda, finnst mér skopleg fyrirmynd, aðeins hæf í Heljarslóðarorustur okkar, sem nú erum uppi. Það var „persóna“, „guðinn Ægir“, sem Egill vildi herja á, þó Egill „vissi, að sjórinn var ekki persóna“, eins og G. segir, en veit víst ekki. Annars er Egill ekki í mínum augum mest skáld og göfugast í herfarar-löngun sinni á hendur Ægi, heldur þar sem hann býður hörmum sínum birginn, slíkir sem þeir voru, með því, að hann eigi þó enn góða vini og vammifirða list, skáldskapinn. En, einmitt í þessum ágreiningi kemur fram sjónarmiða-munur okkar G. — Ég skil ekki, hvað „einstaklings einkennin“, eins og Guðmundur skeytir þau við eilífslífs-von sína, geta þýtt. Glögg-

skyggnir menn segja engar tvær bárur eins. Einstaklings-einkenni mannsins hverfa í þessu lífi, verði það nógu langt, í ellinni, og helzt þau hæstu, hin svo nefndu andlegu. Guðmundur stekkur á niðurstöðu, yfir hálfhugsað efni. En — ég á G. ekkert nema gott upp að inna, og segi svona óvildarlaust. Mér þykir vænt um að vita, að einhverjum hafi orðið unun að kvæðunum mínum. Til þess voru þau ætluð, fremur en til fjár og dýrðar. Og þér kann ég þökk fyrir að kasta þeim stundum inn í salinn, eins og þrætugyðjan eplinu forðum. Stríðið út af því verður aldrei hættulegt.

Nú er helzt í hægðum gert
Heimfars ráð og smækkar.
Og við liðið árið hvert
Erindunum fækkar.

En þegar ég kem, skal ég sækja þig heim, þó mig beri upp á Bjargtanga, en garður þinn standi í Glettinganesi.

Þessi skrift er bæði skökk og skammarleg, mér varð stutt um tóm og stirt um hönd. Lestu í málið hjá mér. Þetta kemur nú til þín „eftir hátíðir". Óska, að þær hafi orðið þér glaðir dagar. Kona mín sendir þér kveðju sína, og vertu nú sæll!

Vinsamlega Stephan G. Stephansson.

*Vilhelm Pálsson.* Markerville, Alta, 20. des. 1912.

Góðvinur. — Þökk fyrir bréfið þitt úr þingsalnum. Man ekki, hversu lengi þingið ykkar á að sitja en veit hitt, að ykkur verður sleppt út um jólin, svo ég kem á pappírnum eins og leið liggur til Leslie, bara til að óska þér glaðra daga.

Opinn yrði kofinn minn, kæmir þú vestur. Mér þætti ánægja að hafa þig eitt kvöld eða svo, og enn get ég rabbað um sumt við suma. Hefi aldrei verið málreifur um allt, né við alla, og það eldist fremur á mig en af.

Hér standa nú yfir einlægar brúðkaupsveizlur.

Yrði nýja árið kalt,
Eitt er þó að lofa:
Fækkað er þeim ótalfalt,
Sem einir þurftu að sofa.

Ég er boðinn — en hefi ekki þegið brúðkaup í þrjú ár, eða lengur. Þegar maður eldist, fer maður ekki að fá tíma til þess fyrir jarðarförum.

Já, það er ekki eins lang-gætt að vera ríkur eins og það er mikils metið. Krösus sálugi hefði jafnvel gleymzt, þrátt fyrir allan auðinn, hefði hann ekki komið við „pólitíkina" í Rómaborg, og Kristján okkar í Stóradal glataðist ekki, af því Gröndal gat hans í „Heljarslóðarorrustu".

Mér er illa við vísuna: „Æfin þrýtur einskis nýt". Þú hefir víst heyrt hana. Hún er samt nógu vel gerð. Almenningur hugsar hana svona:

Ár úr býtum ber ó-nýt,
Baga hýtir seiminn.
Grár af „krít" ég ganga hlýt
Gegnum vítis heiminn.

Ég hefi hana aftur svona, og „hræki hraustlega":

Auð ei hlýt, svo alls ég nýt,
Ísinn brýt við seiminn.
Grár af „krít" ég glaður þýt
Gegnum „víta" og heiminn.

Þú veizt, að „víta" er líf eða æfi á latinsku máli. Mér stendur þá á sama, þó að þeir, sem ekki vita, að þetta sé „lærðra manna mál", ambagi það í „víti og heiminn".

Svo sný ég þessu gamni upp í alvöru, og kveð þig.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Eggert Jóhannsson.* Markerville, Alta, 5. jan. 1913.

Góði vin. — Bréf þitt, með boðum frá „Kveldúlfi", kom í gærkveldi. Berðu félaginu þökk mína fyrir vinsamlega málaleitun þess. Kvæði *vildi* ég gera fyrir það, ef ég gæti. Ég veit ekki, hvort mér hugkvæmist neitt, sem boðlegt yrði. Ég þekki alveg ekkert til félagsins, veit ekki, hver áhuga-mál þess eru. Annað hvort skotizt yfir það í blöðunum, eða það hefir lítið látið sín getið.

Komi engin óvænt hindrun í veginn, hygg ég, að ég gæti sloppið vestur.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Okkar á milli.* — Eggert minn góður. Beztu þökk fyrir bréfið og „jólagjöfina“. Um hana er það að segja, að ég las hana með unun og hefi mætur á mörgu í henni. Þú gazt varla valið mér bók betur að geði en þessa, eins og mínum háttum var háttað.

Mér var farið að leiðast að frétta ekki af ykkur, jafnvel kvíða, að eitthvað væri ekki með felldu, en sló því við, sem eðlilegast var, að þú myndir hafa í mörg horn að líta með bréfaskriftir, nýkominn út úr margra ára kunningjahóp, sem ennþá langar að vita, hvað þér líður. Mér þótti bágt að frétta um lasleik þinn, þó mér kæmi hann varla á óvart. En ég vona, að það sé bara skammdegis kvilli í mörg ár enn. Þú ert skrifstofu-skemmdur og ég er fjóshauga-farinn, Eggert minn. Það er sjálfsagt bitamunur á því, en báðir standa þeir jafn-illa í manni, þegar maður þarf að fara að kingja þeim. Eitt gladdi mig, ég vissi áður en bréf þitt kom, að Laurenz var á leið til ykkar. Hann sendi jólakveðjur til okkar og gat þess. Og nú, það er eins og allt sé þó gott, fyrst að drengurinn ykkar kom til. Svo, hérna er þá hamingjuskál nýjársins ykkar.

Ég átti að hafa svarað fyrra bréfi þínu fyrr. En ég dró það. Var að hinkra eftir, hvaða „nýjárs-heit“ ég myndi gera. Man ekki, hvort ég hefi nokkurn tíma nokkur gert og því síður, hvort ég hefi haldið þau eða brotið.

Nú skal ég segja þér: Ég er að hugsa um að fella búskapinn af þetta ár og flytja héðan, helzt vestur á strönd, geti ég komið því við og fengið þar það að gera, sem gömlum og fákunnandi karli, en smáþægum, hæfði, til að halda sér uppi. Ég sem sé hvorki get (né vil) selt lönd mín í bráðina, en í þeim liggur nú aleigan. Til þessara bollalegginga liggja nú mörg drög, en þau helzt:Mig er farið að bresta eiru og elju við þófið. Annars hefi ég gengið með svona „flugu í hausnum“ í nokkur ár, að hafa það svona, „þegar ég yrði um sextugt“. Hefði að líkindum komið „óboðinn“ að sumri eða hausti að gamni mínu fyrst og á hnotskóg. En ég vona við sjáumst bráðlega og sleppi svo tildrögum og ráðagerðum um þetta ímyndunarverk. Á öðru blaði sendi ég þér svarið til „Kveldúlfs“. Vil ekki rugla því inn í annað rabb, ef þú skyldir vilja lesa þeim það. Ég kvíði því helzt, að ég veit ég næ mér ekki niðri á minninu. Þetta „Úlfa-mót“ er svo óþjált og ég svo „framandi“. Heyrðu annars, því sló niður í grun minn,

alveg ástæðu-laust, að stundum séu „andar“ fremur en „úlfar“ á reiki á „kveldin“. Líklega er þetta aðeins fjarstæða, dyntur í mér, en af því þetta datt í mig, get ég ekki stillt mig um að segja þér það til að brosa að.

Nú ætla ég að biðja þig eins: Þrengdu ekki að þér né þínum, þó ég komi. Það er vandi að segja svo við vin sinn, sem allt vill manni vel gera. Það má nærri hugsa, að manni gangi óvilji til að segja svona. En langt, langt frá því er fyrir mér, heldur hitt: Að troða ekki á þeim, sem sízt skyldi.

Svo brýt ég blað. Á morgun kemst þetta til Markerville. Til Innisfail þann 7.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*J. Magnús Bjarnason.* Markerville, Alta, 12. jan. 1913.

Gleðilegt ár. — Ég hefi nýlega fengið tilmæli um þetta „Kveldúlfsminni“ frá öðrum kunningja okkar, þegar þitt bréf kom. Hafði þá svarað því, og ekki ólíklega. Býzt við, að þú vitir það nú.

Þó ég reyni það, verður það vansmíðað. Nú er ég ekki orðinn aðsætinn lengur, eftir daglega stjáið, og minni morgunsvefni treinist það, nú orðið, mála milli, svo ég hefi lítið tóm, og ekkert, ef út af ber. En við sjáum til. Svo verður svarið ekki lengra núna. Kærar kveðjur.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Eggert Jóhannsson.* Markerville, Alta, 20. jan. 1913.

Góði vin. — 15. næstl. í þ. m. fékk ég ritskeyti frá Borgfjörð og bréf þitt að kveldi. Kveldúlfur bauð mér í hófið og frítt far og bað um skjótt svar. Ég svaraði sama kveldið með símtali frá Markerville og hraðskeyti frá Innisfail. Kvaðst myndi koma. Niðursett far frá Innisfail kvað kosta $ 30.20. Dugar til apríl, en maður verður að vera kominn á yzta ætlunarstað áður 15 dagar líða frá farbréfskaupi. Ég veit ekki betur en að far fyrir mig verði keypt í Innisfail í dag, seinasta söludaginn, til að draga ferðafrestinn sem mest. Getur verið, að Borgfjörð hafi gert sama vestra, en enginn tími til fyrirspurna þar og ég þorði ekki að sleppa af þessu góðkaupi

hér. — Svo er allt ráðstafað, ekkert eftir nema að lifa þangað til og halda heilsu, og maður fer varla að ónýta farbréf fyrir sér með þess konar rælni, að bregðast því.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Eggert minn góður.* — Ég sendi þessar línur til skýringa, þó seint sé. Get ekki aukið við svar mitt öðruvísi. Þú lætur þá vita. Ég vona, að skeyti mitt til Borgfjörð hafi komizt slindrulaust. Hans var ögn vafasamt — addressan — og ég gat ekki bætt úr því með heimilisnúmeri hans, eftir minni mínu. Já, ég ætlaði nú einmitt að hafa „Kveldúlfsminni" eins og þeir ætlast til að forminu, þetta „laust og bundið" við þá nafnana. Annað hugsaðist mér ekki og við það verður að sitja: Kvæðisstúf innan í ræðu-stúf.

Ef ég get, sting ég nokkrum seinni kvæðum mínum á mig, ef mér liggur á að gera eitthvert skrölt af mér. Þau verða samt öll, eða nær því, áður prentuð í blöðum einhvers staðar, sum heima, og þau þá kannske ókunn. Ég hefi ekki neitt óséð til. Mér tekst aldrei að geyma neitt fyrir blöðunum.

Frost-grimmdir hér síðan um nýjár. Skrokkur minn hálfsviðinn, en ókalinn, af bölvuðum kuldanum. En svo er ögn hlýjast í dag og tekur bráðum fram úr, svo allt lifir og leikur sér. — Vertu nú blessaður, þangað til ég kem — og miklu lengur.

Vinsaml. S. G. S.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerville, Alta, 14. marz 1913.

Góði vin. — Komdu blessaður og sæll, og gaman yrði að sjá þig! Ég held það geti varla farið hjá því, að fólk hlusti á þig, því víða er það bágara á því, þó betur mætti vel vera. Ég skal auglýsa og undirbúa það sem þarf og ég get. Bara láttu mig vita nógu langt fyrirfram, hvenær þín verður von.

Sveinbjörnsson söng hér í fyrrakveld, og þrátt fyrir nýafstaðna veður-spilling og breytingu á auglýstu og ákveðnu kveldi, hlýddu víst 60 til 70 manns á hann, af þessu fámenni, sem hér er til, svo það tókst vonum betur, en sjálfur Red Deer bær brást honum verr.

Ég held þú megir hætta á að koma, en auðvitað er ég ögn að draga sjálfs mín taum í að eggja þig á þetta, því mig lang-

ar til enn eins og áður að mæta glaðværð og mannúð og mannviti; það er svo hressandi, þegar maður er sjálfur hvorki kaupsýslu-maður né kann að dansa.

Ég kom frá Kyrrahafi kveldið hins ellefta, þessa viku, kúg-uppgefinn og úrvinda, en að öllu öðru betri en jafngóður, og er nú að vinna upp svefnmissinn. Ég lifði í dálæti einu saman hjá löndum okkar á ströndinni, var sæmdur veizlum og dýrgripum. Það var eins og menn yrðu syngjandi og fagnandi við, að ég skyldi koma, en ég skil vel, að það voru ekki mínir verðleikar, sem ollu því fyrst og fremst, heldur greip íslenzka gestrisnin og mannslundin, líklega ósjálfrátt, þetta tækifæri að sýna sig og vera eins og hún er „af guði gerð“. Hitt var fremur tilviljun, að ég varð þessi bláþráður, sem þær festu sig á, í þetta sinn. En hvað um það, ég var borinn um í sigurför, ekki síður en eystra um árið. Ég hefi aðeins beig af einu, að þetta sé ofgert við mína tilvinnslu. En það kvað rigna jafnt yfir réttláta og rangláta og ekki verða að gert, en guðsþakka vert að fá eitthvert regn.

Heyrðu, getur þú ekki farið í „strandhögg“ vestur, eins og ég, ef þú kemur hér? Það sýnist bera vel í veiði, fyrst svo langt væri komið. Þeir vilja þig þangað, all-margir, áttu jafnvel von á þér á „mótið“, og vel myndu vinir þínir taka þér, að ég hygg. Leó hefir haft þar vetrar-setu, en fer nú austur síðast í þessum mánuði. Við hittumst nokkrum sinnum, jafnvel stældum stundum, en ekki held ég hann þykist hafa lagt ströndina undir sitt guðsríki, svo að vel sé. Söfnun í söfnuði mun hafa gengið nokkuð tregt og fylkingin hvorki föst né sérstaklega vaskleg. Eitthvað var þó Leó líka að erindrekast um þenna prestling þeirra í Portland Ore., á líklega að stjóra hann við ströndina, verði Hjörtur „kapelán“; Jóns gamla og færi sér þar að forgörðum, sem ég veit hann óar við, hvort sem metnaður hans kann þó að stýra til.

Ég hefi þetta svo ekki langorðara núna. Maður hlýtur líka að vera beinlínis sjálfum sér síðri og mannspilltur, ný-kominn úr andlegu og líkamlegu mánaðar-svalli, þó voðalaust væri það. — Bið kærlega að heilsa og kveð þig svo.

Vinsamlega Stephan G. Stephansson.

*Eggert Jóhannsson.* Markerville, Alta, 15. marz 1913.

Góði vin. — Línur frá þér í gærkveldi og minntu mig á, hve illa mér hafði farizt að senda enga línu fyrr. Ég komst heim á þriðjudags-kveld, grútsyfjaður og kúg-uppgefinn, en ólmur að öllu öðru leyti. Þegar til Revelstoke kom, voru mér settir tveir kostir af farstjóra: Að kaupa svefnvagns-rúm eða verða þar eftir og bíða næstu lestar. Ég náttúrlega kaus heldur bæli en bið, en óréttur er það að flokka upp lestir á miðri leið. Drengur frá Regina, sem ég kynntist og var sessunautur minn, gat smeygt sér einn undan og haldið sig í eina almennings-vagninum, sem flutti fólk bæja milli, því hann var víst skildinga-fár. Hann komst slysalaust til Calgary, en þar hrundu þeir honum fyrir borð og varð hann að bíða næstu lestar. Vel fór um mig í mínum bás, en engan svefn gat ég haft, frá því um var búið og þangað til til Calgary kom, kl. 2 um nóttina. En ég fékk mér þá lambasteik í borðsalnum, en skyrið hafði ég borðað hjá Kveldúlfi. Þú manst, að Jónas okkar kvað við seppa sinn: „Lambasteik svo þér líki, ljómandi skyr og rjóma". Verst var þó kl.-tíma biðin í Calgary. Ekkert hægt að fara. Allir landar í sofum, sem ég hafði þó lofað að líta inn til. Ég keypti mér 50 centa virði af Canada-whisky og vakti einn á því alla leið til Markerville. Á keyrslunni heim fékk ég bleytuhríðar-byl, hinn versta, í 2—3 kl.tíma. Svo stytti upp. Í önnur æfintýri en þetta rataði ég ekki. Kveldið eftir (hinn 12.) söng Sveinbjörnsson á Markerville. Við vorum þar öll, því allt fólk mitt var bratt og bústið, þegar ég kom. Í Red Deer tapaði Sveinbjörnsson einum dollar, fékk 15, en borgaði 16. Hjá okkur tókst vonum framar. Fönnin kveldinu áður spillti ögn færi. Svo var samkoman nærri á síðustu stund, haldin kveldi fyrr en auglýst var. Karl hafði ákveðið sig þann 14. í Leslie, Sask. Hér fékk hann þó $ 37.50, en við skutum saman sjálfir fyrir húsaleigu. Mér fannst karl vera ánægður, og enn segist hann muni koma og syngja fyrir okkur. Annars gat ég fátt við hann talað. Vildi sem minnst hamla honum frá að hátta, undir ferðina morguninn eftir. Tíð var afbragðs-góð hér meðan ég var vestra. Nú er hún tyrfnari, sem stendur, él og rosar með köflum, en ekki frosthart.

Ójá, Eggert minn, það vill oft verða ömurlegt um tilfinningar manns, þegar þeir verða að skilja, sem hlýjan hafa hug-

ann. Mér var heldur ekki alveg mótgangs-laust að þurfa að kveðja ykkur, en það var nú sök sér um mig, eftir allan fögnuðinn og velvildina, sem ég mætti hvarvetna vestra, og þið, sem fylgduð mér þarna seinast, voruð þeir, sem mest var að þakka fyrst og síðast. Án ykkar umgöngu hefði ég aldrei ferð þessa farið, og þið gerðuð það ekki enda-sleppt við mig. Þökk ykkur öllum.

Snöggvast verður hlátra-hljótt
Huga í — og kannske ljóðum,
Upp á fjöll og undir nótt
Einum burt frá vinum góðum —

datt í mig, þegar ég var setztur að í vagninum.

Alúðar kveðjur frá heimili mínu hérna til hins þarna hjá þér og vertu all-tíð sæll. Þinn S. G. S.

*Sveinn Björnsson.* Markerville, Alta, 18. marz 1913.

Forlög mín þó tækju í taum
Tölur við og gleði-ljóð,
Þyrlast eftir þrotinn glaum
Þrátt við eyru tóma-hljóð.

Og komdu nú sæll, Sveinn félagi. — En því hefi ég ekki getað skrifað þér fyrr, að ég hefi bæði átt annríkt við að skemmta mér og jafna mig, síðan við skildum. Ég hefi skrifað „Stjána“ ferðasöguna, svo þú færð nú bara gambrið. Ég hefi svo mörgum þurft að segja, að ég sé kominn lifandi heim, að ég hefi ritað margar blaðsíður til að sanna vinum mínum, hvað ódrepandi ég er, en ég vissi, að þig rámaði í það, síðan við lifðum af kaffibætis-drykkjuna og mýrar-vatnið við Dominion City forðum, því eins og þú manst, drukku rauðskeggjuðu Skotarnir allt „whisky“-ið upp drottningardaginn, Victoriu sinni til sæmdar, en við vorum þá báðir Bandaríkjamenn og ókonunghollir. Ég hefi skilað kveðjum ykkar til „afa“, og húsnúmerum, og held að hann ætli að nota þau. Ég veit ekki til, að á honum sé neinn bilbugur enn með vesturförina. Annars hefi ég ekki innt hann náið eftir því, því þegar við höfum setið saman, síðan ég kom heim, hefi ég helzt notað stundirnar til þess að skálda yfir honum æfintýri þarna á ströndinni ykkar, eins og allir góðir ferðamenn eiga að gera.

En það hefi ég sagt honum, að til Seattle hljóti hann að fara, og hann hefir játað því svo ánægjulega, eins og hann væri að gifta sig. — Það er leiðinda veður hér, síðan ég kom heim, og það gerði á mig vonzku-byl á keyrslunni frá Innisfail, en ég hafði „50 centa glas“ í vasanum, sem ég keypti í Calgary, og það bjargaði betur en þó ég hefði haft Hallgrímskver á brjóstinu og var það þó mikil vörn einu sinni.

Þæfði snjó á þiljur lands
Þegar átti að gróa.
Í allan vetur heimskan hans
Hafði gleymt að snjóa.

Sem sé, vetur var yfirleitt góður fram að þessu.

Þú átt að skila kveðju minni til konunnar þinnar, hafa þökk mína fyrir allt gamalt og gott og síðustu fundi, og fara vel með þig, svo við getum sézt aftur, hárir og hundrað ára, ef ekki fyrr.

Varma og gróður, von ég ber,
Þér vorið hafi léðan,
En ætti ég sól, ég sendi þér
sólskinsdaga héðan.

Vinsamlegast þinn gamli Stebbi.

*Magnús Jónsson frá Fjalli.* Markerville, Alta, 18. marz, 1913.

Góði vinur, Magnús. — Ekki hafði ég gleymt, að ég lofaði að skrifa þér, þó svona hafi það nú dregizt. Þangað til heim kom, var ég á sífelldum faralds-fæti, með kunningjum, nýjum og gömlum, eða að matast og masa, eins og gengur fyrir flækingum líkum mér, svo að ég gat að engu sezt. Allir báru mig á höndum sér og leystu mig út með gjöfum, eins og þið í Blaine, og siður var gömlu Íslendinga. Ég var tvær nætur hjá Sig. Kristóferssyni, og viku í Vancouver, komst heim að kveldi hins ellefta þ. m.; lenti þá í bleytuhríðar-byl og var dæstur en óskemmdur eftir allt ferða-volkið. Gamli Sveinbjörnsson söng hér í Markerville kveldið eftir, degi fyrr en auglýst var, því að hann hafði sett samkomu sína í Saskatchewan svo nærri, þegar til kom, að breyta varð hér, á síðustu stundu. Ögn dróg það úr aðsókn; þó mátti heita, að hann fengi fullt

hús, af fámenninu hérna, og uppskera hans varð liðugir 37 dollarar. Morguninn eftir, í býti, hélt hann austur.

Nú er „Draumur" þinn kominn út í „Kringlu", sá ég að var, þó að ég læsi hann ekki enn, af því mér var hann svo kunnugur, og átti allt ólesið og óskrifað, þegar heim kom, af því, sem ég helzt hangi á.

Siggi okkar Júl. hefir nú svarað „Balda" snilldarlega upp á Eyvindar-heimskuna, og rekið þar minnkunn af okkur Vestmönnum, því heima er „Baldi" náttúrlega talinn forkólfur fegurðarvits og speki okkar hér. Það gerir staða hans.

Mér datt það í hug, Magnús, og ég segi það við þig, því ég veit þú ert svo vitur maður, að þú misskilur mig ekki. En — verður þess nokkurs staðar getið opinberlega í frétt frá ykkur, sem þið gáfuð mér, og ávarpsins? Það er ekki af því ég óski þess sem auglýsingar fyrir mig, nei, ég heldur myndi hliðra mér hjá því. En ég vildi svo gjarnan, að allt, sem okkur Vestmönnum hefir vel farizt, kæmist eitthvað þangað, sem það geymdist, svo það fyndist þó, þegar seinna verður leitað í sögunni okkar, en við úr henni. Þó mínir verðleikar væru ekki nægir, sýnir það mannlyndi Vestur-Ísl. samt. Ég gleymdi allsstaðar að inna eftir þessu, og mér finnst ég ekki gera það af fordild.

Tíð er hér vetrarleg síðan ég kom. Einlægur snjógangur. Var einmuna-góð áður.

Ég bið innilega að heilsa konu þinni og syni, og öllum vinum í Blaine, og man ykkur viðtökurnar og velvildina alla, þó það sé lítið að lenda við, og orðin mín köld og fá um það.

Vertu nú blessaður og sæll, og hamingjan gefi þér enn heilsu og næði til að hugsa margt.

Vinsamlega Stephan G. Stephansson.

*J. Magnús Bjarnason.* Markerville, Alta, 19. marz 1913.

Góði vin. — Ég hefi verið að skrifa og skrifa kunningjunum, sem vildu, að ég segði sér, hvort ég kæmist heim lifandi eða dauður. Ég er búinn að eyða þeirri sögu, svo þú færð ekkert af henni, svo ég brýt upp á öðru umtalsefni við þig. Ég veit þér þykir æfinlega gaman að heyra, hvernig þeir menn lifa og láta, sem við skáldskap fást, og fá að brosa að firrunum þeirra. Nú skal ég segja þér sögu af mér og Gvendi mínum á

Sandi. Þú veizt, hann hefir ritað mikið hrós um mig og við höfum ögn skrifazt á, og hann á upptök að því öllu. Hann hefir sett ofan í við mig stundum fyrir ýmislegt, aldrei fyrir neitt í kveðskap, en einhverja smámuni. Ég hefi brosað að, hve voldugur hann var stundum, og svarað meinleysisspaugi, eða engu. Fyrst sauð upp úr, þegar ég kvað móti „millilandafrumvarpinu“ þeirra sæla. Guðm. fann að því við mig í bréfi og sagðist taka það að sér. Hann hafði nýlega tekið pólitísku dýfuna sína, eina af mörgum, og komið upp í Hafsteins-flokknum, með miklu busli. Ég sagði honum sem var, að ég hefði ekkert um það hugsað, hvar hann væri í þessu máli, en vitað hann seinast í sjálfstæðisflokknum og ekki fundizt hann ólíklegastur þar enn. Næst komu út í „Óðni“ vísur eftir „Alþýðumann“, þar sem verið var að reyna að sneypa sem flesta sjálfstæðismenn, utan þings og innan, jafnvel Guðm. greyið Guðmundsson skáldi er látinn gjalda þess, að hann var heimastjórninni öndverður, og er brigzlað um mærð, sem á síður við um seinni ljóð hans. Annars voru margar vísurnar bragðlausar og óhnyttnar. Ég svaraði í „Lögbergi“ meinlaust, svona:

Sé þeim óþökk, sem að gaf
Sendlings kvæða-nefi
Hjáræmi og hæsi af
Heimastjórnarkvefi.

Löngu seinna tók „Sunnanfari“ vísuna upp, án minnar vitundar og vilja. Sagði, hvernig á henni stæði, í grein framan við, og kallaði Gvend *Sandleiru* þar. Nú bjóst ég við Gvendarbyl, því ég þóttist vera farinn að geta spáð í eyðurnar um manninn. Og viti menn, hviðan kom í bréfi nýfengnu. Eins og fyrr byrjar Gvendur á þeim vitnisburði úr bréfi til sín „frá einum merkasta manni landsins“, að ég sé ruddi, vesalmenni, hrokafullur og öfundsjúkur. Svo hótar hann mér illindum, nema ég þykist hafa ofgert, og „setji þetta í sjálfdæmi okkar“, auk þess sem hann telur réttilega til, hve vel hann hafi gert til mín, en — hlíft mér þó. Ég sendi honum óðara vísu og bað „Lögberg“ fyrir, hvort sem það tekur hana. Hún er svona:

Við berum til þín vinaryl —
Varla reikna mundum,
Hvað þú gerir götótt skil
Gáfunum þínum stundum.

Því Gvendur segir mér, að hann hafi sent mér stöku í „Óðni", en ég les hann ekki. Sjálfur get ég ekki annað en glott að þessu írafári og segi þér það, gætir þú glott að því líka, af því ég man ekki annað spaugilegra núna. Ekki er líklegt, að það sé Þorsteinn Gíslason, eða hans nóti að menntun og mannskap, sem alltaf er að gefa Gvendi þessa vitnisburði um mig, auðvitað til að hleypa honum upp.

Say, is Mrs. Lee staying with you yet? I was always going to tell her a story about myself, but something prevented every time, and she was away when I left. Will you tell her? But she must not laugh, nor tell it to anybody, especially not to the ladies.

Well — you remember the trouble we had with my necktie. She suggested that something was wrong with my shirt, but I swore nothing was amiss. However, she managed the tie in some shape, and I made my speech in it „all galore". But when retiring at Borgford's in the morning, I suddenly found out, that I really had turned my shirt around — *the back in front* — and I laughed for almost a quarter of an hour, before I went to sleep. Can't you?

Hvernig líður ykkur annars, Magnús minn? Ertu kominn á Pender str. með pennann? Eða fékkstu auka-skrifstofu í öðrum stað? Því nóg verða útibúin frá Pender.

Heilsaðu öllum heima og til Eggerts og láttu hann vita, að ég á ófriðar-von, fæ kannske Sandhríð. Hann hefir gaman af því, þegar hann er svo frískur að geta brosað. — Með þökk fyrir allt gott.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Jónas Hall.* Markerville, Alta, 24. marz 1913.

Jónas minn góður! — Þökk fyrir bréf, sem kom meðan ég ég var í strandhögginu vestra. Ég kom tveim dögum fyrir mótið (þann 7. næstl.) til Vancouver. Fór strax eftir hófið til Victoria með Arngr. Jónssyni. Var þar viku, leystur út með ávarpi og „gullstaf". Fór til Seattle. Var hjá Stjána Hallgr. í viku, sendur burt með samkomu og peningum. Dvaldi svo í Blaine þrjár nætur. Fór þaðan með „gullpenna" og ávarp. Tvær nætur var ég hjá Sig. Kristóferss. í Crescent, svo viku í Vancouver, og þar lauk öllu með „Úlfa"-samsæti hjá Þorst.

Borgfjörð og skrifborði og tækjum að gjöf, hinum mesta dýrgrip. Þú sérð, ég hefi dregið að. Ferðina fór ég frítt. Stóðst á það, sem mér var gefið í peningum og hitt, sem ég lét af hendi rakna. Svo er sagan stytzt. En ekki öll, ef ég þyrfti ekki að skrifa hana, en gæti masað. Ég fór þetta allt boðinn og veit enn ekki, því fólkið tók mig svona að sér. Vel leið mér þarna í veðrinu, var þó kalt þar venju fremur og snjósamara, að sögn. Á okkar austanvísu var þar blíðviðri. Frost sumar nætur. Nokkur snjór í Vancouver, þegar ég kom þar fyrst, en grænt, hvar sem í jörð sá eða runna. Hlýinda sallaregn í Victoria tvo eða þrjá daga, annað slagið. Golan ekki hlý, þegar ofan af jöklum stóð, án þess þó að nepja væri. Þoku-mistur löngum, svo skammt sást til hafs og fjalla, en fagurt útsýni, hvenær sem rofaði til. Til Tacoma fór ég aldrei. Hefði gert það, hefði ég treyst mér til að finna og fá að sjá Högna gamla Gunnlaugsson, en hann er nú svo gamalær orðinn, að hann jafnvel kvað banna kunningjum sínum að koma til sín. Ég kom heim hinn 11. þ. m. Flýtti mér meira vegna þess, að ég vissi, að Sveinbjörnsson gamli ætlaði að vera hér, enda söng hann hér kveldið eftir að ég kom. Þið munuð líklega sjást og hann segja þér af því. Segðu nú Jonna þessar fréttir allar og það með, að við munum allir eiga eftir að flytja vestur á strönd, ekki til að græða, heldur til að eyða síðustu árunum á fallegum stað, í góðu veðri, til að skilja við heiminn sem notalegast, þegar skrokkurinn er orðinn veður-næmur og kulsæll af elli-bilun. Annars skrifa ég honum, þegar ég kemst til. Ég hefi haft mikið bréfa annríki síðan ég kom heim.

Það gat mörg ein hlýleg hönd
Hlúað mér í frosti.
Svona út á yztu strönd
Auðnan við mér brosti.

Skrifaðu bráðum og — blessaður. Þinn S. G. S.

*Prívat:* Hitti Leó þinn í Vancouver. Við ræddum og rifumst ögn. Var sagt, honum hefði eitt sinn þótt við mig. Hann sagði fyrir minni mínu eitt sinn, myndarlega. Honum er margt vel gefið. Er á rangri leið vegna undangengins. Menn varna honum ekki vits — en trúa honum miður.

*Jón Jónsson frá Sleðbrjót.* Markerville, Alta, 27. apríl 1913.

Góði vin. — Beztu þökk fyrir bréfið. Og ekki er það alltaf leti né hjáhliðrun, hve seint ég svara. Ég á annríkt um margt, en er orðinn úthaldslaus, verð að hafa búskapar-basl „á prjónunum“ og pennann í aðskotum, eins og þú munt þekkja. Nú get ég ekki lengur unnið um daga og skrifað um nætur, þó illt sé að geta ekki „gengið aftur“ á þann hátt. Mér þótti vænt um að fá bréf frá þér. Jú, ég vissi vel nokkur deili á þér. Þótti illt um árið, þegar ég strauk inn á næstu grösin við þig, hve langt og torfært þú varst orðinn undan landi, en mér svo naumt mældur tíminn, að ég varð að hörfa aftur, án þess að hitta þig. Oft hefi ég ætlað að senda þér seðil, en æfinlega hefir það útideyfzt. Járnin í eldinum mínum brenna mörg upp, ekki fyrir það, hve mörg þau eru, heldur hve dengjarinn er svifaseinn. En svo verð ég nú kannske framhaldsbetri, ef þú hættir ekki við mig.

Ég hefi lesið allt, sem þú hefir skrifað í blöð hér, og þótt vel ritað. Ég varð svo fanginn að sjá fallegt mál og skipulega hugsun og góðfrjálslega, innan um argið okkar vestræna. Vænt þótti mér líka um það, sem þú tókst í streng þinnar byggðar, þegar við vorum að huska héðan móti samningnum sæla við Dani. Einhver fór að sletta í „Kringlu“ til þín fyrir orðbragðið, en ekkert varð mér óglatt af því, og er ég þó ekki mikið ó-orðvarari en „Kringla“ vor stundum. Ég skil vel afstöðu þína í landsmálum heima, eins og þú segir hana. Ég var hér hliðhollari heimastjórnar-flokknum en valtýskunni, á þeim árum. Gat aldrei fylgzt fast með heima-pólitíkinni, en vissi bara ögn út undan, eins og gefur von til hér. Held samt ég hafi hangt í aðalþráðunum, en afskipta-lítið, þangað til ég sá samninginn. Þá gat ég ekki orða bundizt. Ég las hann í „Lögréttu“ einni, og ekki önnur heimanblöð þá, en mér fannst ég skilja ljóst, hvert leikið var. Ég hefi nú víst aldrei séð eins vísvitandi villugirni í samning. Ég sárkveið því, að fjöldinn sæi ekki gegnum flækjuna. Ef að Íslendingar farga sér, vil ég heldur af skömminni til, að þeir geri það ekki af helberu hugsunarleysi.

Annars er ég vongóður, Jón, úr því að fyrir-staða hefir þó tekizt, nú um sinn. Ég trúi engum eldri foringjanna. Þeir eru háskóla- og embættis-spilltir að uppeldi til, hálf-Danir, en

drepast — eðlilega — út bráðum. Ég held nú sé ekki nema biðlund beðin, þangað til yngri og íslenzkari og óspilltari kynkvíslin tekur við taumunum. Bara að þvælast fyrir þangað til.

Á Hafsteini og Lárusi hefi ég líkt álit og þú, og hefi þó hvorugan séð. Að þessu viðbættu um Hafstein, mannlífs-mælir hans er yfirmennskan. Hann er lítil-trúaður á lýðinn. Honum er heimska að leggja einstaklings-þægindi í sölur fyrir fjöldann, sem aldrei veit að virða það. Það er líka þarflaust, fólk fær sín gæði á endanum, einstaklings-fórnfærslu-laust, ef það á að liggja fyrir því. Þetta er heimspekiskoðun höfðingjanna og mig undrar, sé hún ekki samgróin Hafsteini. Við Lárus er ég næstum hræddur, en sýnist gott hvað gengur, Hafsteini og Hjörleifum til falls. Bara landvarnarmenn sjái við Lárusi, láti hann ekki makka af sér, en noti hann í bráðina. Ég skil ekki í öðru en Hafsteins-liðið, eins og það hefir gert sig auðvirðilegt, hafi nú fyrirgert allri tiltrú hjá þjóðinni. Við þessar vonir held ég mér, þó margt kunni enn á að blása. Ég fer um þetta sem fæstum orðum, segi eins og mér finnst, hugsa um stjórnmál af því mér er annt um mennina, en ekki af því ég þykist vera vitringur. Þrátt fyrir alla pólitíska skömm og skaða, virði ég þessa viðleitni mannanna að koma sér sem haganlegast fyrir í heiminum, þó skammsýnið verði oftar ofan á.

„Nú eru kyrr og komin í mold Kórmaks augun svörtu“ í Jóni mínum í Múla. Við vorum samtímis drengir einn mánuð. Lásum ensku saman. Mér þótti vænt um *drenginn*, dáðist að, hve bráðger byrjandi hann var: Eins og öll and-dyri stæðu honum strax opin. Hann var að því leyti sá skarpasti unglingur, sem ég hefi verið með. En svo var eins og lokur hlypi fyrir áfram-haldið, og fjörkippurinn þreyttist við þröskuldana. Jón var einn af þeim fáu heima, sem ég mundi að hafa mætt.

Hvernig sem veltist, eiga allir menn gott skilið fyrir þann hluta æfi sinnar, sem þeir vörðu vel. Og það gerði Jón okkar Ólafsson tímum saman. Að vonum, treystir nú honum enginn framar. Hann á tæplega góðra manna geð framar, eftir öll sín fráföll. Þrátt fyrir það óskar maður honum afturhvarfs, ekki málefninu til gagns, því nú yrði hann markleysa, heldur af því manni var vel til hans. Annars var mér nú sárast um Þorst. Erl.son og jafnvel Guðm. Hannesson. Einar Hjörleifsson vissi ég hvernig var. Björn heitinn Jónsson var beinlínis

brjóstumkennanlegur orðinn. Hæddur og úthúðaður öðrum megin, en af stefnu flæmdur og féflettur hinum megin. Eða svo hugsa ég mér það. Það var nærri rausn, hvað hann rótaði þó í.

Nú á þó loksins að reyna það, sem Bjarni greyið frá Vogi hefir lengst alið á, kaupskipa útvegur. Vestanblöð okkar mæla því hlýtt til og er vel farið. Stefán ritstjóri að minnsta kosti er ákveðinn í Íslendingaflokki, gegn Dönum, og stendur ekki á sama.

Heyrðu, Jón minn, þú átt að rita, og brenna sem minnst, ef þú bara hefir heilsu og höld til. Ég held nú, að þrátt fyrir allt, móti hér fyrir íslenzku enn nokkuð, og eitthvað af hugsunum okkar leggist í lagið á því móti, ef við ölum á og uppgefumst ekki, þó okkur sýnist vera að „flétta reipi úr sandinum“, eins og púkar Vogsósa-Eiríks. Æskan okkar er enn óráðin og á versta stigi. Menn þjóðernast með aldrinum og óafvitandi. Um að gera að halda uppi mökum sem mestum við Ísland. Hvernig leizt þér á tillögu Egg. míns Jóhannssonar á „Úlfamótinu“, um háskólagöngu héðan heim? Fengist hún framkvæmd, er ég viss hún yrði þjóðerni okkar hér að mikilli landfesti. — Oft dettur mér það í hug: Þið eldri menn, sem pennafærir eruð og kynnzt hafið mest áberandi mönnum heima eða hér, ættuð að skrifa „minningar“ ykkar, segja orð og viðburði, sem þið sjálfir vitið, grímulaust og gremjulaust, en krækja ekki eftir, hvað kemur sér nú. Mér finnst þú skrifa svo sanngjarnt, að þú gætir það. Það styður seinni tíð til sanngjarnrar sögu.

Mér þykir vænt að vita, að skvaldrið mitt sé greindum mönnum heldur til ánægju, þeim sem eru þá elskir að þess konar, mest vegna þess, að aðrir skuli líka hafa unun af hugsunum, sem einu sinni hrifu mann sjálfan til sín. Og svo er hitt líka, það er þá eins og maður mætti segja á endanum: Ekki var alveg til einkis barizt. Ég þakka þér fyrir góð ummæli þín, fyrr og nú. Það er sunnudagur. Þetta er hlaupa-verk. Ég hefi ekkert guðspjall né pistil lesið — en mokað fjós og þar að lútandi, rakað mig og þvegið, því á hvítu fer nú að sjá, látið úti hafra, hníflað Lárus minn Guðmundsson með ferhendu, hvort sem „Lögberg“ vort vill hana, lesið dagblað og rispað þetta bréf. Er nú ekki þetta vel en ókristilega að verið? Þú talar um illa skrift hjá þér. Nú, jæja, þú færð hana hér

endurgoldna með vaxta-vöxtum. Ég gat skrifað læsilega, þegar bezt gerði og ég hafði tíma til, en aldrei vel né rétt.

Nú ætla ég að hætta. Þarf að líta á nýkominn „Ingólf“, áður en ég hátta. — Vegni þér vel og vertu nú sæll.

Vinsamlega Stephan G. Stephansson.

*Eggert Jóhannsson.* Markerville, Alta, 28. apríl 1913.

Eggert minn góður. — Aðeins örfá orð núna. Þú manst ég minntist á við þig morguninn seinasta, sem við vorum saman, að senda „Lögbergi“ kvæðið, sem ég hafði yfir við þig. Þegar heim kom, sneri ég upp í að senda „Sunnanfara“ Jóns gamla Þorkelssonar það, „doktors Forna“, eins og íslenzka fyndnin nefndi hann einu sinni. Ekkert veit ég enn, hvort það kemur. En það leit svo út, að ég væri í góðu gengi hjá þeim „Sunnanfara“-feðgum. Guðbrandur sonur Jóns hefir margbeðið mig um kvæði og nokkur hefi ég sent honum, hann tekið öll, og jafnvel prentað upp úr blöðum hér, þegar ekki var annað til, helzt glettnis-hendingar. Ekki meira um það að sinni.

Seint voraði. Þornaði þó furðu vel um. Snjóaði ögn í gær og nótt. Nú horfinn um miðjan dag. En skýjaloft þungt. Miklar sáð-annir. Allt næstum óplægt, frá haustinu sem leið. Ég hefi í „mörgu að mæðast“, eins og Marta heitin. Er að detta í tvennt um mjóhrygginn og allur af mér genginn um undirstöðurnar, þegar ég vinn. En:

Það eru sjálfsögð synda-gjöld
Að sjáist hik á manni,
Sem að hefir hálfa öld
Hlaupið eins og glanni.

Bráðum líður nú að, að drengurinn þinn komi heim og þið fáið öll að vera saman. En hvernig er heilsa þín nú? Tef þig ekki lengur núna. Bið kærl. að heilsa húsi þínu, og vertu svo sæll.

Vinsamlegast S. G. S.

*Jónas Hall.* Markerville, Alta, 14. júní 1913.

Jónas minn góður. — Lengi hefir þú átt bréf hjá mér, sem ég kem nú loks að þakka. Þú sem sé lézt í ljós í því bréfi, að

þú hefðir átt von á langri ferðasögu eftir mig úr vetrarvertíð minni vestra. Nú er hún að byrja í „Lögbergi“ og heitir „Ferðaföggur“. Sko, ég þorði ekki að koma við hjá þér, fyrr en ég hefði sýnt lit á að bregðast ekki alveg vonum þínum. En mér gekk seinna en ég bjóst við að hlaupa í að hjáverka þuluna undir prentun og svo kom hún að „setnum Svarfaðardal“ fyrst að „Lögbergi“. Þetta er nú nóg afsökun fyrir „seinlætið“, og nokkurs konar sneiðingar kringum þessa alsiða fyrirgefningar-bón á þess háttar trassaskap. Ég sé, að þú hefir nýl. verið í Winnipeg og kemur það mér vel. Ég hefi sem sé ekkert bréfsefni, og þú þarft þess heldur ekki við, því það gengur næst því að vera alvitur að hafa komið nýlega til Wpg og hlustað á allt, sem þar má heyra. Getur þú sagt mér nokkuð þaðan? Um flokkadrætti og væringar merkra manna? Ég er að verða þar ókunnugri nú. Er séra Rögnvaldur að út-„úniterast“ nokkuð meira hjá sínu liði? Karl Olson kom hér og fór ráðinn til tveggja mánaða á ári fyrir fylgi Kristjáns Jónssonar og Ófeigs Sigurðssonar. Allt var þó daufara með hann en hið fyrra skiptið. Ráðning hans marðist bara gegnum þessar fáu hræður, sem sig telja söfnuð. Mest hjálpar, að sagt er, engin fargjöld þurfi að borga. Hann kvað „ganga frítt“ á C. P. R. sem bindindisfrömuður, en ekki prestur. Loksins kemur það sér vel fyrir fleiri en köttinn, að sama skepnan má kallast bæði mús og fugl.

Nú ætla Kristinn og Lauga árla í næsta mánuði í vesturveg, til Prince Rupert, og setjast þar að, að minnsta kosti um stund. Tíð hefir ágæt verið, síðan loks sumraði. Spretta með lang-líklegasta móti á þessum tíma árs, ekki sízt engjar.

Reinholt nýkominn frá Íslandi, þykist ætla aftur, að sögn. Kvað láta vel af öllu. Hann sat til hægri handar ráðherrum, biskupum og æðstu dómurum í einlægum hátíðahöldum í Reykjavík, meðan Einar Hjörleifsson, með ríki-dæmis reikninga hans frá Red Deer forðum, var fræðslustofn „Ísafoldar“, og hann var að byggja sporbrautina um Víkina. En mig skal ekki furða, þó þessi höfðingja-gestrisni þykist nú hafa verið göbbuð. Þetta auðmanna yfirlæti okkar Vestmanna heima er annars leitt, ekki sízt hjá þrotabús-mönnum. Við fáum allir orð fyrir mikil-læti.

Ég var lengst um heima sunnudaginn í dag, svo fjandi vesall og viku-laraður, að ég svaf í setubekknum. Nú hefi ég

hresstst við rökkrið, eins og allir almennilegir draugar gerðu, og þori því ekki að láta þig sjá mig lengur, held þú verðir myrkfælinn og ég magnist meira. — Berðu konu þinni og vinum vorum kveðju mína. Þinn gamli Stebbi.

*Jón Jónsson frá Sleðbrjót.* Markerville, Alta, 15. júní 1913.

Góði vin. — Nokkru fyrr hefði ég átt að svara bréfinu þínu síðara, væri ég nú æfinlega eins duglegur, eins og ég er þó viljugur oftast. En svona er það, um sextugt er ýmislega af manni genginn skriðurinn. Og þú fyrirgefur. Nei, ég má ekki sleppa alveg þessu um „minningarnar“. Getur vel verið, þú sért ekki sögumaður, að þig skorti eiru við upptíninginn. En þú þarft ekki að vera albrynjaður sögukappi til að rita góðar „minningar“ um menn og málefni, sem þú hefir kynnzt. Ég held jafnvel, að stór-sögumennska gæti orðið að galla og hömlu á því. Íþróttin við minningaritun held ég sé fyrst og fremst sú ráðvendni, sem með ekkert vill rangt fara, hvorki um það, sem er ástfólgið, né andstætt sér. Svo ekki síður hitt, þessi glöggleiki, sem grípur um leyniþræði skaplyndis og hugarfars áhrifamannanna niður í hversdags smámunum orða og atvika, sem bæði geta verið brosleg og raunaleg. Sem sé, ég ímynda mér, að það þurfi einmitt eitthvað af næmleik skáldsins, sem þú munt hafa, til að rita góðar minningar, fremur en fræðireglur sögumannsins út í æsar. Þá er hið þriðja, hugrekkið, sem til þess þarf að segja satt um vini sína stundum, og fella ryk á frægðarskjöld góðra manna í gröfinni.

Oft hefi ég brosað að sögu, sem ég las einhvers staðar, um enska prestinn og söguskáldið Kingsley. Vinir hans höfðu fyrirhafnað honum inn í vel-launaða sögu-kennslu við háskóla. Hann sagði af sér von bráðara. Sagðist ekki vera svo samvizkulaus að geta kennt sögu, hún væri ekkert nema lygavefur (systematized lie). Minningar góðra og greindra samtíðarmanna (þeim er að fjölga) myndu gera framtíðar-söguna af okkur að minni „lyga-vef“. Alveg rétt, Jónas Húnfjörð (og þú) hafið ritað beztu vestanhafs-þættina, enn sem komið er. Hann á það, karlinn, að mér finnst, og hefi sagt það hér, við þessa algengu illa-í-þökk lagða, og ég veit þó veilur hjá honum, af því ég hefi verið stundum að vettvangi. En svo sat hann í hróksvaldi, sem þú náðir ekki í, fór hér inn í fararbroddi,

og „alls staðar nálægur“ síðan. Þú komst að byggðri byggð, um margt óstöðugri og víðdreifri. Varzt víða að nota minnislítil munnmæli og sljóva eftirtekt annarra. Sá baggamunur getur hallað illa á, á einum og sama hesti.

Landritara-embættið er auðvitað aðalsstjórnar-form. Öll lögleidd, æfilöng embætti eru lýðstjórn-leysa. Ég vissi hálfgert, að Kl. myndi vera einn viðsjálsgripurinn. Bezt þekki ég hann af grein hans um Jón Sigurðsson í „Skírni“, grein, sem mér þykir verulega vænt um, hún var svo glöggþræðin, þó ekki væri hún fagurstíluð, og lýsti óvart, að sá var hvorki allur þar sem hann var séður, né djúpsettur, sem reit. Sem sé, það var svo ljóslega sýnt og sannað, hve tæplega Jón gat varið Ísland innlimun, alveg eins í eðli sínu og „milli-landa“ frumvarpið þeirra var, og dáðst að honum fyrir, en svo komu seinna svigurmæltar hnútur og fúkyrði, til sjálfstæðismanna stefnd, um „skýjaglópsku“ og „afglapa“, á hliðstæðu dæmi við það, sem hann dáði Jón fyrir, svo að óhreinlyndið varð að augljósri heimsku, það lá svo opið fyrir skynugum lesara, nærri eins og höfundurinn væri að leggja sig í líma til að sýna, hvernig hann væri sjálfur innan rifja — eða svo fannst mér.

Ströndin er fögur og tíguleg, fyrir hvern þann, sem skyn ber á. Jafnvel ófegurðin þar, af-flettur skógur og kolsvartir fúastofnar, sem flestum þykir ljótast, eru þó greppi-fagrir í mínum augum, á sinn hátt. En ég lifði inn í þá útsýn í Wisconsin forðum. Fyrir lúna skrokka, latgeng hjörtu og teygðar taugar, er værðin þar holl. Erfiði erfiðismannsins mun þar oft strangara en á sléttunum, sé jafn-kappsamlega að verið. Litlu landblettirnir upp unnu eru þó áhyggju- og umfangsminni en flæmin hér, þó þröngir séu. Órudd lönd ótæk, nema auðlegð eða æsku, eða landa-bralli. Tveim höndum tómum er sléttan austan fjalla enn ögn greiðfærust, þrátt fyrir allt. Auðvald og brezkur ríkismanna rembingur munu landlægari á ströndinni en jafnvel hér eystra, en mótspyrnan, jafnaðarmennskan, erfiðismanna-samtökin, lýðræðið (eins og t. d. í Oregon) mun heldur hvergi hafa látið sér vaxa meiri fisk um hrygg, þó stundum sé farið ribbaldalega. Þetta er yfirlit mitt, í stuttu máli sagt. Hugsi maður langt fram, finnst mér Kyrrahafs-ströndin verði Gósen Vesturheims, en kynslóðir verða að grafast þar áður. En — hvergi vildi ég fremur eyða áhyggjulítilli elli, væri þess kostur, í sveitum þeim, sem ég hefi enn

séð vestan hafs. Jú, Alberta er ekki eins langveðra-grimm eins og Manitoba, hún er veðra-mót Hudsonbay-heljunnar og Kyrrahafs-þýðunnar og „veitir ýmsum betur“.

Gvendur minn á Sandi er mér grimmur út af litlu, að mér finnst. Allt er það út af pólitík. Fyrst sneypti hann mig í bréfi fyrir þann „misendis-skáldskap“ og „sagðist taka hann að sér“. Ég reit honum aftur með mörgu fleira um flokksmálin heima, það sem satt var, að ég hefði hvorki vitað né verið að varast, hvar hann stæði í þeim málum, þegar ég kvað. Hefði *þá* séð það seinast af honum, að „Lögrétta“ hefði verið að hnífla hann í pólitík, og ég hefði haldið eðlilegra, að hann væri sjálfstæðismegin. Svo endurtók Gvendur þessa ákúru til mín í grein sinni í „Skírni“. Næst komu margar vísur eftir hann í „Óðni“, þær voru allar ónot til sjálfstæðis og sjálfstæðismanna, sem honum var í nöp við, og dulkenndar við „alþýðumann“, aldrei þessu vant hjá okkur Gvendi. Ég þekkti höfundinn af handbragðinu, tók eina hans eigin vísu og vék henni meinlaust við, yfir á Gvend. En lét „Lögberg“ prenta um leið. Guðbrandur Jónsson, ritstj. „Sunnanfara“ og sonur „doktors Forna“ datt svo víst einhvers staðar ofan á stökuna, án minnar tilstilli, prentaði hana upp, með ögn neyðarlegum formála eftir sig, því þar er víst kurr á milli. Einhver heima er alltaf að ota Gvendi á mig. Hann kallar Gvendur einn af „pennafærustu menntamönnum landsins“, bæði í grein sinni í „Skírni“ og síðasta bréfi sínu til mín. Mig grunar, það sé Þorsteinn Gíslason. Í bréfinu segir G. mér, að þessi sagnarandi sinn segi, að ég hafi launað sér svo, að kveða um G. níðvísu, hlakkar yfir, að hann hafi lengi grunað, að svo myndi fara, því ég sé hroki, lítilmenni og vanþakklátur og ruddi. Svo hellir Gvendur á hálfgerðum hótunum og segir mér frá borgunar-von frá sér í „Óðni“. Um vísu sína(?) í „Lögréttu“ (merkta X) getur hann ekki. Ég svaraði bréfi hans strax með meinlausri vísu í „Lögbergi“, og seinna með bréfi, ég held í „fullri meining“, en fúkyrða-laust. Rétt nýskeð sá ég vísurnar hans, í „Óðni“ og „Lögréttu“. Kunningi minn sýndi mér þær og ég segi það þykkjulaust, mér fundust þær ósnjallar. Svona er það mál. Og ég skal gegna G. í glettni. Hann fær mig ekki í grófsku.

Annars á ég mörg bréf og vinsamleg frá G. En oft er ég ráðalaus yfir, hve garða-lóarlegt orðbragð hans getur orðið, jafnt í lofi og lasti, jafn hátíða-mælskur eins og hann vill

vera og oft er. Og út af umtali þínu um gloppurnar í frjálslyndi frjálshugsandi manna (Innan sviga: Séra R. hefir sagt mér og öðrum kunningja mínum, að hann kjósi hér „liberal“): Er það ekki hörmung, hve íslenzk skáld gera oft fljótt í frjálslyndis-nytina sína nú orðið? Gvendur er seinasta dæmið. Hann er orðinn afturhald alls staðar. Bæði „Björg ljósmóðir“ og „Sólskinskona“ eiga að vera andóf gegn atkvæðis-rétti kvenna. „Áttu, móðir, oss að harma eins og veiku börnin þín, sem við andans aftanbjarma eru að verka nöfnin sín?“ sagði Þ. E.

Jæja, ég vil mæla allt frelsi á sömu vog. Meðal annars: Ekki vænti ég, að þú hafir skrifað latínu „ferðalanginn“ um eftirmæli Guðm. eftir Björn í „Hkr.“ seinast? Það er svo vel og rétt ritað, að hefði ég vitað álit þitt um Björn, væri ég nærri viss, að það værir þú.

Já, ég vissi um vonbrigði þín við „Lögberg“, en aðeins í eitt (fyrra) skiptið. Jú, maður verður að líða, að þeir noti mann launa-laust. Maður veit það og finnur. En fjandinn hafi það samt, við erum líka að nota þá, þeim óvart, til að segja ýmislegt, sem þeir vildu helzt, að þagað væri um. Þeir eru ekki eins kænir og þeir halda. Það eru steinbíta kjögg.

Já, ég skil, Jón, og vorkenni mannraunir líkar þinni og jafnvel G. á Sandi, þó ég leggi ekki að jöfnu, hversu úr er ratað. Hefi einhvern tíma haft óværu út af þessu sjálfur og lent sömu leiðina og þú, en gerði samt ekki öðru vísi yfir aftur, þó kostur væri á.

Sumar kom hér í síðara lagi. Engi nú gróin í bezta lagi, um þennan tíma sumars. Akrar með fljótsprottnara móti og lang-jafnasta, þó seint væri sáð. Rekjusamt og hlýtt nú.

Fyrirgefðu óhlífni mína við augu þín og elju, sem reyna að lesa þetta, og líði þér sem bezt.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Jón Jónsson frá Sleðbrjót.* Markerville, Alta, 11. ágúst 1913.

Góði vin. Milli hey-anna og Íslendinga-dags ónæðis hefir það lent í útideyfu að þakka þér langt bréf og gott, hið síðasta. Í dag, er „veður vott“, svo varla er verkfært. Ég er búinn að þurr-klæða mig, eftir mála-verka vosið, og sit um stund inni. Því skalt þú nú verða fyrstur á blaði, af milli 10 og 20, sem ég reyndar ætti að senda línu, hvenær sem ég

hefi nenning til. Áður gat ég setið og ruglað við kunningjana, hvenær sem mér slapp verk úr hendi, eða gert mér vökunótt til þess, eftir dags-verkið, en nú er ég orðinn viðutan og höfuðlamaður eftir hvern erfiðis-dag og vil helzt sofa, eða verða að engu, gæti ég það fyrir lúa-verkjum í skrokknum. Ég gæti hugsað mér það himnaríki, að mega sífellt vinna, en vera alltaf vel fyrir kallaður. Þú minntist á félag kornyrkjumanna og kjarabót bænda með samtökum þeirra milli. Ég fagna öllu, sem við einhvern ójöfnuð berst, jafnvel stétta-stríðinu. Það er vottur um vitkun á því, hve fyrirkomulagið er allt ósanngjarnt með okkur mönnum. Sjálfur er ég bóndi að nafninu — og, þú hefir heyrt söguna, sem ég las einhvers staðar, að Brandes sagði af sér og Ibsen heitnum. Í viðræðum þeirra fór Ibsen að dást að því, að Rússland væri eina landið í heimi, þar sem manni gæti hlotnazt það lán, að verða píslarvottur frelsisins, nú orðið. Dreng-hnokki, sonur Ibsens, var þar hjá þeim. „Svo“, sagðist Brandes hafa svarað, „þú kallar það lán, ef þessi fengi rússneska hýðingu“, og benti á piltinn. Ibsen hikaði ögn á svarinu, en sagði loks: „Já, væri hann á Rússlandi, ætti hann að vera sá, sem hýddi, en ekki sá, sem hýddur væri“. Eins er fyrir mér með mína stétt: Af tvennu til, vil ég heldur hún hefði vit á að hýða, en flónsku til að láta hýða sig, eins og hún gerir. Ég er, held ég, jafnaðarmaður inn við beinið. Ég held, að hornsteinn sanngjarnari hagfræði sé sú mælistika Marx, að manns-vinnan sé verðmæti hlutanna. Sem sé, ég ætti að fá jafnmikið fyrir kút af kartöflum, eins og þú fyrir kút af gulli, sé fyrirhöfn okkar fyrir báðum jöfn. Öll önnur verðlegging hagfræðinnar finnst mér verða að völundar-húsi, sem enginn ratar út úr. Sá, sem framleiðir lífsþarfir okkar, andlegar og líkamlegar, er eini nýti maðurinn. Það er kannske svo sem fimmti hver maður, hinir fjórir eru ómagar, gagnslausar uppætur, „prelátar“ og „patrónar“, prestar og „pólitíkusar“, herrar og hermenn, „agentar“ og ómenni. Svona er ég nú innrættur, Jón minn. En mér finnst ég vilji öllu vel, sem í áttina miðar, jafnvel bóta-tilraunum á stangli, sem ég þykist vita, að ekki séu nema kák, ef til allra er litið. Slík finnst mér leið okkar manna til að læra að lifa, og bænda-vitið fyrir sig er þar í einn þátturinn. Það er því vel gert af þér að rita um það, hvernig landsmála-skúmar skjóta bænda-vitinu oft „ref fyrir r. . ., svo það trúir því, sem heimskast er hag þeirra sjálfra.

Mikið er nú rætt um íslenzkt níð, gaman og græska, síðan strákarnir „grænsjóuðu“ bræðing og andatrú. Okkur á jafnvel að vera varnað spaugs, helzt ekki eiga orð yfir þennan „húmor“ þeirra. Ég held nú helzt, að við Íslendingar séum nærri einstakir í því að eiga til *grófasta spaug*, en vita *saklaust*, sem sé, öfgarnar verða svo gífurlegar, að þær skamma engan, þær eru eins og raf-afl, sem fer um mann, en er svo magnað, að það hefir ekki áhrif til skaða, hláturinn gerir klúrleikann að engu, öll alvara er horfin. Mér finnst ég hafa orðið þessa var, hjá t. d. Gröndal. Og kannske bregður þessu fyrir í „Grænum sjó“, eða var leikið inn í hann. Mig hálfgrunar það á grein E. H. Annars var hún argasta æsinga-rit, þar sem E. lagði ritlist sína fram til að trylla tilfinningar almennings. Seinni grein hans aftur vandræðamærð. Fyrir löngu síðan sat Sókrates undir „Skýjunum“ eftir Aristophanes, háði um sig, óverðskuldaðasta gys-leiknum, sem líklega hefir saminn verið. Hann á að hafa skemmt sér þar öðrum betur.

Mér þykir þingast heima vonum betur, enn sem sést. Standi þessir 7 eða 8 sjálfstæðismenn „eins og steinveggur“, geta þeir flækzt svo fyrir hinum á víxl, að ekki þoki til verra. Fánaflan Dana gerði mikið gott, þó ómerkilegt væri í sjálfu sér. En, það má æfinlega treysta Dönum til slysanna, komi kapp í þá í stjórnmálum.

Ég hefi fengið bréf nýl. frá Guðm. mínum á Sandi, gott og stillilegt. Honum hefir fallið nokkur ketill í eld við bréfið, sem ég reit honum og gat um við þig, svo að ég bjóst varla við jafn-mikilli segla-lækkun hjá honum, eftir því sem ég hefi gert mér grein fyrir skapi hans. Sjálfur var ég jafn-sáttur við hann, eftir sem áður, þó ég myndi hafa leitað mér færa að verjast ögn vonzkulaust, og helzt í glettni.

Ef þú sérð „Skipa-minni“ mitt í blöðunum og lest það, leiðréttu fyrstu hendinguna í næst-síðasta erindi svona: „Sér vill orka að arði gera“, í staðinn fyrir „Sér vill óska . . .“, eins og bæði blöðin hafa það, og er rangfærsla þeirra.

Ég hafði kunnað „uppboðið á Sandi“, sem þú skrifaðir mér, en komst aldrei vel inn í spaugið, af því ég vissi aldrei um, að ritlaunin og „umvendingin“ féllu svona í faðma. En þakka þér fyrir. Vísan er smellið og illsku-laust spaug. Seinni vísan um Lárus í bréfinu í „Hkr.“ núna er líka býsna góð. Er hún eftir „doktor Forna“ (Jón Þork.s.s.)? Hann er mein-orðhag-

astur þeirra, sem uppi eru nú heima, og yrkir stundum. Mig grunar oft, að nöfnin: bræðingur, grútur, brækja, séu frá honum, á þann hátt sem þau þýða stjórnmál.

Nú ætla ég að kveðja og fara, í þetta sinn. Er víst búinn að rabba af þér alla eiru, en vona, að þú komir samt við einhvern tíma aftur.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Eggert Jóhannsson.* Markerville, Alta, 7. sept. 1913.

„Fátt er svo gott að galli né fylgi" var forðum sagt. Það er einmitt góð sumar-tíð, sú bezta, sem yfir mig hefir í Alberta komið, sem hefir sorfið svo að mér með uppihaldslausri úti-vinnu, því aldrei kom innistöðu-dagur, að ég hefi verið svo laraður, að ég hefi ekki haft hörku í mér til að skrifa bréf í ábæti að kveldi. Það virðist meinloka, að tíð, sem leikur í lyndi, tæmi fyrir manni tómstundir, þegar allt er létt-vinnast, enda er það nú tilfallandi með mig. Sökum lasleika í fjölskyldu Baldurs sonar míns, komst hann að sumarvinnu sinni seinna en verið hefði; við vinnum enn í félagi og höfum orðið að neyta allrar orku að vinna þetta upp, sem líklega tekst vegna tíðar-gæðanna. Meðan Kristinn og Lauga voru hjá þér, datt mér heldur ekki í hug að skrifa þér. Þau áttu að vera þér bréfi betri.

Að letin valdi víst þú halda mættir.
En vittu: Eg legg svo vel mér að,
Að viku-skegg er órakað —

og þó er sunnudagur, og þann dag er ég minn eiginn bartskeri, að venju. Þetta er afsökun mín við þig, en ekki ásökun við forlögin, því þau gangast jafnt fyrir bölvi og að biðja vægðar, en þú getur getið nærri og vorkennt og fyrirgefið. Jæja, ég ætla að skrifa þér og raka mig svo. Blað sendir þú mér nýlega með auglýsingum einhvers Hænsna-Þóris um kjörkaup á hænsna-heimilum. Það er alveg einlægni mín spauglaus, mér sýndist boðið svo gott á pappírnum, eftir því sem nú gerist, að hefði ég verið nærlendis, hefði ég komið og séð, hvernig þetta væri gert, bara til að seðja forvitni mína. Einu sinni varð mér það að hæla Dominion-stjórninni hérna fyrir að leggja frumbýlingum til bráða-birgða skýli með landnáms-

leyfinu „Það er narr. Það er narr“, sagði sá, sem ég var að tala við, góður drengur og gallharður flokksmaður þeirrar stjórnar, sem húsin bauð. „Þessi hús eru bara skurn, hættuleg þeim, sem ekki þekkja veðráttuna hérna. Þau eru narr. Láttu mig vita að tarna, sem sjálfur tók að mér að selja stjórninni efnið og smíðið á meira en hundrað af þessum skeljum“. Enn í dag get ég brosað að þessu og er að hugsa um, hvort auglýsingin sé í raun og veru á líku byggð eins og vinur minn sagði um landtökukjörin forðum. Hitt er enginn efi, við allt vel staðið væri þetta vildar-boð þeim, sem það vildi reyna.

Nýlega hefi ég skrifað Borgfjörð. Spurði hann í rælni og alvöru, hvort hann gæti útvegað mér vinnu við mitt hæfi, kæmi ég vestur. Ég finn, það fer að verða ergileg heimska að ætla sér stritvinnu til jafns við unga menn. En svo verður, meðan ég bý hér. Satt að segja hafði ég ætlað að senda tvær eldri stúlkur mínar vestur í sumar, svona að sjá, hve þeim félli. Þá veiktist kona Baldurs míns; hún hefir verið hjá læknum og á heilsuhælum í allt sumar, svo þær urðu að taka þar hús-for-ráðin í bráðina, hvað sem úr rætist. Ég er bara að drepa á þessar bollaleggingar, sem enn eru ekki nema hugrenningar. Samt er það satt, mér hefir lengi fundizt ströndin nokkuð fýsileg.

Nú er Kristinn mágur orðinn sveitar-höfðingi í Smiðs-ey. Hvernig lízt þér á? Ég held þessi blaðskratti raupi þeim til óþarfa, það bætir svo miklu við lítið. En svo held ég eyjan eigi framtíð handa þeim, sem eiga óskerta vinnuorku og mörg ár fyrir höndum.

Var ekki gaman að sjá „Kringlu“ reyna að taka sér kvæðið okkar til inntekta? Mér þótti annars vænt um, að kvæðið komst *svona* í vestan-blað. Tvær prentvillur gátu þó komið sér að. Ekki nema ein í „Sunnanfara“, s fyrir e (sinn í stað einn) í: „Sá kann einn með ábötun að selja“, fyrsta staf-villan í þeim, sem „Sf.“ hefir farið með eftir mig.

Bið kærl. að heilsa þínu fólki og J. M. B. og öðrum „vinum várum“. Nú verð ég að rjúka í það að raka mig. Ég hefi sótt kýrnar, satt svínin, skrifað Kristni og þér, en tapað bæði „pistli og guðspjalli“, því ekki verður í allt séð.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Eggert Jóhannsson.* Markerville, Alta, 19. okt. 1913.

Sæll og blessaður, Eggert minn. — Nú er ég held ég búinn að gleyma stafrófinu. Það er svo langt síðan ég hefi reynt það, eða heldur, svo sjaldan í sumar. Bréf fékk ég frá þér, en lagðist undir höfuð að svara því þá. Ég var alveg nýbúinn að senda þér línu og einmitt gambra um sumt það, sem þú minntist á. Nú langar mig til að fá að frétta af ykkur, hvort allt er með friði og felldu hjá kunningjunum. Hér kom í sumar maður frá Blaine, Guðbrandur Guðbrandsson (ég man ekki hvað hann hét „á ensku"), gróða maður í skógunum þar og tengdur einhverri bænda-röð í Argyle. Dvaldi hér eitthvað. Þóttist annars vera á leið til Peace River héraðs. Annar vestmaður, William Olson, unglingsmaður, landeigandi í Frazer River dalnum og Vancouver-borgar nágranni, kom hér og keypti land, og kvað væntanlegur í vor með foreldra sína. Hann hafði verið einn af gestum „Úlfamótsins" í vetri var. Hvorugan þennan mann hitti ég samt að máli. Séra Karl Olson er hér nú í mánaðar messuferð:

Séra Karl er kominn hér,
Að kristna þá undir veturinn.
Til þess ekki, trúi ég, sér
Treysti séra Pétur minn.

Svo ætlar hann með „fyrstu konuna" í brúðför vestur í fjöll, til Banff, eða hærra upp, og síðan austur í brauð sitt. — Þetta er nú öll sú mannaferð, sem ég man til að hafa séð hér um dalinn nýlega. Viðvíkjandi kvæðinu okkar: Ég hætti við að senda „Lögbergi" það, eins og ég þó ætlaði vestra. Bæði þótti mér „Sunnanfari" ögn hærri hilla, og bjóst þar við aufúsu viðtökum fyrir það, þó hitt: Það var einhver kurr í séra Leó út af þessu ljóði, eins og hann gat um við þig. Hann var kominn austur, er handgenginn „klikkunni". Ég vildi ekki einu sinni eiga það undir tilviljun, að hann fengi færi að ræða um útkomu þess. Maður kemst helzt áfram, geti maður sýnt, að maður verði ekki „króaður af", ef einhver skyldi æskja manni fyrirgirðinga. Þetta eru nú brellur mínar, sem ég segi þér nú eins og ég hugsa.

Ekki hefir Kristinn skrifað nýlega. Samt veit ég þeim Laugu líður vel og kunna við sig. Ég er nærri hræddur um, að þessi

„lenda“ þeirra fyllist af lausalopum, hálfgerðum strandaglópum, sem flækzt hafa suður og norður, svona fyrst í stað. Maður yrði utanveltu í því spili. Nýl. hefi ég þó heyrt, að Jón B. frá Victoria, bróðir Arngríms og Thómasar, væri kominn til Prince Rupert, greindur og gæða drengur, að mér fannst.

Hér gisti nýlega dr. Cherry frá Toledo, Ohio. Á lönd hér um slóðir. Fór hingað um Seattle, Victoria og Vancouver. Hann sagði mér, að seinni hluti sumarsins hefði verið fyrirtaks góður, ykkur um kring. Hér var, og er enn, einmuna tíð. Regn í dag. Næturfrost þó svo hörð undanfarið, að ill-plægjandi er á dag fram. Uppskera væn að gæðum, en vart meðallag að vöxtum allvíða.

Kona Baldurs míns komin heim, albata að virðist. Mrs. Mörkeberg (sem til ykkar kom), í afturbata að sögn. Allt er þetta út-taugaðar taugar fyrir aldur fram. Okkur líður vel. Í svipinn hefi ég eril, en ekki erfiði. Um tíma hefi ég engin bréf fengið og veit fátt dýpra en blöðin hálfsegja og misherma. Kem því bara til að lofa þér að vita, að ég er enn við lýði og verð kannske lifandi, þegar minnst varir. — Heilsaðu þeim, sem mig muna, og vertu svo kvaddur.

Vinsamlega Stephan G. Stephansson.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerville, Alta, 31. okt. 1913.

Góði vin, séra Rögnvaldur. — Bréf þitt komið fyrir stundu síðan. Auðvitað óska ég þér hamingjusamrar stjórnar, af öllum hug, hlakka yfir því, að blaðið batnar og verður ekki lengur Vestmanna-minnkun í svo mörgu, sem sjálfrátt er, en á hinn bóginn: Ég óttaðist um hvern þann mann, sem mér væri vel til, en tækist á hendur að hefja upp úr svona djúpri niður-níðslu. Þú hefðir átt að fá ungt blað, nýtt og óspjallað. Og svo er heimanmundurinn, sem þú átt að taka við, afturhalds-stjórnin í Wpg og Ottawa. Mér finnst nærri skaði að skemma þig á því, jafnvel fyrir endurfædda „Kringlu“, jafn þjóðþrifasamlegt og það er, að hún batni. Ég kysi helzt ekki að eyða betra manni en Baldvin Baldvinssyni í þess háttar. En ég veit, að mannlífið fer ekki að mínum vilja, svo ég klappa þér bara á bakið og bið þér alls gengis í öllu, sem er satt, rétt og fagurt, að þú verðir hvergi góðu máli að ógagni, því það er leiðtoga-lán, sem er hæðum-hærra en konungs-gæfa. Og fyrir-

gefðu svo þessa fyrirbæn, sem munt komast þetta allt án nokkurra áheita.

Það er rétt tilgetið, að hvorki er ég gramur né sár blaðinu „Kringlu“ út af því, að ég vísaði sjálfum mér á dyr þar forðum. Nei, ekki fremur en ég þykkti það við núllið í tölu-rófinu, að það skýzt stundum skakkt í reikning manns. Ég er ekki einu sinni svo gerður, að ég erfi neitt við „Balda“. Hitt er annað mál, og ekki nema heilbrigt skyn, að hætta að gera sér krók til að ganga þar inn í hús, þar sem strákur hrekkjar mann að raunalausu, hvort sem það er gert með vilja eða af glannaskap. Ég hefi þá mannrænu. Ég hefi ekki annað til „Lögbergs“ að segja en að það hefir verið mér í viðbúð eins samvinnu-þýtt og nokkurt blað, og ég hefi þó átt smá-skipti við fáein. Og ég veit ekki, nema ég sé væru-minni við mikla stjórnmála-heimsku, heldur en þó nokkra trúarheimsku.

Um að senda þér eitthvað núna fyrir inngöngu-blað þinnar stjórnar, þá kæmi það ekki héðan af þér í hendur, fyrr en það blað væri alsett. En það væri smáræði. Hitt ræður úrslitum: Seinast kveðna þulan mín er líkl. nýkomin til „Sunnanfara“, í Vík suður, og síðustu stökurnar á leið til „Lögbergs“. Ég er því eins andlega bersnauður og Adam hefir hlotið að vera, þegar skaparinn rak hann fyrst á fætur, upp úr hlaðinu í Paradís. Þá eru ljóða-loforð framvegis. Með kveðskap get ég ekki gert fyriræltlanir. Ég veit aldrei fyrirfram, hvort nokkuð verður að mér rétt, né hvort tómstund leyfi mér tangarhaldið. Minn kveðskapur leikur á duttlungum tilfellanna. Kvæðið, sem ég sendi „Sunnanfara“, var nokkurs konar viðurkenning til þeirra, sem kært hafa sig um kvæðin mín. Maður býzt við, að „kvittering“ sé reikningslok. Ég er nú sextugur, Rögnvaldur minn. Gömlu Grikkir, sem kynntust þessu manna bezt, héldu, að enginn bæri sitt bar eftir sextugt. Ég held það sé nærri sanni. Ekkert að marka, þó einhver hafi þó unnið vel, úr fyrri fengnu efni, sem hann aldrei komst að að koma frá sér áður, eins og fræ, sem felst í jörð, kemur fyrst upp að hausti, þegar einhverri annarri gróðrar-örtröð er aflétt. Nú ætla ég mér ekki stórt. En ég skal muna, að þú baðst mig um þetta.

Já, ég man það. Ég hefði orðið feginn og verð feginn, ef hér sprytti upp íslenzkt bókmennta-blað. En ég veit, að minn

hlutur í því yrði einungis ánægja mín af því. Íslenzkar sögur og leikrit eru enn ekki nema bergmál utan úr heimi. Aðeins ljóðagerðin ein upprunaleg, með köflum. Íslenzkar bókmenntir fá aldrei þann orðstír, sem þær eiga skilið, fyrr en þær verða heima fæddar og upp-aldar. Þessi aðflutti áburður verður aldrei annað en laglegir fjóshaugar, danskir og brezkir, norskir og þýzkir. Svo rótgróin er þessi aðdrátta venja orðin, að ef sumir ritdómendur þykjast sjá eitthvað nýstárlegt hjá einhverjum, þá er hann borinn við hálfa tylft ólíkra útlendra höfunda, sem hann hafi kannske þessa fyrirmynd frá og sem hann kynni að hafa lesið, en hefir aldrei. Svo vanir virðast þessir listamenn við að bjarga sér svona, að þeir geta ekki hugsað sér annað. Það væri því gott, að héðan að vestan kæmi sú vísbending, sem kenndi íslenzkri list heimatökin.

Með vinsemd Stephan G. Stephansson.

*Jón Jónsson frá Sleðbrjót.* Markerville, Alta, 1. nóv. 1913.

Góðvinur. — Skammt síðan ég fékk síðasta bréf þitt, þó margt hafi við-velzt í viðburðanna rás, t. d. að í dag eru þeir vinir mínir, „únitarisku konservatívarnir“, að hreiðra um sig á „Heimskringlu“, og séra Rögnvaldur setztur með ritstjórapennann. En ef til vill kemst ‚Kringla“ nú út úr þeirri flokksergi, sem er svo röm, að hún ber róg á landa sína, til að fegra um hjá flokki sínum, þegar heimskum dettur ekki annað í hug, en er í öngþveiti. Þannig fór „Kringla“ æfinlega með sína Nýja-Íslands-Gimlinga, ef þeir fóru að blása í sín stjórnarkaun. Nú var röðin komin að ykkur. Hver verður nú samt „Kringlu-stefnan“ um Íslands-mál? Tryggvi rýja má eiga það: Hann var dyggur þar (kannske fyrir annarra aðhald og afskipta-leysi Baldvins þar), þó stílsmátinn hjá Tryggva tetri yrði stundum nokkuð gleiðgosalegur. Séra R. var, þegar við ræddumst við fyrst og seinast, Hafsteinungur — hvað sem nú er orðið. Þingvísunum hefi ég gaman af og þykja þær góður siður og íslenzkur, sé vel á haldið. Við getum ekki haft háðmynda-blað. Kunnum enn hvorki að mynda né láta mynda okkur, nema sem fægða eintrjáninga, auk heldur til spaugs. Spaug-myndablöð geta gert gagn í almennum málum. Gladstone lét Bretaþing launa nokkrum góðum háðmyndurum,

sem höfðu líka, auðvitað, skrípa-myndað hann. En íslenzku ferskeytlurnar eru jafnvel betri, berast léttara og víðar, geymast lengur. En það er nokkur vandi að gera þær. Ekki klaufa meðfæri. Þær þurfa að grípa út í þjóðmál, þó þær leiki um persónu, ekki vera bara hnúta á einstaklinginn. T. d. vísan núna (um hvern sem hún annars er):

„Áður var hann innskeifur
Af afturhaldi og vana.
Nú er hann orðinn útskeifur
Í áttina til Dana“ —

er vel gerð, því þó spaugað sé að göngulagi mannsins, þá er það aðeins átylla til að sýna „hreppapólitíkus“, sem eðlilega eldist upp í „aristokrata“. Aftur er vísan um B. frá V. (sjálfsagt eftir Hafstein) hvorki snjöll né glettin, þessi:

„Leirbulls-skjóðu skekur hann,
Skelli-hlátur vekur hann.
Sambands-rellu rekur hann,
Rólega öllu tekur hann“.

Þetta eru nú mínar hugsanir um þingvísur. Sjálfsagt fellur J. Ó. vísan mín miður. Alveg eðlilegt. Og er hún þó eins persónulega meinlaus eins og spaug getur verið. Ekki *vissi*, ég, að heiman-vísan væri um J., en ég þóttist vita það. Hún var svo ákaflega vel gerð, eftir minni reglu, að ég gat ekki stillt mig. Annars skil ég ekki það manns-skap, sem lætur eða leyfir því að sjást eftir sig, að bitlingur fylgi hverri breytingu á almennra máli fylgi sínu. Verst verður samt hitt: Seinni vísan mín, „Ísmeygingurinn“, verður dregin að Jóni líka. Allt er gert persónulegt fyrir manni. Mér datt J. þar ekki í hug, nema ef hann lendir í meirihluta þingmannanna, sem líklegt er, og stakan grípur um. Ég var bara að glettast við „opportúnistann“ yfir höfuð, þann, sem æfinlega er að sjá *sinn* hag.

Þrátt fyrir allt, fannst mér þingið ekki alveg fara mínum vonum verr, eins og á stóð, nema fjármálin. Bæði kjörréttur allra og ráðu-neyti er þó hálf-viðurkennt af alþingi, og gatan til þess ögn víkkuð, nema afturkippur loki enn, sem ófrjálslyndið heldur í tækifærið til, með þessum refjum. Það er svo

sem auðvitað, Dana-vinir hanga sem lengst á *einum* ráðherra. Ísland með einum ráðherra er hluti Danmerkur í erlendra augum, en Ísland með fleiri ráðherrum, það verður nokkuð þjóðveldislegra yfir að sjá.

Ekki fagna ég því, ef S. fer frá „Lögb.", en K. tekur við. Ég á fleira ofurlítið sammerkt með S. í veraldarmálunum en ýmsum öðrum, þó hann sé minni gapi en ég. Milli trúmála okkar er sjálfsagt regindjúp staðfest, en ég set þau mál ekki efst á blað, þó nógu sé ég trúlaus. Og persónulega, það sem ég til veit, hefir S. reynzt mér drengur í andstæðri skjaldborg. Ég sé ekki enn, að K. hafi nema einn gervileik, sem á ber, þann að vera ögn orðsnjall, helzt í frásögn. Svo er hann trassi um margt, t. d. prófarkalestur. Ég þekki vel, hvern hlut hvor þeirra á í „Lögb." Almenningur kennir S. um allt. Veit varla af K. Skyldi K. skáka í því, svo skiptin þyki minna virði, þó hann settist í sæti hins? Ég er ekki að drótta því að honum, en það væri vit í því fyrir „ísmeyging". „Lögberg" nýkomið með „Eimskipafund" í Wpg. Hvað verður gert í landsbyggðunum? Ef engri forgöngu er komið þar á stofn, frá aðalnefndinni, verður þar allt hreyfingarlaust.

Hafsteinn kaupir öll blöðin, og „Ingólfur" nærri á þrotum. Væri mögulegt, í kyrrþey, að skjóta svo saman hér vestra, að „landvarnarmenn" gætu með þeim styrk og sínum borið upp sína hlið málsins fyrir alþýðu heima, fátæktar vegna? T. d. sent „Ingólf", eða önnur gögn sín, gefins inn á hvert heimili landsins, nokkrar vikur fyrir næstu kosningar. Það er skömm, ef Hafsteini og Dönum tekst að múlbinda með féleysinu. Ekki þyrfti stórfé, en samtök góð og snör. Einn eða tvo fjáða og velvirða menn í Wpg og einn eða tvo góða og gætna drengi í hverri íslenzkri byggð vestan hafs. Hefðum við nú bara áhuga og fjör Íranna hérna. Því sjálfstjórn Íranna var og verður unnin fyrir peninga írskra Ameríkumanna.

Þarna kom það, Jón, eins og mig grunaði. Þú átt „Minningar". T. d. þingvísa séra E. Þ., sem þú hafðir yfir, er fljótteknari og eftirminnilegri lýsing á honum og hvernig hann horfði á almenn mál (auðvitað með hæfilegri skýringu) heldur en ræður hans og tillögur, sem grafnar liggja í „Þingtíðindum".

Þú heldur ég sé afkasta-drjúgur. Annað finnst mér. Sá er verstur annmarki aldurs og lúa; þurrð á þolinu.

Áður var skár — þó yrði ei frár,
Orku-smár í taki,
Sextíu ára ábands-klár,
Orðinn sár í baki.

Nú læt ég hér við lenda í bráðina. Þakka fyrir bréfin og skemmtunina, og kveð þig með góðum kunningsskap.

Stephan G. Stephansson.

*Jón Jónsson frá Sleðbrjót.* Markerville, Alta, 1. des. 1913.

Góði vinur. — Bréfið þitt kom í gærkveldi. Þökk. Til að fyrirbyggja allan misgáning sem bezt, sendi ég nú bréf séra E. heitins strax til baka. Ég veit, að þér er það kær menjagripur. Las það með ánægju, það er svo hreinskilin en óáætluð sjálfslýsing göfugs manns, manns, sem líka getur brosað í bágindum. Þess háttar kemur heim við mínar kreddur. Ég vissi lítið um Einar heitinn, nema eftirmælin, með nokkrum orðum úr þessu bréfi í, sem þú reizt í blað hér. Vandræði, að nafni hans Hjörleifsson — voru þeir ekki frændur? — skuli skorta svona skapfestu, geta aldrei verið nema skósveinn annarra í skoðunum og skáldskap líka. Vanta festu og frumleik, en eiga góða íþrótt.

Ég dáist að mörgu í bréfi séra E., ekki sízt því, að þora að efast um, að þeir séu æfinlega sælir, sem friðinn semja, jafn viðtekið og vel sagt eins og það er, og slík heimild, sem á bak við það stendur, ekki sízt fyrir mann með uppeldi og í stöðunni hans.

Ég masa ekki meira núna. Reyni að koma seinna og rabba fleira, og vertu nú sæll.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerville, Alta, 19. des. 1913.

Góði vinur. — Ég hefi nú alltaf verið að hugsa til þess, sem þú baðst mig, síðan þú skrifaðir. Ég fann, að ég átti þér svo gott upp að unna, að nærri væri níðingslegt að sýna engan lit á vilja, það væri eins og maður óskaði að vera þeim ónotalegastur, sem vildu manni bezt. En gæftirnar eru þannig, að oft verða árar að liggja í bát, og satt að segja, mér finnst

stundum það sé öllu hæfilegast. Ég meiddi mig ögn, varð að sitja inni nokkra daga og notaði þann tíma til að skafa upp og skrifa, það sem ég sendi þér nú í öðru umslagi og kalla „Kolbeinslag“, annars hefði það dregizt eitthvað enn.

Síðan ég var piltungur heima og las sögurnar um Kolbein, hefir mér oft hugsazt, að efni væri í honum, þeim sem með kynni að fara. Hann var auðvitað ekki neitt skreytiskáld, djöfla-trúaður og forneskju-karl, en minningarnar um hann sýna, hve áhrifamikill hann var, og satt að segja, eins ógeðsleg eins og mér finnst djöfla-trúin í kenningu, ber ég samt virðingu fyrir mönnunum og þjóðinni þeirri, sem hafði svo sterka trú á skáldskapnum, að þeir treystu sér að ganga í greipar þess, sem þeir vissu og trúðu verst vera, með kveðskapinn einan að vopni. Annars hefi ég látið spaugið draga úr. Svo væri það nú helzt mitt hæfi, að mæla fyrir 300 ára erfi rímnaskáldsins og fjanda-fælanna, meðan hinir frægja minningu Hallgr. Péturssonar, sálma-skáldsins og svartsýnismannsins. Þeir stóðu uppi um líkt leyti.

Nú, ef „Kringla“ getur notað þetta, þá er það þarna, heldur en ekkert. Ég segi þér sama og öðrum mínum blaða-húsbændum. Þyki þér varan varasöm, einhvers vegna, sendu mér hana aftur, og við verðum eins góðir kunningjar á eftir. Kvæðinu er kannske illt að koma fyrir, sökum lengdarinnar. Að því get ég ekki gert. Annað hvort að prenta það ofanmáls, líkl. í köflum, eða kippa það í einu neðanmáls, eins og sögu.

Kannske kannast einhver heldur við Kolbein af því „Lögb.“ hefir nýlega sagt það, sem Gísli gamli Konráðsson hafði heyrt um hann. — Sjálfsagt hefðir þú kosið eitthvað annað og betra, en við, sem erum að kveða, verðum að leggja okkur til munns það eitt, sem við höfum lagzt á í það og það skiptið.

Ég held, að í kvæðinu sé dálítið spaug handa þeim, sem glamrið eitt gleður, og ofurlítil alvara undir, fyrir þá, sem dýpra renna. Líklega verður eitthvað tekið upp sem slettur í einstaka, t. d. að ég sneiði að Skagfirðingum fyrir mont með vísu Kolbeins: Þann skagfirzka ofláta o. s. frv. Mér stendur þá á sama. Sannleikur er, hér er bara tekinn til sá orðrómur annarra fjórðunga manna, að Norðlendingar, ekki sízt Skagfirðingar, væri miklir á lofti, og Kolbeinn var ekki Norðlingur. Sjálfur myndi ég í *alvöru* telja Norðlingum þenna orðstír sinn til gildis, fremur en hitt og eins og á hefir staðið.

Á næstu blöðum segi ég frá meðferð minni, til að setja þig sem fyrirhafnarminnst inn í sérvizku mína.

Góðar hátíðir þér og vinum mínum í Winnipeg.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Heimulegar skriftir.* — Sögunum um Kolbein er vikið við ýmislega. Það þurfti í svona sögu að gera grein fyrir, hví fjandinn sóttist eftir að kveðast á við hann. Að hann hafi gert það af ásókn eftir sál Kolbeins eins, þótti mér of smálegt, enda er *það* marg útunnið af ýmsum. Ég kalla annars þessa veru „Höfðingja þessa heims", en læt *Kolbein sjálfan* segja fyrir sig, hver hann er. Nú, Höfðinginn er nú reyndar ekkert nema kænn umsýslumaður í sínum verkahring, sem er: Að gera menn að ómennum, þjóðirnar, sem ögn hafa mannazt, að skríl aftur. Helzta ráðið er að spilla tungumáli þeirra. Þar hefir latínan dugað vel, með henni hefir Höfðinginn sigrað Gota og Grikki. En alþýðumálin eru að ná sér niðri. Þýzkan í kirkjunni er Höfðingjanum ills viti. Á Ísl. varð honum lítið lið að latínunni, en hefir betri von um dönskuna. Skáldin hafa verið honum oft til hindrunar, ekki sízt alþýðu-skáld, einkum á Íslandi. Kolbeinn er einn af þeim, og því vill hann koma honum á glæ. Gamla þjóðsagan: *Kölski kvongast,* er notuð til að ná í þetta, og til að segja ýmsa almenna glettni.

Lýsingin á Kolbeini og högum hans er minn tilbúningur, en ég held hún sé nærri lagi um ástæður ýmsra íslenzkra skálda, sem kveðskapnum héldu þá uppi. Eins og náttúrlegt var um slíkan trúmann, vildi hann kenna Kölska öll sín óhöpp. Enda var það ekki nema hygginda-ráð að draga sem mest úr Kolbeini, áður en Höfðinginn gekk á kvæðahólminn við hann, og svo er hann frekar eigingjarn en riddaralegur, þó ekki sé nema við kveldmatinn. Það sem þeir kveðast á er ekki annað en það, sem Kölski vill hafa fram, sett fram í álagna-vísna formi, og sumir dýrari rímna-hættir okkar teknir upp, bæði í því og mansöngvunum. Þeir eigast mjög við um örlög Íslands, Kolbeinn og Kölski. Í Þjóðsögunum er engin vísa úr „sópum" þeirra, nema sú seinasta, sem Kolbeinn sigrar á, því Kölski gat ekki fundið rím á móti. Ég hefi því spunnið upp alla hreðu þá og *hún* þurfti einhvern veginn að sjást í svona sögu, og eins og Kolbeinn var látinn sigra á *hálf-vit-*

*lausu rím-orði,* var alveg ótækt. En hann hafði fundið upp nýjan rímna-hátt, segir sagan: *Kolbeins-lag* (eins og ég kalla þetta kvæði), og á því læt ég hann vinna, því vísan: *Ef er gálaust af að má* o. s. frv. er kveðin undir „Kolbeins-lagi".

Ef þú lest saman fyrstu stafi hverrar línu, ofan til, til enda, í síðasta kvæðinu á eftir mansöngnum, þá færðu orðin *„Stebbi frá Seli"*, nafnið , sem leikbræður mínir í Skagafirði nefndu mig forðum. Mansöngurinn bendir á það. Það var siður einu sinni að „binda" svona nafn sitt (cryptogram), líklega komið frá latínu-skáldunum. Reyndar var það gert á margan hátt og oft aulalega og kveðskap til skemmda, sökum þess hve örðugt var að farið — ekki betra en málrúnirnar okkar. Ég fór eina líkustu leiðina, sem lítið þarf að baga mann — ég gerði þetta af rælni.

„Sagt og samvizkunni borgið", — en þitt að fyrirgefa.

S. G. S.

*E. S.* — Ég gleymdi að segja, að seinustu 3 erindin eru efnið úr sögunni, eins og hún er sögð. Kolbeinn á að hafa beðið að grafa sig í bakka, þar sem á braut af, og myndi þá, ef til vildi, heldur draga úr landspelli af hennar völdum, — og svo er stundum bætt við, að svo hafi líka farið.

Tjaldið og lestamennirnir eru auðvitað framtíðar-vonirnar á ferð. S. G. S.

Mér gengur ekkert til að setja ekki nafn mitt undir kvæðið nema glettni, að lofa einhverjum að brjóta heilann um, hver heimskingi þarna sé. Auðvitað, þeir sem lesið hafa kvæðin mín, svo lestur heiti, þekkja mig strax, enda er þetta ekki tilraun til að leyna nafni. S. G. S.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerville, Alta, 29. maí 1904.[1])

Háttvirti herra. — Þökk fyrir bréf yðar. Því miður er það engum styrkur, en vel get ég látið uppi það álit mitt á fyriræltlun ykkar unitara, með útgáfu tímarits, að mér væri ánægja að, að sjá það heppnast. Ég verð feginn öllum nýjum viðbótum við blöð okkar og tímarit, þeim sem í einhverja átt reyna að víkka almennings útsýnið. Þau segja engin allt sem ég vil, né allt eins og ég vil, en mér er vel við þau samt. Þau mega vera unitarar, trúlaus, byltingarit, jafnaðarblöð; bara þau séu vekjandi; eigi snefil af andagift og einlægni, og séu ekki ótæklega fúkyrt né einstrengingsleg. Því fleiri, þess betra; með því verða á endanum nýjar og betri hugsanir þjóðlesnar og hjálpa með framtíðinni að leggja það niður í trú og sið, sem illt er og öfugt. Því þó að kenning og fræðsla, hve sönn sem hún er, breyti ekki því, sem allt ríður á, innrætinu, þá eru þær þó eitt af þeim öflum tímalengdarinnar, sem að því verki vinna. Tóm trúmálarit leiðast mér oftast. Við gömlu guðshugmyndirnar og játningarnar er mér ekki illa, *einungis af því* að þær séu hugarburður, ósannur, þó það sé nú nóg, heldur fremur af hinu, að þær sverja sig í ætt við ógöfugmennskuna, hafa sprottið upp af mannúðarleysinu og skammsýninni í manneðlinu. Til dæmis, þegar hefndinni verður byggt út úr hugsunarhættinum og anda landslaga, getur enginn maður lengur trúað á eilífa útskúfun. Annars er ég sjálfur guðleysingi, í öllum kirkjulegum skilningi. Ég segi það eins og það er.

Gjarnan hefði ég viljað gjöra eitthvað fyrir rit ykkar, og ætla mér það, að svo miklu leyti sem mér er sjálfrátt. En verði annað hvort ekkert úr því, eða löng bið, megið þér samt ekki virða mér til viljaleysis, né ógreiðvikni. Mér er að ýmsu leyti öðruvísi farið en mörgum þeim, sem við ljóð fást; þó það sé mér ekki til kosta, verður maður að taka því, sem er. Aðrir geta ort fyrir markaðinn, sniðið upp kvæði, eins og skraddari brók, úr hvaða efni sem um er beðið. Ég get það ekki, af því ég vil það ekki; ég þarf að

---

1) Þessi tvö bréf, sem hér fylgja að lokum, bárust útg. svo seint í hendur, að ekki voru tiltök, að þau gæti komið á sinn stað í aldursröð bréfanna.

ná mínum tökum á efninu, eða láta það ógjört. Ég er búönnum kafinn, sé ég heilbrigður; ég er orðinn talsvert uppslitinn, vinnuþolið er að bregðast mér til muna, svo að nú get ég sjaldan bætt kvæði við dagsverkið. Heilbrigði mín er oft í lama-sessi, og þá verður maður sérhlífinn. Ég á marga góðvildarmenn, sem eitthvað eru að fást við blöð og rit, sem vonast eftir og vilja fá línu frá mér; ekki af því, að ég gjöri svo vel að eftirsókn sé í, en ég get verið til uppfyllingar. Þessum mönnum get ég ekki stillt mig um að sýna lit á greiðasemi, við og við, ef eitthvað felst til; maður getur ekki sett gamla kunningja hjá, úr því maður er að þessu og þeim er það hugnun að fá hendingu. Svona liggur nú í því, „að hið góða, sem ég vil, gjöri ég ekki“. Gjarnan skal ég kveða til „lengstu laga“, en þó óska ég hins fremur, að ég hefði vit á að þagna, áður en ég verð tómur svipur af sjálfum mér — því:

Það er ekki allra skálda æfisaga
Að halda uppi um elli-daga
Óðar-rausn í húsi Braga.

Meðal annarra orða, hve fljótt búist þér við að byrja? Er ekki gott að koma fyrst út um jól næstu, eða ný-ár, þegar landönnum er lokið og peningar lausastir fyrir; hafa aðeins búið vel í garðinn með útsölumenn? Kannske ég gæti gjört vísu þangað til!

Virðingarfyllst Stephan G. Stephansson.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerville, Alta,16. okt 1904.

Herra ritstjóri Heimis. — Ég sendi yður ljóð fyrir „Heimir“ með síðasta pósti, en var þá svo önnum kafinn, að ég gat ekki forsvarað þau bréflega, svo nú gjöri ég það, til að fyrirbyggja misskilning. Ef til vill ætluðust þér til einhvers annars, betra og byltingameira. En svo fer sjaldan hjá, að flest, sem ég kveð, brýtur í bág við eitthvað, sem algengt er; þó það sé ekki trú eða stjórn, í hvert skipti; og eins var um þetta kvæði, sé það lesið í kjölinn. Gæti ég gjört eins og ég vildi, styngi ég mínum byltingagjörnustu kvæðum í römmustu afturhaldsblöðin, en hinum í þau frjálslyndari, eftir reglunni, „að heilir þurfi ekki læknis við“. Svo kann

yður að þykja þunnt, að ég skeinki „Heimir" loks eftirmæli. En kvæðið er að mínu viti meira en eftirmæli flest. Það er ekki þar með sagt, að það sé betra. Ég þykist hafa sett þá litlu mynd, sem ég dró af „landnáms-konu" íslenzkri, inn í ramma landnámssögunnar, lands-náttúru og ný-byggðalífsins, eins langt og hægt er í stuttorðri ljóðagjörð. Þá er „formálinn" og fyrirsögnin, *„Milli lesmáls og ljóða"*. Ef ég sendi „Heimi" nokkuð framvegis, sem fer eftir því, hve langt elja mín vinnst til, þá hefi ég ætlað að kalla mína kafla í honum þessu nafni framvegis. Það er sannyrði; ég hefi aldrei ætlað að hefla allt mitt rím til kvæðasöngs. Endalaus ljóða-liðleiki verður mér á endanum eins jafnbreiddar-leiðinlegur eins og endalaus slétta. Að ég skrifaði nafn mitt efst á kvæðið, en ekki undir það, var spaug, til að sýna, að í tímaritum, eins og „Heimi," þætti mér vel fara, að sérhver bókaropna hefði höfundarnafn og greinartitil efst á blaði; það er lesara svo handhægt. Nú hefi ég gjört grein fyrir sumum af mínum sérvizkum.

Bónar bið ég yður! Í handritinu er vísa, sem byrjar svo:

„Af því að sinna heima hag,
Hún hlúði með árvekni nótt og dag."

Breytið fyrir mig „nótt og dag" í: „sérhvern dag", því svo var það kveðið. Þetta er lítilræði, en fer betur. Þegar ég var að skrifa kvæðið, sat ég mitt í gesta-ös, og nærri höfðu kýrnar misst máls, því skáldskapurinn hélt mér fram yfir vanalegan „kúatíma".

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

## Athugasemdir og skýringar.

(Tölurnar framan við athugagr. tákna blaðsíðutal.)

1. *Jónas Hall,* fæddur 1. ág. 1852 í Grjótárgerði í Fnjóskadal. Foreldrar hans voru Hallgr. Ólafsson frá Svertingsstöðum í Kaupangssveit, Gottskálkssonar frá Garðsá, Ólafssonar, og Sigríður Jónasd. frá Veturliðastöðum í Fnjóskadal, Bjarnarsonar frá Reykjum, Halldórssonar. Systir Bjarnar á Reykjum var Guðrún Halldórsdóttir, kona Kristjáns á Illugastöðum og móðir Kristjáns amtmanns og þeirra nafnkunnu Illugastaðabræðra, en einn þeirra var Björn, faðir Jóns frá Héðinshöfða, föður Tómasar ráðherra í Manitoba. Jónas fluttist ungur með foreldrum sínum að Fremstafelli í Kinn og fór þaðan til Ameríku nýkvæntur 1874. Settist hann fyrst að í Muskoka í Ontario, fór til Nýja-Íslands 1877, en þaðan til Dakota (Garðar) 1880. Var um skeið nágranni Stephans og tókst með þeim æfilöng vinátta. Jónas var mikill fróðleiksmaður, félagslyndur og frjáls í skoðunum, tungumálamaður af eigin rammleik og skrifaðist á við lærða menn víðs vegar um álfuna um íslenzk efni, bókmenntir og sögu. Dáinn 28. ág. 1931.

– *Sections.* Svo eru nefndar ákveðnar vegalengdir á járnbrautum, venjulegast 8—12 mílur enskar, er úthlutaðar eru gæzlumönnum brautarinnar (Section Foremen). Hafa þeir ávallt nokkra menn í vinnu.

– *Gamli Ólafur.* Ólafur Ólafsson frá Espihóli, nafnkenndur gáfu- og menntamaður, sbr. eftirmæli Stephans, Andv. V, 111. Ólafur fluttist vestur 1873, fór til Alaska 1874, til Nýja-Íslands 1875, fluttist svo byggð úr byggð, gerðist landnámsmaður í flestum hinum eldri byggðarlögum Íslendinga vestra. Ólafur andaðist í Wpg 1918. Stephan getur hans nokkrum sinnum í bréfum sínum. Sjá ennfr. Almanak Ólafs S. Thorgeirssonar 1911.

– *Gísli og Benidikt.* Synir Jóns frá Mjóvadal Jónssonar frá Mýri í Bárðardal. Nefndi Gísli sig Dalmann, en Benidikt tók sér viðurnefnið Bárdal. Sjá Ó. S. Th. 1911.

2. *Gísli Sæmundsson og Sigurbjörn og Einar Björnsson.* Gísli var ættaður af Langanesi, en Sigurbjörn og Einar úr S.-Þingeyjarsýslu. Um Gísla sjá Ó. S. Th. 1911.

– *„Scott Actinn“.* Vínsölulöggjöf sambandsstjórnarinnar frá 1878.

– *Sir John og C. P. R.* Sir John A. Macdonald, forsætisráðherra Canada, aðalfrömuður að stofnun fylkjasambandsins. C. P. R. = Canadian Pacific Railway, hið auðuga félag, sem ræður yfir járnbrautinni miklu yfir þvert Canada, frá hafi til hafs.

3. *Cash City.* Póstafgreiðslustaður norðan Red Deer árinnar, löngu

lagður niður og nafnið horfið. Íslendingar vitjuðu póstsendinga þangað um skeið, þangað til þeir fengu póstafgreiðslustaði setta innan byggðarinnar, Sólheima og Tindastól, er þó eru nú báðir niður lagðir. Sjá Lds. Ísl. í Alberta. Ó. S. Th. 1911—1912.

3. *Jonni og Jakob.* Jón Jónsson yngri, tengdabróðir Stephans, og Jakob Jónatansson Líndal úr Miðhópi í Húnavatnssýslu.

5. *Justice of the Peace.* Sáttasemjari, friðdómari.

– *Mounted Police.* Löggæzluriddari. Öll löggæzla Vesturlandsins var í þá tíð, og er enn í norðurhéruðunum, falin riddaraliði, er sambandsstjórnin setur.

– *Lárus prestbítur.* L. Jóhannsson frá Holtastöðum (L. prédikari). Hann og Jónas bróðir hans voru um þetta leyti gerðir út sem trúboðar meðal Íslendinga af Presbyterian-kirkjunni í Can.

– *Collectionin.* Innheimtan.

6. *Cavalier County,* liggur vestan við Pembina County, aðalbyggð Ísl. í Dakota, í svokölluðum Pembinafjöllum. Þar bar á sumarfrostum um allmörg ár, meðan land var að komast í rækt.

7. *Mennonítar.* Sértrúarflokkur endurskírenda.

– *Sigurður Árnason,* ættaður úr Borgarfirði. Sjá Ó. S. Th. 1911.

– *Einar læknir* Jónsson frá Harrastöðum í Dalasýslu, einn af frumkvöðlum að byggingu Albertanýlendunnar, og einn þeirra þriggja manna, er kjörnir voru á fundi Ísl. í Kinmount 1875 til að fara landskoðunarferð til Manitoba og velja nýlendustæði (Nýja Ísland). Sjá Alm. Ó. S. Th. 1911.

8. *Sveinn Björnsson* Péturssonar alþm. frá Hallfreðarstöðum.

– *Pike.* Gedda.

– *Solideruð.* Efld, mögnuð.

– *Jón mágur þinn.* J. Ólafsson ritstj.

– *Eiríkur bankamylla.* Meistari Eiríkur Magnússon í Cambridge. Hann ritaði um þetta leyti og síðar mikið um bankamál í blöð vestra og heima.

– *Hafsteinn biskupsfjandi.* Séra H. Pétursson, er m. a. ritaði árásargreinar á Hallgrím biskup Sveinsson út af veitingu dómkirkjuprestsembættisins í Rvík.

– *Bergmann.* Séra Friðrik J. Bergmann.

– *Christomaniac.* Kristsóður; sbr. æði, ofsatrú

9. *Pabbi þinn* o. s. frv. Björn Pétursson, faðir Sveins, stofnaði hinn ísl. únitarasöfnuð í Wpg í febr. 1891, og veitti honum forstöðu sem kennimaður til dauðadags 1893.

– *Sæmilegur nihilisti.* Hér er átt við fyrirlestur séra Jóns Bjarnasonar, Íslenzkur nihilismus, er hann flutti á kirkjuþingi í Argylebyggð 1889, sjá: „Fyrirlestrar haldnir á fimmta ársþingi Hins Ev. Lút. Kirkjufélags Íslendinga í Vesturheimi.“ Wpg. 1889.

– *Lekturaði.* Fór fyrirlestraferðir.

– *Debattaði guðfræðinga.* Kappræddi við o. s. frv.

11. *Sample copies.* Eintök til sýnis eða prófs.

12. *Komið í mjólk.* Þegar kornið er fullvaxið í axinu, er kjarninn vökvakenndur og hvítur eins og mjólk. Sé það snert af frosti á þessu stigi, skorpnar það og þroskast ekki síðan.

13. *Section, odda-sectionirnar.* Þetta lýtur að útmælingu lands í Vesturfylkjunum. Öllu landi er skipt í reiti, mílu á hvern veg. Þessir reitir kallast „Section“. Eru þeir tölusettir, og kallast þeir, sem hljóta oddatölu (1, 3, 5 o. s. frv.), odda-sectionir. Þrjátíu og sex slíkir reitir mynda „Township“, skammstafað Tsp. Er það sex mílur á hvern veg. Milli reita eru ætluð vegarstæði, 66 fet á breidd. Byrjað er að telja Tsp suður við landmæri og röðinni haldið norður. Þá eru raðirnar (Range) taldar austur, frá hádegisbaugi til fjalla.

— *Grantið.* Leyfi, veiting. Orðið er haft um framlag í löndum eða lausum eyri til iðjuhölda eða járnbrautafyrirtækja.

14. *Bíða eftir flóði.* Þ. e. innflytjenda straumi, á ensku: Flood.

— *C. P. R. pamphlettið ykkar Kristins.* Bæklingur Canadian Pacific járnbrautarfélagsins um innflutning og kosta-kaup á landi, samfara „heimilisréttinum“, er þá var veittur ókeypis af stjórninni.

— *Elizabeth heitin county-studda.* — County-studdur = sveitarómagi.

15. *Gripa-kar.* Svo nefndu landnemarnir járnbrautarvagna, er notaðir voru til nautgripaflutninga. Car: vagn.

— *Kristinn mágur.* K. Kristinsson frá Brú á Jökuldal, kvæntur Sigurlaugu systur Stephans. Sjá Ó. S. Th. 1912.

17. *Settlement.* Nýbyggð.

18. *Buckboard.* Fjaðravagn, er notaður var til ferðalaga og smáflutninga.

19. *Mower.* Sláttuvél.

— *Steinbrot.* Svo þýðir Stephan enska orðið Quarry: Grjótnáma.

— *„Boom“.* Eiginlega hvellur. Hér verðhækkun, uppgangur.

20. *Karolina.* Kona Gísla Dalmanns frá Mjóadal, sbr. bls. 32.

— *Claves.* Svigar.

23. *„Ties“-högg.* Ties: Bitar, sem eru lagðir undir járnbrautarteina. Meðan mest var unnið að járnbrautarlagningu, var drjúg atvinna við að höggva bita þessa og stunduðu Ísl. þá vinnu oft á vetrum.

24. *Við erum á ferð til Langdon.* Langdon hét verzlunarþorp eitt í Pembinafjöllum, vestan við Íslendingabyggðina í Dakota. Voru þangað farnar kaupferðir úr suðurhluta nýlendunnar fyrr á árum, en einkum með korn til mölunar. Var það sólarhringsferð með æki frá Garðar og heim aftur. Slíkar ferðir fóru þeir oft saman, Stephan og Jónas, og voru þá einir og höfðu gott næði til að tala um trúnaðarmál og láta í ljós álit sitt um menn og málefni. „Við erum á ferð til Langdon“: Við erum að tala saman í trúnaði.

24. *Jón Gotti.* Jón Gottvill Pálmason. Sjá Ó. S. Th. 1912.

— *Delegate.* Fulltrúi.

— *Suggestions.* Bendingar.

26. *Afi.* Kristinn Kristinsson, mágur Stephans, var stundum nefndur afi af kunningjum hans, í þeirra hópi. Sbr. bls. 29 og víðar.

28. *Jón oltinn og Gestur riðar.* Jón Ólafsson var ráðinn ritsjóri að „Lögbergi“, er hann flutti vestur 1890, en svo sagt upp stöðunni, mest vegna skoðanaágreinings í trúmálum, rúmi ári síðar. Gestur Pálsson var vistaður að „Heimskringlu“ sama ár. Hann sagði upp starfinu vorið 1891 og hugði þá til heimferðar, en veiktist og dó um það leyti, er hann var ferðbúinn.

30. *Þórarinn og hans hús.* Þórarinn Guðmundsson frá Skollatungu í Gönguskörðum, sjá Alm. Ó. S. Th. 1912.
32. *Grænfóður.* Green feed. Svo var nefnt í þá tíð korngresi, er slegið var, er sýnt þótti, að það myndi ekki þroskast („móðna"), og notað til gripafóðurs.
— *Bárdal, Strandar-Jón, Laugi, Siggi, Reinholt.* Nágrannar Stephans. Bárdal: Benedikt Jónsson, Jónssonar frá Mýri í Bárðardal, bróðir Gísla, er nefndi sig Dalmann, en kona Gísla var Karolína Jónsdóttir Þorgrímssonar frá Litlulaugum í Reykjadal, sbr. bls. 1. — Strandar-Jón: Jón Jónsson frá Geiteyjarströnd við Mývatn, hagleiks- og atorkumaður, sbr. eftirmæli í Andv. III, bls. 104—7. — Siggi: Sigurður Jónsson skálds Árnasonar frá Víðimýri. — Laugi: Gunnlaugur Sigurðsson frá Göngustöðum í Svarfaðardal. — Reinholt: Indriði Friðriksson Reinholt. — Sjá um menn þessa Ó. S., Th. 1912
— *Jóhann Björnsson.* Skagfirðingur að ætt, var um hríð póstafgreiðslumaður við Tindastól. Sjá Ó. S. Th. 1911.
33. *Magnús Nýja-Íslands-skáld.* J. Magnús Bjarnason.
— *Eilífðarhjólið hans Lambertsens.* „Perpetuum Mobile", sjálfknúið hjól, er hreyfist án utanað komandi afla.
34. *Baldvin agent og Sveinn agent.* Baldvin L. Baldvinsson ritstj. og Sveinn Brynjólfsson, vesturfara-agent úr Vopnafirði.
— *Argylskum-Manitoba-100-ekra-hveiti-brillum.* Um þessar mundir var mjög látið af árgæzku og hveitiuppskeru í Argylebyggð og skjótum uppgangi bænda þar. Hendir Stephan gaman að þessu.
36. *Öldin.* Mánaðarrit, er fylgdi „Heimskringlu".
37. *Marteinn gamli.* Skozkur karl, er var fyrir í byggðinni, er Ísl. settust þar að.
— *Kolgröf.* Jón Jónsson Péturssonar frá Kolgröf í Lýtingsstaðahreppi, Skagaf. Sjá Ó. S. Th. 1911.
— *Jóhann.* Jóhann Björnsson. Sjá bls. 32.
— *Sigurður Björnsson.* Jónssonar frá Skynþúfu í Skagafirði, flutti vestur frá Marbæli í Óslandshlíð 1883. Sbr. Alm. Ó. S. Th. 1911.
— *Jónas Húnfjörð* (Hunford) frá Lýtingsstöðum í Skagafirði. Gáfu og merkismaður, hefir meðal annars ritað um landnám Ísl. í Alberta, Alm. Ó. S. Th. 1909—1914.
— *Ólafur „góðmennska".* Goodman (Guðmundsson frá Sköruvík). Sjá Eftirmæli. Andv. I. bls. 124.
38. *„Stop-over-ticket".* Farseðill, sem heimilar manni að stanza lengur eða skemur á ákveðnum stöðum á ferðalaginu.
— *„Feed".* Eiginlega fóður, en notað aðeins um korn eða mjöl, sem gefið er skepnum.
— *„Traininu".* Vagnalestinni.
— *„Úr bréfi að vestan".* Sbr. „Öldin" 11. nóv. 1891, bls. 3.
— *Fyrirlestri Gests.* Gestur Pálsson fór fyrirlestraferð um Dakota-nýlendu veturinn 1890—91 og flutti erindi að Garðar, Mountain (Vík) og Hallson. Um viðtökurnar orti St. gamanvísur þær, sem fylgja þessu bréfi.
40. *Br. Brynjólfsson.* Brynjólfur Br. frá Skeggstöðum í Svartárdal (f.

14. ág. 1828, d. 2. jan. 1917). Aldavinur St. og einhver mesti áhrifamaður í Dakotabyggðinni á sínum tíma, faðir Magnúsar lögmanns og Skafta B. Brynjólfssonar.

41. *Betli-collecta, collection.* Samskot.

— *Lazarus.* Sigurður Jósúa Björnsson orti kvæði, er hann nefndi: Sælkerinn og Lazarus; birtist í „Öldinni" 16. des. 1891.

43. *„Bergur", „Sámur", „Kringla".* Íslenzku blöðin „Lögberg", „Sameiningin" og „Heimskringla".

— *Gullkornunum hennar „Kringlu".* Jón Erlendsson Eldon (frá Garði í Kelduhverfi) var ritstj. „Hkr." næst á undan Jóni Ólafssyni og birti í sérstökum dálki í blaðinu ýmis konar lausavísur og upptíning, er hann nefndi „Gullkorn".

46. *„Samples".* Sýnishorn.

48. *Cleveland.* Grover Cleveland, forseti Bandaríkjanna 1884—88 og 1892—96. Cleveland var demokrati, en þeim flokki fylgdi Jónas.

— *St. Thomas Times.* St. Thomas er smáþorp austan við Ísl. byggðina í Dakota. Bæjarblaðið „Times" flutti þá fregn, að frost hefði stigið niður í 70° neðan við frostmark á Fahrenheit, en það var ósatt.

49. *Kirkjufél. „akolúts".* Eiginlega samferðamaður. Á ensku: „acolyte", heiti, notað yfir lægstu stétt embættismanna kaþólsku kirkjunnar.

— *Hraunshöfðadraugnum.* Nafn á leikriti, annars ókunnugt um efni þess.

50. *Gamli Skjöld.* Jón Pétursson Skjöld, sonur séra Péturs á Valþjófsstað, en bróðir Björns Péturssonar frá Hallfreðarstöðum. Jón fluttist til Vesturheims 1883 og tók sér viðurnefnið Skjöld. Hann rak verzlun að Hallson og var þar póstafgreiðslumaður um nokkur ár.

— *Okanagan* í British Columbia, aldina-hérað. Þangað fluttist Ólafur frá Alberta og bjó þar um hríð. Labbi = Ólafur.

51. *Lína.* Karolina Dalman, kona Gísla Dalmans. Þau fluttu ásamt fleirum burt úr Alberta. Stephan orti til þessara útflytjenda kvæðið: „Að skilja við ána", er birtist í „Hkr.", síðar prentað í Andv. I, bls. 275: „Að skilnaði". Karolínu þótti að sér sneitt í kvæði þessu og svaraði, og spruttu af því smá ybbingar í blöðum.

52. *Loggunum.* Trjábolunum. „Leyfi á loggunum", það er stjórnarleyfi til viðartöku. sem veitt var á þeim dögum landnemum, til húsabygginga.

53. *Í seinustu „Öldinni".* Hér er átt við mánaðarritið „Öldina", fylgirit „Hkr.".

56. *„Dairy" félags.* Dairy = rjómabú.

57.—59. Þetta bréf er ritað í gamansömum málæðisstíl, sem St. notar annars ekki. Síðustu tvær—þrjár málsgreinarnar eru skrifaðar í anda pólitískra smala og með þeirra orðalagi, móttakanda til gamans, en hann var sjálfur kunnugur viðlíka kærum og kvörtunum í kosningahríðum þar syðra. Lætur St. sem þetta sé alvörumál, en leynir skopinu á milli línanna.

60. *Kringlu-látið.* Í maílok 1897 hætti „Heimskringla" að koma út, vegna fjárhagsörðugleika, en var reist við í október s. á. Eggert Jóhannsson, er verið hafði ritstj. „Hkr.", flutti þá burtu frá Wpg norður að Árnesi í Nýja-Íslandi og dvaldist þar um tíma.

61. *„Dagskrá", „Bjarki" og „Ísland"*. Yngstu blöðin heima um þetta leyti. Ritstj. „Dagskrár" var Einar Benediktsson. Þorsteinn Erlingsson var ritstj. „Bjarka", en Þorsteinn Gíslason ritstj. „Íslands".
62. *Hænir*. Þýzka skáldið Heinrich Heine.
63. *Snær Snæland*. Kristján Ásgeir Benediktsson notaði þetta gerfinafn um tíma.
64. *„Ebenezar og annríkið"*. Leikrit þetta samdi Tómas Jónasson bóndi á Hróarsstöðum í Fnjóskadal eftir leikriti Holbergs „Den stundeslöse".
— *Bróðir Sigtr.* Hér er átt við Sigtrygg Jónasson vesturfaraagent og fyrrv. þingmann Ný-Íslendinga.
— *Bróðir Bjarna ykkar Bened.s. við Vík*. Þeir Jón voru synir Benedikts Ólafssonar frá Eiðsstöðum í Húnaþingi. Vík var áður kallað, þar sem síðar var nefnt Mountain. Nafnið dregið af því, að sléttan að austan skerst í odda inn í skógarbelti, er huldi hæðina vestur undan, þar sem þorpið stendur, og myndaði vík. Séra Páll Þorláksson nam fyrstur Víkur-landið, reisti þar bjálkahús, sem notað var sem kirkja. Söfnuðurinn, er hann stofnaði þar, var nefndur Víkur-söfnuður og heitir svo enn.
— *„General council"*. Lúterskt enskumælandi kirkjufélag í Bandaríkjunum. Á þeim árum var rætt um samband við það, en séra Jón Bjarnason var því mótfallinn.
— *Magga með Kvennablaðið*. Margrét Jónsdóttir Benediktsson, stofnandi og útg. „Freyju" 1898—1910.
65. *„Porter"*. Brúnöl.
67. *Sig. gamla „Manaskál"*. Sigurður skáld Jóhannesson frá Manaskál í Húnaþingi.
69. *„Gullnámskaldan" hans Kristins*. Kvæði eftir Kr. Stefánsson, sbr. „Hkr." 4. nóv. 1897.
70. *Þorlákur Jónsson* frá Stórutjörnum.
71. *Eldon og Ásgeir*. Jón Erlendsson og Kr. Ásg. Benediktsson.
72. *Söguna þína í „Lögbergi"*. Hér er átt við söguna: „Söfnuðurinn í Þistilhverfi," sbr. „Lögb." febr.—marz 1898.
73. *Þá las ég sögu „Snælands"*. Sagan „Björg", er birtist í „Lögbergi" í apríl—maí 1898.
75. *Kvæðaþuluna*. Hér á St. við kvæðaflokkinn „Á ferð og flugi", er Jón Ólafsson gaf út í Reykjavík 1900.
76. *„Lögberg" fór með róg*. Hér er átt við ummæli í blaðinu „Lögbergi" 3. febr. 1898 um fyrirlestur J. Ó. um Ameríku, er hann hélt í Rvík í maí 1897: . . . „og vér auðvitað höfum gengið út frá, að hann hafi vísvitandi sagt ósatt í mörgum atriðum um þetta land".
78. *Í skólamálinu eru Sunnanmenn orðnir undir*. Sunnanmenn = Bandaríkja-Íslendingar.
— *Herra og frú „Freyjukettir"*. Margrét og Sigfús Benediktsson. Margrét gaf út sem fyrr var sagt kvennablaðið „Freyja".
— *„X-geislinn"*. Sem segir í bréfinu; átti að verða nafn á tilvonandi blaði, er aldrei var stofnað.
86. *Verja gömlu „Torfu" Holm*. Hér er átt við skáldkonuna Torfhildi Holm.

88. *„Poet Lore“*. Bókmenntatímarit gefið út í Boston. Þar hafa meðal annars birzt þýðingar af „Sverð og bagall“ eftir Indriða Einarsson, og „Lénharður fógeti“ eftir Einar Hjörleifsson.
93. *Ég held ég megi segja þér skrítlu af Moritz lækni.* M. Halldórsson yfirkennara Friðrikssonar flutti vestur um haf 1890 og settist að í smábæ sunnan við ísl. byggðina í Dakota, er Park River nefnist, og bjó þar til dauðadags. Hann þótti ágætur læknir, en með honum og séra Jónasi A. Sigurðssyni voru fáleikar, og er að því vikið hér.
94. *Séra Björn Minnisóti.* Séra B. B. Jónsson prestur Minneotabyggðar, Minnesota, á þessum árum, síðar prestur fyrsta Lúth. safnaðar í Wpg. Stephan gerir hér leik að nafninu Minnesota.
— *Hinir eldri klerkar.* Þeir voru á Íslandi þetta sumar, séra Jón Bjarnason og séra Friðrik J. Bergmann.
95. *Þorsteinn Bjarki.* Þ. Erlingsson skáld, þá ritstj. Bjarka.
97. *„Exegesis“.* Ritskýringar, biblíuskýringar, o. s. frv.
— *Honorar.* Ritlaun.
99. *Undir linditrjánum.* Fyrirsögn ritstjórnarþátta, er séra Fr. J. Bergmann ritaði í „Aldamót“ sín.
— *Greenway.* Thomas Greenway, formaður Liberalflokksins og stjórnarformaður Manitobafylkis um nokkur ár (1888—1899).
— *Clementz frá Chicago.* Páll Jónsson Klemenssonar, ættaður úr Rvík, bróðir séra Jóns J. Clementz, eindreginn fylgismaður kenningar þeirrar um einskattinn (Single Tax) svo nefnda, sem kennd er við Henry George (Eigi skal skatt leggja á annað en land, því jörðin er undirstaða alls).
102. *„Timber Permit“*, Skógarhöggsleyfi, þ. e. Stephan hefir sótt um slíkt leyfi fyrir annan mann.
103. *„Quo vadis“*. Skáldsaga eftir pólska skáldið Sienkiewicz, síðar þýdd á íslenzku (Rvík 1905).
106. *Bók Küchlers.* Hér mun átt við bókmenntasögu Carl Küchlers, er út kom á árunum 1896—1902 (Gesch. der Isl. Dichtung der Neuzeit). En af því verki komu ekki nema tvö hefti, annað um skáldsögur og hitt um leikrit, og er Stephans þar að vonum hvergi minnst, og varð ekki af því, að Küchler ritaði um hann og kvæði hans.
107. *Vitleysu-ábreiða.* Á ensku „Crazy—Quilt“. Sængurver saumað úr ósamstæðum, mislitum pjötlum.
108. *„Þjóðólfs“ G-ið.* Ritdómur um „Á ferð og flugi“, eftir G., birtist í „Þjóðólfi“ 6. tölubl. 1900. Er þar vegið nokkuð jafnt að Stephani, Jóni Ólafssyni og Einari Hjörleifssyni. er ritað hafði heldur vinsamlega um bókina. Þessi grein er hin auðvirðilegasta rægirella, enda fylgir löng aths. frá ritstjóra, sem var víst ósárt um E. H. og J. Ól., en þótti undir niðri vænt um ýmis kvæði Stephans, svo sem síðar kom fram, þegar Andvökur komu út.
111. *Pétur Sólmundur.* Jóhann Pétur Sólmundsson, um nokkur ár prestur Únitarasafnaðarins á Gimli. Hann var Borgfirzkur að ætt. D. 25. marz 1935.
112. *Þýðing Ingvars.* Ingvar Búason Jónssonar frá Ísafirði, útskr. af

Manitobaháskóla 1902, ætlaði að læra til prests, en varð að hætta vegna heilsubilunar. D. 13. sept. 1904.

122. *Eftir áfallið.* Heilsubilun, sem J. Magnús Bjarnason varð fyrir, um og fyrir þetta leyti.

— *Taine.* Franski bókmenntafrömuðurinn Hyppolyte Adolphe Taine (1828—93).

125. *Nú skal ég reyna að svara hinu, sem þú spyrð um.* Um þetta leyti spurðist til Wpg, að Stephan ætti við örðugan efnahag að búa, sem reyndist rétt. Hafði hann þó ekkert látið á sér skiljast um þetta í bréfum til kunningja sinna. Vildi nú E. J. komast eftir hinu sanna í þessu efni, og eftir að hafa ráðfært sig við nokkra menn, gerði hann þá fyrirspurn til Stephans, hvort hann myndi geta þegið einhverja lítilsháttar gjöf, ef kunningjar hans ætti þar hlut að. Bréfið er svar við þessari fyrirspurn. Ekkert varð þó af fjársöfnun, en þó varð þetta til þess, að menn tóku að hugsa meira um hagi hans en áður og veita kvæðum hans meiri eftirtekt.

127. *Ekki það, sem flagað er út með kökusamkomum, öskjuuppboðum.* Kökusamkoma kallast á ensku máli: „Cake-cutting Contest"; öskjuppboð: „Box Social". Slíkar samkomur voru haldnar til styrktar kirkjum, lestrarfélögum o. þ. h. *Kökuskurðarkeppni* fór fram á þann hátt, að fengnar voru tvær konur (giftar eða ógiftar) til þess að „sitja fyrir kökunni". Höfðu þær hvor sinn talsmann, er ávörpuðu samkomuna með löngum ræðum, og lýstu kostum og yfirburðum skjólstæðings síns um að leysa af hendi það trúnaðar og vandaverk að skera kökuna. Síðan voru sendir tveir menn, sinn frá hvorri konu, til þess að safna atkvæðum (peningum) meðal samkomugesta. Hlaut sú konan heiðurinn, sem fleiri hreppti atkvæðin. *Öskjuuppboðin* voru með þeim hætti, að flokkur ungra stúlkna bjó til ýmislega skreytta kassa, fyllta alls konar sælgæti. Kassar þessir voru boðnir upp og seldir hæðstbjóðanda af þar til fengnum uppboðsmanni. Var það mikið metnaðarmál stúlknanna, að hafa átt dýrasta kassann. — Samkomuhöld þessi urðu brátt óvinsæl meðal Íslendinga og eru nú löngu lögð niður

130. *Gerðu mér aldrei sama bragðið.* Hér er bent til þess, að þá skömmu áður sendi Stephan nokkrar vísur til „Hkr." út af kosningum, er þá höfðu nýlega farið fram, og vék þar þungum orðum að ritstj. blaðsins (B. L. B.), sakaði hann um ósannsögli. Vísum þessum stakk ritstj. undir stól, en gerði þær þó jafnframt að umræðuefni í blaðinu. Sárnaði Stephani þetta, enda þótti slíkt óblaðamannlega að verið. Vísur þessar eru prentaðar í „Andvökum" VI. bd. bls. 140.

132. *Svona hefi ég hafnað hverju boði.* Eftir að Eggert Jóhannsson fekk bréf St., dags. 11. jan., var orðasveimur um það, að verið væri að bjóða honum fé í handrit hans, og myndi hann að líkindum neyðast til að selja. Á þetta drap Eggert í svari sínu og spurði, hvort hann hefði útgáfu í huga. Þetta bréf svarar þeirri spurningu: Stephan hefir ekki ráð á því að gefa sér þann tíma frá daglegum önnum, sem þarf til þess að undirbúa útgáfuna. „Ég þyrfti að eiga til þess heilt ár. — — nú er ég þollaus til vinnu og hlífist

við". — Vék Eggert sér nú til þeirra manna, er hann hafði áður við rætt um hagi Stephans, og urðu þeir ásáttir um að bjóða honum að kosta útgáfu ljóða hans allra, er hann hefði ort fram til þess tíma, með þeim kjörum, er hann til tæki. Skyldi útgáfan vera hans eign, og svo útgáfurétturinn óskertur. Aðalmaðurinn um framkvæmd þessa máls var Skafti B. Brynjólfsson, fyrrv. forseti Menningarfélagsins í Dakota, vinur og samverkamaður Stephans. Ritaði hann bróður sínum, Magnúsi lögfræðingi í Cavalier N.-Dak., og tjáði honum ástæður Stephans og fyrirætlanir vina hans í Wpg. Tók Magnús að sér að safna hluthöfum að fyrirtæki þessu í Dakota. En Skafti, Eggert og nokkrir aðrir gengust fyrir samtökum meðal Ísl. norðan landamæranna. Ekki vildi Skafti láta leita til annarra en þeirra, sem hann vissi, að voru að einhverju leyti samherjar Stephans, þó út af því væri brugðið lítils háttar sunnan landamæra. Ekki mátti fara fram á of há framlög, því ýmsir, er hér vildu eiga hlut að, höfðu lítil fjárráð. Var því ákveðið $ 15.00 lágmark, en leggja máttu þeir meira fram, sem það kusu. Kom brátt í ljós, að verkið myndi kleift, þótt ekki næðist loforð um fjárframlög nema sem svara myndi ⅓ kostnaðar, er þó var reyndar enn í óvissu, því bæði var óvíst um stærð verksins og prentunarskilmála. Var Stephani tilkynnt þetta og hann beðinn um álit sitt, áætlan um stærð bókarinnar og skilmála, er gerði honum kleift að búa handritið til prentunar. Bréfin, sem hér fara á eftir, skýra þetta nógu vel. Kaus hann sér að lokum að selja „útgáfufélaginu" handritin fyrir $ 500.00, því þá upphæð þyrfti hann til þess að geta haldið vinnumann og losað sig við öll störf önnur en undirbúning handritanna. Var að þessu gengið, en svo til ætlað, að þetta væri form eitt: Enginn eignarréttur skyldi úr hans höndum ganga um síðari útgáfur kvæðanna, og sitja skyldi hann að öllum arði, sem af útgáfu þessari kynni að verða. Gerði Magnús Brynjólfsson frumdrög að samningi þessu samkvæmt og var hann undirritaður af beggja hálfu. — Kostnaðarmenn urðu að lokum þessir: Úr Wpg: Eggert Jóhannsson, Skafti B. Brynjólfsson, Kristján Stefánsson, Rögnvaldur Pétursson, Hannes Pétursson, Þorst. Þ. Þorsteinsson, H. M. Hannesson, Aðalsteinn Kristjánsson, Joseph B. Skaptason, Friðrik Sveinsson, Magnús Pétursson, Stefán Pétursson, Eyjólfur Olson, Byron Líndal, Th. M. Halldórsson, Jón Thorsteinsson, Skúli Hansson, Jónas Jónasson; Jóhannes Sigurðsson, Gimli; Sveinn Thorvaldsson, Íslendingafljót; Björn B. Olson, Gimli; Magnús Brynjólfsson, Cavalier N.-Dak.; frá Garðar N.-Dak.: Jónas Hall, Jón Jónsson, E. H. Bergmann, Sigurður Sigurðsson, Jóseph Sigvaldason Walter; frá Hallson N.-Dak.: Árni J. Jóhannsson, Árni Magnússon, Brynjólfur S. Johnson, Sigurður Johnson; frá Mountain N.- Dak.: Elis Thorvaldsson, Páll Bjarnason; Brandur Johnson, Pembina N.-Dak. — Af þessum mönnum eru nú (1939) aðeins 17 á lífi.

133. *Hví datt séra Friðrik í hug að senda mig til Íslands?* Séra Friðrik hreyfði því í blaðagrein. að Íslendingar kostuðu St. heim.

140. *Langt kvæði.* Kvæði þetta var „Undir aðfall", sjá Andv. I, bls. 297.

142. *Gaúti gamli geirmennski.* Þýzka skáldið Goethe. Hér misminnir Stephan. Kvæðið „The Arrow and the Song“ — Örin og ljóðið, er eftir Henry Wadsworth Longfellow.
— *Brynjólfssonum.* Þ. e. Magnúsi ríkislögsóknara og Skafta Brynjólfi.
151. *Í útgáfunefnd.* Í útgáfunefnd voru Eggert Jóhannsson, Skafti B. Brynjólfsson, Kristján Stefánsson, Rögnvaldur Pétursson, Hannes Pétursson, Magnús Brynjólfsson og Jón Jónsson. Tveir þeir síðast töldu áttu heima í Dakota, hinir allir í Wpg.
156. *Fyrst þú hefir orða-belg Guðbrandar.* Orðabók Guðbr. Vigfússonar og Cleasbys.
157. *Maríu vora kóralrauðu.* Ameríska skáldkonan M. Corelli.
158. *Sé handritið í þínum vörzlum.* Stephan lauk við að undirbúa handritin að Andv. I—II í júlí þetta ár og sendi þau til Eggerts. Voru þá strax sendar fyrirspurnir um prentunarkostnað til prentsmiðja í Rvík. Meðan beðið var svars (sem aldrei kom), voru hdr. yfirfarin, svo að höf. hefði tækifæri á að leiðrétta þau, áður en þau yrði send burtu, ef misfellur hefði á orðið um afritun þeirra. Til þessa voru settir þessir menn úr útgáfunefnd: Skafti B. Brynjólfsson, Eggert Jóhannsson, Kristján Stefánsson og Rögnvaldur Pétursson. Gerðu þeir athugasemdir við breytingar á kvæðum, sem áður voru birt, og úrfellingar á heilum kvæðum eða kvæðabrotum, er þeir söknuðu. Urðu aths. þessar tilefni allmargra bréfa til Eggerts, er hér fara á eftir og skýra þau sig sjálf. Geta má þess, að tilboð í prentun fengust engin í Rvík, þrátt fyrir ítrekaðar tilraunir.
164. *Svar Ingjaldar.* „Ek hefi vánd kvæði ok hryggir mik ekki, þó at ek slíti þeim ekki gerr“. Gísla saga Súrss., Rvík 1899, bls. 60.
165. *„Smábros í hendingum“.* Vísnabálkur, er birtist í „Hkr.“ 29. júlí 1893. Í honum var margs konar fyndni, sem útg. söknuðu, ef ekki fengi að fljóta með í safninu, og fyrir tilmæli útgáfunefndar tók höf. upp í safnið nokkur erindi úr flokknum („Kristileg smárit“, „Þingfararbálkur“, „Búnaðarskýrsla“ og „Kverkatök“, sjá Andv. I, bls. 22—23), og að auk þessi kvæði, er einnig höfðu birzt í „Hkr.“: „Grasaferð Norðra“ (Andv. I, bls. 23), „Til Skafta B. Brynjólfssonar“ (Andv. I, bls. 107), „Smalarnir“ (Andv. III, bls. 57) o. fl.
167. *Þá er breytingin á vísunni.* Nefndin fór fram á það við Stephan, að hann breytti 3. vísunni í „Hjaðningavíg“ (Andv. III, bls. 112). í samræmi við söguna.
168. *Fjöllin.* Þessa óviðjafnanlegu lýsingu Klettafjallanna, eins og þau ber fyrir sjónir í góðu skyggni frá íslenzku byggðinni í Alberta, samdi Stephan til hliðsjónar fyrir málara, er hafði í huga að gera mynd af fjallasýn þessari og skyldi sú mynd fylgja Andvökum. Af þessu varð ekkert.
171. *Stutt skammabréf.* Hér er átt við bréfið frá 19. jan. 1908 á bls. 165 hér að framan. Það, sem hér er upp talið og spurt eftir, kom allt til skila.
172. *Höfuðskáld í kristilegu menningarriti.* Hér er átt við „Breiðablik“. Mánaðarrit til stuðnings íslenzkri menning. Útg. Friðrik J. Bergmann. Wpg, 1906—14.
177. *Sýndu og segðu Skafta mínum frá þessum bollaleggingum.* Lýtur

þetta að því, að Stephan ferðaðist þetta haust um allar helztu byggðir Íslendinga í Man., Sask. og N.-Dak. og stóðu útg. að „Andvökum“ I—III að þessari kynnisför. Var þetta hin fyrsta heimsókn hans til landa sinna í byggðum þessum. Vildi hann ráðgast við Skafta um förina, en hann var þá á förum til Íslands með handritin að „Andvökum“, því engin tilboð höfðu fengizt í prentun frá þeim, er til var leitað, hvorki í Rvík né Khöfn. Skafti lagði af stað til Íslands 19. des. 1908. Samdi hann að lokum um útgáfu við Arinbjörn Sveinbjarnarson, en um prófarkalestur við Þorstein Erlingsson. Skafti og kona hans, Gróa Sigurðardóttir frá Manaskál, Jóhannessonar, dvöldu í Rvík til næsta hausts (1909). Var þá lokið prentun tveggja fyrstu bindanna og byrjað á þriðja bindi, er var eins konar eftirþanki, er útg. sáu, hve mikið lá eftir óprentað af ágætiskvæðum. — Stephan lagði upp í ferðalagið í byrjun nóv. og kom til Wpg 3. s. m. Gengust nokkrir menn úr útgáfunefndinni fyrir því, að boðað var heimulega til fundar, til þess að velja þá menn í móttökunefnd úr söfnuðunum íslenzku, er helztir voru kunningjar skáldsins. Reynt var að „stokka spilin“ sem bezt, og skyldi nefnd þessi gangast fyrir fyrstu upplestrarsamkomu skáldsins í bænum. Ágreiningur var þá allmikill milli kirkjuflokkanna og þótti sennilegt, að samtök yrði lítil um að sækja samkomuna, ef að henni stæði einn flokkur, en meiri von um almenna þátttöku, ef fleiri ættu hlut að. Gekk allt eins og í sögu fram að samkomukveldinu, en þá brugðust vonir með fólk, er lofað hafði að skemmta það kvöld, og aðsókn var öllu minni en ætla hefði mátt (sbr. bréf til J. Hall á páskadag 1909). Drógu sig þá og nokkrir í hlé úr móttökunefndinni. Stefán hafði samið kvæðaflokk, er hann nefndi „Fluttur í nýja húsið“ (Andv. III) og fór með hann á samkomunni, og þrjú önnur kvæði: „Draupnir“, „Góða nótt“ og „Að skilnaði“ — öll pr. í Andv. III. Fór hann með öll þessi sömu kvæði á samkomum þeim, er hann hélt síðan út um byggðirnar, en samkomustaðirnir urðu þessir: Wpg 5. nóv., Wild Oak (vestan við Manitobavatn) 6. nóv., Marshland (einnig vestan við Manitobavatn) 7. nóv., Glenboro í Argyle-byggð 11. nóv., Norðurstjörnu-skóla (í Grunnavatnsbyggð) 19. nóv., Markland (austan Grunnavatns) 20. nóv., Lundar (í Álftavatnsbyggð) 21. nóv., Gimli (í Nýja-Ísl.) 24. nóv., Íslendingafljót (nú Riverton) 25. nóv., Geysir 26. nóv. og Selkirk 30. nóv. — Með desember hélt Stephan suður til Dakota og til Duluthborgar í Minnesota. Dvaldi hann í mánuð á því ferðalagi meðal fornra vina og ættingja. Hvíldi hann sig nokkra daga, eftir að hann kom aftur til Wpg, en hélt þvínæst heimleiðis í hægðum sínum, hafði nú samkomur og viðstöðu sem hér segir: Í Sinclair 19. jan., Tantallon 20. jan., Churchbridge 22. jan., Calder 23. jan., Foam Lake 26. jan., Wynyard 27. jan., Laxdal (nú Kandahar) 28. jan. — Heim náði hann til Markerville 6. febr. (sbr. bréf til R. P. 8. febr.). Var hann þá búinn að vera að heiman í rúma þrjá mánuði.

178. *„Kanada-Norðri“.* Canadian Northern, síðar þjóðbrautarkerfið Can. National Railway.

178. *Skrifa Sigga Júl.* Dr. Sigurði Július Jóhannessyni.
179. *Rebellion.* Uppreisn.
— *Transfer.* Flutningur; akstur.
180. *Foster.* Almanak á þeim árum, er gefin voru út aðallega til þess að auglýsa „Patent"-meðöl, fluttu veðurspár um hvern dag ársins. Spádómar þessir voru kenndir við Foster og nefndir Foster's Weather Forecasts. Þóttist Foster hafa spár sínar af gangi himintungla. Festu sumir trúnað á spádómum þessum, er reistir voru á svo traustu hellubjargi.
181. *Wadena.* Járnbrautarstöð norðan við ísl. nýlenduna, er kennd var við Kristnes, norðaustur af Foam Lake Sask.
— *Sinclair.* Járnbrautarstöð í hinni svonefndu Melita-nýlendu, norðvestur frá Argylebyggð. Á þessum árum var þar allmargt Íslendinga, en nú eru flestir fluttir þaðan eða dánir.
— *Bárdal.* Kristján Bárdal, ættaður úr Bárðardal. Við hann er kennd járnbrautarstöð þar í byggðinni. Hann var með þeim fyrstu, sem þangað fluttu inn.
— *Tantallon.* Brautarstöð í svonefndri Vatnsdalsnýlendu, suður frá Þingvallanýlendu í Sask. Hér voru um þetta leyti margir Íslendingar, en eru nú flestir fluttir eða dánir.
— *Guðm. Ólafsson.* Bróðir Sveins alþm. í Firði og Einars ritstj., er andaðist að Gimli í Nýja-Íslandi 1906.
— *Í Vatnsdal.* Þ. e. Vatnsdalsnýlendu, Sask.
— *Í Þingvalla.* Þ. e. Þingvallanýlendu, Sask.
— *Foam Lake.* Svo var þá nefndur austur hluti Vatnabyggða í Sask.
— *Wynyard.* Höfuðbærinn í Vatnabyggðum.
— *Magnús Hinriksson.* Mesti gáfu og mannkosta maður. Sjá um hann Alm. Ó. S. Th. 1918.
— *Séra Fjeldsted.* Séra Runólfur Fjeldsted, sonur Þorbergs F., bróður Andrésar á Hvítárvöllum.
182. *Þórður Vatnsdal.* Sonur Eggerts Magnússonar skipstjóra og Soffíu Friðriksdóttir Reykjalín. Eggert og Matth. Jochumsson voru systrasynir. Þórður rak þá timburverzlun í Wadena, flutti þaðan nokkru síðar til Portland Oregon og andaðist þar 27. júní 1928. Hann var kvæntur Önnu dóttur Jóns Jónssonar frá Munkaþverá í Eyjafirði.
— *Grímur Laxdal.* Áður verzlunarstj. á Vopnafirði. Flutti vestur 1902.
184. *Sendingin ókomin.* Það var silfurbúið drykkjarhorn, er nokkrir vinir Stephans í Wpg létu smíða og átti að afhendast honum á kveðjumóti heima hjá Eggert, áður hann sneri heimleiðis, en varð ekki tilbúið.
185. *Mýraþingmaðurinn.* Jón Sigurðsson frá Haukagili, þm. Mýra. 1909—1911.
186. *Vísan úr Sigurdrífumálum.* Þessi vísa úr Sigurdrífumálum var grafin á hornið: Bjór færik þér / brynþings apaldr / magni blandinn / ok megintíri. / Fullr's hann ljóða / ok líknstafa / góðra galdra / ok gamanrúma (Sæm. Edda, útg. FJ., Rvík 1905, bls. 321).
187. *Hvort þú markar Birni eða Hávarði eyrun.* Séra Björn B. Jónsson var þá sumrinu áður kosinn forseti Ev. Lúth. kirkjufél. og stóðu nú sem hæst deilurnar milli kirkjufélagsmanna og séra Friðriks J.

Bergmanns og hans fylgismanna út af biblíuskýringunum nýju o. fl. *Hávarður:* William Howard Taft, er varð forseti Bandaríkjanna þá í byrjun mánaðarins (marz 1909). Kveður Stephan R. P. sjálfráðan, hvorum þessara „forseta" hann tileinki kvæðið.

— *Ég bið kærlega að heilsa Gísla og prentsmiðjunni.* Gísli Jónsson prentsmiðjustjóri var einn af eig. og útg. „Heimis". Hann var í móttökunefndinni og kynntist Stephani vel.

188. *Bréf til Skaftasonar.* Joseph B. Skaftason, sonur Björns Jósepssonar læknis Skaftasonar frá Hnausum, var þá einkaritari stjórnarformanns Manitobafylkis, sir R. P. Roblins.

189. *Þorsteini og Kristni skáldum.* Þorsteinn Þ. Þorsteinson og Kristinn Stefánsson frá Egilsá (d. 1916).

194. *Jón Sveinsson.* Merkisbóndi við Markerville og vinur Stephans. Hann var kvæntur Þóru Gísladóttir, systur frú Gíslínu Kvaran. Hann dó 1933, hún 1939.

196. *Stefán.* Þ. e. Stefán Björnsson prestur á Hólmum, þá ritstj. „Lögb.".

199. *„Westward Ho"* og *„Telegram".* Tvö fréttablöð gefin út í Wpg, er gerðu afturreka þýðingu, er Eggert sendi þeim.

201. *Geti ég bætt við 4 eða 5 erindum.* Stephan bætti þeim við. Er það síðasta kvæðið í Andv. III. bd., eftirmæli um Gest son hans.

204. *Ég bið hjartanlega að heilsa Jónasi.* Jónas Halldórsson frá Björk á Staðarbyggð í Eyjafirði var bóndi í Grunnavatnsbyggð, fluttist vestur 1876.

210. *S. G. Thorarensen.* Sigurður sonur séra Gísla Thorarensen skálds, er prestur var að Stokkseyri og Kaldaðarnesi. Sig. var barnakennari á Gimli, vinur Stephans, og skrifuðust þeir á, þótt nú sé þau bréf öll glötuð. Sig. andaðist á Elliheimilinu á Gimli 14. des. 1923.

213. *Þú manst eftir Jónasi gamla Stefánssyni.* Jónas var frá Þverá í Skagf. Flutti til Nýja-Íslands með fyrsta hópnum 1875. Kona hans var Steinunn Grímsd. frá Egg í Hegranesi. Dóttir þeirra Jónasína var skólakennari í grennd við Stephan og til húsa hjá honum, hagorð og greind vel, eins og hún átti ætt til.

214. *Eiríkur minn heitinn orti.* Síðari árin, sem Stephan bjó í Dakota, var hjá honum fjósamaður, sem Eiríkur hét Hjálmsson, frá Kúskerpi í Skagafirði. Eiríkur þóttist vera hagorður. Gekk þá á gagnkviðlingum milli Garðar- og Víkurbyggða (Mountain). Eignaði Stephan Eiríki þá kveðlinga, sem komu frá Garðar, og gaf honum viðurnefni og kallaði Eirík bragheppna, og orti til hans hetjukvæði að skilnaði, er hér fer á eftir. Ekki var laust við, að Víkurbúum ust kviðlingar þessir, er bæði voru fyndnir og meinlegir, enda veitti þeim þunglega í kvæðadeilunni. Bjóst Stephan við, að ljóðabók sín yrði látin gjalda þess. Enn mun eitthvað vera til af kviðlingum þessum, svo sem „Hrúta-atið", „Mountain-Vík er menntarík" o. fl. Kvæði Stephans til Eiríks hljóðar svo:

## *Eitt „Herodiskt Farvel“.*

(Til hússkarls míns, skáldsins Eiríks Hjálmssonar.
Tileinkað kosning og kveðskap).

Nú skéns-öld er og skamma,
Og skurkar í hverjum raft,
Og ýmsir hefja hramma,
En hika' að gefa' á kjaft.

Til einskis er að berja,
Því einhver kannske deyr.
En ótal ætla að herja,
Sem ósköp hnoða' af leir.

Eiríkur, hetjan háa,
Þú hófst þá rimmu fyrst,
Þú raulaðir rímu smáa,
En rödd þín gall svo byrst.

Og þú hefir spennt og spanað
(Því spaug þitt beit svo vel),
Og margan á þig manað
Af Mountain-Israel.

Nú hefur þú hreystigöngu,
Á hólm að skora sjót;
Með stafi, steina og slöngu,
Þeir stika þér á mót.

Þú otar enni' og skalla,
Þó á hann lemjist gat.
Samt kanntu kannske' að falla,
Minn kvæða-Golíat.

Og mörg þín mergjuð hnúta
Á Mountain brotin er,
Og litlu skáldin lúta
Að leirnum fyrir þér.

Þig hróðrar-hetju rýra
Þeir hugðu' — en einmitt slík
Gat svínbeygt ljóða svíra
Á svönunum í Vík.

Þú ferð oss frá um tíma.
Hver færðu nú þess gjöld,
Að oft var rauluð ríma
Í rökkri' um vetrar kvöld?

Þér fylgir hetju hrósið
Og hróður skálda dýr.
Þig syrgir féð og fjósið
Og Filisteans kýr.

1888.

215. *Í bréfi til Gríms.* Gríms Steingrímssonar Grímssonar.
227. *Þú minnist á Bardal gamla.* Kristján Bardal.
231. *Jói Sólmundar.* Séra Jóhann P. Sólmundsson.
234. *Til að vera við greftrun kongsins.* Þ. e. Játvarðar VII. Englandskonungs.
236. *„Júblið“.* Aldarfjórðungsafmæli Ev. Lúth. kirkjufél. í Vesturheimi, er haldið var hátíðlegt um þessar mundir.
237. *Sjá „Sál meðal spámanna“.* Stephan átti sæti á stofnþingi kirkjufélagsins, og lýsir hann tildrögum að því í bréfi þessu. Mynd var gerð af þessu fyrsta kirkjuþingi, og sú mynd birt í 25 ára minningarriti félagsins. Lúta orð Baldurs sennilega að myndinni.
241. *Grímur.* Grímur Steingrímsson Grímssonar, bróðir séra Jóns Steingrímssonar í Gaulverjabæ og Guðm. héraðsdómara í Rugby N.-D. og þeirra systkina, þá bóndi í Alberta, aldavinur Stephans.
— *Ásgeir Baldvinsson.* Ásgeir var sonur Baldvins Helgasonar, er flutti frá Gröf á Vatnsnesi til Vesturheims 1873. Settist fjölskyldan fyrst að í Muskoka-héraði í Ontario, en fluttist síðar til Dakota. Um þessar mundir bjó Ásgeir í Edmonton. Þeir feðgar voru kunningjar Stephans.
242. *Handa Kristni mínum.* Kristinn skáld Stefánsson frá Egilsá.

243. *Til Hannesar Péturssonar Unionsbanka.* Hannes var gjaldkeri útgáfunefndar meðan Skafti dvaldi á Íslandi. Hann var um þessar mundir gjaldkeri við eitt útibú Unionbankans í Wpg.

— *Skroppið skyn hjá „Heimi“ vorum.* Séra Guðm. Árnason, prestur við íslenzka únitarasöfnuðinn í Wpg, á þeim árum ritstj. „Heimis“, ritaði all-rækilega grein um Andv. Lauk hann lofsorði á kvæðin, en gat þess, að III. bd. myndi mega telja veigaminnst. Þessu var Stephan ósamþykkur (sbr. bréf til Gutt. J. Gutt. 14. ág. 1910).

244. *Eiga erindi upp til Víðis.* Svo nefnist nyrzta og yngsta byggð Nýja-Íslands. Skammt þaðan var kallað Árdalur, nú kallað Árborg.

245. *Minningarritið.* 25. ára minningarrit kirkjufélagsins. — Frásaga Stephans er hér samhljóða gjörðabók Park-safnaðar. Af íslenzkum prestum komu hér þessir til greina: Séra Benedikt Kristjánsson á Grenjaðarstað, Þórhallur Bjarnarson, síðar biskup, og séra Steinn Steinsen í Árnesi í Strandasýslu. Var séra Steini sent köllunarbréf, að beiðni séra Páls, en hann gaf ekki kost á sér, enda andaðist hann skömmu síðar (1883).

246. *Kvistir Sigurðar.* Kvæðabók eftir Sig. Júl. Jóhannesson.

249. *Presbytari.* Þ. e. forlagabundinn. Sbr. kenningu Calvins um útvalninguna og fyrirfram ákvörðun mannsins.

255. *Ekki hreyfa sig, meðan minnisvarðinn er að mylkjast upp.* Þetta lýtur að því, að þá var verið að safna upp í kostnað við minnisvarða Jóns Sigurðssonar. Hitt málið, sem Stephan ætlar að hugsa til, var uppástunga um að safna í örlítinn sjóð, er skáldinu Þorsteini Erlingssyni yrði færður þá á næstkomandi sumri.

— *Afmælisdagur „Kringlu“.* Blaðið „Heimskringla“ var stofnað haustið 1886 og varð því 25 ára haustið 1911. Eggert Jóhannsson var lengst af ritstj. hennar fram til maíloka 1897.

260. *Ég veit þeir eru til, sem lagt hafa fé í útg.* Stephan gat þar rétt til. En það var búið að greiða þeim framlag sitt þá fyrir rúmu ári. Þeir voru 3 eða 4 og nam öll upphæðin ekki nema rúmum $200.00, og var hún greidd af andvirði seldra bóka.

— *3—4 Friðriks „Logar“.* Vafurlogar, safn af fyrirlestrum o. fl., er séra Friðrik J. Bergmann gaf út. Wpg 1906.

261. *„Teljaranum“.* Skafti B. Brynjólfsson var féhirðir Jóns Sigurðssonar minnisvarðasamskotanna.

263. *Jafnvel 1000 kr. héðan.* Saman höfðust ekki nema 500 kr. Fjárhagur þeirra, sem þó höfðu vilja til, var þröngur um þetta leyti. Stephan og Jón Jónsson frá Sleðbrjót voru einu safnendurnir utan Wpg-bæjar.

264. *Það er sárt með Gunnlögsen.* Þ. e. Bertel Högna Gunnlögsen. Hann var um þetta leyti aðþrengdur og allslaus.

266. *Sig. Helgason.* Þ. e. Sigurður Helgason tónskálds Helgasonar.

268. *„Frjósa út“.* Á ensku: „To freeze out“, orðtak notað í Ameríku um það, þegar einhver er kúgaður út úr fyrirtæki, sem hann hefir lagt fé í, með verðfalli, auknu álagi og þ. h.

268. *Hvernig líður Kristjáni Stefánssyni?* Kristján Stefánsson var meðal helztu forgöngumanna að hlutafjársöfnun og útgáfu „Andvaka“ I—III. Hann var um tíma forseti Winnipegnefndarinnar. Kristján

er fæddur á Hallbjarnarstöðum á Tjörnesi. Foreldrar hans voru Stefán Kristjánsson frá Garði í Þistilfirði og Guðrún Þorkelsdóttir Jónatanssonar frá Flautafelli í sömu sveit. Kristján fluttist vetur um haf 1887. Hann var um þetta leyti heilsuveill. Hann hefir búið lengst af í Winnipeg. Er vel hagorður.

269. *Þorsteinn Björnsson Garðar-kandidatus.* Þorsteinn Björnsson frá Bæ. Séra Friðrik J. Bergmann vistaði hann sem kennimann um stundarsakir við Garðarsöfnuð, er þá var genginn úr Kirkjufélaginu.

— *Allan fyrir tímaritið.* Séra Magnús J. Skaftason var þá nýbyrjaður að gefa út tímaritið „Fróða", pr. í Wpg og Gimli 1911—1914.

— *Kveða ekkert um Jón Sigurðsson.* Stephan var beðinn um kvæði fyrir minni Jóns Sigurðssonar, er flutt yrði á samkomu í Wpg, þar sem minnst yrði aldarafmælis Jóns, 17. júní 1911.

270. *Sig. Júl. hefir alltaf viljað koma mér þangað, til „vetrarblóta".* Dr. Sig. Júl. Jóhannesson var þá læknir í Vatnabyggðum. Voru þá árlega haldin miðsvetrarmót á Leslie, er nefnd voru Þorrablót.

— *Ofurlítið í því.* Á ensku: „A little bit in it" — þ. e. ögn, sem um munar, ómaksvert.

274. *Sumir halda, að allt ætli að skríða inn aftur.* Þ. e., að söfnuðir þeir sem fylgdu séra Fr. J. Bergmann, muni ganga inn í kirkjufélagið aftur. Söfnuðir þeir, sem hér er átt við, voru Garðar-, Þingvalla- og Víkursöfnuðir, hið upphaflega prestakall séra Friðriks. Um fundinn sjá „Breiðablik" 5. árg. jan. 1911.

— *Önnur urðu nú kosningaúrslitin.* Við almennar kosningar haustið 1911 náðu „conservatívar" völdum í Canada undir forustu sir Robert Borden, en „liberalar", undir forustu sir Wilfred Laurier, er verið hafði forsætisráðherra síðan 1896, biðu lægra hlut. Kosningabardaginn var háður um hinn svonefnda *„Gagnskiptasamning"* (Reciprocity Act), er þeir Taft Bandaríkjaforseti og sir Wilfred höfðu gert með sér um vöruskipti og tolllækkanir milli ríkjanna, er Stephan og fleiri hugðu hagkvæman almenningi.

275. *„Stórgripur á mynd".* Tildrög vísunnar (sbr. Andvökur V, bls. 209) eru þau, sem Stephan segir í bréfinu. Þorsteini (kandidat frá Bæ) var sagt upp stöðunni hjá Garðarsöfnuði. Kenndi hann séra Fr. J. Bergmann um þetta og lagði á hann óvild mikla, og þá sem studdu hann að málum. Þótti honum Stephan taka svari séra Fr. J. B. með kvæðum, sem þá birtust í „Breiðablikum", og sendi honum svo vísuna á „Valentínusarmessu" (St. Valentin's Day). Stephan svaraði með „Stórgripur á mynd". Sendi Þorsteinn honum þá þessar 2 vísur, er Stephan svaraði engu:

Firn er að heyra, fjallasvanur,
Fyrrum snjallan róm þinn gjalla,
Eins og hani eldhúsvanur,
Yfir Friðriks grautardalla.

Kátlegt er að koppa drottinn
Kann þó lítt að meta sönginn,
Mettar sjálfan sig við pottinn,
Setur þig í eldhúsgöngin.

Hér sneiðir Þorsteinn að kvæði Stephans „Bæjargöngin“ (Andv. III, bls. 193—94).

275. *Gamaliel.* Gamaliel Þorleifsson, bóndi við Garðar, ættaður úr Eyjafirði, áhrifamaður í Garðarsöfnuði, miðlunarmaður í deilu safnaðarins og Kirkjufélagsins.

276. *Sveinbjörn Árnason.* Trésmiður í Wpg, hagorður vel; sonur Árna bónda á Oddstöðum í Lundareykjadal í Borgarfirði.

283. *„Water-ways“.* Þ. e. Alberta Water-ways-járnbrautarfélaginu, er sótti um einkaleyfi og fjárstyrk til þingsins.

— *Þökk fyrir bókina.* Þ. e. Andv. I—III, er útg.-nefndin, að beiðni Stephans, lét binda handa C. H. Thordarson, raffræðingi, Chicago.

285. *Bókin (kom) í gærkveldi.* Útgef. sendu Stephani Andvökur, I—III bindi, innbundnar í sérstaklega vandað band. Framan við bókina var fest blað með nöfnum útg., eiginhandarrit þeirra. Þó vantaði eitt, nafn Guðbrandar Gíslasonar frá Saurum, Jónssonar (Brandon Johnson). Úr því var bætt síðar.

287. *Í búri frúarinnar, frænku sinnar.* Frú Lára Pétursdóttir Guðjohnsen, kona séra Jóns Bjarnasonar, var náskyld Sveinbirni prófessor.

288. *„Park-Nikk“.* „Park-Nikk“, — Nikulás (Össurarson) Ottenson, nefndur svo í gamni. Hann var eftirlitsmaður í skemmtigarði sporbrautafélagsins í Wpg. Hann hafði bóksölu á hendi um þessar mundir og keppti við Halldór S. Bardal bóksala.

289. *„Skírnarsálm“ Steina.* Hér á Stephan við „Skírnarsálm Erlings“, sjá „Þyrnar“, 3. útg., bls. 315—17.

298. *Bróðir Rósu „supervisors“.* Skopnafn frá Dakota árunum.

299. *Úlfurinn Kristinn.* Séra Kristinn K. Ólafsson, þá prestur að Garðar, þess hluta safnaðarins, er kyrr stóð í kirkjufélaginu.

— *Steinár-Jóns Mangi.* Séra Magnús Jónsson, síðar prófessor, þjónaði um tíma nýguðfræðisöfnuðunum í Dakota. Hann annaðist um útgáfu „Breiðablika“ frá júlí til októberloka 1911, í fjarvist séra Fr. J. Bergmanns, er þá var í Íslandsferð. Birti hann í ritinu nokkrar greinar eftir sig, er eigi féllu vel í geð íhaldssömu fólki um trúarefni, þar á meðal „Æskufrásögurnar í guðspjöllunum“ og „Meyjarfæðingin og guðdómur Krists“.

300. *Að ganga fram hjá „689 Agnes“.* Eggert Jóhannsson flutti um þetta leyti vestur á Kyrrahafsströnd, til Vancouver. Heimilisfang hans í Wpg var 689 Agnes Street.

302. *„Doktor Jón“.* Þ. e. Séra Jón Bjarnason, en hann ferðaðist vestur á strönd þetta sumar.

— *Kvæðið hans Sigurðar vinar míns.* Sigurður Jóhannsson frá Búðardal. Æfiágrip hans er í Tímariti þjóðræknisfélagsins 1936, bls.31.

— *Hásýni.* Svo þýðir Stephan bæjarnafnið Alta Vista í nágrenni við Vancouver.

— *Séra Ari í Seattle.* Þ. e. séra Jónas A(ri) Sigurðsson.

304. *Tryggva að þakka.* Gunnlaugur Tryggvi Jónsson, síðar ritstj. „Íslendings á Akureyri, var þá ritstj. „Hkr.“.

309. *„Kveldúlfur“.* Svo kölluðu Íslendingar í Vancouver skemmtifélag, er þeir héldu uppi sín á meðal á þessum árum. Aðal-hvatamaður að stofnun fél. og forstöðumaður þess var Þorsteinn Sæmundsson

Borgfjörð byggingameistari. Foreldrar Þorsteins voru Sæmundur Jónsson frá Hóli í Skorradal, Þórðarsonar í Stafholtsey, og Helga Gísladóttir frá Hrauntúni í Leirársveit. Fluttu þau vestur og til Nýja-Íslands 1886. Sæmundur dó hjá syni sínum í Wpg 25. jan. 1927. — Með burtför Þorsteins frá Vancouver lagðist Kveldúlfsfélagið niður.

315. *„Stjáni“.* Þ. e. Kristján (Hallgrímsson) Gíslason, fyrrum landnemi við Garðar N.-Dak., þá búsettur í Seattle, Wash. Foreldrar Kr.: Hallgr. Gíslason bónda Rafnssonar úr Bárðardal og Herdís Jónsdóttir frá Mjóvadal. Fluttu frá Rútsstöðum í Eyjafirði vestur um haf 1873.

317. *Eyvindar-heimskan.* Ritdómur um sjónleikinn „Fjalla Eyvind“, er birtist í Heimskringlu um þessar mundir.

319. *Arngrímur Jónsson,* sonur Jóns Björnssonar frá Héðinshöfða, fornvinur Stephans. Arngr. var þá við póstafgreiðslu í Victoria. Hann fluttist síðar til Wpg og andaðist þar 1925.

329. *Séra R. hefir sagt mér — — að hann kjósi hér „Liberal“.* Hér á Stephan við það, að séra R. P. sagði honum, að hann hefði greitt atkvæði við undan gengnar kosningar í fylkinu með Liberalaflokknum, því að hann hefði ekki fengið sig til að greiða atkvæði gegn mætum Íslendingi, Tómasi Jónssyni Björnssonar frá Héðinshöfða, síðar ráðherra (Thos. H. Johnson).

333. *Sveitarhöfðingi í Smiðs-ey.* Smith's Island. Eyja í norður Vancouver-sundi. Þangað fluttu nokkrir Íslendingar á þessum árum, en hurfu flestir þaðan seinna.



*Stephan G. Stephansson.*
Lágmynd eftir Ríkarð Jónsson 1917.

STEPHAN G. STEPHANSSON

# BRÉF OG RITGERÐIR

## II. BINDI

## BRÉF FRÁ ÁRUNUM 1893—1921



REYKJAVÍK —— 1942

# *Formáli.*

*Á árunum 1938—39 lét Hið íslenzka þjóðvinafélag prenta I. bindi af verki þessu. Upplagið var fremur lítið, miðað við tölu félagsmanna þá og væntanlega sölu bókarinnar vestan hafs, eða um 1800 eintök alls. Var svo ráð fyrir gert, að prentun bréfanna yrði haldið áfram með sama hætti næstu ár. En árið 1940 varð mikil breyting á starfshögum Þjóðvinafélagsins, er það gekk til samvinnu við bókadeild Menntamálaráðs. Félagsmönnum Þjóðvinafélagsins fjölgaði meira en um helming, en alls urðu áskrifendur að bókum Menntamálaráðs og Þjóðvinafélagsins rúm 12 þús. Var þá þegar sýnt, að ekki var unnt að halda áfram að gefa verk þetta út með ársbókum Þjóðvinafélagsins, nema þá með því móti, að prenta upp I. bindi í rúmum 10 þús. eint., en það hefði kostað of fjár og var auk þess miklum öðrum erfiðleikum bundið vegna styrjaldarinnar, sem nú var á skollin. Hins vegar kom ekki annað til mála en að halda útgáfunni áfram. Stjórn Þjóðvinafélagsins ákvað því í fyrrahaust, að úr því að ógerlegt væri að láta bréfin koma út með ársbókum félagsins, skyldi útgáfunni héðan af hagað þannig, að hún yrði með öllu sérstök, en gamlir félagsmenn og aðrir, er eignazt hefði I. bindi bréfanna, skyldi eiga þess kost að fá framhaldið með eins góðum kjörum og frekast væri unnt. Er þess nú að vænta, að félagið hafi að sínu leyti greitt úr þeirri flækju, sem hér var á orðin, svo að vel megi við una.*

*Svo var upphaflega ráð fyrir gert, að verk þetta yrði þrjú bindi, af líkri stærð og I. bindi, en nú er sýnt, að þau verða fjögur alls. Með síðasta bindinu mun fylgja nafnaskrá yfir bindin öll og myndir nokkrar, sem hægt verður að bæta inn í fyrri bindin, eftir vild, og eins þótt þau séu áður innbundin. Í því bindi verða ritgerðir Stephans og smásögur og ef til vill bréfin til Helgu, konu hans. Mun þá til skila haldið flestu eða öllu, sem miklu máli skiptir frá hendi skáldsins.*

*Svo var til ætlazt, að bréfin yrðu birt í beinni aldursröð, en eftir að lokið var prentun I. bindis, bárust að vestan nokkur bréf,*

*sem þar hefðu átt að koma. Hefi ég tekið það ráð að skjóta þeim inn að upphafi þessa bindis, en vert er að geta þess, að bezt er að lesa þau í réttu aldurs-samhengi við bréf frá sömu árum í I. bindi, því að yfirleitt skýra bréfin nokkuð hvert annað. Af ýmsum ástæðum verða skýringar, sem þessu bindi fylgja, í styttra lagi og ekki eins ýtarlegar og ef til vill hefði þurft. Veldur hér miklu um, að nú er frá fallinn sá maðurinn, sem frá upphafi átti mestan þátt í, að útgáfa þessi var hafin, dr. Rögnvaldur Pétursson í Winnipeg. Hann samdi að mestu athugasemdir og skýringar við I. bindi og myndi hafa haldið því verki áfram, ef hans hefði við notið. Nú er bæði, að ekki myndi völ á neinum manni jafn vel hæfum til slíks verks, enda veldur styrjöldin því, að ekki varð náð til neinna manna vestanhafs um ýmis vafaatriði, að þessu sinni. Verður undirritaður því að taka á sig alla ábyrgð á því, hversu tekizt hefir um skýringargreinarnar, en þær myndu þó hafa fátæklegri orðið, ef ekki hefði við notið aðstoðar þess manns, sem hér mun vera einna fróðastur um Íslendinga vestanhafs á þeim tíma, sem hér ræðir um, Sigfús Halldórs frá Höfnum, fyrrum ritstjóra Heimskringlu. Þá hafa þeir Sigfús Halldórs og Lárus Blöndal bókavörður lesið sína prófórk hvor af bréfunum, og kann ég þeim beztu þakkir fyrir.*

*Reykjavík, 6. júní 1942.*

ÞORKELL JÓHANNESSON

*Karolina Dalmann.* 3. okt. 1893.

Ég litaðist yfir landnám mitt.
Og læt það svona duga
Sem beint svar upp á bréfið þitt,
Er bjó mér þá í huga:

Mér sýndist sléttan breiða barm
Svo blítt á móti sólu
Sem inn' í skógar skýlis-arm
Hún skelfdist enga gjólu.

Því hér var allt svo hýrt og nett
Og heimboðslegt á svipinn,
Skógurinn grænn og grundin slétt,
Né grös af frosti klipin.

Og lækurinn sem þar leið um reit
Og litla gilið prýddi,
Var skáldið góða' í sinni sveit,
Er söng þó enginn hlýddi.

En mig hillti, ef til vill,
Eyðifegurð landsins —
Grös þar vaxa' ei enn þá ill
Upp úr svita mannsins.

Og við blett þann uni' ég skást,
Áður en ég hef plægt hann —;
Adam gamla Eden brást,
Óðara' en tókst að rækta 'hann.

Æski ég samt hér yrði sveit
Auðnu-sældar mesta,
Frjóir akrar, fé á beit,
Fjöldi vænna hesta.

Byggð, sem flyti' í floti' og mjólk
Feitra kúa' og uxa.
En einkanlega allgott fólk,
Sem eitthvað veit að hugsa.

Því skárra' er að bresta brauð og mjólk
Og búa við kýr og uxa
En hjara innan um það fólk,
Sem ekkert veit að hugsa.

Og heyra þetta nirfla-nagg
Um naglsrót hverja' af brauði,
Að maka' á lífs síns maura-flagg:
*„Að matast. Safna auði“.*

Þar lífsins stríð er eintómt agg,
Sinn urgur í hverju gauði,
Á engri sál né hjarta hagg,
Unz hisminu sparkar dauði.

Fyrr kýs ég máls og kvæða þagg
En kvernhljóð slíkt af nauði.
Já, rakka spangól, refa gagg
Og ráman jarm í sauði. —

Til eru ótal manna mein,
Svo margt, sem hjartað grætir.
Sú þjóð er frjáls og framgjörn ein,
Sem flesta mannraun bætir.

En að miða allt of hátt
Er eintóm mannvits-blekking.
Ég heimta' ei kærleik, sælu, sátt,
En *sanngirni* og *þekking.*

Ég heimta eining ei né ró,
En illsku hata' ég tóma,
Æru-launvíg, atvinnu-róg
Og aulans sleggjudóma.

Og að vera *„í anda frjáls“*
Er sú reglan tama:
„Ég ann hverri meining máls,
Fyrir mína heimta' ég sama“.

Af þessu getur þú nú séð,
Að það, sem nefnist — „kirkjan“,
Eg um tærnar ekki treð
Öðruvísi en Tyrkjann.

Báðum ei til baga neins,
Báðum stend ég fjarri,
Báðum verst ég alveg eins,
Ef þau ganga of nærri.

Hræsnin skrýðir höfuð sitt
Hrárra kredda eining,
Einkisverðri. — Allt er hitt
Þín innsta hjartans meining.

Öll vor leiðir andar mein
Út frá henni' að víkja.
Sú er „glötun eilíf“ ein
Aðeins hana' að svíkja.

Lærðir þú ekki oft og þrátt
Að una við skoðun fellda?
Og hugsjónanna silfur grátt
Soralaust að elda?

Heimska er ef hrakinn mann
Úr her vor sjálfra látum,
Í okkar „kór“ þó komi' ei hann,
Né krjúpi að sömu „grátum“. —

Mín er þessi óskin ein:
Eitthvað fá að starfa,
Mýkja fáein félagsmein,
Flytja mál ins *þarfa.*

Veit ég að margur maður þitt
„Merkið forna“ styður.
En — ég fyrir mitt, og sá fyrir sitt.
Og svo kemur dauðans friður.

Hvenær sem mig heimtir Hel,
Hníg ég glaður svona:
Mitt verk í hendur framtíð fel
*og fjársjóð minna vona.*

*Jónas Hall.* Tindastóll, Alta, 14. apríl 1907.

Jónas minn. — Þökk fyrir bréf þitt, einlægt og greinilegt. Fyrst reyni ég að svara einhverju því, sem þú spyrð. Nærri allt kringum *Swan lake* (nú *Burnt Lake)* er tekið, og einhver byggð við *Snake Lake* (þar sem við rötuðum geddurnar forðum) líka, t. d. er þar lítil sögunarmylla nú. Tsp. 36, R. 1. (þar sem Tindastóll og Jóhann Björnsson er) allt tekið upp, að kalla má. Tsp. 36, R. 2. (næst suður af því, sem ég bý í, og þar sem smjörgerð og búðirnar eru) er talsvert ótekið. Tsp. 37, R. 2. (þar sem ég bý) er enn mikið ótekið, margar hálfar secs. eftir. Tsp. 38, R. 3. (þar sem „spruce-topparnir“ vóru, sem við riðum um, norður með Medicine) er enn ómælt, verður kannske mælt í sumar. Þar eru á að gizka 6 til 8 bændur samt setztir að, sumt Bandaríkja-Norðmenn, t. d. Aslaksen frá *Park River.* Svo hefi ég heyrt um fleiri, sem þangað ætli. Yfir höfuð, landið er óðum að byggjast. Fyrir brúarleysið frá *Innisfail* kom innflutningur mest frá *Red Deer,* og lenti því á „Fellinu“ og upp með Medicine, fyrir ofan okkar byggð, svo við í Tsp. 37, 2. sluppum við hann. — Já, þér væri bezt að létta þér upp og koma. Að sjá nýja jarðarmold og heyra nýja heimsku, hressir mann furðanlega. Þú getur verið velkominn hjá mér, það sem þú vilt, ég fer að hafa nóg húsrúm.

Tvö sumur hafa gengið hér furðu-rigningar og menn borið sig illa og kveifarlega, eins og von var, og gengið eins og þeir

hefðu migið í buxurnar, af þessari sífelldu húðarbleytu. Liðinn vetur var mildur, en langur, snjór er mikill enn, en beit komin nóg, en veður þó óvarlegt enn, að við köllum. Innlendir kváðu missa talsvert af gripum. Íslendingar sleppa allir skaðlausir, að ég held, en það svarf nú næst, hefði apríl brugðizt. Flestir voru að gefa seinustu „hneppin“ og sumir uppi.

Vikið er snjó, sem vetur hlóð,
Víði-skógur lifir.
Hýr, sem fró við fullgert ljóð,
Fjöllum ró er yfir.

— Mér líður eins vel og vant er. Er slæptur eftir veturinn; ég hafði mikil fjósverk, að mér fannst. Nú hefi ég stjórnarsleikju þá að taka manntal á ofurlitlu svæði, kom heim seint í gærkveldi eftir 3ja daga útreið í vondri færð og fer á morgun aftur, ef ég treysti mér. Ég var „laraður“ í dag, og verð nú að bjóða þér „góða nótt“ fyrr en ég vildi og hætta að rabba. — Kæmir þú til veru, útvegaðu þér „peningalán út á lönd“, t. d. í Winnipeg. Það verður kannske ögn í því. Sérðu, landar verða bráðum að kaupa járnbrauta-lönd í viðbót við sín, og gætu það með láni út á „*Homestead*-in“, sem þeir eiga. — Blessaður allténd.

Þinn Stephan.

*Jónas Hall.* Markerville, Alta, 24. ágúst 1908.

Jónas minn góður. — Þú ert víst annars-hugar núna af uppskeru-þrældómi eins og ég, svo ég skal skrifa skammt bréf. Heyrðu, á ég að koma svo sem í október í haust, hafi ég til hug og farbréf, til að lesa yfir hausa-mótum ykkar 2 eða 3 ný kvæði, meinlaus og gagnslaus? Fæ ég nokkuð fyrir það þarna í Garðaríki, Montenegro, Hæðunum og Hallson? Mér hefir dottið í hug að gera þetta. — En viltu láta mig vita eins fljótt og þú getur, hvern veg þetta mun leggjast í almenningssamvizkuna í Dakota.

Já, ég þykist Jónas minn
Jarteikn mesta líta,
Að þú baksir Bryan inn
Beint í húsið hvíta.

Vinsamlegast Steph. G. Steph.

*Jónas Hall.* Markerville, Alta, 4. okt. 1909.

Jónas minn góður. — Kristinn mágur kvaðst nú hafa skrifað þér fyrirfarandi, eftir að ég hafði margskilað sömu boðunum frá þér í nokkur ár, um að þú ættir bréf að honum. Einhvern tíma sagði hann mér þá frétt, að þú teldir þig eiga bréf hjá mér og furðaði á að fá það ekki. Það var auðvitað satt, ég svaraði aldrei bréfi þínu eftir kirkju-þingið, en það sem þú baðst mig um í því, gerði ég samvizkusamlega. Nú um tíma hefi ég hlíft mér við bréfa-skriftum, nema óhjákvæmilegum, og þó hefi ég verið sí-skrifandi. Alla þá, sem ég var helzt vonandi, að minnst reiddust mér, hefi ég gersamlega svikið, og enn langar mig að „brúka refjar“ stundum. Söfnuðurinn hérna er eins og þegar þú og bakarinn skilduð við hann. Hann er prestlaus, félagslaus — vill hafa „býtti á bakara og smið“, en ég held hann varla viti, hvor er bakari og hvor er smiður. Uppgjafa-presturinn vofir yfir honum, og svo náttúrlega, þegar fram í sækir, einhver þessi brauð-leysingi kirkjufélagsins. Annars liggur nú allt þess háttar hér í þegjandi ráðaleysi, síðan Erlendur minn Grímsson og Jóhann minn Björnsson börðust með „Lögbergi“ og „Kringlu“, Guðsríki nærri því til eins mikils sóma og sumir kirkjufélags-prestarnir. Einn helzti andstæðingur nýju guðfræðinnar hér, sveitungi *þinn* frá Garðar, sem hér býr, hafði stunið mæðilega eftir safnaðar-fundinn og sagt, „að um allar kristindóms-stefnur væri sér sama, og lítið mundi hann kippa sér upp við það, þó kirkjufélagið að tarna gauðrifi sig í sundur, en hitt félli sér illa, að Stefán hefði getað ráðið því við söfnuðinn *sinn* hérna, að *hann*, lútherskur, kysi horngrýtið hann Jónas gamla Hall, únitara, sem sinn fulltrúa á kirkjuþing.“ Já, Jónas minn, mörg eru manna meinin, en sum eru þau æði óveruleg.

Já, þökk fyrir alla þína umhyggju á þinginu og alltaf fyrir sölu kvæðanna minna. Ég vissi það nú, það sem komið gæti til þinna kasta. Mér er nokkuð annt í aðra röndina um, að bókin seljist ekki illa. Ekki vegna skildinganna svo mjög sem hins, ég veit hún mætir undir-andróðri hjá gömlum skoðana-andstæðingum, og þess sigurs get ég nú ómögulega unnt þeim, að öllu loknu, ef hægt væri við því að sjá, að skruddan seldist ákaflega illa. — Ég kynntist ögn Sigríði kirkjuþingmanni Helgason, þegar ég var að rekast um í Argyle í vetur eð var.

Systur á hún þar, konu Hjartar Sigurðssonar. Hann er fermingarbróðir konu minnar, var á Halldórsstöðum, þegar ég var í Mjóadal. Þó ég hefði gleymt því öllu, mundu þau mig, og ég varð að gista hjá þeim. Þær systur eru greindar, létu mig njóta þess, að þær töldu mig sveitunga sinn frá æsku okkar, og svo einhvers af kveðskapnum mínum, og tóku mér eins og væri ég bróðir þeirra, einhvern veginn svo alúðlega. Annars fór svona víðar, ég „átti vini í hverri kró“, sem ég mundi hvorki né vissi vitund um. En svo höfðu aðrir bölvun á mér, sem von er, og ég var víst ekki að vonast eftir öðru, né setti slíkt fyrir mig. T. d. á einum stað í Nýja-Íslandi, þar sem ég las upp, yrtust tvær konur út af mér í ræðum, reyndar í góðu, en fyllstu alvöru. — Tíðin in bezta fyrir búskapinn allan seinni hluta sumars og enn, sífelldir þurrkar og sólskin. Ég hefi unnið, allt sem ég og dagarnir entust til. Það var mér gott. Nú er ég að taka upp kartöflur, því heyskapur og kornstökkun er búin. Ekki veit ég, hvort ég ræð við það, né hefi reynt það enn, en helzt hefði ég þurft að senda Helgu suður til ykkar um tíma í vetur. Henni væri hollt að ferðast eitthvað langt. Þetta er nú samt loftkastali minn enn, og við engan hefi ég minnzt á hann, nema núna við þig, af því ég veit, hve vafasamur hann er. — Ég bið kærlega að heilsa Sigríði, heimili þínu og Jonna, og yfir höfuð Garðar-sveitinni. Blessaður og sæll, gamli vin.

Þinn Stephan G. Stephansson.

*Jónas Hall.* Markerville, Alta, 25. marz 1910.

Jónas minn. Þökk fyrir bréfið. Og svo var nú hitt, ég hálfkveið, ef þeir, sem lögðu í kostnaðinn við „Syrpuna“, ynnu fyrir tjóni sínu eða fyrir óþökk hjá „dómstólunum“. Ið síðara er nú ekki að óttast. Beztu blöðin heima, sem á það hafa minnzt, „Ísafold“, „Þjóðólfur“ og „Norðurland“, hafa öll lagt gott til ykkar fyrir það, sé ég. Dómar þeirra Hannesar Þorsteinssonar í „Þjóðólfi“, Helga Péturssonar í „Ísafold“ og „Matta“ gamla í „Norðra“ eru bæði lengri og rækilegri og reyndar lofsamlegri en sams konar umsagnir um flestar nýjar bækur íslenzkar, sem út hafa komið á þessum efri árum, þó engum beri saman um, hvar mér hafi tekizt bezt né verst. Yfir því er ég nú meira en ánægður. En svo eiga nú Hafsteins-

blöðin eftir að hamra mig ögn. En þó svo fari, hefi ég engar áhyggjur út af því, hvað kveðskapar-gildi mitt snertir, ég veit það verður „pólitík“.

Ég hefi verið að hugsa um kirkjumálin að gamni mínu. „Halli“ Íslands-biskup kvað ætla að sækja mótið að sumri. Hvernig væri nú, í kyrrþey, að búa Bergmanns-söfnuðina undir upptöku í kirkjuna heima, með þriðja vígslubiskupinn vestan hafs og um leið forseta nýs kirkjufélags hér? Ég held „Halli“ tæki því. Það væri hagur ykkar hlið, viðurkenning í augum alþýðu, ofurlítið traust, og séra Jóns mönnum verra en ekki. Frá almennu sjónarmiði væri það til vonar, að slíkt styrkti heldur tengiböndin milli Austur- og Vestur-Íslendinga, tunguna, viðskiptin, viðkynninguna. Hugsaðu um þetta, hafi þér ekki hugkvæmzt það áður. Sýnist þér svo, þá skrifaðu séra Friðrik um það, fyrst þú situr á hans bekk. Ég var einu sinni að hugsa um að gera það sjálfur, síðan mér datt það í hug, en það hefir farizt fyrir. Þetta væru engin ódæmi. Enska (biskupa)kirkjan hérna, að minnsta kosti í Canada, er einhvern veginn svona áhangandi „mömmu“ sinni, hinni brezku. Svo væri gaman að sjá, hvort betur mætti hjá landanum hér, kirkjan íslenzka eða General Synodan. En til þessa þyrfti undirbúning og samtök milli ykkar *forkólfanna.* Fyrirgefðu nú annars, að ég, *infidelinn,* skuli vera að abbast upp á *ekklesíuna.*

Engar eru fréttir. Allt mannheilt, tíð in bezta, nærri sumarhitar. Jörð var orðin auð og þíð. Seinni hluta gærdags rigndi. Liðna nótt snjóaði ákaft, en milt. Í dag sólbráð.

Ekki færðu 50 centin þín með bréfi frá mér. Helga segist ætla að borga þau, en ég dreg úr því, allt sem ég get. Ég læt aldrei taka þau út úr búinu, nema ég neyðist til með lögum. Annars þakkar hún þér fyrir, en Erlendi síður, því blaðið hefir hún ekki fengið nú um tíma, en kannske lagast það bráðum. — Við biðjum kærlega að heilsa á heimilið, og vegni þér allténd vel.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Jónas Hall.* Markerville, Alta, 29. apríl 1910.

Jónas minn. Þetta er nú bara um okkar eigin mál og þú lætur það í ofninn, strax sem þú hefir lesið það. Ég hefi ögn

vikið að því, sem þú baðst mig, í bréfi til frænda nýskeð, en ekki síður þó í bréfi til foringjans ykkar í Wpg., því hann gaf mér sjálfur tilefnið, með því að minnast á þennan nýja víngarðsmann að fyrra bragði og hvers hann sýndist líklegur til. Ég sýni fram á, að aðgerða-lausir verði innan skamms sjálfsagt kirkju-félags klófé, og hitt sé líka ekki svo gæfuleg byrjun, að vera svo kröfu-harður við verkamenn sína, ef einhver væri í boði, að engum yrði viðvært, nema „prelátum". Með manninum *sjálfum* get ég ekkert mælt. Veit ekkert um hann. Hefi aldrei heyrt hans getið, fyrr en nú. Auðvitað er það þetta biskups-bann, sem hann er í, sem allt flýtur af, svona að óreyndu, eins og enn er. Það er tekið trúanlegt og sjálfsagt, og svo er hann fyrirfram dæmdur. Það sést hvarvetna: Í engum til-góðs-getningum, í fálegum viðtökum höfðingjanna. Þar rýkur úr. Gaman væri að vita, hvort þessi þénari var stjórnflokka maður heima og hvar hann hélt sig. Slíkt getur ráðið nokkru í biskupa sögum. — Þetta var ekki í fyrsta skipti, sem ég hefi lagt presti til ræðu-„texta". Ég hefi heyrt þess getið einu sinni eða tvisvar áður, en auðvitað, það vóru æfinlega vantrúarprestar svo nefndir, sem í það réðust að koma með mig „upp í stólinn", og ekki veit ég heldur, til hvers þeir notuðu mig, til eftirbreytni eða aðvörunar í hugsunarhætti, því jafnvel Júdas sjálfur er góður og gildur „texti" á sína vísu. — Tíð er hér góð að vísu, byljalaus, fremur svöl og þurr, og gróður minni en löngu góðviðri væri þó ætlandi. Þessar fáu heimilisfréttir héðan hefi ég sent Nonna og þú líklega heyrt þær. — Gott og gleðilegt sumar, þér og þínum.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*E. S.* — Nú hefi ég minnzt á við séra Fr., það sem ég skrifaði þér um. Svo fer ég fram í eldhús, til að þvo á mér hendurnar.

S. G. S.

*Jónas Hall.* Markerville, Alta, 21. júní 1910.

Jónas minn góður. — Þökk fyrir bréf og kapítula Matta okkar. Ég hafði séð hann fyrir löngu. Þórður nokkur Sveinsson í Reykjavík, systurson Indriða gamla Sigurðss. og bróðir Benedikts „Fjallkonu" ritstj. og Baldurs „Lögbergs" meðritstj., hefir óbeðið sent mér allt, sem íslenzk blöð heima hafa

um mig sagt, nú nokkuð lengi. Ég þekki hann ekkert og við skiptumst engum bréfum á, en hann hlýtur að vera vinur vísnanna minna. Af hendingu gróf ég upp, hver hann var, annað en nafn hans. Ég sendi Matta stutta þökk og hinum öðrum, sem mín hafa minnzt. Grein Matta er enginn ritdómur, heldur hugvekja og bæn. Líklega er hann að jafna ögn upp lélegri grein, sem hann setti saman um mig í „Norðurlandi" í sumar sem leið og „Heimskringla" gleypti fljótt, því nú bar hann sumt, sem hann sagði þar, til baka. Hann var þá að andæfa oflofi, sem honum fannst ég hafa fengið hér, en hugsaði sjálfan sig í hring, eins og allténd. Ég var öllum hans íslenzku eftirlætisskáldum lakari, jafningi Guðm. á Sandi, sem honum er illa við. Þorstein nefndi hann ekki. Það er fátt með þeim, sem von er, jafn óstefnulíkir menn. Allt fyrir það var ég nú „þjóðargersemi". Nú er Guðmundur „lærisveinn" minn og ég allur stærri en áður, og þar fram eftir götunum. Annars sýnir ekkert betur, hve ólíkt við Matti hugsum, en það, að hann telur fram sem mitt helzta ýmislegt það, sem ég og aðrir með mínu sinni mundu fyrst strika út. Annars mun Matta heldur erfitt til mín. Ég hefi minnzt hans á 2—3 stöðum, sjálfsagt öðruvísi en hann kysi. Svo held ég hann taki að sér „Þjóðskáldið": „Lof þér lýðir flétta", sem Poestion snaraði á þýzku. En þar er Matti rangur. Ég kvað almennt og datt hann ekki í hug. Guðmundur á Sandi og Sigurður Guðmundsson hafa líka ert hann á mér. Ég er hæst ánægður við karlinn, þegar allt er athugað. Ég hefi alltaf átt von á að fá krúnuna kembda, þó hann hafi ekki gert það. Öðru nær. Maður lifir ekki svo meinlaust, að maður lendi aldrei í bölvun, hvað þá kvæði maður nú líka eins og ég hefi gert. Sú „þriðja" fór frá Rvík 5. maí. Engin skeyti komin til Wpg. hinn 30. s. m. Það er venju verra, ef það stafar ekki af óhappi.

Ég skil vel þetta klúður með „kandídatinn" þinn. „Hægt fær nú þinn herra séð, hvernig öllu er varið" sagði Steini. Ég held hann gáfaðan, af grein, sem ég las eftir hann. Mér sárnar allt efni, sem ónýtist, kannske af handvömm. Kannske er hann ekki prestur. Hann mun hafa gengið á læknaskólann eitt skeið. Ónýtist hann ykkur, notar kirkjufél. hann til einhvers, ykkur til óþarfa, og hann rær í hverri veiðistöð, sem vart verður í. Þetta er bara duttlungur, sem dettur svona í mig, Jónas. Ég hefi engan flugufót fyrir því, nema veraldar-

ganginn og þetta laumu-spil, sem við köllum mannlíf. Eigum við annars ekki, gömlu jálkarnir, að færa okkur til Los Angeles, í ylinn, og deyja þar sem heiðingjar?

Duglegt regn nýkomið, en of seint fyrir snemm-sáið.

Blessuð og sæl öll.

Stebbi.

Ég rispaði þetta í rökkri. Nennti ekki að kveikja.

S, G. S.

*Jónas Hall.* Markerville, Alta, Can., 20. okt. 1910.

Jónas minn góður. — Ég hefi svikið þig um bréf, eins og aðra, en þökk fyrir þitt síðasta. Ég hefi átt annasamt. Ýmislegt ber að. Nú síðast fráfall gamla Geirhjartar Kristjánssonar, sveitunga okkar. Hann varð bráðkvaddur hinn 12. þ. m. Dó úr hjartabilun, nýkominn heim frá lækni í Red Deer, hné út af talandi í sæti sínu. Var lasinn í sumar, en á ferð og ferli og skrafhreifur. Tók land um 10 mílur vestur héðan, í sænsku nágrenni. Þau þrjú bjuggu þar í sumar. Þangað er örðug leið um illtroðna vegi. Geirhjörtur heitinn var jarðaður þann 16. Við hérna, nokkrir sveitungar, sáum um útförina, sóttum líkið vestur og grófum í safnaðar-garðinum hjá Tindastól. Guðfinna er enn vestra. Vildi það heldur. Á kannske von á Eiði, eða einhverjum sinna. Annars bauð ég henni hingað, ef hún vildi. Þau höfðu fyrir sig. Hefir heldur verið hlynnt að þeim hér af fólki, annars hefði orðið æði erfitt með fleira en þó varð. — Þá er nú sú saga búin.

Senn verður Thorarensen ykkur tiltækilegur. En nú verður ykkur fyrst þörf allrar viðsjár. Allri undirhyggju hins flokksins verður beitt við hann og ykkur og því meir sem þættirnir fjölga. En gangi ykkur sem bezt. Hér var Karl Olson. Hann hreif allt, sem heimskast er hér. Hjá þeim, sem með Pétri standa, hefir hann grætt á komu Olsons. Þeim finnst hann eftir allt betri ræðumaður að miklum mun, því báðir héldu líkræður samtímis. Annars kom Pétur aðeins til messu. Söfnuðurinn er, held ég, sundurleitari en fyrr. — Haustið er ágæt. Einlæg járnbrautaþot, allt í kring. Eina er verið að byggja hér austur á fellinu, „Alberta Central“. Að líkindum nú verður stöð svo sem 12 mílur héðan norður. Ekki búið að þreskja

hér enn, enda verður uppskera smá og gölluð. Ég heyri sagt, að þú sért orðinn „Andvöku-einvaldur“ yfir öll Bandaríkin. Það gengur næst því að vera Rockefeller eða Taft. Þú áttir þetta eftir. Verð að slá botninn í, Jónas, mín er beðið með bréfið. — Hjartans kveðjur frá konunni og mér til Sigr. og þín. — Blessaður.

Stephan G. Stephansson.

*Jónas Hall.* Markerville, Alta, 11. desember 1910.

Jónas minn. — Þökk fyrir bréfið og það, sem þú sagðir í fréttum, því ég hefi svona gaman af að sjá alltaf hvað setur í stjórn og trú. Þó ég trúi hvorki á guð né menn, veit ég samt, að heldur skánar það, hugsanlega.

Hér er nú mikil undir-brota öld í Alberta, þetta fjármála-flautaþyrl, sem kallast „Boom“, mest járnbrauta-byggingar og vonir. Stjórnirnar hérna í Alberta fæðast og deyja út af járnbrauta-málum, og allt flækist um þau. Liggur við, að úr því verði klögu-mál til Bandaríkja. Nú, ef til átaka kemur, ætla ég ekki að sitja heima. Ég reyni að verja þér „línuna“ Jónas, þó þú fjölmennur sért, því ég hefi bölvun á, að nokkur megi eiga annan „nauðugan“. Já, hérna „austur á Fellinu“ er nú byrjað á braut frá Red Deer vestur, Alberta Central. Næsta stöð verður nú samt um 12 mílur norður héðan. En „Kanada Norðri“ hefir lofað að leggjast hér nær yfir nágrennið, og ég held, að innan fárra ára verði versta leiðin héðan til flutnings-færanna mikið úr sögunni. Annars er allt enn líkt og áður í sveitinni sjálfri, nema að sumir segjast nú, þeir sem á „Fellinu“ búa, hafa nýlega getað selt lönd sín fyrir $ 20 ekruna. En, það eru „Yankíar“. „Hann er enskur, taktu hann Jón.“ Ég tek þá ekki æfinlega.

Nú er mamma mjög lasin. Hefir verið nokkra daga í rúminu. Læknirinn segir það snert af hjartahimnubólgu, og mun það rétt. Alltaf hefir hún á fótunum verið þangað til nú, en hefir elzt mest þetta síðasta ár. Hún er nú liðlega áttræð. Okkur hérna er því nokkuð svefnbrigðult sem stendur, þó það komi verst niður á Helgu. Kobbi hefir verið lasinn, en er kannske að skána nú. Aðrir hér halda venjulegu „holdi og hamsi“. Kirkjumálin sofa, nema ef safnaðar-ársfundur hristir eitthvert þornið úr hárinu á þeim. Það heyrist nú senn. Mér



*Sigurður Jónsson frá Víðimýri, Gestur Stephansson, Stephan G. Stephansson.*

þóttu laglegar vísurnar þínar til Menningarfélagsins, og vel voru þær kveðnar. Nei, ég held ég hefði ekki „akkað uppi“ með „textann“ þinn, þó þú hefðir sent hann í tíma. Fyrst er nú „Pegasus“ allténd ótemja, þú þokar honum ekki stundum í þá átt, sem þú sjálfur vilt, það er eins og þar sé veggur fyrir. En svo fer hann viljugt til áfangastaðar á annarri leið. Og svo hitt, svona sagnir eru andleg æfisaga í einni línu, stórt bókarefni, en yrði lausalopi og skemmdist í smákvæði. — Gleðilegar hátíðir og heillaár til ykkar allra.

Þinn einlægur Stebbi.

*Jónas Hall.* Markerville, Alta, 13. júní 1911.

Jónas minn góður. — Þökk mína fyrir bréfið. Ég hafði gaman af að frétta af horfunum. Vissi og fann vel, að blöðin sögðu ekki nema svona ofan af. Var kominn á flugstig með að skrifa þér og spyrja þig, hvort þú hefðir minnzt á vísuna við „Kandy“ ykkar, þegar þú varst í Wpg. Mig sló það af einu orði, sem hann hafði í „Burtfararminninu“ „Kringlu“-slysna. Ég vissi þú varst í Wpg., fékk kveðju frá þér með Sigurði söngskáldi. Ég er nú svo sem sáttur við Steina, vísunnar vegna, en ég hefi gaman af svona skráveifum, maður þekkir menn á þeim, ef maður kollgetur á þá. Já, grein Steina um séra Fr. var nú auðvitað slys, fyrir hann, en út yfir tekur afsökun ritstjórans. Hvað öll þau úrræði eru heimsku-vesalleg, þegar í skömm var komið.

Það var gott, að þú minntist á Sturlu Einarsson. Ég þekki það fólk. Við Jóhann erum sveitungar, samsóknarbörn í æsku og kunningjar frá drengja-árunum. Hann mun um margt líkur Konráði gamla móðurbróður sínum, er bóka- og kvæða-vinur, hagorður og ögn hrekkjóttur, hefir gaman af að koma flatt upp á mann, jafnvel nokkuð óheflað í orðum, og er skemmtilegur og góður drengur. Heimilisógæfa hefir setzt að honum, en á því lætur hann ekki sjá. Nanna mun hafa orðið honum helzta athvarfið, á síðari árum. Þau systkinin, hún og Sturla, komu hér fyrir þrem árum, eða svo. Móðursystir þeirra er hér, kona Víðimýrar-Sigga. Það er því allt kunningjafólk mitt, og ég veit allt um hagi þess. Jói var ekki eftirlætissonurinn í æsku, sízt hjá móður sinni. Indriði var það. —

— Jóns Sigurðssonar minning verður haldin á Markerville á laugardaginn. Loks komst á safnaðarfundur hjá þessum hræðum, sem eftir eru. Sé rétt sagt frá, gekk séra Pétur þar með borðum fram og vó svo til beggja handa, andlega skilið þó, að allt lenti í ólestri. Sagt, að nú eigi að fá til láns Olson aftur, eða Sigmar nýbakaða. — Við biðjum að heilsa kærl. og réttum Sigríði hendina.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Jónas Hall.* Markerville, Alta, 1. nóv. 1911.

Góði vin. — Eins og öllum öðrum, skulda ég þér bréf, ég held helzt tvö. Ég þakka þér þau nú líka tvöfaldlega, fyrst „lánið á þeim og svo umlíðanina". Ég hafði gaman af að frétta frá Duluth, af því ég kynntist þar ögn, en ekki vissi ég, að Mrs. Magnússon var orðin svona heilsubiluð. Ég kenni í brjósti um hana, mér virtist hún svo myndarleg, og hvorki var hún fjölorð né stórorð þá, eins og um hana er sagt, og reyndi þó Jói til að siga upp þeim hlutanum af henni einu sinni. Hér var Baldur Jóhannsson um tíma í sumar, í kynnisför til Víðimýrar-Sigga. Hann er Minnisóta-búfræðingur, en vinnur hjá mjólkurbúi í Seattle-bæ. Hann er ofur viðkunnanlegur, ekki síður en hin systkinin, og gæðadrengslegur.

Að ég hefi ekki skrifað þér fyrr, Hall, kemur af því, að ég var allur á valdi guðs tíðarfarsins í sumar, og hann var sá lúalegasti guð, sem ég hefi enn átt við að sælda, nokkurs konar ónýtir allra áforma og iðju manns. Ég hefi lýst honum í bréfi nýrituðu til Jonna. — Ég þakka ykkur hjónunum alúðlega fyrir meðferðina á Helgu minni í sumar. Hún er ekki heima nú, en myndi víst senda Sigríði og þér kæra kveðju.

Seinræk gerast safnaðarmál hér. Pétur kvað segjast andskotann ekki út af heimilinu fara til að snúast við prestsverk, nema þá til dauðra. Annars gerir hann flest þess konar aukaverk fyrir Ísl. hér. Engan flugu-prest fær söfnuðurinn hjá kirkjufél., af þeim sem þeir vilja. Býðst eitthvað, sem þeir hér halda, að sé afrakið. Af því söfnuðurinn hérna er þessi allra undanvelta, á að hegna honum með því að láta hann ekki sjá inn í himnaríki, nema svona annað hvert ár. Annars er ekkert að gerast, lífið hérna lámast þetta áfram vana-veginn.

Seinasti rykkurinn er það, að Bárðdælir hér hafa keypt þreskivél.

Heyrðu, Jónas minn, — mig langar að spyrja þig — þú veizt margt um söngkennslu barna eystra, eða getur vitað. Ég held önnur eldri telpan mín hafi nokkra rödd. Væri svo, ætti hún að fá einhverja tilsögn, ef ég gæti. Hér er það ómögulegt, því ég meina munnlegan söng. Sigurður Helgason gekk hér úr vistinni fljótt. Ég ætlaði að reyna að nota hann. Er nokkur vegur eystra, annar en afar-dýr, svo þú vitir? Viltu hugleiða það fyrir mig og senda mér línu um það við hentugleika og í hljóði?

Það getur vel verið, að leið mín liggi einhvern tíma enn austur til Dakota. Ég minnist þess, af því þú stakkst upp á, að ég sæti þar einhvern tíma vetrarlangt. Enn á ég bágt með að losna við bú og vinnu, þó allt sé það orðið smátt. En, innan skamms er ég sjálfsagt ruddur að gagni til þeirra hluta. Finnst stundum jafnvel nú, að ég vera það. Einhvern veg verð ég á endanum að breyta mér til, ef ég endist fram um sextugt, og þangað er nú orðið stutt. Kannske ég geti seinna orðið eitthvað lausari í skaftinu. Hér stendur allt enn fast, land varla hálfbyggt, af því allar aðflutningabætur eru enn ógerðar og óráðnar. Hér er enn engin landleigsla né landsala, sem líf er í, svo enn er vont um þau vik. Í bráðina verð ég að láta þar nótt sem nemur og bíða morguns. — Ég bið að heilsa og kveð þig svo að sinni.

Þinn Stebbi.

*Jónas Hall.* Markerville, Alta, 1. janúar 1912.

Nú er nýárs-morgun, og heilla-ár sé hann að færa ykkur, Jónas minn. Seint skrifa ég, og þó er nú það um garð gengið fyrir nokkru, sem ég beið eftir með bréf til þín. — Sveinbjörnsson kominn og farinn. Aldrei skrifaði ég honum, vissi varla, hvort bréf næði honum vestra, og engin hvöt að þurfa að gegnum-ganga Jónas Ara. Annars hefði ég fyrir löngu boðið Sv. eða beðið hann hingað, hefði ég þótzt eiga hér til þær viðtökur, sem ég vildi, sökum fámennis hér og ýmiss annars. Fyrir löngu, eða litlu eftir að hann kom, kvað ég vísur til hans, sem koma áttu í „Lögbergs"-jólablaði væntanlegu, bara til að sýna minn lit á því. Við þetta ætlaði ég að láta sitja, en honum að haga ferðum sínum hingað áeggjunarlaust af mér.

Þó, þegar bréf þitt kom, lá nærri, að honum yrði sent hraðskeyti héðan, væri hann enn vestra. Þá kom bréf frá honum til mín. Ég fór strax á stúfana, gerði hvað ég gat. Samkoma hans var vel sótt, af svona smábyggð. Fólk var ánægt, ég held hann líka. Fyrir komuna hér fékk hann liðuga $ 60 og kannske ögn í Red Deer, og leið hans lá hér austur um og kostnaður því enginn. Við meira var ekki að búast, eins og ástatt er, þó átt hefði það að vera. Sveinbjörn hélt til hjá mér, meðan hann dvaldi hér, kom á sunnudagskveld, fór á föstudagsmorgun. Ég mattist ekki um það við neinn, og hann var meira en velkominn að því, sem ég hafði til; aðrir höfðu víst bæði ágirnd og ótta af honum, þangað til þeir sáu hann, en ég læt við alla eins og lagsbræður. Aðra kurteisi á ég ekki til. Vel féll á með okkur Sveinbirni, það sem við kynntumst. Ég held, að nafn hans og list eigi fræga framtíð í íslenzkri söng-sögu, finnst hann hafa svo föst og rétt tök á íþrótt sinni og þykir líklegt hann sé lang-þjóðlegastur og snjallastur af því, sem enn er uppskátt þar, hjá okkur Íslendingum. Þjóðleg íslenzk sönglist er til í þögninni. Hún liggur sofandi á einhverju Hindar-fjalli, en á að vakna, því hún er nauðsyn, því sem er þjóð. En — nú ætla ég að hætta að tala um söng við *þig*. Ég veit ekki, nema þú heimtir, að ég fari að raula „tónstigann“ til að sýna, að ég hafi vit á þessu, og ég veit, hvernig þá fer. Þegar þið Sv. hittizt, getur þú fengið öll smælkin úr ferð hans hér. Honum þykir vænt um ykkur og kemur víst aftur við hjá þér.

Að ég komst yfir áramótin, án þess að skrifa þér, var vegna þess, að hver aldan rak aðra og gleypti: Þresking, Sv., jólin, sem ég varð að „syngja út“ hjá Baldri mínum og Kristni í þetta sinn. Það getur tæplega orðið, að telpan mín komi austur þennan vetur. Margt bagar. Svo er hálf-von á Sig. Helgasyni hingað í vetur, líklega þó bara hringlandi. En ég er að hugsa um þetta með framtíðinni, ef ég réði við horf og hagi. Þakka þér kærlega fyrir þitt til-lag í þessu. Satt að segja heyri ég lélega látið af söngkennslu í Wpg., sögð vera kennd með „franska laginu“ aflagaða, sem átti að vera vísindi, en var heimska, sem sé að „belja skjálfraddað“. Víst er það, hér er íslenzk stelpa, auðvitað ósöng-skóla-gengin, en ársvinnukona í Winnipeg, og nú dinglum-raddar hún svona. Ég hefi bölvun á því.

Kalt var hér milli jóla og nýárs, hlýrra í gær, og vetrarblíða nóttina sem leið. Sólskin og gott í dag, yfir snjólétt akfæri, svo nýárið heilsar hlýlega. Ekki segist Helga hafa skrifað Sigríði enn. En, hún biður ósköp vel að heilsa. — Jæja, Jónas, það er þó stundum ekki verra, að við erum við, en ekki kerlingar okkar, ef þú þykist hafa verið dreginn á þessu bréfi.

Vinsamlegast Stebbi.

*Jónas Hall.* Markerville, Alta, 23. jan. 1912.

Góði vin. — Reyndar telst mér svo til, að ég eigi nú miðann að þér, Jónas minn, fremur en að ég sé orðinn á eftir. En svo gerir það ekki grand, ég ætla að skrifa þér nöldursbréf, og þú getur fengið það frítt, svona í kaupbæti — ég ætlast ekki til, að þú borgir það. Það verður um Sveinbjörnsson, sem ég nauða. Ég var nærri kominn í blöðin með það, en sneri því, af því ég vissi ekki „hvern ég hitti þar, heldur en forðum Gyðingar." En hérna er það. Hver ræður fyrir ferðalagi hans? Eða, hafa engir landar tekið sig fram um að greiða ferð hans, til léttis með kostnað og erfiði? Hann húrrar og skúrrar með dýrum járnbrautum þessa íslenzku Ameríku þvera og endilanga (aðra eins óraleið), rignir niður úr heiðu lofti, án þess blöðin einu sinni auglýsi hann, alls að óvörum, og fer eins. Mikið, ef þetta ferðalag um Norður-Ameríku háveturinn drepur hann ekki, hálf-sjötugan. Svo er sú þokkabót: Hann þarf að fara tvisvar, þrisvar yfir sömu brautirnar og í sömu göngurnar, og ætli að efni hans megi við þeim ferðakostnaði? Ég spurði hann ekki um hagi sína. Hafði ekki *einurð* til þess. En þótt efnin þyldu það, er þörf á því? Hugsun mín er þá þessi: Má ekki laga þetta framvegis? Geta engir þarna eystra tekið sig saman um að gera ferðum hans fyrirlag og minnkað kostnað *hans* sem unnt væri, einkanlega við helvítis járnbrautirnar. Þið eruð nú svo voldugir orðnir þarna eystra, landarnir, báðum megin landamæra, að þið ættuð að geta mikið, ef þið legðuð saman og gerðuð ekki safnaðar-mál úr Sveinbirni — og ég veit, að *þið* gerið það ekki að fyrra bragði. Nú, af því Sveinbjörnsson hefir verið á þínum vegum og þú honum kunnugur, er ég nú að tala um þetta við þig, á ekki til annarra að snúa mér, sem á mig hlustuðu og að kæmust. Svo er þetta þá sagt.

Nú er blíðutíð og skíðafæri gott. Þresking lokið vikuna sem

leið hjá seinbúnustu löndunum hér. Allir vindar logn, aðrir en að verið er að járnspora brautina nýju hér norður og austur, líklega upp til Rocky-Mountain-House í vetur, og til sinna eigin flutningsþarfa, fyrst og fremst. — Svo er ég hættur í þetta sinn, og verið þið öll sæl.

Vinsamlegast St.

*Jónas Hall.* Markerville, Alta, 10. júlí 1912.

Jónas minn. — Bréf þitt í gærkveldi — og hitt, sem með er. Þú mátt lesa það, en enginn annar, og ekki máttu geta um, að þú hafir séð það, og sendu mér það strax. Það er frá Guttormi skáldi, bezta dreng, sem vildi allt fyrir mig gera. Hann er ögn hnýflóttur í orði, eins og þú sérð, og lætur allt fjúka í gamni við mig. Því er mér svona sárt um, að eftir *honum* sé haft. Ég vissi um fýlu Hermanns. Skrifaði „Gutta“ mínum, án þess Sveinbjörnsson vissi neitt um, og bað hann að reyna. Þú sérð, hve vel og drengilega hann gerði, með hjálp Sveins Þorvaldssonar og Viktors, elzta sonar Gunnst. heit. Eyjólfssonar. Ég sá þá báða á ferð minni forðum, var hjá Sveini, og Gunnst. heit. var mér staklega vingjarnlegur. En, þú sérð líka, hvernig Sv. er höfuðsetinn, og hve hundslegir hinir eru við utan-safnaðar menn, sem vilja flokksmálalaust vera Sv. vel — eins og með píanóið. Líklega hefir líka kirkju-hagsmunur valdið. Milli Ísl. River og Árborgar eru 12 til 14 mílur, og enginn úr Ísl. Riv. verið í Árborg, eða því nær, og eitthvað ekki smalazt. Ég vildi þú létir Sv. vita, þegar þið væruð í næði, um þessa menn, fyrst svona fór. Væri gott að láta *þá* vita, ef hægt væri, *að Sv. vissi það.* Kannske veiztu, að Sveinn er „únítar“, Gutti utan kirkju.

Sæll svo á meðan. S. G. S.

*Jónas Hall.* Markerville, Alta, 10. október 1912.

Jónas minn góður. — Ég skulda þér bréf núna langa-lengi, og er þó að óvenju. Satt að segja, ég hefi átt svo annríkt og önugt stundum í einyrkju minni á þessu sílekandi sumri og hausti, að ég hefi varla sinnt bréfa-svörum. Svo var það nú með þig, ég vissi, að þú værir annars hugar nú fyrirfarandi við að búa þig út í embætti hjá alþýðunni og sáluhjálp hjá

séra Magnúsi, og gætir varla sinnt suðinu í mér. En hvað um það, nú gríp ég stundina, get ekkert gert úti sökum bleytu, á þó mitt eigið korn allt óstakkað, en erum búnir hjá Baldri og Kobba, og segi þér loksins: Þökk fyrir bréfin. Ekkert að frétta úr sveitinni, nema það, sem fyrir flýgur, að Hjörtur Leó búist við að flytja okkur kirkjufélags-guðsríki austan frá Winnipeg bráðum. Séra Pétur býr búi sínu ágætlega, gerir öll kristin „auka-verk“ fyrir hvern, sem æskir, og ég og hann erum góðir mátar, þá sjaldan við finnumst, og þó oft sé þá hvasst, annars fer ég ekki út af heimilinu mánuðum og „misserum“ saman. Séra Pétur er í mörgu góður drengur og skarp-skynugur, þó hann þyki byljóttur. Ég met hann meira en ýmsir, sem nær honum ættu að standa. Ýmsum þykir nú „Breiðablik“ þynnast heldur. Séra Magnús ykkar þarf að salta það ögn senn. Sannleikurinn var, að þó meydómsspjöll hans á Maríu guðsmóður þættu gapaleg, þá urðu þó „Breiðablik“ að umtalsefni manna, meðan hann stýrði, hvort sem það þótti nú góð „pólitík“ eða ekki. Ég óska ykkur auðnu með hann. Hann er kynjaður frá Kolgröf, næsta bæ við fæðingarstaðinn minn, og ég man afa hans, ömmu og föðursystur. Svona gamall er ég að verða.

Heyrðu mig, lagsi. Getur þú nú ekki selt sveitungunum nokkra árganga af „Ingólfi“, eina „óbrædda“ blaðinu heima, sem Benedikt Sveinsson, sýslungi þinn að fornu og sonur Sveins heitins „Víkings“, gefur nú út. Ég hefi selt 6 hér. Sem sé, mig langar til að hlynna ögn að, hér vestra, málgögnum þessara fáliða heima, sem beinastir standa í stjórnmálum. Ég hefi ekki verið beðinn um það, en ég veit þeim kæmi það vel og okkur héldi það ögn vakandi fyrir íslenzkum málum að sjá, hvað þeir segja, sem óháðastir eru Dönum og landssjóði. Steingrímur Ísfeld sendi mér kveðju með krökkum og gat um eitthvert örðugt kvæði eftir mig, sem hann hefði verið að glíma við, en þau höfðu gleymt, hvað heitið hefði. Ég gizkaði á, að það væri „Tíundir“ mínar í „Sunnanfara“, og þótti ekki tiltöku-mál, þó torvelt þætti. Satt að segja sendi ég blaðinu það með hálfum hug, af því ritstjórinn bað mig, en ég átti þá ekki annað óprentað fyrir hendi. Ekki svo að skilja, að mér fyndist ég hafa svo illa að verið, heldur hitt: Má bjóða fólki svona? Nú, ritstjórinn varð kvæðinu feginn, þótti það „ágætt“, að hann segir mér, og svo muni fleirum hafa farið. Mér vóru

þetta næstum vonbrigði sjálfum, bjóst við daufum viðtökum. „Hún er á hreyfing“ sagði jafnvel séra Blámaður um jörðina. — Jæja, Jónas minn. Nú skal ég ekki tefja þig lengur frá kosninga-verkinu, óska, að afl ráði atkvæðum á þína hlið, og bið að heilsa Sigríði.

Vinsamlega Stephan G. Stephansson.

*Eggert Jóhannsson.* Markerville, Alta, 17. jan. 1914.

Góði vin. — Það hefir dregizt vonum mínum lengur, að ég nennti að þakka þér jólagjöfina: Bréfin og bæklingana hans Tolstojs gamla. En alúðarþökk fyrir þá glaðning. Ekki hefi ég lesið hann upp enn. Ég hefi vanalega fleiri bækur í takinu í senn, skipti um, þegar ég þreytist á einu, og það ágerist heldur, að halda ekki ið sama út til lengdar. Það er víst eitt af lúamerkjunum. Furðanlega kreddu-stirfinn — „dogmatiskur“ — hefir Tolstoj verið. Það kemur greinilegast fram í ádeilu hans á Zola. Bæði hann og Tolstoj eru að strekkja að sama markinu af alhuga og öllum vilja, sem sé betra heimi hér á jörð, en Tolstoj verður nærri skömmóttur, af því Zola hyggur, að þar verði vitið drýgst, en Tolstoj trúir á trúna sína, og þó er honum svo ljóst á öðrum stað, að trú án vits sé botnleysa.

Að ég kom ekki fyrr til þín skrifandi, var af því, að þessar hátíðir verða jafnan nokkuð næðislitlar, en upp úr nýári taka hér æfinlega við sveitakosningar, skóla- og vega-héraðs, og þó ég hlífi mér nú orðið allt sem ég get við öllu því stússi, lendi ég æfinlega ögn í því, þó ekki sé nema að vera kjörstjóri, en talsvert staut við allt þess háttar. Tíð enn sú bezta. Föl á jörð, svo slæðast má með létti-sleða. Sólskin og stilla. Síðasta Calgary-blað segir ótíð hjá ykkur. Hefir eftir upprennandi glæpamálaskörung sínum, Eaton lögmanni, nýkomnum frá Vancouver. Ég legg lítinn trúnað á. Málafylgjumaðurinn og gumbæjar-blaðið eru vara-söm frétta-foreldri. — Óska þér og þínum allrar ársældar.

Vinsamlegast S. G. S.

*Jón Jónsson frá Sleðbrjót.* Markerville, Alta, 18. jan. 1914.

Gleðilegt ár. — Nú kem ég að efna, að senda þér línu seinna. En meðan ég man, og oft hefi ég ætlað áður að muna

það: Raun er, hversu gigtin gengur að þér, Jón, einkum af því, að nú er til bóta-von betri en áður, gæti maður sætt henni. Fyrir 20 árum las ég einhvers staðar grein eftir enskan lækni, þess efnis, að sjálfsagt mætti bræða upp söltin, sem valda liðagigt, jafnvel lækna ýmsar taugaveiklanir, væri hægt að setja skrokk manns skemmdalaust af bruna í 300 stiga hita, minnst, og það fengist með því, ef upp yrði fundinn ofn svo heitur af rakalausu lofti. Mér fannst þá ég skilja og trúa. Svo heyrði ég og sá auglýsta ofna fyrir liðamót, hné, olnboga, sem áttu að gera þetta, nokkrum árum seinna, en allt var það víst gum. Nú í nokkurn tíma hefir stofnun staðið í Calgary, og nú byrjuð í Edmonton, „Bökunarofn líkamans“ — The Human Bake Oven. — Engin svik eru það, að þar eru læknaðir gigt- og tauga-kvillar, svo furðu sætir stundum. Maður er hitaður frá 300 til 500 stig í þessum ofni, skaðalaust og notalega, nuddaður, rafmagnaður o. s. frv. Læknarnir aðeins taugafræðingar Mánaðarlækning, ef alls þessa þarf við, kringum $ 150.00, auk fæðis og hýsingar. Ég veit, að þetta er ekki fals, af reynslu manna kringum mig. T. d. tengdadóttir mín var gerð þar góð af taugaveiklun, að minnsta kosti um sinn, en læknir vanalegur gat ekki aðgert. Önnur grannkona mín hér, eyðilögð og læknum ólæknandi af taugabilun — móðursýki — fékk þar heilsubót. Þó hygg ég, að þetta sé vissast við gigt. Ekki að ég haldi lækning þessa almáttuga, en hún er ekki vonleysa og er skynsamleg. Ég vildi segja þér frá þessu, væri svona tilraunastofnun nálægt þér, eða yrði, t. d. í Wpg. En svo kannske veiztu þetta allt, og mér betur. Langt til Calgary frá þér. Hagi þína þekki ég ekki, býzt heldur við þeir séu eins og mínir, af skornum skammti, eins og Agúr sálugi bað um, þó nafnið hans sé samt uppi með sinni bæn, en ríkismannanna flest gleymd, og Nabals mætti eins vel vera það líka, sjálfs hans vegna, eins og menn skilja orðstírinn hans.

Loftskeyta-stöðvar-brugg Hafsteins finnst mér eitt hið stórminnkunarlegasta af smámennsku-ráðlagi hans, segi „Ingi“ og „Ísa“ satt. Er ekki „sjálfstæðið“ að græða, þrátt fyrir allt? Jafnvel Þéttleifur Thomsen orðinn Íslandsmála-skörungur í Höfn og Noregi. Þú munt nú vita betur en ég um mæðu „Milljónafélagsins“ og fótaferð Thors Jensens.

Nei, aldrei á ég samsuður með „conservativskum“ hugsunarhætti, hvernig sem veltist. Frjálslyndið er auðvitað ekki

nema skepnur, sem eru að fá sjón, en ég þoli þær þó heldur. Afturhaldið er dýr frá öðrum jarðöldrum, eins og t. d. eðlur, aðeins til óþverra nú, að mér finnst. Ég meina ekki persónur, en flokksandann.

Fyrirgefðu, að ég staulast til þín á „meirimanna“ pappír. Hann var jólagjöf frá lítt þekktum vin.

Vinsamlegast S. G. S.

*Jónas Hall.* Markerville, Alta, 6. febrúar 1914.

Góði vin. — Þú munt eiga bréf hjá mér. Ég skal segja þér það, mér datt í hug að gera ekki þetta bréf lengra en fyrstu hálfa aðra línuna. Ég vissi ekki, hvað ég ætlaði að taka í framhaldið, sökum fréttaleysis. Hér er nú kalt og snjóugt sem stendur, en það kemur ekkert við þig, og svo var tíðin hér makalaust góð fram um miðjan næstl. mánuð, og batnar einhvern tíma aftur. Nú kváðu Kristinn og Lauga tala um að koma aftur í júlí næstkomandi. Nú skrifast ég ekki á við neinn í Wpg. og veit ekki um höfuðtungla ganginn þar, en sé, að únitarar eru að reyna að kjá framan í Tjaldbúðaræskuna. Mér hefir lengi sýnzt hjónasvipur með þeim unglingum, Únitara og Nýguðfræði. Jafnvel séra Birni sýndist það í Moldviðri, og Jón Helgason á örðugt með hann þar, þó hann hýði hann miskunarlaust alls staðar annars staðar. Annars er nú J. H. skemmtilegastur af þeim öllum (því Haraldur Níelsson er væminn). Hann er fluglærður í allri flækjunni og kann upp á sínar tíu fingur allar kreddur sínar og annarra, og dregur ekki af titlunum við hina, sem lítið sem ekkert kunna, eins og t. d. séra Björn. Hann er ágætiskarl orðinn, á sína vísu.

Mikið hefir „Kringla“ batnað með bullið, en — Hafsteinskan og Roblinskan eru ekki að mínu skapi. Ef skólaskyldu-lög liberala gjöra litla endurbót á skólum, þá batar skóla-samsteypa conservatíva enn minna. Í strjálbyggð og óvegum gerir hún illt verra og dýpkar dýpið milli barna og heimilis, hvar sem hún kemst á, og það djúp er oft djúpt með eldra laginu. Annars óska ég „Kringlu“ alls ins bezta og vitrasta. — Heyrðu, Jonni gat þess, að ef til vill kæmi hann og Gudda að sumri. Þið Sigga ættuð að staulast með. Krist. verður þá kannske kominn heim og hefir margt að segja af viðureign

sinni við beinhákarla og tinda-bikkjur í vesturhöfunum. Það gæti orðið skemmtilegt að flýja til hans hérna rétt yfir um ána, gangandi yfir mörg þúsund dollara stálbrú, þegar ykkur leiddist að vera hjá Stebba. Ekki svo að skilja, að ég sé að bjóða til rausnar viðtöku, því nú á ég sjálfur ekki nema tvær beljur, en ekki skylduð þið samt vera að koma með kú með ykkur.

Þorsteinn Erlingsson sendi mér „Eiðinn“ sinn, og þessa vísu skrifaða á titilblaðið:

Gott er af þínu að þarfnast fjár,
Þær væru og betur valdar
Álnirnar mínar þessar þrjár,
Því að ég held ég liggi skár,
Þar sem ég veit þær verða ekki eftirtaldar.

Því svaraði ég með stökunum, sem þú hefir kannske lesið í „Lögbergi“. Svo held ég sé óhætt að fara að óska ykkur öllum „gleðilegs nýárs“, þegar bölvaðasti hluti þess, veturinn, fer bráðum að styttast. Það er eins og að það líti þá svo út, að maður eigi skemmra til bænheyrslu.

Með vinsemd Stephan G.

*Jónas Hall.* Markerville, Alta, 15. febr. 1914.

Jónas minn góður. — Það hafa „staðizt á strokkur og mjaltir“ hjá okkur nú með bréfin. Ég var nýbúinn að senda þér línu, og nú kom bréf frá þér. Við höfum verið *að samtímis.*

Af því þig vantar í beinustu leið til Kristins töluna á bréfavasanum hans, þá kem ég nú strax með þennan eftirmála, sem annars hefði enginn orðið. Pósthólf Kristins í Prince Rupert er *773*. Reyndar er það nú gamla holan félaga Kristins, Þorsteins (sáluhjálparhertoga, sem var) Davíðssonar, bróður bóndalausu-Rænku frá Montana og Alberta, sem mjög hefir kveðið við í „Kringlu“ sem Miss R. J. Davíðsson. — Sumarblíða í gær og morgun. Viðraði kalt og hríðasamt, nokkuð köflótt upp úr nýári. Frost orðið kannske frá 36 til 40 stig, snjófall 12 til 16 þuml. að dýpt. Jóh. Einarss. skrifar mér aldrei annað en skensvísur sínar, við og við. Hann er laglega hagorður, einkum á það, eins og Konráð, móður-bróðir hans.

Um meinsemd Nönnu veit ég — botnlanga-bólga. Hafði beztu aðhjúkrun íslenzkrar stúlku, lærðrar línkindar (nurse), dóttur Finnboga gamla Erlendssonar. Ekki „dámaði“ mér, þegar ég sá, að „Lögrétta“ og heimastjórnar-hneisan fór að gera óvild úr grein séra Friðriks um fjármálarázkið þeirra sumra heima, góðgjörn og viðeigandi eins og sú grein var. En „Lögrétta“ er: „Þjófavernd og skjólið hvinna“, eins og skáldið sagði um sinnar tíðar flokk einn forðum. Það var eitt orð misritað í kvæðinu og olli sama skilningsleysinu en náttúrlegra en fisið, sem varð að lestrarmerki í bók latínu-kennarans, dæmisagan, sem Bjarni amtm. Thorsteinsson setti saman yfir latínu-Gísla Magnússon gamla skólakennara.

Vertu nú sæll, þú sérð, frá hverjum þetta er.

*Baldur Sveinsson.* Markerville, Alta, 2. marz 1914.

Góði vin, Baldur. — Þökk fyrir bókina: „Hrannir“ E. B's., komnar fyrir þremur dögum síðan. Hvorki átti ég hana áður né hafði séð. Hefði þó náð mér í hana einhvern tíma. Nú er það orðið.

Ágætis kvæði eru til í „Hrönnum“: „Svanurinn“, „Ólafsríma“, á sinn hátt, þó hún sé of rekin til að njóta sín til kveldkvæða, eins og E. ætlast til, o. fl. o. fl. gott. Aftur ofhasar *jafnvel mig* af torfi, smekkleysum og jafnvel vitleysum E's einstaka sinnum, — og guðspeki tilgerð hans.

Ef þú sérð „Lögberg“, sem „Kvæða-Keli í musterinu“ stendur í, þá kvað ég það að „Hranna“-lesturs-lokum.

Er von til þú verðir ritstjóri „Lögb.“ eftir Stefán? Hefi löngu hlerað það, Þetta verður svo ekki lengra, bara með þökk og vinsemd.

Stephan G. Stephansson.

*Jón Jónsson frá Sleðbrjót.* Markerville, Alta, 6. marz 1914.

Góðvinur. — Nei, ég hefði ekki tekið þessa sögu fyrir „grímuklætt hól“ um sjálfan þig, þó þú hefðir ekki á það minnzt, að svo væri ekki. En ég skil, því þú sagðir mér það, og vel sé Þorsteini fyrir, að hann sagði þér frá þessu. En það var býsna auðvelt að láta sér detta þetta í hug, þeim sem vildi segja vin og góðum dreng gleðitíðindi. Ég brosti að svari

þínu viðvíkjandi ágóðaleysinu í að gera við gamla skrokkinn á þér. Ég fann, að ég hefði, ef til vill, svarað líku sjálfur. En, heyrðu, Jón, „þeir ljúga báðir, held ég megi segja", sagði Páll um sálarfræðingana sína. Og ég er viss, að réttari okkur var eldri Gröndal í þessu: „Hvað er líf án heilsu? Nauðir. Hverju lengst er bjargað? Féri, / Meðan tíminn mæðusamur, / Manni daga-skeiðið spannar. / Þannig mökum hans að hlynna / Hirða flestir baga-stirðu, / Að þeim tíðin efri leiðist, / Eða slítist þrautalítið".

Almanakið hafði ég séð og þig þar, en ég held ég hafi „skemmdan smekk", eins og konan sagði um tengdaföður sinn, sem heldur vildi lesa sögur Dumas en Zola, mér þykir höfuðið ekki nauðaljótt, en ætti víst að þykja það, hefði ég almennilegt vit. Saga þín er þar laglega sögð, en of stutt, nema fyrir „Almanak". Málaferlum þínum var ég búinn að gleyma, eða vissi aldrei. Hitt óraði mig í aðaldráttunum.

Ég sé ekki betur en þú hafir kvatt séra Einar þinn að maklegleikum. Borðaðu nú vel og lestu bænir þínar, Jón minn. Það er ekki að vita, hvenær þú kemst til þess næst. Nú ætla ég að skrifa þér bók — ekki bréf.

Ég hefi nýlesið „Hrannir" E. B. Vinur vísnanna minna sendi mér þær nú fyrir 3—4 dögum að heiman. Annars hefði enn dregizt nokkuð, að ég hefði þær undir hendi. Lengi mat ég kveðskap E's mikils og geri það enn, en ég játa, að hann hefir ögn brugðizt mínum vonum. Það, sem mér fyrrum fundust lýti, en hélt, að eltist af, hefir sumt ágerzt. Dómar „Matta" og dr. Guðmundar gætu verið ritaðir án skilnings og án þess að lesa annað en kvæða-nöfnin aftan við, svo lítið festa þeir reyndar fingur lesarans á kvæða-kostunum, nema í yfirvarps orðtækjum. Dr. Jón (Forni) gekk þar greinilegast og maklegast frá því, sem hann átti við: „Ólafsrímu". Ég hafði lesið „Lárviðinn" um E. og mig. Honum finnast við líkir að öðru en þeim gæfumun, að E. er menntamaðurinn, eins og auðvitað er, og það ræður niðurlögum. Sannleikurinn er: Sé E. sama og kvæðin hans, eða ef um *þau* er talað, þá er stefna og búningur hans og minna víða andstæður. Aftur eru „andastefnur" þeirra menntamannanna M. og E. oft náskyldar, einkanlega guðspeki-fjálgleikinn, og auðæfa-undrunin svipuð hjá báðum og ástríðan að hjúfra sig um vald og tízku þá, sem þeim finnst, að helzt ráði í heldra hugsunarhætti, og að

því, sem sé mannsmót á. Ég veit, að þarna er ég ruddinn ólistfengi, á þeirra vísu. Mannkynið er á leiðinni frá svipheimum annarrar veraldar til jarðarinnar aftur. „Það má gera jörðina að betri og sælli Eden en þeirri, sem nokkurn miðaldaguðfræðing hefir dreymt um", sagði „virkilegasti" og þekkingarmesti aflafræðingurinn okkar í bréfi til mín nýlega. Lengi hefir mér fundizt ég vita þetta, og hitt, að sanngirnin myndi sigra. Svona Eden varð mér nóg. Hin þarfleysa í bráðina, svo ég fór *allur* með hugann í tíma-eilífðina hérna niðri, og læt svo hin skáldin gufuhvolfast upp og ofan. Þetta vitum við hvor um annan, og M. þykir mannaþefurinn í helli sínum betri af E. en mér, eins og er. Sama er á öðrum svæðum, ég veit, ég er ófyrirleitnastur og ana beïnast áfram, jafnt alls staðar, fer sízt af þeim með listina: að slá úr og í, jafnvel við eigin þægindi, í boði eða eftir-æskt. Einar segist: „Skynja yfir skærur báls og hnífs og skyggnast inn á þröskuld annars lífs" og „hefja til guðs síns" í „Njólubaugar", en sá guð er orðleikur einn, því hann kveður til ástar sinnar á íslenzku máli og ljóði. „Annað líf" hans sést hvað er í „Dagurinn mikli": „Hann var ekkert sjálfur — Einstaklings veran, örend og kvik, á að hjaðna sem bóla og ryk". Við „Unni" segir hann, „hún trúi á afls og kærleiks og fegurðar þrenning", og er svo að særa hana til að fara lengra og „játa, almáttka, skapandi, fórnandi þrenning". Hver er munurinn? Hví þetta trúar fimbulfamb? Villuljós fornra orðtækja um það, sem er *ekki*, eða allt annað en undir yfirskini liggur. Af því E. þykir svo andríkur listamaður, spyr ég sjálfan mig: Er það nú reyndar list að grugga svona lækinn? Af því ég minntist á „Unni", vil ég geta þess, að mér er vel til hennar. Þó er það hlægilegt heimsku-gum, að hún sé „fyrsti gróður vors nýjasta skóla". Hún er æfintýra-skáldið, hálfsystir Þ. Erl. í kveðskapnum, og sá „skólinn" mun elztur. Einar (frá mínu sjónarmiði) er svo aðdáull við aðalsmennskuna, auð og yfirgang, að hann lýtir „Egil Skallagrímsson", sem er gott kvæði, með þessu: „Að *gifta* hins stærra er frelsi hins smærra, að þúsund líf þarf í eins manns auð". Lík hugsun gengur gegnum öll þessi stórvirkja kvæði hans, þó ögn slái út í, kemst hann þar þó bezt í höfn. Ég trúi nú einmitt öfugt, því: „Að *frelsi* hins smærra sé gifta hins stærra", og Egill trúði engu um þetta, bjó bara „að sinnar aldar sið". „Spánarvín" núna er bara uppkveðling úr „Skugg-

um“(?) E’s í „Hafblik“ áður, þessir suðrænna dans-meyja diktar. Séu þau kvæði borin ört að mér, verður mér væmuhætt, ekki svo mjög siðferðislega, en mér finnst þetta flautalist.

Jafnvel *mér* finnst E. hnoða og remba úr hófi fram, ofhlaða samlíkingum, svo ekkert kemst áfram. Mál hans er útlenzku-keimað „miðalda“-málið okkar, en ákaflega samsett, og sjaldan glæsilegt, hvorki orðsnilldin forna né málmýktin nýja. En það er víða hugsanaheilt og ætíð einkennilegt. „Djöfladans“ er óbóta-kvæði E’s að rembing í rími og efni, og er illa farið, því nú verður það gagnslaus, en þó verðskulduð ádeila. Þetta á að vera Árna Garborgar áhlaup á pólitíska lítilmennsku og lævísi. En, annað eins og þetta: „Ó, rófuhnallur, ó, roðsnáði hnaus, spyr ríki og kirkja — Hvað álítur fógetinn?“ Ég er mest hissa, hvað E. kúgar allt sífellt saman í tíma og ótíma, því ég hefi ekki móti *allri* kúgun, æ og æfinlega. Hún er stundum list, eftir atviki. E. veit þetta sjálfur, því það er undiraldan í kvæðinu „Gamalt lag“. Eitt gengur eins og leyniteygill gegnum rit E’s nú orðið: „Glatað líf“. Ég hefi óhug á því, svona þrátt endurteknu, eins og dansmeyjunum á Ítalíu og á Spáni. „Pundið“ í „Hrönnum“ er einkennis-kvæðið á þessu, svo skýtur því víða upp, þegar minnst varir, og er „Strætapentarinn“ í „Skírni“ ein áréttan í söguformi.

Láttu þér samt ekki detta í hug, að ég sé að amast við E., öðru nær. „Svanurinn“, „Ólafsríma“ á sinn hátt (hún nær ekki því marki, sem E. ætlaði henni, að verða þjóðkveðandi, hún er ofrekin til þess), „Draumur Þorst. á Borg“, „Egill“ o. fl. o. fl., eru nærri galla-laus, og það er stórt, þegar um ágætis kvæði er dæmt. Meira að segja: Í öllu er eitthvert gull af hugsun. En, Jón, ég er að sýna þér, hve ólíkir við séum, fyrst „Matti“ lagði okkur saman á metin, og af því þú hefir gaman af að tala um svona mál. En einu kvíði ég, að hafa ekki orðað þetta ljóst. Ég tala aldrei um listamennsku né speki við neinn, hefi engan við, sem hefir gaum til að gefa því. En, svo hefi ég mínar þegjandi sérvizkur um þetta allt, hugboð og tilfinningu, sem mér er skýr, en hefi aldrei orðum klætt. Því býst ég við, ég reki tær í þúfur við að gera mig greinilegan. Sú veit ég og er ásteytan, ef orðfæri mitt er myrkt í kvæði, en ekki, að þar komi tilgerð til.

Einu sinni sem oftar var ég að karpa um Íslands-stjórn

við vin minn. Ég fylgdi frelsinu og vonunum, þá eins og nú. Hann var afturhalds- og ófarnaðar-megin, ekki af því hann væri Hafsteins-liði og vana-dýrkari, heldur af vonleysi um allt. Einar Hjörleifsson barst í tal, þá góður sjálfstæðismaður. „E. H.“, sagði hann, „kúfvendir, þegar minnst varir, hann er gerður til að vera „lakaj“ — skósveinn — og verður aldrei annað“. Ég bar ekki á móti þessu, þóttist vita þetta satt upp á hann E. af minni þekking. Hitt tók ég fram, að E. H. ætti þá kosti, sem góðu máli væri lið í, meðan hann tylldi hjá því, og því mættum við ekki af honum stela, sökum hins. Þar að auki væri frelsi og framför svo farið, að sá, sem einu sinni hefði lagt því gott lið, gæti jafnvel aldrei þurrkað alveg út sín eigin áhrif, hann ætti allténd ögn inni, hversu sem hann níddist á seinna. Nú, í mínum augum er E. H. alls staðar „skósveinn“, sem blaðamaður, sem skáld. En, jafnvel sem „skósveinn“ vinnur hann stundum happa-strik, t. d. „Lénharð“. Dómur R. P. um hann var það, sem þú segir: fremur kæringur en alvara. En, með öðrum orðum, hafði R. P. góða athugun að gera. Ég skil málið svona: R. Campbell, átrúnaðargoð nýguðfræðinga og E. H's. einkanlega, stakk upp á því, „að jafnvel ódæði glæpamannsins væri leitun og leið til guðs“. Hugsunin var sú. Þetta er rökrétt frá trú á gæzku-guð almáttugan, sem alla gerir hólpna. Þetta er gamli „Kalvínismusinn“, sá helmingurinn, sem minnst var um rifizt, en enn lifir. Hinn tvíburinn er dáinn. Hitt er annað mál, að hafi réttlæting af trú ögn svæft samvizkuna og breikkað þrönga veginn, gerir þessi það ekki miður. Svo er hún postulum sínum næsta örðug, gefur gamaltrúnni höggfæri, ósanngjarnt auðvitað, en hveimleitt: Hún segir trúuðum hugsunarleysingjum, að þarna sé kennt, „að guð sé syndugur“. En hvað um það. Séra Friðr. fór að tæpa á þessu í „Brbl.“, en hætti fljótt. Lét seinna getið, að hann væri ekki Campbell í öllu samþykkur, án þess að skýrskota hvar. En E. H. tók ástfóstri við þessa hugsun, hún liggur til grundvallar fyrir dauðadægrum Þorbjarnar og Sigurbjargar í „Gulli“, fyrir þessu „sakramenti“ Lénharðs í leikritinu, og eitt eða fleiri æfintýri E. hafa þetta að kjarna. Hvað sem öðru líður, ég er fyrir mitt leyti þreyttur á þrámælginni, þetta sama upp aftur er svo hugsanasnautt. Mér finnst „Lénharður“ jafnbezt rit E's, en finnst lipra, en síður gagnorða skáldsögu-málið hans, sem á ritinu er, varla samboðið

stórhug efnisins, þykir fremur loddaraskapur en list í þessum sífelldu innskotum á Freysteini. Gert fyrir fíflahlátra. Og um leikslokin veiztu, hvað mér finnst. Ekki hefi ég enn lesið „Úr ýmsum áttum“ eftir E. Veit því ekki um „Anderson“ annað en það, sem úr honum hefir verið sagt. En svo er það orðið mikið. Mér finnst ritdómur séra Friðr. bera með sér, að verið væri að lauma meiri mör í blóðið. Ég hefi oft séð það gert, en engan betur hafa en Jóa Sólmundarson í „Baldri“ forðum, um kvæði Sigf. Benediktssonar. Sú snilld var mér ánægja, hvað sem málstað leið. Annars held ég, að bæði ritdómur R. P. og orðin, sem hann hafði eftir bréfi mínu, um að mér þættu íslenzku lausamáls-skáldin lántökugjörn, hafi sett séra F. svona á stað. En hann hefir óviljandi gert E. H. bjarnargreiða, eigi dómurinn að draga af honum „innstreymið“. Friðrik gerir sér fyrirhöfn að líkja E. saman við Mrs. Humphrey-Ward, auðvitað gáfaða trúmála dægraflugu einu sinni, nú í mörgu afturhalds-kerlingu. Og svo fer hann langt, að bera Churchill og E. saman: Að sýna, að þeir noti sömu orðin, og þó er eftir að sjá, hver endingar-garpur Churchill verður, þó nú sé hann sjálfsagt tízku-auglýsing. Mér finnst hér, satt að segja, meira kapp en forsjá.

Ég held nú, Jón minn, að þér fari að finnast ég vilja gerast eins konar Ísmael meðal íslenzku skáldanna, vilji olnbogaskota þá alla. Þó er það ekki svo. Mér er kærast að fara mínu þegjandi fram. Ef ég segi, verður það eins og ég hugsa, rangt eða rétt. Mér er hálfleitt stundum, finnst sumt í íslenzkum kveðskap (þetta höltur t. d. aftur og fram á utanlands þytum, um trú og þjóðmál) lýsa sýktum hugsunarhætti, sem ætti að deyja út með Matthíasi. Þetta finnst mér, þrátt fyrir margt ágætt. Eitt með mörgu fleira, sem mer þykir vænst um Þ. E. fyrir, er það, að kvæði hans eru öll söm við sig. Hann fálmar minnst með lund sína og stefnur.

Einu gleymdi ég, skyldi „Matti“ hafa lesið og skilið „Svartaskóla“ E. B., sem er eitt af góðu kvæðunum, þetta t. d.: „Nái vekja af sæ og haug, særa eigin sál og gremja, seið við hjartans altar fremja“ ... Ég segi þetta svona, því þetta á við anda-sýningu, og er full „menntuð“.

Það, sem þú sagðir um séra Friðr., er bæði sanngjarnt og maklegt, hversu sem látið er. Ég, sem þekki hann vel, veit, að hann, að náttúrufari, á ekki mjög létt með að baka sér

óvild og fyrirlitning þeirra, sem helztir þykjast aðalsmenn, og voru þar að auki vinir hans og hólsmenn. Honum er eðlilegra að koma því fram, sem hann ætlar sér, með lagi en styrjöld. Þar að auki átti hann að baki sér þann stefnuferil í kirkjumálum, sem varð honum að brigsli við fráhvarfið. Taki maður þetta til greina, þá sér öll sanngirni, hversu dýr honum hefir orðið þessi siðferðislegi sigur sinn. Hann hefir ekki tekið út vöxtinn með sæ̃ldinni, þó hann sé meira virði í sjálfu sér en allt þetta. Ég veit þetta og virði. Við séra F. þekkjumst vel. Höfum í ýmsu átt, en aldrei í illsku, ekki á mína hlið, það veit ég víst. Nú, ég held ég hafi verið svo heppinn að verða fyrri til að tala opinberlega ögn hlýtt til hans, þegar á honum stóðu öll járn. Ég eignaðist krakka, ótilætlað af mér, eins og gengur, hér um árið. Það var kverið „Á ferð og flugi“. Einar Hjörl. gat þess í „Ísaf.“ meira en vel við sæmandi fyrir mig að vísu, en kuldinn til höf. var auðskilinn útúrdúr. Séra Friðr. gat kversins í „Aldamótum“, og að sumu hlýlegar en E., þó mér fyndist þar tilraun gerð, í anda E's, að fæla fólk við mig og kverið. Einhverjir vinir mínir tóku þar þykkju upp, en verst var hitt, þeir stöguðust helzt á orðtæki hans einu, sem hann, rétt skilinn, sagði mér fremur til hróss en lasts. Þessu var slett til hans í blöðum. Hann var þá orðinn ófriðhelgur. Yfir „Vafurloga“ dundu ónot úr öllum áttum. Þeir eru auðvitað mislit bók, fyrirlestrar hans á undan og eftir áttaskiptunum í trú hans. Með öðru var honum enn brugðið um þessa sömu áreitni, sem hann átti að hafa gert mér. Mér þótti ódrengilegt að þegja. Notaði svo þetta til að rita langa grein í „Baldur“ — blað Jóh. Sólm.s. á Gimli, sem Einar Ólafsson stýrði þá. — Greinina kallaði ég „Í veðrinu út úr Vafurlogum“. Mér fannst sízt sitja á frjálslyndum mönnum að veitast líka að honum nú. Ég reyndi sem ég orkaði að benda á gott í „Vafurlogum“, bera fyrri skoðanir séra F. í bætifláka, leiðrétta sletturnar um víg hans á mér og glettist ögn við hann og Einar út af ritdómunum gömlu. Ritstjóri „Baldurs“ tók greinina af mér, en eitthvað sér um geð, og óþörf mun sumum frjálslyndum vinum mínum hafa þótt hún. Ég bjóst við því fyrir fram, en stillti mig ekki vegna þess. Séra F. var þá enn svo flokksreglusamur að ganga blöð únitara á bug, sem hann sæi þau ekki, lét þau víst ekki inn. En ég vildi helzt koma fram í þeim, til reynslu, að sljákka í.

En Tjaldbúðarmaður einn, Bárður Sigurðsson, las „Baldur“, labbaði með grein mína til séra F., að hann hefir sagt mér (séra F. sjálfur), sem þá skrifaði mér strax hlýlegt þakkarbréf fyrir frammistöðuna, jafnt fyrir það, þó honum félli miður ein lítil glettni mín. Svona var þessi gamla saga. Fyrirgefðu, að ég mæddi þig á henni. Ég gat ekki stillt mig, þú „lást svo vel undir höggið“.

Á „Eiðinn“, sem Þ. E. sendi mér, skrifaði hann þetta:

Gott er af þínu að þarfnast fjár —
Þær væru og betur valdar
Álnirnar mínar þessar þrjár,
Því að ég held ég liggi skár
Þar sem ég veit þær verða ekki eftirtaldar.

Sama og þér. Um þetta, sem heim var sent, skrifaði hann mér: „Ykkur gat ekki grunað, hvílíkum áhyggjum þetta velti af okkur í bráð. Eigum nú víst að geta greitt tvær afborganir í húsinu okkar“. Nú er ég í vandræðum, að sjá engin ráð, svo hann geti eignazt húsið. Mér finnst eins og hann muni hafa það skap, að honum þætti þó: ögn sælli sultur undir sjálfsþaki. En svo láta þeir hann lifa, þó landssjóður lokist. En mikil óhamingja er sér íslenzka góðgerðasemin við þá, sem mannkaup er í. Þeim er hún verst. Ræflunum vill hún bjarga, þjótandi, svo eru henni mislagðar miskunnar hendur. Hvenær skyldi séra Rögnv. efna ritdóms-loforðin um „Eiðinn“? Og nú skal ég segja þér sögu, Jón: Þú hefir þarna það lengsta, sem ég hefi nokkru sinni sagt um kveðskap annarra, í bréfi eða munnlega, eða það, hvert ég vildi stefna í ljóðunum. Nógir eru samt dómarar í Ísrael. En ég sá það einhvern tíma í grein eftir þig, að þér hefði staðið á sama, þó ég hefði flækzt norður á Siglunes, árið sem ég gekk um með kvæðin í vasanum þarna eystra, en ég var þá öfugt niður raðaður til þess. En síðar hefir mér fundizt ég skulda þér einnar kveldvöku rabb, og þarna hefir þú það, *um það, sem þú hefir gaman að ræða (væri við mann að eiga)*, og því gerðist ég nú kjafta-kind. Mér finnst þú vilja líka líta frjálst og sanngjarnt á öll mál jafnt, og manndýrkunarlaust, en það skortir mjög í þessu „mennta“ landi. Við erum flestir frjálslyndir bara í annan endann.

Veðrið er að batna. Bráðum búnir að mærða út þennan veturinn. Þökk fyrir skemmtunina, og gleðilegt sumar.

Vinsamlegast Stephan G.

*Baldur Sveinsson.* Markerville, Alta, 11. apríl 1914.

Góði vinur. — Fyrir „Hrannir“ hefi ég þakkað þér með línu, sent þér opinn seðil sem borgun upp í bréfið, og kem nú á einni örk til uppfyllingar. Ekki að ég sé nú að telja svona upp til að láta þig sjá, hversu vel ég launi fyrir mig, o-nei, það er heldur hitt: Ég er að telja fram, svo við sjáum, hverjar heimturnar eru. Og svo óska ég, að þú eigir ánægju-sumar í vændum!

Nú er nálægt miðdegi hér, en af því að þið stóðuð þar andspænis sólinni og morgninum nokkrum stundum fyrr en við, býst ég við, að hjá ykkur sé kosningin útkljáð um þetta leyti og í kveld viti ýmsir, hvernig glíman gekk víða. Ég skal engu spá, þér finnst ég flaski á því, hvort sem er, og svo yrði ég að bíða eftir vissu um árætingu, kannske meira en 20 daga enn. En ekki skil ég í þeim örlögum, ef ekki hallar heldur á „heimastjórnina“ eða „sambendingana“ nú. Finnst þeir hafi sýnt sig svo vel, og verst af öllu þó sé hin síðasta konungsganga Hafsteins. Það tekur yfir flesta pólitíska þjófabálka, að mér finnst, að ráðherra rangfæri stefnu þings og þjóðar fyrir konungi sínum á opinberum trúnaðarfundi. Hvað sem öðru líður, sýnist mér *öll sök* á því. Auðvitað var uppgjöfin í konungsvald glópska, en allir vita, að hún var í öðru skyni gerð en Hafsteinn sagði vera. Heimsk er sú alþýða, sem ekki kann að misvirða slíkt. Annað styrkir líka þennan grun minn um stjórnar-áfall við kosninguna: Það sem ég hefi síðast séð, þingmannaefnin nefnd til í „Ísafold“, engir í sumum kjördæmum af sambands-hálfu, en margir riðlar í einu aftur í öðrum. Mér sýnist það vottur um ósamtök og þreytu. En, svo sér maður héðan yfirborðið eitt, en ekki djúpið.

Ég hélt ekki, að þið „Ingólfur“ ættuð í væringum, heldur hitt, að þú, ef til vill, ættir atvinnu að sækja undir heimastjórnar-högg fyrir andstæði, og því hefði „Ingólfur“ yfirlýst sakleysi þínu um einhverja grein.

Ekki hallmæli ég þér, þó þú kysir þér þrengri kost heima en álitlegri atvinnu hér. Um efna-muninn á því er ég nú ekki

svo viss. Finnst helzt, að heiminum öllum sé svo „vísdómslega niður raðað“, að sama sé, hvort kaup leiguliðans séu tíu krónur hérna eða tvær þarna, yfir sama tímann, það sem hann eigi eftir sé oftast bara viðurværið. Hið eina, sem mér hálf-hrýs hugur við, er, að nú eru heimastjórnarvinir fyrir báðum blöðunum hér, þeir vinir mínir: Sig. Júl. og séra Rögnv. En falli Hafst., falla þeir, því á *hann* er trúin.

Það er satt, sem þú segir, ég hefi aldrei haft hug til að kaupa mér hylli, sannfæring minni um geð, þó mér hafi sjaldan auðnazt að sýna það í verkinu. Þó skal það játað, að unnt hefði mér verið að kveða vinsælla en ég hefi gert, og hefði ég varið því litla viti, sem ég á, til *þess eins* að vera eignamaður, og ekki séð í aðferðina, þá hefi ég það sjálfsálit, að mér hefði ekki þurft að farnast öllum verr þar heldur. En, „svo bælist hver, sem hann býr um sig“, og um *mig* fór þó bezt svona. Þar amar mér engin eftirsjá í vökulok.

Ég er þér og öllum vinum vísnanna minna þakklátur fyrir að vilja sjá heima hjá ykkur karlinn, sem kvað þær. Slíkt er ekki að berjast til einkis, en það mun þreytandi. En svo er hitt, Baldur, ég er svo ólíkur öllum almennilegum mönnum, mér finnst svo litlu skipta, hvar Íslendingurinn flækist, eða hvar hann ber beinin seinast, hitt alls um vert, að sitja sitt rúm sem góður landi, hvar sem er, meðan uppi heldur, og fyrst ég lenti hérna-megin álsins, hafi minn litli verkahringur verið hér, hafi ég átt af nokkru að taka.

Nú logar hér í trúarbragða óvild milli þeirra, sem um ekkert hafa að rífast, nýguðfræðinga og únitara. Ómögulegt að koma viti fyrir það samkeppnis-æði.

Þú sérð „Kolbeinslag“ mitt í „Kringlu“, vonandi. Ögn stafavillt, en lítið. Ég vildi minnast 300 ára rímnaskálds (Kolbeins sáluga), þegar hinir voru að lofa sálmaskáldið (Hallgr. Péturss.). En ég varð að sníða „Kol“ æði mikið upp, hann var sá hjátrúar-ruddi. Sannleikurinn er samt: Rímnaskáldunum á þjóðin að þakka, ekki síður en sálmaskáldunum. Ég nota mér, að lítið er til um „Kol“ nema munnmæli, og spauga að ýmsu, sem yngra er, og ýmsum mun þykja óþarft.

Konan og ég óskum þér „einum eða báðum“ langs og blíðs sumars.

Vinsamlega S. G. S.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerville, Alta, 13. maí 1914.

Góði vinur. — Þökk fyrir bréfið og fréttirnar. Þótti vænt að vita ögn betur ofan í botninn á þessu. Hafði aðeins heyrt umgangs-sögur á Wpg-götunum, og svo þann grun minn, [að] „Kringla“ væri á langri göngu og stundum ógóðri orðin svo venzluð alls konar mannskemmdum, að hverjum manni væri ofraun að betra hana til muna, þangað til eitthvað töluvert af tengdafóstrunum hennar liðu út af sjálfkrafa. Maklegt væri auðvitað (færir þú frá), að E. H. settist að henni til að tjarga í hana seinustu körinni. Alveg satt sagt, ég hafði alltaf góða *von* um þig, mættir þú njóta þín, jafnvel að þú myndir *úrkonservast* og *af-Hafsteinskast!* — þegar lengra sæirðu fram í söguna. Annars, það gengur næst því að vera stór-skáld, að vera annað hvort læknir eða ritstjóri, ef komast skal í nákynni við lifandi rotnun, líkamlega eða hugarfarslega, eins og hún er, þegar allt færist úr fötunum. En — mikið ógagn vann Darwin bölsýninni þó, þegar honum tókst að sanna einn þátt af framsókninni, af reynslunni. Annars, ég vissi, að sprenging átti að fara fram, hjá ykkur, en *ekki* hvernig hún fór. Ég hafði hlerað, að í hviksögunum vakti það í veðri, að þín væri sökin, sú að hafa gengið á gerða samninga milli Roblin-flokkanna íslenzku, únitara- og Tjaldbúðar-trúuðu, að „Kringla“ léti trúmál hlutlaus. Mér þótti nú vænt um að heyra frá þér sjálfum, hversu allt horfði við. Ekki svo að skilja, að ég vonzkaðist út af hinu. Á marga söguna get ég líka hlustað, jafn ófær að berja hana niður með vissunni eins og að taka hana með trúnni. Ekki komu mér samt þessar sögur frá séra F. B. né hans flokk neinum né þinna félaga hlið, heldur frá hlutlausum manni í þeim málum, en auðvitað úti á innan-flokks-þekjunni. Þú mátt geta nærri, að ég tel það drengskapar-bót að hafa reynt að hylla að S. Thorson (eins góður og gervilegur karl, eins og mér sýndist hann), og hverjum augum ég muni líta á þá rausnar-mennsku, sem lætur eins og Tjaldbúðar-vígslu-dýrðin muni úldna, komi hún ekki út í blaði viku fyrr en seinna. Ég þekki vel, hve svona launklípni er leið, en ég átti oft það, sem ég fékk gefins svo mikið af, græskulausa glettnis-fyrirlitning á svona skapsmunum, að það beit sjaldan á mig.

Er Siggi minn Thorarensen frá? Mér er sárt um karlinn,

jafnvel þótt hann einhvern tíma banaði sér með brennivínsslagi, eins og Hafsteinn þinn kvað um Þórð, og þetta dettur upp úr mér ástæðu- og aðdróttunar-laust. Nú kem ég að „Kolbeinslaginu“. Meðferð ykkar á því var ágæt. Ég sagði þér, að mér þætti svo, strax með leiðréttingunum, að mig minnir, og við það situr. Jú, mín vegna má prenta það sér og með nafni *þá* og „skýringum“ *framan við*. Ég skil og virði vináttuna og velviljann, sem gerir sér ómak um þetta, og þigg það með þökk, en illa félli mér, þyrftir þú að hafa af því mikla fyrirhöfn, og ekki sízt, verðir þú að vinna það í trássi við einhverja, sem um það þykjast eiga að bjóða. Nóg er nú samt. Heldur vildi ég missa sjálfur ofurlítinn eigin hag en auka á úlfúð milli manna.

Ég kvað „Kolbeinslag“ eins vel og ég kunni, eftir þess „eðli og náttúru“. Er ekki óánægður með það. Hefi engu við að bæta. Hróðugastur var ég samt af því, að ég þóttist sjá, að þér hefði þótt heldur hugnun í að fá það í blað þitt. Mér finnst allténd svo bölvað að bregðast alveg vonum vina minna í því, sem mér ætti helzt að vera sjálfrátt um, en hitt gott, ef ég get komizt nærri þeim.

Svo eyði ég ekki meiri tíma fyrir þér né mér í þetta sinn. Mín bíður líka úti-önn, sem að kallar. — Með ósk um sólskin og sumargæði.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Jón Jónsson frá Sleðbrjót.* Markerville, Alta, 7. júní 1914.

Góðvinur. — Tvö bréf „óborguð“ á ég nú þér að þakka. Ég hefi fyrirfarandi haft svo mikið rjátl úti við, að inni hefi ég verið utan við mig og ekki á penna tekið. Annars hefir það löngum verið fylgikona mín, í vinnufæru veðri. Ég hefi mátt til að búa við hana.

Nei, Jón, þú komst engan veginn óheppilega að orði í bréfi þínu, þar sem þú minntist á okkur Einar Ben. Það kom ekki af því, að ég fór að mótmæla orðum Matta um okkur, heldur hinu: Við erum ólíkir, nema ef það ætti að vera í „moldviðrinu“. Um það er ekki að fást.

Enginn hefir víst tekið fram lífsstefnuna í ljóðum mínum eins létt og glöggt og þú í bréfinu, enda hefir mér aldrei fundizt þurfa að þræla viti sínu nein ósköp út til að finna hana.

Ég þykist hvorki hafa verið svo orðvar né dulur á henni. Hitt *var* til: Það kom sér eitt sinn hentuglega við aldarhátt að brýna inn í fólk, að ég væri einkis-meðfæri í að botna, ef ekki vegna „bulls“, þá vegna „ofvizku“, hvaða munur sem á því kann að vera. Á hitt hefi ég samt rekið mig, að réttir og sléttir alþýðumenn hafa lært utan að og skilið hárrétt vísur, sem lærðir rýnendur um þá hluti hafa kvartað um torskilning á, og ég farið að halda, að nokkuð af nauðinu um það væri lygi eða látalæti. En satt að segja, ég hefi miklu meira gaman en áhyggjur út af því, hvernig um ruglið mitt er dæmt. Veit, að ég bauð það eitt, sem ég átti skást til.

Ég fór eins og þú, hafði gert mér skrá yfir flokks-mörkin á þingmanna-efnunum heima, meðan fréttir voru að tínast að af kosningunum heima, ég þóttist vita 19 eða 20 sjálfstæðinga kosna, ef stefnutryggð einkis hlekktist nú enn eitthvað á. Ég sé, að „Ísaf.“ telur um 22. Slíkt væri öruggt, nema — við svik í sameinuðu þingi, sem Hafsteins-siðurinn er að komast af á, þó löðurmannlegt sé. En mig grunar hitt: Stjórnarflokkurinn sótti ekki fast þessar kosningar til eins þings. Treystu á, að glappaskot verði gerð af hinum, sem vænleg verði sér til sigurs næst. Þykjast hafa gengið svo frá stjórnarskránni með konungs-ákvæðinu sæla, að setja meiri-hluta þessa þings milli tveggja óvinsælda: að falla eða ganga í snöru. Svona hugsa ég mér þetta, en ekki veit ég það. Bezt þykir mér, að mér sýnist gott mannval í meirihlutanum, með bezta móti, verði það atgervi einbeitt. Annað happ held ég það, að Lárus og Valtýr féllu, ekki svo mjög sem þingmenn, heldur sem ráðherra-vonir, ráðherrar í skjóli stefnuleysis, og vandræða-ráðherrar, eins og Hafsteinn hefir orðið og látið sér líka. En fyrir „fallið“ verða þeir nú ekki að vefjast fyrir, svo það er þó tveimur viðsjánum færra. Sveinn Björnsson á álit sitt allt að þakka orðstír sínum fyrir lag og lipurð, fremur en skörungsskap. Samheldni flokksins undir hans stjórn er trúin. Guðm. Hannesson er mitt uppáhald sem framsýnismaðurinn í riti, um hvað á skal stefna til sjálfstæðis og fjárhags, kemur fyrstur og bezt auga á það og ljósustum orðum að því. En hann er grunaður vegna bræðings-kallsins hans forðum, þó ég telji þess afleiðingar góðar, þær urðu til að sýna öllu fólki, sem ekki er blint, hversu mikið traust að var í sjálfum átrúnaðar-goðunum (eins og Hjörleifssonum og Hafstein), og

eyðir skurðgoðatrúnni á þá, ef nokkuð getur. Þeir, sem þekkja þykjast Guðmund, segja hann einráðan og óþolinn við andmæli. Ég er hissa á því, af rithætti hans að dæma, en veit þar hvorki upp né niður. Skrítið er það, mér sýnist B. Kristjánsson mjög vænlegur að sjá, héðan úr fjarlægðinni og ókunnugleikanum. Finnst hann hafa farið vel og hyggjudrjúgt og vaxið af hverju máli, nú hin síðari ár, við slíkan róg og umsetningu sem hann hefir átt við að etja. En á svona færi eins og mínu verður ekki maður á velli séður. Ég veit það. Undarlegt, að enginn nefnir B. frá V. til. Er það af því hann er líklega jafnaðarmaður — „socialisti" — og kannske ekki fjárglöggur? En enginn hefir reynzt sjálfstæðinu dyggari en hann, og enginn í fyrstu rótað upp betur þeirri öldunni, sem „Eimskipafél." fleyttist út á. Jæja, Jón minn, manni hugnast það, sem á hefir saxazt, og býst við einhverju framhaldi, meðan maður bíður frétta um viðburðina. Blöðin segja kosningu ykkar Manitobanna setta fyrir 29. næsta mán., þau ensku. Ekki nenni ég núna út í þá kviðu. Er þér yfir höfuð samþykkur þar, nema að Roblin sé mikilmenni. Hann er vösull dóni, ribbaldi, sjálfsagt ekki „ærulaus", en hvorki gáfaður, góður né stórvirkur, rétt á borð við framgjarnan sveita-böðul.

Við fréttum strax lát séra Jóns. Winnipegingur sendi hraðfrétt. Það væri ekki mitt færi að kveða um hann. Þekkti hann ekki heima fyrir, sem sjálfsagt er sólskinshliðin á þekkingunni á honum. En hvað ég á oft bágt með að samsinna orðstír mannanna. Menn munu halda, að mér baggi óvild, þar sem andstæðisstefnur eigi í hlut. Þó er það ekki. En ég verð að fallast á það eitt, sem mér skilst — eða þegja. Séra Jón var mikilhæfur, enginn efi. En mér er sjálfum efamál, hvort Vestur-Ísl. eiga honum meira gott að þakka eða ógæfu um að kenna, þegar öllu er á botninn hvolft. Hæfileikum sínum varði hann mest til að verja, með nokkuð mislögðum höndum, stefnu í trúmálum, sem enga framtíð á. Menn virða honum það til hreinskilni: nærri götustrákslegan rithátt stundum. Jú, að vísu: Hreinskilni við tekna stefnu, en ekki við heilbrigt vit. Hann er sagður mikill höfundur, „postillan" hans og þýðingin á „Ben Húr" t. d., sem bara var mjög lofuð snöggvast, uppblástur gamalla trúarglæða, sem naut þess, að hún var samin í elli af gömlum trúleysingja. Margt var gott og sérkennilegt í hugvekjum séra Jóns, en þau ljós felast framtíðinni alveg

undir mælikeri steingerðs kenningakerfis, sem fáir kunna að lyfta upp. Séra Jón er dáður fyrir ritmál sitt. Það er æfinlega kjarngott, oft einkennilegt, ber við, að á það rennur listablær, en annað veifið er það ný-norsku-miðaldalegt og þófið, betra en oft gerist, sjaldan snilld. Hann var óefað íslenzkur í húð og hár, lýðfrelsismaður, bókmenntamaður (einkum fornra), drengskaparmaður — sem sé: Hann var mikilhæfur maður, en hæfileikarnir tóku aftur fyrir sig. Nú sérðu, hve illa innrættur ég myndi vera til að kveða eftir svona skilinn samtíðarmann minn.

Ég held Ein. Hjörleifsson verði hvergi tekinn sem einlægur maður framar, nema í því, að hann sé pennafær. Það er algengt, að meðalmennsku ritstjórar og höfundar ganga kaupum og sölum milli matarborðanna, og enginn tekur eiginlega hart á því. Listamenn og leiðtogar mega ekki gera það. Fallið er hærra, því hærra sem afbragðs-orðstírinn er meiri en lofstír lausakaupmannsins. Einar hefir útflæmt sig, að ég held.

Getur þú sagt mér, hvort Sig. Thorarensen á Gimli hefir náð heilsu sinni? „Heimskr." sagði hann hafa fengið hættulegt slag. Hann á bréf hjá mér, en gagnslaust að svara, sé hann rænuveiklaður eftir áfallið, eins og oft verður.

Þurrt og kalt vor. Nú komið regn. Akrar vonum framar. Engi rýr enn. — Svo verð ég að bjóða þér gott kveld og fara.

Vinsaml. Stephan G.

*Jónas Hall.* Markerville, Alta, 27. júní 1914.

Jónas minn góður. — Á laugardagsmorgun, í gær, sendi ég þér umslag með einni vísu. Um nóttina kom póstur minn heim, eftir miðnætti. Í honum var myndaspjaldið. Ég reif upp umslagið, áður en ég fór að smala kúnum um morguninn, sá, frá hverjum það var, skildi, hvernig í því lá, en satt að segja: Ég mundi ekki, hver „Ike" var, eða hvaða embætti hann vildi fá. — En það er sama, þú kastar atkvæðinu mínu fyrir hann, eins fyrir það, þó hann vilji verða „erki-engill", og hefi ég þó alltént haldið það þýðingar-litla stöðu. Meðan ég kvíaði kussur, kvað ég vísuna og „innsiglaði" þér hana strax. En, svo kom bréfið þitt í gærkveldi og útskýrði allt. Þökk fyrir.

Helzta nýung hér er, að Ásmundur Guðmundsson, Wynyarðs-prestlingur, var fenginn hingað af söfnuðinum. Það gekk

þó af með eins atkvæðis herkjum í nefndinni og einni úrsögn úr henni, og einhverjir hafa sagzt aldrei skyldu hlusta á hann. Hann væri ekki „sinn prestur“. Þeir eru mest hræddir við þá „nýju“ hér, sem minnst þekkja, hvað sé nýtt og gamalt. Annars láta þeir vel yfir Ásmundi yfirleitt. Undir einni ræðu hans hefi ég setið. Hún var vel orðfærð, einlægnisleg og látlaust flutt. Ásmundur kom hingað og var nóttina. Hann er unglingur, glaðlegur, góðlegur, greindarlegur og blátt áfram, er fljótur að finna, hvað snjallt er sagt og fyndið, og býr líklega yfir meira en mann kann að gruna fyrst. Hann er svo laus við allt yfirlæti. Ég var hissa, hvað hann var kunnugur „Andvökum“ og hafði tekið rétt eftir, að mér fannst. Hann þakkaði samt Einari Grandy sumt af því. Annars skyldi mig ekki furða, þó hann væri eitthvað til skáldskapar hneigður. Grímur gamli Thomsen var, að ég hygg, náfrændi hans, og *þess konar* getur orðið að ættarmetnaði, eins og margt annað. Annars er Ásmundur þegar á förum til Þýzkalands í vetur að hlusta á Harnack, og svo heim. Eitthvað held ég, að hann eigi að „þjóna“ „Tjaldbúðinni“, meðan Friðrik sýnir séra Jóni Helgasyni ríki nýju-guðfræðinnar hér. Mér þykir grein séra Magn. ykkar í „Breiðabl“, um Rotterdam-Erasmus, með því bezta í blaðinu að ýmsu leyti. — Já, það gekk ekki að allra vilja ljúfum, sem hlut áttu að máli, að séra B. fékk Wpg.-brauðið. Ég vissi, að tveir góðir drengir í þeim hóp voru því móthverfir. Þegar málið var unnið og séra B. þóttist ekki geta sagt af né á, fyrr en hann væri búinn að ráðgast við Guð, söfnuð sinn o. s. frv., sagði annar þeirra við kunningja sinn: „O, helv., að hræsna svona, eftir að vera búinn að gera allt, sem honum var unnt, til að ná því.“ — „Allar erum við breyskar, systur,“ dettur mér í hug, eins og abbadísinni forðum.

Hér er nú rigningartíð, og hefir gengið undanfarið. Ekki held ég, að akrar hafi í annan tíma litið vænlegar út um þetta leyti síðan ég kom hér, hversu sem fer. Suður-Alberta mun samt nokkuð skrælnuð: Macleod-héraðið. — Veslings Sveinbjörnsson, að hætta sér hingað í svona hárri elli. Ég vildi honum gengi vel. Ég held hann sé ekki skilinn enn, sem söngskáld. Finnst það satt, sem söngvitur maður sagði við mig: „Að list hans lægi fyllst í fylgi-röddum hans.“ Það væri alveg íslenzkt að eðli, eins og málið okkar og margar hugsanir, undir-aldan í djúpinu þyngst, þeim sem „eyru hefir til að

heyra“, eða skilning. — Nú, jæja, þið komið þá að ári. Ég skil varla, að þeim þarna hinum megin bráð-liggi svo á okkur þangað, að þeir gætu ekki komizt af án okkar allra eitt eða tvö ár enn. Þeir eiga okkur vísa, hvort sem er. Ekki samt svo að skilja, ég veit, að *ég* er ýmislega að gliðna sundur. Ég ætla að biðja þig að muna að skila kveðju minni til Björns gamla Halldórssonar, ef þið hittizt. Svo biður konan að heilsa ykkur, og ég ykkur og Jonna-fólki og öllum Garðar, nærri því.

Reyndar er sunnudagur, en eins og aðra daga, verð ég að koma kúnum til „messunnar“ og veita svínunum „kveldmáltíð“, og vertu svo blessaður á meðan, og það vildi ég þú kæmist á þing, þú kynnir að geta skemmt fyrir einhverju illu málefni enn.

Vinsamlega Stephan G. Stephansson.

*Jónas Hall.* 27. júní 1914.

— For a Paid for Vote.

Ja, stingdu svo fyrir hann Ísak þinn inn
Þá atkvæði mínu, Jónas minn.
(En — væri ekki *dætranna* vegna
Þá vildi ég Ísaki hegna),
Og hafa vil ég þá helztu —
Ég held þá elztu.

Stephan G. Stephansson.

*Jón Jónsson frá Sleðbrjót.* Markerville, Alta, 6. sept. 1914.

Góði vin. — Þökk fyrir bréfið, og fyrirgefðu þetta seint og illa. Ég er allur á iði af annríki enn, þó sumri sé hallað og verið hafi veðursælt til vinnu. Svo varð ég að fara austur til Wynyard, til að vera þar yfir Íslendingadag, það stal af mér 8 eða 10 dögum, og var ég þó eins tímaspar eins og mér fannst ég mega. Þökk fyrir orð þín um kvæðin mín í „Breiðabl.“ „Við Heljarhlið“ heldur því *einu* fram, að stundlegt líf og endanlegt, lifað til góðs, sé hið eina áhyggju-verða, eftirkeppnislaust um reglur inn í annað líf og þó öllu lífi á öllum stöðum samboðnast. Annars trúi ég ekki á vitundar-líf einstaklingsins eftir dauðann. Ég hugsa mér „annað líf“ hér um bil eins og Maeterlink Belgja-skáld, ef þú hefir lesið ágrip

Bjargar Blöndal í „Skírni“. Ég hafði hugsað svona löngu áður ég las það, en mér til furðu hitti ég þar næstum sjálfan mig, því „spíritistar“ voru, samkvæmt sínum frægra-manna tilseilingum, að státa af því, að M. væri „öndungur“, og mig grunaði ekkert, að þeir lygju *því,* ég þekkti það ekki svo, fyrr en ég las grein Bjargar. Já, „Afmælisnóttin“ mín, Jón minn, ég skil, hví þú klökknaðir við hana, hún hefir komið við sama „snögga blettinn“ á þér, sem hún fletti ofan af á mér, og sem við berum á okkur, margir íslenzkir alþýðumenn, að hafa aldrei náð viti sínu og vilja eins vel niðri eins og maður hélt, að þau næðu til. Séra Friðrik tók kvæðið upp úr „Sunnanfara“, af því ég *bað* hann þess, í fyrsta sinni sem ég hefi haft geð til að biðja nokkurn, að hafa það yfir aftur. En ég vissi, að vestan hafs voru þó til menn, sem aldrei sæju „Sunnanfara“, en vildu vera, eins og þú, „ar í geilunum“, svo ég braut odd af oflæti mínu og baðst afturgöngu, svo þeir vissu, að *ég* vissi það.

Ágæt finnst mér „embættisræða“ Eggerz, sem nú kom í „Lögb.“ nýja. Ég hefi ekkert nema góðar óskir og vonir til hans. Vissi, að sá, sem ég hefði helzt kosið *sjálfur,* var óaðkvæmilegur, en fannst, að B. K. gæti verið flokka-tengsli milli „landvarnar“ og „sjálfstæðis“, og hafa tekizt margt vel og hyggilega, einkum „upp á síðkastið“. Eggerz datt mér ekki einu sinni í hug. Annars líkar mér ágætlega stríðs varúð þingsins og fl. Einu er ég fokreiður út af, frestun þings að þiggja heimflutning Einars Jónssonar og safns hans. „Frestun“ segi ég, af því ég er viss það vinnst seinna. Það var fellt núna, með jöfnum atkvæðum, og flestum beztu mönnum rétthverfu megin, fellt í hefndarskyni af þeim, sem fjárlög vildu fá inn á þetta þing og komast svo sjálfir í bitlinga-hrossa-kaup. Það eru „ó-sköp“, ef Íslendingar láta safn Einars grotna niður um greipar sér af tómri fávizku: Norrænasta listamannsins síns og íslenzkasta. Hér er ekki um landsjóðs-skáldlaun að tala, þó þeir láti E. og safn hans lifa. E. *gefur með sér,* og meira en það. Safn hans borgar sig sjálft með sýningum og eftirmyndasölu, er tímar líða. Annars er það „undarlegur andskoti“, hversu allar þjóðir eru ónæmar fyrir sinni eigin list, gumgjarnar um allt erlent og útlifað. Fyrir nokkru síðan las ég grein í góðu tímariti, um framtíðarmenn líkan-listarinnar (sculpture), sem sé, hversu innantóm hún sé orðin og hvers

nánasta tíð myndi að sjálfsögðu krefjast þar, og — það var einmitt *stefna Einars*, sem genginu var spáð, það skildi ég vel, þó ekki hafi ég íþrótta-vit á myndum, né að nokkurs staðar sæist, að höfundurinn vissi, að Einar væri til. Þessa grein sendi ég kunningja mínum, tímarits-ritstjóra, fór fram á, að hann þýddi hana, benti honum á, hversu nærri okkur lægi þetta, þar sem það alveg hitti á „stíl“ Einars, — en æ-i-nei, hann afsakaði sig, það var „þröngt“ hjá honum af öðru áríðandi, greinin var „þung“ að þýða, og þó var hún svo ljós, að ég held ég hefði getað þó klaufað henni á skiljanlega íslenzku, slíkur þýðinga-viðvaningur sem ég er og snauður allra bóka-bjargráða, sem til þess þurfa. Svona er sinnuleysið alls staðar. Já, Jón minn, þér gremst að sjá góða drengi og framfúsa „gå på Accord med Sletheden“, eins og Repp okkar á að hafa orðað það. Já, ég er nú orðinn því svo hundvanur, og það af mönnum, sem ég hefi mætur á, að ég er hættur að kippa mér upp við það. Býst nú orðið heldur við hinu: að samsinningur minn í því, sem við höfum báðir orðið ásáttir um, að væri satt og rétt og allrar orku vert að bregðast ekki, líti eftir litla stund um öxl til mín, þegar í bakkana hefir slegizt, segist skila mér þessu erindi einum, það sé ekki þreytunnar vert. Þrákelknin megi fyrir sér farga sér á slíku. Dálítið er það að vísu hart aðgöngu, í bili, að standa með sjálfum sér við, að þetta séu nú góðir drengir eftir sem áður, en maður reynir það og tekst það. En þegar rígurinn út af slíkum flokkahlaupum verður svo óhetjulega undirförull, að hann leitar lags við enskinn til að koma landanum fyrir kattarnef, sem hann treystir sér ekki einum saman við að ráða niðurlögum á, þá verður mér auðvitað ögn bilt við, en satt að segja, þegar maður fer að slá af sjálfum sér fyrir alvöru, veit maður, að það er aldrei öruggt lengur, að nokkurt smánarboð sé of lágt til að lúta að. Ég er að segja svona eins og mér finnst út af stjórnarskiptum við „Lögberg“ og því máli öllu.

Ég hefi fylgt framsóknarmönnum hér, því þó þeir syndgi og svíki, þá er þeim þó *þokandi*. Hinum ekki. Af tvennu illu tek ég það síður bölvaða. Þú heldur, að Manitoba-vinningurinn sé ekki „liberalasigur“. Svo má segja, en gáum að, hvað hefðu allir þessir sundurlausu skæklar, óraníumenn, bindindismenn, akuryrkjumenn og kvenréttindamenn, allir þessir *eineygingar*, getað áunnið, hefðu ekki „liberalar“ átt flokks-

skipulagið og hernaðarvanann til að hleypa þeim í? Að líkindum hefðu þessir riðlar orðið hver annars fótakefli, og Roblin borið svo langt af, að hvergi myndi hafa sýnzt; að undan gæti látið.

Þetta Norðurálfu-stríð kom óvænt og var þó fyrir löngu sjálfsagt. Fyrirkomulagið, sem er, gerði það óhjákvæmilegt. Þegar þjóðir og einstaklingar bjargast á því einu að lifa af annarra brauði, verða vopnin úr því að skera, hver eigi að éta eða láta étast. Meðal einstaklinganna innan ríkjanna er þetta reglað niður með því, sem kallast landslög og réttur, og þó ranglát séu, er til möguleiki að breyta um. Þjóðirnar, það er að segja auðvald og konungar, verða að drepast á um þetta. Bretland er nærri búið að éta upp það, sem ætt er af heiminum, og Vilhjálmur vitóði sér hvað setur,' með sama lagi. Þjóðverjinn hefir engan á að lifa, honum er að duga eða drepast. Auðvald og aðall allra landa fagna stríði, allt var komið út í óviðráðanleg uppþot öreiga alþýðu. Hernaðar-æðið slær þessu niður um stund. Bara að öllum *stórveldunum* blæði nú nóg. Þjóðirnar kunna kannske að vitkast við það. Oftar batnar við byltingar. Heimskan kann að ganga fram af sér, reki allur heimurinn í einu sig nógu illa á.

Lengi hefi ég ætlað að spyrja þig að: hvort Sig. G. Thorarensen á Gimli náði heilsu. „Heimskr.“ sagði hann hafa fengið hættulegt slag. Ég veit, að þið Sig. hafið bréfa-viðskipti. Ég hefi spurt aðra um Sig., en þeir hafa þagað, gleymt mönnunum vegna málæðanna. Karl á bréf hjá mér, en ég kveið fyrir, hvernig um rænu hans hefði farið.

Það eru *einmitt* svona sögur, Jón, sem gera lit og líf í minningar, að ég hygg, og þess vegna finnast mér þær svo þarfar fyrir seinni sögumenn, þær leyfa þeim að lifa næstum saman við mennina og öldina, sem þeir ætla að segja frá. Ég skil örðugleika þinn að koma sjálfur við söguna, að hafa ekki verið hlutlaus athugandi. Í þínum sporum hefði ég „krympað“ mig eins. En að því verður ekki gert og má ekki gerast að frágangs-sök. Góðir sögumenn sjá líka fljótt tilgang, jafnvel í svona minningum, og taka sér vara fyrir honum, en verður samt margt að liði. Þeir ættu því að finna það fljótt, að þú hefir ekki ritað þér til lofs og dýrðar, fyrst og fremst, enda gætir þú „fyrir eða eftir messu“ látið þá „auglýsingu“ fylgja, að þú hafir einmitt átt við þennan örðugleika að stríða, við

þulur þínar. Mér finnst, að reglan myndi verða sú hjá mér: Hatursiaust, hlutdrægnislaust, hlífðarlaust, eða sem næst því að ég kæmist. Mér dettur ekki í hug að halda, að nokkur maður, sem verður væri að halda á penna, geti skrifað skaplaust og úti á þekju rétts og rangs.

Þetta bréf byrjaði ég sunnudaginn 6. Þá kom gestur í „fjárhúsið". Friðurinn var úti. Nú er sá 11., regn og innistaða, svo ég hroða þessu af.

Veður gott í sumar. Hey mikil og góð. Akrar rýrir að vexti, en líkl. notadrjúgir. Óþreskt enn. Bygg fraus víða til hálfs eða ónýttist. Hagl skemmdi á nokkrum stöðum.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Eggert Jóhannsson.* Markerville, Alta, 2. nóv. 1914.

Góðan daginn, Eggert minn. — Hvort sem ég kem um kveld eða morgun, kalla ég það dag, eins og „Bægisár-skalli" sálugi ætlaði að láta reiðskjótann heita Vakra-Skjóna, þó nafnið lygi til um lit og kyn. Hvernig líður ykkur annars, innan um vitlausa veröldina? Ég hefi oft ætlað að senda þér orð og spyrja þig að því, en bústangið, blaðalesturinn og kveðskaparfreistingin hafa æpt mig niður, eins og „Parliamentið" Keir Hardie, þegar hann vill tala um frið. Meira að segja, ég hefði kannske enn dregið að koma, hefði ekki erindi til þín abbazt upp á mig að óviðbúnu. Ekki man ég heldur, hvernig við stöndum að vígi í bréfa-orustu okkar, veit að vísu, að við erum ögn á undan hinum, hvor um sig, en hvor okkar flúði seinast, man ég ekki. Af mér að segja: Ég var á Wynyard Íslendingadag á „kostnað náungans", eins og vant er. Var þar í vinahöndum, eins og vant er. Í sumar hefi ég stakkað um 20 stakka af heyi með drengjum og aðra 20 af korni, auk heimavika. Er búinn að herfa um 50 ekrur í haust og hirði fjósin. Sýnist þér ekki ég mætti óskammfeilinn bjóða mig Bretanum til liðs, þó yfir sextugt sé, ég myndi víst enn geta fallið eins fljótt og hver meðal Lundúna H-rekur.

Sumarið var veðursælt hér. Haustið blítt, snjólaust og jörð að mestu ófrerin enn. Uppskera varð víða rýr. Næturfrost og ofþurrkar spilltu víða. Okkar varð þó í meðallagi og kjarnagóð, þó á hólum væri. En bletturinn er ekki stór, sem ég kemst yfir.

Kristins og Laugu er von heim í byrjun næsta mánaðar. Þau munu koma með Grand Trunk. Ég held, að hann Kristinn sé að fiska fyrir frítt far, hefir unnið eitthvað fyrir félagið.

Þá hefir Þorsteinn okkar Erlingsson létt sér af landssjóðnum og eftir-tölunum. Í bráðina finnst mér, að nú ætti ég lítið erindi heim. Ekki þó vegna þess, að ég haldi, að ég eigi þar engan hlýjan hug eftir.

Svo kemur þá erindið. Getur þú vísað mér á mann í Vancouver, sem vildi reyna að selja nokkur „Kolbeinslög" fyrir mig? Þau eru komin til mín 200, ætluð mér til sölu í Alberta og á ströndinni. Kosta sama og rudda-máltíð: 25 cent. Hefi þegar sent nokkur til Prince Rupert, Victoria, Blaine og Seattle, en varð í vafa, hvar ég skyldi „bera niður" í Vancouver. Bið þig því að ráða mér, í hvern ég á að höggva. Minnir, að Ísdal fáist við bóksölu. Veit ekki áritun hans. Fengist einhver, væri fimmta hvert sölulaun, að sjálfsögðu, og: Myndu 50 seljast í Vancouver — eða hvað mörg færri? Annars er ég hálfsneyptur að vera að gera þér áhyggjur um þetta. Fyrirgefðu. Þessi „útkoma" er öll af völdum séra Rögnv. Vinarbragð hans, en ekkert af mínu tilstilli. Gerðu samt þitt ómak sem minnst við þetta, þreyttur og lasinn. Bentu mér bara á mann og ég skal taka „kauðann í karphúsið". — Nú er mér mál að kveðja. — Vertu allténd sæll.

Vinsaml. Stephan G.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerville, Alta, 6. nóv. 1914.

Góði vin. — Ég vann og svaf, eins og vant er, og las daglega stríðsfréttir um, hver nú hefði flúið seinast, en átti ekki von á neinum seðli frá C. P. R., en þó kom boðorð frá honum seinast í liðinni viku, um að ég ætti að borga sér $ 1.30 fyrir böggul, sem hann hefði borið fyrir mig. Það skiptir nú árum, síðan ég „sendi til Eatons", og margir mánuðir síðan ég fékk síðustu svínskinns-glófana frá Simpson, en nafn mitt heldur þó verzlun við þá öðru hvoru. Ég sýndi fólkinu á bænum reikninginn, en það átti heldur ekki neins von núna. Mér þótti undir niðri vel sem varð, gæti ég krækt í eitthvað, hvernig sem það fengist, og ætlaði sjálfur að komast kring um þetta, en þá var rokið í kjafta-ásinn, „fóninn" — fyrirgefðu! — því hann er nú hér innsettur — og pósthúsið hérna látið vita, að

Innisfail væri að troða í okkur hlut, sem við ættum ekki. Mér var ekkert um það, þó ég þegði, fannst það kannske yrði til þess að hafa af mér hagræði. Ég hélt samt við minn ásetning, sendi „centin" í laumi og fékk Kolbein í kassanum, bundinn eins og höfðingja myrkranna.

Tvisvar eða þrisvar, áður en Kolur kom, hafði ég sent þér og „Kringlu" snepla mína, ætlaði að skrifa fá orð til þín með þeim seinasta, þó vani minn sé að koma á þann hátt formálalaust til ykkar blaðstjóra. En svo var ég önnum kafinn við heimaverk, að ég komst ekki til að klóra þér það, sem ég hugsaði, en það var svona: Aldrei [þessu vant] er hér „Exordium", í gömlum hugvekju-stíl, því hann var svo handhægur og skýr, hefði ekki útleggingin farið eins að forgörðum og raun varð oftast á. En hérna er það! Ég þakka þér kærlega:

*In primo:* Fyrir greinar þínar um skólamálið,

*In secundo:* Fyrir fallegu orðin við lát Steina okkar, og

*In tertio:* Fyrir það, sem þú segir um Kolbein, Kölska og mig.

En í alvöru, alúðarþökk fyrir gjöfina! Eigi nokkur annar skilið mál að því en þú einn, færðu þeim þakkir mínar. Ég sem sé veit ekkert um það, en skil, að einhver hefir gefið fé og fyrirhöfn til að ala Kol svona upp. Ég veit og finn, að þetta er líkt þeirri aðferð, sem „lætur grasið vaxa, meðan bóndinn sefur".

Ekki veit ég, hvernig Kolur kemur sér. Hefi sent til Seattle, Blaine, Victoria og Prince Rupert sín 25 eint. hvert. Er að leita hófanna hjá Eggert mínum í Vancouver, því þar var íslenzkur bóksali, Ísdal, og einhver viðsjá um hans atvinnuspjöll, þegar ég var þar á flakki.

Þú minntist á skáldatal „Kristjáns vors ins Lögbergska!" Mér dettur í hug þýzka á íslenzku sem sæmilega „yfirskrift" yfir dómstól hans þar. Það eru seinustu línurnar úr sex-hendinga-drápu Jóns okkar Ólafssonar, á því máli, og um sjálfan sig: „Þann hnullung, sem þú hreyfir ei, þér hæfði að láta vera".

Annars skil ég ekki þá greind, sem tekur að sér bókmenntalega vitleysu, til að jafna um höfunda með, hvað sem öðru líður, en svo er um elli-afturför í kvæðum Steingr. og Þorst. Báðir kváðu misjafnt fyrr og síðar, eins og gerist. Efnin minni eða stærri, en gerð og íþrótt lík. Sum háð-erindi Steingr. heima eru jafnsnjöll þeim frá Höfn. Heima kvað hann „Blá-

fjalla-geim“ og „Laugardal“, og innilegar en það kvað hann aldrei um náttúruna, og þarna voru hans snjöllustu rómar.

„Þín leið er til fjöldans, — en mín er fyrir mig,
Við mætumst aldrei framar, því sundur liggja stig“,

kvað hann við yfirgefna unnustu, ímyndaða eða tilverandi. Hann gekk sínar götur innan um múginn, hugsi og kveðjufár, en friðsamur. Hann gat verið þurr og önugur. Slíkt er eðlileg sjálfsvörn manns, sem orðinn er þjóðkunnur, og sem fyrir það er orðinn að nokkurs konar almennings eign, sem hverjum skúm finnst, að ætti að standa gal-opinn fyrir sér, ytra og innra, til að geta svo sjálfur blaðrað um það, oftast með misskilningi. Þyrrkingurinn verður þá eina ráðið gegn þeim bitvargi.

Eins er um afturför Þorsteins, tóm bókmenntaleg heimska! Formálinn fyrir „Eiðnum“ er kveðinn í Höfn, og er snilld á sína vísu. „Nótt“ er kveðin síðar, og er meira afbragð og göfugra. Þá er líka lýsing á Ragnheiði, þegar hún vinnur „eiðinn“, kveðin í „aftur-förinni“ sjálfsagt, en ef til vill bezt af öllu og mest áríðandi efninu til réttlætingar og skilnings. „Aldamótakvæðið“ er kveðið heima, innilegra en öll ættjarðarkvæði önnur. „Jörundur“ og „Eden“ eru úr sama handraða bæði. „Jörundur“ vel þeginn. Hann kemur við fortíðina og forfeður manns. Um þá er smámennskunni ekki sárt. „Eden“ um nútímann og þá, sem uppi eru, og andlegum aukvisum sárt það, sem á sjálfum liggur.

Annars byrjaði „Lögbergs“-skalli ekki þennan leik um afturför hjá Þorsteini. Það var Þorsteinn Gíslason, í ritdómi um síðari útgáfu „Þyrna“. Síðan var á því tönglast.

En ég skal segja þér nokkuð: Mikið ljómandi segir Kristján fréttir vel, að máli og stíl til, hann gerir ómerka viðburði sögulega með því, oft og einatt.

Heyrðu, nokkur eintök af Kol hefi ég gefið með vísu: Geturðu hætt að hósta á meðan ég hefi yfir þær, sem ég man? Þú getur snýtt þér á meðan, út úr leiðindum:

1. *Til Eggerts:*

„Hvar býr Eggert?“ Kolbeinn spyr,
Kominn til Vestlendinga,
Ólmur að kveðast enn sem fyr
Á við Skagfirðinga.

2. *Til Baldurs Sveinssonar:*

Búspell verða, Baldur minn,
Bæklings koma í ranninn,
Sem hleypir svona árum inn
Á nýgiftan manninn.

3. *Til Guðmundar á Sandi:*

Bara til að brosa að,
Bróðir, en ekki að dæmast,
Sendi ég þetta söngva-blað —
Sextugir fara að ræmast.

4. *Til dr. Valtýs Eimríðandi:*

Ótilkvaddur Kolbeinn minn
Klaufaðist svona í stríðið
Af annars toga tilkominn —
Takið 'ann þá og hýðið.

Fyrsta vetrarél á ferðinni í dag. Enn hefir jörðin yl af deginum til að fleygja hel-hjúpnum af sér, en líklega færir nóttin hana í líkklæðin. Það vildi ég, Rögnvaldur minn, að þitt kvef hefði sjatnað um það, sem ég er búinn að fá, ekki svo að skilja, að það sé *mikið* enn, né að ég ætli að láta það verða það, en samt er það svo, að það gæti tekið af tappa-borðið hjá þér.

Hefi fengið „Fífla" frá Þorsteini. Heilsaðu honum með þökk frá mér.

Yrðu óskir manns að örlögum, hlytir þú heilsu og velmegun, en — vertu nú sæll.

Vinsamlega Stephan G. Stephansson.

*Magnús Jónsson frá Fjalli.* Markerville, Alta, 23. nóv. 1914.

Góðvinur. — Þökk mína innilega fyrir bréf þitt og sendinguna, $ 5.00 ávísun fyrir „Kolbeinslögin", sem ég sendi þér „profoss", sem líklega er okkar íslenzki uppskafningur úr „per force" í enskunni. Þú varst fyrstur til að svara og selja af þeim, sem ég hefi sent „lögin". Kristján Gíslason í Seattle kom með sitt erindi samt daginn á eftir þér, svo þessi draugagangur minn hefir gengið fljótast í Bandríkjunum.

Til þess er gott að vita, Magnús, að þér er ánægja að að hafa notið lífs þíns, hversu sem það var. Svo á það að vera. Það hefir orðið til gagns, um það er ég viss. Mig minnir, að Mahómet sáluga sé eignað það, að hafa einhvern tíma sagt, „að guð tæki enga nema smalana fyrir sína spámenn.“ Honum er stundum lagt það út til lýta, það hafi verið sjálfhælni, því hann var, held ég, fjármaður í æsku. En sumt, sem Kristur sagði, verður þá líka tortryggilegt, á sama hátt. Mér þykja svona svör furðu sönn, finnst, að flest umbót í heiminum komi ekki úr hæðunum, heldur undirdjúpinu, það er að segja frá alþýðumönnunum: ekki höfðingjunum.

Svo þakka ég þér fyrir mitt leyti fyrir samferðina og óska hún endist sem lengst. Bið kærl. að heilsa konunni þinni og Jóni syni þínum, Teitson-hjónunum og öllum vinum mínum í Blaine.

Vinsamlega Stephan G. Stephansson.

*Sigurður Jónsson frá Víðimýri.* Heima, 10. des. 1914.

Siggi minn góður. — Jón vor Olson hefir sagt mér, að hann hafi sett mig á kjörstjóra-bekkinn aftur í sveitakosning fulltrúa vors, sem fer í hönd eftir nýár, eins og vant er. Hann kvaðst líka ætla að reyna að fá þitt hús fyrir kjörstað, því nú má, trúi ég, ekki nota skólahús á skóladegi, svo börnin verði ekki öll menntunarlaus. Jæja, getur þú léð mér húsið? Ég veit ekki, hvort Jón hefir nefnt það við þig enn. Hvað er nú aftur „number“ á „kvarti“ og „section“, sem húsið stendur á? Ég þarf að setja það á auglýsingarnar. Gætuð þið hengt upp fyrir mig auglýsingar um útnefningarfund, þarna út um ykkar aust-norðan jaðra, svo sem þrjár? — ef „formin“ koma svo í tíma til mín, að ég geti sent þau til þín í pósti, sem líklega verður ekki, því þau koma sjaldan á undan „fylling tímans“. Gerðu nú svo vel og sendu mér svör í línu um þetta allt, og eins fljótt og þú getur.

Nú er að verða nokkuð kalt í fjósunum. Þó hefi ég lítinn bakverk enn og er laus við kvef. Skóla-kerlingin okkar hamast við að búa út hátíðina um jólatréð á Hólum, þann 23. komandi. Þar verður sungið af Scott og fleirum: „Tenting on the Old Camp Ground“. *Ítem* verður „Tipperary“ sungið, kannske, og ef til vill ný götuvísa amerísk, með öðru lagi og sniði en okkar gamla: „Gekk ég út á götu“, auk fleira og

fleira. — Íslenzki ráðherrann, Eggerz, er kominn heim. Kóngur hefir samþykkt stjórnarskrána nýju, en enginn veit enn, með hvaða athugasemdum. Líklega kemur einhver varnagli til að ónýta allt. Þorsteinn okkar Erlingsson „kristilega grafinn“ af öllum, nema Vog-Bjarna. Hann minntist hvorki á eilíft líf hans né andatrú. Haraldur Níelsson gerði úr því rækilega líkræðu samt. Auðvitað var Þorsteinn „landssjóðsskáld“, svo landskirkjan telur sér leifar hans og andlegt dánarbú. Annars, þó ég marki smátt það, sem Haraldur segir og hefir eftir Þorsteini, því það má öðruvísi skilja, þó satt sé, þá hefir hitt legið í grun mínum, þó ég ekkert um það viti, að Þorsteinn hafi eitthvað við andatrúna átt, síðustu ár sín. Þó neitar t. d. Daníel Hjálmsson því við mig, en ég trúi grun mínum betur og Haraldur vottar það, að þar hafi ég verið spámaður, og vissi þó hvorigur af öðrum.

Út í fjósin vana-veg
Verð ég nú að skrefa —
Sólskríkjurnar sakna, er ég
Svínum hætti að gefa.

Þær, sem sé, búa í trjám við stíuna og kroppa stundum kringum okkur svínin. — Blessaður, og bið að heilsa.

Stebbi þinn.

*Jón Jónsson frá Sleðbrjót.* Markerville, Alta, 11. des. 1914.

Góðvinur. — Bara til að draga ekki lengur að þakka þó fyrir bréfin þín bæði, hin ósvöruðu, kem ég nú snöggvast, en býst ekki við að geta staðið lengi við núna, því póstferðin í dag er á hælunum á mér.

Viðvíkjandi fráfalli Þorsteins endurtek ég það, sem ég sagði í bréfi til annars kunningja míns, að mér finnst ég ætti nú lítið erindi heim. Þeir hafa nú sungið hann úr garði, skáldin og kirkjan. Bjarni frá Vogi bar þar af öðrum eins og víðar, þó stíll hans hafi til að vera tyrfinn. Þó get ég ekki að því gert, að þrátt fyrir vel kveðin kvæði og jafnvel ljómandi góð, eins og Bjarna kvæði er, er ég óánægður, að þau skuli vera stæling ein af kvæðum Þorsteins sjálfs, því það eru þau bæði, einkum litla Gvöndar. Sem sé, mér finnst það votta um of fyrir hörgul á gróandi í skáldskapnum, þegar svo fer. Séra

Haraldur, hinn andasjónar-óði, heggur til beggja hliða yfir kistu Þorsteins, til að fleyta sínu sáluhjálparmáli á orðstír hans sem skálds, yfir gröf hans. Mér lék grunur á, að Þorsteinn hefði um andatrúna hugsað. Bjóst við því, aðeins af afstöðum, sem ég sá hann var í, því aldrei minntumst við Þ. á trú né pólitík og varla á skáldskap í bréfum, sem milli okkar fóru, þó líklega hafi þar einhvers staðar mátt lesa milli línanna, að við vorum hvorugir íhaldsmenn. En allt, sem séra H. færir til í líkræðu sinni, sannar lítið trú Þorst. sjálfs. T. d. „að vakna upp aftur einhvern daginn, með eilífð glaða kringum sig“, getur fullt eins vel verið rétt lýsing skálds á von vinar síns, sem það kannske hefir sjálft efa um, eins og eigin játning þess um sig. Sama er að segja um svör Þ. við H. sjálfan út af þessum málum, þau líkjast fremur kurteisis undanbrögðum, sem maður neyðist til að nota við áfjáða, en velviljaða trúboða, sem taka mann fyrir, heldur en samsinningu. Ég hefi sjálfur komizt í svipað og þekki það að sveigja til í svari, til að særa ekki að óþörfu. Reyndar gerir ekkert, hverju Þ. trúði. Hitt er leitt, að hindurvitni færa það sér til máls, þó slíkt sé venja og við að búast.

Ráðherra heimkominn. Stjórnarskráin samþykkt á hæla honum, en enginn veit enn, nema danskur fleygur hafi verið rekinn í hana. Það fer betur en ég býst við, ef svo er ekki. Sjálfsagt er það vilji sjálfs mín, sem því veldur, því vit mitt er það ekki, sem leggur í huga minn góðan grun um þennan nýja ráðherra, en svo er enn.

Við Kanadamenn erum að verða óðir af Þjóðverjahræðslu, ofan á alla aðra vitleysu. Jafnvel hér í Alberta og rétt í kringum mig eru þeir að her-rétta jafnvel gamla sveitabændur. Auðvitað hafa sumir ruglað geyst og heimskulega um stríðs-dugnað Þjóðverja, en það er nærri von, þjóð þeirra er úthúðað svo af hinum, einkum blöðunum, að ærulaust er. Um stríð skrifa ég ekki annað. Við bölvum því báðir jafnt, hvort sem er, en sá verður auðvitað að biðjast friðar fyrst, sem gullforðaeigendur neita fyrst um lán, þegar veðsettur hefir verið, út í yztu framtíð, allur arður af framleiðslu þjóðar-erfiðisins, með ríkis-skuldabréfum, svo vextirnir verði „eilíf eign“, eins og Ranka hjá Runeberg í þýðingu Páls. Bara þetta verður sú fullkomnasta þræla-„eign“, sem heimurinn hefir séð. En svo lagast þetta seinna, eða smálagast, á annan hátt, en líkan því,

þegar Íslendingar hengdu alla sína stigamenn, 16, á einni rá yfir árgil. Þjóðirnar lögleysa (confiskera) ríkisskuldabréfin á endanum, út úr neyð, neita þeim, þau séu líka „virkilega“ margborguð með greiddu vöxtunum.

Segðu, að ég sé ekki spámannlega vaxinn.

Ég sé eftir Rögnv. vegna „Kringlu“. Mér þykir vænt um Valda, bæði er, og svo, hann hefir reynzt mér bezti drengur, þrátt fyrir stóran meininga-mun um ýmislegt. En á hinn bóginn, það nærri gleður mig, hans vegna, að hann þarf nú ekki lengur að skemma sig á „Kringlu“. Þessi hræringur af glappaviti og botnleysu, sem nú situr að „Kringlu“, er víst alveg eins og skapaður í skarðið — það er að segja: frá þeiri hliðinni séð, sem að bakhjarlarnir vita við. Ég hefi (auk þess að yrkja og bölva) 20 gripi í fjósi að hirða. Á ekki sjálfur nema suma. Konan eða krakkarnir hina. Ég gef og brynni frá 10 til 20 svínum og klýf eldivið fyrir 4—5 eldstór.

Á ég að segja þér vísu, sem ég endaði bréf til kunningja míns á í gær. Hún á eins vel eða illa við daginn í dag. Þar sem ég gef svínum eru stundum nokkur sólskríkju- (snowbunting) -hjón að kroppa. Ég kvað:

Út í fjósin vana-veg
Verð ég nú að skrefa —
Sólskríkjurnar sakna, er ég
Svínum hætti að gefa.

Sleðifæri komið hér, aðeins. Kuldar núna. Engar heljur þó.

Nei, ekki hafði ég séð, hvað séra Skeljungur (hann var höfuðskeljafræðingur, fyrr prestur) sagði um þig. Fékk „Sam.“ lánaða og las.

Mér þykir gott að vita, að góðmennskan fer til helvítis, ef Skeljungi skal trúa. Þar sem hún er, vil ég helzt vera. Ég lái þér ekki, Jón, þó þú létir ekki séra Jóhann vaða innan um þig allan (byggðir vegg upp á milli ykkar). Hann hefði komið þaðan heimskari en hann fór, en má ekkert missa.

Annars í alvöru: Séra Jóhann kann að vera sæmilegur í alla staði, sem sauður í hjörð, en sem hirðir er hann aðeins andlegur dorri, í öllu sem ég hefi eftir hann séð — en satt að segja, það er ekki mjög margt, og kannske hans versta.

Og þökk mína að endingu fyrir bréfin þín, og glaðar hátíðar, Jón.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Jónas Hall.* Markerville, Alta, 31. desember 1914.

Þökk fyrir þetta bréfa-ár, Jónas minn, og eigðu enn fyrir héndi mörg og góð æfiár. Seinasta bréf þitt kom á settri stund og stað, en svo var ég fjósa-fjötraður, að ég gat ekki svarað nema „KN", og hann mátti ekki bíða. Þú hafðir gleymt honum svo lengi og svo vissir þú þá, að ég hafði fengið bréfið, fyrst ég tók undir e-mjið. Lauga og Kristinn sitja enn í Prince Rupert. Gerðu lengi ráð, að vera heima hér um jól. Nú býst ég við það dragist til vors — eða hver veit hvað. Mig grunar, að Kristinn sé ekki ákafur að koma. Aftur býst ég við, að Lauga eiri þar aldrei, nema eitthvað af því, sem hún telur „sitt fólk", væri þar í nánd. Um gróða Kristins veit ég ekki. Hefði trúað, að eitthvað berðist nú meira í bökkum en út leit um stund, því mest allt „brall" er nú hér á hausnum og undarlegt, ef ekki er einhver útideyfð í Prince Rupert. Annars munu þau bæði hafa unnið sér allmikið inn í sumar, svona með réttum og sléttum handafla, Kristinn haft létta vinnu og vel borgaða, gæzlumennsku á einhverri nýbyggingu Grand Trunks, sem í smíðum er. Líklega stafar það af annríki fyrir Laugu, að hún svarar ekki bréfi Sigríðar. Við skrifumst á einstaka sinnum, en bréf hennar eru orðin stutt. — Skammt varð milli Skafta og Þorsteins. Svona er að komast sjálfur yfir sextugt. Þorsteinn var víst að eldast, orðinn hæru-hvítur, að sögn. Einn kunningi okkar beggja sagði mér, að hann hefði sagzt „finna ellimörkin á sér alls staðar." Í bréfi til mín seinast sagðist hann ekki hafa orðið eiru til að lesa annað en þjóðsögurnar okkar — og bréfin frá mér. Auðvitað hefir hann svo gróið upp á milli, þegar haustbatar urðu og af einhverju ylnaði í lofti, en verið skammærri en áður. Verr þótti mér, að þú komst ekki á þingið. Ekki vegna þess, að þar væri svo afreksvænlegt fyrir þig né fjárfengur í, en þú hefðir haft gaman af því og verið vottur um, hversu birt hefir yfir fólki frá því, sem var. En — svo „gratúlera" ég samt upp á atkvæðafjöldann, góða framgöngu og — heimasetuna.

Þá hafið þið unnið „Eyfords"-málin í þetta sinn, enn. Ég held ég hafi verið sá eini af þeim löndum, sem ég hefi talað við, sem hélt því fram, að þið væruð líklegir til að vinna á endanum. Allir aðrir trúðu á það, sem þeir kalla lög, og gamla dóma. Ég byggði á sanngirni og því, að breyttur aldarandi

breytti lagaskýringum. — Það er kominn 8. jan. Þrívegis hefi ég setzt við þessar línur. Byrjaði á gamlársdag, en aldrei hefi ég mátt ljúka við, einhver gestur eða annað annríki setzt að mér svo að segja samstundis, og er mér þó svona bréf ekki langrar stundar verk.

Ég var að raka mig á gamlársdag og ætlaði þá að botna bréfið, sem ég bjóst við að ljúka af, með þessari vísu, sem fylgir og þú færir „KN" einhvern tíma:

Brýni legg að oddi og egg,
Ætla að sneggja kjaft á segg,
Gróft sem vegg og grátt sem hregg
Gamlárs-skeggið af mér hegg.

Nú þori ég ekki að hafa þetta lengra í svipinn. Haldi ég lengra áfram, kemur líklega einhver ófriður á mig og tefur allt til 8. jan. 1916 — nema ég stingi hér í stúf. Konan biður kærl. að heilsa, og ég segi sama.

Vinsamlega Stebbi.

*Séra Magnús J. Skaftason.* Heima, 5 febr. 1915.

Herra M. J. Skaftason. — Svo skal ég þá svara ádeilu þinni, bréfinu þínu til mín, Magnús. Leggi ég einhvers staðar þyngri þýðingu í orð þín en ætlazt var til, verður það því að kenna, að ég vara mig ekki á, hversu sumt kann að hafa gildnað við ina vanalegu venju þína að fullyrða allt sem karlmannlegast. Glöggt sé ég það líka, að ég hefi í svipinn lent í klóm klikku-ofstækisins ykkar í Wpg. Ég vissi, að það var til, hélt ég hefði gert því fullvíða skóna í áætlunum, jafnvel við vöxt. Nú fékk ég sann á, að svo var ekki. Þeir hafa enn orðið of krappir, því til engra illinda frá ykkur hefi ég unnið með kvæðinu eftir Skafta.

Þú kveðst rita mér í nafni ekkjunnar. Hvað sem um það er, er hitt augljóst af bréfi þínu, að raunar er það ritað fyrir ekkjuna — „Heimskringlu". Það sýna þessi orð þín:

„. . . í stað þess að senda sér þær, og láta sig ráða, hvað hún gerði við þær, ef þú vildir ekki senda þær blaði því, sem Skafti hefir einlægt styrkt." —

Sem sé: Hefði mér hugkvæmzt „Hkr."-rétturinn og hlítt honum, þurfti ekki um að eiga við sjálfa ekkjuna. Teljir þú

„Hkr.“ ekkjuréttinn, er hann þó aðeins sá: að í hennar leyfi og óleyfi er allt, sem Skafti hefir sjálfur ritað, eða á því væri byggt, en ekkert, sem utan þess væri um hann sagt, lagalega, siðferðislega og eðlilega. Í hreinskilni: Ég vissi, að Skafti heitinn hlynnti eitthvað að „Hkr.“ Hvern veg eða hversu mikið hann lagði í sölurnar, né hversu hjartfólgin hún var honum, vissi ég aldrei. Eitt er víst: Hann vissi, að ég sendi „Lögbergi“ kvæði við og við, en „Hkr.“ ekkert, um eitt skeið. Þetta eina skipti, sem við hittumst, eftir að við kvöddumst í Dakota, og í þeim fáu bréfum, sem hann reit mér, átaldi hann mig aldrei fyrir þetta. Mér er ofætlun, svo fjarri sem ég sit, að vita skil á öllum viðsjám í Wpg., nema þeim, sem upp úr blöðunum sjóða. Tel ég það ekki skaða minn, jafnvel ekki nú, við þennan árekstur. Mér var unun að því, sem sveitungi minn — kunnugur ykkar úthaldi í Wpg. — sagði við mig einn dag, eftir að við fréttum lát Skafta: „Einn af kostum hans var réttdæmi. Ég þekki fáa Íslendinga jafnlausa við hlutdrægni og fordóma.“ Þessu hefði ég líka búizt við af Skafta, þó við værum ekki nákunnugir nema um stutt bil og fyrir löngu. Ég hefi þá trú, að hefði hans notið við, hefðir þú, Magnús, engum skrifað svona bréf, með hans ráði.

Úr sendi-herra sætinu, sem bréf þitt er ritað í, í erindum einhvers og allra, sem þú segir vera: „flokk inna frjálslyndu manna“, kunngerir þú mér, að talið sé „illu launað allt það, sem Skafti hafi fyrir mig gert, og þeir feðgar allir“. — Hér er víst átt við, að þeir bræður, Skafti og Magnús, gengust mjög fyrir útgáfu á „Andvökum“, einkum Skafti. Annað veit ég ekki til, að ég hafi þegið af þeim feðgum sérstaklega. Þessir tveir bræður héldu við mig óslitinni velvild, eins langt og ég vissi. Þeir vóru þeir einu af ætt þeirri, sem kynntust mér til muna. Við vórum ætíð í fjarbýli.

Um útgáfuna er það að segja — svo framarlega ég geti satt orð sagt —: Öll sú fyrirhöfn og fjárútlát, sem þarna mun átt við, vóru ekki upptekin af mínu tilstilli, fyrr né síðar. Vilji aðrir, sem um vissu, segja eins satt og ég geri nú, munu mér gagnast vitni að því, að ég fremur latti en hvatti til mikilla framlaga við mig, réði engu um framkvæmdir, reyndi það ekki heldur, þáði sumt nærri nauðugur, og nú skal ég segja hví —: Ég þekkti ögn mennina og óraði í, að þetta gæti orðið til þess, að skörungar eins og þú í þessu, Magnús, sem lítið

áttu víst í greiða bræðranna við mig, þættust seinna, og fyrir þá skuld eina að hafa verið vinir og áhangendur þeirra bræðra, eiga rétt til svona brigzla við mig, ef ég stigi viljandi eða óviljandi á eitthvert það strá, sem þeirra kenjum væri ami að. Nú er það fram komið. Hitt óttaðist ég ekki, að þeir bræður sjálfir myndu nota slík vopn, meðan ég nyti þeirra við.

Göngum nú yfir efnið til atyrða þinna við mig.

Eftir Skafta heitinn kvað ég vísur, frá eigin brjósti, og á minn reikning eins, upp úr minningunum frá þeim hluta æfi okkar, sem við áttum helzt saman að sælda: dögunum í Dakota. Svo ljóst vildi ég sýna þessa ætlun, að ég tók fram, framan við kvæðið, að það væri kveðja „úr“ — ekki *„frá“* — „Menningarfél.“ gamla, því ég kvað ekki í *nafni* þess, en er félagi úr því.

Kvæðisefnið er svona, fært í fá orð: Hann bar sína harma vel, eins skal ég gera nú. Þeir, sem vóru sjálfir hug- og hjartaprúðir, veita manni máttinn til að kveðja sig. Í æsku bar hann höfuð yfir flokk frjálslyndra sveina. Sá flokkur þótti ódæll, af því hann trúði fremur á sannleik en sigur sinn, en vakti menn þó upp á báða bóga. Enn gera ungir menn sömu skil, jafnvel karlar á grafarbakkanum halda leiknum enn uppi. Liðsemd hans (c. Skafta) áttum við ætíð vísa til framsóknar, jafnvel þá dyggð, að vera trúr okkar litlu málum. Við vórum ekki því vaxnir að fela honum svo mikilvæg mál sem kröftum hans hæfði, því smámennska samtíðarinnar kann aldrei að nota mikla hæfileikamenn til fulls. Minning sumra manna á framtíð, lengri og aðra en þá, sem við sjáum í svipinn.

Þetta er allt og sumt, að undan skildum tveimur hendingum, sem þeir, sem frjálslyndir þykjast, ættu ekki að ærast af, en sem heldur væri vorkunn, að þeir, sem sömu menn kalla þröngsýna, gætu hneykslazt á — svo allt sé sagt og til hreins tekið. Seinustu tvö erindin eru um — sjálfan mig.

Að ég valdi þennan veg var bæði af því, að þar vissi ég gleggst, og hinu, ég þóttist vita, að allt annað gott og skáldlegt um Skafta heitinn yrði betur sagt og oftar sagt í „Hkr.“ en ég hafði kunnleika og föng til, slíku liði sem þar væri á að skipa.

Þessi afsökun mín um kvæðisefnið sjálft er að vísu út í hött. Bréf þitt finnur því ekkert til foráttu, þó að misskilningur á því hefði verið ögn efnilegri til öfganna en það,

sem átalið er. En sízt er að synja, hvar eimyrja kann að leynast undir öllum þeim reyk, sem þú segir, að sé, og bezt að taka fyrir allar æsar.

Ókvæðið, sem ég á að hafa unnið, er: að ég skyldi senda vísurnar „blaði því, sem frá upphafi hefir sýnt Skafta hatur og fyrirlitning, lifandi og dauðum", og er auðvitað átt við „Lögb." Mitt hugarfar er nú svo, að væri þetta satt, þess heldur kysi ég að fá að segja hlýtt orð um vin minn látinn einmitt í því blaði, almennra lesenda þess vegna — ekki blaðafélagsins. Spyrði kunningi minn mig, hvar helzt hann ætti að prenta vingjarnlegt orð um mig látinn, hann gæti komið því að hvar sem væri, myndi ég svara: Í því blaðinu, sem mér hefir verið andstæðast. Sem sé, mér fyndist það ofurlítill siðferðis-sigur. Blöð, sem mér voru vinveitt, myndu minnast mín samt, og ekkert þurfa um að búa.

Hvernig Skafti hugsaði þetta, veit ég ekki. En eitt er mér í minni: Þegar ég var talinn á að rita litla blaðagrein fyrir málstað „Menningarfél." forðum, varð umtal um, í hvort blaðið ég reyndi að koma henni. Ég sagðist ætla að reyna „Lögb." Sumir töldu það óráð, „Hkr." myndi okkur hlynntari. Þá datt upp úr mér: Ég vildi helzt, að mitt versta „vantrúar"-verk kæmi út í kaþólsku blaði, þar væri þörfin mest. Skafti heitinn brosti og sagði, þetta væri satt. Annað var hitt, hann bað sér hljóðs á fundum, þó hann vissi, að allur þingheimur væri sér andstæður og áheyrn fengist með tregðu, eitt sem ég dáðist að honum fyrir. Nú þóttist ég ekki eiga undir öðrum en þessum minningum og mér sjálfum, hvar kvæðið mætti koma fram. Eins er hitt, þegar ég sendi blaði kvæði, dettur mér aldrei í hug, að ég sé að fara með neinn feng, sem ég geti sýnt misþokka minn til blaða með í því að snara því í annað blaðið, en setja hitt hjá. Ég er ekki hagsýnni en þetta. Hefði nú samt kunningi minn setið hér hjá mér og mælzt til, að ég léti kvæðið heldur til „Hkr.", hefði ég líklega gert það, en sagt honum mínar ástæður til hins.

Hefði einhver sagt mér, að úr þessu yrðu illendi við óviðkomandi fólk, og mér verið unnt að fallast á það, hefði ég sent „Lögb." kvæðið samt.

Hefði mér verið tilkynnt, að næstu aðstandendur Skafta teldu sér vanvirðu að vísunum í „Lögb." og ég getað trúað því, hefði ég ekki sent því þær.

Þetta er eins og í mér liggur, hversu sem það er tekið upp

Eitt er enn, sem valda kynni þessum þyt í þér, þó bréf þitt nefni það ekki berum orðum. „Lögb.“ prentaði vísurnar vel og villulaust, en með smáum stíl og aftarlega. Væri sú smækkun ætluð til óvirðingar, stefndi hún til mín, ekki á ykkur, fremur en sá, sem þættist kennari minn, myndi þykjast sýna minnkun sögunni, né þeim, sem hún er af, þó hann merkti „laklega“ eða lægra á „stíl“ minn í henni. Mér er svo farið, að ef ég hefi eitthvað, sem mér er annt um að fá að segja, leita ég færis að fá að segja það, en hvort ég fæ það sagt frá ræðupallinum eða gólfinu, á fremstu eða öftustu hlið í dagblaði, læt ég mig litlu skipta. Báðum blöðunum, „Hkr.“ og „Lögb.“, hefir viljað það til, að geta ekki hýst mig nema í auglýsingarúminu. Ekki hefi ég um það fengizt, veit, að blaðamenn eiga sér til afsökunar tíma og rúm, og þó til lítilsvirðingar væri ætlað, brosi ég bara að þeim barnaskap. Stafastærð og blaðsíða eru þýðingarlítil fyrir nokkurs verða lesara. Gleiðletrun og gotneskir upphafsstafir halda ekki efnisleysu uppi, þó prýðilegt prent sé. Eins lítið og um það er að vera, sem ég geri sjálfur, hefi ég þó séð blað heima taka upp á innhlið sína af auglýsingahliðinni hérna ofurlítið eftir mig. Ég grem mig því aldrei yfir, hvar mér er til sætis vísað í blaði, né í hverju skyni það sé gert. Í svo smáu er ég ekki vandari að virðing minni en þetta.

Bréf þitt segir, að yfir þessu, að kvæðið lenti í „Lögb.“, hafi hópur manna fyllzt inni megnustu óánægju: „Líklega allur flokkurinn hinna frjálslyndu manna, sem stóðu að baki Skafta sál., elskuðu hann og virtu, og hefir verið talað um að halda fundi um þetta.“ Hverju býst þessi *demonstration* við að áorka? *Excommunication* yfir mig, eða setningu „Lögb.“ á *Index Expurgatorius?*

Tvennt er þó af góðu viti sagt í seðli þínum. Það, að eitt kunni að hamla þessum fundahöldum, „að menn vilji ekki ýfa upp hneyksli þetta og auka harm hinnar syrgjandi ekkju, sem allir vita, að er yfrið þungur og ekki ábætandi.“ Ég held líka það væri bezt — ekki mín vegna, sneypan yrði aldrei lengi mín megin.

Hitt er líka gott, þegar þú segir: „Það er hálfleiðinlegt að þurfa að skrifa þetta.“ Ég finn, að það er satt. Svo satt, að ég hefði aldrei skrifað það öðrum og að ókunnu máli, jafn-

vel þó vinir eða vandamenn mín sjálfs hefðu æskt. Ég hefði sagt þeim sömu varnir, sem ég hefi fært hér fram fyrir sjálfan mig — og sefað þá.

Líklega finnst ykkur þetta allt illa innrætt hjá mér, en ekki get ég betur sagt né sannara — ögn önugur yfir ákúrum úr óvæntri átt og ótilunnið.

Í bréfinu kemur þú seinast sjálfur með: „Hvað mig snertir, þá finnst mér það, að senda Lögbergi stökurnar, hafa verið bæði vanhugsað og lítilmannlegt.“ Erindisröggið er að virða, það, að bréfslokum, að setjast sjálfur ofan á milli, til að ríða af allan baggamun. En óþarfi var það. Trússin hin tvö, „ekkjuna“ og „hina frjálslyndu“, varst þú búinn að binda svo rammlega, að maður sá, að þau áttu að hanga.

En, í einlægni, Magnús, ég setti í huga mínum þig í mín spor í þessu máli, en mig í þín, með ekkert af mínu, nema meðvitund mína um stórt og smátt, og samvizka mín sagði mér, að ég hefði óvart orðið minni maður.

Vinsamlega Stephan G. Stephansson.

*Jónas Hall.* Markerville, Alta, 2. apríl 1915.

Jónas minn. — Ég ætla ekki að koma inn á þitt heimili rigsandi með gunnfána á hornum, þó ég sé „Kanúki“ og í hernaði. Mér þykir hitt ó-Snjólfslegra, úr því sem ráða er, að bregða mér til þín á bréf-spjaldi. Ég er nýlega búinn að senda línu í annars-manns-erindum. Kr. og L. hafa nú „sagt af sér“ í Prince R. Koma bráðlega. Líklega fyrir eða um 20. þ. m. Á seinustu „Kringlu“ sé ég, að Norðmaður hefir orðið hissa af þér og ykkur. Því í skrattanum getur þú ekki sent mér þá þulu? Ég verð allténd svo feginn, ef Íslendingur nýtur sannmælis, ekki sízt þeir, sem ég get sagt um dálítið drýgilega: Þetta vissi ég lengi. Ég hefi innt J. á spjaldi eitthvað, sem ekki komst á þitt.

Kolbeins-lag mun koma í hag
Kristjáne og Stefáne:
Ef þá bagar orð í brag,
Í sem é er strax í té.

Vertu nú sæll, og sólin á þig skíni, suddinn og forin hvergi við þig hríni.

Vinsaml. S. G. S.

*Jón Jónsson frá Sleðbrjót.* Markerville, Alta, 11. apríl 1915.

Góðvinur. — Þökk fyrir bréfið, endur fyrir nokkrum vikum og ógoldið enn. Ég hefi einhvern veginn aldrei tekið tómstund milli ragls og rekkju, sem mér fannst ég eiga sjálfan mig svo, að ég gæti almennilega rabbað við þig, og enn verð ég „daufur í dálkinn“, ekki vegna þess, að neitt sérstakt ami að, annað en afkastaleysi uppgefningsins, sem hangir á húðinni.

Ég minnist hvorki á vígaferli né væringar í óstjórnunum heima né hér, að þessu sinni. Aðeins um horfurnar heima vil ég segja þér, hverju ég svaraði kunningja mínum þar, sem mæltist til, að ég sendi nú sjálfstæðinu þar einhverja hvöt í hendingum — að, ef almenningur gæti ekki áttað sig nú á jafn ljósu máli eins og það væri, sem þrætt er um, færi ég að trúa því, að „Skalla-Grímur“ hefði til þess skapaður verið að villa þjóðina okkar út í stjórnmálaeyðimörkina, unz öll sú kynslóð væi útdauð, sem nú er uppi.

Annars virðist mér ekki óvænt horfa með fyrirfestu manna í réttum málstað — nærri með skárra móti. Ég óttast ekki danska lævísi, né brigðmælgi konungs, né heimastjórnarrefjarnar, ef þjóðin skilur sjálfa sig. Það tefur auðvitað fyrir í bráð, en verður sér á endanum til enn meiri óvirðingar.

Jú, Bretinn kom til að fræðast í sambands-málunum. Mig grunar, að það sé af því, að samkvæmt dönsku sjónarmiði hefir hann lagt hernaðarhendur á *innanríkis verzlun í Danaveldi* með töku íslenzkra hesta. Svo má vera fullgott fyrir Englendinga að vita með vissu, hvern eignarrétt Danmörk á á Íslandi, í hestakaupum, þegar friður semst, t. d. fyrir dönsku Slésvík, við hvern svo sem Danir myndu makka, eða hverja sigursveifina sem þeir snerust á: Þjóðverjans eða Rússans, því Bretland aflar sér einkis nema ofjarls með þessu stríði, hver sem vinnur, sundurliðunar Bretaveldis, eins og það nú er, einhvern tíma á þessari öld, þegar þjóðirnar í því fara að finna til afleiðinganna og átta sig á upptökunum.

Efalaust er þróunarsaga íslenzkra stjórnmála sú, er þú sagðir í bréfi þínu, sannhermd. Hana skilur þú mér betur, hefir lifað hana og lært.

Þú minntist á Þ. Þ. Þ. Það er mjög slysagjarnt að leggja ákveðinn dóm á skáld og listamenn, meðan „þeir eru ekki allir þar sem þeir eru séðir“, sem sé eftir því einu, sem í blöð-

um kann að birtast af hendingu eða ungast út af tilviljun. Það getur verið ruslið þeirra, sem fýkur upp, en þeir setið eftir með gullskó tröllskessunnar, „það sem on' í sökk", jafnvel án þess að gruna það sjálfa. Hitt er satt: Þ. Þ. Þ. hefir ekki þroskazt né afköstum lokið, svo að séð verði, nú í nýrri tíð. Að svona kynni að fara, lagðist í mig sem beigur, þegar ég kynntist Þ. Þ. Þ. ögn og varð vel til hans, fyrir nokkrum árum. Ekki datt mér þó vín í hug, og hefði ekki verið viss um hann, þó til þess kæmi aldrei. Það, sem í mig datt, var þetta: Hér er meira ljúfmenni en afburðamaður, sem *skáldið* á að bakhjarli í eðlis-verunni. Því eru forlög þess tvísýn. Flokkar og félög kringum það eru svo viti borin að vilja eiga orð af að hafa haft góða hönd í bagga þeim, sem frægðar-von væri að og orðið gæti félagsgróði. Enginn hlutur heldur *skáldinu* eins uppi eins og að „sjálfur leiði sjálfan", hiklaust, við þykkju og þóknun annarra. Að efa sig á því er oftast að ónýta sig. En ljúfmennið er líkast til að skorta listamanns ill-herzluna, sem til þessa þarf, og leyfa að láta vini sína vesla sig upp. Ég veit ekki, hvort þú nærð tökum á þessari ímyndun minni, Jón, því ekki er þetta dómur né spá um Þ. Þ. Þ. — aðeins eitthvað, sem „sló mig", svo mig *furðar* síður á vonbrigðum, þó ég telji þau skaða. Við sátum nokkrir saman yfir staupum (allir ódrukknir) að gamni, inni á veitihúss-klefa í Wpg., þegar ég var þar forðum. Það var svo sem hálf tylft ljóðkærra og yngri manna þar, sem þá voru. Þ. Þ. Þ. var einn. Því var komið í orð af einum, hver líklegastur myndi til ljóðanna nú vestan hafs, ef hlaupið væri yfir mig. Ég vissi vel, að það var verið að leita á mig til svarsins og viðraði það fram af mér nokkuð, fyrst. Að lokum fannst mér lítilmennska í að segja ekki eins og í mér lá. Ég sneri mér að Þ. Þ. Þ. og sagði: „Eins og stendur nú, eruð þið tveir um þetta sæti, þú og Guttormur. Milli ykkar er það, en atvik ráða, hver hreppir, því ekki farið þið sömu leið báðir". Eða, orð mín voru á þessa leið. Ég sá, að það datt ofan yfir Þ. og hina, þó ekki yrði ég var um, að þeir misvirtu. Ég er á sama og þú: Guttormi er að fara fram. Bak við *skáldið* þar stendur léttúðugur þrekmaður, sem má við að heflast ögn, en verður veigur í samt, og nógu óstýrilátur til að fara eigin ferða og hirða þar það, sem honum sjálfum sýnist — og það er undarlegt, en satt: skáld verða að þora til, jafnvel við strákalukkuna.

Svo hefi ég sagt þér allt eins og er, en ekki er það stórt.

Þakka þér fyrir vísuna um sólskríkjuna. Ég vissi nú vel, að enginn sá er óhagmæltur, sem unað hefir af hagmælsku annarra.

En þetta með „skríkjuna“, hennar happ er að vera bæði lítil og óæt. Ég á hérna rjúpnahóp á landinu mínu. En það er verra með hann en hana, sem ég á, verð að þola hneisyrði, svo sem sérvitringur og meinsærismaður, fyrir að malda á móti, að þær séu skotnar í soðið, fleiri en fáeinar á haustin.

Hneyksli var að hnöllung gert,
Hús sem nú kvað gera.
Þá er hitt ei þægða-vert
Þröskuldur að vera.

Tíð er nú rosasöm. Vorannir byrjaðar. Senn stillir þó til.

Mér er kúgun þó að því:
Það er nú sem góðs ei njóti,
Vetrar-lúans vímu í
Vorinu ljúfa tek á móti.

Um blöðin okkar vestra núna að segja:

I. Kríu-egg — og ekki ný —
Upp ég tíni „Lögberg “ í,
En færi að ungast út af því,
Ómegðina ég sjálfsagt flý.

II. „Kringlu“ sinni Mangi með
til meiðsla og bana
Lemur þýzku „lókátana“,
Líkt og Úlfar heiðingjana.

Heyrðu, þó ég sé hér um bil útlægur sem stendur í báðum vestanblöðunum, segi ég þetta í gamni — ekki gremju:

Stebbi, láttu oss vera í værð,
Veit oss drátt á rími.
Vita átt, að vísna-mærð
Væri hátta-tími.

Svona mátt þú segja. Svo ég hætti þessu, aðeins svara: að ég finn ekki það að ræðu Har. Níelss., sem hann sagði frjáls-

lega um skáldskap Þorst. En að hinu, kirkjumannanna gamla ráði, sem rógi gengur næst: að vitna dána vantrúarmenn í kistunni, sinni kreddu til sönnunar, til að hreykja henni upp með frægu nafni, þegar þeir gátu ekki nítt það af andstæðing sínum áður. Þetta er algengt kirkjulag í öðrum löndum. Er að takast upp á Íslandi.

Og um andartrúna — hver er frjáls, meira en frjáls, að trúa, að rannsaka. En mig væmir við að sjá það kallaða sönnun, sem ekki er nema tilgátu-ráðning á gátu, það nefnt rannsókn, sem ekki er annað en fyrir-fram skoðun manna, sem skortir öll skilyrði til vísindalegra, jafnvel skynsamlegra rannsókna. Nú nenni ég ekki út í tiltekt á dæmum. Og þökk fyrir vetrarskemmtunina, Jón minn, og gleðilegt sumar!

Þinn einl. Stephan G.

*Jón Jónsson frá Sleðbrjót.* Markerville, Alta, 21. apríl 1915.

Allt er ein snjóbreiða, hóllinn og hlíðin —
En hreggbarið vor niðri í rótinni lifir
Með frækorna arf. Þó að eyði sér tíðin,
Á ættin og jörðin
Í okkur og grasinu sumar í skörðin —
Og *senn* skellur á okkur síðasta hríðin
Á Sextugsmanns-dægru, því þar skeflir yfir.

Og komdu nú sæll, Jón minn. Ég byrja nú svona, af því þú sveigðir eitthvert orð að því í bréfi þínu seinasta, að nú færi að síga að því, að okkur kynni að verða „aldurinn að meini“.

Í dag er hríð og alsnjóa og innistaða fyrir menn og skepnur: svo „þess *geldur* þú, að ég kemst ekki í dansinn með þá ungu frú“.

Þökk fyrir bréfið. Ég hafði skrifað þér loksins, degi áður, eða svo, en ég fékk það í hendur, svo ekki mátti tæpara standa, að ég stæði í skilum.

Mér þótti skemmtun að að lesa „Minningar“ þínar og þakka þér kærlega fyrir þá ánægju. Ég las þær með *vilja til að finna að einhverju*, ef það kynni að geta orðið þér til gagns, en datt ekkert í hug til að „reka hornin í“. Ég held þú hafir það, sem til þarf að leysa þetta fullvel af hendi, — eftirtektina þá, sem glöggvar innrætið af litlu atviki, orði eða

svari að óvöru sögðu, kannske um hið hversdagslegasta, eða í glettni, og sem almenningur tæki ekkert mark á, en opnar þeim heilt djúp, sem fundvís er á mannlegar sálir; sanngirnina þá, sem hvergi á sín í að hefna, né fer að fordómum eður mætum sínum á mönnum, en segir hlutdrægnislaust eins og minni og eftirtekt ná til. Þetta virðist mér vera helztu hæfileikarnir, sem þarna þurfa. Ritsnið sjálfs þín, góð alþýðu-íslenzka, eins og hún kemur fram í umræðum, finnst mér fara vel á svona frásögum.

Ekki vildi ég missa neitt af því, sem þú segir frá séra Halldóri. Frá honum segir þú skýrast og af mestri samúð, að mér finnst, en það er þarft, um hann er fremur fásagt, að ég held. Mér finnst frásögn þín um hann gera mér Halldór ljóslifandi: hófsemdarmanninn, sem fyrir félagslyndi, risnu og glaðværð gat ekki gert sig of góðan fyrir sollinn sjálfan, og þeir, sem svo eru, hafa verið vörn þess, að í solli fór þó ekki verr en fór, en látið við það nokkuð af orðstír sjálfs sín, að forðast ekki að vera með „illvirkjum taldir". Svo er hitt, sem þú segir af Halldóri, hvernig greiðamaðurinn í honum gengur alltaf og að lokum svo af búmanninum, að sá síðarnefndi heldur auðvitað við hagskýrslunni, en gefst upp að innheimta „þann síðasta pening", auk margs fleira, sem mér skilst. Nú, ég segi þetta svona leiðinlega nákvæmt, svo þú sjáir, hvert gagn að góðum sögumanni gæti seinna orðið úr þessu, *fyrst ég get* þó höggvið svona á atriðum, sem svo litlu hefi þar til að má. Thomsen verður býsna skýr hjá þér líka, hversu hart hann sækir höfðingsskapinn á mannviti sínu, svo hann erfir að vera leiðréttur af ekki óvitrari manni en E. Briem. Þó er sagan bezt, er þú færðir honum stöku Páls, hversu kaldlyndi stórbokkans í honum nærri bráðnaði við unun hans af listinni. Annars hafði ég áður hugmynd um, að Grímur var nokkuð kaldrifja, eins og Guðmundur hans. En þarna komstu með aðra hliðina á honum og þá hægri. Af því sem ég hefi séð sagt um stjórnmála-stefnu hans, hefir þú greinilegast tekið fram, hve vel hann vann að íslenzku fjármála-frelsi, andstætt Dönum, þó lítill væri hann lýðfrelsismaður, því hann var að eðlinu „aristókrat". Tjöru-merking Páls Ól. er afbragð, lýsir svo vel, undir hvaða vopnum hann taldi sig færastan. Líklega var það virðingin fyrir Grími *skáldi,* heldur en Thomsen, fremur en heigulsskapur Páls, að hann svaraði honum ekki því, sem við

lá og honum datt í hug. Kvæða-aðferð beggja var svo andstæð, að hvor gat að hinum dázt á því sviði. Þú nefnir stjórnmála áhrif Jóns Ólafssonar og lýsir þeim sjálfsagt rétt. En kanntu ekkert hrekkja-svar né snjalla sögu um hann? Úr Birni Péturssyni verður þér minnst, en er líklega ekki þín skuld. Ég kynntist honum hér vestra, ofurlítið. Hann fylgdist betur með hugsun tímans en þeir, sem yngri voru og þóttust lærðari, en naut sín miður sökum mikillar sáttfýsi að þola allan ójöfnuð við sig, jafnvel í sínum eigin áhugamálum. Hann tók jafn vel svari óþyrmilegra andstæðinga sinna, og aðeins um einn mann vissi ég hann segja gremjuorð: Gest heitinn Pálsson. Þingsögu sína sagði Björn mér þannig: „Þegar ég kom þar, voru þar aðeins tveir flokkar: lærðir menn og bændur. Báðir þóttust eiga mig að sjálfsögðu. Lærðu mennirnir, af því ég hafði komizt í Bessastaðaskóla, en bændurnir, af því ég var við bú. En ég gat hvorugum fylgt, og ónýttist svo. Með lærða flokknum gat ég ekki verið. Hann hugsaði ekki um neitt meira en sinnar stéttar hag. Við bændurna tjónkaði ekkert, þeir voru of vitlausir og sáu ekki, hvernig hinir vöfðu þá upp. Eitt frægðarverk vann ég þar þó: Ég tók einu sinni fram fyrir hendurnar á forseta, Jóns Sigurðssonar sjálfs. Hann boðaði frumvarp til umræðu, ég stóð upp og spurði, hvort forseti vissi, að þetta frumvarp yrði ekki rætt nú samkvæmt þingsköpum, það hefði ekki legið í lestrarsal samkvæmt reglunni. Um þetta var svo hnippzt, en ég sannaði mitt mál. Forseti varð að láta undan, en líkaði miður“.

Björn heitinn var gestur minn stundum í Dakota. Oft bar margt á góma. Eitt sinn er við rekktum saman, fitjaði Björn upp á ódauðleik einstaklingsins. Við bárumst á um líkur með og mót. Ég var lúinn, vildi sofna, því komið var að degi. Björn hafði marg-tekið upp sömu ástæðuna aftur, því nýjar voru löngu þrotnar. „Nú hætti ég að þræta við þig, Björn“, sagði ég loks ögn önuglega. „Við höfum nú lengi ekki annað gert en að tyggja upp aftur og aftur það sama“. Björn anzaði þessu engu, en veltist um rúmið hlæjandi. Ég spurði hann, hvað um væri kæti hans. „Já, nú er ég búinn að komast fyrir það, sem ég ætlaði mér, og nú skal ég hætta“, sagði Björn. „Ég hélt, að það væri ómögulegt að þræta svo við þig, að þú reiddist, en loksins tókst mér það. Nú veit ég, að þú getur reiðzt“. Auðvitað var ég ekki reiður, en lofaði Birni að segja

það mótmælalaust, þegar ég sá, að hann hafði gert sér leik til þess, hann mátti ekki minna hafa fyrir iðni sína við að reita mig til reiði.

Skýringar þínar á þjóðviljanum svo nefnda í íslenzkri stjórnardeilu eru eflaust réttar, t. d. um fylgið við Jón Sigurðsson, fremur af tilfinningu en skilningi, sem seinna hitnar í, svo múgurinn glöggvar sig á málefnum, þegar embættismenn á þingi fara að seilast dýpra ofan í vasa hans, að honum finnst — er eflaust rétt, hún er svo eðlileg, en ekki hefi ég séð fyrr á það drepið jafn glöggt. Það eru einmitt svona „innri þræðir", sem „minningar" þeirra, sem lifðu og hrærðust undir öldunum sjálfum, segja oft svo vel frá, en týnast úr yfirborðs-sögunum.

Að regla öðrum niður og dæma svona verk, er ómögulegt, fremur en neitt, sem einstaklings gáfu þarf til. Lögmálið er þetta gamla: „Flyttu *málið* fyrir mig, en finndu *vaðið* sjálfur". Það getur meira að segja vel verið, að til séu sömu sögur og þínar, eða aðrar enn betri, í minnum annarra manna, og um suma þessa menn, en reyna margir að geyma þær framtíðinni? Þú vinnur þar að þínum hlut, og ef til vill ertu einn um það.

Þetta er allt, sem ég get sagt, svo vit sé í. Þér er það ef til vill eins mikill styrkur eins og útásetningar að sjá, hvernig þetta „slær mig". Ég get ekki séð, að þú hafir neinu ofaukið, og ekki er hægt að heimta betra en þú manst, og fyrirgefðu nú þulu mína.

Ég las lauslega það, sem Sig. Júl. sagði um þig, og þótti vænt um. Sé ekki, að þar sé of mikið í borið, þegar þess er gætt, að Sigurður verður æfinlega að vera mælsku-maðurinn, hvort sem hann ritar eða ræðir. Hitt er víst, að lof um þá, sem enginn flokkurinn hérna á með húð og hári, er ekki eftirsóknar vara þeirra, þó vel sé verðskulduð, en þeim mun meiri er þá sanngirni Sigurðar. Það er hart að segja, en satt samt, að góðir menn í manns eigin flokk, meðbræður í málum, sem maður myndi aldrei bregðast, hafa stundum rýrt mann fyrir liðhlaup, fyrir það eitt að geta átt nokkur sæmileg mök við gamla kunningja og sveitunga sína í andstæðum flokk.

Ég þakka þér fyrir, að þú hefir heldur séð eftir, að ég gerðist í bráð útlægur úr blöðunum. Óafvitandi því drap ég samt á það í síðasta bréfi. Auðvitað er þar ekki stór skaði skeður,

á hvoruga hlið, en ekki hefi ég skap til að neyða mér upp á neinn, og fremur vil ég forða blöðunum bekkingar út af mér. Nógur er sýtingurinn samt.

Það var í gær, að ég byrjaði bréf þetta, en í dag slæ ég botninn í. Hríðin er hætt. Sólbráð og sunnan-gola. Grund og akrar hvítskjöldótt enn. Reyndar verður þetta hret ein af gróðrar-gjöfum Freys, ofan í nokkurra daga blástur og belj- anda. Eins ætla ég nú að gera við þig, þagna og láta þig í friði, og vertu nú sæll.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*E. S.* — Þessu gleymdi ég þó: Mér hafði hugsazt, að þú myndir, að loknum frágangi handritsins, senda það þegar heim á safnið, með þeim ummælum, að ekki væri uppbrotið til aflestrar fyrr en eftir svo mörg ár, sem þér þætti þurfa, til þess að allir þeir yrðu undir grænni torfu, sem ritið gæti um, ef þú vildir ekki leyfa not þess strax. S. G. S.

*Jón Jónsson frá Sleðbrjót.* Markerville, Alta, 30. maí 1915.

Góðvin. — Hefir þú fengið frá mér handritið þitt heim- sent? Um mánuður síðan ég sendi þér það, en veit ekki um afdrif þess. „Ísafold" eina hefi ég séð, en öll sendiherra-er- indin á huldu, nema ef ávæna er um sundurþykkju. Auðvit- að hefir líka gamla ritningin „Divide et impera" verið reynd að láta uppfyllast enn í ríkisráði. Eftir dönsku blaði hér í „heimi" hefi ég frétt, að sendiherra konungs fari til Íslands heim með ólokin mál í þetta sinni, en muni verða kvaddur á konungsfund aftur síðar. Mér skilst, að slíkt láti að líkind- um, sem sé, þeir eiga að túlka flokknum konungsorðið, hversu sem það kann að vera, og segja honum svo sínar farir sléttar, ef unnt er. En maður þraukar til átekta hér. — Lýðnum heima kann samt að geta glapizt sýn við langa þögn, en skjóta ákvörðun, þegar málalokin eru loks látin uppi. Víða var því bragði beitt. Miðann lét ég marka mælginni bás. — Fleygði í spilið fjarka fyrir ás.

Vinsamlega S. G. S.

*Jónas Hall.* Markerville, Alta, 1. júní 1915.

Góðvinur. — Þökk fyrir skilsemina á skildingnum frá J. S. Hver hann sé? Sveitungi minn hér, bóndi, efnamaður við aldur. Greiðamaður, ekki við allra fjöl felldur. Sunnlendingur, svili E. Hjörl.sonar. Kom hingað frá Þingvalla. — Kr. og L. komin heim fyrir vikum. Setzt að líkl. lengi eður alveg. Nýl. búinn að skrifa þér, þegar bréf þitt kom. Samt hefir þú svarað því, sem ég spurði (um Norðmanns-greinina), áður en þú fékkst opna bréfið frá mér, að líkindum. Mikill skilningur er það annars að taka það fyrir alvöru höfundarins sjálfs, en sjá ekki kímni-svipinn, þegar hann aðeins er að apa eftir alþýðuróminn. Engar eru fréttirnar, því þetta, hvernig við Kanúkar týnum tölunni í Flæmingjalandi (9 eða 10 þúsunda skarð, að ágizkun), það sérðu allt og eins áreiðanlega þín megin við þröskuldinn. Annars koma afleiðingarnar minnst niður á þeim, sem nú lifa, ef mig grunar rétt, og þó má svo að orði kveða, að lögleysa sé nú að snúa sér við, án þess að kaupa sér stjórnarstimpil á rófuna.

„Allan heim ég hefi í bandi,
Hef nú lánað hverju landi
Til að deyða,
Til að meiða,
Til að eyða.
Óætt sem ætt,
Alið sem ófætt,
Allt er veðsett mér.
Góður guð og fjandi
Gjaldandi minn er.“
En gættu þín, gættu þín!
Gjaldþrot lærðu menn af þér!

Miðanum á er engin mynd.
Ýttu honum frá þér hvílinn.
Krökkum fáum fannst það synd
Að fella úr „smáa stílinn“.

Vinsaml. S. G. S.

*Jónas Hall.* Markerville, Alta,Can. 12. júní 1915.

Jónas minn. — Ég hefi enn ekki svarað því, sem þú minntist á „Ísland frá hestbaki“ eftir R. okkar. Gat ekki sagt endi-

legt um sölutilraun fyrr en nú. Rétt er það, R. ritar um íslenzkt þjóðlíf af skynsamastri samúð, síðan Henderson var, af því sem ég hefi séð. Málvillurnar íslenzku fremur óhapp en stórgalli. Las ritdóminn í „Scand. Amer. Review". Veit ekki, hver „Andri" er. Flaug í hug: Dani, eða danskeygður, þykktist því, að á því ber, að R. dáir ekki danska stjórn á hjálendum. Ber mest á því í Færeyjaþættinum. Ár síðan ég las bókina. Man enga söguvillu, en flaug þá í hug, að villa myndi alókunnuga, að lýsing hans á víkingum fer á eftir (ekki undan) kafla um landnám, sem sé: verða ályktað, að Ísland væri víkinga-bólið, í stað þess, að þar lagðist víkinga-öldin upp, að mestu. En sé svo, er það tíma-(krónólógisk)villa, síður söguvilla. Annars er ritdómur A. bara framísletta. Engin rök rakin til, að rangt sé. Slíkt getur hver flysjungur. Aðalkosturinn við bók R. er þó hans glögga skyn á menningu — hún sé ekki öll falin í sem mestum áraburði, umstangi og því, sem kallast stórvirki og framkvæmd. — Ég fer sjálfur lítið um. Fékk bókavörð lestrarfélags okkar á M-ville til að reyna að selja svo sem 6 eint. Þarf útsali að borga við afhendingu strax, eða með tíma? Láttu mig vita, hvort þú vilt reyna þetta og hvernig.

Þinn S. G. S.

*Jón Jónsson frá Sleðbrjót.* Markerville, Alta, 20. júní 1915.

Sunnudagshugvekja mín.

Örfá orð um íslenzk stjórnmál núna, frá mínu sjónarmiði, úr því okkur báðum eru þau hugleikin og erum að rabba um þau. Einhverjir þykjast hafa lapið upp það, sem lekið hafi út um þrí- og þingmanna-þagmælskuna, að „konungsorðið ið dýra" sé nú það, að efninu til, að gera það, sem Jón frá Hvanná heimtaði hreinlegast, en Einar Benediktsson sagði, að engin hátign gæti boðið sér, sem sé, taka yfirlýsingu sína til Danmerkur út úr málaflækjunni aftur og samþykkja stjórnarskrána nýju, gegn því að Íslendingar lofuðust til, að íslenzk mál yrðu borin fram í danska ráðuneytinu, meðan sín stjórnartíð stæði. Þessi saga stendur nú, ef til [vill] ekki á flugufæti, og „Ísafold", sem barst mér í gær, lætur ekkert uppi um erindið frá konungi.

Þessi heimsku-leynd með það, sem hvern mann í landinu

varðar og enginn hefir því einkarétt til að geyma, er heimssiður, en stjórnarbölvun og leiðir frá lýðræði lengra en nokkuð annað, þar sem þjóðræði á að heita í orði kveðnu. Mig furðar, ef sæmilegir menn, sem með lands síns erindi fara, sjá þetta ekki, því þögn um þjóðvandamál er enginn drengskapur. Að fólkið líður svona meiri-manna makk með forlög sín, eru til dæmis ein aðal-upptökin að Norðurálfu-stríðinu nú. Öll orðaskipti og ráðagerðir ríkja milli ættu að birtast almenningi samdægurs í stjórnartíðindum, af því það eru allsherjarmál, enda yrði þá minna brallið, öfugsnúningarnir, tvöfeldnin og bætiflákalygarnar, sem þjóðirnar eru skríl-mennskaðar með, þegar í ófæru er steypt. Stjórnmála-semjendurnir létu sér varla verða að afflytja málstaði sína upp í opin eyru þjóðar sinnar og andsvarsmanna hennar, gætu það ekki. Að þessu leyti á aðsúgurinn að þrímenningunum heima allan rétt á sér. Svipað var á seyði á Íslandi nýlega. Það var „bræðingurinn“. Helztu menn hans leiddu einstaklinga í eldhúsið, til að sýna þeim í ketilinn, upp á loforð um þögn að sinni. Einhver, sem ofan í hafði sýnt verið, rauf þögnina og ljóstraði öllu upp. Náttúrlega var núið í hann ódrengskap, en því var þannig svarað þá, og réttilega, að hér væri um engin drengskaparsvik að ræða, af því bruggið hefði verið alþjóðareign, en ekki einstakra manna málefni.

Ég veit vel, að þó sagan, sem ég sagði eftir, um efnið í konungsboðinu, væri nærri lagi, sem engin reiða er þó á, þá leikur allt enn á, hversu það yrði orðað og með hverjum auka-agnúum. Sem sé, það má setja svona samnings-lim í svo tvírætt mál og aftur-tekið með annarri hendi, að íslenzki málstaðurinn veikist meira en styrkist við aðgöngu hans. En, maður kveður ekkert upp um getsök. Vonar, að Einar ráðherra (þrátt fyrir þögnina sér til ills), þegar hann kemur frá „fermingunni“ í Höfn og má mæla, flytji ekki annað en boðlega og trygga samninga frá konungi. Reyni ekki að koma þjóð sinni til að hlaupa á sig, til flekunar samninga, með rangri máltúlkun né aðhrapskosningum. Hafi bent konungi á, að ef hann slær undan, eigi Eggerz að sitja kyrr sem ráðherra, svo framarlega sem hann fáist til og fallist á skilyrðin, því til heppilegra málaloka hafi hann mest lagt með festu sinni fyrir, og vinningurinn sé honum að þakka, ef að réttu fari, og sjálfan sig meti hann meira en svo, að vilja stelast á verki

félaga síns til valdanna, en hafa honum hrundið og ómaklega.

Svona hugsar maður fram til átekta, hvað sem uppi verður. Og „undarlegt er Ísland“, ef alþýðan virðir einkis þann ráðherrann, Sigurð Eggerz, sem minnstur misendismaður hefir reynzt af ráðherrum hennar fram að þessu, þegar í konungsgarð kom, en hossar hinum, sem löngum felldu ketil hennar í Kaupmannahafnareldinn, þegar á reyndi.

Mér verður sagt, að ég hafi ekki vit á pólitík. Sjálfsagt ekki á fyrirsláttunum, því ég sé í gegnum þá. „Þó að ég sé fjallafífl að fornu og nýju, þekkja skal ég beint frá beygju“, kvað hagyrðingurinn forðum, og ég tek undir það — en ekki seinustu hendinguna, hún er víst ein þessi „pólitík“, sem ég gæti sízt gortað af.

Með vinsemd.

*Jón Jónsson frá Sleðbrjót.* Markerville, Alta, 14. júlí 1915.

Góðvinur. — Þá skal drepa sér niður dálitla stund og sýna lit á að svara bréfum þínum tveimur, sem ég þakka, en hefi þagað við. Ég sendi þér nafnlausa línu þó. Ég er næstum leiður á þessu, í hvert sinn, að setja nafn mitt við klaufaförin mín, sem ég veit, að viðtakandi þekkir á augabragði.

Loks er „kötturinn sloppinn úr sekknum“, sá sem Sjálfstæðisflokkurinn átti að kaupa að kónginum. „Landvörn“ ljóstraði upp, gerði laukrétt, að mínu viti, þó aðrir brigzli um ódrengskap. Auðvitað rýrir það Ein. Arn. í Hafnaráliti að orka ekki að láta flokk sinn læðast með þetta, en eina ráðið við allt þetta brall og bræðinga með réttarkröfurnar, var að gera þá gagnslausa, með að koma þeim upp áður en ætlað var. Það hnekkir framvegis, ef nokkuð getur. Annað er hitt, að uppþotið heima ætti að verða til þess, að konungur verður að bjóða ákveðnari orð en ella, hverja leiðina sem þau falla. Að þessu leyti hefi ég samúð með uppþotinu, en ekki á þann hátt, að þrímenningarnir færu flærðarlegar að en venjan er, en það er hún, sem heimurinn þarf að brjóta af sér, eigi þjóðræði að vera annað en fals.

Ekki hefi ég séð blöðin, sem sögðu eftir, ekkert nema „Ísafold“, en hún ljóstraði efninu upp óvart í vörn sinni fyrir Svein „bróður“, út af deilu við Björn K. Sem sé, konungur ætlar, að sleikt sé kringum málið enn, það er það, sem sá

lærði Sveinn kallar ekki pósitívska viðurkenningu hjá „S“-fl. Í deilunni áfram á að orða þetta svo og ganga þannig frá því, að Íslendingar geti deilt um, að konungur hafi horfið frá valdi dansks þings yfir Íslands-málum, en Danir haldið á, að svo hafi ekki verið, aðeins frestun á málinu fyrir samnings-lagni Dana. Ég er ekki þjóðmála-maður Jón, og enn síður þjóðmála-skúmur. Mín pólitík er engin önnur en heilbrigð skynsemi á alþýðumálum, hvaða vald eða virðing einstakra manna eða stétta sem á því kann að vinna eða í að missa, mér er það sama. Fyrir mörgum árum var ég að hugsa mér réttindi Íslands, eftir því örlitla, sem ég vissi um þau. Ég komst að þeirri föstu niðurstöðu, að samkvæmt gangi hlutanna, venjum og samningum, væri Ísland óháð ríki öllum öðrum ríkjum, en að þar stæði enn að nokkru leyti einveldi dansks konungs, sem sé, í þeim málum, sem hann ekki enn hafði selt í hendur þingsins aftur. Ekki dettur mér í hug, að ég geti rökrætt þetta út í æsar vísindamannsins, það var aðeins yfirgrips-niðurstaða, sem ég gerði mér, og mér nægði, og ég hygg sanna. Ég hefi aldrei lesið bók E. A. um ríkisrétt Íslands, ekki komizt til þess, og er hún þó í lestrarfél. hér, en séð hefi ég í ritdóm einhverjum, að niðurstaða hans sé í svona átt. Auðvitað trúi ég, að það sé rétt og rök hans góð og glögg, en ekki veit ég þau. Þæfð og uppteygð er nú mín pólitík öll þetta og annað ekki. Grillur og glundroðinn í greindum mönuum fer oft fram af minni þolinmæði. Gísli Sveinsson er beinn skilnaðarmaður. Svo er ég. Eina beina málalokastefnan er, að hiksta ekki á því. Samband Norðurlanda lánast aðeins svo, að allar norrænu þjóðirnar fjórar, eða helzt fimm (ég tel Færeyinga með þjóðum), verði sjálfráðar fyrst, og sameinist sem jafningjar að réttindum, en ekki að höfðatölu-hlutfalli atkvæðafjöldans. Það byggist á þeirri sanngirni, að litla þjóðin á jafn mikið í húfi af rétti sem þjóð eins og sú fjölmenna. Íslandi gæti ekki viljað verra til en að lenda inn í það samband með ógerðan reikning sinn við Danmörku og að neinu undir hennar hendi. Því ofbýður mér, þegar slíkur maður sem Rögnvaldur okkar vill ekki, að Ísland missi sig úr Dana-bandi, til að komast í norrænt þjóðalag, sem er æskilegt og var fyrir æfalöngu hugsjón góðra manna norrænna. Mest furðar mig á þessu hjá Rögnvaldi, af því hann er uppalinn og menntaður Bandaríkjamaður. Það er eins og hann hafi ekki tekið eftir því, að það, sem saman

heldur þar, er, að minnsta ríkið ræður jafnt og hið stærsta. Þau þurfa ekki að berjast til ríkisauka, til hafnarstaða né héraða hvert hjá öðru, því þeim er það öllum jafn heimilt og ótollað. Það eru einmitt ríkja-sambönd, sem Vesturheimur hefir þar skarað fram úr í, fremur en í þjóðræði, þó á því sé stagazt mest. Einstaka gallar eru þó enn á, út á við, en nágrennið sjálft líkt og á að vera. Ég minnist á þetta, af því mér þótti ræða Rögnv. á Hnausum annars ljómandi góð og falleg.

Gísli Sveinsson er aftur svo harðsvíraður ríkisréttar-trúmaður, að hann vildi láta þing samþykkja stjórnarskrána og líta ekki við konungs-boðskapnum, því hann hefði verið markleysa, — lögleysa. Setjum svo, að það sé rétt eftir ríkisrétti, en þar var þó nýr vafningur í málinu, sem við varð að sjá, ný flækja til tafar úrgreiðslu. Einar Ben. stóð fast á, að ekki yrði annað af viti gert en þingið sjálft felldi sína eigin stjórnarskrá, því konungurinn gæti aldrei tekið orð sín aftur, þó það sé alkunna, að konungar tala sitt á hvorri stund, eftir því af hvaða flokk ráðuneytið er. Sú kenning Einars var jafnvitleg eins og sú, í stórlántökugreinum hans, að „peningar hafi ekkert þjóðerni", og því sé innlendu þjóðerni engin hætta í útlendu fé. Það er reynslan, eða hitt þó heldur, t. d. í Mexíco nú og lengi. Þar er barizt móti erlendu auðvaldi, sé satt sagt, og erlent auðvald hefir haldið öllum hennar stjórnarböðlum við, frá dögum Diazar. Reyni Ísland einu sinni að taka lán, svo sem til járnbrautar, gegn hlunnindum og okurvöxtum erlendra ríkismanna, sjái sig svo seinna hafa verið féflett og ginnt og reyni seinna að segja upp samningi, eða taka eignarrétt á, með innlendum lögum, skyldum við sjá, að „peningar hafa þjóðerni", sem sé, erlendu lánar-drottnarnir og stórvirkja-miðlarnir siga þá sinni stjórn og stríði á lántöku-landið, skylda hennar sé að vernda hag sinna þegna, eins utanlands, jafnvel til að féfletta. Þetta er marg-reynt og sannað.

Fyrir Guðmundi Hannessyni get ég ekki gert grein, aðra en þá, að hann er vitmaður mikill, líklega skilnaðar-maður í einlægni, en annað hvort kænni en allir hinir, og steypir þeim með bræðingum, sem ótrúir eru og eyðileggjast þurfa, svo nokkurt mál vinnist. Óefað var það Gvendur, sem eyðilagði marga slíka ræfla með bræðingnum, Hafstein og Einar Hjörsa þar á meðal, að minnsta kosti um stund. Annað hvort er hann kænn, eða áhlaupagóður, en endingarminni, hverju máli

sem er. En með mörgu öðru, sem hann hefir viturlega ritað, voru tillögur hans og óánægja með stjórnarfyrirkomulagið, sem komu út í „Ísafold“ fyrir nokkru, eitt hið ágætasta og frumlegasta, sem lagt hefir verið til íslenzkra stjórnmála í langa tíð. En auðvitað verður það „hrópandans rödd“ í íslenzku-allt-eftir-öðrum-öpuðu-stjórnmála-eyðimörkinni, að þessu sinni.

Það, sem mig bítur stundum mest, er þetta íslenzka: „að vera eins og stórþjóðirnar“, það er svo smáþjóðsálarlegt að geta ekki hugsað neitt nema það næsta, sem maður sér fyrir sér, og sjá þó ekki kost og löst á því. Ég tek til dæmis fánamálið fræga, það er merkja-gleggst, en önnur eru því lík. Ég var ekki fanginn af því, þegar það var fitjað upp fyrst, það var aðflutt frá Norðmönnum. Ég get enn ekki hljóðað mig hásan fyrir neinni flík á stöng. Þó veit ég, að þjóð-fánar eru nauðsynlegir sem kennimerki, og ber virðingu fyrir þeim. En einmitt af því þeir eru einkanlega kennimerki, ríður á, að þau séu sem ólíkust, einkum ríður smárri og lítt-þekktri þjóð á að eiga sér einkennilegan fána, helzt svo, að ókunnugum verði í fljótu bragði starsýnt á og spyrji: Hvers fáni er þetta? Maður ætlaði, að Íslendingar sæju þetta. Nei, nei, um að hugsa að líkjast „stóru frændunum“, Dönum, Norðmönnum, Svíum og jafnvel Englendingum. Fáninn þurfti endilega að vera Ingiríður allrasystir, enda varð hann það alltaf meira og meira, unz engir nema sérfræðingar muna mismun á honum frá öðrum óteljandi krossfána-fígúrum. Það er eins og íslenzkum stjórnmálamönnum sé fyrirmunað að hugsa, oftast nær. Segjum þeir hefðu ekki viljað hafa „heiðni“ í „flaggi“ sínu, fyrst það fór ekki með „krossinn Krists“ — en viljað þó ekki gerast tómar eftirætur, sízt merkja sig svo, nú, þá var himininn þó eftir, af honum höfðu [að] vísu aðrir tekið sól, tungl og stjörnurnar, og auðvitað sneyðir að því, en þá átti Ísland sérstaklega „norðurljósin“, sem enginn hefir hrifsað enn, og „friðarbogann“, sem á heima hvar sem regn fellur og sól skín, og ónuminn af öllum þjóðum, verðugt merki þeirrar þjóðar, sem æfinlega fór með friði yfir höfin, og nógu marglitt til að þóknast þeim augum, sem glossinn gengur bezt í.

Svona er nú mín lund um þetta mál og fleiri.

Við erum á einu máli í því, að íslenzk járnbraut ætti að vera rafmögnuð, eins og eflaust er auðvelt. Að hugsa sér járnbraut

heima, rekna gufuafli frá aðkeyptum kolum, kórónar alla járnbrauta-fáfræði. Eftir því litla viti, sem ég hefi á afleiðingum járnbrauta út um heim, vil ég enga slíka á Íslandi, nema hún yrði byggð eingöngu til þjóðnota, engum til gróða, og þá, þegar vit og þekking í landinu sjálfu er því vaxin að vinna slíkt verk og lands-sjóður á það fé á reiðum höndum (í gulli eða verzlunararði), sem nægir til að borga þá áhöfn alla, sem kaupa þarf erlendis. Manns-vinnu alla má greiða með þjóðar-ávísunum á sjálfa sig, sem kallaðar eru bréfpeningar og gilda innanlands, fyrir þá fær vinnumaðurinn nauðsynjar sínar fyrir verk sitt, og þjóðin verk hans í brautinni fyrir þær. En þveröfugur er ég móti járnbrautar-þörf á Íslandi, undir því fyrirkomulagi þeirra, sem enn tíðkast í heiminum, og um annað er enn ekki að tala. Járnbrautir eru a og ö í auðvaldi og örbirgð landanna, systur samsteypnanna og fóstrur fjárglæfranna. Um það er ekki að villast. Þeir, sem á endanum eignast þær, hafa aldrei lagt 5 cent af 100 í þær. Svo er það í Bandaríkjunum, sagt fyrir rétti af sjálfum þeim. Allar eru þær svikabyggingar, vísvitandi, verkeigandans og eigendanna, sem stjórna, þegjandi þjófa-brögð. Hlutir og veð í þeim eru seld, ekki eftir sannvirði verksins, heldur eftir lögmálinu „allt, sem á verður lagt" — all that the traffic bears — sem sé, verði hægt að toga út úr þjóðinni svo hátt flutningsgjald, að ágóðinn af eins dals hlut svari vöxtum af 100 dölum, án þess að farið sé svo hátt, að flutningar verði frágangs-sök margra, sökum getuleysis að borga fyrir, því það væri brautinni tap, nú, þá er stofnféð, einn dalur, gerður að 100. Svo þegar brautir fara á hausinn, og með þessu lagi gera þær það allar, fyrr eða síðar, af þeirri einföldu ástæðu, að framleiðsla og notkun rís ekki undir álögunum takmarkalaust, þá verður ríkið að taka við þrotabúinu og halda uppi háum flutningsgjöldum á almenning, til þess að hlutir verði ekki einkisvirði né ávaxtarlausir, þó þeir rýrni. Látum hlutina falla um helming, og ég sé eigandinn, stjórnin greiðir, mér að kostnaðarlausu, vöxtu af $ 44.50 og út í það endalausa, sem ég aldrei gaf neitt fyrir, sem aldrei voru til. Svona eru járnbrautir byggðar. Svona fara þær óhjákvæmilega. Tókstu eftir, að jafnvel í skýrslum Björns K. voru járnbrautartekjur alls staðar lækkandi? Það er rétt. Svona er það um allan heim og verra. Ég hefi sagt þér orsökina og hún grefur um sig framvegis. Svona járn-

brauta-slysi vildi ég forða Íslandi, en það verður ekki, ani menn út í hana bráðlega. „Stórvelda"-fyrirkomulagið, sem apa á, hlýtur að hrynja bráðlega, og skárra koma í staðinn. Þá er Íslandi eftirherman óskaðlegri, ekki fyrr. Enn er eitt: Járnbrautir steypa í sig, eða eyðileggja, vatna- og sjóflutninga hvers lands, ódýrustu flutninga-tæki fólksins, eignast eða bendla „línurnar" við sig, múta, og standa móti öllum framförum í þá átt, þurfa að koma á kné því, sem er svo auðkeppt við þær. Yrði Íslandi það þarft? Járnbrautir eiga einn versta þátt í spilltri stjórn og illri löggjöf í hverju landi. Má íslenzk pólitík við því? Járnbrautir eru undirstaða alls gróðaæðis og bláloftsverzlunar. Er á það bætandi heima?

Ég hefi ekki sagt nema fátt eitt af því, sem ég hugsa og þykist vita, að afleiðingin yrði, og óþörfin sé, heima, á járnbraut, enn sem komið er. Af öllum, sem um það mál hafa ritað, með og mót, er landsverkfræðingurinn víst járnbrautaheimskastur, hvernig sem á því stendur. Að minnsta kosti þyrftu Íslendingar að járnbrautavitkast betur, t. d. komast fyrir stjórnarfyrirkomulag brauta í Sveitz, því ljúgi ekki bækur og blöð, sem ég hefi séð, þá er fyrirkomulag þar skást.

Annars getur maður orðið afturhaldshneyksli við að andæfa járnbrauta-framsækjendum, ég sé það á því, að jafnvel svo gætinn og góður maður sem biskupinn er, ruglast í jafn ólíkum hugtökum eins og „trú á landið" og ótrú á nútíðar-járnbrautum um það eru þó.

Annars, eins og þú getur nærri, er ég einkis-manns óvinur né áhangandi þar heima. Það er engu að þakka nema árafjöldanum og fjarlægðinni. En svo ég leggi mig upp. Mér er hlýjast til Landvarnar-flokksins, hann kemst næst, að ég held, því sem fyrir mér vakir. Sjálfstæðisflokkurinn er meira en viðsjáll — „Ísafoldar"-liðið í honum er ótraust, sbr. bræðinginn, og nú ver hún mál þrímenninganna, með að eta eftir Einari í „Lögréttu" sömu ástæðurnar, sem hún áður amlaði á móti, meðan Eggerz hafði völd, sem sé: að ganga verði að konungs-kostunum, því stjórnarskrá og fánastaðfesting þoli enga bið. Mér er ljóst, að „Ísafold" ber eiginhagskápuna á báðum öxlum. Tvívegis hefir Sjálfstæðisflokkurinn eyðilagt sitt eigið mál, þegar aðeins virtist herzlumunur til sigurs — með að taka Björn í stað Skúla forðum, og Einar fyrir Eggerz nú, sem sé: gera Dönum það til geðs að senda þeim af-

sláttarmenn fyrir reynda einhuga, bara einhverri einkamálasamsuðu í hag.

H(afstein) er, í mínum augum, auðvirðilegur milli-gengill íslenzks bræðingsháttar og dansks grútarskapar, sem stjórnmálamaður. Einar Arnórsson flúði „Fjallkonu"-málstað sinn forðum og varð „heimastjórnar"-prófessor. Maður ætlar ekki, að hann sé að gera sama nú, en ið fyrra gerir mann samt óöruggari. Þarna sérðu mína samvizku um það, sem ég hefi hér orð á haft, og virtu mér til ófróðleiks, en ekki til illkvittni, það sem þér sýnist að. Enn fremur skal ég geta þess, að mitt mat á menningu er farsæld fólksins, ekki strit og stórvirki, sem gera fáeina að foringjum, en fjöldann að þrælum. Ég kýs heldur öll stórvirki óunnin, en þau gerist til að verða bölvun þeim, sem unnu. Þarna munar minni hagsýni frá hinna, sem reikna þjóðmegun í dalatali alls yfir, en ekkert eftir, hvernig þeim er skipt í vasana.

Þakka þér fyrir vísurnar þínar, þær eiga ekki skylt við skammir né beinakerlingar. Brosandi, kveðandi fyndni er líka skáldskapur. Vísur Páls eru það líka. Hann yrkir um „Naflaljón Baunapardus" (eins og afar okkar kváðu hafa svo snilldarlega íslenzkað sér frönskuna) á sama hátt og Jónas „Drottninguna á Englandi" og Gröndal „Heljarslóð", kemur þessum stórmennum fyrir í íslenzkri sveit.

Ekki hefi ég lesið bók „Þorskabíts". Bjóst við, að granni minn seldi mér hana og ætlaði að taka hana hjá honum. Hann hafði þá neitað um útsöluna, þegar við áttum tal um það nýlega. Ég taldi honum vorkunnarlaust að selja fáeinar. Hann lét þá sem hann myndi láta tilleiðast, en þar við situr. Af blöðum þekki ég þó kveðskap Þorskabíts ögn, en í molum. Þaðan hangir í mér það hugboð, að álit þitt á honum sé líkt og mitt. Hann hefir kveðið nokkur kvæði góð, og yfir vestrænt meðallag. En hann dregur örina of oft og of lengi fyrir odd, svo margt tapast flugið. Hann grípur sterklegan gang, við og við, en lötrar of lengi á milli. Prómeþeifs-eldurinn hans verður víða að glæringum, en ekki blossa. Mál hans er hvorki glæsi-mál, ljúflings-mál né kyngi-mál lista-skáldsins. Þeir mega lofa svo sem þeir vilja það, sem þeir nefna „einfalt alþýðumál" og látlaust, það verður samt sem áður aldrei einkennis-mál góðskáldsins. Þorskabítur leggst lengra en að vera alþýðuskáld, en nær ekki æfinlega yfir á hinn bakkann. Al-

þýðuskáldið er sá, sem með ljóðsnilld nýjar upp smælkin í hversdagslífinu í högum og hugsun fólksins. Það getur Magn. Markússon heldur ekki, hann á ekki til nema skelina, rímið, utan um eftirlíkingar af öðrum. Þorskabítur er honum máttugri. „Ást í meinum“ er að líkindum ekki meðfæri þeirrar listar, sem Þorskabít er lánuð. Hann líklega skortir ástríðuhitann, sem einn er fær um að gera það efni skáldlegt.

Allt er hér í síekju af sífelldu votviðri og sólskinsleysi síðan í vor, hversu sem enn kann af að reiða.

Fyrirgefðu fjölmælgina, öfugmæli öll og ritvillur. Ég verð að hafa það handahóf á öllu og hugsa og skrifa allt í snatri.

Þegar ég var að lúka við, kemur síma-kall að leita dauðaleit að dreng þýzks karls hér í grenndinni, komnum undir tvítugt. Hann fór að heiman í gær (15. nú 16.) kl. 3 síðd. Hundur hans og hestur kominn heim, en pilturinn ófundinn enn, undir kveld. Mér féll þetta illa, svo ég hætti masinu.

Vinsamlegast Stephan G.

*Guðmundur Finnbogason.* Markerville, Alta, 6. ágúst 1915.

Ritstjóri „Skírnis“, dr. Guðmundur Finnbogason. — Bréf og borgun og „Skírnis“-heftið frá þér er allt til skila komið. Alúðarþökk fyrir það. Vænt þótti mér samt um það, að þú gazt tekið Vopnahlé í „Skírnir“ þinn, án þess að gera það utan við þig, en „með ánægju“ eins og þú segir. Borgun bjóst ég ekki við. Frítt rúm í gestaherbergjum blaðanna hefi ég löngum fengið og látið mér nægja, og svo er enn, — en auðvitað, þessi borgun var skemmtilegt afbrigði. Yfir hinu var ég samt hróðugri, að Vopnahlé komst jafn ljúflega að svo virðulegu blaði eins og „Skírnir“ gamli er. Blöðum okkar hér hefði þótt það vandræða kveðskapur, sem von er, eins þverssum og það er við þeirra þörf núna: svo fjarri að vera stríðsdrottin-hollt, eins og þau.

Margt hefi ég lesið, sem eftir þig liggur, Guðmundur, og æfinlega eitthvað í því með fögnuði, því þú ert eins og skáldin verulegu, svo fundvís á margt fallegt, sem legið hefir í lágunum kringum okkur, óaðgætt.

Ég veit, að minn dómur er aðeins fyrir mig, og segi þetta svona, af því þér er kannske enginn ami í að fá að vita, að jafnvel „réttur og sléttur“ alþýðumaður finnur þetta.

Þökk fyrir það, sem þú kallar, að þú hafir „stolið“ frá mér, og allt hlýtt í minn garð, sem þú hefir sagt. Það er öfundsvert að verða fyrir svona „þjófnaði“, Guðmundur, og verður strákalukka færri en vilja, of fátítt, að „þjófur“ verðskuldi þökk þess, sem frá var „stolið“, en fyrir því hefir þú samt orðið!

Tvær villur varð ég var við við að lesa kvæðið, en eins víst, að þær stafi frá handriti mínu. Bls. 244, 9. lína (að neðan talið): Var eins vel og þú, fyrir: *ver* eins vel og þú — sbr.: að verja. — Bls. 259, 16. línu (að neðan talið): Festa trú fullyrðingum, fyrir: festa trú *á* fullyrðingum. En þetta eru smámunir einir.

Virðingarfyllst Stephan G. Stephansson.

*Jón Jónsson frá Sleðbrjót.* Markerville, Alta, 17. sept. 1915.

Góðvinur. — Ég borgaði bréf þitt með bréfsnepli einum síðast, svo þú átt að mér uppbót, þó hún verði eflaust ekki annað í þetta sinn en verri vanborgun.

Meðan ég man —: Ég sendi „Lögbergi“ stökuna, með sömu „mynd og yfirskrift“, af rælni. Óvíst það hirði hana. Gaman að sjá. Ég er „vargur í blaðavísunum“ vestan hafs núna, jafnvel með versta móti, eins og þig getur grunað, en er þó ekki um að kvarta. — Nei, „svala birtu“ er ekki hortittur, það er skáldlegasta sögnin í vísunni, málverk í tveimur orðum á aftureldingu eða kveldlýsu, hárrétt dregið með eigin hönd. Eða svo lít ég á ljóðlist, en ég er þar líka öfugur við aðra, eða var, þá sem bezt una við heflaða mærð, þar sem hver dráttur gufar út í glitmóðu. — Jú, þessi hreinsunarhátíð Manitobastjórnarfarsins er að vísu versnun betri, en mig stórfurðar, að blaðran sprakk ekki fyrr, eins augljós og hún var. En svo ganga hinir nýju sömu götuna, hafa aðeins rutt hinum af henni í bráð og tekið hana til sín. Svo verður það alla daga, meðan sú gata er ekki aflögð með einhverju því fyrirkomulagi, sem gerir auð og völd óeftirsóknarvert fyrir einstaklinga og flokka, það er eina þvert-fyrirtektin í þessu. Þangað til heggur sífellt í sama farið. Því er það, að ég vil enga járnbraut um Ísland enn. Hún fæddist í fyrirkomulagið, sem ríkir, annað er ómögulegt enn, og afleiðingin fyrir Ísland yrði þeim mun háskalegri sem braut þar yrði atvinnuminni en annars staðar, og gerð út í minni fjármuna fyrirhyggju.

En, ég á von á breyting til bóta eftir útför einnar til tveggja kynslóða enn. Annars tortíming, en henni trúi ég aldrei, þrátt fyrir allt; neyðin kennir naktri konu, alþýðuvitinu, að spinna fyrr en svo fer. Vit, velvilji, góðmennska, ráðvendni eru enginn heimanmundur mannanna frá upphafi, aðeins tamning þungrar og svipuharðrar reynslu, kynslóð eftir kynslóð. Sem sé, umhverfið, þ. e. umbúðirnar, ráða mestu um. Því er það, að járnbrautafyrirkomulagið, eins og það er enn, er tilefni til spillingar, jafnvel vænna manna, á sinn hátt eins og illar umbúðir á líkamanum geta valdið rotsári, Og svo set ég „tennur fyrir tungu" um þessar þrætur mínar.

Um Íslandsmál, eins og mér skilst þau standi nú, samkvæmt fáum og einhliða fréttum, er ég líkt hugsandi og þú. Aðeins, þú ert mér vonbetri um stundarfrið í stjórnmálum. Ég er nær því að vera við hinu búinn, meðan allt er tvírætt, óákveðið, ókarað — en til þess skera ráðherrarnir íslenzku refina, allir nema Eggerz, og slíkt þykir veraldarvizka (að toga allt ofan í undanfærslur) öllum þjóðum, nema Bandamönnum sízt.

Hefir þú lesið kirkjuþings-lestra Leós og Steingríms? Ég var að því nýlega, og mér var skemmt, þeir eru svo afkáraskringilegir, málaflækjumaðurinn og ergelsismaðurinn, að streitan sjálf verður manni ekki leiðinleg.

Hér hefir gengið rosatíð síðan 5. þ. m. Hagl þann dag, skemmdi hjá nokkrum hér akra, jafnvel slegið korn. Baldur sonur minn var einn, sem fyrir varð, og tveir Ísl. aðrir, fleiri innlendir. Síðan hefir bæði fryst og snjóað og rignt hvern dag. Þó er gras með grænasta móti enn, um þetta leyti árs. Þetta veður er ill verkatöf, en líklega batnar það bráðum, bregði ekki þeirri venju, sem tíðust er. Engjar og uppskera uxu vel, en hirðing tefst nú mjög.

Nú ertu búinn að fá svo orð í eyra, að ég ætla að sleppa þér, Jón minn, þó maklegur værir þú fyrir meira, en ég þarf út í akur, til að koma á upprisu hjá föllnum kornbindum, því nú er morgunregnið að taka af. — Og sæll á meðan.

Þinn Stephan G.

*Grímur S. Grímsson.* Markerville, Alta, 3. okt. 1915.

Grímur minn.

Vísuna þakkar þelið mitt
Þér um langa spölinn.
Meira en flestra er minnið þitt,
Að muna ára tölin!

Líklega hefir þú líka skrifað grein, sem stóð í „News“, um komu Jonna. Góða þökk fyrir hana líka. Ég hefi sent honum hana. Ég er heima. Öllum líður vel í byggðinni, nema hvað sumir kunna að vera voteygðir af vætunum og vinnutöfunum. Í dag er þó: *Upprof* — um það kvað ég við að smala kúnum í morgun:

Þú kalsans og úrkomu upprofa morgun
Á ótíðar-viku er fullkomin borgun!
Þín heiðsól er hlý,
Þín haustjörð er ný,
Með hvanngræna vorliti sólskinið í.
Hver hnjúkur rís úr hríðar-bakkans korgun
Og horfir ljósbrýnn yfir ský.
En regnið hefir tandurhreina og tæra
Tjörnina mína gert, og sólin hana morgun-skæra,
Og farfuglar
Í flokkum saman hvíla sig nú þar —
Um haustið og þokuna þeir þekkja ljóssins veg,
Og þeir eru ferðamenn út — eins og ég.

Vinsamlega Stephan G.

*Jón Jónsson frá Sleðbrjót.* Markerville, Alta, 24. okt. 1915.

Góði vin. — Loksins sendi ég þér aftur minningar þínar um Þ. E. Ég get ekkert að þeim fundið, hafði ánægju af að lesa þær og vildi, að þær yrðu prentaðar. Það er sem sé þetta með svona minningar: Þessar smásögur *um* merka menn sanna bezt, hvernig þeir vóru innrættir, þær eru hlutar af þeim sjálfum og annað en *álit* eða *dómur* einhvers viðstadds, eða umsögn þess, sem þykist gagnrýna. Þær líkjast fornsögum okkar að því, að þær láta þann, sem af er sagt, sjálfan segja, hver hann er, með eigin orðum og athöfnum. Þess vegna

er ég fyrir mitt leyti sólginn í svona æfintýri, en auðvitað, það eru kannske ekki allir með því marki brenndir. Í vel sögðum „minningum" verður lesarinn sjálfur sambýlingur hans, sem á er minnzt, horfir á hann og heyrir. Réttmætar aðfinnslur væru aðeins rangsagnir (vissi lesari þinn þær), smásmyglis þvaður (yrði maður þess var), eða auðsær tilgangur rithöfundar að tildra sér yfir þann, sem hann er að segja frá, með því að láta líta svo út, að reyndar sé hann sjálfur sigurnaglinn, sem allt snýst um. Ég get þess líka, af því mér hefir fundizt, að einn góður „minningamaður" okkar heima lýti sjálfan sig stundum með þeim galla. En í „minningum" þínum, Jón, um Þ. E., gat ég hvergi fundið neitt af þessum þremur vítum, sem ég helzt myndi reka augun í, svo ég get ekki ráðið þér til að breyta né fella úr, hvorki orðaskiptum né atvikum. Hitt er kannske ekki örgrannt, að endirinn hjá þér sé það, sem Þjóðverjinn skýrði „Tendenzschrift", en svo kvað nú margt, sem gott er kallað, vera því marki brennt, svo sem „pistlar" og jafnvel „guðspjöll" í nýja-testamentinu, og Poestion kallar Þ. E. sjálfan „Tendenzdichter", ef ég man rétt, svo þú átt fordæmi, og sá mundi Þ. hafa þótt sér bautasteinninn beztur, sem þú mælist til, ef ég skil hann rétt.

Fyrirgefðu, hve seint ég svara. Ég var kúgaður af annríki og óhagstæðum votviðrum í kornstekkingu og heyhirðingu. Það er nú draslað af fyrir viku síðan, og veður þurrt, en þresking ógerð og verður svo enn um stund. — Hér verð ég að hætta núna. Já, ég skil „Pat írska", Jón, kvað hann og skildi áður en röðin kom að mér — og þér. Hann kom út í „Dagskrá" Ein. Beneds. fyrst, en er ögn orðbreyttur í „Andvökum" í fáum stöðum.

Ég vil og vona, að drengurinn þinn hafi komizt til heilsu og að skammdegið í þér sjálfum muni aftur glaðna til, og vertu nú sæll.

Vinsamlegast Stephan G.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerville, Alta, 4. des. 1915.

Góði vin. — Ágætt bréf fékk ég frá þér, — ágætt, þó peningalaust hefði verið, og þó er það svo, að gott þykir manni, þegar honum gengur gull í greipar. Alúðarþökk fyrir hvort tveggja. Næmast sló mig í bréfinu þínu þetta: *Að finna til*

*þess, að maður sé orðinn elztur sinna og eigi að fara að bera ábyrgð fyrir kynslóðinni.* Það er svo raunalega sann-fallega sagt, og þó karlmannlegt, alveg á norræna vísu, ef ég skil hana nokkuð. Þetta: að gylla aldrei harðindin, en hlífa sér þó ekki út í þau.

Af blöðunum í fyrra sá ég nokkuð, hvað að þér var að steðja með mannfall, trúi þig ærið tilfinninga-næman, þó gríman þín kunni að sýnast stundum vera kaldglettin, utan á að sjá, og það skapferli skil ég að nokkru leyti. Mér datt þú oft í hug og jafnvel að senda þér línu, en veigraði það þó fram af mér, ekki af því, að ég teldist eiga bréf hjá þér. Ég veit vel, að bréf frá þér getur dregizt, en svo fer fyrir fleirum í þínum sporum. Ég hefi stundum vorkennt þeim, sem pennafærir eru kallaðir, þó eitthvað dragist úr hömlu, sem skrifa mætti, þegar ég hefi tekið eftir öllu óþarfa raginu og aðsókninni, sem á þá er lagt, og hugsað, hvað úr mér myndi verða í sömu sporum.

En eitt undraðist ég með þig, hvað lengi þeir drolluðu við að steypa þér af stóli hjá „Kringlu“. Ég bjóst við því svo miklu fyrr. Víst skeikaði þér ekki í því, að þörf var betra blaðs. Auðvitað sakna ég, að þér tókst það ekki, en á hinn bóginn, kannske, hefir orðið vel sem varð. Allar stefnur, allur aldarháttur er mölbrotinn upp í þessu veraldaræði, sem yfir stendur og enginn veit, hvenær né hvar lendir. Auðvitað er ég fastur á því, að lífið sneiði á endanum fyrir ördeyðing sína jafnvel inn á nýjar brautir, en ég hefði nærri séð eftir þér út í óvissuna, fundizt góðum manni varla eyðandi á hana, eins og enn stendur.

Hér í sveit má heita góðæri — guðlaust, enginn prestur prédikað, nema Sigurður „útvaldi“ einu sinni, og vel látið yfir af þeim, sem á hann hlýddu. Hann hefir víst ekki sagt annað en það, sem heyrzt hefir. Heyrt hefi ég haft eftir einum safnaðar-stólpanum, að manna mest hafi hann barizt fyrir kirkjuna hér, frá landnámstíð, en allt til ónýtis, sökum heimsku héraðsmanna. Nú ætli hann sér afskiptaleysi í þrjú ár, og jafnvel hamla á móti allri upp-kristnun á meðan, því eftir slíka andlega langaföstu kynni kannske að verða betur tekið við. Af því ég hefi ekki heyrt manninn segja þetta, verð ég að segja það með eigin orðum.

Mér líður vanalega-vel, basla við bú og vinnu, yrki þegar

tóm fæst til, í óveðrum og uppílegum. Er víst lítið lélegri á andlega seina-ganginum en ég var, en úthaldsminni — og verða ýmislegar skrokk-skjóður, en raula: „Enginn fær mig 'on í jörð, áður en ég er dauður.“

Mér vildi skrítla til í sumar. Ég sendi kunningja mínum heima kvæði, sem ég vissi, að kom sér ekki hér. „Skírnir“ tók það og borgaði liðugum $ 12.00. Eg hafði gaman af þessu, ekki að mér þætti stórmerki á mér að „eiga kvæði í „Skírni“, heldur hitt, nú á „elleftu stund“, að verða kaupamaður í „víngarðinum“. Þetta var „Vopnahlé“, sem Bergskalli hreytti í, sem var meinlaust, en broslegt, því hann fór rangt með það litla, sem hann sagði úr efninu — gat sagt um það, sem hann gat ekki lesið, eins og páfinn og „Matti“ okkar stundum.

Þá er að tala um „Kolbeinslag“. Af 200, sem þú sendir, hefi ég hér óseld 21, send mér aftur, flest frá Prince Rupert. Kristni mági gekk illa við Vestmanneyinga þar, þeir hafa hugann enn við „fýlungann“. 20 eint. sendi ég til Vancouver. Ég veit á skotspónum, að 2 voru seld að áliðnu sumri. Um 10 eintök gaf ég, sendi sum heim. Hin eru seld, $ 37.50 virði, og andvirðið borgað mér, örfá „cent“ í sölulaun og pósteyri á því. Salan gekk ágætlega í Seattle, Blaine, Victoria og hér heima, (milli 40 og 50 eint.). Magnús frá Fjalli (Blaine) og Kristján Gíslason (Seattle) seldu upp á einum degi eða svo, — gengu með „Kolbein“ um nágrennið, Ásgeir Líndal seldi í Victoria og Point Roberts. Hver þeirra seldi 20 eint.

Ég veit af engum stað hér vestra, sem líklegur er. Hefi „farið í öll mín fornu gólf“. Hvernig væri, þegar allt óútgengið er heimheimt, að „safna þessum dreifðu leifum af húsi Ísraels“ í bóksalafélagið heima á Íslandi, — ef Bardal hefir ekki áskilið sér þá sölu. Ég veit ekki áritun þess heima, sem að snúa væri til. Gætir þú komizt þess á vit, hvort þetta tækist, ef til kæmi. Kostnaðinn legg ég til. *Enginn,* sem þú skuldskeyttir við mig, *hefir borgað til mín,* né ég gengið eftir því. Hjá Bardal fékk ég tvær bækur í fyrra (Alþýðulög Sveinbjörns og Sigfúsar). Með þeim skrifaði hann að senda sér *ekki* borgun, ég ætti eitthvað hjá sér fyrir „Kolbeinslag“, sem hann gæti enn ekki reikningsfært mér. Svo er upptalið.

Ég sendi þér bréfið þitt í fyrra hér með, þér til áttunar. Listinn, sem þú biður um, er í því, og kannske eitthvað annað, sem rifjar upp, ef skekkja er. — En ég ætlaði samt ekki að

gefa þér bréf þitt aftur. Yngri menn en ég hafa lifað þann aldur að verða aftur þau börn ellinnar, að bezta ununin var að hitta forna kunningja í gömlu bréfunum frá þeim. Ég hangi því á fáeinum — eins og gömlu karlarnir, sem gengu á undan okkur, sem geymdu brennivínsflösku æfinlega undir sængurhorninu sínu, ef sér kynni einhverntíma að verða flökurt.

Nú nem ég þá staðar, Rögnvaldur minn, viss um, að raunir þessa árs verða þér að sigursæld á hinu komandi.

Vinsamlega Stephan G. Stephansson.

*Jónas Hall.* Markerville, Alta, 17. desember 1915.

Jónas minn. — Ég kem nú bara svo þú sjáir, að ég er þó „lifandi dauður“ og man, að þú átt miða hjá mér. Svo óska ég þér og ykkur öllum hátíða-hamingju, meðan ég man. Ég hefi engar fréttir, því síður sem Jonni frændi var hér svo nýlega, að hann myndi óðara reka augun í og láta þig vita, færi ég að ljúga einhverju að þér. Annars hefi ég verið í leiðindum fyrirfarandi af vesöld, bakverk, taugagigt og tannverk. Var þó ekki nema viku frá fjósverkum. Auðvitað eru nú slík veikindi bara títuprjónar, en þeir skollar stinga stundum svo sárt, að maður verður ekki með heilli há. — Tíð góð, að heita má. Ögn kaldara fyrirfarandi viku. Allir að ganga í herinn, sem annað hvort geta ekki eða nenna ekki að hafa að éta öðruvísi, og svo þeir, sem vita upp á sig lagabrot, enda er nú að því ýtt af „betri borgurum“ landsins að „patenta“ slíka „patríóta“. Þið Bandríkjamenn eruð að verða vitlausir, auk heldur aðrir. Ég hefi samt hlýjan hug til Bryans. Hann er sér samkvæmur og sannleikanum enn, í hermálum.

Er ekki neinn ykkar Sunnanmanna að uppgefast á „Kringlustjóranum?“

*Hólmskalli vorra daga.*

Höll hans opnar andlegt tak
Aldrei — hann þann dag ei lifir.
Heimskan á þar hellu þak,
Hauskúpan er gróin yfir.

Nú næstu daga á ég von á 6 eintökum af Íslandi Russels. Ég fæ þau frá Copp Clarke & Co (eða hver fjandinn sem þeir heita nú, þarna syðra). Skeyttu þetta svo saman. Þegar ég svo sendi peninga frá mér til C. C. & C., voru engar bækur til þar, en

— ég fæ þær óefað bráðum. Ég læt Stjána á Markerville selja, ef ég get. Hann hefir lofað því. Læt hann fá 50 c. af hverri bók í sölulaun, en þær kosta mig $ 1.54 hver. Nú, haldi „Stjáni“ svo, að hann komi fleirum út, hjálpa ég honum að ná þeim, — en ég býst varla við því. Svona er ráðagerðin.

Jón Sveinsson er hæst ánægður með þig og Gunnu. Hann fékk bréf frá henni og ég „reportaði“ dyggilega til hans allt „prógress“ í málinu, svo ég tali nú eins og ég væri íslenzkur alþingismaður og ráðherraefni.

Senn líður að úthalli dags. Það er glaða sólskin og stillilogn. Grasfyllingur af jafnsnævi á jörð. Skógur og runnar gráhærðir af nátthríminu, sem ekki hefir þiðnað upp. Inni og suður við gömlu Lone Pine (nú Bowden — hvað menn skuli skemma góð nöfn og gömul) sé ég tvo gufubletti, eins og polla í blárri hæð — það eru þreskivélar að vinnu. Hérna skammt fyrir vestan ána eru Bárdælir að flytja sig og sína vél til Baldvins nokkurs, bónda þar. Ekki er hann íslenzkur, sá „Baldi“, heldur Bandaríkjamaður, en stendur í þeirri trú, að hann sé að líkindum íslenzkur í ætt fram. Heldur það af nafni sínu (sem er ekki íslenzkt að uppruna, og kom niður til hans frá Englandi). — Ég ætla að koma til þín á vængjum vindanna seinna, eins og nú, en má ekki sitja lengur að sinni.

Þinn Stebbi.

*Jón Jónsson frá Sleðbrjót.* Markerville, Alta, 12. jan.1916.

Góði vin. — Þökk fyrir bréfið, að þú lifðir lengur en árið, og því óska ég þú haldir áfram, með heilsu og hamingju. Úh-hú. Nú hefir samt verið kalt síðan um nýár, kringum 50 stig neðan núlls suma morgna, segja þeir eftir sveitamælirum hér, en ég trúi varla og held þeir hafi botnfrosið á 40, eða þar um. Kuldinn var þó ekki skrópar, sem sjá má af:

Allt á fjalli og firnindum
Frýs og innan veggja,
Þykir gömlum þunnhyldum
Þela á kampinn leggja.

Tungl-geislann á tærnar kól
Um tíðir frosta harðar,
Munnherkjur fékk miðdags-sól
Af morgun-kossum jarðar.

Annars er nú allt tómt og tíðindalaust. „Ísafold“ að mestu roð, nú um tíma. Góðir kaflar í pólitík þessa utanflykkings (Halld. Jónssonar? Hver er hann?) og nokkur (sérstaklega þó nákvæmur) fróðleikur í grein þessa nýja doktors, Alexanders, um „Skipið sekkur“. Siggi Júl. hélt góða jólaræðu í „Lögbergi“ milli jóla og nýárs. Magnúsarnir börðust svo vel í „Kringlu“, að varla mátti milli sjá, en ég held þó, að ég veðjaði með meiri von að vinna á þýzkuna hjá Ísfeld.

Nei, Jón, það er engin glámskyggni, að kvæði Gutta var gott, og annað seinna, „Vetur“ (minnir mig). Ég las það í flýti og blaðið var hrifsað. Það var svipað hinu að ágætu kveðandi, skáldmóðurinn jafn og hvergi neitt uppábasl.

„Svo skal böl bæta að bíða annað meira“, sögðu feður várir. Ég vildi snúa þessu við í okkar munni svona: Svo skal gott gæða að gera nokkru betur.

Það var gott, að þú rifjaðir upp söguna um Þorstein og settir þetta kvæði hans í umgjörð sína. Það er ótrúlegt, hvað myndin skýrist við það, fyrir þeim, sem eftirtekt veita. Skáldin eiga illt með þetta sjálf, óaðspurð, svo það verður að vera annarra verk, eða ógjört. Hitt þykir mér líka gott (en það er á þinn bóg), að þú nagaðir þig um að hafa orðið of nærgöngull, óviljandi. Ég gizka samt á, að ekki hafi Þorst. þótt það, hann hafi fagnað hinu meira en svo, að þér voru kvæðin hans svona hugleikin.

Gott er það og að öllu öfundlaust að vita þessa gömlu menn veizlum vegsamaða, þá sem það er ljúft, og svo hygg ég „Matta“ sérstaklega. Mér hefir nærri sýnzt hann „fara á flot“ til þess sjálfur. En satt að segja, ég hefi lesið ljóð og ræður héðan og heiman, sem urðu út úr þessu, en finnst það allt hafi „fallið“ einhvern veginn svo „utan hjá veginum“, að „fuglar loftsins“ muni „uppéta það“. Reyndar hefi ég ekki enn séð séra Friðrik í Almanakinu.

Svona þá, Jón. Þökk fyrir viðræðurnar árið ið útliðna, og:

Að þér færi árstíð ný
Engar skærur sínar.
Kveldin vær og kvæða-hlý
Kembi hærur þínar.

Vinsamlega Stephan G. Stephansson.

*Magnús Jónsson frá Fjalli.* Markerville, Alta, 29. jan. 1916.

Góðvinur Magnús. — Allt kom það á einu kveldi saman, bréfið þitt síðasta og byrjunin á hugvekju þinni í „Lögbergi". Ég sendi ritstjóra hana, svo að segja rakleiðis frá mér, eins og ég gat um við þig á seðli, og með þeim ummælum, sem fremur voru hvöt en löt, að „Lögb." flytti greinina, og skýrri bón um heimsendingu til mín, ef afturreka yrði. Ég sendi það bréf póstábyrgzt, svo vafalaust væri að rekja það uppi rétt, milli búrs og eldhúss, en skotsilfur til heimfarar lét ég ekki, treysti greiðasemi Sig. Júl. að tíma því. Nú leið og beið langt yfir nýár fram, en ekkert svar frá Sigurði. Meðan svona stóð, gat ég ekki verið að segja þér neitt um mína framgöngu í þessu, það hefði orðið eins og stríðstíðindi „Kringlu": voðaslagur og dýrðin mín megin, þó engu hefði umþokað. Ég bjóst aldrei við bráðu svari, Sig. er æfinlega í önnum, greinin þín löng að lesa og hugsun fyrirföst og stafsetning sums staðar önnur en sú, sem „Lögbergs"-lög eru. Þó þraut þolinmæði mína nú fyrir tveim vikum, eða svo. Ég bjóst ekki við þessari þegjandi langbið, svona látlaust. Ég skrifaði Sigurði enn. Nú beið nokkuð, og eina svarið er: að greinin er komin á gang. Svona er þá sú saga.

Ég tók hvergi eftir nafninu þínu á handritinu. Sagði ritstjóra frá því í bréfinu frá mér og sagðist heldur ekki láta hann vita nafn höf., fyrr en ef hann tæki greinarkornið, en þá sjálfsagt að senda honum nafnið. Nú geri ég það í bréfi samsendu, segi honum, að hún sé eftir „Magnús Jónsson frá Fjalli". Ég ætlaði að láta þig gera þetta sjálfan í bréfi, — gangast við faðerni, skrifa þér strax og innganga fengist og láta þig segja Sigurði til nafns þíns. Nú er svo naumt fyrir, af því greinin byrjar óvörum, að ég verð að gera þetta, eigi nafnið að fylgja niðurlaginu.

Ávísun þína sendi ég þér aftur. Þú færð hana endurborgaða, ónotaða, þar sem hún var keypt. Ég hefi engu eytt í þetta og þó þess hefði þurft, hefði ég heldur viljað leggja til einn dal en taka við honum, fyrir að fá að gera þetta, væri þér nokkur greiði í því, því þú áttir slíkt að mér.

Engar fréttir nema liðlangar frosthörkur síðan um áraskipti, og svöl fjósaverk. Ég er býsna brattur, með varkárni þó, því ýmsir snöggir blettir eru að verða á mér. Ég vildi þér

liði ekki verr, og ynni þér þess öfundarlaust, þó betur væri. Annars erum við nú rétt á upp-af-hrökks-aldri karlanna, þeim sem fjölvopnaðastur er, en eina ráðið að falla ekki, ef við getum, því það er stundum stundar-vopnahlé um miðja-tuga og eftir.

Með hlýrri kveðju, Magnús minn, til þín og konu þinnar, Jóns þíns og allra í Blaine, sem gerðu mér gott forðum.

Vinsamlega Stephan G. Stephansson.

*Jón Jónsson frá Sleðbrjót.* Markerville, Alta, 2. marz 1916.

Góðvinur. — Ég hefi nú fyrir nokkru fengið bréfið, sem þú skrifaðir mér á Svalbarðs-dögunum, þegar grimmdirnar mestu gengu. Þakka þér kærlega. Ég vona, að góðviðrið, næstum Árnessýslu „bezta vetrar blíða", sem hér stóð allan seinni hluta liðins mánaðar, hafi líka komið við hjá þér og þitt ögn í kringum þig.

Ljúft finnst manni lífið þá
Léttir kulda-tíðinni,
Allar skepnur sínar sjá
Sólfegnar í hlíðinni.

„Gaman og ekki gaman" (svo ég skrifi „Kringlu"-stíl) þykir mér að sjá út um svarta-brekán blað-fréttanna, hvernig „Con." og „Lib." í Winnipeg keppast og bítast um þjóðræknis-nafnið og sleikjurnar ímynduðu og í lófa lögðu, hvort sem það er liðsforingja nafn til launadrýginda, til að leiða aðra út í, eða eitthvert annað „klikku-lifibrauð". Svo að skáka hvor öðrum með bragð-kænsku stjórnarráðanna, svo að keppinautum gangi miður en vel, en arður og „æra" lendi mest hjá sér, því það er tilgangurinn með spænska hershöfðingjann yfir þessu norræna liði „Liberala" að stemma þar stigu, svo straumurinn liggi til sín. Og ekki varð Tumi heldur „Hon. Col." ofursti að nafninu til, fyrir vikið, eins og venjulegt var.

Í hamrinum við Heljargil
Heyrist Skollinn þruma:
Setjið þá að sama yl
Séra Manga og Tuma.

Og svo lét Siggi Júl. kúgast fyrir „Kringlu". Ekki er ritstjórnar-bitinn gefinn heldur. En ekki vil ég illmæla Sigga, mér er vel við hann — en „þú óöld og þið ósiðir", eins og Rómverjinn sagði forðum. Þú inntir eftir, hvort mér bærist „Óðinn" í hendur. Nei, hann er hér hvergi keyptur, svo ég viti, síðan ég hætti útsölu hans fyrir nokkrum árum. Hann var tekinn hjá mér sökum kunningskapar, ég ónýtur að heimta smáskuldir, en galt þá heldur sjálfur. Mér þótti „Óðinn" ætíð beinagrindarlegur andlega, og um tíma varð hann fúll, að mér fannst, út úr sínum heimastjórnar-ergjum, lét menn gjalda þeirra jafnvel í æfisögum. Ég sagði honum upp eftir fjögur eða fimm ár, að mig minnir, og fullborguðum og aðfinnslulaust. En mig grunar ég gjaldi þess þar, með fleiru. Ef til vill fær samt séra Pétur Hjálmsson hann, þeir Þorst. eru skólabræður og séra P. var sendur „Óðinn". Mér væri hann þar velkominn, en hefi ekki séð hann þar nýl. Ég hefði gaman af að sjá kvæði Guðm. — Ég vissi reyndar vel, að Gjallanda kynni að hafa verið minnzt heima, án þess ég sæi það, þegar ég kvað. En eiginlega var ég að hugsa nær. „Hkr." gat láts hans og lofaði um leið að minnast hans betur seinna. Ég hélt, að einhver fagurfræðingur hennar ætlaði sér það verk, eða að minnsta kosti að blaðið ætlaði að bíða eftir einhverjum, sem um hann gæti heima, eins og siður er blaðanna. En það brást. Gjallandi ritaði fyrstur manna grein um kveðskap minn, í „Bjarka" Þorst. heit. Erl.s. Ég vissi þá aðeins, hver hann var, og hérað hans, ekki heimili. Gat því ekki skrifað honum, bað Þorst. að bera honum kveðju mína. Mér fannst þó þetta hundslegt af mér. Svo komu Andvökur út. Fjórum mönnum heima sendi ég þær bundnar hér, með vísu og nafni mínu á. Frá tveimur fékk ég skeyti aftur. Gjallandi var annar, sem ég vissi ekkert, hvort líkaði verr eða betur, þangað til eftir nýár í vetur, að ég fæ bréf frá honum *dánum*, ritað fyrir ári síðan og sent nú af öðrum, og ágætisbréf. Hann hafði líka skrifað mér áður, en honum var endursent, því áritun var eitthvað skökk. Aðstandendur hafa látið í ljósi óhugnun sína út af eftirmælum mínum, svo sem *Gísli Dahlmann*, *Landnámskonan*, *Jón Strönd* o. fl. Ég hefi kveðið þau (eins og allt) „fyrir eiginn reikning", ekki þeirra. Sökin hefir verið stundum sú: „að ég hafi kveðið eftir þá eins og þeir hefðu verið heiðingjar." Ég set það nú ekki fyrir mig, en

fellur illa að vera misskilinn svo, að þeir séu særðir, sem líklega sakna. Seinasta skömmin, sem ég gerði svona af mér, var um Skafta heitinn, að kvæðið kom út í „Lögb.“ og með smáu letri prentað, slíkur æsingur sem úr því átti að gerast. Ég er því hlífinn orðinn við eftirmælin. Hefði kveðið fyrr eftir Gjallanda, hefði ég vitað, hvort hans og hans manna hugur til mín myndi svo óbreyttur, að ég mætti það, tilfinninga-meiðslalaust. Bréfið tók fram af með það. Svo kvað ég, sem mér er lagið. Þekktir þú Gjallanda? Væri þér nokkur ánægja, að ég sendi þér bréf hans til lesturs? Það er svo að segja kveðja á grafarbakkanum til svo margs, íslenzkrar þjóðar og bókmennta nýrra og fornra, þó Gjallandi hafi að líkindum ekki búizt við því og skrifi bara til mín.

Við séra Ásmundur Wynyard-prestur urðum ögn kunnugir vikurnar sem hann var hér og röbbuðum margt. Hann gekk svo blátt fram og spurði af munni fram, ef hann vildi forvitnast um eitthvað. Þar var öðruvísi með Ein. Hjörl. Hann hafði á því einhvern veiðimanna-sið, sjálfsagt af kurteisi, svo maður fyndi ekki til þess, að verið sé að vaða ofan í mann, en sú aðferð skýtur lokum fyrir allan opinskáa í mér, en kitlar fram kímnina, ég er svo illa veraldar-taminn enn. Ég minnist á þetta af því ég sé, að þú hefir lesið það, sem E. H. sagði um mig og sem allt var velviljað. Og hafir þú líka séð það, sem séra Ásm. gat um mig í „Kirkjublaðinu“, þá vildi ég geta þess, að báðir sögðu sína sögu hvor, en sanna. T. d. Ásmundur spurði: „Hvaða stöðu vildir þú nú heldur hafa hlotið í lífinu, Stefán?“ „Einmitt þá, sem ég lenti í,“ svaraði ég, „að vera svona baslarabóndi. Ég held nú orðið, að allar aðrar hefðu orðið mér ófarsælli.“ Þetta er sannfæring mín, þó ég þakki þér og Einari af alhug fyrir að sjá eftir mér í „moldar-mokstur“. Auðvitað fannst mér oft þreytan lamandi, frístundirnar stuttar, efnin ónóg til þess, sem ég vildi, og ég veit, að allt, sem ég reyndi að gera, ber hálfverks-mörkin á sér, nokkuð vegna þess. En, öllu á botninn hvolft, fór líklega vel, sem fór.

Ekki tek ég erjur Tryggva nærri mér, ég kvað við hann í gaman-glettni, stríði honum á kveðskap hans, en borga aldrei í sömu mynt brigzl hans um „skussaskap“, „drykkjuskap“, „biflíuvit“, „að hafa komið í kirkju,“ „elliglöp“ né „skammir“. Sumum mun þykja, að ekki ætti að lúta að að svara honum. Ég lít öðruvísi á. Íslenzk lista-tilraun á lítils að vænta hér

vestra. Eigi svo því á að bæta, að hver leir-uxi fái að sletta hana út ótakmarkað í blöðunum, af heimsku og öfund (og það er leyft), þá fer að verða til lítils að vinna. Ég er hér ekki að hugsa um mig, mér er lokið, á hvorn bóginn sem ég velt. Reynt hefir verið að stemma fyrir leirburði á ritstofunni, þar sem það á að gerast, en það hefir orðið árangurslaust. Eini vegurinn eftir væri að láta „leirbrúsana“ fara sjálfa svo mikla kvæða-fýluferð, að fólk og þeir myndu eftir; það er leiðinlegt, en væri gustukaverk við Vestur-Íslendinga. En svo er T. ekki einn um þetta. Og þó hann sé enn andlegur ræfill í kveðskap, þá er hann svo iðinn og hefir gert þau ósköp af þessu, að manni finnst það nærri rangsleitni örlaganna, ef hann kemst aldrei upp á kvæði, sem skáldskapur væri. Ég lenti svona á *Lárusi* forðum, af að svara í glettni leiraustri hans á Þ. Þ. Þ.

Vorið skauzt burt. Vægðarlaust
Veturinn brauzt inn glaður,
Blæs nú austan byljahraust
Bitur og haust-éljaður.

Vertu blessaður, svo segir S. G. S.

*Jón Jónsson frá Sleðbrjót.* Markerville, Alta, 31. marz 1916.

Góði vin. — Þökk fyrir bréf þitt og blaðið, sem fer nú aftur í föggum þessum með miðanum frá Þórólfi og bréfi Gjallanda til mín. Ekki þekki ég þennan Þórólf, veit aðeins, að hann er ritstjóri „Réttar“, einskattsblaðsins nýja á Akureyri. Nú, jæja, Jón. Einskattur mun í áttina og góðra-gjalda-verður, á borð við „bræðing“ Sveins Björnssonar úr öllu, sem í Ísafold stóð, þó fróðlegur sé. En, betur má þó en einskattur nær til, ef duga skal, þó næsta nemi hann á Íslandi, með ófargaða bjargræðisvegina enn í eigu auðvalds.

„Breiðablik“ eiga nú að komast á stúfa aftur innan skamms. Bændur í Dakota og Saskatchewan [hafa] t. d. hlaupið undir bagga með ábyrgð, til að losa strandið, en ekki í gróðavon. Nú þyrfti að hlynna að sölu þess, það verður eina vonin í þessum andlegu harðindum, sem hér hafa allt spennt helgreipum. Nýr prestur og ungur, Páll frá Bolungavík, ef til vill væntanlegur vestur á vegum nýguðfræðinga við Garðar.

Nei, það er ekki mikið milli að sjá, eins og þú segir, um

trúarbrögð okkar um Tryggva minn. Ég var ekki að deila á neitt, sem þú sagðir, þar var engu að andmæla, en bara að segja þér, hversu stæði að vígi í því, sem var mér reyndar leitt, en gat þó ekki látið liggja kyrrt.

Svo gersamlega var ég búinn að gleyma því, að E. H. hefði nokkru sinni sagt neitt *önugt* til mín, að ég vissi varla, hvað þú áttir við með hófyrðum þínum í þá átt í bréfi þínu. Loks rankaði mig við því, það var í umsögn hans um „Á ferð og flugi“ í Ísafold forðum. Það var ekki illgjarnt, en of fáfengilega lélegt, úr því hann lagði hönd á mig. Ég skopaðist ögn að því seinna á prenti og fann óbeinlínis, að E. H. vissi það, þegar hann var hér um árið. Svo var því lokið og gleymt, á mína hlið. Hann skrifaði mér heimkominn vikrun kringum heimferð, með líklegri velvild biskups og búnaðarfélagsins. Auðvitað ekkert beint boð, en gjöf undir fótinn. Ég virði þá velvild, jafn ómögulegt og mér hefði verið að þiggja hana, þó kostur hefði verið á. Eins og þú segir, er E. listamaður: ljós, nákvæmur, áferðarfagur, velumvandaður — en síður andríkur, tilþrifamikill, frumlegur né skáldgöfugur — kemst of nærri, stundum, að verða vellulegur. — Gleðilegt sumar.

Þinn einl. S. G. S.

*E. S.* — Ég er allur á fjósferli og stuttur í spuna, en vildi ná í póstinn í dag. S.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerville, Alta, 10. maí, 1916.

Góðvinur. — Þökk fyrir bréf þitt og allt vinsamlegt, fyrr og síðar. Illt þótti mér að gera ekki bón þína með kvæðisgerðina, en smátt skammtaðir þú mér tímann til þess. Ég gerði samt eins og ég gat, og kvað enn eins og „höfuðið horfir“, en ónýtur orðinn til „vakninganna“, sem þú mæltist til, er að gerast svefnþungur, meira þó af „búksorg“ minni en elli, enn sem komið er. Mér finnst stundum harki á að „halda sér uppi.“

Vegna annríkis gat ég ekki skrifað þér og svarað fyrr en (naumast) nú. Sumarið kemur aldrei til að hirða fyrir mann gripina í 3—4 mánuði, svo maður verður að bera í „bak og fyrir“, þau akurvinnu- og fjósaverk. Svo er annað — og ég skal nú segja þér sögu! Kunningi minn góður frá yngri árum, sem ekki var enn orðið illa við mig eftir margra ára ókunnug-

leik, hafði ætlað mér veizlu hjá sér, þegar mig bar að landi í byggð hans einu sinni. En svo „svaf hann yfir sig“ veizlukvöldið tiltekna, hafði „vakað yfir sig“ í glaðværð, áður en hátíðin átti að hefjast. Hann gerði mér samt allt til gleði, en skemur en hann ætlaðist til, stundina áður en lestin tók mig burt. Þegar við kvöddumst, stakk hann $ 5 í lófa minn, svo seint, að ég gat lítið mótmælt, og með þessum orðum: „Ja, það fór nú svona, Stebbi minn, ég drakk mig fullan þarna um daginn og missti svo af allri skemmtun að vera ögn með þér, því þegar maður er kominn á minn aldur, og verði manni það á að taka einu staupi um of, tekur mann viku að komast í samt lag aftur.“ Mér er aldrei unun að, að öðrum finnist sér verða á, en mér fannst nærri því, að í svona litlu væri það tilvinnandi, fyrir að hafa komizt svona vel að orði! Og heyrðu! Ég þóttist vita, að þú myndir verða leiðtogi og „vaka yfir þig“, en hressingarlaus, við hátíðahald ykkar, og vildi varla skrifa þér, fyrr en þú værir „kominn í samt lag aftur“.

Þá er að svara því, sem ég get af því, sem þú spyr. Hannes bróðir þinn sendi mér liðuga $ 80.00 einhvern tíma (að mig minnir) um kring áramótin 1913 til 1914. Ég á það skrifað einhvers staðar, en festi ekki fingur á því nú í svipinn. Hann var víst söðlaður „Andvöku“-reikningunum og líklega á minningar um þetta. Síðan hefi ég engin orð um þá reikninga fengið, sem líklegt er, þar er líklega það, sem „Kringla“ kallar „sjóðþurður“. Áður sendir þú mér $ 500.00, sem til voru þá, auk hinna $ 500.00, sem borgaðir voru fyrir fram. Alls liðugt eitt þúsund og áttatíu dollarar.

Og með „Kolbeinslag“ — ég á þau heim rekin 33, og fyrst þú ætlar að hjálpa mér heim með hin hjá þér, viltu láta mig vita, hvenær þú sendir, taka mín með og segja mér, hvað „fargjaldið“ verður fyrir þá piltana, Kolbein og Kölska, svo ég geti þá einhvern veginn sent þér það.

Annars er ég argur, en þó þakklátur þér, að þú skulir þurfa að standa í þessari smalamennsku mín vegna, sem ég átti *sjálfur* að gera, en gat ekki — eður þá var bein bóksala kaupamennska. Getir þú komið þessu í lag, er ég meira en viljugur að borga þína fyrirhöfn, ef þú vilt þiggja. Ég er svo fjarri staddur og fákunnandi um aukaatriðin í þessu, að ég er mér þar nærri gagnslaus. Og að ganga inn í annað líf frá þessu öllu

í vitleysu er svo hirðuleysislegt. Nóg verður ruglið í reikningunum samt á dómsdegi.

Eins og stríðið veröld við
Veturinn sýnist hanga.
Sólskin vort í sumarið
Samt er þó að langa.

Þjóðverjans ef lurka-lið
Á land vort fer að ganga,
Honum í gísling gefum við
Gömlu „Kringlu“ og Manga!

Áfram skulum alltaf við
Eins við lífið hanga,
Þó við aldrei eigum grið,
Óteknir til fanga.

Ég bið kærl. að heilsa og óska ykkur allrar sumargleði.

Vinsamlega Stephan G. Stephansson.

*Jón Jónsson yngri.* Markerville, Alta, 11. maí 1916.

Góði frændi. — Þökk fyrir bréf þitt ið síðasta, sem ég hefi ekki getað svarað sökum fjósa-anna, voryerka og ýmissa snúninga „andlegra og líkamlegra“, fyrr en ef það verður nú. Ég óska ykkur ánægju á báða bóga, þegar þið fáið nýja prestinn. En mikil er mæðan út af því, að lýðnum finnst hann ekki komast af prestlaust og skrifar sig fyrr undir kenningar, sem hann fyrirlítur í huga sínum, en að komast ekki í kirkju, og finnst, að það sé þó eitthvert sáluhjálparbragð að jafnvel því, — eins og kerlingunni, sem matreiddi handa sér kvistinn, sem grátittlingurinn hafði setið á, í þeirri von, að það yrði þó *kjötkeimur* að honum. En svo er ekki um að fást, þetta er orðið andlegt neftóbak, og við vitum nú, hverju venjan veldur um það. Sumir prestar eru líka sveitar-ágæti, en — hæfileikanna vegna, ekki guðfræðinnar.

Gott var, að „Breiðablik“ á upprisu-von, og ykkur var mannskapur að því að grafa það upp aftur, með nógum tilkostnaði og tómri tapsvon. Þó þarf það ekki að verða ómagi lengi, ef

vel er að því verið, efnið frjálslegt og fjölbreytt, hvorki með hálfra-hljóða hógværð né illúð til andmælendanna, og svo að sem flestir góðir menn, greindir og ritfærir, ættu einhverja hönk í, í þá átt, að allt frjálslegt, fagurt og gott sé „guðsríkis"-efling, þó það hafi aldrei verið við neina messu. Það tekur öll blöð svo árum skiptir fyrst, „að komast inn á" fólkið. Þegar því marki er náð, verða jafnvel ill blöð að daglegri þörf, eins og tóbakið. Ég man svo vel eftir því, ég er með pípuna milli tannanna, þó alltaf drepist í henni. Ég skal ekki telja menn af að kaupa „Breiðablik" hér, en það vegur nú lítið.

Gott þykir mér, að mér finnst ég sjái af síðustu fréttum, að fólkið, friðarvinir og jafnaðarmenn syðra, hafi dregið allmikinn dálk úr vígaskjálftanum og verzlunar-græðginni, sem ætlaði að út-andskota ykkur Bandamönnum. Auðvitað er það kál þó aðeins í ausunni, en ósopið enn. Enn hefir ekkert hernaðaræði gripið hér um sig meðal fólks, eins og eystra, enginn sveitamaður íslenzkur gengið í herinn, nema Þórir frá Tindastól í fyrra sumar, enginn hermanna-smali enn lagt leið hingað heldur. Enginn efi finnst mér þó, að haldi þessi vargskapur út meira en árið, verða lögin beygð svo og brotin af stjórninni, að undir því yfirskini kemst á herskylda.

Svalt og seint hefir vorið farið hér að, og læt ég þó vera, því víða mun verra. Sáning hér víst langt komin á leið. Við sáum því seinasta (byggi) á morgun eða svo, hveitinu komum við ekki í jörð fyrr en upp úr 20. apríl, en það er nú komið upp fyrir nokkru. Allir áttu með mesta móti óplægt upp. Við eins. Ég hefi herfað og hirt gripina. Þeir eru enn á gjöf hjá mér og hýstir, en ganga um haga á daginn, því tjarnir og hólar eru að grænka. Éljaköst og rosar hafa gengið, en þau él voru varla nema til bóta.

Feginn kveð ég hríð og hjarn,
Hvað sem skeður síðan.
Ellina gleður eins og barn
Úti veðurblíðan.

Kærar kveðjur frá fólkinu og Stebba.

*Grímur S. Grímsson.* Heima 19. maí 1916.

Grímur minn. — Þú baðst mig að tala til þín, ef ég fengi ávænu af, að Guðm. Finnbogas. væri ætlaður hingað. Það er nú þegar löngu birt í ísl. blöðunum báðum, svo ég áleit óþarft að kalla það til þín, þú vissir það. Ég bíð hins, hvort ekkert fréttist nánar, hvort nokkrum hér yrði skrifað o. s. frv. En fram til þessa dags er ég engu vitrari um neitt þess konar. Þetta er náttúrlega kirkjufélags umsjón, lík og var á Sveinbjörnsson, eða svo eru menn farnir að virða það af líkum, t. d. nýguðfræðingar. En hvað um það, þú ert „orthodox" eins og ég, svo ég býst við þér á mánudaginn kemur á Markerville kl. 1 e. h., en þá máttu skálma eins og Lág-Álfur heitinn, ef þú kemur gangandi og berð allan íslenzka Red Deer í malnum, eins og þú átt að gera. — —

Þú sagðist hafa undir hendi þýðingu Féldsteds á „Þótt þú langförull legðir" og bjóst við að senda mér hana til gamans. Hafi hún ekki gengið glötunarinnar veg, þegar þú varst ekki viðstaddur, komdu með hana.

Allt hér, illt og gott, með kyrrum kjörum, og lifir af venjunni.

Vinsamlega Stephan G. Stephansson.

*Jónas Hall.* Markerville, Alta, 29. maí 1916.

Góðan daginn, Jónas minn. — Nú er dr. Guðm. kominn og farinn, og Eiríkur prinz situr hér enn, — svo nóg væri bréfsefnið, og æfinlega get ég rabbað, fengi maður nokkurn tíma frið fyrir þessu lífi. Ég hugsa meira til doktorsins en prinzins og fjalla fyrst um hann, þó allt sé það í molum. Um gáfur hans veiztu, en svo er hann ljúfmenni og eins og heima hjá sér og einn af fólkinu hjá manni eins og mér. Við bjuggumst ekki við neinni dvöl hans hér, vissum ekki meira en stóð í blöðunum um ferð hans, og á laugardagskveldið (20sta) fékk Mundi minn, sem er talsímamaður á Markerville, skeyti frá Edmonton, að við hér hefðum ráð til að mæta Guðm. á mánudagsmorgun (daginn, sem hann átti að tala hér) í Innisfail og koma honum samdægurs þangað aftur. Við feðgar vórum svo að bræða það mál yfir símann á sunnudaginn (daginn sem Guðm. var ætlaður að tala í Edmonton). Við ætluðum að fá

bifreið, og ég átti að vera með, því Mundi komst ekki sjálfur. Ég var nýgenginn frá samtalinu og seztur í mitt horn. Konan var í eldhúsinu. Þaðan heyrði ég gests-rödd, þekkti röddina, en mundi ekki, hvað hún hét. Ég heyrði, að Helga vísaði henni inn til mín, en hún sagðist þurfa út fyrst og „settla við kúskinn“, og um leið opnast dyrnar á dyngjunni minni og í þeim stóð vörpulegur maður, kolbrýndur nokkuð og kampdökkur og svarteygður, og ég sá í sama bili eftir myndar-minni mínu, að þar er kominn dr. Guðm. Finnbogason, og heilsaði honum með því nafni, þó hann gæti sér til, að ég myndi ekki kenna sig, um leið og hann ávarpaði mig. Ég lét hann undir eins vita, hversu óvæntur gestur hann væri, á þeirri stundinni. Hann brosti og sagði, að til þess lægi sú saga, að hann hefði breytt áætlun, komið til Edmonton í gær, lokið sínu erindi þá strax, í stað þess að gera það í dag, eins og til stóð, náð svo næstu lest til Red Deer og leigt þaðan bifreið. Nú kom „röddin“ nafnlausa inn. Hún var Vilhelm okkar Pálsson, svo nú skilur þú þráðinn í sögunni. Þeir vóru svo hjá mér tvær nætur. Gátu lítið til annarra komið. Komu syfjaðir og þreyttir í kulda veðri. Guðm. flutti erindi sitt hér á Markerville daginn eftir. Aðsókn var dágóð. Samskot urðu liðugir 30 doll. og öllum gazt vel á að heyra erindi Guðm. Á þriðjudag flutti Mundi þá á hestum sínum til Innisfail, og ég fór með. Nóttina áður gistu þeir hjá mér, við komum þá seint heim frá Markerville. Margt bar á góma, allar götur frá íslenzku skyri til hins að ímynda sér tilveruna eins og gorm eða sem hring. Guðmundur er ljósorður, alúðlegur, einlægur og skemmtilegur, og kann fádæma sjó af íslenzkum kveðskap, stórum og smáum, fornum og nýjum, að mig furðaði, auk annars, og svo sinna sérstöku vísinda, sem þú veizt um. Svona kom hann mér fyrir. Ég fann að hraðförinni hans hér vestra við hann, þó ég væri sá, sem hann sízt átti það skilið af, og mæltist til, að hann brigði af því í aðalbyggðum Íslendinga, svo sem á Garðar og í Argyle o. s. frv., og flutti það enn fastara við Vilhelm, sem tók því vel. Guðmundur svaraði því svo, að hér um bil 2 mán. gengju til ferða vestur og heim. Hann hefði 4 mán. burtfararleyfi, og einhver dráttur fram úr því jafnvel væri sér enginn ótti. En — *sinna eigin erinda vegna* þyrfti hann að komast heim, áður en sumarið væri alveg um garð gengið, hann ætti verk fyrir hendi, sem hann þyrfti að vinna nú og ekki yrði

að vetrinum unnið. Og nú gaspra ég ekki meira um Guðmund. Nú átt þú eftir að taka við honum, og þess ann ég þér og honum, að hann gisti hjá þér. Eiríkur prinz er hér í sveit, óyggjandi prinz að ætt, sonur Valdimars, sonar Kristjáns níunda (Glücksborgarættar), og sonur Maríu, afkomanda Lúðvíks sextánda, sem Frakkar hálshjuggu (Orleanaætt). „Eric" þessi, eða Eiríkur, er unglingur, fyrirferðarlítill á vöxt og svip. Vill helzt út á landsbyggð vera og galsast með unglingum, vera með að sækja hey eða eldivið, þegar honum lízt svo, o. s. frv. Hann kvað vera sá eini af ættinni, sem ekki vildi hermaður verða, heldur busla með bændafólki. Hann kvað segja, að hirðlíf sé „No damn good". Hefir verið nokkuð víða á Englandi, Frakklandi, jafnvel í Síam. Hann heldur til hjá Dan Mörkeberg, danska smérgerðarmanninum hér, og flöktir svo um. Um stríðið talar hann lítið víst, eins og við er að búast, nema að Danmörk vilji komast hjá því, ef unnt sé, en hverjum hann undir niðri ann betur sigurs, gætum við gizkað á. Ég hefi varla við hann talað, verið kynntur honum og séð hann einu sinni á samkomu —, tekið í hendina á honum og sagt: „Glad to meet you, prince Eric", hafi ég þá þó ekki hálflogið því. Líklega verður hann hér viðurloða ár eða meira — þangað til stríðið er afrokið? — Getgáta mín.

Auðvitað kom vorið seint, var svalt, en áfalla-laust, svo veður tók ekki úr vinnu, sáning því lítið seinni en vanalega. Kornið kom vel upp. Sífellt regn nú, en hægt. Yfir höfuð, væri ég gróðrar-veðra-valdur, gerði ég ekki mikið betur, að ég held, nema ég kannske setti meira sólskin upp við og við.

Nýlega sendi ég þér Guðrúnar-áheit Jóns Sveinssonar. Býst við það hafi skilað sér og ragast ekki um það. Séra Rögnv. Pétursson er að tína saman leifar af óseldum „Andvökum" og „Kolbeinslögum" og ætlar óbeðið að reyna að ráðstafa því eitthvað fyrir mig. Séu „Andvökur" óseldar til, sem „liggja uppi á þér," viltu gera svo vel að leita til hans með þær?

Eg gat mærðað eins og tveir
Þó í mér væri hósti —
En, sko til, ef ég masa meir
Missi ég af pósti.

Blessaður og sæll. Þinn Stebbi.

*Jón Jónsson frá Sleðbrjót.* Markerville, Alta, 4. júní 1916.

Góði vin. — Ég ætla að drepa mér niður hjá þér augnablik, í borgunarskyni fyrir bréfið þitt síðasta og ósvarað enn. Einu hefi ég alveg gleymt hingað til, sem ég ætlaði alltaf, en aldrei varð af, en það var að þakka þér greiðann við hann Gutta okkar í því að vekja máls á honum heima, hann var þess verður og þú rekur þar ósóma af okkur vestan-vérum, sem aldrei virðumst sjá fyrstir „hvar feitt er á stykkinu", þó það liggi á okkar eigin eldhúsborði. Það þarf að drjúpa metorða- eða gróða-flot af því, [það] eitt og ekkert annað, til þess okkur vatni nokkuð í munninn.

Kvæði Guðm. á Sandi eftir Gjallanda er gott, það er formfagurt, stórskrefótt og orðmóður í því. En mér þykir miðhlutinn beztur, smalamennsku- eða haustgangna kaflinn upp úr dýra-vináttu Gjallanda, sem Guðm. hefir verið svo kunn, en byrjunin að því fremur spilla, í þessu sambandi. Þessi vitrunar- eða draumlýsing Guðm. á sjálfum sér, sem aðdragandi, finnst mér veikja hitt, orðið enn áhrifameira, hefði ímyndunin, ein og fyrirvaralaus, hlaupið strax að manni. Þetta er ekki í aðfinnsluskyni sagt, aðeins tilfinning mín eða „smekkur" (eins og sagt er) blábert sagður, fyrst þú spurðir mig um það.

Ekki ætlar það að ganga óánægjulaust með ferð dr. Guðm. F., fremur en vant er með virðulega menn okkar, sem kirkjufél. hefir í leiðtogi. *Það* er sérgæðis-samt og *við* hörundssárir. Ég er ekki að meina hér slysið ykkar eitt. Ég var búinn að fá óánægju-ávænu í bréfum annars staðar að, um hvað í vændum myndi, strax og auglýsingar komu út. Mér þykir þetta illt, málefnisins vegna og Guðm. sjálfs. Hann veldur þessu ekki, er leiguliði og alókunnugur, en bundinn einhverju verki heima, sem hann hefir sett sér að gera, en verður að gerast áður en haustar að heima of mjög. Hvað það er, veit ég ekki, og fyrir sjálfan sig líka þarf hann eitthvað að standa við í Chicago, en er um mánuð hvora leið, milli landa. Hann kom hér, gisti hjá mér 2 nætur. Kom alveg mér óvart. Breytti fyrirlestrardegi í Edmonton til að komast hingað nóttu fyrr, rak af þar lestur sinn sama daginn og hann kom, en var „bókaður" með hann daginn eftir, og rauk svo hingað með fyrsta fari. Það er fátt af löndum í Edmonton. Hjá mér var hann

sem heimamaður og alkunningi, og við alla, sem hann mætti, virtist mér hann jafn. En sumir kunna að vera framgjarnir í fyrsta mót, þó hann sé þar líka auðveldni ein, en ég meina, að kynna sjálfan sig að fyrra bragði, og heyrt hafði ég áður mann einn undra sig á því, að jafn frábærlega skemmtilegur og Guðm. væri í riti og ræðu, bæri minna á því við fyrstu aðkomu, því það er eins og fólk ætlist til, að gáfumaður dingli utan á sér og framan í sig, til að leika sér að, öllum sínum hugsunum, strax og hann heilsar manni. Í samtali er hann sá sami og í riti og ræðu, alls staðar heima og auðveldur og gamansamur, þó reyndar sé hann undir öllu saman alvörumaðurinn. Ég fann að flýtis-förum hans hér við hann og var þó sá, sem það sat sízt á. Ég sagði honum, að á útkjálka sem hér vítti ég þetta ekki, en í aðalbyggðunum væri þetta erindinu hans til hnekkis. Hann afsakaði það með því, sem ég sagði þér áður um það, sem fyrir sér lægi. Ágætlega féll mér við Guðm., eins þar, sem við höfðum sína kredduna hvor; þó yfirburðir hans séu auðvitað miklir, er víðsýnin nóg, og víðast vórum við á líku máli, að mér skildist, og reyndi ég ekki þó að jábræðra neitt við hann af því ég vissi, að ég færi halloka annars. Ég er nú bara að segja þetta, ef þú hefðir eitthvert gaman af því, en ekki af tilgerð. Eins og þú, er Guðm. allur lifandi fyrir íslenzkum ljóðum og skilur þau og ann þeim, nærri gramur hafi hann gleymt einhverju úr þeim, sem hann kunni, og kunnátta hans er fádæmi, honum finnst sá unaður að hafa þau á takteinum: „Það er skaði að gleyma nokkru af þeim“, sagði hann, „það er sá unaður í að hvíla hugann í þessu“.

Hér er enn svalt og úrfella-samt, en hagi og akrar sýnast þó vænlegir enn, einkum á hálendi.

Nú er röðin komin að okkur, sem gera skal alla heróða. Tveir seztir að á Markerville, hersníkjugestirnir, íslenzkur og sænskur, og „Tommi“ ráðherra og Hannes (frændi minn, Marínó) herhvata þar á morgun, það er fyrir norrænuna; svo koma enskir sendlar á eftir, fyrir Alberta. Miklir andskotans vitleysingjar eru annars þessar stjórnir að taka ekki karlana fyrst, eins og þig og mig, til að hanga á útsæðinu, unglingunum einhverjum, ef mögulegt er. Nei, allt skal á sömu bókina lært.

Þá mannkyn í ördeyð er oltið
Með öllum þess virkjum,
Ég geng mig í Hoddmímisholtið
Frá hræjum af kirkjum.

Enn þá þrokir Þjóðverjinn,
Þó að smátt sé bitað,
Flotið bæði og fiskurinn
Flestum niðurhnitað.

Illa gerði Magnús minn,
Meira en neinn gat vitað:
Hann hefir fjandans „Fróða“ sinn
Fyrir þýzka ritað.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Grímur S. Grímsson.* Markerville, Alta, 9. júlí 1916.

Grímur minn. — Þökk fyrir Wynyard-blöðin. Ég sendi þér í staðinn vísur eftir „KN“, sem Hall sendi mér. Svo stóð á vísunum um Guðm. Finnbogason, að Jónas fór til „Víkur“ að hlusta á Guðm., hitti „KN“ þar, sem hafði sent Hall þessar vísur í bréfi, en hann var ekki búinn að fá þær, skrifaði þær samt upp þar og fékk þær Guðm. í erindislok. Guðm. las og stakk niður og sagðist ekki sleppa þessu aftur. „Heiðarbýlið“ er bara einn af nýgervingum „KN's“, nokkurs konar vasa-útgáfa af „Heiðarbýli“ Trausta, auðvitað. — Hér gengur allt í giftingahug og gróðri. Harðvelli lítur vel út. Kulda-vætu korka í láglendi sumu. Sólskins-hiti sjaldgæfur. Hlýtt og bjart í dag. Mundi Þorsteinsson hefir verið hér í herhvötum, en orðið lítið ágengt, sem betur fer, og að ég held. — Ekkert gagn er mér að vínbanninu, ég er eins brennivínslaus eftir sem áður, því hinir drekka enn allt frá mér.

Auðna Bjarna kvað: Fyrst að ekki er efni í púns,
„Óbætt“ drekk ég vatnið.
(annars er „óbætt“ mín breyting fyrir „Eg má“).

S. G. S. botnaði: Vætlu-bekkir veiga-túns,
Varla að smekk þið batnið.

Vinsamlega S. G. S.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerville, Alta, 12. júlí 1916.

Góði vin. — Alltaf hefi ég ætlað þér línu, síðan ég fékk bréfið frá þér, sem ég þakka þér kærl. fyrir, en hvenær sem ég ætlaði að setjast að því, kom einhver ónæðis fjandinn úr sauðarlegg heima-snúninganna og setti mig aftur, og þetta verður eins, allt málamynd á nálaroddum annanna. Ég sendi þér samt flýtis-hendingar til Kristins, hugsaðar í rúminu um nóttina eftir að bréf þitt kom og sendar daginn eftir. Þú sagðir mér þetta svo seint, að ég rakst í bobba, þó óvíst sé, að ég hefði gert betur með lengri tíma. En það var samt „strákalukka“, að ég gat gert nokkuð, sem ég sjálfur væri ótregur að fara með, en feginn hefði ég viljað gleðja þenna samtíðarmann og sveitunga minn í vanþakka-verkinu að kveða: núna undir kvöldvökulokin okkar, og kæra þökk mín til ykkar, sem gerðuð það! Það var drengilega gert af ykkur.

Í fyrradag sendi ég þér það, sem Danir kalla „túmark“: 32 Kolbeina, eins og þú leyfðir mér. Mikið varð ég feginn að losna þarna við daglega áminningu til mín um að eiga ekki betra faðerni en það, að þeir fengi hvergi inni. En mér sýndist það alltaf skína út úr þeim, þar sem þeir störðu á mig, heimreknir og hillulagðir. En *það* er ótækt, að *þú* sért að borga burðargjald. Nóg, að þú leggir á þig umsjón og útvegun, úr því ég er svo örvhentur að geta það ekki sjálfur.

„Eimreiðin“ gat um „Kol“, meinlaust og hóflega, auðvitað, en auðfundið með hangandi hug. Við því bjóst ég líka, ég sendi Valtý hann í ertni, en engum ritstjóra öðrum, sem líklegri var þó kannske til að skilja mig og færra spaug hefði orðið til ömunar af því, sem þar er gert. Yfir höfuð reynir Valtýr að vera sanngjarn og vægur, og athugar margt vel, en er ekki andagiftar-maður að sama skapi, og verður ónytjustaglorður.

Nú hefir kennurunum fjölgað við íslenzka skólann ykkar í Winnipeg. Karlar, kerlingar og óvitar, sem á hann ganga, eiga nú að verða það allra-sveita ráð, sem leysir og bindur íslenzkuna þar, eftir því sem kirkjuþingið er sagt að hafa samþykkt. Þetta er orðið nokkurs konar „hierarkískt Anarchy“, ef ég má tala ljótt! fyrst íslenzkan getur ekki verið þekkt fyrir að eiga orð yfir þetta.

Ég er annars í alvöru með skólanum, en móti honum, þó ég

efi ekki einlægni einstaka manns, sem hlut á að þessu, án þess að ráða við neitt.

Já, ég vildi sjá samúð, en ekki sundrung milli frjálslyndra manna einhvers staðar í líklegu aðsigi, svona í vertíðarlokin mín. Þeir, sem að ekki geta lagt sjálfan guð í lágina til þess (eins og t. d. ég), ættu að láta sér á sama standa, hvort hann er allra hluta ívera eða allra hluta útklakning, svo lengi hann er ekki misendispersóna, því það er að taka guð sinn niður fyrir sig, og kann aldrei góðri lukku að stýra. —

Hvern mun annars ætla sér
Í eldinn gamli Rauður,
Þegar Bretinn þrotinn er
Og Þjóðverjinn er dauður?

Ég varð að stökkva frá þessu, rétt í miðri guðfræðinni! hérna uppi, til að greiða sundur gadda-vír. Von er, þó allt hjá mér „endi með skelfingu“.

Þinn einl. Stephan G. Stephansson.

*Jón Jónsson frá Sleðbrjót.* Markerville, Alta, 2. okt. 1916.

Jón minn góður. —

Búhnauks-rag mitt aflagt er —
Út í haga flúinn,
Sumar-dagur sezt hjá mér
Sólskins fagur-búinn.

Svona var það, einn góðan veður dag, og síðan ekki meira. Ég hefi ekki einu sinni fengið frí að þakka þér bréfið langalöngu fengið og óborgað. Get það enn ekki, svo mynd sé á — en vænt þótti mér að fá það. Hér er allur búskapur aftur úr öllu afturhaldi, sökum votviðra. Hefir fölgað í þrjár nætur. Annars hefir Mangi Skafta hlaupið undir bagga með mér að hafa þig skrifandi og sig „prídikandi“, út í hött. Hann kann engin glímubrögð orðið, nema að fleygja sjálfum sér niður á skessubragði.

Ég ætla nú samt að koma seinna og staldra lengur við hjá þér, þegar tíðin batnar og Mangi hættir að svara þér. En á meðan, þökk fyrir ræðuna þína, og lurgs ofanítekjuna á „séra“.

Ég legg með blað, til uppbótar á bréfið, eða til ills-versnunar. Þú hefir ekki líkl. þekkt Helga heitinn — bróður Þorg. Gjallanda, bónda við Wynyard? „Senn er þrotinn pósturinn“, sagði Siggi Breiðfjörð.

Þinn S. G. S.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerville, Alta, 3. nóv. 1916.

Góði vin. — Skammdegi og vetur vofir nú yfir, og ég kvíði svo fárlega fyrir því að þurfa nú oft að eiga það undir hendingunni, góðum mönnum og guði, hvort ég get haft ljós í horninu mínu hérna, þegar ég kem úr fjósinu á kveldin. Langar til að verða sjálf-lýsari sjálfs mín, en er ólipur við lampana. Á Bannatyne Ave. 179 hjá þér í Winnipeg er verzlun, sem kallar sig: „The Farmer's Supply Co. Ltd.“ Ég hefi einu sinni sent eftir hlut til þess, og það gekk ráðvandlega. Þetta fólk í „bænda-búð“ býður til sölu fyrir $ 4.50 það, sem þeir nefna „The Delta Electric Table & Reading Lamp“, segir þetta glóðarker sitt handhægt og endast frá 6 til 12 mánuði. Vertu nú svo vænn við mig að komast fljótlega fyrir, ef þú getur, hvort þetta er „húmbúg“ eða húsgagn. Láttu mig vita með línu, því sé ljósið gott, sendi ég eftir því, til að „stýra nóttunni“ hjá mér.

Ég rasaði niður af eldiviðar-æki úti í skógi fyrir 3—4 vikum. Ég féll á trékubb. Hann varð undir síðunni á mér og hefir eitthvað laskað það, sem eftir varð af rifjunum, þegar Eva var gerð, því eitt er að hnýta. Þetta sjálfgræ, en ögn hefir það háð mér við vinnu, en verst í rekkju.

Vínbannið komst öfugt á, —
Svo enginn skyldi hrasa.
En fyrsta meiðslið fékk ég þá
Fyrir það að rasa.

Blessaður og sæll.

Þinn Stephan G.

*Guðmundur Finnbogason.* Markerville, Alta, 15. nóv. 1916.

Góðvinur. — Þökk fyrir komuna, bréf þitt frá Chicago og vingjarnleg ummæli við Ísafold um Hjört okkar og mig. Mér

hefir stundum hálf-gramizt, að næstum því hefir líkzt, að íslenzk blöð hér minntust hans með tregðu. Auðvitað var hann hvorki né verður neinn hvalreki í fjöru neins flokksins okkar hér vestra. Svo er hann yfirlætislaus og dulur, eins og hann má til að vera, því hér í „þessum heimi" er öllu, sem fémætt eða frægt gæti orðið, hugmyndum líka, af manni stolið, geymi maður þær á glámbekk. — Ekki veit ég, hvort þú færð ritið „A Way to Prevent War", en útgefendunum hefi ég sent borgun og áritun þína og beðið þá að senda þér kverið beinleiðis frá Bandaríkjunum, þar sem það varð til.

Ég er næstum furðu-hreifur yfir þessu nýnæmi að hafa lánazt að lifa það að búa í því landi, þar sem stjórn skammtar manni, hvað maður má lesa, tala og skrifa um alheims mál eitt.

Ég skrifa þér stuttlega, aðeins til að láta þig vita, að mér hafi borizt kveðjur þínar góðar. En til að ónáða þig ögn frekar, legg ég með seinast kveðna kvæðið mitt og ógefna, ef þú hefðir gaman af að lesa það. Líka er maklegast að „plága" þig með því fyrstan manna, þér er það að sumu leyti að kenna. Ég veit ekki, hvort þig rankar við, að í bréfinu þínu minntist þú á, að þú hefðir verið að reyna að sjá eitthvað *með mínum augum*, þegar þú varst að þeysa um Vesturveg. Hitt er nú gömul ætlun mín að lýsa einhvern tíma, hvernig ég slepp út, þegar ég er hornreka.

Vinsamlega Stephan G. Stephansson.

*Jónas Hall.* Markerville, Alta, 21. nóv. 1916.

Jónas minn góður. — Þú mátt halda, að ég hafi „kafnað í flórnum", ég hefi verið svo seinn til svars, en:

Þó ég, heimur, hafi lágt:
Hér er ei því að fagna,
Að ég sé kominn í þá átt,
Þar allar rellur þagna,

Annars hefi ég nýlega sent Jonna réttlæting mína fyrir öll þau undanbrögð og bréfa-svik, og tek það ekki aftur upp við þig, því það er nærri meiri skemmtun að skrökva einhverju við og við en að staglast upp aftur og aftur á sama sannleik-

anum, og því fór nú sem fór fyrir gömlu prestunum, þegar þeir þóttust vera „utan stólsins“. Það var von, að þeir vildu drepast úr einhverju öðru en tómum leiðindum, og eins kváðu synir þeirra vera enn í dag. Sannleikurinn sjálfur verður varla manna-matur, þegar af honum er allt nýja-bragð, svo ég endurtek þetta ekki.

Bezt er þá að minnast á boðin frá „KN“ í seinasta bréfinu þínu. Segðu honum, að honum sé þarflaust „að binda öðrum byrði, sem hann sjálfur ekki vilji við snerta.“ Hann er hagorður á við mig og ætti að kveða eftir B. sjálfur. Ef að hann þykkist við svar mitt, er það bara til bóta, það kemur skáldmóði hans í aukana. Ég hvorki kveð (né get kveðið) erfiljóð, nema við og við, og það fer ekkert eftir [því], hvort mér er vel til manns eða ekki, heldur hvað um hann hefir gripið mig svo, að ég hafi kvæðalyst á því. Ég hefi fengið beiðslur um svona, jafnvel heiman af Íslandi, verið sagt að yrkja eftir jafnvel séra Jón Bjarnason, minntur á, að ég hafi engin skil gert Kristni Stefánssyni né Jóni Ólafssyni, þó ég sendi sína hendingu hverjum, meðan þeir vóru uppi, og geti ekki um það bætt. Íslendinga-daga minni eru mér ætluð í hverju horni, árlega mörg. Beðin um veizluminni, eins og fyrir Baldwins-hófið seinast, o. s. frv., allt nema gullbrúðkaupsljóð. Mangi Markús. situr þar í einkaleyfi. Ég hefi vanið þetta af mér með afsvörum, og sjálfsagt misþóknazt þeim, sem báðu mig, en ég gat ekki gert annað réttara, eftir bezta vilja og viti.

Jonna sagði ég fréttirnar nýjustu af búskap og prestskap hér í sveit. Síðan lítið viðbætzt. Hver dagurinn öðrum stilltari og betri, nú um stund. Snjór á jörð allri, en brautir aðeins vagnfærar og ágætar yfirferðar. Hveiti-verð heldur lægra. Fékk $ 1.43 fyrir bush. í gær, en Kobbi 49 c. fyrir hafra, en 50 c. næst áður. En það er nú samt ofsa-verð. Mikið af hveiti og byggi hér í kring eyðilagði frostnóttin í ágúst alveg, t. d. Guðmundur Þorláksson (býr fyrir norðan mig) missti alveg yfir 20 ekr. af byggi. Jensen (nágranni fyrir sunnan) nokkrar hveitiekrur, handónýtar, og sáði þó á undan mér svo munaði tveim vikum. Kristján Jónss. og Sigurður Grímss., austur af „Fellinu“, misstu um 30 og um 50 ekrur af hveiti hvor. Aftur sluppu aðrir með hveiti og bygg, rýrnaði auðvitað, en yfirgengilega gott þó. Engir hafrar ónýttust, en léttust að mun.

Svo skal þér nú kveðin kær
Kveðja, að gömlu vönum. —
Ég er, eins og endrar-nær,
Allur á fjósa-þönum!

Þinn Stebbi.

*Jón Jónsson frá Sleðbrjót.* Markerville, Alta, 23. nóv. 1916.

Góðvinur. — Fyrirfarandi hefi [ég] oft skrifað eitt bréf á dag, milli moksturs og morgungjafar, því svo var nú þeirri skilsemi minni komið, að ég fann þef af því úr öllum áttum, eins og Skafti heitinn ritstjóri af matnum, meðan „Austri" hans stóð óháður, að sögn Þorsteins heit. E. í „Bjarka". Nú er röðin komin að þér. Ég var dauður úr öllum æðum af „áhyggjum og sorgum þessa lífs", og svo meiddi ég mig ögn, nóg til þess, að það greiðkaði ekki sporin, þó ekki legðist ég fyrir. Þökk fyrir bréfið samt, því ég varð guðsfeginn að fá línu frá mönnum, sem hugsað geta út fyrir sveitar-takmörkin, því hina get ég hitt á hverri stund sem ég vil, ef ég nenni að leggja orð í þann belg.

Um Íslandsmál er ég þér nú samþykkur. Þykir kosningar ekki illvænar, það sem séð verður, eftir afstöðum flokka. Ágætt, að Eggerz, Björn og Vogur komust að. Þeir eru enn mínir helztu menn. Læt Hafstein vera. Ekki að ég haldi um hans sveif, fremur en áður, á því undangengna, en gæti vel vonað, að eitthvað hafi hann lært á að bjóða þjóðinni frumvarpið, eins og það var illa þegið, hann er þó „pólitíkus", þó ekki sé hann hátt-hugsandi stjórnvitringur. Og þessa millipilsa-pólitík þeirra „langsum" er mér ekki sárt um. Hún er öll töf og glundroði og á hnéskít skilið. Og svo bíður maður átekta.

Ég las „Erp" þinn í „Lögbergi". Þar fórst þú með góðan „texta" og skáldlegan. Oft hefir mér dottið hann í hug, þó aldrei yrði mér hann að vísu, og hafðu þökk fyrir. Ég segi eins og E. Þ.: „Haltu áfram." Og ég segi það í alvöru, þú hefir ætíð eitthvað að segja, sem betur er sagt en ósagt, og segir það mörgum betur. Ég vorkenni okkur Ísl. okkar sundurlyndi, meira en margur annar. Það eru þau forlög, sem allri menningu fylgja, stríðið milli vits og heimsku, ills og góðs, nauðsyn til að vera þjóð með þjóðum, en auðvitað, afkastaminna til hvors sem er, sökum lítils fjölda að fylkja upp, á

öllum sviðum, en svo er þá fámennið þeim kosti búið, að fljótara er að átta sig á illum stefnum. Heyrðu, Jón: „Gestur er inn kominn. Hvar skal sitja sjá?“ Ég meina „Skuggsjá“. Ætti nú ekki að leggja henni lið? Og viltu nú ekki flytja þig með eitthvað af þínu yfir í hana, verðir þú beðinn? Kannske hún geti orðið til liðs, þó ólærðir standi þar að. Ég veit, að góðir drengir standa þar að, en mun skorta andlega aðdráttarmenn, sem von er, og allt verða að gerast í guðsþakkarskyni, en þar er nú úr engu að aka, hvort sem er. Fengist það, sem til er hér vestra af hæfum pennum, verði ritstjórinn því vaxinn og hafi víðsýni til að kjósa hlutdrægnislaust af málafylgju og umfram allt að úthýsa leirbullum og rugluþvögum, sem stökkva fram úr hverjum kjallara, þá gæti verið, að vestanhafs svipirnir í „Skuggsjá“ yrðu eins og þeir í „Winnipeg-Öldinni“ forðum, ekki til minnkunar. Það voru leikmenn, sem þar unnu bezt að, þó J. Ól. sé þakkað það nokkuð einhliða, og sú „Öld“ er ekki talin alveg „Leiröld“, jafnvel heima, nú orðið. Ég hefi séð mennta-menn þar tala ekki óhlýtt um hana.

Ekki lái ég, að þú svaraðir ekki „Manga“ fremur. Þar var engu að svara — Kanada-lofi í hugvekju-stíl og út í hött. —

Magnús má kveða — Ég meina þann, sem er „Jónsson“.

Gagnið máls og stoð hvers stafs,
Stíflan efa og gleymsku.
Sjáðu vinur, vestan hafs,
Vitnið mitt í „Heimsku“.

—

Enga setji sorg að þér.
Sértu í metum beztum.
Hjá þér Vetur hagi sér
Hinum betur flestum.

Þinn, S. G. S.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerville, Alta, 8. des. 1916.

Góðvinur. — Þökk fyrir bréfið og för þína til „Gyðingalands“ fyrir mig. Maður verður að sætta sig við sama og „Mark Twain“, að sögurnar um það verða að „reyk“ stundum.

Víst væri gaman að sjá þig hér vestra — en ég renni grun í örðugleikana. En færi svo, láttu mig vita í tíma, svo ég hafi

ráð til að ná þér frá Innisfail, svo ekki liggi nærri útilegu, eins og fyrir ykkur Eggert forðum.

Ég er aftur orðinn „karl í krapinu", með 2 eða 3 hnúða á síðunni, en ég býst við að fela þá með vængnum, þegar ég er orðinn reglulegur engill.

Skipi Hel að heyra sér:
„Halló!" mun ég svara.
„Það er enginn asi á mér
Eiginlega að fara."

Þegar vörnin er að enda
Útlaganna úr byggð og skólum,
Riðlaðir sem reiða og henda
Rúmfjölum í karar-bólum,
Þá er eins og bylur blakkur
Blístri undir hellis þaki:
Varaðu þig Valnastakkur —
Varaðu þig Valnastakkur!
— Fallinn er hann Fjögra-maki!

Gleðileg jól og auðnusælt nýár.

Þinn Stephan G.

*Dr. Jóhannes P. Pálsson.* Markerville, Alta, 1. jan. 1917.

Góðvinur. — Alúðar-þökk fyrir bréf þitt, og afsökun fyrir dráttinn á að segja þér hana. Heima-annir og héraðs-fundir ýmsir taka frá manni hverja tómstund hér, og verst kringum vetrarhátíðirnar. Það er hræsnislaust, að bréf þitt gladdi mig, en ekki þó fyrir metnaðarsakir. Það er svona: mér er annt um sum efnin í ljóðum mínum, án þess að ég kalli þau hugsjónir, af því ég hefi traust á þeim, en alveg er það laust við, að ég þykist af mínu smíði á þeim. Ég veit aðeins eitt, ég lagði fram það, sem hagir mínir leyfðu mér, og gerði eins vel og ég gat og svikalaust. Og þá ættar-rækt hefi ég til þeirra, að í viðræðu er ég vís til að verja þau af kappi, ef mér finnast þau verða fyrir röngu af heimsku eða hlutdrægni. Af þessu leiðir nú, að mér verður vel í geði til þeirra, sem minnast hlýlega á þetta, einkum yngri mannanna, þeirra sem vit mættu hafa á og ljóðum unna. Það er sem manni vaxi þá sú von, að allt hafi

þó ekki verið til einkis kveðið. Þetta fer ekki sízt svona, þegar maður er orðinn við aldur og kuldinn fer að leita meira inn.

Vænna þótti mér um orð þín líka af því þú tókst fram, hver kvæðin þau væru, sem þér gætist helzt að. Mér hefir stundum verið hrósað og ég hlýtt á, en langað að spyrja: Hvað gott hefi ég þá af mér gert? Það hittist nú svo á, að af þeim kvæðum, sem þú tekur til, hefi ég engan heyrt nefna „Díkónissu“ né „Aftökuna“, nema Guðm. Finnbogason og þig. „Á ferð og flugi“ átti örðugt uppdráttar, bæði heima og hér, lengi vel. Nú er vel um það mælt, jafnvel af þeim, sem helzt vilja halda, að allt annað hafi mér mistekizt. Út af því „Hvað er sannleikur“, hefir Guðm. á Sandi, skáldið og vitmaðurinn og mestur meðhaldsmaður minn heima fyrrum, orðið einna óánægðastur með mig. Þetta er ekki sagt í umkvörtunar-skyni. Ætti maður silfur, fellur verð þess ekki við, að einhverjum sýnist það vera tin; deigla framtíðarinnar bræðir þetta allt upp.

Ekki lái ég þér, þó þér væru Hulduljóðin hugljúfust ungum. Flestum fer svo. Draumar eru *skáldskapur*, áreiðanlega, — en *hann* er líka hitt: lifandi ráðning vaknaða mannsins.

Vel getur skeð, að við eigum eftir einhvern tíma að hittast. Reyndar held ég, að ég sé eldri en hvað ég er af mér genginn enn, þó enginn garpur væri ég.

Skilaðu kveðju til Guttorms J. G., ef þið hittizt. Vertu sæll, og gangi nýárið þér til góðs.

Vinsamlega Stephan G. Stephansson.

*Grímur S. Grímsson.* Markerville, Alta, 20. jan. 1917.

Góðvinur. — Þökk fyrir bréf þitt, sem ég komst ekki til að svara, fyrr en ef það verður nú. Líklega er líka þér að þakka 2. tölublað af „Fair Play“, sem ég fékk í sumar, og er á sinn hátt gott blað og róttækt, þó það sé óguðlegt í hernaðarmálinu. Það er líklega séra Irvine ykkar únitara, sem kallar sig þar Þorvald, þó hann stafi það ensku-rangt. Mér fellur hann prýðilega, fyrir skynsemi hans og hugprýði í að segja satt. Við ættum að fá hann hingað til Markerville til að halda ræðu á Íslendingadag. Jólavikurnar mínar gengu allar í funda-stúss, eins og vant er. Ég varð mánuð á eftir með

öll bréfa-svör, eins og vant er. Tekur mig nú mánuð að vinna það upp, eins og vant er! Kem af á hverjum degi hálfu eða heilu bréfi milli jötu og flórs! Hirði um 30 gripi inni, og nokkur svín — sem þú svo líklega limar öll sundur fyrir mér á endanum, eins og það væru hermenn á Flandri.

Nú féll Jón okkar Olson úr ráðunautsstöðunni. „Fredi“ Kristjáns hlaut happið. Allir sögðu þó, að Jón hefði vel reynzt, eins þeir, sem vóru honum mótkvæðir, en svo mátti staðan og launin betur lenda á Austmanni. Jón var sér lítið úti um atkvæði. Hinir ákafir. Nú á að verða afmælishátíðarhald á Markerville 7. febr. Lestrarfélagið orðið 25 ára. — Séra Pétur heldur þar afmælisræðuna, að sagt er, nema sé það eins og með mig: það er ákveðið, að ég tali þar um íslenzkt þjóðerni, þó engu hafi ég um það lofað, og Siggi Jónsson hvað tala fyrir minni Íslands — eða kvenna, mönnum ber ekki saman. Lúðrar leika, Jóhann Björnsson leggur til allt það hangiket, sem fólk torgar, og sinn íslenzkur réttur á að koma úr hverju horni sveitarinnar, eins og í veizlunni á Heljarslóð. Hunford á að hefjast á gullstól, sem Jóhann kemur með úr vestur-víking sinni, og allt er eftir þessu. Ætlar þú ekki að koma í hófið?

„S.M.“ — Það er Siggi svarti-prestur, sem snéri vísum „KN“s í Lögbergi. Hann er hagmæltur.

Hér var séra Jakob Kristinsson í haust, mesti hæglætis maður, nærri utan við, greindur vel og sjálfsagt hreinskilnastur og kredduminnstur allra nýguðfræðinga, það sem til kirkjumálanna kemur. Gengur á háskólann í Saskatoon í vetur, um tíma, les víst ensku og enskar bókmenntir helzt. Leiðist hér og líklega ílengist hér ekki.

Steingrímur Hall hefir samið nýtt lag við: „Þótt þú langförull legðir,“ og sent mér, en svo umfangsmikið sýnist það, að ég held enginn hér í byggð ráði við það. Læknir heima, Sigvaldi Kaldalóns, sem kallar sig, hefir gert lag við „Langförul“ líka, og Eggert Stefánsson, bróðir hans, raddmaður mikill, sem syngur nú á Þýzkalandi, söng það lag með fleiru fyrir Reykvíkingum í haust. Annars engar fréttir lengra að. Séra Rögnv. hálf-langar til að koma bráðum, en ekkert býst ég við, að úr því verði, frekar en vant er. Það er verið að reyna að koma upp íslenzkum Bandaríkja-„konsúl“ í Congressinu. W. C. Russel okkar átti víst upphaf að því, með fylgi þingmanns síns í Mass., og ég held fyrir Helga? eða Geir? Zoëga.

Nú hefir Helgesen það líka á prjónunum, og gamli John Burke hefur lofað (Jóni?) Sigfússon í (Vík-Mountain) því, ef fæst.

Það er kalt, en kýrnar vilja
Komast út.
Svo við allt ég ætla að skilja
Í enda-hnút.

Gleðilegt ár, Grímur minn.

Vinsaml. Stephan.

*Jónas Hall.* 24. janúar 1917.

Þökk fyrir undanfarið ár og seinasta bréf þitt, Jónas minn, og endist þér heill og heilindi lengi enn. Ég átti að vera búinn að finna þig með miða fyrr, en öll mín bréfaskipti fara í tröllahendur æfinlega um jólin. Jólatrén, héraðsfundir og alls konar ónæði rekur þá hvað annað, og þó ég sinni öllu því sem minnst ég get, slepp ég aldrei við að trassa allar skriftir. Þó hefi ég fyrir nokkru þakkað Steina fyrir lagið, en varð að fela „Lögbergi" það. Mundi ekki hústöluna hans, en býst við það hafi komizt til hans samt. Sem stendur veit ég engan, sem ég get hugsað, að ráði við lagið hér, þó reyndar „sé spilað hér á allar harmónikur", eins og kerlingin komst að orði um Mountain-Martein. En samt hefi ég í huga að leitast um við hverja þjóð, sem hér er, ef mér dettur einhver í hug, en lagið er eflaust raddsett svo, að sá þarf að vera söng-glöggur, sem nær því, til að kenna kórsveinum það.

Jónas, já, þú varst búinn að segja mér frá konsúls-raunum Russels áður og mér datt ekki annað í hug en þú myndir sjálfsagt sitja um það, svona upp á höpp og glöpp, náttúrlega. Hertu nú að því við Helgesen og Burke, og ef líkindi eru til, fáðu þér og hafðu til taks meðmæli góðra manna og kunnra í flokki þínum, sem flestra, og skelltu þeim í skoltinn á þeim með umsókn þinni. Aðrar þjóðir hafa þar heima-konsúla nú, og gjafa-prófessora við háskólann, því ég læt mér ekki detta í hug, að enginn fiskur sé undir þeim steini, slíkar viðsjár sem á hafa gengið, því Ísland er öðru nær en þýðingarlaust nú orðið.

Flest er hér með kyrrum kjörum og mannskaðalítið. Þó dó litlu fyrir jólin Hermann Hillmann, bróðir Jóns við Vík.

Hann hafði mörg ár lasinn verið. Fékk held ég heila-blóðfall fyrir löngu og dó nú úr því, líklega, upp úr landfarsótt, 61 árs að aldri.

Tíðarfarið veltur á öllum endum og lætur skammt vera milli, en er þó ekki vonzku-viðrað yfirleitt. 40 stiga frost og hláku-þíður, blæjalogn og rokveður, leysingar og lognmold er alltaf að gera manni dagamun. Allt mitt fólk frískt, sem stendur. Eina telpan Baldurs míns, Jakobína, fékk botnlangabólgu nýlega, en skánaði í bráð. Það verður líkl. einn uppskurðurinn, áður því lýkur. Ég er nokkuð brattur, nema þegar ég verð lúinn, sem ekki þarf nú mikið til. Vinn það, sem fyrir kemur og ég þarf. Hirði um 30 gripi inni og fáein svín, en er nú, eins og Niagara Jóns heit. Ólafsson, alltaf að verða „smærri, smærri. Smækkar flest í þessum heim.“ Kristinn er heima. Var kvef-lasinn lengi, en betri aftur að öðru en því, að hann kvað nýlega hafa tví-tannbrotnað, en það vóru — falskar tennur. Lauga systir hefir held ég verið frískari nú en stundum áður, og Helga mín nærri skárri af gigtinni, hleypur um allt eins og óhölt, en dettur samt á hálku, og meiðir sig ekki. Indriði Reynholt og sonur hans liggja í sárum á Englandi eða Frakklandi. Gott, ef ekki er alunnið að báðum. Ég veit það ekki vel. Kannske ég sjálfur skrifi þér næst úr herbúðunum. Allir milli 18 og 65 ára, sem teljast Canada-karlar, áttu að segja til sín á póstspjaldi, sem hverjum var sent. Ég svaraði — á minn hátt. Þegar enn herðir á, kemur herskyldan — en ég ber engan kvíðboga fyrir mér sjálfum.

Yrðirðu konsúll austur í Vík —
Enga þó hafi spari flík,
Kippi ég mér upp og kem til þín —
Konsúlar hafa þar brennivín.

Þinn Stebbi.

*Jón Jónsson frá Sleðbrjót.* Markerville, Alta, 26. jan. 1917.

Jón minn. — Ég blóta þessu bréfi fyrst og fremst þér til árs og gróða, og svo er það syndafórn fyrir að hafa ekki svarað þér fyrr. En ég er allareiðu sloppinn á fjöll, eins og sá, sem Gyðingar létu lausan, svo þú gætir ekki sett mig í spor þess hafursins, sem haldið var eftir, þó þú vildir og ég ætti

það meira en skilið. Allt mitt klór fer í kássu um ára-mót öll, þá verður allt til ónæðis, og í fjósunum á ég æfinlega fullar hendur þess utan, þó ég reyndar stelist í pennann, hvenær sem ég get.

Ekki sendi ég Blöndahl bréf þitt. Fékk miða frá honum, sem gat um grein þína, sem ætti að koma í febr.-heftinu, svo ég sá, að þið höfðuð náð saman. Ég hefi sjálfsagt tekið gúlann vel fullan um hann í fyrra bréfi mínu til þín, að þessu leyti, ég þekki hann ekki af eigin reynd. Tók það eftir mönnum, sem ég trúði. Heyrt hefi ég einu hnýtt í hann, það var hjónabands-æfintýri. Slíkar sögur legg ég engan dóm á, hikaði við það, þó ég væri hjartnanna og nýrnanna rannsakari, hvað þá þar sem ég veit hvorki upp né niður. Hitt get ég hugsað mér, sem jafnvel vinir hans eru í vafa um, hvort hann reynist sá ritstjóri, sem alls staðar sé vaxinn þeim vanda, sem því fylgir. Reynslan ein sker úr.

Mér þykir, að ráðuneytið heima hafi ekki illa ráðizt, eins og á stóð, og samkvæmt mínum kreddum, er ánægður yfir falli þeirra „Ísunga“ allra og hróðugur yfir endingunni í „Þversum“, því með þeim ætti ég þó helzt samsuðu. Auðvitað er allt enn bráðabirgðar-bræðingur, en dansklyndið er þar að vísu, en dálkdregið.

Undarlega sakna ég séra Þórhalls, þrátt fyrir mála-mun nokkurn. Hann var svo líkur biskupum okkar hinum fornu, sem mestir voru og beztir í mörgu, nokkurs konar alþýðuhöfðingi í öllum greinum. Kristinn á sama hátt og Þorgeir Ljósvetningagoði, og ekki frekar. — Einu hefi ég aldrei svarað, en ætlaði þó. Þú minntist einhvern tíma á, að Kristinn heitinn og Jón Ó. „lægju óbættir“ enn, því enginn hefði kveðið eftir þá. Síðan hefir það nú verið gert, en — ég tók þetta hjá þér fyrir: Lambaþjófur! og leit til mín. Það er að segja: í dæmisögu samt. Vitaskuld er þetta sagt að verðungu, ef þú hugsaðir sem svo. Þó þarf ég að „fóðra“ það við þig, og það er svona: Ég var svo heppinn að hafa yfir sína stökuna um hvorn, meðan þeir máttu sjálfir heyra til. Þar læt ég sitja við. Betra það ekki með eftirmælum. — Eins fór fyrir mér. „Fossinn“ Guðm. míns á Sandi „seiddi mig ekki í leikinn“, þó vel sé kveðinn. En hví þá? Hann vætlar honum svo í allar áttir, að hann hættir að fossa. Af 18 átta-potta-kútum, er „fossinn“ í aðeins 8. Hitt er um, hvað hann hafi séð. „Leiztu Sturlu-

sona sennu? Sástu Flugumýrar-brennu?" sagði Matti, endur fyrir löngu — og margir aðrir líkt, og er ekki sérlega hrífandi — um Mælifellshnjúk í „Skagafirði" hans. Þar að auki lendir Gvendur með ýrur út í sjó, innan um æðarfugl og kópa. Hann togar sig og lesarann frá fossinum, ekki að honum. Mig langar ekkert til að gera lítið úr kvæðinu, það er mikið verk, en svona skilst mér. Þökk fyrir skýring þína um D. Stefánsson. Ekkert vissi ég um hann, nema kveðskapinn. Já, það er oft yndislegt, þetta endurtekna þjóðkvæða form, — jafnvel Grýlukvæða-lag, hjá honum, — en „þulurnar" hjá frú Thoroddsen og „Huldu" — allt er það samkyns, andi Fiðlu-Björns í öðru lífi. En verður alltíð of veikburða til að valda stóru. Góðir þræðir í mælgi Nordals. Aðeins illt að finna þá innan um alla þessa „symbolisku" loðnu, t. d. nýtíðarandinn, sem finnur sannari guð í leirnum heldur en forntrúin í öfugum ímyndunum sínum, þó hún gráti þann horfna guð sinn. Svo er margt fleira því líkt.

Ef ei færðu frið á þér,
Fram þú særður gengur,
Stekkur ærður út frá mér,
Ef eg mærða lengur.

Vinsaml. Stephan G.

*Guðmundur Finnbogason.* Markerville, Alta, 12. febr. 1917.

Góðvinur. — Bréfið þitt góða komið fyrir 2 vik., eða svo. Boðsbréf ykkar nokkrum dögum seinna. Alúðarþökk fyrir allt og allt, Guðmundur minn. Fyrir 3—4 dögum síðan sendi ég þér „Yes" frá Innisfail, og dr. Ágúst sendi ég örfáar línur samtímis þessum miða, þar sem hann stóð fyrstur á blaði af heimbjóðendum mínum.

Bréf þitt setti mig hálf-hugsi og ráðalausan í svipinn, eins og eitthvað það, sem manni hefir aldrei komið „í hug né hjarta áður." Að heimför hafði ég oft leikið mér áður í ímyndaninni, en alvörulítið og oftast sem gaman-draum, og aldrei á þann hátt, sem nú er komið.

Mörg ljón urðu mér á vegi, þó engin væru þau frá ykkar hlið. Þau vóru öll mínar kreddur, ekki sízt að láta aðra leggja það til, sem ég hefði átt að orka sjálfur, og hitt, að vita sig

og sitt ekki vaxið slíkri vinsemd og virðingu. En þið höfðuð komið öllu svo fyrir, að ég sá mér engan sæmilegan veg að neita, og varð að stökkva ofan í mína eigin ljónagröf, úr því ég kunni ekki að sneiða fyrir þau á aðra hlið.

Þó get ég ekki því lýst, hvílík góðgerð boð ykkar er mér, jafnvel þó ferðin sjálf yrði aldrei gerð. En ég kem með Gullfossi í vor, verði hvorki hann né ég hindraður. En allar óhamingjur hanga nú í lofti og geta fallið yfir mann hverja stund. Siglingar allar kunna að teppast. Bandaríkin á fremsta hlunni heimsstríðsins. Hér kann að verða almennt farbann útgefið. Ég er enn á hermanns aldri! Þeir teygðu hann nýlega upp úr 60 árum til 65 — innanlands — í orði kveðnu, því einu sinni klófestur fer maður hvert, sem skipað er. Auðvitað bara drjúgur yfir því, að vera enn talinn vopnfær, þó að laga-yfirvarpi sé! Ég býst við öllu, en áhyggjulaust.

Engin bók berst hingað nú að heiman, hvað sem veldur. Blöð koma þó næstum reglulega. Skírnir þinn síðast ókominn. Kverið segist félagið hafa sent þér. Ég innti að því og fékk það svar fyrir nokkru.

Og Guðm.! Innileg þökk, ekki einungis fyrir heimboðið — þú átt þar auðskilið mikinn, líkl. mestan hlut að máli — heldur líka fyrir allt og allt.

Vinsamlega Stephan G. Stephansson.

*Jón Jónsson frá Sleðbrjót.* Markerville, Alta, 25. febr. 1917.

Góðvinur. — Snöggvast kem ég enn til að þakka fyrir seinasta bréf þitt, og ekki síður greinina um Þ. E. í „Skuggsjá“. Að vísu hafði ég haft þá ánægju áður að lesa hana, en hennar vildi ég að fleiri nytu, og nú er svo komið. Hún er það langskemmtilegasta í „Skuggsjá“ enn, öllum sem meta kunna, ef mér bregzt ekki sýn, og er ritinu fengur. Hefir þú sent Guðr. Þorsteins heit. eintak? Ég spyr, því mér dettur í hug að kippa þessu með mér, komist ég heim í vor og muni eftir því.

Ég hefi séð ein 6 eintök af „Þjóðstefnu“ Einars Ben. Hefir þú lesið hana? Mörg nöfn og ýmsir stafir undir greinum þar. En flest víst eftir Einar sjálfan. Andi og stíll hans nærri ófelanlegur. Öll pólitík með ensku flokkssniði. Mesta virðing fyrir öllu, sem til konungsins sjálfs kemur. Hann oft sá eini, sem viðbjargar vitlausu þingi og drengskaparlausu. Almenningur

svo heimskur að kunna ekki að kjósa menn á þing þetta, sem brýtur lög bæði á kóngi og þjóð af vömm og vitleysu. Þó heimtar hann þjóðaratkvæði, t. d. um samninginn við Breta, því þar sé þingið valdalaust, úr því kóngsi gafst upp á því máli og vísaði því heim. Annars hefi ég ekki nennt að botna allar þær formflækjur. Samt tekur „Þjóðstefna“ heldur hlýlega móti nýju stjórninni, þykir heldur góðs að vænta. Að einni grein hló ég þó, auðvitað var hún neyðarlega rætin, en skratti vel skrifuð og sönn, að ég hygg, á sinn hátt. Það var kveðja og lýsing á veldi Einars Arnórssonar í ráðherra stólnum, og undir stóð *Kvillanus Blesi*. Hún er tæplega eftir E. B. Mig grunar Bjarna frá Vogi, auðvitað bara gaman-gizkan mín.

Það er nú orðið blaða-mál, hvort sem er, að ég er boðinn heim, og rétt með farið, það sem þau náðu í. Seint í janúar fékk ég bréf frá Guðm. Finnbogasyni og boðsbréf frá öllum þessum félögum og höfðingjum, sem taldir eru, nokkru seinna, framúrskarandi fallegt og hlýlegt. Ég komst í óvæntan vanda. Hefi aldrei ætlað heim svona, sízt á peningum Austur-Ísl. En svo var búið að búa þetta út, eftir því sem Guðmundur skrifaði mér, fyrirhöfn og fyrirætlanir gerðar, að ég sá mér engan sæmilegan veg, nema þann að brjóta margar mínar eigin kreddur og þiggja boðið. Hefi símað heim, eins og til var mælzt, að ég komi með Gullfossi næst, komist hann og ég. Auðvitað get ég ekki með orðum lýst, hvílík vinsemd og velgerð þetta er, en ég *skil* það. Auðvitað hlakka ég til farar, en ég óttast á hinn bóginn að verða vinum mínum vonbrigði og veit, að hér er boðið um verðleik fram, auk þess sem þetta er svo langt stökk og óviðbúið, úr fjósinu hérna í vor, upp í stúdentafélög og háskóla, og þó sýndist mér sá kosturinn skárri en að neita, svo ég læt „kylfu ráða kasti“, þó gapaskapur sé.

Ég ímynda mér, að Guðmundur Finnbogason hafi gengið þarna um, þó ekki nefni hann það. Að vísu var fyrir löngu, og þrisvar, búið að tæpa á því í bréfum til mín, hvort ég fengist heim, væri ég fluttur, en ég vék æfinlega heldur af, eins kurteislega og mér datt í hug, helzt í spaugi; nú get ég það ekki. Ég held því, ef til vill, að einhverjir hafi verið að hugsa til mín áður. En dr. Guðm. líklega lagt smiðshöggið á það með sínum „vinnuvísindum“. En ekki veit ég nú þetta.

Æ, nú vildi ég allir gætu verið með mér, sem heim langar,

það eru svo margir, sem þrá það þyngra en ég og komast þó hvergi, svo ranglát eru forlögin.

Annars getur náttúrlega svo farið enn, að Þjóðverjar, Bola-Jón og Borden og Wilson lofi Guði ekki að leyfa mér heimferð, en svo gerir maður því enga skó, fyrr en á dettur.

Enn er hret og frost og fönn,
Fáar vetrarbætur,
Heima setur hverja önn
Og hnipra í fleti lætur.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Jónas Hall.* Markerville, Alta, 22. febr. 1917.

Jónas minn. — Í gærkveldi bréf þitt. Á morgun póstferð. Vil svara þér strax, en verð tímastuttur, sem löngum er. Og þú verður að flytja Jonna kveðju mína og þökk fyrir nýlegt bréf, en ósvarað enn, og láta hann heyra úr þessu, ef eitthvað er, sem hann hefði gaman af. Gott, að þú beitir þér við „konsúlatið", óska ég það heppnist þér. Held það yrði þér ánægjustarf og hressing, á efra aldri, og veit þú getur það vel. Og ef ekki vinnst á, þá er sú ánægja að hafa lofað sínum flokki að gera sjálfum sér þá óhræsis minnkun að launa langa tryggð með svo löðurmannlegri neitun. Annars, mér sýnist þú standa betur að vígi en ég hafði grun um, og tel þig ekki fallinn, fyrr en ég má til. Já, Jónas, gaman væri að fá þig með sér heim og meira en það, bara þú mættir það og gætir, án þess að taka nærri þér um of, því nú er ég búinn með hraðskeyti að lofa að koma með Gullfossi í vor. Í boðsbréfinu var ég beðinn að svara svo og bent á að koma með Gullfossi, sagt þar, að hann komi til New York seint í apríl, en fari um miðjan maí. En Árni Eggertsson býst við honum 10. maí og fari 20. (og er líklega nýrri ráðstöfun), því „Lagarfoss" komi 26. apríl og fari 4. maí, en óvíst hann taki farþega. Árni býst við að fara sjálfur og lætur mig vita um ferðir. Enginn efi, að G. F. hefir hrundið þessu á stað nú, þó langt sé síðan að Jón heit. Ólafsson, Einar Hjörleifsson, og enn sá þriðji, og sinn í hvert sinn, töluðu utan að því í bréfum til mín að koma svona heim, ef mér byðist, en ég tók því ekki alvarlega og vék því af mér, en veit, að þá var eitthvað svo lagað umtal. Seint

í fyrra mán. fékk ég bréf frá Guðm., þar sem hann sagði mér, að samkoma væri stofnuð, þar sem kvæði mín yrðu rædd, sungin og kveðin, og almenningi boðið til, og að hann og próf. Ágúst Bjarnason hefðu verið kosnir í nefnd, til að tína upp úr „Andvökum“ úrval í lítið kver, sem seljast ætti þeim, er fund þennan sæktu, til minja um hann. Svo stakk hann því með, að nú ætti ég að koma, „þegar æskan kallaði.“ Svo kom boðsbréf í ábyrgð pósta, og skrautritað af einhverjum, og einstakt alúðlegt, boðið að koma, vera heima sumarið, á hvern hátt, sem mig lysti bezt, og borgun alls kostnaðar, heiman og heim, héðan og hingað. Af því allt var svona úr garði gjört og svo langt komið, sá ég mér engan veg til að neita, nema svo minnkun væri að fyrir mig og jafnvel Vestur-Ísl., og skárra þá að hafa þegið, jafnvel ómaklegur. En aldrei hafði ég ætlað mér svona heim, á annarra fé, sízt Austur-Ísl., og margt og margt af öðrum kreddum mínum, sem ég varð að brjóta, svo sem þá, að reyna aldrei að ganga í heldri manna röð, án þess þó ég óttist hana neitt, né hafi óþokka til hennar. Ég stórhlakka til ferðarinnar, veit ég mæti engu nema hinu bezta, en er bæði illa fær og óviðbúinn að stökkva úr fjósinu í höfðingjahóp, án þess að verða kannske vinum mínum og mér sjálfum til vonbrigða. En hvað um það, ég á ekki önnur úrræði til, og aldrei eiginlega kunnað mikið að hræðast. Svona er þetta sjödagaundur til komið, í sem fæstum orðum.

Hér hefir verið vetrar-tíð með verra móti, hörkur og vindar fyrra mánuð og þennan, skarpari og langstæðari en fyrirfarandi ár, in næstu. Fannlög nokkur, en færi þó gott. Nokkru mildara og bjartara núna um daga, en nætur býsna grimmar. — Heilsaðu frá mér í húsin ykkar Jonna og segðu honum, að bréfið hans hafi komið í góða þörf. Helga var að verða óeirin að frétta ekki af Emmu, þó hún ekki kæmist að að skrifa og spyrja, og þó að ég með „minni speki“ héldi því fram, að ekki væri að örvænta, að úr hefði rætzt, meðan maður frétti ekkert til ins lakara, — en bréfið bætti svo úr því öllu. Vertu nú sæll, Jónas minn.

Þinn Stebbi.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerville, Alta, 26. febr 1917.

Góðvinur. — Ég kem nú aðeins í einni línu að láta þig vita, að ég hefi lofað að glánast heim með „Gullfossi“ í maí næst,

ef Borden og Bola-Jón, Villihjálmur og Villuson leyfa Drottni að lofa okkur, mér og honum, að ferðast. Þetta væri nú varla bréfsefni, hefðir þú ekki hálfgert minnzt á, að þín kynni að vera von vestur hingað, þó lítið væri þá útlit fyrir, að úr myndi verða. En færi svo, kæmir þú kannske heldur fyrr en seinna. Grímur S. er hér nú ekki heldur, svo hér er nú hörgull á sönnum heiðindóm og minna fyrir prest að gera. — Svo er sú saga ekki lengri. Fari ég heim, staldra ég við í Wpg., ef ég má, og vitja til þín, verðirðu heima.

Vinsamlega Stephan G.

*Sigurður Jónsson frá Víðimýri.* Heima 5. marz 1917.

Siggi minn góður. — Ég er nýkominn úr fjósinu og búinn að kveikja og stend nú ekki lengi við, bara til að láta þig vita, að ég er búinn að lofa að fara heim með Gullfossi í maí næst ef auðnan leyfir það. Blöðin hafa sagt þér, hvernig á því stendur, svo langt sem þau vita, svo ég fjölyrði það ekki, fyrr en við finnumst, en óvart kom það að mér og illa viðbúnum. — Ætlarðu nú ekki að koma með?

Þú átt að ríða í réttirnar,
Í rímna-tvísöng fara þar,
Vekja klár til vekurðar,
Vinna í glímu alls staðar.

Okkur líður vanalega og biðjum öll að heilsa ykkur, og svo skal ég masa um þetta allt betur, þegar við hittumst næst.

Gott kveld, vinur, frá Stebba.

*Grímur S. Grímsson.* Markerville, Alta, 18. marz 1917.

Grímur minn. — Beztu þökk fyrir bréfin þín tvö og blöðin öll. Ég hefi gaman að þeim, þar er allténd eitthvað vel sagt, og við flesta andlega óeirðarseggi á ég oftast eitthvað skylt, þó ekki beri kannske allt saman. Fari ég heim, eins og í ráði er nú, verð ég ekki hér 2. ágúst, en Irvine ætti að geta komið samt. Ég hafði minnzt á það við Munda áður, að breyta ætti um, hafa ekki alltaf tóma „pólitíkusa“, þingmenn og ráðherra, sem ekkert um Ísland vita nema vitleysu. Útvega heldur stundum háskóla-prófessor frá Edmonton eða góðan, frjáls-

lyndan ræðumann, og tilnefndi séra Irvine. Hann þekkir hann auðvitað ekki, en tók þessu vel. Ég gæti svo ámálgað það enn og vísað Munda til þín, og kannske þú gætir þá verið þann dag hér sjálfur, t. d. tekið forsetastól, eins og að fornu fari, og „kapelánað“ Irvine ögn hér. Ég hefði gaman af því, þó ekki yrði ég viðverandi. Ég hefi sent hraðskeyti heim, samkvæmt bón þeirra í boðsbréfinu, og heitið förinni. Ætlað er á, að Gullfoss komi til New York 10. maí. Með honum tek ég þá far, ef úr því verður. Svo er hann ætlaður til New York í október, kannske kemst ég þá heim hingað. Ég gat ekki neitað því og var ég þó óviðbúinn, og fer á ýmsan hátt öðruvísi en ég hafði ætlað mér. En boðið og bréfið var svo vingjarnlega-virðulegt, ómök og fyrirætlanir þegar gerðar svo margvíslega, sem mér var sagt um „prívat“, að ég hélt þó skammarminna að fara og förlast, því ég veit, að þetta er mér nokkur hurðarás um öxl á ýmsan hátt, heldur en þó hitt, að neita með nærri durgshætti, úr því ég hafði hvorki kör né stríðið mér til afsökunar. Og svo hitt — mér hefir alltént verið annt um kynnin milli hér og heima, á hvern hátt sem kostur væri á, og fannst það hálfgerð hindrun, ef fyrsta heimboðinu þaðan væri neitað, þó það hefði sjálfsagt getað komið niður á betri stað. Svona er sú saga. Ég vona, að þér batni í fingrinum, og ekki verði illt úr, og þá hefir það ekki verið nema þörf, að þú meiddir þig ögn og komst um stund frá ketinu, það er svo „þunglíft“ eingöngu. Þökk til ykkar „I“ fyrir „Mergbrjótinn“ hans. Er í önnum. Sting „Langförul“ með, komist ég til að hripa hann upp. Eins og þú manst, er önnur þýðing á honum í „The first Icelandic number of the Scandinavian Review“ eftir Lee Hollander, „professor of German and the Scandinavian languages, at the University of Wisconsin“, en hún er eflaust „óskáldlegri“ en Féldsteds, þó fastmælt sé.

Fari ég um Calgary austur, gætum við kannske hitzt milli lesta.

Forna tetrið ferða-hatts,
Ef fengið get að viðra,
Sé ég ket og krofin Pat's
Hvernig þið étið syðra.

Með beztu kveðjum okkar.

Vinsamlega Stephan.

*Eggert Jóhannsson.* Markerville, Alta, 19. marz 1917.

Góði gamli vin. — Reyndar ætlaði ég að senda þér línu fyrra föstudag, þ. 15. þ. m., því þann morgun fór Laurenz þinn héðan til Innisfail alfari austur. En svolítið kom fyrir, sem tafði mig. Laurenz tafði hér 2—3 daga, lengst hjá Kristni frænda sínum, var hér eina nótt. Við röbbuðum um alla heima, frá Ibsen til Wells og Indlandi til Íslands, og oftast á ensku, sem ég tala svo sem tvisvar á ári, kannske. Ég gat þess við hann, að ég myndi senda þér línu bráðum, svo sem í kveðju skyni, ef úr yrði þessari heimför minni í vor, sem er nú fyrirætluð. Að ég sendi þér ekki línu oftar en ég geri, kemur af því, að ég kveinka mér við að áreita þig til skrifta, slíkt ódæði sem þú hefir haft að búa við af bleki og pennum um dagana, að vonlegt væri, að þú vildir hliðra þér hjá þeim í frístundum, en hefðir þó kannske óánægju með sjálfum þér af að láta „eiga hjá þér", það sem þó væri varla ómaksvert, eins og bréfarabb manns oft er.

Já, ég hefi lofazt til að koma heim í sumar. Eins og stendur er ráðagerðin að fara með „Gullfossi" frá New York í maí næst, og hingað með honum aftur í október. En allt fyrir fram ráð er löngum á reiki og ekki sízt nú. Mér var sent boðsbréf, ákaflega hlýlegt og veltilvandað, undirritað af þeim, sem blöðin nefndu til. Þar að auki fékk ég „privat" bréf frá þeim eina manni undir því, sem ég er persónulega ögn kunnugur, dr. G. Finnbogasyni, sem bar það með sér, að umstang og fyrirætlanir svo margar voru þegar gerðar, að örðugt var að neita, svo ég hét þessari óvæntu för, og illa viðbúinn. Hlakka til og hálf-kvíði við að verða vinum mínum vonbrigði, eiga orðstír, sem ég varla veld. En hvað um það. Mér þykir skárra að verða þá að glóp en að „gjalti". Þeir bjóða mér allan kostnað borgaðan heiman héðan og heim aftur, og að ég megi haga ferðum mínum á Íslandi sem mér sýnist.

Hér er enn vetur á jörð og í lofti. Hann er sá lotulengsti og jafn-harðasti, sem hér hefir staðið, síðan ég kom í byggðina, að einum undanteknum, mínum fyrsta hér, sem nú er orðinn „karla-saga". Þá tók snjóa ekki fyrr en eftir sumardaginn fyrsta. Svo, Eggert minn, vertu nú sæll á meðan, heilsaðu heimili þínu frá mér, og þökk mína fyrir gamalt og gott.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Jón Friðfinnsson.* Markerville, Alberta, 22. marz 1917.

Góðvinur. — Innilega þökk fyrir bréf þitt og hugulsemina, — eintakið, sem þú sendir mér af lagi þínu við „Langförul“ minn. Ekkert gæti ég sagt um *það*, af neinu söngviti, aðeins kannske hvernig það gripi mig, svona út í bláinn, ef ég heyrði það, sem ekki er enn orðið, en ætti að geta tekizt við tækifæri, því í mínum ósöngsýnu augum lítur það svo út, að dálítil lagvissa myndi geta náð því, ef hún kann nokkuð til muna á almennilegt hljóðfæri. Ekki vissi ég, að þú hefðir gert lag við „Langförul“, en séð hafði ég einhvers staðar, að þú hefðir samið lag við „Týnda soninn“ eftir mig. Annars hefi ég alltíð þótzt vita, að söngskáldum myndi þykja öll mín kvæði ósöngtæk. Ég læt þau vaxa fram eins og verða vill, og hefi engin þeirra þægindi í huga, þó ég vissi um einhver, sem ekki er nú. Þetta brýtur svo í bág við almennu reglurnar, en gæti kannske orðið frumleiknum áreynsluefni, þar sem hann væri fyrir. Reyndar hefi ég ekkert ýkja-álit á kveðskapnum mínum, þó mér þyki vænt um og sé þakklátur þeim, sem eru að hlynna að honum. — Koma skal ég boðunum til Kristjáns mágs þíns, þegar ég get. Langt er milli okkar og sjaldan hittumst við, og ég fer varla að heiman. En samkoma verður hér bráðum, sem ég verð að vera við. Gæti skeð hann yrði þar líka. Vegni þér vel og vertu svo sæll.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerville, Alta, 26. marz 1917.

Góðvinur. — Þökk fyrir bréfið og boðið heim til þín, fari svo, að ég komist á kreik, og enginn bilbugur með það er enn á mér, en heimsins óstjórn einhver getur hindrað. Ég ætla þá að koma til þín, því hver húsakynni þín eru, er mér alveg sama, mín vegna, aðeins að maður þrengi ekki að, þar sem ekki var ofrúmt fyrir, eins og náttúrlegt er hjá bæjarbúum. Bændur hafa ætíð nóga hjallana. Annars hafði ég ætlað að koma mér fyrir á hverju hversdags gisti-húsi sem fyrir félli, meðan ég stæði við.

Ég veit ekki, hvenær ég færi, það fer eftir komu „Gullfoss“. Hann var ráðgerður í New York um 10 maí næstk. Árni Eggertsson veit um það fyrstur manna hér, hvað fullgerist, og lætur mig svo vita. Við höfum samið svo.

Ég hefi öllum útúrkrókum neitað á *héðanleið*. Hefir verið mælzt til þess þó af kunningjum mínum, bæði frá Duluth og Garðar. En á *hingaðleið* aftur hefði ég kosið að koma víðar við, yrði nokkur kostur á og færi allt með felldu. Ég held líka, að þá yrði ég rabbsamari og ofurlítil gestkoma í mér. Nú er ég allur úr fjóshaugnum! Ég vil ekki né má að heiman fara, að mér finnst, fyrr en undir seinustu lög, því síður sem veturinn situr lengur á vor fram. Reyndar vildi ég nú gera þetta fyrir þig, koma með sumar, jafnvel strax, og ekki skal ég afsaka svo: að ég geti það nú ekki! En ég þarf að fara varlega. Svo er því varið, að ég á vin austur við Atlantshaf, sem ég þekki ekki að öðru en því, að hann er Íslendingur, með aldönsku nafni, og sendir mér „cigara" í nýársgjöf. Hann segist hafa farið heim 1907, frá New York-hita, sem „sauð *asphaltið* á götunum", en var alltaf lasinn heima, þó hann skemmti sér ið bezta. Hann heldur, að viðbrigðin frá New York til Seyðisfjarðar hafi valdið um. Nú vona ég þú sjáir, hví ég er ragur að rjála mikið við veður-aðgerðir, ég er hræddur um mér hefnist fyrir það heima. Samt er ég nú ögn að slaka á kuldunum hérna, en læt lítið klökkna, nema yfir hádaginn, og hvergi „auga" í jörð enn þá.

Berðu Guttormi kæra kveðju mína, ef þið finnizt eða skrifizt á, og segðu honum, hvernig komið er fyrir mér með allar heimsóknir, nú í bráðina.

Vinsamlega Stephan G. Stephansson.

*Jón Jónsson frá Sleðbrjót.* Markerville, Alta, 19. apríl 1917.

Góðvinur. — Þökk fyrir bréfin tvö. Svona hafðir þú það, lézt þitt bréf ganga mitt á ská, fram hjá mínu, grunlausu greyinu á austurvegi, og sendir svo annað á hæla þess, til að koma mér í tveggja-bréfa-skuld við þig. En hafðu nú sæll gert samt. En þú fær þetta borgað, ég kem nú í fáum línum, en tvíbreiður af bulli, því annað er ekki í fréttir færandi hjá mér.

Færi ég heim, horfir nú helzt við, að ég verði í Wpg. um mánaðarmótin næstu. Þó veit ég það ekki enn. Bréf næði mér þá þar, að heimili séra Rögnv., 650 Maryland Str.

Þú minntist á kvæði Hafsteins. Ég ætla nú að borga það og segja eins og mér finnst, en ekki af pólitískum ergjum, fremur en þú. Við munum halda líku fram um þau. Lögbergs-kvæðin

eru ekki úrvalið hans. Þvert á móti, þau eru í mínum augum Hafsteinn, skáldið, ekki í sínu „essi". Að flestu er ég samþykkur Sigurði þessum Sigurðssyni, sem dæmdi kvæðin í „Ísafold". Aðeins greinir mig á við hann um kvæðið „Upp að hólnum". Ég ann því, þar er svo glaðvær og náttúrlegur, íslenzkur útreiða sumarbragur yfir öllu, að mér er unaður að. „Bakkusar-sálminn" met ég aftur minna en Sig., þar er Þ. E. langtum skáldlegri, í afbragðskvæðinu „Sumarkveðja stúdenta", eins nautn-glaður, en hefir hitt yfir, að undir leiknum og gleðinni streymir fossaniðurinn sá, ötull og hvetjandi bitur: Svíkjum ekki æskuhugsjónirnar. Hannes átti *einn streng aðeins*, sem ég dáist að: æsku-galsann. Það má kalla það hvort sem vill: glaðværð eða karlmennsku. En það er um leið sá strengurinn, sem fyrst deyfist af reynslunni, sá ótraustasti á hörpunni. Mér er því nærri þraut að sjá þetta karlmennsku skáld í sinnar mæðu molum, eins átakanlega fátæklegum að mörgu leyti eins og raunaljóðin hans oft eru. Það var ágætt, sem Sigurður sagði um heilar hendingar, sem fyrir kæmu hjá H. svo oft og væru svo „auðnuleysislegar". Þetta hefir alltíð verið satt um hann, svo að mig hefir furðað, en er svo miklu betur til orða tekið en að kalla það „hortitta-hending", þó söm sé hugsunin. Svona hefir Hafsteinn allténd lagzt í mig. En — ég orka kannske ekki því að meta hann rétt, þó viljan hafi ég til þess.

Ég óttast ekki það, að ég sjálfsagt geri veizluspjöll fyrir að kunna enga mannasiði. Maður roðnar í bráðina, en hefir gaman af því æfintýri á eftir. Hitt er lakara, of-formleg samsæti ónýta alla menn til skemmtunar, húsbændur sem gesti, eins og t. d. þau með enska-sniðinu hjá löndum í Wpg., allir verða að andlegum skjaldbökum. En mér er sagt, að sá siður sé horfinn heima, jafnvel í Reykjavík, hafi hann annars nokkurn tíma legið þar verulega í landi.

„Herrann" skjalla' ei heimamenn
Hér við fjallarætur.
Það er varla vorað enn,
Vetur allar nætur.

Vertu nú sæll. Ég þarf að fara að láta út kýr og drepa „góinn" — „gopher" — með eitri. Dr. Finnur, sem er betri

fornyrðingur en nýyrðingur, segir að *góinn* þýði jarð-holubúi, að mig minnir. Það er þá: andskotans „góförinn“, segi ég.

Vinsamlegast Stephan G.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerville, Alta, 26. apríl 1917.

Góðvinur. — Komi ekkert farbann fyrir í millitíð, legg ég upp héðan austur til Winnipeg hinn 6ta eða 7unda næsta mánaðar (maí). Sendi þér hraðskeyti um leið og ég lesta mig, hvort ég fari um Calgary eða Wetaskiwin. Gætir þú, eða einhver, sem þekkir mig, mætt mér við sáluhliðið hjá C. P. R., þegar ég kem til borgar?

Vinsamlega Stephan G.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerville, Alta, 1. maí 1917.

Góði vin. — Hefi afráðið að fara frá Innisfail mánudaginn 7. þessa mánaðar gegnum Calgary, tek þar næturlestina austur til Wpg. og kem líklega þangað miðvikudags árdegið þann 10. Hefi annars ekki tímatöflu þeirra nýja við hendina. Læt þig vita þetta, ef þú mætir mér, og sendi líkl. ekki annað skeyti. Fékk hraðskeyti að heiman í morgun.

Vinsamlega Stephan G. Stephansson.

*Sigríður Halldórsdóttir, Skriðuklaustri.*

P.t. Eiríksstöðum, 15. júlí 1917.

Ég hefi minnzt á það við föður þinn, að hann leyfði, að hlaðið sé upp leiði Jóns míns hraks, og tók hann því vel. Nú vil ég biðja þig að sjá um þetta. Legg með kr. 5.00, svo þú borgir einhverjum fyrir að gera þetta. Mér finnst ég skuldi karlinum þetta, að þúfunni hans sé haldið við, fyrst þú hefir hana til sýnis fyrir gesti.

Með kærri þökk og kveðju til þín og heimilismanna.

Vinsamlega Stephan G. Stephansson.

Fagurbeltað fjall hefir prýtt
Forna Skriðuklaustur,
Þar mun vera fleira frítt,
Farirðu þangað austur. St. G. St.

*Rögnvaldur Pétursson.* Markerville, Alta, 13. des. 1917.

Góði vin. — Hér er ég þá heill og höldnu. Dvaldi aðeins yfir nóttina í Wynyard. Þar var engin samkoma auglýst, og varð feginn að þurfa ekki að tefjast við annað en það að heilsa kunningjunum, enda slapp ég heim daginn fyrir bylinn. Það er nú einstakt lán, að veðra-guðinn skuli aldrei bregðast ferðamanni í sjö mánuði samfleytt.

Engu nenni ég, síðan ég kom heim, er frískur, en dasaður. Ég held ég sé að verða kyn-kippingur ofan í marglyttu-eðlið, aftur á bak.

Góðar þóttu mér viðtökur Hjálmbjarts gamla í Winnipeg. Hér logar í löndunum undir kosninga-katlinum, hvernig sem seiðurinn fer. Mér finnst hann hljóti að brenna óætið við. Tómás varð tómthúsmaður í Árborg, bera blöðin hér.

Ég kom til að kvabba, annars. Sendi þér, utanveltu, sýnishorn af kvennablaðinu nýja heima, *„19. júní“*. Ég minntist á það, og vill nú ekki einhver stúlkan mín í Winnipeg selja þar fáein eintök af því, fyrir ungu stúlkurnar heima? Þökk væri mér á því. Svo væri að snúa sér beint heim með það (ef nokkur fengist að kaupa), til Láru ritstjóra. Það er hvorutveggja, öll andleg viðskipti, blöð ekki sízt, brúa nokkuð sundið, sem milli er, á ýmsan hátt, og svo er mér sjálfum alltaf ögn annt um stelpurnar, þær eru oft skemmtilegar. Og mundu eftir „Iðunni“ hans Ágústs míns, ef þú kemst í færi. — Berðu konu þinni og heimafólki kveðju mína kæra, og óskir beztu, og vertu blessaður.

Vinsamlega Stephan G.

*Guttormur J. Guttormsson.* Markerville, Alta, 14. des. 1917.

Góðvinur. — Þökk fyrir fyrst og síðast, og fyrirgefðu, að ég fór svo fram hjá, að koma ekki við hjá þér. Ég var orðinn einhvern veginn svo dasaður og mérhlífinn eftir sjö mánaða ranglið, að ég gat ekki gert það, sem mig langaði þó til, að eiga erindi til þín eins, og „koma svo hvergi“. Hinu varð ég feginn, að þurfa ekki að „standa upp“ á fleiri samkomum að sinni. Ég veit þú skilur mig og fyrirgefur. Svo ætla ég að koma seinna. Þessi jörð er ekki nema kálfskinnsstærð, hvort sem

er, fari maður að ferðast á annað borð, og sá sem lengi ætlar að lifa og syndga, má ekki þjóta í veg fyrir allar freistingar í einu kasti, þær endast þá ekkert í öðrum eins landþrengslum. Jæja, Guttormur minn. Ég get nú ekki sagt þér eins og var, hversu góðir menn og veðráttan voru mér. Þú héldir ég væri að ljúga því, mér til lofs og dýrðar, þó sannleikurinn sé, að ég veit ekki enn, hvernig í fjandanum ég átti það skilið, og er hræddur um, að menn og forsjónin hafi gert þar eitt glappaskotið enn, nema að því leyti, að fleiri nutu en ég, að minnsta kosti góðs veðurs.

Ég hitti *þig* nú líka heima — hjá Óðni — og einhvern tíma kemur svo röðin að þér, að verða „settur upp" á íþrótta sýningu, og þá áttu að vera „björn í bóli kattar".

Nú kem ég með erindið. Ég sendi þér „utanstokks" ungra kvenna blaðið *„19. júní"* — sýnishorn —. Fáðu nú fyrir mig einhverja vinstúlku þína til að útvega því nokkra kaupendur. Það kostar einn dollar. Ef eitthvað verður keypt, sendið það beint heim til Láru, sem sé: Ingu Láru, ritstjórans. Hún er unnusta fallegra kvæða, Guttormur! Engin blómarós, en fullfríð og á bezta aldri, svo þú gerir nú þetta fyrir mig! Og annað hitt, að útvega nokkra kaupendur að „Iðunni" hans Ágústs Bjarnasonar, ef þú mögulega getur. Hún má ekki missast, og hann er aleinn með hana og á engan yfir sér, nema prentsmiðjuna. Nú hætti ég í þetta sinn. Veit ekki, hvar þú stendur í pólitíkinni núna, og kæri ekki að segja, hvar ég sé — og það sem verst er: Ég er með köflum ófrískur yfir höfðinu, það sækir á það heimska tómleikans, verr en vant var, en „ég sef það bráðum úr mér". — Gleðilegar hátíðir! og heilsaðu frá mér honum Birni Hjörleifssyni.

Vinsamlegast Stephan G.

*Jón Jónsson frá Sleðbrjót.* Markerville, Alta. 14. des. 1917.

Góðvinur. — Þökk fyrir 2 bréf til Wpg., annað áður en ég fór, hitt 26. nóv. núna. Stytzt af að segja, menn og veður fóru með mig dæmalaust vel. Íslenzka gestrisni er ætíð á að treysta. Við mig var hún makalaus, umhyggjan, alúðin, fögnuðurinn. Og veðrið einir tveir léttir skúrir, alla þá leið, sem ég var úti staddur, frá Reykjarfirði þveran landveg til Ísafjarðar. Seinast

slapp ég heim hingað kveldið fyrir versta bylinn núna. Það sem furðulegast var, tíðarfar heima var fremur andstætt, en ég varð sífellt ögn á undan ótíð.

Þú spyrð um framfarir. Þær eru sannar og miklar, mestar yfir 10—15 síðustu ár. Ég efa, að jafn-fáar þúsundir alþýðumanna í heiminum eigi nokkurs staðar stærri framlög lögð í ýmislegt, sem til gagns er orðið, eður á að verða. En, þetta er sem krækiber í tunnu víðáttu og strjálbyggðar. Öræfin enn svo stór. Vitaskuld sá ég sólskinshliðina mest, á landi og lýð. Kom helzt á beztu bæi, og að fólki í sparifötum, oftast. En, það var þá ekki neitt fyrir neðan það, sem gott myndi þykja hér. Þó atvinnu aðferðin væri öll önnur og seinfærri, sýndust afnotin, þau sem fólkið bjó við, ótrúlega drjúg. Undanfarandi uppgangsöld. Nú stöðvun og aðkreppa í aðsigi, vegna stríðsins. Gróðinn, sem af *því* stóð, líkl. meira en ézt upp, áður en lýkur. Síldarveiðin brást. Verður harðæri meðal verkamanna. Dýrtíð. Birgðir ekki litlar og stjórnin lætur fólk ekki drepast. Þrátt fyrir þetta var viðkvæði hugsandi manna: „Þetta er þó aldrei nema ill töf, hvernig sem fer. Við tökum til aftur, við erum komnir það á rekspölinn, að nú leggjum við aldrei framar árar í bát.“ Auðvitað eru til nef, sem öðruvísi syngja. Þetta er nú yfirleitt, og öll orð ekki í einu sögð, fremur en fyrr. Ég kom til Tryggva að bón hans, 2 dögum áður hann dó. Hann sat uppi klæddur, hinn málreifasti. Ætlaði (að sögn) að standa, meðan hann gaf upp andann, en tókst það ekki til fulls. Hafði gröf sína gerða í þinghúsgarðinum. Sagðist ætla að lifa afmælið sitt og tókst það, og degi eða svo betur. Hann dó úr æðakölkun. Sig. Eggerz varð ráðherra, ófíkinn í, að sumra sögn. Einstakt alþýðlegur, skemmtilegasti tækifæris-ræðumaður. Björn K. fór frá. Ósamlyndi í ráðuneytinu líkl., þykir ótryggur í heitorðum undir niðri. Sjálfsagt maður stórvitur. „Snar-vitlaus“ (eins og þeir orða það heima) í „spíritismanum“.

Héraðið þitt er fallegt, og ég komst ekkert áfram þar fyrir gestrisni, ókunnugur öllum. Jón á Egilsstöðum er næstum alblindur, sér kannske rofa fyrir glugga. Hann fylgdi mér samt á hesti, ásamt fleirum, langa leið, og er inn ernasti að öðru. Konan sköruleg og góðleg. Ég kom að Eiðum, Vallanesi, Hallormsstað, Bakka, Skriðuklaustri, Valþjófsstað. — „Jón hrak“ er grafinn að Skriðuklaustri. Leiðið í túninu snýr „út og

suður". Ungmennafél. hélt mér samkomu í Atlavíkinni. — Góða nótt og gleðileg jól.

Vinsaml. Stephan G.

Mér var aldrei um hann Clark,
Á óbeit samt ég tek þó mark,
Við suma átti ég þar um þjark,
Sem þrá það nú hann fengi spark.

Sendi þér nýl. bók frá frú Thoroddsen. Átti lengst af heima hjá henni í Rvík. Afbragðs kona. Minntist á þig og flyt þér kveðju hennar. S. G.

*E. S.* Minnstu á þulur frá Th. í blaði, ef þú getur. Ég segi þetta, ekki [svo] sem *hún* ætlist til þess. — S. G.

*Grímur S. Grímsson.* Markerville, Alta, 14. des. 1917.

Góðvinur Grímur. — Kem aðeins til að heilsa og þakka þér síðast, því þetta er ekki bréf. Af því ég varð að koma til Wynyard, kom ég út um Wetaskiwin, en ekki Calgary. Annars hefði ég hóað í þig. Engar fréttir skrifa ég, kemst ekki yfir það. Man ekkert, nema helzt, sé ég spurður. Kannske sést þú hér um hátíðirnar, eða öðru hvoru megin nýárs.

Þökk fyrir, að þú komst Irvine hingað í sumar. Mér þótti vænt um; ég heyri, að fólki gazt vel að honum. Kveðja mín og ósk um kosningasigur. Allt var mér gott á Íslandi, menn og veður. Ég lifði í þeirri yfirmáta-dýrð þar, að mig undraði. Bjarni vor frá Vogi var einn af þeim fáu höfðingjum í Vík, sem aldrei kom á mína vegu. Segi það aðeins, af því ég skilaði aldrei kveðju þinni til hans. — Guðmund bróður þinn hitti ég á Garðar, hann bað að heilsa þér o. fl.

Ef í þetta þrælastríð
þýtur sérhver álfur:
Þá verður bölvað basl hjá lýð
Og Burns þinn ketlaus sjálfur.

Góða daga og gleðilegar hátíðar, Grímur minn.

Þinn Stephan G.

*Jón Jónsson frá Sleðbrjót.* Markerville, Alta, 2. jan. 1918.

Góðvinur. Gleðilegt nýár og þökk fyrir bréf þitt ið síðasta. Jú, ég rétt nýlas greinarkorn þitt í „Skuggsjá“, um Íslendinga-dag. Var hérlendis, þegar fyrsti Íslendingadagur var haldinn vestan hafs, þjóðhátíðar-árið '74, var boðinn, þó ég kæmist þá ekki, frá Stoughton til Milwaukee í Wisconsin, einar 80 mílur á járnbraut. „Svo var það forðum.“ Þegar svo deilan kom upp með 2. ágúst- og 17. júní-mönnum, skipti ég mér ekki af neinu, nema ég held, að 2. ág. hafi orðið ofan á hér í byggð, af því ég hélt honum fram, því þann 17. átti að gera að *kirkjufélags-messu,* láta hann bera upp á þing þess. Á því var enginn efi, því varð málið „heitt“. Að öðru leyti hefði ég fremur kosið 17. júní. En satt að segja, hvorugur dagurinn var mér, né er, keppikefli. Hefði ég mátt ráða, hefði ég kosið þann daginn, sem fyrir löngu var valinn, í einu hljóði þegjandi samþykkis alþýðunnar, með því að halda hann óboðið á hverju heimili, sem sé — *sumardaginn fyrsta.* En ég reyndi ekki að minnast á það, nógur er glundroðinn og viðsjárnar samt, þó ekki væri á bætt. Helzt, að þá hefði enginn dagur haldinn verið, allt drukknað í tómu dagavali. Svona er sú sagan mín, og eins og margar aðrar, „ekki í frásögur færandi“. Ég geri það bara af því þú inntir mig eftir þessu um grein þína.

Alveg er það rétt hjá þér, að sá ógæfu-böggull fyrir Vestur-Íslendinga fylgir nú þessu heimboðs-skammrifi, sem á mér lenti, að ósæmd væri okkur í að hætta að bjóða þeim vestur. Við höfðum nú kostað hingað Matthías og Guðmund, þó ég viti vel, að með þá var ekki (og verður ekki með neinn) farið eins alúðlega og mig heima. Þrátt fyrir allt erum við ekki eins lífsglaðir í rauninni eins og þeir heima, „sýtingssamari“, yfir-Franklínskir í hræðslu okkar við að gefa „ofmikið fyrir eina hljóðpípu“, þó við á hinn bóginn séum gjarnari á að sóa til sýnis. Við höfum týnt hér niður nokkru af þessari sjaldsénu íslenzku list, að taka tíma sinn og fé sér í mein til að fagna gestum og finna ekkert til þess fyrir ánægju yfir því að fá að gera þetta, eins og sín hefði verið öll þægðin. En svo verður að tjalda sem til er.

Jú, ég hefði kosið Guðmund Fr. En, það er *búið* að bjóða honum tvisvar til Saskatchewan og hann hefir ekki fengizt

enn. Eg minntist á við hann (bað hann að segja mér af eða á), hvort hann væri fáanlegur, yrði honum boðið þriðja sinn, sem ég teldi þó ekki víst. Ég fékk ekkert endilegt svar, annað en manns, sem er „bæði sárt og klæjar“. Mér fannst hann langa, sýndist hagur hans ekki svo, að nein aftök væru á því ... en brast kjark við áherzlu? eða hvað? ... Ég vissi ekki, hví hann var svona óráðinn. Boðsmönnum Guðmundar, kunningjum mínum í Wynyard, sagði ég, hvernig fór. Mæltist til, að þeir byðu honum eitt sinn enn, hann líkl. tæki þá annað hvort af. En ekki veit ég, hvað verður. Auðvitað hafa þeir aðeins boðið Guðm. frítt far og kost, ætluðu svo að láta hann ferðast um og gera sér gagn og skemmtun, eins og auðnaðist, og engu fann Guðmundur að við boðið. Ekki er ég að gefa í skyn, að ég hefði verið hvatamaður að þessu, nei, en ég vissi alltaf, hvað leið. Maður sér bráðum, hvað setur. — Var vonzkutíð. — Sumar í gær og dag. — Hefi verið laraður. — Lagðist aldrei fyrir, en fékk mig líkl. fullhertan. — Vona, að þú missir ekki drengina, — stríðið verði soltið í hel, áður en þeir kæmust á vettvang héðan, þó í versta færi.

Vinsamlegast Stephan G.

Grútar-stjórn vor öll er eins.
Algeng hennar sómastrikin.
Pappír fæst ei, nýtur neins —
Á náðhúsum er maður svikinn.

Eða: Grútar-Union öll er eins.

*Jónas Hall.* Markerville, Alta, 11. janúar 1918.

Jónas minn góður, gleðilegt ár. — Ég kem nú bara til að láta þig vita, að fyrir nokkrum dögum síðan sendi ég Steingr. þínum pjötlurnar frá Guðrúnu Erlings og bað hann að koma þeim til þín, og þig svo til „KN“s „rammanum“ til hans. En —

Ætli að væri sérleg synd,
Sem að til ég hvetti
„Ekkjumann“ — að ekkjumynd
Í þann „ramma“ setti?

Kosningar hér búnar, og fóru sem þú veizt.

**Fólkið gefur beztan byr**
**Bullugum herjanssonum.**
**Lentum (eins og einatt fyr)**
**Undir í kosningonum.**

Kristinn [hefir] nýskeð fengið bréf frá þér. Sagðist í síma ætla að sýna mér það, en er óskeð enn. Ég slapp heim 7. des., rétt daginn fyrir verstu grimmdir, sem héldust fram um jól. Blíðviðri um áramótin aftur. Nú heljar-frost. Lúr var í mér lengi eftir ég kom heim. Það var, held ég, tauga-gigt í höfði. Mér hefir líklega ofkólnað á ullar-lausum skallanum, nema ég sé að verða það, sem séra Jón nefndi okkur „agnostikana" forðum: vitfirringur. Nú er ég samt miklum mun betri og sjálfsagt sef þetta úr mér. Sannleikurinn var, að ég varð að taka á öllu, sem til var, að slarka gegnum allt og allt. — Heilsaðu frá mér öllum vorum vinum, og vertu nú sæll.

**Þinn Stebbi.**

*Grímur S. Grímsson.* Markerville, Alta, 11. jan. 1918.

Gleðilegt ár, Grímur minn, og þökk fyrir bréfið þitt, nýlega komið. Mér þykir æfinlega ánægja að vita, að kunningjar mínir eru „fallnir" með þeirri hliðinni, sem mér þótti drengilegri, heldur en þó þeir sigruðu með hinni, og þakka þér fyrir! Ég sá það út um svart-lepp blaðanna, að Laurier sem ræðumaður núna var ekki á marga fiska. Var ekki „liberal", nema úr því, sem ráða var, hvorki áður né nú. Hitt á L., hann var og er sanngjarnasti og hugsjónahelzti stjórnmálamaður Canada af „gamla skólanum", svipaður Gladstone um margt, og ég dáist að honum nú, mest fyrir að hafa hlotið „heilagt fall til vallar" í ellinni. Viðvíkjandi stríðinu og mannsköðum og því bjóst ég við litilli bót, þó Laurier's menn ynnu. Þeir voru tvíveðraðir sjálfir og aðstaðan klöppuð og klár af því undanfarna. En það, sem valt á, var að fá þjóðræði viðurkennt og velta þeirri stjórn, sem byltir um leyfislaust öllum kosningarlögum til að vinna sér völdin. Því máli töpuðum við í bráðina. — Engar fréttir. Allir undanþegnir hér, nema óvíst um Jónsa og Leo, — Leo reyndar tekinn, nema einhver skýrskotun enn dugi. Veðrið, eins og þú veizt:

Rig-frost og ramm-vinda öldur, með rofunum.
Kuldi og kerlinga-nöldur í kofunum.

Ég legg hér með $1.00, sem ég bið þig færa Irvine fyrir „Independent“ (ég ætlaði að segja „Sjálfstæðing“) með kveðju minni, og þökk fyrir blöðin, Grímur, og vertu nú sæll.

Þinn Stephan G.

*Guðmundur Finnbogason.* Markerville, Alta, 23. febr. 1918.

Kæri vin, Guðmundur. — Komdu nú blessaður og sæll, og beztu þökk fyrir fyrst og síðast. Annars er ég í hálfgerðu ráðaleysi oftast að koma orðum að því, hversu ástúðlega ykkur fórst allt við mig, og hinu, að eiga enga von um það nokkru sinni að geta sýnt lit á að launa það neinu. Ég hefði svo gjarnan viljað skila ykkur öllum einhverju jafngóðu í staðinn, skila öllu aftur, nema alúðinni, því hana mætti ég ekki við að missa.

Fararheillirnar fóru að öllu vel með mig heim. En tæpara mátti ekki standa með veður-gæftirnar. Kom heim 7. des. og höfðu þá komið kuldar nokkrir, þetta 12—14 stig meðan núlls á Fahrenheit. Daginn eftir byrjuðu brunar, sem héldust fram um áramót, grimmari en venjur voru um það leyti vetrar, en þá hrósaði ég happi heima. Vetur hefir verið hér þrákaldur með afbrigðum. Í aftökum hér geta sveita-frostmælar krokazt niður kringum 50 til 60 stig, undir „siffru“ Fahrenheits. Bæir gera vanalega 10 til 20 stigum minna úr því, en ég vil að hvorugu eið vinna! Hér sagði mælir 58 stig kaldast, og var það þó ekki verst, heldur hitt, hversu langstæður hann gat orðið niður kringum 20—40 stig. All-mikil og ósigin fönn. Blíðviðri í dag, gær og fyrra-gær, „eins og veðrið væri af ætt“ Jóns, sem vísan var kveðin um.

Í gær fékk ég að heiman „Heimleiðis“, „Tímann“, „Sjöfn“ og „Iðunni“. Daginn áður bréf frá dr. Ágúst. Þetta voru nú fyrstu heiman-dísirnar, sem mín hafa vitjað, síðan ég kvaddi Rvík. Ekkert seinna blað hefi ég séð. Gizkað getur þú á, að ég varð feginn. Annars átti ég engin bréf skilið. Hafði engum skrifað, nema þeim nokkrum, sem áttu að mér erindislok. Veit ekki enn, hvort mín skeyti náðu þeim, og á enn suma eftir. Heyrðu, fékkstu bækurnar frá Árna (Gordon's Esthetics og

Puffer's Psychology of Beauty)? Ég afhenti honum titla þeirra greinilega og hann hét mér að koma því áleiðis, mundi, að þú hafðir beðið sig um aðra bókina, eins og þú sagðir, en kvaðst hvergi hafa náð til hennar enn.

Á vestur-leið stóð ég nokkuð við í Winnipeg og Dakota, eins stutt og mér var unnt. Það var ekki laust við, að á mig kæmi heim-æði, þegar svona nærri dró, og hitt líka: flestir hér voru einhvern veginn annars hugar út í aðfarandi kosningar. Lúthers-hátíð kirkjufél. gekk um garð, meðan ég var í Winnipeg. Ekki var ég viðstaddur. T. d. var sagt, að samþykkt hefði verið að bjóða ekki presti slíkum sem séra Bergmann, sem mér finnst nærri að sé kórbróðir þeirra. En sjálfsagt hafa engir verið bornir út og allir mátt koma.

Ég vildi ég gæti sýnt þér, Guðmundur minn, hvað veðrið hérna er fagurt þessa stundina:

Öll er hún klædd í hvíta-lín
Svo kurteist og mjúklega, sveitin mín,
Með sólskins gullhlað um glaðviðris enni.
Og hláku-blikunnar brjóstið hátt
Sig bólstrar við þíðunnar andardrátt,
Og fjöllin sig spenna lygnu-lágt,
þau leggja sig nú, eins og belti blátt,
Með blikandi spöngum, um mittið á henni.

Miklu fegurra nú, að hún héti „Snæfríður“ en Alberta, þó viðunandi sé.

Búinn að lesa „Vinnuna“ þína einu sinni og þykir vænt um hana, hún talar svo vel og viturlega, að mér finnst, um eldri nöfnu sína, og hún er mér kær, eða var. Eiginlega er samt „Vinnugleði“ minn kapítuli sérstaklega. — Sástu, að Jón Bíldfell (nú kallaður ritstjóri „Lögbergs“) minntist „Vinnu“ þinnar mjög hlýlega í haust? Myndina, sem þið gáfuð mér, lét ég umgirða í Winnipeg. Mér þykir nú svo vænt um hana, að ég er óánægður, hve illa hún nýtur sín hjá mér. Hún sómdi sér betur á safni í bæ, ef ráð sæist til. Vísurnar, sem með fara, eru aðeins sendar þér að lesa þær sem ljóðvinur, en ekki til að koma mér í mjúkinn við ritstjórann með þær, fremur en verkast vill.

Ég bið kærl. að heilsa frú Laufeyju og (G.)„unnu“ — nú

man ég það! — yfir höfuð allri Rauðará — og býð ykkur öllum gleðilegt og gott ár.

Vinsamlegast Stephan G.

*Theodóra Thoroddsen.* Markerville, Alta, 25. febr. 1918.

Frú Theodóra, vinkona góð. — Ég held ég hafi ekki gleymt að segja við þig, að ég þakkaði þér kærlega fyrir meðferðina á mér, flakkaraárið mitt, sem leið. En hvort sem var, mig langar til að segja þér það aftur, og um leið hitt, að ef ég réði tíðarfari, þá yrði næsta ár gott við þig og fleiri í Reykjavík.

Boðunum, sem þú baðst mig fyrir, skilaði ég frá Winnipeg. Daginn sama, sem ég kom þangað, kom ég í búð Ólafs S. Thorgeirssonar. Hann er danskur ræðismaður (konsúll). Svo hittist á, að hann var að skrifa utan á bréf til Þorvaldar þíns, vottorð sitt um það, að hann væri danskur þegn, og því undanþági herskyldu, eins og enn standa lög til. Því miður varð ég, þegar til kom, að ferðast heim með annarri járnbraut en þeirri, sem liggur um Medicine Hat, en þar, eður í grenndinni, dvaldi Þorvaldur. Ég hafði því ekki aðra spurn af honum, þó mér þætti það miður. Herskyldan komst á hér. En árekstur er fyrir dyrum, nema varúð sé viðhöfð, sem sé, þjóðskortur á matvælum og karlmönnum, svo varla er eins hart að gengið og var. Það gæti verið fangelsissök að vera fæddur spámaður, enda kem ég mér hjá því!

Hvernig líður ykkur öllum annars? Oft er ég nú á stjái þarna í Rvík, að margur myndi halda! En nei, nei — í því liggur öðruvísi. — Ég vildi ekki hafa það á samvizkunni að gera vinum mínum bilt við með að hlaupa inn á þá að luktum dyrum, eða flangsast að þeim að óvöru úti á götu. Hitt hefi ég gert: flutt Reykjavík og ykkur hingað, og hefi ykkur hér hjá mér, öðru hvoru. Svo „ralla“ ég um alla Reykjavík, frá Vonarstræti inn að Rauð(ar)á — þið kallið það að „jolla“, alveg sama, bæði skæðin eru góð! — Það sem bezt er við að hafa það svona, er að maður hvekkjar engan með því, enginn verður þess var, þó maður kvæði við raust:

Hinum megin horfi á þig,
Hræddur en yfirsækinn,
Voga ekki að væta mig
Og vaða bæjarlækinn.

„Fötin“! Nú þau voru hér um bil alveg mátuleg! Einhverja vitund heldur þröng, einhvers staðar, sem lafhægt var að laga. — Veit ekki hvernig — hvort heldur með því að taka úr því, sem í var, eður rýmka út yfirborðið. Tvo þætti bókmenntanna vil ég æfinlega helzt ekki þurfa að hugsa um, og það eru tízkublöð og helgisiðareglur. Þú varst að spauga um að fá mynd af fötunum. Til meira hefir þú að þeim unnið. En ég veit nú ekki hvað verður, ef vel liggur á okkur og sumarið kemur, því langt er til næsta afmyndarans okkar, 28 kílómetra landvegur, sem væri klukkutíma ferð, í góðu færi, á bifreið. Jæja, við sjáum til. En vel á minnzt! Hvernig heppnuðust örskotsmyndir drengjanna þinna heima hjá þér, barna seinast — af þér og af Einari? Um mig er ég ekki að spyrja — ég slepp vel, þurfi ég ekki að borga skaðabætur fyrir að einhver hrukkan á mér hafi brotið eitthvað í myndavélinni.

Ég var að hugsa um nýlega, fyrir hvað mér hefði verið boðið heim — og öll kvæðin!

Átt ég hefi eina list,
Og mun lengi klingja:
Að vekja þröst á hverjum kvist'
Og kom' 'onum til að syngja.

Með sama pósti og þetta, en í öðru umslagi, fara vísurnar gömlu, sem þú mæltist til. Ég stakk öðrum gömlum bögum með, og þú átt heimting á, að ég segi þér, því í skollanum ég gerði það. Svo stendur á því, að eitt sinn flæktist ég vestur á Kyrrahafsströnd, varð að fara þar með rugl mitt, heldur en ekkert! Þar með var „Sæunn“ þessi. Ég sá út úr ungri konu, sem heyrði það kvæði (og hún var menntaðasta og ljóðvísasta stúlkan, sem þar var, og fæst sjálf við skáldskap á ensku), að henni hugnaðist það ekki illa. Mér datt svo í hug, hvort þú myndir hafa nokkurt gaman af því, og rispaði það upp og sendi með, af rælni. Svo stendur á því! — Ég kvíði harðindasögum að heiman, en er þó fegnari að frétta eitthvað samt. Hér má heita, að líði vel enn, í öðru eins árferði. Ekið heilum vagni heima, það sem af er.

Ég myndi biðja þig að skila kveðju á heimilið þitt, jafnvel þó ég gleymdi að nefna það við þig, en nú mundi ég það þó, og vertu svo blessuð og sæl.

Vinsamlega Stephan G.

*Guðrún Erlingsson.* Markerville, Alta, 16. febr. 1918.

Frú Guðrún, vinkona góð. — Ég er rétt nýseztur, út í vetrarsólskinið hérna, í glugganum mínum, til að skrifa þér fyrsta bréfið á æfi okkar. Reyndar er ég nýkominn frá að rétta hönd að því að draga fóður-hálm að fénaði, sem úti er gefið, svo ég er hræddur um, að þetta verði reglulegt Jakobs-bréf, eins og Lúther okkar sálugi lýsti því, en satt að segja, veit ég ekki, hve lúthersk þú ert, til að kannast við þetta, en þú ert þó skyld svo mörgum myndarlegum prestum, að mig minnir, að sízt er að synja fyrir, að þú hafir heyrt það, né þurfir að láta segja þér það. Kveðjurnar, sem þú baðst mig fyrir, til Halls og „KN"s, varð ég að flytja með mér heim, það er að segja þær, sem voru annað en orðin tóm. Nú eru þær samt komnar til skila. Þórðarson þinn, Winnipeg-bakara, hitti ég aldrei svo ég vissi. Er honum al-ókunnugur að sjón. En kveðju þinni kem ég einhvern veginn í hann, skriflega. Með Jón Sveinsson var nú hægurinn hjá, hann er sveitungi minn hér, svo ég gerði hann í hægðum mínum „fánalega feginn". Sjálfsagt fær þú á sínum tíma mót-töku vottorð frá þessum vestanvérum þínum. Svo á ég að skila þakkar-kveðju frá Helgu fyrir hálsbindið, eða hvað það kallast annað en danskt. Helgu þykir vænt um það, og heyrt hefi ég því fleygt hér vestra, að þú munir „vel að þér til handanna". Ég veit nú, hvernig þú ert „til munnsins", í kvæðum.

Þá held ég, að ég sé kominn að erindislokum, þeirra sem þú fólst mér.

En heyrðu mig! Þú ert svo hvöt á fæti og kunnug mörgum! Hann á heimili nálægt þér, held ég, á Laufásveg 20, hann Gunnlaugur Einarsson frá Eiríkstöðum, læknaskóla-sveinn. Ég skrifaði honum frá Winnipeg í haust (og tveimur mönnum, sem báðu mig fyrir lítilræði), veit ekki, hvort þau skrif komust til skila, þykir illt, að vinir mínir haldi, að mér hafi brugðizt minni eða vilji. Skyldi Gunnl. minn hafa fengið þessa línu frá mér? Viltu inna hann eftir því fyrir mig við hentugleika?

Skilaðir þú kveðju minni til Huldu? Spónninn frá henni hangir hér í „horninu" mínu. Ég borða ekki með honum, fyrr en ég fæ skyr í sumar. Svo áttu að heilsa frá mér Steinþóri og Ingibjörgu. Þú mátt segja Ingu L. ritstjóra (og bæjarráðs-

konu væntanlegri, með heillaóskinni!), að ég hafi ögn lagt drög fyrir, að hann „Nítjándi“ hennar væri keyptur eitthvað hér vestra, bað nokkra kunningja mína fyrir hann, hvað sem verður. Ég býst ekki við stóru, og bý hér sjálfur úti á Hornströndum mannfélagsins, þó mig oftast gildi það einu.

Mér líður vanalega, Guðrún, milli 5 og 6, og það eru nú ekki einkunnir af lakari endanum, að ég ætla. Ég slæptist samt heim hnykkjalaust, en full-slæptur af slæpingnum. Þó hefi ég enn ekki áttað mig á, því það var svona vel með mig farið, finnst það hafi verið ofur lítið óhóf, við réttan og sléttan kvæðamann. En, nú var það! Þú bauðst mér víst að fara með mér upp á heiðar, þegar ég kæmi næst, eftir 45 ár, og ég tók því, eðlilega, með ánægju, því þær eru fegurstar á sumrin, og ég útilegumaður, sem ekki hafði, í þetta sinn, tíma til að leggjast út. — En

Hafi' eg þig með mér óbyggð í
Og ágætt ferða leiði,
Saknæmt væri að sæta ei því —
Sé það ei Steingrímsheiði.

Fjarska yrði fallegt að
Ferðast með þér svona —
En vænst mér þætti víst um það,
Værir þú selráðskona.

Þökk fyrir allt gott og gestrisið, Guðrún, heilsaðu krökkum þínum frá mér, og vertu svo blessuð og sæl.

Vinsamlega Stephan G.

*Jón Jónsson frá Sleðbrjót.* Markerville, Alta, 28. apríl 1918.

Góði vin. — Þökk fyrir bréf þitt. Lengi hafði ég vænzt þess, var að hugsa, að eitthvað gengi að, og varð feginn að frétta, jafnvel þó ég skilji vel, að þér muni þungt í skapi og ekki að ástæðulausu. Vísan hennar Guðrúnar, þúsund ára gamla eða meira, um „öspina“ og „viðinn“, mun fylgja gamla fólkinu til heimsenda á einhvern hátt. Ég vona annars, að ekki verði þér nær höggvið en nú er. Auðvitað er ráð að vera við illu búinn, en ekki má maður trúa því, fyrr en maður tekur á, og til þess treysti ég þér. Annars ætti nú „allra djöfla upphlaup“

að vera komið að því senn, vegna sultar, ef ekki annars, að það yrði „hverri tign að velli velt, sem veröldin á“. Ég vona, að bráðum bresti síðustu þolrifin í öllum þessum æðisgangi.

Nálum standa allir á
Yfir heitum glóðum,
Hvern þeir næst til kola fá,
Kveikju í þessum hlóðum.

Útlitið er: Þú í dag, ég á morgun. En — í haust kemur hungurvofan.

Já, með Guðmund Fr. Ekki veit ég meira um það mál. Ómögulegt, að ég hygg, að bjóða honum almennt. Við ekki vanir því, ekki þar menn á við þá heima, og mest vegna oftrúar okkar á séra Jón sáluga og „mammon“. Það stóð hæpið, að Saskatchewan-landar hefðu afl til að bjóða honum, af því hann var eitt sinn að dást að séra Friðrik heitnum, og þó ekki sem heppilegast — „guðs-engil í rólu“ yfir skrifborði hans. Guttormur J. G., góðvinur rita Guðmundar, reyndi fyrir löngu síðan að koma svona boði á, fór til B. L. B., sem átti þá „þá Kringlóttu“, og mæltist til liðveizlu, en svarið var: „Vestur-Ísl. eiga G. á Sandi ekkert að þakka“. Þó hefi ég séð einhvers staðar Guðmund gefa undir fótinn, að „Kringla“ hafi „falað“ sig, og B. þá erft það, að Gvendur hryggbraut dóttur sína, gæti hugsazt. Eins og þú segir, mætti gera boðið almennt og vinna að því í kyrrþey, hafa viðbúnað sem víðast meðal vina hans. Mér kom í hug út af kvæði G., sem „Lögb.“ prentaði upp úr „Skírni“: Ég kom í hús eins helzta bókmenntamanns í Rvík, var þar heimagangur oft. „Hér er spá-nýr „Skírnir“, Stefán, ef þú vilt líta á hann. Annars er hann liðléttur núna. Langt kvæði eftir G. á S., dágóð tök í því hér og þar, en ótæklega langort.“ Ég fór til og las, fór sem þér. Allt í einu sagði ég: „Heyrðu — er ekki þetta orð málvilla hjá G., ég er ekki málfróður, en finnst það“. — „Jú, það er alveg rétt hjá þér, og svo er önnur til alveg eins.“ Þetta var allt, sem ég sagði, og hitt orðið fann ég líka, sem fannst annmarki á. Sumum heima þykir G. snjallari ræðumaður en skáld, og það jafnvel þeir, sem ekki fallast á ræðuefnin hans.

Ég þakka þér kærl. ánægju þína yfir því, hversu dæmalaust mér var vel tekið. „Slíkur mannsöfnuður hefir hér ekki sézt, síðan kóngurinn kom,“ sagði íslenzk kona (en skotzk að ætt)

við mig um samkomu, sem sat fyrir mér á Breiðumýri, á förnum vegi mínum og á háslætti. Þetta var svona alls staðar. Þú getur varla trúað, hve erfitt ég átti, ég hafði svo lítið til svona viðtekta unnið.

Þú skilur þetta alveg rétt, Jón (eða sú er mín hugsun): Öll hamingja Íslands hvílir á hugsjóna-auðlegð yngra fólksins, og mér fannst hún stór, hjá bezta hlutanum, sem ég kynntist mest, svo glaðar vonir, svo góður vilji, svo mikil alúð, svo mikill höfðingsskapur án tilgerðar eða feimni. Auðvitað er líka til „hégómaskapur“ og „hoffmannabragur“, helzt hjá gömlum gæðingum og skrifstofufólki, en ekki varð ég heldur fyrir honum, enda væri það ómögulegt, þess konar hrín ekki á mér og verður, eins og karlinn sagði um forfeður, sem náungi hans var að hrósa sér af: *að skít og engu.* Og heyrðu, Jón, svei mér sem ég held ekki, væri alls gáð, að Ísland eigi eitthvert bezta kvenfólk í heimi og konum sínum mest að þakka. Einhver aukvisi mun í öllum ættum, okkar landanna líka. Mér fannst þeir heima vera að „líkjast í ætt Þveræinganna“. — Hafi okkur Vestmönnum hvergi kippt til „þrælanna“, mætti okkur vera minnkunarlaust, eins og aðstaðan er.

Hafstein hitti ég aldrei. Á stóru samkomuna, sem Rvíkingar héldu mér, kom hann ekki. Hann var víst mjög lasinn, að sagt var. Þó sagði kona við mig brosandi. „Hann hefði nú samt komið, hefði aldrei verið neitt 1908.“ Ég glotti líka og tók það sem spaug. Í þinglok fékk hann „slagið“ öðru sinni. Um sama leyti kom ég aftur til Víkur. Hann var þá frá sér, að minnsta kosti um tíma, og læknar bönnuðu allan umgang, að sagt var. Annars kom ég hvergi, nema beðinn, og það var svo víða, að ég varð mér til skammar, bæði með að koma og koma ekki. „Jón Trausti“ var hinn alltélegasti, marg-bauð mér og bað, þó lengi drægist það undan. Ég heimsótti hann þó litla stund. Hann er bæði hróðugur og opinspjallur um sína hagi. Kann „átta íþróttir“ eða meira: ljóðskáld, söguskáld, málari, leikur á hljóðfæri, sagnafræðingur, jarðfræðingur o. fl. Honum líður vel, barnlaus, ein fósturdóttir. Hann las mér handrit af kvæði sínu: „Konan bergnumda“, sem svo var prentað í „Iðunni“. Það er gott kvæði, nema ef ég mætti segja það, sem aldrei á við mig, þetta *gamla* og líkl. *góða* lag, ómar frá Schiller og Öhlenschläger, glæsi-orðafjöldinn um ákafa-efnin í ljóðunum. Mér finnst yrkisefnið blotna upp í því orðaflóði,

það vera svipað því og ef kunningi minn vildi gefa mér glas af „toddy“ og færi og setti 20 katla á eldinn til að hita vatnið, þar sem einn væri meira en nógur; „toddýið“ væri jafngott í sjálfu sér, að frádregnu öllu vatns-suðu stússinu. Mest talaði Guðmundur Magn. um eymdarkjör skálda á Íslandi, sökum nízku þjóðarinnar við þau — ísl. bókmenntir yrðu dauðsveltar, skáld stærri þjóða yrðu milljónerar. Ég hlustaði á, fannst hann ósanngjarn, en deildi þó ekki um. Til Þorsteins G. kom ég einum tvisvar sinnum í erindum og hitti hann annars staðar einnig. Hann lét sem hann vildi ég heimsækti sig oftar. Þorst. er fálátur og ögn óaðgengilegur ókunnum, að sjá. Mér var hann hlýlegur og á mér þó, ritstjóra mest, illt upp að inna síðan „frumvarpið“, ekki að ég velti þar neinu hlassi. — En söm var mín gerð, en ekki var á hana minnzt. Guðm. Guðm.son hitti ég hjá rakara inni. Hann lagði ýmis drög fyrir, að ég heimsækti sig, og ég var meira en viljugur, en aldrei varð af því, fyrir ýmislegt ólag mitt. Mér féll það verr, af því að Guðm. hefir ögn slett í mig, fyrst í „Þjóðólfi“ út af „Á ferð og flugi“ og seinna í „Vísi“. Satt að segja, ég vildi hafa sýnt honum, að ég var svo „há-konservatív“, að mér var það „svo sama, svo aldeilis sama“. Einn móttökunefndar-maðurinn sagði mér, að í honum væri guttur við hana, út af því að Jak. Thor., en ekki hann, var fenginn til að kveða kvæðið, sem Reykvíkingar fluttu mér og þú minntist á. „Matti“ var inn skemmtilegasti og alúðlegasti, svo ekki getur betra. Austur á landi kom maður til mín, vingjarnlegur og hlæjandi, — við höfðum kynnzt. „Heyrðu S., mig langar til að segja þér skrítlu, en veit ekki, hvort ég á að gera það, gæti litið út sem ég væri að bera róg milli ykkar, en svo er nú ekki — bara hitt, það var svo Mattiskt og spaugilegt.“ Ég fullvissaði hann um, að mér myndi aðeins þykja gaman að, hvað sem Matth. hefði sagt, ég kynni nokkuð skap hans og tæki ekki illa upp. — „Jæja, við M. erum kunnugir. Ég heimsótti hann fyrir fáum dögum, var á ferð. Minntist á þig. „Þú yrkir nú eitthvað, þegar Stefán kemur,“ segi ég. — „Æ-i-nei. Hann getur ort sjálfur, bölvaður karlinn.“ — „Þú lætur það nú samt eitthvað heita.“ — „Ég held ekki, — Skagfirðingar hafa reyndar beðið mig, en — honum þykir víst ekki mikið til koma skáldskapar okkar Guðm. Guðm.“ „Og hvað til marks um það?“ — „Jú: „List er það líka og vinna“ og „Lof þér lýðir flétta“ (hefir

það yfir). „Já, en ég er óviss, að S. hafi ætlað ykkur þetta, heldur yfirleitt. En ekki er um að villast, það er þó satt, hverjum hann ætlar: „Já, spjaldafull er bókin sú frá Brími." — „Æ, hvernig er það?" Vísan er þulin. — M. hlæjandi: — „Ó — andsk. er það gott. Ég gæti nú nærri skrifað undir þetta." Ég segi engum þetta M. til lýta, en get ekki stillt mig um að fara með það við þá, sem ég held, að kunni að meta svona sjaldgæfa, en saklausa og skemmtilega opinmælgi. — „Það vildi ég við hefðum kynnzt fyrr, við hefðum orðið vinir." Svo kvaddi hann mig. — Nágrannar hans segja hann orðinn ögn barnalegan stundum. Hann fékk aðkennsli af heilablóðfalli í fyrra vetur og kvað varla vera alveg samur. Ekkert bar þó á því meðan ég var á Akureyri, hann var í sínu „hæsta essi", en svo var sagt, að væri ætíð, þegar gleðskapar-rót væri á, eins og þá, en lægi við, að yfir-þyrmdi á eftir.

Hlaðir, þar sem Ólöf er til heima, var eini sveitabær í Eyjafirði, sem ég kom á. Allir ráðast til ríkis-Grundar og mér stóð það til boða, — en, ég var búinn og lystarlaus, nema á Ólöfu, — skorpinni og íboginni, sem áttræðri kerlingu, en yngri í sinni og svari en kvennaskóla-stúdent. „Hulda" er hæglát kona mjög, ég held næst því að vera feimin. Kvæðið sendi hún mér með manni sínum, sem fylgdi mér á veg, og hornspón fallegan til Rvíkur; hann bíður nú eftir skyrdiskinum, þegar „vex í kúnum".

Baldur Sveinsson er einkennilega vænn drengur að viti og skaplyndi, slíka tryggð sem hann líka ber til manna, sem honum verður vel við í lifanda lífi, eður í sögunni, en svo hæglátur og þögull, að þó hann hafi gott orð allra, er eins og enginn sé honum kunnugur. Lítið dæmi: Hann er bæði skólapiltur og heimagangur í Vík, og allir þekkja hann í sjón. Á samkomunni marg-menntaðra Víkinganna, sem þar var haldin, þegar ég kom, stóð Baldur upp og hélt tvær ræður, en er vanur að draga sig í hlé. Á eftir fóru svo menn að minnast á hann við mig, sögðust aldrei hafa haft grun um, að honum gæti sagzt svona vel, ræður hans hefðu verið einhverjar þær beztu um kveldið; reyndar hefðu þeir þekkt hann, en nú langaði sig til að kynnast honum. Við *þessu* hefðu þeir ekki búizt. — Ekki kynntist ég Ól. Davíðssyni á Ísafirði, svo ég muni, en í boði var ég hjá Helga bankastjóra, hann var mér inn ljúfasti, en talinn þar mikilsráðandi um pólitík og safnaðarmál

og bæjarhagi og ýmiss til getið, eins og gengur. Missti konu sína fyrir mörgum árum, frá 2 dætrum ungum (að mig minnir), sem eru nú að verða gjafvaxta senn. Margrét (ég held rétt munað nafn) systir hans var hér vestra, í Wpg., fór þá til hans og hefir verið þeim húsmóðir síðan, kona ekki fríð, en leizt þó á hana. Þeim líður víst vel. Á Ísafirði kynntist ég ögn Grími Jónssyni, skólagengnum fræðimanni, nú verzlunarstjóra, og Árna kaupm., bróður hans, séra Guðm. ritstj. „Njarðar", Scheving og Kjerúlf læknum (allt eldri menn — kannast þú við þá?), og séra Sig. í Vigur (auk frændfólks, sem ég á þar), og mörgum yngri mönnum. Heyrðu, margt er eftir, ef þú kannt að spyrja, og ekki þarftu að hlífa mér, ég sé við þér. En — þetta er mitt seinasta pappírsark, sé ég, ég þarf að ná í mann, sem í kaupstað fer (og kemur) í kveld. Ég er alveg eins og þú: Uni við Ísland og berst við stríðið alveg í álögum. Vísan um seppa þinn er góð, Jón, ekki fyrir það, að hún segi svo mikið sjálf, heldur það, sem hún æsir upp í manni. Sú er ein tegund skáldskapar. Í öllum bænum, fyrirgefðu, og vertu nú sæll í bráðina.

Vinsaml. Stephan G.

— Ég sendi þér árgang af Tímanum nýl. Út í bláinn þó. Líkl. séð hann. Bezta blaðið sem stendur (vissi ögn um málavexti að blöðum). Kynntist ritstj. hans — meira Guðbrandi. — Sérðu ungra kvenna blaðið 19. júní?
Hér sérðu „skáldið" og íslenzkumanninn:

Kominn á kreik
Og kúa gæti,
Sjálf-grafnar geri
Góynjurnar.

Góynja — gopher, enska — af *„góinn"* — jarðholubúi — og *yn* í Hljóðyn, Fjörgyn — jörð, sú sem unir hljóð og unir fjöri ! !

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerville, Alta, 3. maí 1918.

Góði vin. — Nú þarf ég að biðja þig bónar, og þú sérð af fylgiskjölum, „hvernig öllu er varið". Ég man ekkert, hver ræfillinn Sveinbjörn er, hálfminnir, að hann sé Sveinbjörn kirkjumáls-glötun, þykist vita, að hann sem lögmaður hafi

kríað sér út þá atvinnu að sitja á Íslendingum. Stendur á sama, hvort honum er alvara, eða er að hræða eða veiða í orðum. En ég er að hugsa um „Voröld". Gerðu nú bón mína: Sýndu „Voraldar"-mönnum þetta, að þeir sjái, hvað ég segi, eigi kannske líka von á ráðningu, eður komna. Sé nokkuð í mínu bréfi til Sveinbj., sem hætta er að fyrir „Voröld", þarf ekki að senda það. Fyrir henni vil ég ekki vera þröskuldur, viljandi. Svo sendir þú mér bréf Sveinbj. aftur, umfram allt, það vil ég ekki missa, honum „til réttlætingar á dómsdegi". Svo sendir þú Sveinb. það, sem honum ber, gegnum „Lögberg", eða beinlínis, og „slærðu þá utan um" fyrir mig. En — ég fékk mitt bréf frá Sveinb. „með neðanjarðarjárnbrautinni" um „Lögberg" og er að svara í sömu mynt af rælni. — Mér þótti verst, að Sveinbj. skeit þessu ekki úr sér fyrr, meðan ég gerði minna. Nú á ég svo annríkt, að ég hefi engan tíma til að sinna honum, nema mér í mein.

Blessaður og sæll og láttu mig bráðum vita um afdrifin með fáum línum.

Vinsamlega Stephan G. Stephansson.

*E. S.* — Veit ekki, hvort bréf milli Canada og Bandaríkjanna eru rannsökuð. S. G. S.

*Guttormur J. Guttormsson.* Markerville, Alta, 4. maí 1918.

Góðvinur. — Þökk fyrir bréf þitt og að þú hafðir heldur gaman af því, að ég sendi þér upptíninginn minn heima. Fáum hefir komið saman um, hvað þar væri skást, þó vit hafi haft öðrum fremur á þess konar — ég meina menn heima. *Óskasteinn* og *Skagafjörður* sögðu tveir smekkvísir, eða fleiri. *Með ströndum fram* og *Geysir* kváðu aðrir jafnsnjallir. *Betra er yndi en auður* og *Bárðardalur* tóku aðrir til, sem ljóðvísir vóru. Þetta þýðir sem sé: Þar er ekkert öðru hærra! Nú skal ég segja þér sögu: Einn dag heimsótti ég einn listamanninn í Vík. Við heitum eins, og hann er alkunnur. Höfðum kynnzt og hann er kátur karl og á fullt hús af börnum. „Heyrðu nafni minn," sagði hann. „Hún frú ...... kom hérna í gær, og hún sagði við mig: „Ósköp eigið þér mörg börn S..." En þá sagði ég: „Yður ferst nú um að tala frú ...... þér hafið nú haft gaman af því líka." — Maður verður að hefna sín, nafni minn." Við sem sé vissum báðir, að frúin hafði sjálf átt ein

12 börn. — Nú, nú, það vóru kveðin þau undur um mig heima, að ég varð að kveða „til að hefna mín.“ Það var allt og sumt. Annars hefi ég kveðið um það þessa stöku:

Átt ég hefi eina list,
Er mun lengi klingja:
Að vekja þröst á hverjum kvist'
Og kom' 'onum til að syngja.

Við það verður svona að sitja og gera sér engar aðrar grillur, láta öðrum þær allar eftir.

„Under Fire“ hefi ég ekki séð. Veit ögn um hana, svona út undan mér. Sumum mestu mætur, öðrum grófasta gremja. Vísur þínar þráður úr henni. Sjálfsagt ágæt, það sem hún nær. Bæði kvæðin þín eru einkennileg og vel gerð, að mér finnst, með „nýja-bragði“ bæði — þó ég þykist kenna af þeim franskt moldarbragð, segi ég það ekki í aðfinnslu-skyni — þau skera of vel úr skvaldrinu til þess. Hafðu þökk fyrir. „Hvernig ræður þú gorkúluna?“ spyr þú. — Hafi hún sprottið upp af einhverju einstöku afbrigði í huga þínum, sem ég get ekki gizkað á, hvert sé, ber hún öll flokks-einkenni þess andlega gróðurs, sem þrífst í skugga gamalla afrakstursbauga utan túns í órækter-móunum. Sama að segja um „Gröft“, hann er úr sama handraða. Við, sem lifum, eigum inni fyrir í okkur sömu meinsemdirnar, sem mark sitt hafa sett á molduorpin bein forfeðra okkar. Þessi kvæði þín eru mér svona sjón-auki, til hvers sem þú hefir ætlazt.

„Sálina“ hefi ég lesið, ekki ununarlaust, en blendinn. Þetta þukl út í andtrú að óþörfu finnst mér skáldlegur veikleiki, útúrdúr úr veruleiknum og ímyndunar-minni en vel sagt æfintýri, vakk milli efa og alvöru. „Ströndina“ hefi ég ekki lesið. Þekki stefnu Gunnars, er fyrir nokkru þreyttur á hans aðferð, þessu vesældóms-lífi og stór-slysa heimi, þar sem allt lendir í skipbroti, nema syndin og illfylgnin. Var búinn að „éta yfir mig“ af því hjá útlendum höfundum áður en það slettist inn fyrir íslenzka borðstokkinn á skáldsögunum. En, það hrífur á sinn hátt, með afli „myrkra-maktarinnar“. Svona er ég nú orðinn kenjóttur og er ekki að segja mér það til hróss, heldur eins og er. — Annars held ég mig eins og uxi í sumarhaga, bít með græðgi grasið, sem mér fellur, en læt hitt eiga sig. En, þú trúir varla, með hve mikilli fagnaðar-ánægju

ég les það, sem mér líkar vel, einkum sé það eftir ykkur, sem yngri eruð. En nærri veit orðið, hvað þeir eldri muni syngja, og það stelur af manni þeirri ánægju að verða forviða.

Bráðum hef ég sett á sand
Og sýnist magurt.
En eigðu bæði langt í land
Og leiði fagurt.

Blessaður og sæll. Þinn Stephan G.

*Baldur Sveinsson.* Markerville, Alta, 5. maí 1918.

Góðvinur. — Þökk fyrir fyrst og síðast, Baldur minn, fyrir bréfin bæði, annað ársgamalt, sem hér beið mín heima, hitt nýlega komið, allt og ótýnt, þó þeir hefðu hneppt frá því í Halifax. Ég hefi afrækt að skrifa þér fyrr, mest vegna þess, að síðan ég kom vestur, hefi ég enga vitneskju fengið enn, hvort nokkurt þeirra skeyta, sem ég hefi skrifað heim, hefir komið fram. Svo olli nokkuru um, að fyrst nýl. fékk ég spurt uppi þessa „týndu syni af húsi Ísafjarðar", sem þið vóruð að biðja mig að grennlast um, en sem ég ætla að skila *þér*, áður en ég fer, og biðja þig að afhenda erfingjunum við hentugleika. Ég átti víða að reka slík erindi, fyrir ýmsa heima, hefir tekizt það að mestu, þó ótrúlega staglsamt geti orðið að leita uppi slíka fok-fífu innan um lubba-grasið um alla Norður-Amerku. Honum frænda þínum í Saskatchewan skrifaði ég, eins og þú baðst, strax og ég komst í heimahús, en engu gengdi hann mér, sem varla var von; ætla samt, að minn miði muni hafa skilað sér.

Mér og mínum líður venjulega vel, erum öll innan héraðs og heima enn, en, enginn veit sína æfi óðara en líður.

Um tíma, eftir að ég komst heim, komu yfir mig smá-eftirsjár-köst, að hafa farið heim og orðið ykkur og Íslandi kostnaðarsamur í illæri; það var þegar hingað bárust harðindasögurnar um hafís og skort. Ég varð því ósköp feginn að frétta fyrir víst af þér og þínum, þegar bréfið þitt kom.

Hversu horfi um heimamenn,
Huganum norður góni —
Honum leika löngum enn
Landmunir á Fróni.

Svo, Rænka hélt ég réði við ísinn! Mikið æfintýri er æskan!

Þó að vildu frosta-farg
Af firðinum hennar losa,
Hefir það reynzt of blýþungt bjarg
Bobba, Stebba og Flosa!
Vorið kæra, í kaldan bæ
Komdu og minnstu frænku —
Þú átt sól og sunnan-blæ
Að senda litlu Rænku.

Ég sendi þér í vetur Almanak Ól. Þorgeirssonar, sá, að þú „þurftir vitnanna við“, að ég sveik þig, lét það eftir mér, sem þú leyfðir ekki, að ræðan þín á kveldfagnaði ykkar Ísfirðinga væri prentuð. Fer að, eins og allir afbrotamenn, syndga fyrst og bið svo fyrirgefningar. Svo stóð á, þegar ég kom til Winnipeg, var Ólafur í Almanaks-smíðum, hafði tekið í það ýmislegt, sem um mig var sagt í heimförinni, en hann hafði komizt yfir, úr íslenzku blöðunum. Hann mæltist til viðbótar frá mér, sem ég gerði, og stal úr sjálfs hendi, ræðu þinni þar með; ég gat ekki misst hana úr þjófshendinni, bæði af því mér var ágirnd á henni, og svo vegna héraðs-svipsins, sem á henni er. Þú hefir, held ég, enga óhamingju af því. Greindir kunningjar mínir hér hafa getið hennar í bréfum til mín. Til dæmis, núna síðast, sá sem er einna ritnæmastur okkar manna, Jón frá Sleðbrjót: „Ræða Baldurs bæði snjöll og sannfærði mig enn betur en áður um þá hugmynd, sem ég hefi haft um hann, að hann væri góður, gáfaður og einlægur drengur. Hefi aldrei séð hann.“ Það ætti nú að blíðka þig við mig sekan að vita, að þú hefir glatt gamla Jón, því engan tryggari unnusta á Ísland hér. Það sem þú áttir í fórum dr. Ágústs tók ég og held því hér enn.

Oft er ég nú á Ísafirði, inni hjá ykkur, eða á rölti með þér upp að báta-hlaðinu jafnvel, og skyggnist um hópinn af skinnpilsunum, sem koma í fylking til að kryfja síldina. En —:

Spárnar segja ei um, hvort er
Eftir á vegi gaman,
Né hvort oss eigi að auðnast hér
Oftar „að þegja saman“.

Þú átt nú sjálfur seinustu hendinguna, ég bara prjónaði ofan við. Þú manst, að við minntumst á „að þegja saman“. Annars, má ég eins vel biðja þig þess nú, eins og seinast, að bera heimili þínu, frændum mínum og kunningjum kringum þig, kæra kveðju mína, og Valdimar Þorvarðssyni og heimili hans í Hnífsdal, og öllum þökk fyrir mig. — Og svo er nú fleira! Aldrei hefi ég náð tökum á því, sem skeði í Geldingaholti, sem Sturlunga segir frá og þú bentir mér á, var þó kunnugur og kom þar, og sá nærri í huganum, hvar á vellinum það vildi til. — Ekki reyndar við betra að búast! — ég varð, í vetur, „skotinn“ í stúlku! — kóngsdóttur — og ætlaði varla að geta „losnað við hana!“ Samt skal ég nú trúa þér fyrir þessu fyrstum manna og sendi þér ávænuna af því í þessu bréfi, eða með því, eftir því sem rúmið ræður til, úr því hitt dróst úr hömlu, í bráð eður lengd. Annars máttu „opinbera“ þessa „ástasögu“ mína, ef þér sýnist og nokkurt blað vill nýta. Ég hefði nú sjálfur, af rælni, sent Ingu Láru það, hefði ekki sá „19.“ hennar verið svo smár, að hann má ekkert missa af sér fyrir annað eins. Ég segi nú þetta eftir minnu gömlu reglu: að ljóð mitt aldrei of-gott var (þeim sem nokkurt gaman hafa af því), en ekki af því, að mér [sé] svo annt um það.

Berðu Benedikt bróður þínum og konu hans kveðju mína. Segðu honum, að ég hafi komið fram því, sem hann bað mig fyrir. Ég var orðinn heima-gangur í húsi þeirra hjóna, gekk þar um á öllum tímum, eins og sveitabæ. Eins hjá dr. Ágúst, dr. Guðmundi, Guðm. Hannessyni próf. og Sig. Guðmundssyni mag.

Síðast, en ekki sízt, bið ég að heilsa frú R..., mágkonu þinni. Ég man eftir henni, mér féll hún svo vel í geð. Daginn, sem ég var að búa mig heim, var ég að kvarta um það við einhvern, sem hjá mér var, að ég hefði ætlað að kveðja hana, en kæmist ekki til. „Það er samt illt“, sagði hann, „hún átti svo mikinn þátt í því, að þú kæmir heim.“ Það hafði ég ekki áður vitað. Og aldrei komst ég til að skreppa heim til hennar, en hún kom ofan að höfn til að kveðja mig. Ég hefi brot af samvizku, þó ég brjóti góða kurteisi.

Vegni þér svo allténd vel, Baldur minn!

Þinn einl. Stephan G. —

*Jónas Hall.* Markerville, Alta, 6. maí 1918.

Jónas minn góður. — Þökk fyrir komuna og þökk fyrir bréfið. Ég kem nú bara í flaustri og til málamynda og fréttalaust. Svo, þú veizt ekki deili á Aðalsteini? Ég ætla hann dreng, að vísu, en vandmeðfarinn einræðing, og mörg hans álitamál séu: álitamál. Þar með óstands-sögur að heiman. Ég þykist ögn vita um það líka. Þar eru ýmsir pottar brotnir, satt er það, en ekki eins illa og margt hér, að tiltölu, og verða ekki bættir með pottbrotum héðan, þó vel meint væru. Persónulega þekki ég A... varla, og *mér* hefir hann verið vingjarnlegur. Hann var einn af útgáfufél. „Andvakna" fyrst. Varð þeim einhvern veginn ósamræmur, skrifaði mér sér, að allt gengi í ólagi, bauðst til að taka það að sér einn, ef ég vildi. Hvað að gekk, veit ég ekki, en neitaði bóksamningum, fyrr en ég hefði ástæður til og að hinum frágengnum. Þar við sat. Lengi var hann í New York. „Sá leiðasti Íslendingur, sem hér hefir komið," sagði landi þar við mig, óspurt. „Þekkir þú A. K.?" spurði maður mig á Akureyri. Þar er sveit A ... „Já, ögn, af orðspori helzt" svaraði ég. — „Hvaða álit hefir hann vestra?" — „Hann er víst talinn myndarmaður. En hví spyr þú?" „Ja, af því hann var hér lengi um árið — sá leiðinlegasti andsk... Vestur-Ísl., sem hér hefir komið." „Og hvers vegna?" — „Nú, allt, sem við vorum að reyna að gera, var lítils nýtt. Allt átti að bæta og laga. Við bjuggumst við einhverju miklu af honum, en svo fór hann (og kom aldrei framar), að ekkert lá eftir hann; svo örgrannt var það, að t. d. eitt erindið hans heim átti að vera það, að setja stein á leiði foreldra sinna, þau eru grafin hérna við ...kirkju. Steinninn var valinn og tilnefndur, uppi í fjalli. En þar liggur hann enn í dag, ógerður." Ekki veit ég um hæfu í þessu, en, ég nærri skil, hví hann vildi beita þér fyrir í Winnipeg; hans forganga þar má sín ef til vill minna en góður vilji hans í þessu máli.

Heima er svona: Þar er í byrjun aflrauna öld milli bænda og vinnulýðs á sömu hlið, og kaupmanna og gróðamanna á hina — kaupfélagsskapar og stórkaupmennsku. Kaupmenn, brallarar og „pólitíkusar" hafa í sínu bandi öll helztu blöðin, nú orðið, að fráteknum „Tímanum", kaupfélagsmanna og alþýðublaði (ritstjóri nú Tryggvi biskupsson, leysti sig með

biskupsleyfi frá prestskap), og „Dagsbrún“, jafnaðarmannablaði (ritstj. Ólafur Friðriksson, sonur Fr. gamla Möllers á Akureyri forðum, hefi ég heyrt sagt, verkamaður, vélstjóri eða þess háttar). Ráðherrarnir tveir, Eggerz og Sig. frá Yztafelli, eru hliðhollir bændalýð. Allt gert frá hinni hliðinni til að velta þeim. Hvorugur mun hafa sótzt í stöðuna, hvað sem sagt er. Einkum er atvinnumálaráðherrann, Sig. frá Felli, í eldi háðs og hneykslana hjá gróða-gæðingum, hann sé fjármála-vitlaus bóndi, í hans sæti eigi að vera „forretningsmaður“, eins og þeir danskyrða það, sem sé — einhver verzlunarmanna. Þeir nafnar, ráðherrar, hafa gengizt fyrir landsverzlun í trássi við kaupmenn, sem héldu því fram, að þeir einir, með styrk og aðstoð stjórnar-samlags, hefðu átt að sitja að þessu. En hvernig sem um þessi mál er villt, veit ég það víst, að landsverzlun og kaupfélögin hafa bætt ögn úr því, sem annars hefði orðið. Yfir höfuð, stjórnin heima hefir ekki reynzt vonum verr, í illri og óþakkátri aðstöðu, og ekki reynt að ganga alþýðuna alveg fyrir garð, sem aðrir hefðu meira að gert. Já, það eru landeyður á Íslandi líka, ríkismenn sumir orðnir, bæja-„lóðarar“, bújarða-brallarar, fossa-flagarar, göngumenn milli kaupmanna heima og heildsala erlendis, sem ekki áttu eyri á hættu, en kváðu nú efnaðir af umboðslaunum og uppfærslu, sem vöruþörfin verður að greiða þeim. En hér eru þeir svo miklu stærri og eldri, svo — hví er okkar að hneykslast? Og — Íslendingar [eru] að átta sig á því, almennar en við að tiltölu. Þannig kom mér það fyrir. En „sú orustunótt verður háreyst og hörð“ þar, eins og hér. Eitt landsjóðsmál er þar uppi nú, svipað banka-málinu forðum. „Langsum-stjórnin“ (Einars Arnórs.) skilaði af sér reikningum svo, að liðug hálf milljón króna, innstæður í sjóðum hér og hvar, finnst hvergi. Hvort sá reikningur var með ráði gerður svo, eða er skeytingarleysis villa, veit ég ekki, né hvort það allt eða eitthvað sé arfur frá fyrri stjórnum. Það er órannsakað enn. Öll stærri blöðin þögðu sem mest um það. Þingið tók heldur hægt í það. „*Tíminn*“ einn gekk fast að, og það verður rannsakað, nema ef gömlu „pólitíkusarnir“ og kaupmenn ná aftur stjórnar-stýrinu, þá verður því eytt á einhvern hátt, eins og banka-rannsókninni. Mig skyldi ekki furða, þó það væri vegna þess, að gömlu andstæðingarnir, „langsum“ og „heimastjórn“, stofna nú nýjan samsuðu-flokk: Björn Kristjánsson, Sveinn Björns-

son, Jón Þorláksson (líkl. Jón Magnússon ráðherra, undir niðri) o. fl. vinna með „Ísafold“, „Lögréttu“ og kaupmönnum að velta núverandi stjórn og komast að. En, allir þeir hafa misst álit hjá almenningi, hvern veg sem fer. Eitt er grunsamt við landsreikninga-villuna, að mér finnst, „Landsverzlunin“ er látin skulda svo og svo, sem ósannað er, að hún hafi tekið við, og hennar reikningar allir í molum. Nú vita menn, að „langsum-stjórninni“ var hún ekkert óskabarn, og kaupmönnum hagur, að hún liti sem óféþúfulegast út. Þetta eru aðal-ólagsdrættirnir, sem *mér* blöskruðu ekki, svo veraldarvönum, að ég bjóst við þeim, eða einhverjum jafnleiðum. Það, sem mér fannst mest um vert, var víðsýni og hugsunarháttur einkum yngra fólksins, þessa sjálfsagt fámenna, en betra minnihluta, sem ég kynntist helzt. Við Vestmenn eigum þar ekki eins gervilega æsku andlega. Yfir höfuð, Íslendingar eldri og yngri eru myndar-menn, þeir sem eru í nokkru mannsmóti á annað borð. Ísland er örðugleika-land og öll auðna þess liggur í fólkinu sjálfu, og mér gat ekki sýnzt það ólánslegt nú, samanborið við þá litlu kynningu, sem ég hefi af mannheimum utan Íslands. En hitt er satt, mér finnast stundum stórríkisþjóðirnar mestir galla-gripir og ófarsælastar, þó þær eigi nafnkunnasta einstaklinga, sem er oft fremur vegna fjöldahróssins en afburðanna.

Þá að snúa sér að Guðrúnar-málum. Þau held ég flóknari en það, sem séra R. stingur upp á. Ég fór með það mál heim, að bón hans, en erindisleysu, sem þú skalt sjá. Guðrún er kona dugleg og djörf, hvatfær og tilfinninganæm. Hún er hannyrðakona og kennir þær, mun því innhendast ögn, við og við. En hún hefir í mörgu að snúast, gesta-gang, að sumu leyti líkl. arf frá tíð Þorst. heitins, og svo er hún sjálf vinmörg, glöð og málreif og gestrisin. Svo ferðast hún þó nokkuð, alla leið til Eyjafjarðar og Húsavíkur í sumar. Við vorum t. d. samtímis á Akureyri. Ég held hún hafi farið „frítt“ á botnvörpungi, og Hulda kostaði hana frá Akureyri norður. Hún hélt til í Fagraskógi, hjá foreldrum vinar síns, Davíðs Stefánssonar, unga skáldsins góða. Börnin sendi hún á bæi upp í sveit á meðan til vina sinna þar. Vinnutími hennar getur því farið ýmislega að forgörðum, þó drifin sé. Mér var sagt, að ýmsir hlynntu ögn að henni, en svo er hún sjálf gjafmild og rausnarleg, svo það kann að ganga inn og út. Hag sinn sagði hún mér aldrei

ákveðið, enda get ég aldrei spurt vini mína blákalt að því, sem þeir ekki segja að fyrra bragði. Ekki man ég, að hún nefndi steinskuldina. Um húsið vissi ég. „Bensi gamli Þór," sem kallaður er, uppgjafa vínsali og ég held efnakarl, bókamaður mikill, sem ýmsir telja vænan mann, var máti Þorst. heitins, hjálpaði honum og var í ábyrgðinni. Björn gamli Kristjánsson bauðst þá að taka hana, og gerði. Sama bauð henni Þórólfur Sigurðsson í Baldursheimi við Mývatn, ritstj. „Réttar", en ekki veit ég, hvort hans þurfti við. Björn gamli er því uppáhald Guðrúnar nú. Hann er fjálgur „spíritisti", fróður, sjálfmenntaður greindarmaður, efnaður víst, en — talinn æði tvöfaldur í vináttu-roðinu. Guðr. er líka á „spíritista"-sveifinni. Þingið í sumar veitti henni meðlag með börnunum, ofurlítið, 400 krónur hvoru, að mig minnir. Enginn efi, að hagur hennar er þröngur. En gætum við bætt úr því — og til bóta? Og hvernig þá? Á útgáfunni hefi ég enga trú. Ég átti tal við hana um það, oftar en um sinn, en varð jafn nær. Fann, að hún vildi ekki þverneita, og því síður þiggja. Sagði sér þykja minnkun að, að Vestur-Ísl. gerðu það. það væri skylda landa Þorst. heima. Sagðist sjálf þurfa helzt að vera viðstödd útgáfu og ráða um. Það er nú auðvitað rétt. Annars var hún ögn óánægð við séra R. út af því, sem hann sagði í „Kringlu" um kirkjulega jarðsetningu Þorsteins. Henni mun í mun, eins og vini hennar séra Haraldi, að gera minningu Þorsteins hliðholla „andatrú", sem rétt væri, hefði svo verið. En vinkona þeirra hjóna, gáfukona, sem ég get ekki efað, sem vakti nokkuð hjá Þorst. í síðustu legunni, sagði mér, „að sér væri kunnugt um, að svo hefði ekki verið. Þorst. hefði dáið sams hugar í þá átt, eins og hann hefði áður hugsað." Svo er enn annað. „Er töluvert til eftir Þorst. óprentað?" Ég spurði Guðr. beint að því, en svarið var: „Já, þó nokkuð." Sú saga gekk í Vík, að lítið sem ekkert væri til af „Eiðnum", síðari hluta, og sú skýring fylgdi, sem líklega er uppspuni, að Guðrún hefði sagt svo frá, að Þorsteinn hefði brennt það, sem til var, litlu áður en hann dó, af því Brynjólfur biskup hefði vitrazt honum og sagt, að hann gerði sér rangt til í „Eiðnum", en Þorst. ekki viljað slíkt um sig vita. — Ég segi þetta sem skrítlu. Ég spurði kunnugan mann og aldavin Þorst., Ara sýslumann Arnalds (Jónsson) á Blönduósi, eftir „Eiðnum". Hann sagði, að hann myndi hafa verið mikið til kveðinn. Grunur minn er, að mest

af því, sem til er, séu molar úr mörgu, sem átti að verða. Það er samt bara getgáta. Svo er annað: Það væri stór ábyrgð við orðstír Þorsteins að gefa nú út, skemmdarlaust við hann, það sem til er, væri svo, að allt hans bezta og fullgerðasta væri þegar komið út, að honum lifandi, úr því hann var svo vandvirkur sjálfur, að rusla ekki öllu út og leyfa öðrum mönnum úrvalið, því það er þó skárra af tvennu illu. Annað hitt, hvenær kæmi ágóðinn, yrði hann nokkur, af útgáfunni. Ég segi þetta ekki í úrtöluskyni, að eitthvað væri gert. Væri með því. Skyldi ekki undrast, þó Guðr. sjálf gæti svo góðs til Vestmanna sinna; hún hrósar því svo, hve vel þeir hafi reynzt sér og Þorst. En yrði nokkuð hægt, sem lið væri í, finnst mér ég vildi senda öðrum en henni það og leggja svo fyrir, að það gengi í hússkuldina. Vinirnir heima sjái um steininn. Guðrún á ið bezta af öllum Ísl. skilið fyrir það, hver kona hún reyndist Þorsteini. Þarna heldur hún enn, í húsi sínu, bókasafni, skriffærum hans og stól, eins og hann hvarf frá því, þrátt fyrir það, að henni er af sumum legið á hálsi fyrir að selja þetta ekki við uppboð, sem talsvert fé fengist fyrir og alsiða er í Vík, þegar hagur hennar er þá svona þröngur.

Á Íslandi er til ein ferðamanna-plága, það sem kallaðar eru „póesí"-bækur, leiki það orð á gesti, að hann sé hagmæltur. Guðrún átti eina, og við hana varð ekki sloppið. Litlu áður en ég fór að heiman í haust, vórum við þá tilbúin. Ég varð að setjast í stól Þorsteins heitins, við borðið hans, og skrifa með vönduðum gullpenna, sem landar í Höfn gáfu Þorst. til minja um „Rasksminnið" hans, sem mest varð uppþot úr. Ég klóraði þessar stökur upp úr mér:

Þegar á heiðum þögnuð er
Þekkta svana-raustin,
Sækir oft að einum mér
Órósemi á haustin.

Helzt þá gleður, Guðrún mín,
Geðið ama-þrungið:
Einn hefir veit ég vegna þín
Vonum lengur sungið.

Þegar ég kom heim, fékk ég henni 100 krónur, 12 doll. af því voru frá Jóni Sveinssyni hérna. Hitt frá — konunni. Þegar

ég fór, fékk ég henni 50 krónur og bað hana að kaupa fyrir jóla-gull handa krökkunum. En hún fór þá til og keypti strax „Andvökur“. Þær voru þar til, í skáp Þorst. heitins, og ég hefði valið annað, þó ég kannist við snoturleikann í þessu.

Jæja, Jónas minn — nú hefi ég þá skrifað okkur báða uppgefna og í málið verður þú að lesa, ef þú getur, því nú er flýtir á, en ekki vandvirkni. Mér fannst ég þurfa að setja þig sem bezt inn í þetta allt, svo úr því varð ritgerð. — Heilsaðu heima, og til Jonna, og vertu blessaður, karlinn minn.

Þinn Stebbi.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerville, Alta, 24. maí 1918.

Rögnvaldur minn góður. — Þökk fyrir bréfið þitt síðasta og peningana. Ég reyndar skammast mín fyrir, að þú skulir þurfa að þræla í þessu mín vegna, sem ætti annað hvort „að hirða mig sjálfur“ eða borga fyrir „að þjóna mér“. En feginn verð ég þessu, auðvitað, og borgunarmaður fyrir því, ef ég fengi. Aðstaða mín er ögn önug, sökum ókunnleika á upphöfunum og langræðis héðan, auk leti mín sjálfs. „Guðsást“ fyrir það allt saman samt, eins ráðstöfunina heima — hún sýnist snjallasta úrræðið, úr því Arinbjörn lattist svona við skilamennskuna, jafn beinharður eins og hann þóttist vera, og feginn að mega vita, hvort hann gæti lokið sér af við þetta um nýárið sem leið. — Jæja, Ársæll brást ekki. Mér þótti vænt um, ekki svo mjög vegna „centanna“ eins og hins: mér leizt vel á manninn, sem ég er þó lítt kunnugur af viðtali né orðspori. Það er svo gaman að geta haldið, að maður hafi ímyndað sér rétt.

Gaman væri, gætir þú komið vestur. Ég er svo eigingjarn, að ég mun harka af mér vesalar viðtökur, sem þú færð hjá mér, og verri en ég vildi. Ef þú kemur, lætur þú mig samt vita, svo ég geti numið þig út í óbyggðina frá Innisfail. Hingað heim heyrist nú mannamál, hvar sem þú kæmir fram, í Edmonton, Wetaskiwin eður Calgary — *Markerville via Innisfail.*

Haltu þessum dölum fyrst um sinn, unz við sjáum, hvað verða vill. Ég tek *hér* hlut eða svo í „Veröld“. Hefi ekki gert það enn, bæði vegna þess ég vissi ekki, hvað þú hafðir gert, og svo hins, ég sá ekki neitt, sem ég treysti á við fjár-ráðs-

mennskuna, og fannst mig bresta traust til að taka djúpt í árinni, né mér um megn — hvað sem öðru leið. Blaðinu er ég þó einlæglega hlynntur, úr því sem ráða er.

Alveg sama, þó þessar glettur mínar væri settar sitt í hvert blað. Hefi gaman af sama og þú: að láta blöð bera sjálfum sér svona vitni! Auk þess er ég nú nokkurs konar allra-sveitakvikindi og stekk alls staðar út um „patríóta"-gjammið úr pólitíkunum í fjallreiðunum þeirra. Mest gaman hefi ég af heimskunni, þegar hún hefir setið lengi bullandi ánægð yfir, að enginn svari sér, og verður löt og leggst þegjandi á meltuna. Svo kemur einhver blær úr logni og óvæntri átt og andar í bælið sem snöggvast, en alls staðar þýtur upp úr sinunni mökkur af flóm, eins og rykmý, og hringsnýst í logninu og ætlar aldrei að hætta. Einu sinni kvað ég svona vísu:

*Hitt í markið.*

Lá hún flöt í leyni
Lörfuð illum dúðum —
Gaus upp gól með súðum,
Grettir henti steini.
Tálknum tók að söngla
Tötra-kindin fornum —
Fóstran allra Öngla.
Elzt er heimska af nornum.

Heyrðu, hér á nú að halda Íslendingadag 17. júní. Mér datt í hug, hvort þú gætir verið hér þá, ekki sökum þeirra viðhafna skemmtana, sem hér verði, heldur hins, það gæti verið gaman að sjá sveitarskapnaðinn, svo mikið í einu lagi.

Tíð er köld og fjúksöm. Unglingarnir hérna nú að hertakast. Skrítla gerðist hér í sveit í fyrradag, en get ekki sagt hana skriflega — núna.

Lítt þó dugi láni manns
Að lesa' 'onum bænir sínar:
Eigi sem stytzt til óska-lands
Innstu vonir þínar.

Heilsaðu frá mér heima hjá þér.

Vinsaml. Stephan G.

*Jakobína Johnson.* **Júní 1918.**

Vinkona góð. — Þökk mína góða fyrir þýðinguna á kvæðinu, fyrir bæklinginn og bréfið. Fyrir löngu ætlaði ég að senda þér þökk mína, en alltaf tafði eitthvað. Fyrirgefðu. Ýmislegt kvabbar ætíð að mér, utan bæjar og innan, og ég farinn að afsegja að snúast um sem snarmenni!

Gísli mágur þinn sýndi mér þýðingu þína af vísunum í haust, þegar ég kom til Winnipeg að heiman, sagði það væri bezt ensk þýðing á nokkru eftir mig, sem enn hefði gerð verið, og Gísli er vel listnæmur, eins og þú veizt. Ég fór yfir þýðinguna fljótlega, féll hún vel, og hafði séð áður þá þýðingu, sem mér þótti langbezt af öllum í lagasöngvum Sveinbjarnar, af: „Stóð ég úti' í tunglsljósi" Jónasar — eða réttara sagt Heine's, svo ég vissi, að þú gazt þýtt, án þess að drepa eldinn, eins og oft er gjört. Sem sé, þær þýðingar af *ljóðum*, sem mér þykja góðar, eru flestar stælingar, en ekki „útleggingar", en svo vel gerðar, að þær jafngilda því frumkveðna. Mér nægir, að stjörnurnar bliki með sama ljómanum, þó blærinn sjáist rauðari eða ljósari. Mér stendur stuggur af þeim gálgum, þar sem skáldskapurinn hangir hengdur í orðabókar-ólinni. En svo er ég nú eins konar samsafn af alls konar villukenningum, að ég held, svo mína dóma er minnst að marka, fyrir aðra en mig, svo þú mátt taka þetta sem spaug, góða mín.

Ég man vel eftir ykkur, húsinu þínu, þér og alúðinni. Ég komst heim með blómstrin, sem þú last mér, utan úr litla garðinum þínum, átti þau um stund. Nú eru þau löngu týnd. Ég segi það ekki í því skyni að gera þér gælur, en mér þykir vænt um hitt, ef einhver hending eftir mig hefir stytt þeim stund, sem íslenzk ljóð lesa. Finnst, að þá hafi þó ekki allt verið til ónýtis gert og óþarfa.

Berðu bónda þínum kveðju mína og þökk fyrir síðast, og öllum þeim löndum mínum í Seattle, sem mér tóku svo vel um árið og þú nær til, og vertu svo sæl.

Vinsamlega Stephan G. Stephansson.

*Jónas Hall.* Markerville, Alta, 18. júlí 1918.

Jónas minn góður. — Þú hefir nú átt bréf hjá mér æði lengi, — en sama munu nú margir aðrir hafa mér að bera, nú á dögum. Síðan sumar-annir byrjuðu, hefi ég verið sinnulaus

við allt, nema að sofa, milli þess sem ég gat í verk komið af utanbæjar-raglinu, kúasmölun, fjósum og heyskap. Veðrið alltaf verið svo þurrt, að aldrei var úrkomu-friður, svo hvern dag gat maður „staðið á". Nú er að bregða til votviðra, og innilega í gær og óþurrkalegt í dag. Annars er sú bót, að ég er nýbúinn að skrifa Jonna, svo þú færð að vita, að ég sé „still alive and prowling", eins og köttur Flannegans, sem hið fræga enska þjóðkvæði var um gert. Alberta-búhorfur slæmar í ár. Akrar og engjar skrælnaðar upp víða, sunnan við Calgary til landamæra. Korn allt mjög frosið, norður frá Lacombe norður á landsenda. Skást frá Calgary til Lacombe, en víða rýrt þar þó, einkum engjar. Horfur hér við Medicine framar vonum, jafn þurrviðrasamt eins og var, en mjög misjafnar. Komi ekki áfelli, náum við hérna nægum heyjum og fáum þó nokkurt korn. Hveiti okkar bráðum slægt og alveg ófrosið, en rýrt nokkuð á margra-ára-ökrum, eins og hólunum mínum.

Getur þú sagt mér nokkuð í fréttum? Hefir þú fengið bréf að heiman — frá Guðrúnu Erlingss. t. d. Ég hefi ekki fengið línu frá henni, er hræddur um, að það sé „slitnað upp úr því milli okkar", nema að línur frá mér hafi strandað. Hvað getur þú sagt mér um kirkjumálin ykkar? Eruð þið að sameinast „Lögbergs"-kristninni, eins og spáð var? Nei, Jónas, þú lætur aldrei hvalinn gleypa ykkur, það væri ótrúlegasta sagan í öllum okkar ritningum, að guð láti kasta ykkur svo í sjóinn. Þið ættuð þá heldur að taka saman við „únitara og aðra heiðingja", eins og séra Jón heitinn komst að orði. Sam-ræði við Kirkjufélagið væri auðvitað ekki annað en ónýting alls starfs Friðriks heitins, sem þið fylgduð, — óvirðuleg uppgjöf. Samtök við hina hliðina væri liðsauki, sem löngu átti að vera gjörður, og eru nú einu bjargráð. Ég er ekki að segja ykkur fyrir að vera únitarar, meiri en þið eruð. „Strikið yfir stóru" nöfnin, og kallið ykkur bara „Íslenzku kristnina í Vesturheimi", til aðgreiningar frá kirkjufélagsheiðninni. Ég veit þú hugsar út í þetta eins alvarlega eins og ég geri, en með minni gapa-skap í orði. — Jæja, maður fagnar því þó og vonar, að satt sé, að maður hafi lifað það að sjá sjálfræði Íslands sigra, — en, geymir að klappa saman lófunum, þangað til „öll er sagan sögð". Ið sanna á stigin að stækka. En stórlygasporum að fækka.

Séra Rögnvaldur og kona hans komu hér í byggð og stóðu við fáeina daga á ferð sinni til Banff. Hann „messaði“ hér, að ósk manna, og flutti ágætis-ræðu um Móses gamla, hugsjónamannlega ræðu, en ekki ritningarhengilslega né fróðleiksþyrrna, eins og flestir prestar gera, sem ekki tefla upp á tómt tilfinninga-volæði.

Biðjum kærl. að heilsa þér og þínum, með þakklæti fyrir komuna, seinasta bréfið og fornar tryggðir, Jónas minn.

Vinsamlegast Stebbi.

*Jón Jónsson frá Sleðbrjót.* Markerville, Alta, 1. ágúst 1918.

Góðvinur. — Loksins kem ég þá, en varla veit ég þó, hve lengi ég get staðið við, og þó er þetta sunnudagur, en svo kemur einhver kannske, eða ég rýk 3 mílur austur á engi mitt, til að raka ljá, og þá verð ég að „fara strax“ og veit ekki, hvenær ég kann að koma aftur — en bráðum. Í alvöru, þó ég sé búinn að fá 3 bréf frá þér og „Tímann“, allt með skjótum skilum, og þó mér þættu það góðar sendingar þá, hefi ég aldrei getað agðazt til að svara þér fyrr. Síðan sumar-annir tóku til, hefi [ég] alltaf verið á stjái við hver þau verk, sem fyrir lágu og ég réði við. Vinnan drepur úr mér alla dáð til pennans nú orðið, sé hún stöðug, og fram að þessu hefir dagur varla úr fallið, sífelldir útivinnu-þurrkar. Nú aftur rétt nýlega að byrja „dögg af himni og frjósamar árstíðir“ og hvíldar-tímar, undir eindaga hausts og vetrar, svo hey- og uppskeru- og búk-sorgir — líklega hrekjast heyin áður en maður fær hirt þau óskemmd, og frost og snjóar falla á. Það kvað fara illa á manni að vera bæði uppstökkur og langrækinn, en svona er guð veðranna. Hann fær líka orð í eyra stundum.

Feginn varð ég fréttunum að heiman, sjálfræðis-sigri Íslands, trúði á hann, en bjóst ekki við að lifa þau tíðindi sjálfur, fremur en verkast vildi. Vonir mínar eru sjaldan mjög veiðibráðar, þó ég þykist vita, að þær séu nú það, sem verða vill, hvernig svo sem allt sýnist réttast. Ég bjóst sízt við betri samning né gleggri. Annað hvort var að sveigja til, semja saman, eða segja sundur. Það er *skilnaður,* sem „Lögberg“ er að heimskast með, líklega vitandi eða óvitandi áværa um, að Ísland gæti þó orðið brezkt „lóðasölu“-land, austur eða vestur. Mér er ekki um veiðiréttinn, en geri hann ekki að

grýlu, og á einhverju varð að slaka eða uppgefast. Verr er mér við jafnan þegnrétt og sameiginlegan, hann hygg ég viðsjálli, kæmi til hnippinga, og hefði Ísland haldið sínum sér, mátti hafa veiðiréttinn í heimahöndum, hvað sem í samningnum um hann stendur. En, hvað var hægt að bera við þar heldur? Við stóðum alltaf á Gamlasáttmála, og í honum þágum við norsk þegnréttindi, „sama rétt og þann, er við höfum beztan haft." Og svo — ef illa reynist, má semja upp um það eftir 25 ár, það er ekki ýkjalangt. Danir sjaldan reynzt snarráðir til „veiða", og Íslendingar við „yrkisefnið staddir", en Danir eiga leið að því um langan veg. Ég hefi ekkert skap til að gera úlfalda úr þessu. Að losna við danska „tillagið" varð ég feginn, nærri á hvern hátt sem var, hefði nærri viljað gefa ögn til þess að koma því fyrir kattarnef. Ekki vegna þess, að við værum illa að komnir, né Dönum misboðið, heldur hins vegna: það var okkur alls staðar til bölvunar, í viðskiptum okkar við Dani og virðingu okkar erlendis, þar sem allt skilningsleysi á okkar málum gat þó rekið augun í þá meinloku, að Ísland væri á dönskum hrepp. Ég sá því ekki eftir milljóninni til danska háskólans — og gott getur af henni staðið, ef til vill, eða fældist ég það, þó segjum vesturheimskar verzlanir, sem grætt hefðu á íslenzkum viðskiptum, legðu millj. doll. í vörzlu Harwardskólans til að auka þekkingu á Íslandi og samúð milli þjóðanna. Mér finnst það lítilmennska að þora ekki að þiggja sæmilega gestrisni, af því maður kunni að missa sálu sína í hendur húsbóndans.

Annars hygg ég, að það hafi verið rás tímanna, rétt og gripin af Íslandi nú, sem réði þessum úrslitum, fremur en konungur eða Jón ráðherra, og jafnvel Knútur Berlín hafi óviljandi átt góðan þátt í því. Þú veizt aðstöðu Norðurlanda nú, að sunnan, austan og norðan, síðan Rússland og Finnland og Kúrland leystust upp. Aðeins opið yfir Ísland enn vestur og norður. Sambjörg allra Norðurlanda helzt tilhugsandi. Misstist Ísland út úr í eitthvert stórveldið, stæðu þær í herfjötrum, auk ins stóra halla, sem norræn menning biði andlega við að missa Ísland út í óvinveiti. Knútur æpti um, að Ísland væri að svíkja Norðurlönd. Sænsk og norsk blöð voru áhyggjufull. Hafði Knútur ekki bent þeim óvart á, hvað orðið gat, og því verið lagt kapp á liðlega samninga, ekki svo mjög í Íslands hag, eins og til að afstýra? Jæja, okkur endist

ekki æfi til að vita það með vissu, enda vitum við nóg. Gott hvað gekk.

Víða var minnzt á þetta mál heima við mig, mest af Guðm. Hannessyni prófessor. Það er gaman að honum: alþýðlegur, um allt talandi og alls staðar heima. Eins og fleiri var hann hræddur um, að fáninn fengist ekki, yrði svo illt úr og algerður skilnaður, Ísland losnaði frá Norðurlöndum í Bretann. Lézt vera að spyrja *mig* ráða. Ég vék af mér að spá í þær eyður eða að vita ráð. Hélt bara, að fánakröfunni yrðu þeir að halda á, fast og hreinlega. Að vísu væru þeir orðnir sjálfstætt ríki í raun og veru, en Danir yrðu að viðurkenna það opinberlega, með því að leyfa þeim fánann, og þá væri í rauninni öllu lokið. Setja Dönum tvímælalausa sök við súlu: fánann — eða skilnað ella. En í kyrrþey grennslast eftir hug og leita aðstoðar Svía og Norðmanna og Bandamanna, og eiga vísa viðurkenningu þar fyrir fram, ef til skilnaðar drægi. Guðmundur kvað slíkt erindisleysu, Svíar og Norðmenn væru Íslands málstað þar andstæðir. Ekki veit ég, hvað hann hafði fyrir sér í því, en ég efast um, að svo hafi farið að lokum. Eftir einu hjó ég, — það var samt leyndarmál — á Gullfossi vestur var Matthías Ólafsson þingmaður með mér, greindur maður og skemmtilegur og vel menntur, en Hafsteins-liði mikill einu sinni, en einhuga um fánann og sjálfstæði Íslands nú — eins var Lárus H. Bjarnason, sem ég kynntist mjög við. — Nú, Matthías fór vestur í fiskierindum ofan á, í öðrum erindum eitthvað, en í hljóði, og eitt þeirra var víst að grennslast eftir, hvernig Bandamannastjórn væri vikið um fánamálið. Hvað úr varð veit ég ekki. Ég stakk upp á þessu við alla, sem ég átti tal við um þetta mál, eins og við Guðm. Ekki svo að skilja, að ég viti það væri gert, né eigni mínum orðum ögn í því.

Já, það var gaman að Guðm. H. og góður var hann mér, eins og allir reyndar. Ég held hann hafi ætlað að koma mér í þrætu við sig í þessu máli og fleirum. Hann byrjaði það með því að segja mér, að Ísland væri bölvaðasta land undir sólinni og mönnum ólífvænlegast, og færði margt til og allt að vísu satt. Ég hafði svo það ráð að smeygja fram af mér, bera ekki á móti neinu, en segja aðeins, að þó ég væri honum ekki sammála um hans niðurstöður, tæki ég þær samt gildar án mótmæla, en bætti því aðeins við, að þess meira væri þá spunnið

í fólkið, sem byggði svona land, hefði getað í því lifað og mannazt, bætt það og sinn eiginn hag, og alltaf lifað andlega. Jú, þetta sagði hann þá, að væri lauk-rétt. Tók svo til, hversu landið myndi líta út eftir svo sem 200 ár, mættum við það þá augum líta aftur, og sú lýsing var bæði mælsk og fögur.

Í einhverju bréfinu minntist þú á, að líkl. yrðir þú talinn liðhlaupi, af því þú vildir ekki fall pólitískra foringja, sem þú nefndir, heldur nota þá fyrir betri málstaði. Nú er ég svo, ég trúi hvorigum þar, en hefi ekki nema lítið, en gott, að segja af báðum, þar sem við höfum hitzt. Mig grunaði fyrr, nú *veit* ég: þeir bregðast, ef á reynir, af því þeir hafa lifað sig inn í spillta „pólitík" og kunna ekki annað verklag. Mitt „pólitíska" lögmál er: Sá, sem bregzt tiltrú rétts málstaðar einu sinni, á aldrei að komast í færi til að gera *það* aftur. Vænt þótti mér um, að þér líkaði „Tíminn" vel, eins og mér. Ég las blöðin heima, og mér fannst strax hann „sannasta" blaðið, þá var Guðbrandur ritstjóri til bráðabirgða. Héðinn Valdimarsson. Ásmundssonar, átti að vera sá fasti — ungur hagfræðingur — var tekinn í stjórnar-þjónustu — en Tryggvi tók við „Tímanum". Honum kynntist ég þó lítið. Hann er ekki fríður maður, en festulegur, föngulegur, nærri hversdagslegur. Fékk góðan *þokka* til hans, ekki sízt síðan hann kom að „Tímanum". Finnst þar eitthvað Tómasar-Sæmundssonarlegt í stefnu og verklagi. Skrifaði honum nýl., bara þökk fyrir Tímasendinguna, sagði eins og var, að mér fyndist hann opinskár, eins og æskan og einlægnin, og hefði samúð með ýmsu, sem hann flytti.

Nú hefi ég verið aðsætinn og ótruflaður, en tef þig ekki lengur, og vertu nú blessaður og sæll.

Vinsamlega Stephan G.

Nei, vísuna: „Lof þér lýðir flétta" kvað ég hvorki um Pál Ól. né neinn einstakan — en um vissa tegund kveðskapar. Alþýðan skilur, ef hún getur rekizt á menn, annars ekki.

Feginn hverjum degi, nærri stund, sem það dregst, að íslenzkir drengir komist á vígvöll. Stutt stund kann að verða það, sem veltur á.

Tvær prentvillur í ekki lengra kvæði en „Héðan falla ö. v. t. Dýrafjarðar": Fær er heimvon, fyrir *Fjær-*, og *Hver á* sinni heimajörð, fyrir: *Hvar að.*

Heyvinnuhöndin
Er hraðrita stirð.
Vandlætis-vöndinn
Lát vera í kyrrð.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerville, Alta, 15. okt. 1918.

Góðvinur: — Alúðar þökk fyrir allt og allt, þér og konu þinni fyrir komuna í sumar og seinast ágætt bréf þitt, ritað hjá Lovísu-læk í Rekamonti. Eins og þú sérð, þá íslenzka ég enskuna, á sama hátt sem foreldri mín norrænuðu grískuna, þó ég sé nú uppi á meiri bindindis öld.

Ekkert hefi ég frétt ákveðið um beitar-húsa-bræðinginn þeirra mis-lúthersku, enda vissi ég fyrir, að hann myndi gerður í þagnar-þei og helzt úti í horni. Hvert að var kjörboð kirkjufélagsins, komst ég þó að, fyrr en af því var leystur leyndardómshnútur sá, sem tilbúningsmennirnir höfðu tyllt um sig. Ég skrifaði Bergmann og tveimur kunningjum í Dakota árangurslaust, eflaust. Vissi það fyrir fram, að ég orkaði engu í þeirri aðstöðu. Gerði það bara til að þjóna lund minni, svo ég gæti þó kannazt við það á dómsdegi, að ég hefði einhvers til freistað.

Þar er ei lán að leika við,
Lagsi, þér að segja —
Að hafa fengið Friðriks-lið
Og frá því svona að deyja.

Auðvitað eru góðir menn og traustir til í flokknum, en þeir gerast nú gamlaðir og þref-þreyttir og vonsviknir. Aðal-trúaratriði fjöldans er óttinn við að vera nefndur eitthvað annað en lútherskur. Séra Jón heitinn vakti upp þann hugsunarhátt manna mest. Ég fyrirgef honum aldrei, hvílíkur aðdróttana-maður hann var, því það væri að: „Gå på Akkord med Sletheden“. Með því hræddi hann kjark úr hugsun almennings: að gera menn grunsama í að sá, sem ekki tryði sem hann sjálfur, væri laginn til að verða öllu góðu ótrúr. Þannig liðleskjaði hann okkur andlega og sinn söfnuð bezt, þó hann gæfi honum aðra stoð í staðinn, sem sé trúarhrokann. Af þeirri afmennsku-öldu drekkum við lengi, og vorum ekki hraustir fyrir.

Þökk fyrir greinina þína í „Kringlu“ núna, um þýðingar hún er góð og réttmælt. Mér þótti vænt um líka, vegna Jakobínu. Hún ein þýðir sem skáld, að svo komnu. Svo er hún mér í minni, því ég kom heim til hennar snöggvast: Þessi litla, fagureygða barnamóðir, sjálf barn að útliti, innan um ljóðabækur, krakkana sína og kaffi-áhöldin. Ég skildi varla, hvernig hún lifði svo sumarglatt, fremur en fáein blóm, sem hún sótti út í garðinn, og stóðu þar undir beru lofti, þó vetur væri.

Fyrir löngu ætlaði ég að vera búinn að skrifa þér, bara til að láta þig vita, að mér þótti vænt um, að þið komuð. En ég hefi unnið úti við, allt sem ég mátti, fyrirfarandi, og nenni þá helzt engu inni, nema að lesa og liggja kyrr og — á sunnudögum — hafi ég frið — að erta ritstjórana á „Kringlu“ og „Kolu“ með einhverri firrunni, og vel þykist ég [hafa] gert við O. T., lagt honum til „texta“ í tvo-þrjá „leiðara“ og ekki uppiskroppa enn. Annars bið ég að heilsa honum — í alvöru. Það er enginn ýgur í mér við hann — bara leikur. — Afmælisdaginn minn ætlaði ég að halda helgan og skrifa þér þá, enda lauk ég við að hlaða seinasta kornstakkinn okkar kveldinu áður. En ég fór til Innisfail. Þann dag var Jóný dóttir mín — ekki telpan mín, sem þú sást hér heima — skorin upp í Innisfail-spítalanum, sökum botnlangabólgu, og við hjónin vórum þar á næstu grösum á meðan. Ekki er ég dagvitjari, en í hug mér kom, að þetta skyldi koma fyrir *einmitt þenna dag*. Ekki minnsta hvarfl að fá því breytt þá, sem hefði eflaust vel getað. Mér fannst ég eiga deginum gott eitt upp að inna, og getsök að gruna hann nú, en viljugur að kasta tólfunum um hvað sem vera yrði þann dag, engu síður en annan. Uppskurðurinn tókst vel. Telpan er að rétta við og ég má flytja hana heim, ef til vill og veður leyfir á morgun.

Fund héldum við hvorug-megin menn (Non-partisans) í Innisfail nýlega. Þar var Skriðbjörn (Washburn), sem þú sást hér, og Örvar (Bill Irvine) Hjaltlendingur og Kinna (Mrs. Mc Kinney) þingmaður, í kristilegu kvenna bindindi o. fl. Kinna er mælsk og skörungur, en eftir stjarnfræðireikningi ögn minni líkami en Bríet okkar í Reykjavík. Við kvöddumst með innilegu handabandi — kannske með kossi næst. — Við Örvar þekkjumst ögn og mér er hlýtt til hans. Ég held hann

drepi sig fyrir tímann, sí-lesandi, sí-hugsandi, sí-skrifandi, sí-ræðandi á pöllunum og mest um örðug efni og óvildarsæl — frjálsari trúarbrögð, betra mannfélags-fyrirkomulag. Greyið, húsið hans með 4 börnum var nú í sóttverði, sökum mislinga. Fær aðeins að líta inn um glugga, þegar hann kemur heim á flakki sínu.

Heilsaðu heimili þínu frá okkur og vertu blessaður.

Vinsaml. Stephan G.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerville, Alta, 1. nóv. 1918.

Góðvinur. — Ég sendi þér þessar línur, bara til að láta þig vita, að ávísanin kom með góðum skilum. Beztu þakkir! Þó mér sárni, að ég mun því aldrei orka að borga í neinu alla þína fyrirhöfn og vináttu við mig, hefi ekkert til í það, nema von um það, að þú einhvern veginn „hittir sjálfan þig fyrir“. Telpan mín, sem upp var skorin, er nú komin heim fyrir nokkru og er að hressast, en ekki albata þó, sem von er, eftir allt volkið. Öll Alberta plástruð með „spanskflugunni“ Verst víst í bæjum og þorpum, enn sem komið er. Blöð og læknar segja sem fæst, hlaupa-sögurnar ganga um með svartadauða. Í Innisfail hafa 15 veikzt og einn dáið úr „flugunni“, enn sem komið er. Í Red Deer voru sögð 30 sóttartilföll nýlega. Enginn veikur enn af þessari veiki í Markerville, né í grenndinni, svo ég viti.

Tíðin ísköld.

Líklega er það „Tímarit“ þitt, sem „Voröld“ getur um, að út eigi að koma um nýár næst. Ég óska því góðs gengis. Það hefi ég hlörað seinast af kirkuþingsbræðingnum, að á því standi, að „Búðin“ setji upp, að sú „kristilega lútherska-evangeliska“ endurskíri sig til fóstbræðralagsins. En hver kom upp með það? Jafn þýðingarlaust og það er fyrir merg málsins, eins vandræðalegt er það fyrir þá gömlu að ráða fram úr svona örðugu meinleysi — hún sem aldrei haggar bókstafnum, að fara að stafa nafnið sitt, fornheilagt, á annan hátt en áður! Það er augljósari vansi en önnur áttaskipti fyrir þann flokk, sem hengir hatt trúar sinnar á orðin. Ég get varla skilið, að hendingin ein, trúar og tilgangslaus, hafi gerzt svo ráðkæn að finna upp á svona „tafsamri leið til Tipperary“.

Hér eru nú allir mannfundir fyrirboðnir, skólum lokað,

kirkjur allar orðnar eins og lútherska kirkjan á Markerville: yfirgefnar. Einir sjö mega saman koma, líklega svo, að „sá óhreini andi“ geti þó æfinlega fyllt töluna.

Ég var nýbúinn að senda þér línu, þegar bréfið þitt kom. Sperri því tungu fyrir tennur í þetta sinn. Blessuð og sæl öll, og ég óska, að þið búið í Skinþúfu, svo engillinn gangi fram hjá.

Vinsamlega Stephan.

*Jónas Hall.* Markerville, Alta, 26. nóvember 1918.

Jónas minn. — Ég kem hvorki til að rífast við þig nú né segja þér fréttir né til að þvaðra, bara að biðja þig bónar. Svo er mál vaxið: Sigurður Sigurðsson, búfræðingur og skólastjóri á Hólum í Hjaltadal, bað mig að reyna að útvega sér trjáfræ frá Alaska, eður þar í grennd, enga vissa tegund, aðeins af viði, sem þar yxi og gagn er að, sem flestar tegundir, og að latnesku nöfnin („bótanisku“) fylgdu hverri um sig. Líka veit ég, að gott væri, að hæðin yfir hafflöt („Altitudin“), þar sem þau spretta, væri sögð. Ég hefi reynt við búnaðardeild Alberta. Hún hefir ekkert, — vísar mér til Ottawa. Hefi skrifað þangað, en er ósvarað enn. Reyndu nú fyrir mig við Bandaríkjastjórn með þetta. Hún stendur þar bezt að vígi. Ef nokkuð fæst, sendu *beinlínis heim* til Sigurðar. Ég skal jafnvel borga fyrir það, eitthvað sanngjarnt. Reyndu nú þetta fyrir mig, þó það taki þig heila öld. — Skrifa bréf til ykkar seinna.

Vinsaml. Stebbi.

*Jón Jónsson frá Sleðbrjót.* Markerville, Alta, 28. nóv. 1918.

Góðvinur. — Vel á minnzt og meðan ég man: Nú ætla ég að gera það, sem ég hefi oft hugsað mér áður, en allténd hefir fyrir öðru þvaðrazt í útideyfu, og það er að þakka þér, Jón minn, fyrir fallegu lýsinguna þína á Mývatnssveit í kveðju þinni til Sigurgeirs frá Reykjahlíð. Sem sé hefir mér fundizt ég skulda Mývetningum það, að ég segði eitthvað fallegt um sveit þeirra og fólk fyrir framúrskarandi fagnaðarviðtökur í fyrra, en engin tök fundið á því, af því líka „Gjallandi“ heitinn hefir gert það svo vel og kunnuglega, heimamaðurinn. En,

ég þakka þér fyrir þína tillögu þar, mér finnst þú hafa leyst mig af hólmi.

Svo skal ég fljótt fara orðum um „Voraldar-vandræðin". — Ég er þér alveg samþykkur um kosti og lesti ritstjórans. Hann er vandræðamaður að sumu leyti og blaðið handaskömm oft og einatt. En hvað um það, eins og á stendur, verður maður að draga úr því, en ekki fylla hinna flokk. Takist hinum blaða-Heródesunum ekki að myrða hana „Voröld" á fyrstu jólunum, ætti hún að skrimta af, og þá þarf að segja Sigga og „Voröld" vingjarnlega til syndanna og vita, hvort ekki er hægt að koma honum svo í skap, að hann hafi hemil á einhverju almennu máli, en kasti ekki höndunum til alls, og æpi bara. En — enn má maður engan óvinafagnað gera. Annars þekki ég aðeins einn mann af „Voraldar"-félaginu, Arngrím bróður „Tomma" og meira en jafnoka hans að greind, frjálslyndi, og ég held drengskap líka, þó aldrei verði hann ráðherra. Honum treysti ég, allt sem hann orkar til. Á ýmsan hátt hefir „Voröld" fengið frá mér einum $ 20.00 í peningum, þó nafn mitt standi þar hvergi sem yfirskrift.

Þá er nú fossamálið heima, sem þú hugsar svo mikið um. Jú, þeir verða að miklu gagni, vonandi. Ættu allir að verða landseign. Það er hægt að gera með þá seldu, og í einstakra eign líka, með því að leggja svo háan skatt á þá, fyrir að vera *látnir liggja óræktir,* landinu til tjóns. Leigja svo til 25 ára aðeins, talið fyrst frá verksmiðjunni gagngerðri, með forgöngurétti til langframa-leigu, eftir samningum. En yfir tekið finnst mér eitthvað æfintýra-kynjað við þessa íslenzku fossaspádóma, einhver stór-þjóða-stóriðnaðar-gróðadraumur einstaklings-brallsins lita þá, fremur en „landsins gagn og nauðsynjar", og ég hefi ekki neina vissu um, að það sé annað en loftkastala-litur. Það er sagt, að Ísland sé sérstaklega þessari orku gætt, er og á að vera í slíkri eftirsókn. Getur verið. Hitt veit ég, svo fjarri er það, að önnur lönd mörg eigi sín vatnsöfl í vinnu hjá sér, að jafnvel Bandaríkin, þar sem allt á að vera á takteinum dugnaðarins, liggja [með] milljónir tiltækra vatnsafla ónotaðar og munu liggja lengi enn — og svo mun víðar. Ísland á sjálft engin stóriðnaðar-efni úr að vinna, þyrfti að flytja að, langleiðis og marg-meðfarin. Það meira en vegur móti auðfengnara afli, þó aldrei nema það væri í íslenzku fossunum. En þeir eru blessun samt, meira en nógur ylur og ljós

og afl í allar heimaþarfir og hvert það verkefni, sem í landinu liggur fyrir, eður reka kann á fjörur framtíðarinnar. Fossaverzlunin heima hefir verið, að ég held, og verður lengi enn, amerískt hluta-félag í flóns-námum, eða syndalausnar-sala á hamingjum fyrir handan gröfina. En svo vil ég sem minnst hampa minni hagsýni. Það situr sízt á hokur-bónda og hagyrðingi sem mér — en illa er mér við alla þessa hlut-tökugræðgi á þurru landi og gleypigirnina, sem höfrungast upp í vörina til að verða veiðin þessara fjörukarla, sem fiska á ginningarfíflsku almennings-ágirninnar.

Ekki veit ég, hvort sigur samveldismanna í Bandríkjunum er annað en óánægja með núverandi leiðtogana, sem komu stríðinu af stað, ráðaleysis hefnd innan þegjandi beiskju smámennanna við fagurgalann um frelsið og jafnréttið í þeim manni, sem til mestra valda hefir seilzt yfir öðrum og séð öllum sínum loforðum fyrir lökustum efndum, þeim sem hann hefir hampað fyrir augum almennings. En hitt er víst, rísi ekki almenningur upp í löndum sigurvegaranna og afstýri því, sem verða vill, endar þetta stríð, eins og önnur hafa gert, með tapi alþýðu á unnu frelsi sínu, í þeim ríkjum, sem ofan á urðu, en gróða fyrir sanna menningu og betra innbyrðis fyrirkomulag fyrir yfirunnu þjóðirnar heldur en hitt, sem þær áttu áður við að búa, hversu svo sem yfirborðin kunna að láta líta út. Kló ins hroka-heimska hervalds kreppir sig um sína eigin þjóð, þó það dragi hrammana inn af útlendum vígvelli. Ég á von alþýðu afturfarar Bandamanna-megin eftir stríðið, nema hún hafi vit á að kippa völdum úr ræningja höndum, *allra* þeirra, sem að stríði þessu stóðu, vægðarlaust. Engum, sem í það eggjuðu né með því stóðu, er til neins góðs trúandi í framtíð fólksins. Efinn er aðeins þessi, eru þessar þjóðir svo menntar og skynugar að kunna og hafa kjark til að drepa það illendi af sér, þessa stórlaxa stétt, auðugri og ráðríkari en nokkru sinni fyrr, samvizkulausum sigrum glæsta. Við sjáum til. Hitt er áreiðanlegt, um „allan hinn enska heim“, austan og vestan, voru strax í stríðs-byrjun hafin samtök meðal banka, stórverzlana og auð-aðals-manna af öllum hillum, til að hremma „heimsmarkaðinn“ eftir stríðið, útiloka óvinalöndin í þá kreppu, að þau kæmust hvergi að, fergja verkalýðinn með lögum og verndunartollum og stjórnarstyrkjum o. s. frv. Aðeins greinir þá á, hvernig tiltækilegast sé nú að sverfa

að yfirunnu þjóðunum, ef til vill sé bezt að hefta þær í herskatt svo háan, að þær rísi ekki undir, leyfa þeim að borga hann í vörum, því gull eigi þær ekkert til, og því sé óráð að útibyrgja verzlun þeirra. Svona liggur í þeim, sem löndunum stjórna, og *því verður framgengt*, nema alþýða rísi upp og reisi rönd við á einhvern hátt.

Jú, ég kynntist Lárusi H. Bjarnasyni, ef til vill betur en mörgum hinna. Vórum samferðamenn lengstum, alla leið frá Rvík til Akureyrar. Reyndar er hann allra bezti karl og gáfaður og góður Íslendingur. T. d. mjög hughaldið um, að fáninn fengist. Talaði aldrei illa um andstæðinga sína, sem einstaklinga. Höfðingi af „gamla skólanum“, svipúðugur og kaldyrtur, svo að múga-menn óttast, en er þó inn auðveldasti í þeirra hóp, ef þeir þyrðu að látast ekki sjá höfðingjann, sem utan á honum liggur. Ég gæti hugsað mér hann áþekkan Grími gamla Thomsen í ýmsu. T. d. um, hve íslenzkur hann er: Á Akureyri hittust þeir Kofoed-Hansen, skógarmaðurinn danski, sem marga vitleysuna gerir, þó annt sé honum um skógrækt. Kofoed fór að illyrða Ísl. fyrir meðferð skóganna fornu, eins og hans er venja. Lárus tók á móti. Sýndi fram á með ómjúkum orðum, að Kofoed talaði allt af litlu viti. Á þeim tímum og undir kringumstæðum Íslendinga, þá hefði slíkt verið alveg eðlilegt og mannadæmi, og gekk svo nærri K., að hann varð orðlaus. Að vísu féll nú þetta í góða jörð hjá mér, því þó ég harmi skógana okkar fornu, hafði ég hugsað um það mál, eins og Lárus varði það, eitt það, sem ekki gat öðru vísi farið, engin sanngirni, að Ísl. væru þar mörgum öldum vitrari en aðrar þjóðir. Fyrst sá ég Lárus á samkomunni í Rvík. Hann bauð mér heim, eins og hinir flestir. Sá grúi kom mér nærri í ráðaleysi. Ég lofaði að koma, þegar ég gæti. Ingibjörg systir hans bauð mér líka heim til sín í Kvennaskólann. Hún býr þar, forstöðukona hans lengi, ógift og skörungur um margt. Ágúst bróður þeirra bað ég að fylgja mér til þeirra á víxl, við tækifæri. Eitt kveld kemur hann heim til mín. Ég var viðlátinn í það sinn. „Hvort viltu heldur fara með mér til karlmanns eða kvenmanns í kvöld“, spyr Ág. „Sjálfsagt heldur til kvenmannsins — þar er ekkert undanfæri, þegar svona er boðið“, svaraði ég. Svo fórum við þangað. Þetta varð til þess, að ég sveik að koma til L. áður en að ég fór norður. Bjóst við að hafa móðgað hann eins og suma fleiri, sem eins

fór um. Kominn fram á Botníu á norðurleið, sá ég þar mann í þvögunni, sem mér fannst líkjast Lárusi. Hafði séð hann aðeins í mannfjölda áður og efaði, að ég þekkti rétt, og gaf mig ekki að. Hann rauk að mér snúðugt. „Komið þér sælir, Stefán. Þér þekkið mig ekki. Ég er L. B., og aldrei heimsóttuð þér mig.“ „Jú, ég reyndar þekkti þig, en trúði varla mínum eigin augum, af því ég bjóst ekki við þér hér. Heimsóknina varð ég að geyma mér sökum tímaleysis, þangað til ég kem til baka.“ — „Þér vilduð heldur heimsækja kvenmann en karlmann.“ — „Já, ég gat ekki annað, það var blátt áfram kurteisisskylda, eftir því sem boðið var, eins og þú veizt vel, prófessor.“ — „Jú, þér hafið þar alveg rétt fyrir yður.“ — Á Botníu bjó ég með stór-löxum landshornanna: prófőstum, auðmönnum o. s. frv. Væri nokkuð rætt, nema rabb, mótmælti enginn Lárusi — nema ég. Aðrir þögðu. T. d. hélt hann því fast fram — í ertni eða alvöru — að menn myndu drepast á í stríðum til daganna enda. Mannkynið væri svo úr garði gert, og því væri slíkt jafnvel nauðsyn. Ég hafði kynnzt þeim „kenningum“ áður, veit að andmæli eru örðug, því sagan mælir með stríðinu. Samt féllst hvorki mitt vit né tilfinning á hana. Ég gegndi því Lárusi, eins og ég gat. Hinir þögðu, nema séra Jón gamli frá Stafafelli í Lóni — bróðir Finns í Wpg. — lítillega á mína hlið. Lárus „þérandi“, ég „þúandi“. Þannig fór oftar í öðru. Upp á Fljótsdalshéraði hætti Lárus loks við að „þéra“ mig, sögðu aðrir mér til, ég tók ekki eftir því. Hann var mér alltíð inn kumpánlegasti samt og sóttist eftir að vera í sollinum, þar sem fólk var að fagna mér, en sagði aldrei neitt, nema við mig einu sinni: „Ég hefi séð eitt, Stefán, þú kemst óskemmdur út úr allri þessari viðhöfn, þú metnast ekkert af henni.“

Þegar ég kom til Rvíkur aftur, kom ég til hans eitt kveld. Hann var lasinn. Dóttir hans lá. Hann er ekkjumaður. Býr svo að segja einn í stóru húsi sínu. Hann tók mér ið bezta. — Sveitafólk sagði við mig sumt: „Vænt þótti mér, að þú komst, Stefán, bara L. hefði ekki verið með, hann er svo drembilegur.“ „Dæmalaus vitleysa“, svaraði ég, „hann er bezti karl og ljúfur. Sé hann öðruvísi, er það ykkur sjálfum að kenna, þið eruð hræddir við hann og þorið ekki að koma fram eins og ykkur er eðlilegt og einfaldast.“ Nokkrum stundum áður ég sté á skip, hljóp ég upp að húsi hans, ætlaði að

kveðja hann. Húsið var lokað, enginn heima. Ég gekk til skips í stórri mannfylgd, og þröngin við höfnina var stór. Þar var gripið í handlegg minn og honum stungið undir annan. Þetta var Lárus, hann tók mig þarna fastan, leiddi mig fram og aftur um þvöguna, og hún vék frá. „Þú komst að húsinu mínu til að kveðja mig," sagði L., „og það var lokað." — „Já." — „Ég vissi það." Þakkaði mér svo hlýlega viðkynninguna. Hafði yfir vísu, sem bað Guð að gæta mín. Lárus er skáldmæltur vel, mest frá yngri árum sínum, en vill nú tæplega við það kannast. Svona skildum við. Verst þótti mér, að vísan datt úr mér aftur. Það steðja svo mörg áhrif að, þegar lagt er frá landi og fólki, sem sýndi manni öll gæði og stendur eftir þar, sem það fylgdi manni á fremsta hlunn, og ljósin í húsunum, sem maður kom eða bjó í, þekkir, eru að hverfa manni, hvert á fætur öðru, inn í kvöldrökkrið og fjarlægðina.

Jak. Thorarensen kynntist ég ögn, að yfirborði boðsgestalífsins aðeins þó. Hann er ungur maður, ljós á brún og brá, stórvaxinn nokkuð og breiðleitur, gildur og samanrekinn allur, alls ófeimulegur, en óflasfenginn í viðmóti og orði. Móðir hans (dóttir Gísla gamla í Fjarðarhorni í Króksfirði?) ól hann og systur hans Jakobínu, nú verzlunarkonu á Hólmavík, upp á vinnumennsku þar á Vestfjörðum. Faðir hans lítill ráðdeildarmaður, að sögn. T. d. hún var með Jakob kaupakona á Melum í Hrútafirði eitt sinn hjá Jósep (bróður Finns í Wpg. og séra Jóns í Stafafelli), greindar manni og ljóðelskum mjög. Honum kynntist ég, og honum fannst Jakob þá bara eins og aðrir krakkar, í engu öðruvísi. Nú er Jakob húsasmiður í Rvík og á þar hús, er þar í talsverðu áliti hjá menntamönnum sem skáld, og sveitungar hans fornu hreyknir af honum, að mér fannst, einkum frændur hans, þó hóflega sé. Ég kom heim til hans. Hann á konu unga og fallega. Hún var rétt risin úr rekkju, frá fyrsta barninu þeirra. Faðir hennar var henni týndur hér vestra. Ég spurði hann loks uppi vestur á Kyrrahafsströnd, undir ögn breyttu nafni. Hún bað mig þess, og mörg slík erindi var ég beðin fyrir hér og þar, og á endanum tókst mér þó að leysa þau öll og skila af mér heim. Ekki er á því að villast, að Jak. sé með efnilegustu yngri manna ljóðskáld[um] heima nú, annar en Davíð Stefánsson, þeirra sem á ber. Einkum er hann ádeilinn á aldarháttinn, frá

sjónarmiði þeirra, sem afskiptir eru. Annað kveður hann líka vel, t. d. kvæðið til mín, og ágæt erfiljóð um Skúla yngra Thoroddsen, í anda Gríms Thomsens, án þess þó að stæling væri í. Sem dæmi um, hvern hug menntamenn í Rvík hafa á honum, er þetta. Aðalnefndin þar, sem mér bauð, vildi fagna mér með kvæði, eins og varð, en var ekki ánægð með þann, sem til alls slíks er kjörinn og búinn, Guðm. Guðmundsson, en fékk Jakob til þess, þrátt fyrir það, að Guðm. líkaði miður, var mér sagt af manni, sem vissi og ég trúi vel.

Ef til vill er Davíð Stefánsson mest efni í afbragðs-skáld, á sína vísu, ef honum endist hamingja til. Honum kynntist ég ögn. Dagana, sem ég var á Akureyri, var hann þar líka og kom til mín við og við, því það var víst erindið. Kvæðið, sem hann flutti mér, vel og skörulega, er bæði frumlegt og skáldlegt, eins og allt, sem ég hefi heyrt eftir hann, og hann las mér þau nokkur í flýti. En hann er heilsutæpur og eðlilega óþolinn að skrúfast gegnum allan skólalærdóminn. Lá svo árum skipti í berklaveiki, er álitinn læknaður þó, en á nú við hjartaveiklun að stríða, grannholda og fölur nokkuð, en vörpulegur piltur, þó ímun dekkri en ljóshærður. Eitt dæmi var mér sagt af honum úr skólavistinni. Efnið í kvæði hans: *Sesar grætur* (þ. e. yfir bruna bókhlöðunnar, sem einhvers staðar er sagt frá í sögu Rómverja), hafði gripið D., þegar honum lá á að gefa sig vel við ensku, til prófs. Hann vakti við að kveða kvæðið, en „féll“ í enskunni daginn eftir. Mér var sagt, að D. ætti ögn örðugt heima. Hann er hvorki til verka valinn, sökum heilsubrests, né lærdómsmaður mikill, sökum náttúrufars hans til íþróttar sinnar. Móðir hans sögð greindarkona og mennthneigð, en orðin þeim iðkunum afvön, sökum anna og áhyggja. Faðir hans enginn andríkismaður. Hann kom til mín, þar sem ég bjó í Rvík, var þá á þingi. Hafði Jón heit. Trausta fylgdarmann. Erindið víst að minnast á D. „Sonur minn kvað kvæði til yðar, hvernig þótti yður það?“ sagði nafni minn. „Kvæðið er ágætt í sinni röð.“ — „Hvað haldið þér um hann sem skáld?“ — „Þetta, sem ég hefi sagt honum sjálfum og þeim, sem á hann hafa minnzt; hann er að mínu viti einn hinn allra efnilegasti yngri skáldanna ykkar. Mest furðar mig á einu um hann svo ungan, það verður hvergi vart vansmíða viðvaninganna á kvæðum hans, sem öllum hættir til á hans aldri: gloppur í góðum sprettum vel-

kveðandans.“ — „Jú, en hitt er örðugast, að honum gengur ekki að sama skapi við skólann.“ „Það er eðlilegt, en um leið varasamt mál, sem ekki má herða að honum, sökum heilsu hans. Sjáum til, jafnvel þeim, sem hraustir eru og bezt gengur, fatast einhvers staðar í lærdóms-kerfinu eitthvað, sem á illa við þá, og þurfa að neyða ofan í sig, þó ekki séu þeir skáldefni. Það mætti D. ekki gera, þó hann gæti, eins og heilsa hans er stödd.“ — Karl samsinnti þessu að vísu mjög glaðlega, og tók mér það ekki illa upp, en ekki er víst, að hann vinnist til þess alveg, ef hann sér ekki nema einn veg „til að komast áfram,“ eins og mér virtist suma gruna.

Nú er kominn 8. des. Þetta er hlaupa-hrip milli fjósverka — og þar við bættist — gestur — Jóhannes Stephansson — þú kannast líkl. við — búinn að vera hjá mér á aðra viku — eftirlét honum kró mína og skriffæri — hann að semja skáldsögu á ensku — fer um félaus og klæðlítill á öreiga vonum þess, að sér leggist til greiðasemi einhverra til að safna sér áskrifendum að óumsamdri prentun á óafloknu verki. Annars er það auma mæðan að hafa fæðzt með mörgum kenjum snillinganna, ef maður á aldrei að bera hamingju til að bæta fyrir þá með einhverju afreksverki, eins og þeir. Ég kenni í brjóst um J. S. Hann hefir hæfileika ýmsa, en alla óþroskaða og ráðlausa, nema ef einhver hending rekur sig á hann og hrindir honum í horf. Og — það er um þetta bréf mitt að segja, enn fremur, að ég fann það, að ég *skuldaði* þér allmikið, helzt 2 bréf, svo ég vona, að nú hafi ég getað yfirborgað þér þau svo *til leiðinda,* að þú teljir ekki til skuldar *hjá* mér fyrir það.

Tíðin sífelld óvenju stöðug blíða, á þessum tíma árs. Jörð alsnævin að vísu, en frostmildar nætur og sólskins-dagar lengstum. Flugu-veikin (land-far-sóttin) aðeins komin, enn, á 4—5 bæi íslenzka hér um slóðir, svo ég viti. 3 dánir, af íslenzkum ættum runnir: Níels Nilsen nokkur, hálfdanskur, allra hafa farmaður, að fornu fari, einhleypur, lenti hér til að bera beinin, fyrir nokkrum árum, kaupamaður í bæ eða byggð, oftast meðal innlendra. Og nú dáin hér tvö bændabörn, piltur og stúlka, uppalin hér og nýlega uppkomin, um tvítugt. Tveir eða 3 unglingar aðrir hafa lagzt, en sagðir í afturbata. Fjöldi innlendra hefir veikzt, og nokkrir dáið. Þó er

veikin talin væg hér enn, hjá því sem hún hefir verið á ýmsum stöðum öðrum.

Á þó bjáti á ýmsan veg
Svo unaðs-hlátur stirnar,
Veröld kát og vingjarnleg
Þér veri um hátíðirnar.

Vinsamlega Stephan G.

*Jónas Hall.* Heima. 14. desember 1918.

Jónas minn. — Nýlega sendi ég þér línu, viðvíkjandi trjáfræi frá Alaska, fyrir Hóla-skógar tilraunina. Er nú búinn að rekja fyrir allar æsar á stjórninni hér, að ekkert fæst, enda bjóst ég nú við því. Það er þá ekki nema um Bandaríkin að gera (eður einstaklinga), og ég hefi engin tök á þeim hér, slík sem þú. Ég sendi þér samt loka-svarið hér frá Campell. Ef þú skrifar „skógar-raftinum" ykkar fyrir mig, getur þú notað það fyrir „formála", ef þú vilt, það er ekki ólíkt eins og meðmælum frá þeim hér, og kynni að verða frekar sinnt, þess vegna.

Vinsaml. Stebbi.

*Jónas Hall.* Markerville, Alta, 30. desember 1918.

Jónas minn. —

Lítið nú í efni er,
Aðeins til siðar
Kem ég inn að óska þér
Árs og friðar.

Og til að þakka þér seinasta bréfið. Er nýbúinn að senda Jonna línu og rugla allt, sem ég mundi frá heimahögum. Ekkert borið við síðan, enda allar fréttir utanhéraðs í pukri og pestarhömlum.

Nei, ég hefi aldrei fengið línu frá Guðrúnu Erlings., síðan ég kom að heiman, en hefi skrifað henni einu sinni. Viltu segja henni það, með kveðju minni, næst þegar þú skrifar henni? Mér lízt það, sem þú stingur upp á, tiltækilegust hjálp við hana hér vestra, ef það vinnst á til muna, hjá jafn bók-

blindum lýð eins og við Vestmenn erum orðnir, einkum þeir yngri, og útbullaðir í dagblaða blaðri eintómu, þar sem flestu er öfugt snúið af grænjöxlum, sem ganga kaupum og sölum og þjóðin tekur sem andlega leiðtoga. Ef ég get hlynnt nokkuð hér að sölu á verkum Þorst. heitins, skal ég gera það, þegar ég fæ að vita, hvað upp kemur hjá ykkur í því máli. — Svo, þér fannst friðurinn koma á óvart. Já, að vísu, á okkur einfalda alþýðumenn. En snemma sumars var New York ykkar blind-full af veðmálum stórlaxanna, tíu móti einum, að friður kæmi í haust, boðið af þeim, sem hlustir hafa við hásætin. Lýð og löndum ykkar stórveldanna er stjórnað alveg á sama hátt eins og svína-markaðinum ykkar í St. Paul, hverju sem þið trúið nú um það. En hvað um það, ég fagna þessu þó, að þið, kunningjar mínir, sluppuð af hendingu við að verða sláturfé Bandaríkjanna, meira en varð.

Í gær var hér hríðarveður, en ekki harðviðri þó. Í dag sólskins-heiði aftur, en morgunsvalt nokkuð. — Grettir átti „veg til lundar“ á flótta sínum forðum. Nú á ég „feril til fjósa“. Sendi þér og Sigríði löppina kalda um langan veg, með þökk minni fyrir allt gamalt og gott.

Vinsamlega Stebbi.

*Baldur Sveinsson.* Markerville, Alta, 13. jan. 1919.

Góði tryggðavinur. — Bréfið frá þér, ritað 15. des. f. á., barst mér í hendur hér heima 9. þ. m. Ég var þá staddur frammi hjá heimafólki mínu. Aldrei þessu vanur, braut ég ekki bréf þitt upp strax. Konan fór að minna mig á það, en ég skeytti því ekki. Ég hálf-kveið því. Svo gekk ég inn í kimann minn hérna og las bréfið. Ekki er þetta svo að skilja, að ég misskilji sjálfan mig á þann hátt, að ég þykist hafa spámanns-anda. Þetta var eins eðlilegt og hversdagslegt og verið gat. Stríðið er það, sem ég hefi átt bágast með að fyrirgefa mönnunum. Mig grunaði, að pest fylgdi því. Það var gömul reynsla. Þegar veikin komst til Íslands, flaug hugur minn oft heim, kom oftast fyrst við á Ísafirði, þaðan til Rvíkur, út um allar byggðir, sem ég þekki þaðan, í húsin, sem ég kannast við síðan í hitt eð fyrra. Vóru þar allir frískir og á ferli enn? Blaðafréttir voru fáar, og óljósar. Snemma var veikin sögð á Ísafirði — en *engir* dánir úr henni. Mér var það góð frétt, en

grunsöm. Ég hugsaði ykkur alltaf á Ísafirði, eins og síðast sem ég vissi. Af *þessu* hikaði ég við að opna bréfið. Hefði það eins orðið, þó það hefði fært aðrar fréttir, eður verið frá einhverjum öðrum, þeirra sem ég kynntist og er hlýtt til.

Vel skil ég tómleikann, sem þið eigið nú við að búa. — Jónas bað vin sinn að „harma sig þreyttan“. Honum hefir sjálfum víst unnizt það. Ég hefi unnið mig kúg-uppgefinn, sem mest ég gat, hendur og heila, þegar svona hefir bjátað á fyrir mér. — Kunnað engin ráð önnur með mig. — En sitt hæfir hverri lund.

Ég legg hér með örfá erindi, rauluð eins og vöggu-vísurnar okkar. Annars er efnið í þeim allt úr bréfinu þínu, og ég er bæði sneyptur og óánægður við sjálfan mig, og hafa ekki getað farið með það betur en þetta, því ég segi ekkert eins innilega-ljúflega eins og þú. En hví er ég þá að þess[u]? Bara af því mér finnst, að það eina, sem gert gæti ögn hlýlegra kringum mann í svona auðn, kynni að vera það, að maður yrði þess þó var, að þrátt fyrir allt séum við mennirnir svo góðviljað vanmætti, að við þessu hefðum við hlíft hver öðrum, hefðum við megnað.

Í þetta skiptið skrifa ég þér ekki annað. Geymi hitt, þangað til ég fæ aftur línu frá þér, og það á ekki að vera fyrr en svo, að þú þurfir ekki að taka hana nærri þér.

Berðu konu þinni, bræðrum þínum, og systrum hennar, kæra kveðju frá mér. — Vertu svo blessaður, Baldur minn.

Þinn Stephan G.

*Sigfús Blöndal.* Markerville, Alta, 20. jan. 1919.

Hr. Sigfús Blöndal. Góðkunningi. — Að áliðnu sumri síðast barst mér gjöf frá þér, bók og kveðja. Það var „Drottningin“ þín og hirð hennar. Hafðu beztu þökk mína fyrir — ekki einungis þessa hugulsemi þína, heldur alla ljúfmennskuna, sem þú sýndir mér sífellt í þessari hér og þar viðkynning okkar í Reykjavík í hitt eð fyrra. Mér verður hún minnisstæð.

Þú mæltist til, að ég nefndi það við „vestan-blöðin“, að þau framvegis sendu þér tvö eintök sín hvort. Þetta gerði ég, óðara en ég komst til Winnipeg, að „heiman“ á heimleið. Hitti ráðsmenn Heimskringlu og Lögbergs, túlkaði þetta sem bezt ég

gat. Báðir tóku því vel. Ráðsmaður Lögbergs kvaðst ekki vera einráður um, en skyldi mæla með því og leita leyfis yfirvalda sinna. Hinn, sem hirðir Heimskringlu-plöggin, lofaði þessu fyrirvaralaust, og báðir skrifuðu það niður í minningar sínar. Hverjar efndirnar urðu þó, er mér ekki kunnugt. Sá endinn á erindinu er hjá þér. En, ég hefi grun um, að sá hafi ef til vill brugðizt, sem betur tók á, en veit það þó ekki. Finnst mér það ógeðslegt, ef sútað er út í svo smátt, hvað sem loforðum við mig líður.

Þá kom nú upp þriðja blaðið vestur-íslenzka árið sem leið: „Voröld" í Winnipeg. Hún kom í heiminn á orustu-öld, og blaða-völdin okkar, þau eldri, vildu helzt kodda henni sem yngstri með kafbátahernaði. Slík tanntöku-veiki var ekki vottur til langlífis, eins og á stóð. Samt er hún nú að verða ársgömul. Nýlega hefi ég skrifað henni og beðið hana að koma til þín, í tvöföldu roði líka, hafi hún ekki áður gert það.

Svo óska ég þér æfi-gæfu og árgæzku, Sigfús, og reyndar öllum Íslendingum í Höfn með þér — en, kann fáa til að nefna, þekki engan þar, það ég veit, nema lítillega unglingspilt úr Rvík, Aðalstein Kristjánsson, að mig minnir. Hann sigldi á háskólann, haustið sem ég var heima. Honum bæði ég að heilsa, sé hann viðlátinn og ég muni nafn hans rétt.

Vinsamlega Stephan G. Stephansson.

*Grímur S. Grímsson.* Markerville, Alta, 21. jan. 1919.

Grímur minn. Gott ár og gleðilegt! — og í spaugi:

Styrkleik og með stilling björns
Styðji þig herrans kraftur,
Þó að mannýg blótnaut Burns
Blóðug gangi aftur.

Nýl. fékk ég frá þér *Fair Play* og *Eye Opener*. Þökk. — Vissa varla áður, hvort þú varst við lýði, eður í austri eða vestri. Hitti „Bill" Irvine í Innisfail í haust og spurði hann eftir þér. Hann hafði þá ekki hitt þig nýl. Svo veit enginn, hvar né hvenær „flugan" kann að fljúga í fólk, kannske til óbóta. Ég býst við, að þú vitir um hegðun hennar hér —. „Við ána" hafa engir dáið enn, veikzt hefir „Beli" Goodmann, „Bob" Wilson, „Andy" Hansen — tengdason Auðna-

Bjarna, og „Stebbi“ Maxon. Enginn enn á *mínum* heimilum. Fanný eignaðist strák á nýársdag. Ég er orðinn fjósareka aftur.

Í Wpg. er „gamla guðsríkið“ alltaf að ljókka í augum lýðsins. Það og únitarar bjóða í sál „nýju guðfræðinnar“, hvort í kapp við annað, og óvíst enn, hvort hreppir boðið, en ræðst af nú bráðlega. Kirkjufél. ætti að vera skyldugt til að koma heim með öngulinn í ... Björn svíkur báða, trúmenn og vantrúaða, „holt og bolt“. Annars sérðu í blöðunum allt, sem gerist, undir og ofan af. Þessir hérna lifa nú helzt af því, sem heima er sagt, flestu — nema því bezta. Og hér gerist ekkert síðan J. B. varð „ókennilegur fugl“, og það segir hann, að engir verði, aðrir en þeir menn, sem mikið sé í spunnið. — Vertu svo sæll, Grímur minn, og þakka þér kærl. fyrir hugulsemina liðið ár.

Þinn Stephan G.

*J. Magnús Bjarnason.* Markerville, Alta, 22. jan. 1919.

Góðvinur. — Hátíða-kveðju frá ykkur hjónunum hefi ég fengið fyrir all-löngu. Góða þökk fyrir að muna mig svo vel, og vegni ykkur ætíð vel.

Ég á ekki hendi minni nær nema óskreyttan bréfa-pappír, sem ég veit, að þið takið ekki til, þó þessar línur flytjist ykkur á.

Hefi hlerað, að eitthvað sé í bruggi með útgáfu ritverka þinna, Magnús. Óska, að það heppnist.

Lystarlaus orðinn á sætu-þykkni,
kekkja-graut, fyrirbrigðum milli skána
og skófna, sem mest tíðkast, er mér hvíld að koma
í „Rauðárdalinn“ þinn og fá jólabrauð.

Vinsaml. Stephan G. Stephansson.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerville, Alta, 23. jan. 1919.

Góði vin, séra Rögnvaldur. — Þökk fyrir bréf nýkomið, innihald þess allt, og skilaðu kveðju minni og þökk til Hjálmars Gíslasonar líka fyrir skilvísina. Þetta frá ykkur hefir orðið til þess, að mér varð mögulegt „að grafa fé í jörð“. Sem sé,

ég keypti mér kjallara-ofn (Furnace) að Eaton ykkar, holaði innan hólinn undir kofanum hérna. — „Holur mun hóll und býli, haugur orpinn of draugum“, kvað Hvala-Gosi, sem gaf út eftir sig líkl. fyrstu ljóðabókina, sem ég las. Hann var Eyfirðingur og uppi á prentsmiðju-öld Akureyrar, þegar hún hófst nýja-brumlegust með „Norðra“ og „Fróðlegu ljóðasafni“. Jæja, kráin mín er rýmri og notalegri fyrir vikið og kofinn allur, og minn eldiviðar-áburður minni en áður, en þó hálf-sakna ég gamla, ljóta ofnsins míns, sem hérna var. Það hafði svo lengi lifað í okkur saman í vetrarhörkunum. Nú er hann í annarri afþilju, því enn ætla ég að eiga hann.

Ég hefi hálf-kennt til um þig, stundum, þegar ég sá í blöðunum, að þú varst á þönum í jarðsöngva jafnaldra þinna og kunningja kannske. Það eru ferðir, sem maður fer, en óskar, að „frá sér væru teknar“: líkfylgdir kunningja sinna, jafnvel þeirra, sem maður hefir ekki allténd setið á sárshöfði við, hvað þá hinna. Gott, að þitt hús slapp þó vægilega við veikindin, enn sem komið er. Markerville-hverfið hér hefir enn sloppið byggða bezt hér í nágrenni, og er þó pestin talin létt kringum Innisfail. Hér hafa sárfáir veikzt af Ísl., og enginn dáið. Læknir okkar, Dr. Turner, telur okkur landana fyrirmyndarfólk að verjast veikindum: „You people have the right idea about it. Others will not do anything of what we tell them.“ Og við landar erum að verða „hospítals-gersemi“ hjá þeim í Innisfail, þetta ár, fyrir að vera beztu sjúklingarnir með að verða veikir, hugprúðir við hnífana þeirra og — borga. Þann orðstír eigum við botnlanganum mest að þakka.

Ég bíð með talsverðum áhuga eftir því hvern veginn sál Tjaldbúðarinnar fer. Í minnisvarðamálinu er ég svo öfugur, eins og allt stendur enn, að ég er á fremsta hlunn með að reka í það hornin í „Voröld“. Tvennt hlífir mér enn við því: Veit ekki um ályktanir í Wpg. — og vildi ekki spilla fyrir Einari Jónssyni, sé honum nokkur akkur í því, þó ég efist um, að það sé.

Fékk í gærkveldi bréf frá J. mínum Hall, mestmegnis um Guðrúnar-kviðu okkar Erlingssonar. Skal gera hvað ég get hér. Á tvo vísa, Jón Sveinsson og mig. Bið að heilsa Hall

mínum og sendi honum línu seinna. Fyrirfarandi hefi ég verið að reyna að róa undir það í læmtingi, að þau tvö íslenzku félög, sem hér eru ein til: Lestrarfélagið og Kvenfél., gæfu sig fram við „Þjóðræknina“. Hvað verður, veit ég ekki. En ef úr því verður, verður það „af því ég fór að suða“. Alls staðar þarf einhverja títuprjóna, sem stinga svo, að einhver vakni, þó ekki sé nema við illan draum. — Vertu blessaður.

Þinn Stephan G.

*Jónas Hall.* Markerville, Alta, 17. febrúar 1919.

Jónas minn góður. — Nýlega kom bréf þitt með svarinu frá Washington um trjá-fræið, sem ég endursendi þér hér með. Mér þætti bráðvænt um, ef þetta tækist, og því er náttúrlega nærri treystandi, því er tekið svo liðlega. Bezt er, ef nokkuð fæst, að það sé sent beinlínis af búnaðardeildinni sjálfri, eins og hún býður að gera, og áríðandi, að Sigurður skólastjóri fái hvert kynferði út af fyrir sig, merkt með *latneska nafninu* á trénu, sem það bar og skógfræðin hefir gefið því. Þó ekkert fræ kunni *nú* að vera fyrir hendi hjá Alaska-deildinni, þá er að biðja um, að því sé safnað og sent nú á *næstu sprettu,* í sumar eða að hausti. Þetta ætla ég að biðja þig um að ala á við þá. Mér er annt um, að þetta tækist, ef verða kynni gagn að, og þakka þér kærl. fyrir þína fyrirhöfn, það sem orðið er. Viðvíkjandi sölu á verkum Þ. E. — geri hvað ég get, en verður líkl. lítið. Verð „Þyrna“ er hóflaust, sem von er, gerðum úr garði á versta tíma dýrtíðar, og hefði að líkindum orðið happasælla að draga það ögn enn. Mér er sem ég sjái „landann“ læðast með lúkuna ofan í brókarvasann eftir fimm „hrútum“ („bucks“) til að borga með annað eins þykkildi og „Þyrnar“ munu sýnast í kápu, og satt að segja, mér blöskraði það ekki nóg til að úthverfa mér yfir því. En nú verður því tjóni að taka. Sölulaun eru líkl. $1/5$ eða $1/4$ öllu heldur. Eina ráðið væri, fengist einkasala og einhverjir tækju að sér að selja í hverri byggð með þeim afslætti til kaupenda, sem sölulaun næmu, en ynni þetta sjálfir fyrir ekkert. Ég skyldi taka svo við minni byggð. Fréttalaust. Þykir vænt um, hafi „Tjaldbúðin“ ekki enn

„glatað sinni sál“ til kirkjunnar, sem safnar norður. Veit annars ekkert ljósara en það litla, sem lak út um og út í blöðin. — Það voru Kr. og L., sem sendu þetta, sem þú fékkst frá „Christie Grant“. Kristinn ritaði þér bréf líka og heimilaði þig með réttu heiti hússins hans Steingríms sonar þíns í Wpg. Þá vissi hann þig þar. Berðu kveðjur vandafólki voru, og vertu blessaður.

Þinn Stebbi.

*Dr. Jóhannes P. Pálsson.* Markerville, Alta, 2. marz 1919.

Góðvinur. — Í gærkveldi barst mér bréf þitt, og skal ekki undan dragast, að ég anzi því, enda er því í fáum orðum fljótt til að svara —: að þeir menn, sem segja, „að þar sé ég lifandi kominn“, hafa alveg rétt fyrir sér, ef þeir eigna mér smávegis í „Voröld“, sem merkt er með mínu rétta, en ekki fulla, nafni: Stephan G—. Í þeim reytum á ég hvert orð og hugsun, nema prentvillurnar, og hefði gert þær eins úr garði fyrir 20 til 30 árum síðan, hefðu viðburðir þá verið sömu og nú.

Vinir mínir á Íslandi, nærri allir, og margir hér, hafa stytt nafnið mitt ofan í Stephan G. í viðræðum, og einnig í riti stundum, svo það er á allra manna vitorði, sem láta sig það nokkru varða, hver pilturinn sé. Við nafnið er mér vel, „góður er að því nauturinn“, og gefið mér af vinsemd, og nauðugur hefi ég löngum skrifað mig Stephansson í staðinn fyrir Guðmundsson, sem ég ætlaði að halda í hér í álfu, en varð að hætta við, til að firra mig leiðinlegum vafningum og flækjum. Því nota ég þessa skammstöfun stundum, nú orðið, síðan hún festist við mig, bæði undir blaðalínur og bréfa. Veit, að enginn rasar um það í alvöru.

Að þetta rusl mitt í „Voröld“ „kemur ekki við þig“, er ekki ótrúlegt. Fyrst og fremst er það eflaust þess ekki umkomið, annað hitt, forlög minna orða hafa alla tíð verið þau, að þau hafa engan byr átt, fyrr en þá eftir svo sem 10 til 20 ár, og ég vona, að eftir önnur 10 til 20 ár, eða fyrr, verði þau öll gleymd, því nýrra, sannara og betur sagt hafi gert þau úrelt. Það var í fyrstu hending ein, en ekki áætlun mín, að svo mikið er prentað til eftir mig. Ég sé stundum eftir því öllu, en engu sérstöku. Hefði jafn-rólegur getað gefið

eldinum það allt, að mér sjálfum frágengnum, ef unnt hefði verið.

Nú hefi ég þá sagt þér eins og er, góðurinn minn. Þakka þér bréf þitt og vinsemd, og kveð þig í einlægni —

Vinsamlega Stephan G.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerville, Alta, 7. marz 1919.

Góðvinur. — Nú geng ég í túnið hjá þér undir böggum, eins og áburðarhestur, og hefi þó varla tíma til að lofa þér að átta þig á, hvað veldur, annars missi ég af póstinum. En í byrðinni er þó ekkert nema þjóðræknis-órækjur mínar, og sérð þú kannske, „hvernig öllu er varið", ef þú nennir að leysa klyfina upp. Aldrei geta þeir á sér setið, án þess að söðla ofan á hvert gott málefni og almennt einhverri ill-fylgju eigin-hróssins! Minnisvarðamálið núna gert til að grugga með og fiska í.

Við héldum fund hér og út af honum ber ég þessa „bagga Hildar" inn til þín. Séra Guðmundur Árnason fær fundar-gerðina frá Jóhanni Björnssyni, sem var skrifari. Ég klóraði upp úr minni mínu flughasts-fregn um fundinn á eftir. Hefi lesið skrifara hana og borið saman við hans „kroniku" og veit, að ekkert hefi ég aflagað. Þetta sendi ég þér, eins og það leggur sig. Bið þig að bjóða „Voröld" það, ef hún vill. Skriftinni er illa frá gengið, en ég afsegi að af-blýanta hana. Hefi ekki tíma til. Samþykktirnar einar eru blekaðar, eins og ég bar þær fram á fundinum.

Óauðkennt umslag legg ég með. Í því eru hendingar, sem að mestu leyti þutu í mig, meðan ég var að moka fjósið í fyrra-dag. Bara þær væru ekki þefverri vegna þess en skattskild-ingurinn hjá Vespanius — eða hvern skrattann sem hann hét nú: Rómakeisarinn, sem lagði skatt á allt, eins og „Onion"-stjórnin okkar núna, og á h.... koppana líka. Við hendingarnar máttu gera sem þú vilt — en eiginlega duttu mér þær í hug sem kveðjuskyn til þingsins ykkar í Winnipeg hinn 25. næstk., því lengra næ ég ekki til núna.

Kalt hefir verið, en er blítt í gær og dag. Veikindi engin að svo stöddu. Markerville alltaf sloppið vel við þau, til þessa tíma. Ögn er gaman að, hvernig við byrjum á að vera „þjóð" hérna, utan þess sem fram kom á fundinum. Við brosum

að því, þegar við finnumst næst. Nú verð ég að líta undan og þegja. Berðu kveðju í bæ þinn. Blessaður og sæll!

Vinsaml. Stephan G.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerville, Alta, 9. marz 1919.

Góðvinur. — Í gær sendi ég þér fulla skjóðu af *scraps of papers,* og get ekki látið þig í friði í dag heldur. Ég sendi þér vísur. Það má syngja þær við lagið: „Heyrið morgunsöng á sænum", sem er þjóðsöngur Norðmanna: „Ja, vi elsker dette Landet", þó hendingarnar rími ekki saman, sú fyrsta og þriðja, eins og í hinum. En, af því að tvíteknar eru tvær síðustu hendingar hverrar vísu og lagið lengt um tvær nótur í síðara skiptið og seinustu hending, þarf að tvístíga eitt orð í henni, eða bæta nýju orði inn í hana og lengja á henni rófuna. Það gerði ég á seinustu vísu á blaðinu, sem ég sendi þér. Mér þykir betur fara að skjóta inn í orði en að éta eftir sér. Að gamni mínu sendi ég því „rófur" á öll erindin.

*Jón Jónsson frá Sleðbrjót.* Markerville, Alta, 3. apríl 1919.

Góðvinur. — Jú, ég „gratulera", að þú fékkst dreng þinn heilan á húfi úr Heljar greipum. En ekki er ég samt búinn að heimta neinn þeirra nágranna minna (og útboðslögin náðu aldrei mínum eigin), en óskemmdir og heilir voru þeir síðast þegar fréttist, á Englandi. Þvældust hér fyrir þeim þangað til í sumar, sem leið. Ég kvaddi þá, ótilkvaddur, hér Íslendinga-dag seinast, með sögunni okkar fornu um drenginn, sem dísir vógu, og óskaði þeim í nafni byggðar minnar, að nú yrðu inar níu hvítklæddu hamingju-dísir betri siðar, friðardísir Íslands-gæfu, fyrri á vettvang en inar svartklæddu, svo aldrei kæmu þeir í orustu. Þetta hefir gengið að óskum enn. Vopnahlé samdist þrem dögum fyrr en átti að bæta þeim í reksturinn til Frakklands, en úti á þekju allra, nema séra Péturs Hjálmssonar, talaði ég þá, eins og oftar.

Lengi hefi ég ætlað að senda þér línu, en aldrei komizt til.

Ótal gerast auka-spor
Á Ómaksstöðum,
Að eiga bæði í fjósa-for
Og flór í blöðum.

En ekki er ég þó að kvarta undan því, ég ligg þar eins og ég bjó um mig sjálfur og bjóst við, og líklegt, að gömlu hjúin dragi enn lið að sér af Árnum og Ottensonum, H-um og Skinnaþórum. Verst hvað þeir velta út um allt, svo það er sá flækingur fyrir mann að komast fyrir þá, en gaman er það þó.

Ég las það, sem þú lagðir til þjóðræknismálsins, og líkaði vel. Er á sama máli og þú, að bæði skylda og réttur beri til þess, að forgangan væri heima, en hygg það ótímabært í bráð, ég held það blési illa í bólið mikillætisins okkar vestanhafs að teljast ekki fremstir í flokki — en, að líkindum verður hitt uppi á tening með tímanum og í verkinu, verði nokkuð af. Mínar tillögur hefir þú séð í „Voröld", það sem þær ná. Áherzlumál mitt er það *eitt í byrjun*, að þriðja kynslóðin okkar hér vestra læri íslenzku og kynnist menntum okkar og mönnum heima. Takist það ekki, er allt annað hégómamál, fyrr eða síðar. Af Winnipeg-fundinum hefi ég enn ekkert frétt. Illt, að þú skyldir ekki komast, og þó verra, að það var sökum veikinda. Vona, að af þér brái nú fljótt aftur með sumarkomunni og sólskininu.

Grein Ástvaldar var hlý og holl — en andskotinn er, að undir niðri er þetta notað líkt og rógsmál af Gyðinga-trúnni gömlu til að kasta rýrð, með misgá Magnúsar, á þá, sem ögn eru kristnari, sem sé nýju guðfræðina svo kölluðu, því þar eru þeir Á. og M. fremstir andstæðingar, sinn á hvora hlið.

Alls staðar er gruggið af óviðkomandi málum.

Nú er að koma vorblær á byggð hér. Snjór nærri horfinn og sólskinslangir dagar á lofti oft. Enginn ótími fremur venju.

Í þetta sinn læt ég svona stutt um kveðjur, Jón minn, og bíð betra bréfs frá þér en ég hefi goldið þér. Þeir eiga hjá mér óborgaða línu „Gutti" minn skáld og Magnús gamli blindi í Westminster.

Megir þú lengi liðsinnt orð
Leggja góðsemd hvorri,
Fyrst þú annt á annað borð
Eyjunni heima vorri.

Vinsaml. Stephan G.

*Guttormur J. Guttormsson.* Markerville, Alta, 5. apríl 1919.

Góðvinur, Guttormur minn. — Þökk fyrir bréfið þitt, en fáeina daga dróst það núna fyrir mér að ná mér niðri á tíma, til að senda þér línu aftur. Sem stóð átti ég annríkt í fjósum og hlöðum, því fé mitt stendur nú víða fótum, þó ekki búi ég blómlega, öðru vísi en svo, að ef ég gæti hangt á því jarðnæði, sem ég held nú, í svo sem hundrað ár enn, vildi ég ekki hafa „makabýtti" á bújörðum við neinn hinna hér, sem nú eru miklu fjáðari. En mína tíð mun ég búa við „afskammtað uppeldi", eins og Agúr sálmaskáld, enda nægir það.

Jú, einmitt var það Jón Maisakur, sem ég minntist á við þig í Winnipeg, en hvort hann er 5 doll. virði nú, vil ég ekki ábyrgjast, ég er honum ekki svo handgenginn um allt. Las um hann aðeins mjög greinagóða ritgerð einhvers staðar, með mörgum sýnishornum af ljóðum hans og stefnu, og féll það mjög vel. Hann átti örðugt lengi, ólærður sjómaður, alþýðutúlkur, ódásemd æðri stétta, og öldugangur ins óháða úthafs skvampaði víða í hendingum hans, eins og sjómanni sómir vel. Fyrir þetta þagði tízkan hann lengi fram af sér, en hann var búinn að olnboga sig gegnum það og vinna lof og góða líðan, en svo kom stríðið, hann fór í það sem hjúkrari, síðan hefi ég ekkert um hann séð — stríðið kannske búið að drepa hann alveg, hafi hann farizt andlega, eða hálfdrepa hann, hafi sprengikúla eða svartidauði orðið honum að aldurtila. En hann var líklegur, eins og ég lít til hlutanna.

Þú vilt vita, hvernig ég lifi andlega —: Á sjálfum mér, Guttormur, — ekki annað til nú, þó ekki sé þar „feitan gölt að flá". En, eins og villigeltirnir safna á sig á sumrin, til að tóra á yfir vetur, þegar allar hnetur eru undir fönn, eins hafði ég ekki eytt öllu, sem ég hafði í mig tínt, þegar öll menning og skáldleg ímyndun fraus niður við stríðið. „Af litlu má lifa, en ei af engu," segir íslenzkt spakmæli, og svona hjari ég nú á einu einasta horrimarhorni: viljanum til að lifa.

Þú segir satt, Guttormur, mikið andskoti var flest mannkyn afmennskað orðið, ekki einasta í Canada, heldur í öllum heimsins stórveldum, varla mann að hitta, nema á útskögum og á eyjum, hólmum og afdölum. Og allir vissu þetta og játuðu í hljóði, en gullinfjölluðu svo allt á gatnamótum. En

nú ríður á að duga fósturlandi sínu, eins og hver er drengur til, og bylta henni úr martröð hræsninnar, eins mjúklega og verður. Sjálfur er ég allt illt: United Farmers of Alberta félagi, Non-Partizan, Socialisti, Bolsheviki og „óheiðarlegur".

„H"
Hlammast skýjunum frá
mig ofan á.
Skinnaþór úr skauti jarðar
Skekur að mér korðann.
Í austri heyrist hundagá,
Hækjum þar er Árni að slá.
Og Nikk og Fritzner skálma að norðan.
Fyrirgefðu flýtirinn — og lastaðu ei,
Þó láti ég ekki líftórurnar skammlaust úr mér barðar.

Blessaður og sæll, góðurinn minn, og fyrirgefðu æringsháttinn allan.

Þinn Stephan G.

*Jón Jónsson frá Sleðbrjót.* Markerville, Alta, 4. maí 1919.

Jón minn góður, rístu nú heill úr rekkju í sumar og framvegis.

Sunnudagur í dag, og bráðum fjósatími fyrir mig. Tveggja sólarhringa hríðar upprof hér í morgun, þeirrar þyngstu á þessu ári hér í sveit. Bréfin þín tvö komu fyrir bylinn. Þökk fyrir þau. Hefi enn ekki komizt að að lesa grein þína. Geri það seinna og sendi þér hana, og segi þá kannske einhverja markleysu núna um önnur mál, sem þú minnist á. Nú rek ég bara í „vörðuna". Ég vissi, að þar sátum við ögn á sinni þúfunni hvor, en engar áhyggjur hafði ég um, að það myndi kæla kunningsskap okkar. Var búinn að senda „Voröld" tvo stubba enn, sem stungu stundum við varðanum, innan um annað rugl, eins og mér er lagið. Veit ekki, hvort þeir koma út, og syrgi það þá ekki heldur. Hefi kannske kroppað þar einhvers staðar óafvitandi inn á þínar slægjur, því glögg landamerki milli okkar vissi ég ekki, svo: „Taktu það ekki samt til þín," eins og þar stendur. Minnisvarða-mót Einars í listasafni Winnipeg í vonum var minn málstaður. Það er sama og að drepa þjóðræknisfél. nýja að hlaða það varðaskuldinni. Ég get því ekki úr grun mínum stolið, að áætlun þeirra er

hálfskorin niður, úr því sem reynist. Þó hún væri eftir Einar sjálfan, hefi ég ástæðu til efa hana. Legg honum það ekki til lýta, slíkt er utan við hans heim, en á Íslandi hefir hann einmitt orð fyrir undirmat. „Það eru nú einmitt vandræðin með Einar okkar“, sagði vinur hans við mig (einn þingmaðurinn, minnir mig), „hann hugsar svo stórt, að verk hans verða öll afar-dýr að reisa, en hann veit það ekki, sýnist, að allt megi gera svo ódýrt; tilvonandi musterið yfir listaverk hans 40,000 króna virði að koma upp, eftir hans mati, og við veittum það; það fé þrotið, grindin hjallur, ekki hálfbúinn, og verður ekki fullgert, þó hálfu meira sé til kostað. Svona er það með allt“ ... „Jú, við ljúkum við húsið einhvern tíma, hvað sem það kostar, þegar við höfum fé til. Nú getum við það öldungis ekki, eins og allt er.“ Svo fór hann að skýra mér, að breyta hefði mátt (spara fé, en jafngott gera) einhverri steinsteypu, en gengi ekki, sökum einstrengingar Einars. Það mál skildi ég ekki, en ímyndaði mér með sjálfum mér, að Einar kynni þar hafa á réttara að standa, hvað sem kostnaði leið. En, yfirhöfuð hygg ég satt, að styttur hans séu ekki auðkeyptar í gerðinni, þær sem ekki eru einföld mannsmynd. Mér er alvara með það, að sá tími sé, að litlu eigi að eyða til yfirlætis yfir höfuð. Í þjóðræknismálum legg ég áherzluna aðeins á eitt í byrjun: Einlæga, samhenta tilraun að viðhalda íslenzkunni með öllum ráðum hjá þessari þriðju kynslóð okkar hér, sem glatast okkur, sé ekkert gert. Það mun reynast nógu féskylft, þó allt annað lægi í lág í byrjun, ef sú gangskör er gerð, sem gagn sé að. En án þess er allt þetta umstang og uppástungur aðeins veður og vindur. Svona liggur í mér.

Svo verð ég að segja eins og er, þó óþarfi sé og ég sé að tala um mál, sem ég hefi ekkert skyn á: Ég er ekki hrifinn af því, sem sézt hefir af og um þetta nýja listaverk, eins og ég vildi. Mér finnst allt svo yfirgripsmikið og aukaatriðum ofið, að lengi ætti það að standa á altarinu í listasafni, áður en það yrði gagn að að bera það á götur út á minnisvarðakyndilmessum. Það er ekki vegna þess ég sé biblíuhatari, en mér finnst ritningargreinin spilla, svo góð sem hún er, sjálf og ein. Útskýring, letruð á táknmynd, setur ólund í mig, mér finnst íþróttin standi þarna og styðjist við hækju. Ég vildi, að ég hefði aldrei séð styttu, sem ég veit við Einar höfum

báðir séð, ég þó ekki nema tilsýndar, af skipsfjöl, og í engum lista-móð, sem nærri má geta um mig. Það var *„Frelsið að leiða ljós yfir jörðina“* (Liberty Enlightening the World), sem kallað er, sem Frakkar gáfu Bandaríkjunum og stendur nærri innsiglingunni til New-York. Ekki man ég þó, hver snillingur þeirra Frakkanna hugsaði hana upp, en hún kemur mér í hug við lýsingar á varðahugmynd Einars. Getur verið vegna þess, að ég hefi lesið í hlýlegri línu til Einars gefið undir fótinn, að hann hafi lært fullmikið af Rodin, þó Einar neiti því. Mér hafði sýnzt svipur með þeim áður, í efni og meðferð, eftir myndum að dæma. En svo eru myndir svipur hjá sjón, og ég get ekkert gert mér um svona hlut nema grillur. Auðvitað veit ég, að Rodin var Frakki, frægur að frumleik, stældi fremur stórleik hugsjónanna en fegurð formsins. Veit líka, að til er gott safn í Kaupmannahöfn af verkum hans, að sögn. Úr þessu gerði ég þó ekkert, óvitinn í myndalist. Fannst helzt Rodin ekki vera franskur í anda, þeir væru flestir erfingjar grísk-rómversku listarinnar, eins og þeir eiga kyn til, sem sækist eftir að sýna andann með útlitsfegurð. Mér fannst Rodin vera nærri norrænn. Hann og Einar aðeins andlegir ættingjar, en ekki fóstri og fósturson. Eins hygg ég enn. Annars hefir Rodin orðið broddborgari í myndalist. Ég hefi séð myndir af fleiru, og eftir aðra en Einar, helzt „Skandinava“, sem minna einhvern veginn á hann. En, hvað um það, mér næ ég ekki eins vel niðri á minnisvarða-mynd Einars eins og sumu öðru eftir hann. En það er kannske af einfeldni og getur breytzt. Mín einfalda tillaga er, að við kaupum mót hans, borgum svo minnkunnarlaust sé, og geymum það, sem útdráttarsamast er, að reisa þennan dólg, úr því sem komið er. Það, sem ég segi hér um Einar, er okkar í milli, Jón. Ég segi það svo þú skiljir mig bara. Það er líklega heimska mín, og Einar vildi ég ekki ófrægja. Nú ætla ég að skammast mín og fela mig úti í fjósi. — Blessaður og sæll á meðan.

Vinsaml. Stephan G.

*Jón Jónsson frá Sleðbrjót.* Markerville, Alta, 8. maí 1919.

Jón minn. — Sendi þér nú grein þína aftur, ef þú kynnir að þurfa á henni að halda. Komi greinarnar, sem ég á eftir í

„Voröld“, fram, muntu sjá, að við erum á sama máli hvað Einari viðvíkur. Og þér er mótið („modellið“, eins og þeir segja) nóg innanhúss, eins og þú hefir sagt mér. Það var mín tillaga, með þeirri viðbót: að E. sé borgað sæmilega. Annars vildi ég ekki við því taka. Á móti útisteypunni er ég auðvitað ákveðnari en þú, einkum að svo komnu. Um hermanna-heiðrunina erum við sundurmála, þó þér segist þar vel. Þú sérð kostinn, og löstinn, en það er aukaatriði — og rétt skilið er „mót“ Einars ekki hernaðar-hróður, nema sem tilviljun, annars væri ég enn verri. —

Þinn St. G.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerville, Alta, 10. maí 1919.

Góðvinur. — Það er engin þökk að geta ekkert nema sagt þökk fyrir sendinguna, $125.65 ávísanirnar, og alla tryggð þína við mig, fyrr og síðar. En við það verður að sitja, og Hjálmari Gíslasyni bið ég kærl. að heilsa og hans skilvísi, bæði við mig og Bíldfell minn! Ekkert að frétta héðan, „hugsum hvorki um himin né jörð“, nema þessa litlu bletti af þeim, sem kornið á að lifa af. „Þjóðræknis-deild“ hér látum við sofa, þangað til annir eru yfir og við fréttum nánara af Winnipeg og vörðunni séra Björns. Gott væri, held ég, ef þið aðalnefnd gætuð bráðum gert áætlun til einhvers starfs, helzt með íslenzkukennslu ungra (hún er nú *mitt* tönnl og tugga), eða fyrirlestra-fundum — einhverju, sem rótaði við rotinu. Ég hefi alltaf hálflagzt á hugi við Hólmfríði okkar Árnadóttur í New York, með Íslandsmyndirnar, — ekki að ég kæri mig um að krækja í hana handa sjálfum mér, nei, nei, það yrði ómögulegt! hún er öll í bindindi — en ég heyri hún sé góður kennari, og íslenzku-kennsla, sagði hún mér, að sér væri unaður. Mér datt svo í hug, að hún gæti orðið okkur Maria Michelet (ef ég stafa nafnið rétt) Norðmanna, hún, sem hefir haldið uppi norsku og norrænu þeirra hér — og við verðum að halda vel uppi venju okkar „Skandinava“, að „komast inn á kvenfólkið“.

Í minnisvarðamálinu á ég enn inni hjá „Voröld“ 2—3 greinar, út um alla heima og geima, eins og mér er tamt, svo að sem flestir fautar þjóti upp; það er svo gaman að sjá þá rumskast og opna ginin með andfælum. Hvort „Voröld“

tekur það, veit ég ekki, né hefi áhyggjur um. „Vörðuna“ vil ég ekki beinakerlinga upp í bráðina með tugum þúsunda, það drepur þjóðræknina í móðurkviði. Um Einar Jónsson er mér ekki sama. Nú stakk ég upp á nýju: Byrja með að borga honum mótið hans — fá af því fjölda smásteypur heimahúsum hæfar og selja í byggð og bý. Ég er nærri viss, væri vel og fljótt í það ráðizt, meðan gangurinn er á, mætti fá upp nokkuð af því, sem Einar setti upp — en, kannske það sé ekki nema krafs út í loftið. Svo ætla ég mér að hýða Árna og Ottenson aftur, hvenær sem forsjónin leyfir mér tíma til, ef „Voröld“ vill þá ljá mér hríslurnar í vöndinn. Ég bjóst við svona í byrjun og brá ekkert í brún. Þetta byrjaði fyrir löngu, í dylgjum, að ég svikist um að kveða hernaðinum Svoldarrímur, og áætlunin er að siga hermönnunum heimkomnu upp. Ég vissi ég var að tefla undir það, en færði ekkert úr þeirri skák.

Nóg varð af viðtöku-leirburðinum, þó ég gengi undan:

Þeir drifu á háðtíða-haldara þing,
Til heimvona kappanna flestra.
Þá settust í leirinn, með lúðrana í hring,
Öll litlu rímin hér vestra.
Þau jörmuðu mikið, en móðurlaust,
Svo mjóskrækleg varð hún, sú geldinga raust.

Aldrei ætlar strákurinn úr manni! Kannske hann sé, loksins, eini dugandi verndarengillinn af þeim, sem manni voru úthlutaðir í öndverðu. — Mér virðist ekki útkljáð enn um forlög Tjaldbúðinga, eftir því sem þessi Þorbergsson ritar, og gott, að hann hefir enn ekki „glatað sinni sál“ norður og niður. Þrátt fyrir allt, getur mér ekki annað sýnzt en að gömlu samsuðurnar okkar af kirkjum, blöðum og pólitík séu bilaðar í bakhjörlum og hnoðist mest á hnjánum, eins og þeir, sem á kné eru komnir. Eitt er þó vel um, að „Voröld“ var til. Síðan „Kringla“ var í æsku, hefi ég ekki séð alþýðuna okkar taka til máls jafn drengilega og djarflega, upp í opið geðið á sjálfbyrgingsskapnum, eins og oft kemur fyrir í „Voröld“, né á óloðnari íslenzku en sumt, sem þar hefir sagt verið. Ég held það sé að blása til. En hvar myndi slíkt hafa komizt inn nú, væri þó „Voröld“ ekki upp komin. Við *það* er ég að reyna að gera mig rólegan, þegar mér þykir hún

ekki ná sér niðri eins vel og ég hefði á kosið, eður ganga gönukeið. — Bið kærl. að heilsa, og vertu blessaður.

Þinn Stephan G.

*Grímur S. Grímsson.* Markerville, Alta, 9. júní 1919.

Góðvinur. — Þökk mína bið ég þig að bera þeim, ykkur öllum, sem senduð mér *Blöð og bréf* Baldurs heitins. Kverið kom fyrir nokkru síðan, en ég hefi trassað að láta ykkur vita það — meðfram fyrir þá sök, að nú um langan tíma hefir varla mátt vita, hvort nokkur póstur bærist um landið eða enginn, sökum verkfallsins, sem yfir stóð, eða á dyndi, og enn er reyndar svo, að því er spurn manns hér nær til, að óvíst er það. Ég gaf konu minni kverið, til minja um frænda hennar, Baldur heitinn. Þau voru ná-skyld. Ég held, að bókinni hafi skaði skeður að vera rituð á ensku, en ekki á íslenzku. — Það er þó til þar einstaka alþýðu-sál, sem hefir unun af því, sem ekki er bara „frivolous“ — það er: löðrandi léttúð!

Vinsamlega Stephan G. Stephansson.

*Jón Jónsson frá Sleðbrjót.* Markerville, Alta, 6. sept. 1919.

Jón minn góður. — Ég óska að hitta þig með þessum miða risinn úr rekkju og alheilan, og allt vilja þessar stríðsafleiðingar í ólánið með sér, þegar þær gátu ekki látið þig hlutlausan öðruvísi en að örkumla þig, gamlan og gigtþjáðan.

Þökk fyrir bréfið þitt síðasta. Þú ert nú orðinn eini maðurinn í allri veröld, sem sendir mér línu, síðan ég varð svo „forhertur“ að segja hálfan sannleikann um minnisvarðamálið í öðru eins voða-blaði og „Voröld“ er, þó ég aldrei bæri það upp, sem allir sjá, að þeir vóru að „verka nöfnin sín“ fyrir framan alþýðuna með þessu mest, sem orðnir vóru í óbeit hennar, þeir sem bölsótuðust bezt í því að „binda öðrum þær (blóðugu) byrðar, sem þeir sjálfir ekki vildu snerta“.

Jæja, þetta er nú alvörunnar spaug, að því sem til mín nær. Allir menn um allan heim eru utan við sig, ráðalausir, sinnulausir eftir æðið, fjaraðir uppi hver í sínu horni eins og öðuskeljar, ríghalda kjafti eins og þær, út úr dauðir að ávarpa hver annan. Ég veit þetta vel, og sumt á sjálfum mér.

Hana þá kom það — tómstund til að skrifa þér svona:

Lamvinds flökku-loftbólstrar
Lestir dökkvar týgja;
Hríða-rökkurs haust-baggar
Hanga á klökkum skýja.

Það var í fyrrakveld, yfir hálfslegna akra hér og ólokinn heyskap. Slíks er hér von um þetta leyti. Enn hefir þó ekki fölgað og í dag að draga úr rosanum. Ég kom heim í regni og myrkri utan af akri, frá að hreykja hafraslægju, búinn að smala kúnum í morgun, og sezt nú upp að þér, atvinnulaus — loksins.

Grasmaðkur og ofþurrkar gengu hér í sumar lengi, afleiðingin er rýr heyskapur víða hér í byggð, en akrar betri en búizt var við, því við þolum þessar tvær „plágur“ með meira mögli en Egyptar sínar tíu, en svo var það nú í sjálfu sér ein „plágan“ líka, og eitthvað dálítið upp í hinar átta, sem af okkur gengu í þetta sinn, en Egyptar máttu sæta. Þá var þetta kveðið:

Bóndinn sig gremur, því sáð hans er sölvað
Og sumar-regn nemur við meinlegan stanz —
En þegar það kemur, því verður bölvað,
Sig það ekki semur að jarðveg hvers manns.

Svo var svona sagt:

Hvergi úr lofti deigur dropi.
Dýpstu ár í seytlur falla. —
Það er eins og Östlund hafi
Ofþurrkaða veröld alla.

Manstu — Östlund átti bindindisgrein í „Voröld“, á illþurri íslenzku. — En svona eru nú skjólin mín í óveðrunum.

Þú minnist á „Voröld“, viðrétting og óöld lands og lýðs. Ég skal malda í móinn ögn, frá minni hlið (ekki til að rökræða, sem er ókleift og illræði í sendibréfi), en bara til að sýna þér „upp í hendina“.

Fyrst verð ég að taka svari „hvorug-megin manna“ (þ. e. Non-partizans) í Dakota, að ég hygg það mismæli: „að þeir hafi löghelgað sín eigin blöð, en bannað hin“, eins og þú segir og sagt hefir verið. Þeir „banna“ engin blöð, að því er ég

bezt veit, en þeir „kaupa“ ekki flokksblöð né veita atvinnubitlinga, logna svo þúsundum skiptir, og það þykir „blaðakaupahéðnunum“ sama sem að „banna“, og má til sanns vegar færa, á sinn hátt. Hitt er víst satt: hvorug-megin-mannastjórnin veitir aðeins vissri tölu blaða í hverju héraði (county) auglýsinga-atvinnu o. þ. h., og engum öðrum, og þau blöð verða, eðlilega, henni hlynnt. Það er kannske gallagripur, en skárra en að ala öll blöð á landssjóði, gefa „Lögbergi“ t. d. $29.000 „atvinnu“ eitt ár, og öll ár nokkuð, og „Kringlu“ „málgrjónin mygluð nú mælum ei né teljum“'. Og þó eru íslenzku blöðin öll „börn hjá Boga“, þ. e. ensku blöðunum. Svona er nú því farið.

Ritstjóra-ráðlag Sigurðar voru mér lítil vonbrigði, nema í tveim atriðum heldur: ég hélt blaðið „Voröld“ í hans höndum yrði hættulegar tannhvasst en reynzt hefir. Það hefir verið tiltölulega varort og meinlaust og gagnslaust, ekki vogað sér einn túnda af því, sem ýmis ensk blöð hafa látið flakka og flotið með. Umtalið og ofsóknir við blaðið eru aðeins hótfyndnis-átylla þeim, sem því vilja illa fyrir ofmæli. Þau eru öll léttvæg og fá. Ekki sakast ég um það, þó það verði betra en ég bjóst við. Hitt varð verra en ég gat áætlað, flausturverkið á blaðinu og villurnar. Ég bjóst við þeim nokkrum og að miklum mun, en aldrei slíkri hófleysu; hélt, að enginn ritstjóri, sem efni á til að gera betur, þyldi að láta slíkan „útgang“ sjást á blaði sínu. Þú minnist á prentvillur. Ég sendi honum beiskyrta, en skammalausa grein um þær, til blaðsins, og bað leiðréttingar á síðustu vitleysunum í grein eftir mig þá, en leyfði honum þó að stinga greininni sjálfri undir stól, héldi hann hún spillti fyrir blaðinu, en taka samt leiðréttingarnar. Hvorugt hefir hann gert. Þetta var um sama leyti og þú getur um, að skánað hafi blaðið, en í engu sambandi þarf það að standa, og svo er ég leikinn þar enn, að 12 villur eru í síðustu grein minni, *Áréttingar,* sem ég hefi eftir tekið, sumar auðráðnar læsum manni, eins og t. d. „rrápsvéla“ fyrir „drápsvéla“, aðrar svo að ódæmi eru á: t. d. „andvöku“ fyrir „kveldvöku“ eða „hermannasýningar“ fyrir „hermannaminningar“ — ad infinitum, og þó er þessi greinin minnst um orð villt af mínu rugli.

Ég efa ekki sögu þína um, hvað Sigurður sagði sjálfur hjá ykkur, en svo er það hans eigið frelsi, sem hann hættir þar,

og hefir rétt sinn til, ef hann svo kýs. Ég sá líka þegar, og áður en úr varð, að deila hans við Bíldfell gat varðað máli, en hélt þá líka, að Bíldur sjálfur myndi ekki verða svo heimskur, að hann sæi ekki við því að forðast „sömu mynt", ef hann vildi vinna Sigga slig. Ég veit vel, hvað Sigurður er, aðeins: hrópandi fagnaðar-boðskapar, en órýninn um ráðin til að koma honum á, ratar sjálfur rétt af tilfinning sinni, en er ókunnugur veginum þangað þó og veit lítið, hvernig vit annarra hefir allareiðu lagt hann, eður ætlar sér. Hann er ákafur, en ófróður, en við það varð ég að sætta mig, það er ekki öðru tré að veifa en „Voröld", og jafnvel „æsingamenn" eru þarfir og ómissandi, driffjöður upp úr doðanum og hugsjónasvikunum; þeir „æsa" til umbóta einhverra, sem annars yrðu engar. Hitt er engu síður rétt, „Voröld" er (og verður líkl.) vonbrigði þess, sem verið gæti, óyndisúrræði, sem ekki verður þó án verið, eins og á stendur (og jafnvel þó hún velti út af innan skamms), slíkt óheilinda-díki er vestræn blaðamennska sokkin í — og kaupendur þeirra og trúnaðarmenn.

Hugsanir þínar og vonir, Jón, um langa en „sígandi lukku" farsælla breytinga í félagsskap mannanna, eru allt góðir, gegnir og gamlir vinir mínir, sem ég hefi að nokkru leyti neyðzt til að kveðja nauðugur, af því mér sýnist ég sjá fram á þau örlög, sem verða þeim ofurefli: þörf mannkynsins að bjarga sér fljótlegar, í slíkt óefni sem það hefir teflt sér, skipulag, sem vitið er vaxið upp úr, jafnvel hjá verkalýðnum, iðnaðarmönnum og bændum, og sem tilfinningin fyrir löngu hefir rekið sig á, að ranglátt sé, án þess ég ætli mér hér að deila því í sundur, hvað sé rangt eða rétt, aðeins eiga við það, sem mér sýnist skeður hlutur, sem verður að eiga við, eins og hann er. Aðal-fyrirkomulagið er hálf-fallið. Auðvaldið steypti sér með stríðinu síðasta. Versti þrældómur vinnulýðsins reisir ekki lengur rönd við fæði og sköttum, þó ekki sé fram komið að fullu enn. Viljandi þeir, sem vitrastir eru, og af blindu eðli hinir heimskari, hefir fjöldinn nú loks fundið ráð, sem dugir til umbyltingar. Það er: *að gera auðlegð óeftirsóknarverða.* Það er vissara, hægra og hættuminna en uppreisn og bardagar — alveg ugglaust að vinna. Vígaferli eru vopnlausri alþýðu voði. Nú veit hún það. Hitt: iðjuleysi, eyðsla til ónýtis, uppskrúfun kaups, óstöðugleiki í vinnu, sem stytztur vinnutími, gerir alla iðn á

endanum ruglaða fyrst, óarðsama næst og ómögulega loks, og eign þræla og verkfæra borgar sig ekki lengur, iðnaður verður gefinn upp í hendur þeirra, sem eiga ættu atvinnuveg sinn, framfærsluveginn sinn og sinna, verkamannanna, til hans vinnu, og til hans kunna þeir einir, og fullvissan um það að vera húsbóndi og eigandi, en ekki einungis þræll og féþúfa, mannar aftur upp múginn.

Næst kemur röðin að okkur bændum, nema við sjáum, hvað að fer og gerum það, sem koma skal, sjálfir, þó ekki trúi ég búviti okkar til þess, sem sífellt teljum okkur eignamenn og þeirra liða, jafnvel þó við séum verst vinnuþrælkaðir af öllum, flestir, í þessu sjálfsskaparvíti eignarréttarins. Við megum gefa upp að gína yfir meira landi en við yrkjum með eigin liði. Eignamennirnir, sem áður voru, og við töldum okkur til, sameina sig verkamönnum móti okkur, því nú eiga þeir sjálfir engar eignir að verja. Þetta kemur fljótlega, Jón, verður að koma fljótt, eða — svartidauði allrar okkar menningar svo kallaðrar — og heimur okkar verður farsælli en áður.

Svona reikna ég við framtíðina.

Mér þótti gott, að grein þín um Þorst. Erl. komst í fylgd með verkum hans. Hún er ykkur báðum til sóma. Líklegt, að Guðrún hafi ráðið því, henni er svo annt um að andæfa vantrúarnafninu á Þorsteini (myndi spenna hann upp sem spíritista, ef hægt væri), og þú taldir trúleysi hans úr í grein þinni, á þinn hátt. Ég segi nú þetta samt við þig, *sub rosa,* eins og þú smávegis við mig.

Miður dagur. Blásandi kominn á og bindarinn út í akur, svo mér er nú ekki til setu boðið. — Blessaður og sæll — og komdu aftur við hentugleika.

Vinsamlega Stephan G. Stephansson.

*Jón Jónsson frá Sleðbrjót.* Heima, 13. des. 1919.

Góðvinur Jón.

Ég er að bæta synd á synd,
Ei svara bréfum,
Sit á kafi í kulda og önnum,
Kýti og sekt hjá guði og mönnum.

Nú kem ég bara borgunarlaus fyrir ið seinasta bréf þitt, aðeins til að láta þig vita þó, að það komst leiðar sinnar, og um leið að bjóða þér „gott ár og gleðilegar hátíðar“ — og það geri ég hér með.

Heyrðu — hefir þú skilið í fossamáli þingsins íslenzka, svo þú sjáir vel undirstraumana, sem sé, hvar fiskur hvers flokks liggur undir steini? Það vefst fyrir mér. Ég veit yfirborðið, sem ég vil, að fossa-aflið verði gert þjóðeign. Hinu trúi ég ekki, að íslenzk lög og þjóðarskilningur á þeim hafi nokkru sinni ímyndað sér, að foss innan landamerkja einstaklings-jarðeignar væri almenningur. Kónginum var eitt sinn eignað allt, lögur og láð, fiskarnir í sjónum og fuglarnir í loftinu, en langt er til loku seilzt, hafi hann afhent þjóðinni aftur með stjórnarskránni ár og læki, sem straumur var í — hví þá ekki jörðina líka? Kannske hefi ég verið eftirtektarlaus um þetta, af því ég hugsaði meira um heimahaginn hér, að bændur og verkamenn fengju sinnu til að steypa af stóli argvítinu í okkar landi. — Líkl. fær þú nú bráðum að heyra séra Kjartan, og ég veit þér verður það ánægja. Hann stóð hér stutt við, hvort sem hann fær að bæta það upp síðar. Á hér þó frændfólk, Ófeig bónda Sigurðsson (Ófeigur er af ætt og nafni Ófeigs í „Skörðum“, sem við kynntumst drengir á Heljarslóð Gröndals.) Spurn hafði ég af séra K. heima, alla til ins betra. Hann stalst þangað af „Synodus“, sem þá stóð yfir í Vík, og sagðist vera að „skúlka“ — þetta skólaorð, sem ég hafði aldrei fyrr heyrt, en þóttist þegar skilja, að var af sömu ætt og „sculking“ á ensku — að laumast.

Ill er mér „Voröld“ enn. — Ef hún á að hafa nokkuð eftir mér, geltir hún annað hvert orð, eins og hundur Þrændanna forðum. Jafnvel í stuttum vísnalínum — lækareisa fyrir lækjaveisa, flóafylla fyrir flotafylla, „ad infinitum“ ambagganna. Nú vandaði ég þó skrift og get ritað læsilega hönd, ef ég tek mig til, en það er sama hjá „Voröld“. En — maður verður að þola allt, eins og blöðum okkar er nú komið, því hin eru þó bæði heimskari og verr viljaðri af guði og mönnum gerð, og þar að auki á fóðrum hjá varmennskunni, þó útgangurinn á þeim kunni stundum að vera ekki alveg eins úthverfur. — Bráðum árið brott er kvatt. Nýtt ár sé þér gott og glatt.

Vinsaml. Stephan G.

*Jakob J. Normann.* Markerville, Alta, 14. jan. 1920.

Góðvinur. — Fyrir nokkru hefi ég meðtekið bréf og myndir og jóla-miða frá þér, falið Jóni Sveinssyni hér á Markerville. Af blöðunum sá ég, að þú hafðir brugðið þér til Winnipeg um það leyti, svo ég dró að gera þér grein fyrir viðtökunni á þessu. Nú ert þú sjálfsagt löngu heimhorfinn. Njóttu góðs fyrir gjafirnar, Jakob, og gleðilegs árs! Svo bið ég að heilsa þessum jólasveini mínum, Stephani Gesti, og konu þinni, þakka ykkur foreldrunum hans fyrir nafnið og vildi, að það yrði honum aldrei til ama um langa æfi og lánsama, jafnvel þó hann kynni að hafa kosið öðruvísi, hefði hann verið sjálfráður. Mér fannst það líka strax verða byrjun að áhrínsorðum og góður fyrirboði, að þegar gátan í þessu bréfi þínu var ráðin, dáðust stúlkur mínar hér mjög að því, hve pilturinn væri fallegur, svo mér lá við að öfunda hann af því, enda er það ekki að orsakalausu, hvað útlit okkar nafnanna snertir.

Auga mitt er yfir fer
Æfiskeið mitt runnið,
Sé ég ei, hvað hefi hér
Til hlýleiks sumra unnið.

Svo er annað mál, sem ég verð að ympra á við þig. „Vor-öld“ gat þess, að einhver hefði sent sér $100.00 undir mínu nafni og að gjöf. Ég verð að taka það sem sannyrði, en ekki sem blaðafrétt, þó slíkt gæti borið við annars staðar. Ég skrifaði ritstjóra og bað hann að skila þökk minni, því ekki vissi ég, við hvern um væri að eiga. Hélt, að hann myndi svara mér nafni hans, en svo varð þó ekki. Ég hafði brotið heilann um þetta og dottið þú einn í hug, en alveg ólíklega, svo lítið þekkti ég þig; þó ég þykist stundum hafa furðanlega fundið af hendingu hulin nöfn ókunnugra manna, þá vóru það oftast þeirra, sem einhverjar erjur þóttust eiga að launa mér. Svo læt ég þessa sögu svona standa við þig. Oft hefi ég séð eftir, að ég varð að neita boði þínu að koma heim til þín, Íslendingadags-sumarið mitt í Wynyard forðum. Ég var þá, eins og reyndar enn, svo fastur á heimasnaganum.

Þér eru víst — og væri fyr —
Verðirðu héraðs-gestur,
Opnar karlsins kofa-dyr,
Komir þú hingað vestur.

Með vinsemd Stephan G. Stephansson.

*Jónas Hall.* Markerville, Alta, 15. janúar 1920.

Góðvinur. — Það var orðið „langt á milli staupa“ hjá okkur, en nýlega þó, eftir því að mæla, fékk ég línu frá þér, Jónas minn, en hefi ekki komizt til að „klóra þér aftur“ fyrr en þetta.

Sífellt róta úti í
Ösku- og mykjuhaugum. —
Inni fæst við úldin þý
Af okkar blaða-draugum,

á þessari aftur-göngu-öld ófrelsis og andlegra meinvætta, sem sumir héldu og halda enn, að kveðin hafi verið niður fyrir nokkru síðan. Jæja, það kemur nú ekki okkar bréfaviðskiptum við, að öðru en frátöfunum til. Og hvernig sem fer, gangi þér sjálfum til gengis og góðæris. Ekki skrifaði ég neitt um Þorst. Erl., enda ert þú nú búinn að því, svo vel, að nóg ætti að vera, ef nokkuð í þá átt dugir, og sá líka, sem undir það tók frá Hallson. Var það Árni Magnússon, eða nafni hans? Mér virtist tvísýnt, hvort ég bætti fremur en spillti, eins og á stendur, sem sé, hvort ég ekki hleypti enn verri þráa í þessa þegjandi mótstöðu, sem öllum málum vill spilla fyrir þeim manni, sem henni er í nöp við, án þess að láta sjá sig. Stundum skýzt það þó upp á yfirborðið, t. d. hjá séra Birni og Árna Sveinssyni, sem, þegar þeir ekki sjálfir hrökkva til með kreddur sínar, ætla að nota sér orðstír séra Jóns heitins og lauma undan líkblæjunni hans einhverjum ónotum að þeim, sem þeim gremst við, þó sumt af því sé svo úr garði gert, að séra J. sjálfum væri vegur í, að það gleymdist. Hygg samt ekki mér sárni sjálfs míns vegna. Nei, öðru nær, þar hefi ég hákarlsharðfengi í mér, enda ekki nema um máttlaust kákl að ræða í mína átt. Ég er bara að sýna þér, að „ég sjái inn í þokuna“ svolítið. Eitt er víst, og hvað sem uppi er látið sem stendur, er

vissri stefnu í okkar Vestmannahóp ekki miður um neinn en mig, — mest út af minnisvarðamálinu.

Hvað er annars um verzlun ykkar með verk Þorsteins? Hafið þið nokkuð af þeim handbært og á boðstólum? Þú hefir aldrei sagt mér það fyrir víst. En, ef svo er, sendið mér tvö eintök, sýnishorn, annað í bandi, hitt í kápu — svona þegar út á líður, tíð mildast og kreppan um mig rýmkar — og ég skal reyna hér eitthvað til og ábyrgjast verð „prófsteinanna“ tveggja. Ekki til neins að senda óráðstafaðan slatta, og borga svo kannske burðargjald til og frá. Annars, ég hata að selja Þorst. Erl. í kápu, þær einar bækur ættu í henni að seljast, sem heiminum væri gagn í, að glötuðust sem fyrst. Með hinar er það öllum til ills, nema útgefendum og pappírsgerð. Svo er ekki meira um þetta, að sinni.

Hefir nokkuð nema bréfaskriftirnar orðið úr Alaska-skóginum til hans Sigurðar míns á Hólum? Þú manst það. Ég skrifaði Sig. í fyrra vetur, hvar komið væri, en lét lítið yfir árangri uppi í vonar-erminni. Vildi geta sagt honum eitthvað þetta ár. — Ykkur Sigríði er kærl. beðið að heilsa, héðan úr húsi, að mér meðtöldum.

— Eitt mun verða okkar hrós  
Í útbúð Hels með Baldri:  
Hvað við vórum falleg fjósa-ljós,  
Fauskar á sjötugs-aldri.

Blessaður og sæll, Jónas minn. Stebbi.

*Jón Jónsson yngri.* Markerville, Alta, 16. jan. 1920.

Góði frændi. — Þökk fyrir bréf fyrir nokkru fengið — og fátt gott að frétta frá Canada, svona yfirleitt, illæri víða í sveitum og öll bölvun í borgunum. En, svo er það nú sízt betra hjá ykkur, og vafalaust versnar, af líkum að dæma. En þetta hlaut að ske, „svo lögmálið uppfylltist“, og fróðir menn, t. d. Thorstein Veblen prófessor, höfðu sagt okkur þetta fyrir, 9 árum áður en á skall — annað hvort byrjaði heimshrun í öllum iðnaði eða heimsstríð kringum 1914. Ástandið væri svo, að ekki yrði hjá því komizt. Hann sagði upp á hár, hver Norðurálfu-veldi lentu saman í stríði, en skjátlaði í einu, hann

taldi Bandaríkin ekki með. Hann var þá enginn byltingamaður, aðeins skarpur hagfræðingur. Ég man, að ég vonaði að lesa deilu-ágrip um þetta í þá daga. Ég veit, að mér er erindisleysa að þvæla um þetta. — Við Íslendingar við Garðar og Medicine erum hróðugir enn, en öllum erfingjunum blæðir einhvers staðar, áður heimur vor bítur úr nálinni. Það er nú orðið víst.

Okkur heima líður all-vel. Uppskera varð betri um mið-Alberta en búizt var við. Hveitilöndin miklu í suður-Alberta skrælþornuðu, akrar og hagi. Þar eru nú víða vandræði og fólk á heljarþröm með bjargræði.

Við feðgarnir 3 fengum frek 3000 bush. af ýmsu korni, og fremur góðu, mikinn fóðurhálm og hey, svo við líklega komumst af. Baldur fargaði samt gripum að mun af heyjum, hafði um 80, nú um 40. Flóinn okkar hefir haldið við, sá sem ég hefi verið mest heimskaður fyrir að taka. Þessi þurrkaárin er hann orðinn eftir-sóknar land, en svo breyta votviðri því aftur. Kornverð og flokkun þess er langtum verri en ykkar, munar dollar á hveiti-busheli, eða meira. Við höfum alls kringum 700 bush. af því. Sumt af því hér á heimalandi mínu gerði ekki meira en svo sem 10 bush. af ekru. Aðrir blettir svo góðir, að meðaltal af ekru varð kringum 18 bush. Þeir flokka það No. 3, en ég er viss um, að það er einni eða tveimur tölum neðar en þið venjizt.

Rósa litla gengur á bændaskólann í Olds í vetur. Var þar um 2 mán. fyrir jól, heima um þau, en fór aftur upp úr nýári. Henni fellur þar vel og fékk einkunnir í betra-lagi við jólaprófið. Fæði og húsnæði kostar frá $ 25.00 kannske til $ 35.00, eftir atvikum, í samneytinu, sem skólinn heldur, og fara þau gjöld eftir kostnaði við það.

Haustið skall hér snemma á og illa. Sums staðar óþreskt enn. Ekki hjá Ísl. þó. Hörkutíð með fádæmum hér, fram undir jól. Kringum þau kafli af indælis veðri. Nú aftur fannkoma, flesta daga. Æði víða fóðurtæpt, og hagar uppurðir. Nú kvaddi Kristján okkar Jónsson í vetur. Fékk „slag" eitthvert í fyrra sumar, skánaði um stund. Versnaði aftur. Varð ráðlaus. Var á sjúkrahúsi í Calgary og Red Deer, og dó í Red Deer. Jón Thordarson (systursonur hans) er kornkaupfélagsstjóri í Calgary og var við jarðarförina. Guðfinna býr áfram með yngstu

börnunum. Annars er nú eldra fólkið — og sumt ungt líka — að hrynja niður í jörðina, eins og venja er eftir 30 ár í einni byggð.

Kvillar hafa ögn sótt á mig í sumar og vetur. Alltaf þó verið á flakkinu og unnið það, sem fyrir kom. Hirði um 30 gripi í fjósi, kýr og kálfa, og sé að mestu fyrir daglegu eldsneyti, svo þrátt fyrir allan amlóðahátt þykist ég enn maður með mönnum.

Við Kobbi létum vél-brjóta um 30 ekrur á löndum okkar í sumar — $ 7,00 ekruna. Hann keypti af C. P. R. um 70 ekrur, nes meðfram ánni við land sitt, $ 11,00 ekruna.

Fjósið er óhirt enn í dag og blaðið útatað, svo ég hætti:

Ykkar gæfa á alla lund
Ennþá skyldi bætast,
Vissi eg eina óskastund,
Er það léti rætast.

Með kveðju frá okkur öllum til ykkar allra. Stebbi.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerville, Alta, 27. jan. 1920.

Góðvinur. — Nú fer mjög að styttast til ársfundar ykkar „þjóðræknismanna" í Wpg. Af því ég býst við, að enginn „sendill" héðan verði þar viðstaddur, sökum fjarlægðar, kostnaðar, vinnuanna, vetrarríkis og tómlætis, ætla ég að tefja þig um augnablik og segja þér frá duttlungum, sem dottið hafa í mig, viðvíkjandi framveginum. Sé nokkur hugvekja í þeim, gætir þú séð um, að einhver kastaði henni inn í þrætuna, eins og deilugyðjan eplinu forðum, til útskúfunar eða umræðu.

1. Væri enginn vegur til að koma á jafnreiti (stagað saman úr „jafn" og „reitur", á sama reit — pooling of rates) á fargjöldum fulltrúa til ársfundar félagsins? Það væri líkl. eini vegurinn til að fjarlægar deildir sæktu fund, en án þess doðna þær upp af utanveltu.

2. Væri ekki gagn að að láta fundinn standa 2—3 daga. Semja skemmtiskrá og auglýsa löngu fyrir fund: fyrirlestra, söng og íþróttir íslenzkar, og ótal margt, útbúa og útvega menn til þess yfir árið, svo sem unnt væri. Mundi það ekki draga að?

3. Það er nú fremur barnaskapur minn en að það þýði

mikið, að ég spyr: Væri ekki gaman, séu engir illir agnúar á því, að fast-dagsetja ársfund á *sumardaginn fyrsta* í Wpg. ár hvert? Sá dagur er svo einkennilega íslenzkur, gleði-helgi alþýðusamþykktar einnar saman, hvorki lögboðinn „kóngsbænadagur“ né kirkjuhátíð. Ég veit ekki til, að önnur þjóð en Ísl. haldi þannig upp á afmæli vorveðra-guðsins.

4. Ég veit, að ég er að hlaða fyrirhöfn og kostnaði á ómaksmenn félagsleysis og féleysis með sumu þessu, svo það er ofætlun. En, væri ekki leið til að auka ögn inntektir, ef félagið byggi til, gæfi út og seldi einhver minja-merki sem þau, er Íslendingadaga-nefndir gera? Ég býst nú við, að þau yrðu hvorki fáanleg né frá þeim takandi. En mætti ekki búa út bréfamerki (frímerki rangnefnd) eða bókamerki (til að líma á bækur að innan, sem segi til, hver átt hafi, í stað þess að skrifa það á skruddur sínar, eða hafa þær „óbrennimerktar“), lík þeim, sem mörg félög selja um heim allan, guðsþakkaverkum til viðgangs, eða gróðalausum fyrirtækjum.

Svo sting ég við stúf og bið afsökunar á þessu. Margt væri annað á [að] minnast, en ég er „mál“(averka) „þjónn“, eins og Egill! Svo er nú svo kalt í „kró“ minni! Ég hefi „ekki tíma til að kynda ofninn með öðru en sjálfum mér“, eins og Starkaður Áludrengur eða Sigurður Fáfnisbani (ég man ekki hvor þeirra það var!) í Hvergemli forðum, og liggur við að æpa eins og þeir, ekki af hita, heldur loppu.

Gætir þú útvegað mér og sent III. af „Andvökum“. Svo stendur á: Ég hefi nýfrétt, að maður hér í Red Deer, sem borgaði bindin öll, hafi aldrei fengið þetta III., líkl. af vangá útsölumanns hér, eða póst-óskilum. Ég kysi að leiðrétta það, þó ekki hafi við mig verið kvartað um.

Þó að bæði úr byrjun og enda
Bréfsins ekkert gott sé að henda,
Ætti ég nokkurt sólskin að senda,
Segði ég því hjá þér að lenda.

Vinsaml. Stephan G.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerville, Alta, 5. febr. 1920.

Góðvinur. — Mér finnst, að nú fari að verða „of stutt milli staupa“ — er nýbúinn að skrifa þér! En svo er nú mál vaxið,

að eftir að við skildum í Markerville, gerði séra Kjartan mér boð og bað mig að láta sig fá afskrift af vísunum, sem ég sendi honum hér með, — hefði gaman af að fá þær með minni hendi. Það var honum velkomið, en ég er ekki viss á verustað hans í Wpg., að sönnu var það 562 Sherbrooke, ið fyrra skiptið, sem hann var hér, en svo hvarf hann til ykkar á eftir því og er vís til að hafa þá komizt fram á einhverja fardaga hjá ykkur. Jæja, gerðu mér nú þann greiða að koma miðanum til hans, þegar þið hittizt, eða með bæjarpósti. Svo legg ég með, til þín, fáein orð um komu hans hingað ina síðari. Ef þér lízt svo, máttu stinga því að einhverju blaðinu. Sama er nú reyndar, í hverri „pontunni“ maður prédikar. Mér dettur í hug, að það örvi heldur, ef eitthvað er af honum sagt í blöðunum, en þó það sé reglulegt „reglubrot“ hjá mér núna, þá láttu ekki nafn mitt fylgja nú. Ég fleipraði eitthvað um hann fyrra sinnið, sem hann kom hér, og aðkastendur gætu hugsað sér, að ég væri að púa þetta upp, þó að það sé fjarri mér, sé aðeins að minna menn á. Vel veit ég, að ég þekkist þó af sérvizkunum í stílnum, eins og refirnir af skottinu, en ekki almennt, enda er mér þetta launungarlaust, að öðru en því sem ég sagði, og sama þó enginn sæi það, nema þú.

Vinsaml. Stephan G.

Úr bréfi frá Markerville, Alta, 3. febr. 1920.

— Séra Kjartan embættaði í íslenzku kirkjunni hérna, sunnudaginn fyrsta febr., nýkominn þá vestan af Kyrrahafsströnd. Nokkuð var sú samkoma strjálsótt, sem ekki var að undra, annir og ill færð héldu mörgum heima. Vetrarríki hafði, fram að þeim degi, sorfið svo fast að flestum bændum, að varla mátti verk úr hendi falla. Þennan dag og daginn fyrir var þó brugðið til bata, það ferðalán fékk séra Kjartan. Viðstaða hans hér varð skemmri en ætlazt var á. Hafði tafizt á vestanleið, lestagangur gengið úr lagi. Brottför séra Kjartans var því skorðuð við mánudagsmorgun hinn næsta.

Að lokinni messu dvaldist fólkið ögn við. Séra Kjartan flutti enn fyrirlestur nýjan. Hafði „dýrtíðina“ alræmdu að upphafsorðum og umræðu, og hver tiltæki sér virtust vænlegust til að ráða fram úr henni. Hann var svo kvaddur af ýmsum með fáum orðum, en alúðlegum, eða hlýrri hendi. Ofurlítill

flokkur af yngstu Íslendingunum hérna, sem í vetur hafa byrjað á að lesa íslenzku, söng fyrir séra Kjartan stef þau, sem standa hér undir. Flestum mun hafa fundizt, að þeim og kennara þeirra tækist þetta vonum framar, jafnstutt tóm sem til þess var að læra lag og orð: —

Fyrst hljómarnir lengra en hendurnar ná,
Og hugvildir leiða þig götuna á
Og fylgja þér, Kjartan, í hvörfin þín löng:
Við kveðjum þig, bróðir, með íslenzkum söng.

Þú ættgöfga tryggð hefir teygt út í lönd
Frá tungurót mæðra og barnsræktar hönd,
Og glætt okkar vonir um vorgróðans þrótt,
að vaka með okkur um Jónsmessu-nótt.

Við sitjum hér eftir, en ætlum að ná
Til átthagans með þér, á vonum og þrá.
Og andvörp og brosin frá börnunum þeim —
Við bindum þau öll undir vænginn þinn heim. —

*Grímur S. Grímsson.* Markerville, Alta, 17. febr. 1920.

Góðvinur Grímur. — Þökk fyrir bréfið og allar blaðasendingar yfir árið. Þess háttar kemur mér æfinlega vel, ég les varla bók nú orðið, hvort sem er, bæði eru þær flestar gamalt dót, sem maður er hálf-kunnugur og þreyttur á, og svo er manni fyrirboðið að lesa það, sem helzt er einhver hreyfing í, svo ekki eru önnur ráð en reka í þá biblíu-brot, þangað til þeir fyrirbjóða hana líka, svo við verðum allir kaþólskir aftur; því þá fyrst verður dómsdagur áreiðanlega fyrir sagður, svo „Calgary Herald“ auglýsir „húmbúg“ fyrir gýg, hefir ekki tíma til að taka móti borgun fyrir aukasölu til flónanna, áður en lúðurinn gellur við í skýjum himins, svo Woods verður sjálfur að hlusta á syndadoðrant sinn, þó hann geti ekki „svarað einu orði til þúsund“. Mér koma allténd „rauðu“ blöðin vel, annars yrðu öll sannindi upplituð og „gul“, og ég get æfinlega dæmt um lit eftir mínu viti. Ég fékk „Kobba“ til að kaupa „Searchlight“ í 6 mánuði. — Mannfallið er að aukast, eins og gengur. Hall, tengdasonur B. Björnss., er nýdáinn á sjúkrahælinu í Innisfail, einnig Anderson gamli, faðir Franks í

Innisfail. Hann var einbúi á landi sínu hér. Fannst örendur í kofa sínum.

Nú er ill tíð, fannkoma á hverjum degi og mikill snjór lagður. Bændafundur átti að standa í M-ville í dag. Óvíst að af verði, sökum veðurs. Þangað ætluðu að koma „Melkólmur“, Malcolm, og „Brjánn“, Bryan gamli frá Innisfail, til að tala okkur inn á hlutakaup í U. F. A.-búð í Innisfail. Talað um að kaupa hreiður Wests gamla. Ég er „hlutleysingi“ í því máli, bæði sökum þess, að slíkt þarf eins mikla forsjá sem kapp, ef vel á að fara, og svo hins: við „norður-árar“ hættum að eiga erindi til Innisfail, Benalto verður okkar áfangi. Þar eru að koma og komnar upp kornhlöður, banki o. s. frv. — Séra Kjartan hélt hér fyrirlestur sinn. Hann er ljúfmenni, talar vel og slétt, en ekki skörulega, sem t. d. Guðm. Finnbogason. Hann kemur hér kannske aftur að vestan. Þið ættuð að ná í hann, fari hann um hjá ykkur. Engin bréf að heiman í sumar, nema 2, og bæði kunningjabréf og fréttalaus, annað frá séra Ásm. Guðm.ss., sem nú er yfirkennari á Eiðum, hitt úr Skagafirði. Ég hefi verið ögn kvillasæll í sumar og vetur, en alltaf við verk. Sumt það lam er líklega slit. Ég hirði eld og fjós, að venju, og myndi nú ekki orka meiru. Rósa litla er á bændaskólanum í Olds í vetur. Strákur Fannýar heitir Ársæll Gestur, fæddur nýársdag í fyrra. „Rúna Ásmundar“, Mrs. Plummer, er Hóla-kennari og býr hér. Hún kennir krökkum, sem til fást, íslenzku-lestur á laugardögum, fyrir mín tilmæli. Þrír enskir krakkar koma stundum með og þykir fádæmum sæta. Annars er „þjóðernið“ hérna mesta rola, eigi eitthvað að gera meira en segjast vilja viðhald íslenzku. Afsökun sú, að það sé ómögulegt og því gagnslaust. Ég þæfi þar í móinn við „einn eða tvo“, eins og fífillinn hjá Gröndal, sem Helgi Hálfdánars., frændi hans, ætlaði að slá.

Já, komdu norður hingað, Grímur minn, hvenær sem þú getur, og hvíldu þig um tíma hjá kunningjum. Ekki er fjölskyldan, nema „Pat.“ — en svo er hann kannske örðugri en 10 börn.

Þegar linnir þoli manns
Þrám að sinna og vonum,
Lifir innri eldur hans
Enn á minningonum.

Konan biður að heilsa þér. Svo myndu börnin gera, væru þau viðstödd.

Vinsaml. Stephan G.

*Grímur S. Grímsson.* Heima, 11. marz 1920.

Góðvinur, Grímur minn. — Ég marg-þakka fyrir blaðasendingar þínar allar, bréfið og „Iðunnar"-kaup þitt. Þú aflar svo vel að mér lestrar-fóðrið, að ég er aldrei á þrotum, en á lengst af fyrirliggjandi, og þetta er allt það skásta, sem fæst, það sem helzt er hjarta og höfuð í, á þessari rannsóknarréttaröld, sem heldur, að hún geti skorið sálina úr mönnunum ofan í hundsheila sleðarakkanna. En heyrðu, Grímur minn, þú ert víst að borga fyrir þetta, og það langt of mikið, bæði blöðin og burðareyri, það máttu ekki gera án þess að láta mig endurgjalda það í einhverju, það væri sú áníðsla af mér, þó að þú gerir hana viljuglega. Ég sá, að verkamanna-„Searchlight" var að bjóða „klúbbum" dollars blaðasöfn, send um mánuðinn, með 10 c. tillagi frá hverjum 10 félögum. Nokkur vóru góð, sem velja mátti um, en auglýsingin var svo óljóst orðuð, að ég botnaði ekki í, hvort maður fengi það, sem maður kysi helzt, nema eftir dúk og disk þeirra sjálfra, t. a. m. „Calgary Herald" í stað „Nation", ef svo stæði á. Hugsaði, að þetta gætu verið lesin blöð kaupenda, sem seldu þau aftur lágu verði; að því væri ekki að finna, og fyrirkomulagið væri gott, fengi endurkaupendur þau blöð, sem þeir kysu. Ég gæti gert þig að „agent" mínum á einhverju þess háttar, væri það til, og borgað þér eitthvað í „slumpum", því „klúbb" gæti ég engan hér fengið upp. Ég sendi Magn. Péturssyni í Wpg. borgun þína fyrir „Iðunni" og bið hann senda þér ritið rakleitt. Hann auglýsir mig leyfislaust sölumann, en sú er ástæða til, að vegna ritstjórans, sem ég kynntist og á gott af mér skilið, útvegaði ég fáeina kaupendur að „Iðunni" og sendi M., sem er umboðsmaður „Iðunnar", og svo auglýsir hann mig útsala, og vegna Ágústs sendi ég M. allt, og verð feginn þeim, sem fást.

Veður að mildast, mikill snjór á jörðu, margir fóðurtæpir og það ótrúlega dýrt, ef fæst, sett upp 20—30 dollara lítið hey-tonn, græn bindi 10—12 hvert. Ég held við slörkum fram úr.

„Flugan“, þessi „flú“, sem allir nefna svo, nema ég, er hér allt í kring, hjá J. Sveinss., Kristj. Jóhannss., Jóh. Bjarnas., Thompson, Sig. Benediktss. Dönum á Markerville: Hjort's, Anderson og Scott og Johnston, nágrönnum mínum. Jón Olson lá í henni í 8 daga í Edmonton, og „svitnaði svo mikið, að vatnið rann um gólfið, gegnum sæng og rúmföt“. Annars hefir veikin verið væg enn, engir dáið. Rósa litla mín er á Olds-skólanum. Hún lagðist þar og lá viku, og mun hafa orðið æði veik, en er nú batnað, svo hún hefir tekið upp verk sín á skólanum aftur. Einn drengur frá Innisfail dó á skólanum, sem ég veit um. Annars leyna bæirnir veikindunum allt sem þeir geta, fyrir „hagsmuna-sakir“.

Það hefir verið einhver skrópasótt í mér í vetur, fremur venju. Fjósið hefi ég þó hirt einn, nema tvo daga, sem ég lá í leti. Ég hefi 30 gripi liðuga að hirða og eldiviðar-„klofin“! Svo laumast ég í nokkrar mínútur, áður en ég „fer í flórinn“ á daginn, að skrifa bréf, eða skammakafla í „Voröld“, fæ hann svo bandvitlaust prentaðan þar, svo ég er „heimskari eftir en áður“, eða verður stungið undir stól. Nýbúinn að senda henni pistil út af „Tjaldbúðarmálinu“, „hnýflóttan“ í allar áttir, án þess að nefna nein nöfn. „Gerði“ það af glettni, af því Hjálmar tók fyrir kverkar „Kringlu“, og Sig. hafði orð á því. Veit ekki, hvort hann tekur mitt — en „við sjáum hvað setur“. Mér þykir gott að heyra, að þú ert heilsubetri. Láttu nú ekki kjötkatla þessa nauta-Faraós eitra þig aftur. Stattu þig nú vel í því. — Fólk mitt biður kærl. að heilsa þér, og vertu blessaður.

Þinn Stephan G.

*Jón Jónsson frá Sleðbrjót.* Markerville, Alta, 14. marz 1920.

Góðvinur Jón. — Þökk fyrir bréfin þín síðustu, sem ég hefi svikið af þér svar upp á nú í nærri þrjá mánuði. Átti ögn annríkt, er afkasta-smár orðinn, ýmsu að gegna með fjósrekunni og jafnvel pennanum, og eru kveld og nætur orðin mér ónýt, nema til að lesa, og þó les ég ekkert nema blöð og tímarit, finnst ekkert líf með *lífi,* nema það sem er að gerast og í aðsigi, og er svo að reyna að drepa hendinni ofan í iðuna, hvar sem ég get komið henni, til að komast fyrir, hvert straumarnir liggja — og ég næ í ýmislegt, sem næst er

sanni, af því sem nú er til í blöðum, ég þekki það orðið úr af langri kynningu við flokksblöðin, sem alltaf hafa logið, en aldrei háskalegar en síðan stríðið skall á, því þar er varla „hugsun rétt, heldur en gras á brúnaklett“, eins og Jón gamli Thoroddsen kvað um kveðskap leirskáldsins. Og nú eru þau að byrja að ljúga sig með lagi út úr sinni eigin lygi um „bolshevismann“ á Rússlandi, þegar engin brögð ætla að duga lengur til að skera hann niður, því hann sigrar heim allan á endanum, af því hann er sanngjarnastur, og eina hjálpin út úr þeim hreinsunareldi, sem mannheimur er staddur í, hann — eður mennirnir í dýpra viti, að eilífu, það er ég viss um. Deiluefnið er ekki lengur, hvort „soviet“-fyrirkomulagið eigi að komast á, heldur: verður það fáanlegt með góðu, eða aðeins með illu. Nú geng ég víst alveg fram af þér í „landráðunum“, sem einu sinni þýddi svipað og „pólitík“ nú, en ég var ögn búinn að hugsa þetta, og kominn eitthvað í áttina, áður en sovietta-sagan hófst, því undirstöðu-atriði hennar voru orðin upphugsuð fyrir löngu, sem sé, engin stétt nema ein: iðjumennirnir. Þeir einir setja reglur um verk og viðurgerning, sem verkið vinna og kunna. Öll störf unnin einstaklingum og þjóðum til ágætis, en engum sérstakling til auðlegðar. Þetta voru nokkrar grundvallarástæður, svo einfaldar og auðséðar, að ofurlítil framsýni gat séð þær gleraugnalaust, ef hún rýndi í áttina. En að koma þessu fyrir, hefir soviet-stjórnin gert gangskör að, og ég hefi lesið landbúnaðar- og vinnumannalög þeirra, fljótlega, og fann ekkert, sem ófrjálslegt væri eður andstætt þessum reglum, en hitt er satt, ég alveg neita mér og öðrum um eignar-réttinn á því, sem er almennings-þörf, og er þar að auki heimskur í því, hvernig bezt verði því fyrir komið, svo eitthvert boðorðabrot ekki smjúgi inn. Ég sting þessu nú svona að þér, ekki til að ofbjóða þér né til deiluefnis, en bara til „að brjóta upp nýtt land“ milli okkar út úr húmi íslenzkrar „pólitíkur“. Í henni erum við víst hér um bil sammála, báðir utan-að-sjáandi, en þú þar kunnugri en ég, mönnunum líka. — Ég kynntist P. Gauta svolítið, hann var á þingi. Féll ágætl. við hann, svo blátt-áfram bóndamennilegur og dekurslaus. Ég gisti á Gautlöndum hjá syni hans og dætrum, yndislega víðsýnu og víðlesnu ungfólki. Varð að vaka fram undir dag til að ræða ýmsa „speki“, því það var eins og þau systkin þekktu helztu höfunda, stefnur og

strauma út um allan heim, og dæmdu allt þess konar svo frjálsmannlega. Langt verður þess að bíða, Jón, að ég komi á íslenzkt heimili hérna vestan hafs, þar sem ungt fólk er eins hugsjónaríkt eins og það var á sumum sveitaheimilunum heima, jafn seintekinn eins og [ég] er þó, og eins fljótt og ég fór yfir. Þau systkin báðu mig að hitta pabba sinn, þegar ég kæmi til Víkur. Þess þurfti ekki, hann kom þangað sem ég átti sæti að matborði, og ég heyrði á honum, að hann vissi um komu mína í Gautlönd, yfir símann auðvitað. Mig minnir ég hafi sagt þér áður, um hvað við deildum, niðurleggingu sveitahöfuðbólanna góðu og gömlu, og ungfólks-menninguna nýju og almennu, sem nú væri að taka við af þeim. Ég skildi hann vel og vorkenndi, að mér fannst, en var öruggari en hann yfir umskiptunum. Annars ræddum við þetta ekki, drápum bara á, létt og lauslega. — „Selah", málhvíld: fjósaverk í bleytuhríðar-mokstri:

„Enginn vissi áður hvað orðið *Selah* þýddi, en með „nudn" það íslenzkað óra tungu prýddi." Manstu þessa vísu, Jón, gerða minnir mig um Jón heit. ritstjóra Guðmundsson, út af stamyrði hans: „nudn".

„I morgen er det atter en Dag," hafa þeir eftir Afturdegi Danakonungi — sæll á meðan.

Á „afturdaginn":

Ekki fékk ég neinn „Tíma" með síðustu íslenzkri skipagöngu, hverju sem veldur, en bréf frá kunnugum manni sagði mér, að J. Magn.s. forseti ætlaði sér að reyna að ónýta kosningu Möllers. Möller þekki ég ekkert. Vissi aðeins, að hann var eins konar „blámaður" Björns heit. Jónssonar móti frumv. Hafsteins forðum, og var þá skammaður þvert og endilangt af liðum Hannesar, en þá þótti mér vænt um Möller. En — er ekki, ef til vill, „ærleg taug" undir kosningu hans, jafnvel nú? Ég hefi grun — ekkert nema grun, og líkl. rangan — mér finnst eins og einhverir af traustustu landvarnarmönnunum fornu hafi hlynnt að kosningu hans, menn, sem ég veit, að ekki eru veifiskatar. Það datt upp úr blaði — Eimreiðinni — að orð léki á, að enn skildu Ísl. og Danir atriði í „nýja sáttmálanum" hvor á sinn veg, þó vonandi væri, að það lagaðist með góðu. Væri þetta svo, gæti enn ekki, undir niðri, eimt eftir af gömlu glóðinni, svo leyndist í þessum kosningum enn, hvað sem um Möller er? — Þú

bjóst við meiri skörungsskap af Tryggva og yngri mönnunum. Ég átti einmitt tal um það við vin minn í þeim hóp, og sagði líkt og þú. Svarið var hér um bil svona: Að vísu satt, við vitum þetta, og það er gert af ásetningi. Undir niðri ráðum við allmiklu. Höfum okkur sjálfa ekki frammi enn. Okkar tími er enn ekki kominn, þeir eldri sitja enn nokkuð fast, og við látum þá vera. „Ekki veit ég meira" — en alíslenzkt er þetta. „Tómlátur er hann, Mörlandinn," lýstu Norðmenn okkur, og voru ef til vill að lýsa sjálfum sér líka, meira en margan grunar, því eitt skáld þeirra huggar sig, í þeirra orðastað, við þetta: „Me skal koma, om inkje so braadt." Tökum kvenfólkið okkar, það fær kjörrétt. Blöðin — flokkarnir — reyndu að ögra þeim: Þið heimtuðuð réttinn, fenguð hann, — þegar til kemur, býðst engin ykkar fram til þings. Er þetta allur áhuginn? Og þær svara: O, já, okkar tími er ekki kominn enn, en kemur. Það er ekki áhugaleysi. Við erum óæfðar, ætlum að læra fyrst, þið hafið einir, piltar, fjallað um þetta, og lengi, en mistekst þó enn margt. Fleira að gera gott er til en þessi þingmennska. Einhverju af því ætlum við að sinna, svo sem landspítala-málinu. Ef okkur tekst það vel, sönnum við rétt okkar til þingmennsku líka. „Rússinn deyr á merkilegan hátt," sagði eitt skáld þeirra í sögulýsing á dánardægri rússnesks bónda — en Íslendingurinn *lifir* oft andlega á merkilegan hátt.

Eflaust er fossamálið mesta áhuga- og óttamálið. Ég ræð það af því, að Inga Lára (ritstj. 19. júní), í bréfi til konu minnar, gerði hálfgerða ósk um, að rödd kæmi „að vestan", því nú ylti á eins miklu, eða meira, en 1908. Sumir eru enn hlýir til okkar fyrir undirtektirnar þá. Ég sendi Ingu kvæðið, sem þú gazt um, „Drottinsorðið", sagði sem var, að fossamálið þeirra botnaði ég ekki til hlítar, en þarna í kvæðinu hefði hún mína hugmynd um blessun stóriðnaðarins, gleggri en ég gæti sagt á annan hátt. Og loks — í glettni og alvöru — að ef upp kæmi hætta af útlendum verkalýð, bæri ég bezt traust til íslenzka kvenfólksins, mæðranna, að vera vörn gegn því. — Nú er Siggi líkl. í súpunni. Það var komin frétt um það brask í ensku blöðunum, áður en „Voröld". Mér svo sem kom þetta ekki óvart — ekki það, að Sigurður hafi svívirt réttvísina. Í því, sem hann til færir, segir hann bara það sama, að efninu til, eins og mörg og mörg ensk blöð, sem ég les,

og öll eru látin óátalin. En hann gerði annað glappaskot í „Voröld“ fyrir nokkru, hét því að gera allt, sem hann gæti, móti Norrisstjórninni, svo andskoti, lá mér við að segja, óþarfa-einfaldlega, að ég vissi, að þess glæps yrði harðlega hefnt við hvert færi. Ég þekki „pólitísku“ vopnin hér í landi orðið, og veit á hverju er von. Getur þú sagt mér nokkuð af þjóðræknis-þinginu, undiröldunum, t. d. skrifara-kosningunni? — Var hún undir niðri reipatog milli R. og S., er það það, sem „Voröld“ er að gefa í skyn? Ég veit sem sé, að jafnólíkum lundernum og þeirra verður allt að ásteytingi, jafnvel þó annar, eða báðir, hlífðust við.

Ætla að geta enn frá þér
Eina línu fengið,
Hafi ég ekki alveg hér
Af þér dauðum gengið.

Gleðilegt sumar.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Baldur Sveinsson.* Markerville, Alta, 28. marz 1920.

Góðvinur Baldur. — Þökk fyrir alla undangengna viðkynning og vinsemd, og síðasta bréfið þitt frá 3. febr. í vetur. En, leiðast var mér farið að frétta ekkert af þér, því jafnvel séra Kjartan var þér ókunnugur. Ég bað hann að bera þér kveðju mína og komast fyrir, hvort þú hefðir fengið miðann minn seinasta til þín. Mest þess vegna, að hefði svo farið, máttir þú vel gera þér grun um, að ég myndi ekki lengur en svo, að nú hefði ég gleymt að anza þér. En þá kom bréfið þitt, en þó hefi ég ekki tekið bón mína aftur við séra K. Datt í hug, að hún gæti orðið samt til þess, að þið hittuzt að máli. Hann verður nú vestan-fróðastur maður á Íslandi, og er víst bæði skilningsgóður og skilvís. Gott var að heyra, að aftur hefir ögn glaðnað í lofti á heimili ykkar, og vona ég, að það sé vorbyrjun langs sumars. Ég veit, að þú hefir fundið, hversu fallegt það er, sem einhvers staðar er sagt í sögunum okkar um forfeður vora: „Þeir trúðu því, að það væri Sváfa endurborin.“

„Draumana“ þína legg ég hér með. Er að sitja um næstu ferð „Gullfoss“ með þetta, kringum 20. næsta mán, að sagt er. Handriti þínu flækti ég með mér vestur viljandi og leyfis-

laust, og bið þig nú afsökunar á. En til þess bar þetta: Ég leiddi það í tal við Á. H. B., eins og við gerðum ráð fyrir. Hann var í þeim vafa, að hann sagðist ekki sjá, á hvern hátt það ætti við „Iðunni". Ég benti ögn orðum að því, sem er mín kredda: Þetta er skáldskapur í svefni, ímyndun og innræti dreymandans leikur lausum hala, vöku-sjálfsvitundin situr ekki við stjórn, þó eru þarna samstæður og heild í hverjum draumi. Sagði honum, að ég sæi „innræti" í sögunni um kúna, sem ávallt horfði eftir kálfinum, jafn illa eins og henni sjálfri leið — eða, svona var efnið í því, sem ég reyndi að segja. Mér virtist Á. verða hálf-hugsi, en ekki tók hann orð sín aftur um upptökuna í „Iðunni", enda nefndi ég það ekki framar. Svo stóð á, ég vissi þá nokkurn veginn, það sem víst mátti kalla áður en ég fór að vestan, væntanlegt nýtt tímarit þar, undir yfirráðum góðkunningja minna. Ef þú leyfðir, stóð ég þarna vel að vígi. Í því skyni stalst ég af landi burt með handrit þitt. Af tímaritinu varð þó ekkert. Stríðið sleit öllum áhug og öllum griðum. Í „Syrpu" hefði ég getað komið „Draumum", líklega, en hefi ekki gott geð á, finnst „renta fylgja þar ögn nafni", sé „Syrpa" komið af „sorp". Um ekkert af þessu hafði ég skap til að skrifa þér í fyrra. Ég held eftirriti eftir, hvernig sem fer, svo ekki þrýtur, þó þetta týndist.

Séra Kjartan áttu að kryfja allra frétta. — Sjálfur er ég enn að reyna að vera matvinnungur minn. Hefi aldrei verið óvinsælli sem opinber kjafta-ás. Ef þú sérð nokkuð eftir mig í „Voröld", sem ég vona, að enginn geri, sem vit hefir á vitleysum, þá felldu engan dóm um það, fyrr en þú hefir ávænu af, hvernig prentararnir „yrkja úr mér". Oft hafa þeir umbætt mig, en aldrei sem nú! Annars:

Afsakið, of-margt ef sagði,
Á meðan tómstund ég fengi —
Eftir svo örstuttan tíma
Á ég að þegja svo lengi. —

Bið kærl. að heilsa konu þinni, frændfólki mínu og þínu, sem ég þekki, geng svo þegjandi með þér, Baldur, upp á Skildinga-ness melana og kasta þaðan kveðju minni yfir alla Reykjavík — og vertu nú sæll!

Vinsamlega Stephan G. Stephansson.

*Jónas Hall.* Heima, 9. apríl 1920.

Jónas minn góður. — Þökk fyrir bréf þitt. Sigurði skólastjóra á Hólum hefi ég ný-skrifað og sagt honum, hvar útvegum þínum fyrir hann sé nú komið. Sama gerði ég í fyrra. Bréf Riggs sendi ég þér aftur, ef þú þyrftir að ámálga þetta enn. Gat þess við Sigurð, að ef til vill yrði það enn reynt, í þriðja sinn. Í fyrradag fékk ég 2 eintök bundin af „Þyrnum“ frá Hjálmari. Hann segir söluna dræma, fáir bjóðist til fyrirgreiðslu. Jón Sleðbrjótur hafi selt 6 eintök og Gestur Jóhannsson 3, en útsölumenn aðrir heimti útsölulaun. Ég býst við litlu gengi hér, bókin er svo dýr, búvitið svo aðsjált, en ég geri einhverja tilraun, ef einhvern tíma tekur fram úr vetrinum og menn og skepnur slarka af. — Nýl. fékk ég bréf frá Kristni. Hann gat þess, að þú eigir hjá sér 2 bréf. Segist pennalatur, á sig hafi sótt í vetur sjóndepra og kvillar. „Fluguna“ — þ. e. „flu“ á enskunni — fengu þau víst bæði hjónin, en væga, að öðru en því, að Lauga varð gigt-hölt og gengur seint að batna. Ekki veit ég, hvenær þau koma aftur. — Ekkert hefi ég frétt af Tjaldbúðarmálinu né „Lögbergs“-ráðsmennskunni, annað en það, sem af blöðunum verður óljóst ráðið, og það, sem þú sagðir mér. Annars er á engu að undra sig, aftur-hald og „makt myrkranna“ gengur nú „ljósum logum“ um allan heim, og að því finn ég ekki, vona, að þau viti á sig, að nú sé „þeirra tími orðinn naumur“.

Hér stendur yfir fimbul-vetur enn. Allt á kafi í fönn. Gráhríðar-slitur í gær og dag. Margir hér á ná-strái með skepnufóður. Veturinn setti að einum til tveimur mánuðum fyrir vana-venju. Fellissögur berast víða að. Sjálfur á ég gjöf fyrir skepnur í nokkra daga enn, og hefi ekki fóður keypt. Alls höfum við Kobbi haft líkl. um 70 gripi, hross og naut, á gjöf í vetur — ég hefi ekki talið það saman — og einir heyjuðum við fyrir því í sumar sem var, hálm og hey. Fátt af þessum skepnum á ég sjálfur, krakkar og konan hitt. Sem stendur, og í vetur, hefi ég sjálfur hirt í fjósi um 40 kýr og kálfa saman. Jæja. — Hver átt syngur kveinstaf, og tryllt er öll tíð, og nú er sá 10., og ég ætla að gera þetta úr garði. Hríðarmugga enn annað veifið, en hlýtt í lofti. Rósa litla, yngsta telpan mín, er nýlega komin heim af bændakvenna-skóla í Olds, þar sem hún var í vetur. Hún fékk þar „fluguna“ —

ég skammast mín að segja aðra eins vitleysu og „flú“, ég get þó búið til íslenzkt ónefni, með vitund af viti í. — Telpa er nú jafngóð af veikinni fyrir löngu, en varð víst býsna veik snöggvast. Í fyrradag fluttum við eina litlu telpuna Baldurs til uppskurðar við botnlangabólgu á sjúkrahúsið í Innisfail. Baldur var ekki heima þann daginn, en ekki mátti bíða. Hún var skorin strax upp um kveldið. Hún var lifandi í dag og leið eftir vonum. Lína Baldurs og önnur eldri dóttir hans hafa verið skornar upp áður, það hefir kostað skilding. — Ég er kominn í botn á blaðinu. Heilsaðu þér og Sigríði frá okkur og vertu nú sæll.

Vinsamlega Stebbi.

*Sigurður Jónsson frá Víðimýri.* Heima, 16. maí 1920.

Líf á vonum lengstan vetur lafði núna —
Samt því heilsað sumar getur, sólskins-búna.

Gleðilegt sumar, Siggi minn, og þökk fyrir bréfið. Reyndar er hvíldardagur, en alltaf hefi ég verið útinöltandi, síðan ég brölti úr bælinu í morgun. Helga hefir nýl. skrifað Sigríði, og innan stundar fyllist hér allt af gestavonum. Ég er því „tímaleysingi“ og efnaleysingi, því ekkert bréf fæ ég nú að austan, sem fréttir séu í. Veit því ekkert, nema það, sem ég les í blöðum, og þau hefi ég nú mörg og góð og get skimað út um alla Evrópu öðruvísi en í íslenzku og ensku spekulöntunum hérna sést — en það yrði ekki í bréfi sagt. Ég sendi þennan miða líkl. með Ófeigi — á von á honum. Legg með bréf frá gamla kunningja þínum, Thorlacius. Ég held þú hafir meira gaman af að lesa það en þó ég ruglaði langt. Þú getur skilað mér því einhvern tíma seinna.

Áin flæddi hér yfir allt. Gerði kýr séra Péturs húsnæðislausar, auk heldur annað! Allir kafnir vorönnum. Skólann hérna flæddi út í heila viku. Þá var kveðið:

Hér er skapað Holland,
Hulið vatni skol-land,
Bjargar-vona vol-land
Veinandi um mol-strand.

Nú er allt að þorna aftur. Ég á von á, að þér skáni við veðurbatann. Við gömlu fauskarnir erum eins og ánamaðkarnir,

skríðum úr rótinni, þegar sólin skín á þíða jörð. Satt er það, „Tímaritið“ var gott eftir föngum, og vel útgert. Ekki að marka, þó þú og ég könnumst þar við margt, sem höfum lifað samtíða svo mörgum þeim hugsunum, sem þar koma upp. Flestum Vestur-Ísl. mun það samt nýjung, hvort sem þeim þykir slíkt nokkurs um vert eða ekki.

Frátöf verð ég vafinn,
Verr en flestir —
Allur kyrrþeyr kafinn,
Komnir gestir!

Við erum að hugsa um að senda þér tvö kver til að lesa, ef þú hefir stund til: Kvæði Davíðs míns frá Fagraskógi, sem ég tel efnilegastan ungra íslenzkra ljóðskálda, þó sérstæður sé, og „Barndómssögu“ Hólmfríðar Árnadóttur, á ensku. Þú hefir kannske hvorugt séð.

Lengra þvæli' ei þessu sinni þvaðrið hér —
Sumar-auka í æfi þinni óska þér!

Stebbi.

Ég átti að skila til ykkar heilli keðju af kveðjum héðan. S.

*Jón Jónsson frá Sleðbrjót.* Markerville, Alta, 2. júní 1920.

Jón minn góður. — Fyrirgefðu dráttinn. — Ég var í önnum og er enn. —

Rætur tíndi ég út um akra
Uppgefinn. —
Veðrið mér, og ellin eins,
Var illrætin.

Þína *Confessio politicum* sendi ég aftur, þó ég helzt vildi, að einhver geymdi hana til framtíðar. Svo margt og margt, sem sagt er „undir fjögur augu“, er margfalt betra vitni, í komandi tíð, um menningar-þroska heima-alinna Ísl. hér, en það, sem ritað hefir verið, og ég sé eftir því öllu, sem að forgörðum fer. Margar athugasemdir myndi ég við hana þó gera, en hefi ekki tíma til þess nú.

Bænda-pólitík eins og hún hefir reynzt („Agrarian Party“) eingöngu, og hugsjónalaust, er ekki mín þrá. Það kann að vera ill nauðsyn. Ég er í bændadeild hér og af einlægni — en vel að merkja, formaður okkar, Woods, heldur fram hug-

sjón, annarri en bæði Man-, Sask- og Ontario-bændur, og sem ég felli mig við, víðsýnni, réttlátri stétta-flokkun, útilokun utanstétta, iðnaðar-stétta alþing, í stað auðflokka-þings, framkvæmdarstjórn á því, sem lögleitt er, sem fellur ekki, þó frumvarp hennar eitthvert falli á þingi, víkur aðeins við vantrausts-yfirlýsing. Þetta er nú aðalkjarninn í *soviet*-stjórn svo nefndri, „democrasiið“, sem á er stagazt, en hvergi er til nema í Rússlandi, þó Woods hafi þetta frá sjálfum sér. Í minni ímyndun hlýtur líkt þessu að ske — eða, heimurinn fer til andsk... á þessari öld. Svo er nú komið fyrir almenningi alls heims, að þetta þolir litla bið.

Taflið aðeins um — fæst þetta með lögum, eða aðeins með bardaga. Rússastjórn æskir einkis, nema friðar, til að fullkomna hjá sér þetta fyrirkomulag, sem hún trúir á, en fær ekki frið. Öll „hervöld helvítanna“, auður og stjórnarvöld allra ríkja, sem nú eru uppi, siga á hana öllum hennar nágrönnum, með mútum, undirróðri, liðstyrk, herbúnaði og hótunum. Þetta síðasta *veit* ég, því það gerist nú samtíða mér. Hvernig nýja fyrirkomulagið reynist, er *ímyndun* mín enn, því það er ekki svo sem þrautreynt enn, né verður í minni tíð, en eftir bezta viti sé ég ekki annað úrræði almenningi lífvænlegt. —

Persónulega er mér sama um 5 ára skilyrðið heima, og þá eins fyrir aðra. Álít jafnvel *okkur* ekki óhættulega fyrir íslenzka pólitík, þangað til við „settumst“, jafnmargt illt eins og við höfum lært hér, sumir erum gleiðir yfir, og líkl. trúum á. Nóg er til samt heima af því, „innflutt frá *stór*-þjóðunum“. Hitt væri rétt, í mínum augum, að hvert ríki sem er bindi atkvæðarétt aðkominna við sömu þekkingu og kunnáttu í tungu og sögu þjóðarinnar sem ætluð væri til útgöngu úr alþýðuskólum hennar, en léti sig svo engu, nema góðu, skipta, hver önnur mál mannanna þeir töluðu hversdagslega, eður kynnu þar utan. Ég væri ánægðastur, að báðir varnaglarnir væru í íslenzkum lögum, þetta og 5 árin. Ísland litla á þarna margfalt meira á hættu en t. d. Canada. Því veldur hinn stóri bakhjarl enskunnar: England og Bandaríkin. En blessaður, Jón, sendu „Tímanum“ grein þína, eins fyrir mína út-úr-dúra. Hún er góð, ágæt í sinni röð, og vel, að þeir viti heima, frá manni, sem þar er metinn merkorður, hvað hér sé fundið að. Þó vantar eitt í hana — þetta: Við, sem hér tókum

borgarabréf fyrrum, erum samkvæmt þeim ekki *brezkir þegnar*, njótum aðeins allra almennra réttinda og lagaverndar innan takmarka Canada, teljumst *„þegnar þess ríkis, sem við fórum frá, nema öðruvísi sé um samið af hlutaðeigandi ríkjum“* (orðin kannske ekki alveg eins, en efnið svona — nenni ekki að leita að því og lesa upp nú). Með öðrum orðum: Canada og Bretland segja okkur upp utan landhelgi-línu. Engin réttindi lengur — engar skyldur þá heldur. Við erum bara það, sem mér bezt fellur: allra-þjóða-kvikindi, en hvernig gætu íslenzk lög litið á það? Auðvitað myndi brezkur ræðismaður á Íslandi sinna okkar málum eitthvað, en ber ekki skylda til þess. Ég veit þetta og vissi vel, áður en ég fór heim. En þú getur grennslazt um þetta hjá einhverjum, sem skilning hefði til og satt vildi segja. Ég bar þetta, „prívat“, upp á einn stríðssendilinn um árið, sem sjálfur var lögfræðingur, og sagði honum að segja, hvort ég færi þar ekki með rétt mál, og þá væri hvorki ég né synir mínir herskyldir *utan Canada*. Hann brosti — en kannaðist við, að svo myndi vera að lögum réttum. Grein þína í „Þjóðræknistímar.“ hefi ég lesið, hún er góð, sannorð svo langt sem ég skil, hlýleg og gumlaus, og vel að máli farin eins og vant er hjá þér. Þú baðst mig að segja þér eitthvað um hana. „Minningar“ þínar, sem þú sendir mér, sendi ég þér aftur — það er áreiðanlegt! Þær voru um 3 menn, lengst um Þ. Erl., nokkuð um J. Ól. og Thomsen. Ég var að etja þér á þær. Þú kinokaðir þér heldur við, vegna þess, að þú þyrftir af sjálfum þér að segja, meira en þú kysir. Ég tók það fram, að hjá slíku yrði ekki komizt í „minningum“. En heyrðu. Ekki vænti ég, að þetta hafi komizt á einhvern glámbekk hjá þér, þegar þú ritaðir t. d. í „Skuggsjá“ um Þ. E. (eða, var það ekki í „Skuggsjá“?). Víst er eitt, sú grein var að mestu leyti eins og handritið, sem þú sendir mér — að niðurlaginu undan teknu. En hvað svo sem um hefir orðið, hafðu það samt eins og Móses, skrifa þú upp aftur, þó þú hafir brotið töflurnar.

Sein-vorun og sumarleysa hér enn. Sáning frámuna biðlöng, en frátafa-lítil samt, veðurs vegna. Fénaður landa slarkaðist af fellislaust, að öðru en smávegis ótímgun, sem æfinlega leiðir af óáran í tíð. — Áin hérna flæddi með hæsta móti. Engir skaðar, nema að nesjalönd blotnuðu í bráð. — Mér þykja ætíð illviðra-krákurnar leiðustu fuglarnir í allri ótíð.

Ég gleymdi því — franska byltingin, í mínum augum, átti öll sín ósköp að rekja til hálf-unnins verks, ekki „of-frelsisins“, eins og það er rangnefnt, heldur „ófrelsis“ eignleysingjanna. Efnamennirnir einir unnu, keisaravaldið, — veslingarnir sátu við sömu kjör. Svona les ég allt, öfugt við aðra. Margt þyrfti ég fleira að segja og spyrja um — ef tími er til, og vertu blessaður og sæll.

Vinsaml. Stephan G.

*Ásgeir Ingimundarson.* Markerville, Alta, 16. júlí 1920.

Ásgeir I. Blöndahl. Góði vinur. — Þökk fyrir bréf þín tvö, og fyrir tilboðið, þér og meðnefndarmönnum þínum; gat illa svarað samstundis. Lá bólfastur í fletinu, er fyrra bréfið þitt kom, þó ekki væri það eins rausnarlega eins og fyrir karlinum, sem sagðist vera „dauðveikur og svo væri sér meira illt“. Ég var nú samt lasinn meira en á einn hátt. Nú er ég upprisinn aftur, og hefi í huga að gera það alveg bráðum. Samt varð mér svaratöf að þessu. En í gær bað ég fyrir hraðskeyti til þín, svo látandi: „Reyni að koma og geri það að öllu sjálfráðu.“ Hlakka til alls, ef af verður, nema eins: að flytja ræðu! Viðvíkjandi kvæði — Íslands-minni — þar er ég uppgenginn. Hefi gert þau svo mörg — og þó neitað um fleiri — að í bráðina kem ég engu fyrir mig — sem ekki væri útjaskað og okkur til annars en ómaksins eins að vera nú að velgja upp aftur. Þar er líka enginn hörgull á gömlu og góðu eftir betri menn en mig. Að vísu fellur mér illa að þurfa að skorast undan þessari bón vina minna. En — væri ekki *nýtt lag,* sungið við eldra ljóð, eins gott eður betra til breytinga? Eigið þið ekki ráð á góðum söngrómum? Ég hefi heyrt það. — Í því skyni sendi ég þér, utanveltu, 4 lög við: „Þótt þú langförull legðir“. Eitt munuð þið kannast vel við — Jóns Friðfinnssonar. Einhver sagði mér, að lag Sigv. Kaldalóns væri bezt. Ég er óviti í sönglist, hefi aðeins heyrt það leikið einu sinni — en var „skotinn“ í bassanum. Svo er lag Laxdals — og hitt, við „Situr lítil eyja úti“, auðveldast miklu. En vænst þykir mér sjálfum um lagið við „Heimhuga“, sem einhver sænskur maður orti við vísuna eftir mig, hvar svo sem hann hefir á hana rekizt. Lagið heyrði ég sungið heima, tvívegis, af ungmennafélögunum í Reykjavík og söngflokki á Ísafirði, og mér fannst það fallegt. Jæja, ég sendi þetta

af rælni, og ef ske kynni, að nota mætti, en — geymdu blöðin vel fyrir mig — einkum skrifaða blaðið með hendi Sigvalda og „Heimhuga“. Ég á ekki önnur eintök til af þeim.

Svo bið ég ykkur að fyrirgefa þetta allt — einkanlega ræðuna tilvonandi! Ég vildi helzt fá aflausn „fyrir ódrýgða synd“ — fyrir fram.

Vinsamlegast Stephan G. Stephansson.

*Grímur S. Grímsson.* P. t. Wynyard, Sask. 5. ágúst 1920.

(Stephan sendi Grími myndaspjald með mynd af þeim þremur á, sér sjálfum, Sigurjóni Sveinssyni, og Sigurjóni Eiríkssyni (frá Gilhaga í Skagafirði), þá „Sheriff“ í Wynyard.)

Þér að segja, öðrum engum,
Að hér stendur sinn „guard“
Sigurjón yfir sínum föngum,
„Sheriff‘ austur í Wynyard.

St. G. St.

*Grímur svaraði:*

Þér að segja, öðrum engum,
Að hér stendur trúr á verði
Sigurjón yfir sínum föngum,
Sýslumaður í „Veigagerði“.

*Jakob J. Normann.* Markerville, Alta, 16. ágúst 1920.

Góðvinur Jakob minn. — Kærar kveðjur frá okkur Helgu, til þín og þinna og ykkar allra, með þökk fyrir síðast og allt og allt, auðvitað á það líka við Tjaldbúðar-söfnuðinn norðan undir húsinu þínu, en ekki máttu gleyma kvenfólkinu mínu, þó það sé utan safnaðar, og allra sízt henni, sem gaf mér vindlakassann að skilnaði og fyrir almennings augum, þar sem ég sté á lestina. Ég átti að vera búinn að senda þér línu fyrr, en ég komst strax út í búhnaukið daginn eftir heimkomuna og hefi setið þar síðan. Við komumst heim eftir áætlun, ögn ferðavolkuð, en að öllu öðru leyti „betri manneskjur“. Sjálfur sé ég okkur öll enn í huganum, glöð og brosandi, því ég hefi líka myndavélar-auga undir skallanum, þó ekki sé hún nándarnærri eins nákvæm eins og sú, sem Blöndahl hafði handa milli.



*Sigurjón Eiríksson frá Gilhaga, lögregluþjónn í Wynyard; Kristján Níels Júlíus Jónsson, skopskáldið „KN“; Sigurjón Sveinsson frá Garði í Aðaldal og Stephan G. Stephansson.*

Þessi miði er allur í molum og flaustri, aðeins málamynd. — Vona, að þér vinnist heilsa og hagur til að koma vestur í haust. Og verið þið svo öll blessuð.

Vinsamlega Stephan G.

*Guttormur J. Guttormsson.* Markerville, Alta, 9. sept. 1920.

Þó þær hefðu alizt upp með ám og kúm,
„Bændadætur" Íslands urðu að aðalsfrúm!

Góðvinur Guttormur minn! — Þökk fyrir bókina og bréfið, nýlega komið. Hér er þá fyrst svar mitt við því, sem þú mæltist til. Þið megið senda mér svo sem tvær tylftir af „Bændadætrum" — þó ekki geti ég ábyrgzt að koma þeim öllum út. En hvað dýru verði eru þær keyptar? Enginn hefir sagt mér það enn! Þessi eina settist að hjá mér reikningslaust. — Þó er þetta skilyrði bundið. Hér er eins konar bóksali, nágranni minn, J. J. Húnford. Hann og Hjálmar malla eitthvað saman. Getur verið, að H. sé búinn að „biðja hans". Þá væri borið í bakkafullan læk, og ég vil ekki fara þar „upp á milli". Komstu fyrst fyrir það. Ekki hneykslast ég á „hrosta" þínum, þó aldrei hafi mér þótt orðið fagurt — um kveðskap haft. G. Thomsen notar það oft svo, minnir mig. Finnst eiga betur við um rosa-brim, eins og þú notar það. Ég get ekki „bókfært" það í bráða hönd. Á enga orðabók „að gagni", eins og Guðmundur Finnbogason sagði satt og rétt. Nú vantar Nikk og Fritzner! Ég hefi það á tilfinningunni, að „hrosti" sé sama og *rosti,* því h- hefir löngum fallið burt eða fylgzt með r- í byrjun orða í máli okkar (sbr. Hrafn og Rafn, og ótal fleiri orð), og um vín haft þýði sama og *fermented* í enskunni, í mótsetning við „virtur", sem norrænan hafði víst um „ógerað" öl. En kannske er þetta hugarburður minn. Annars væri varla um slíkt lítilræði að fást, þó einhver bögubósi ræki rýnishorn í það. Ég er allur á annríkis-glóðum nú og bið þig afsökunar á klórinu. Kominn í eindaga með ótal bréf að svara, en læt þig þó sitja fyrir og búskaparannirnar. Geri betur, þegar ég get — helzt þegar veður er ekki vinnufært fyrir illsku — en nú er það og hefir verið með bezta móti.

Lendir þú aldrei — eins og ég — í útideyfum,
Né skrifir allt í „skálda-leyfum".

Vinsamlegast Stephan G.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Heima, 22. sept. 1920.

Góðvinur, séra Rögnvaldur. — Þökk fyrir síðast! Enn kem ég að kvabba, maður er meira en „fátækur fjarri sínu“, maður er ráðleysingi líka.

Þú manst kannske, að þegar útgáfa nýrra Andvakna kom til orða, minntist ég á handrit, sem ég ætti heima á Íslandi (en ekki hér), og gat þess einslega við þig, að óvíst væri, að ráðlegt væri að láta það með. Síðar varð ég enn ragari. Sem sé, þeir, sem allt vilja til verra vegar færa fyrir manni, gátu ef til vill svalað sér á því að gera manni þann óleik að eyðileggja um stund sölu dýrrar bókar — þó aldrei væri nú meira. Fram úr þessu hefir nú óvænt ráðizt. Það sér þú á bréfi Finns til mín og svari mínu til hans, sem ég legg hér með. Reyndar er „djöfsi í böndum“ enn á pósthúsinu, hvernig sem á því stendur, og ég get hér engan hnút af honum leyst. Viltu nú finna Finn fyrir mig og ráða honum heilt, bæði með þetta og Kolbeinslag? Ég vil ekki koma Finni í neinn vanda, ekki einu sinni óbeinlínis, en veit, að þú hefir bæði þekkingu og hyggindi á við viðsjáls-gripina í Winnipeg og veizt, hvar „þeir sitja á fleti fyrir“. Á „Vígslóða“ átti ég enga von nú, en sé ekki eftir — öðru nær. — Bara enginn hefði vanda af honum, nema þá ég einn.

Tíð ágæt. Annir stórar. Uppskeru-horfur góðar. Fólk heilbrigt. Ég orðinn svo „alheimskur“, að ég þyrfti allt að læra upp aftur — jafnvel leti! — en hefi ekki tíma til þess.

Með beztu kveðjum héðan og heim til þín.

Vinsamlega Stephan.

*Úr bréfi til Finns.*

... Þegar ég var heima á Íslandi 1917, skildi ég eftir hjá kunningja mínum í Rvík handrit af smákveðlingum, sem ég skírði „Vígslóða“. Bað hann að bjóða einhverjum útgefanda hann, en setti þá varúð við, að ekki lægi á útgáfunni fyrr en fram úr raknaði stríði því, sem þá stóð yfir. Að sögn vinar míns, tók einn helzti forleggjarinn í Vík vel í þetta, kvaðst viljugur að kosta upp á þetta með tíð og tíma. Það var þó ekki Ársæll, en ef til vill eru þeir í eins konar samvinnu. Ekki hefir síðan verið minnzt á þetta af mér, né við mig. Eftir

því var ég þó spurður: hver ritlaun ég setti upp, og svaraði ég því svo, að ég ætlaðist til engra. Verkið var svo lítið. Þetta hlýtur þá að vera bæklingur sá, sem þér var sendur. ... Vildi ég hefði getað svarað þér gleggra.

... Sama árið og ég fór heim, vóru öll þau „Kolbeinslög“, óseld hér, sem menn vissu um, send heim. Ég kom þeim til bóksala í „Vík“, sem lét Ársæl taka þau að sér. Áður en ég fór að heiman, vóru þau uppseld, og Ársæll spurði mig, hvort ekki myndu fleiri til, bjóst við að geta selt fleiri. Ég vissi þá ekki um önnur. Séra Rögnv. Pétursson hefir séð um þetta manna bezt fyrir mig. Ég sé ekki, því ekki væri bezt að senda þau heim, sem þú hefir nú bara þér til þrengsla, ef bóksali þar vildi taka þau, selja þau fyrir sama og áður (krónu minnir mig). Ef nokkuð yrði afgangs fyrir mig að hirða, þyrfti ekki að flytja það yfir í dollara — ég gæti notað það í átthögum krónanna.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerville, Alta, 17. nóv. 1920.

Góðvinur. — Getur þú gert bón mína, komið meðlögðu svari til Lögbergs að í Heimskringlu og séð um að lesa úr því fyrir mig, eins og hægt er? Handritið er illt, ég veit það. Skriftina hafði ég engan tíma til að vanda, fyrir kúm og svínum, svo Lögbergs-fjósið sat á hakanum, og verkunin á því fljóta-skrift á hlaupum. Rétt hefði ég átt til svars í Lögbergi, en þori ekki að eiga neitt undir ráðvendni þess, né vil gefa því tíma til dráttar og umbúnaðs. Ég held ékkert sé í greininni, sem varðar við lög, en ekki vildi ég koma „Kringlu“ í neinn vanda mín vegna, og því er ekkert nema „heim aftur“, ef þið sjáið einhver tormerki á. Svo er það ekki að orðlengja. Ég hefi ekki um frjálst höfuð strokið fyrir önnum, síðan við sáust í W.-yard. En svo var það svo löng hvíld og skemmtileg. Í skrokknum er stundum einhver bilbugur, hér og þar — líklega skrópasýki — en þráinn sá sami.

Mér fannst ég verða að svara Lögbergi, ekki svo mjög vegna mín og Vígslóða, okkur sakar lítið, en það er heimskan eða hrakmennskan, hvernig á að nota þetta við óskylda menn og málefni — fram á hana þurfti að sýna.

Tíð góð. Gripafóður nóg. Uppskera ekki há, en sumarhorfur betri. Búsafurðir sífallandi og illt að verða af með sumt, t. d. nautgripi.

En þó svo gangi, að gerist enginn gróðafeginn,
Samt lifa allir — einhvern veginn.

Svo skal ekki tefja þig með lengra bréfi. Nóg er hitt. Kveðjur okkar kærar til þín og þinna. Þökk fyrir fyrst og síðast og líði þér vel.

Vinsamlega Stephan.

*Jón Jónsson frá Sleðbrjót.* Markerville, Alta, 3. des. 1920

Jón minn góður. —

Óskilin mín öll við þig
Má önnum kenna — ei gleymsku.
Og „Lögberg", til að tefja mig,
Tútnaði út af heimsku.

En þökk fyrir bréfin þín bæði, Jón minn. Ég hefi aldrei verið fyrr svona bréfaskuldugur um áramót. Á ýmsum ósvarað heima og hér. Ég byltist í bólið af bakverkjum tvær vikur í júlí, og svo varð mér „meira illt", eins og karlinn okkar sagði, sem spurður var, hvernig honum liði, og svaraði: „Ég er dauðveikur", og bætti svo hinu við. Nei, ég var ekki dauðveikur — en læknir vitjaði mín sjö mílna veg og setti mér það $19.00 fyrir ferðina, svo þú sérð, að ég var þó „þungt haldinn". — Þá var ég beðinn að vera í „Wynyard" 2. ág. Helzt vil ég ekkert fara og aldrei ræður halda, en ég gat ekki neitað, ef ég yrði flakkfær. Vinir áttu í hlut, og óvinum var ami að því, svo ég fór, og átti unaðsdaga í tvær vikur — en síðan hefi ég varla um frjálst höfuð strokið fyrir önnum, ef ég var vígfær fyrir lari, og nú er ég kominn fram á minn fjósa- og svína-vetur fyrir löngu. En allt er gott, meðan maður getur gengið með heilan hug. Ég var langt kominn með svarið til „Lögb.", þegar ég fékk bréf þitt. Sá, að ég komst ekki hjá því, og ætlaði (og fór) sömu leið með það sem þú réðir til. Fór mér hægt, viljandi, til að lofa öllum framígeltum „Lögbergs" að komast á klaufir, en ósjálfrátt, sökum tíma naumleiks míns. Hefi hálfgaman af blöðum okkar, annað verður ólmt og í sama sinn „flaggar í framstafni" með brag séra Jónasar, hitt kisuþvær sér framan í flokk sinn. Þó er jafnvel í þessu nokkur drengskapur og hygginda-munur mikill, en lágt liggja nú blöðin okkar. Auðvitað hefir „Hkr." hleypt

„Lögbergi“ upp með því að prenta grein „Förumanns“. Mig skal sízt furða, þó orðið hafi flokkaværingar í Winnipeg (þó ekki viti ég um neinar, hefi engin bréf þaðan), og Vígslóðaeftirmál orðið í hljóði, og færum sætt af öðrum ástæðum en honum, flokka-sníkjurnar komizt í jafntefli við sjálfa sig, í þjóðræknis-yfirskininu hérna. Ég játa samt, að þetta er aðeins fótalaus grilla mín, sem ekki er að marka, né umtalsverð.

Ég hefi lengst af í sumar lesið tvö heimanblöð: Tímann og Dag, bæði mér til mikillar ánægju. Þar kennir þess, sem mér fannst ég reka mig á heima, yngra fólksins — eflaust enn of fárra — þess sem þá hugsjón hafa að vinna einungis að fegrun lífsins, bót og betrun lands og lýðs, hugsunarháttar og hags hans. án tillits til að bera það sjálfir í sjóði, þetta sem almennt skortir hér.

Sveinn Björnsson þykir heima mikill samningamaður. Það hygg ég, að hafi að nokkru ráðið vali hans. Flokks-andstæðingur hans, Matthías gamli Ólafsson, bar honum það. Sagði, að enginn annar Íslendingur myndi hafa getað orkað landsláni í Noregi, sem fékkst með hans umgöngu. Annars er nú Matthías gamli bæði greindur og sanngjarn og vel að sér alþýðumaður. Til dæmis, hann er víst lítið betur trúaður en ég, og þá er nú skarið tekið af, eins og þú veizt. Um „spíritismann“ sagði hann svo við mig: „Mér er illa við hann, ekki fyrir kenningar hans, þær varða minnstu, heldur fyrir afleiðingar hans hér. Hann hefir hér um bil eyðilagt fyrir okkur þrjá okkar ágætustu menn, á efri árum þeirra.“ „Þrjá?“ spurði ég — vissi um einn. — „Já, Björn Jónsson, Skúla Thoroddsen og Hannes Hafstein, alla merkismenn.“

Enginn efi, að nú kreppir fast að Íslandi, þó víða annars staðar verði þó um sárara að binda, ef ekki höggva. En eins og þú, finnst mér ég vera von-viss, að gamla Frón eigi eftir að yfirvinna þá þraut. Til hamingju er stór hluti fólks þar svo gamaldags enn, að það er ekki svo umsýslu-sokkið enn, að hafa engan tíma til umhugsana. Það fólk slarkar betur yfir öfgar undanfarinna tíma, vona ég, tekur eftir afförmunum annars staðar, og sér sína sæng uppreidda, með sömu aðförum. Annars eru alls staðar uppbrot og hreyfing. Að því ber að hlynna af alefli, jafnvel því, sem hugsar of-geyst, annars fellur almenningur í rótlaust rot aftur. Alltaf er nógu vont að

vekja hann, þó ekki sé hætt við að rumska við honum, rétt þegar hann virðist vera að losa svefninn.

Þér til gleði, góður minn,
Gangi jafnan til þín inn,
Luktar eins og opnar dyr,
Ánægjunnar hátíðir.

Vinsaml. Stephan.

*Grímur S. Grímsson.* Heima, 5. des. 1920.

Góðan dag, Grímur minn, og þökk fyrir allar sendingarnar í póstinum. Afmælisgjöf þína fékk ég líka með skilum. Hafði áður lesið „Deep Furrows“. Moorhouse er fremur rithöfundur en skáld, nema í náttúrulýsingum á vestursléttunni, en stefnan í ritum hans er í áttina þangað, sem inar nýrri bókmenntir ættu að fara.

Tíðin indæl alltaf. Kona Peters gamla Thompson hefir legið veik, og Anna gamla Eiríksson liggur nú, báðar nokkuð hættulega, en í sínum eigin meinsemdum. Farsótt hefir gengið hér sums staðar, og í henni hefir Rósa mín legið á skólanum í „Olds“, en var skriðin á flakk aftur nýlega.

Harð-æri að hefjast í öllum viðskiptum, jafnvel verzlunarsvik í gripasölu. Innheimta ill, jafnvel hér á Markerville. Jón og Mundi ná ekki inn mörgum þúsundum enn, hvernig sem fer. Mér eru þau viðbrigði engin furða. Bjóst við þeim upp úr stríðinu. En svo lifa allir einhvern veginn, að minnsta kosti hér, og byltingarhugurinn um heim allan er ofurlítil von, bara hann hjaðni ekki út árangurslaust.

Í sumum hér í bændaflokknum hafa verið bollaleggingar að setja upp samvinnu-búð á Markerville, jafnvel kaupa af Jóni og Munda. Ég hefi þrætt við þá á fundunum, mínum vinsældum til niðurdreps, ekki vegna þess, að ég sé móti málefninu, ég er með því, en mér fannst, að allt ætti að gera með svo miklu fyrirhyggjuleysi og ókunnugleik og fámenni, að ég hefi enga trú á því í bráðina. Þetta var meðan allir trúðu sig vera betur skildingaða en varð. Nú liggur allt í þögn, sem stendur. Í bráðina finnst mér mest um vert, hvernig bændum reiðir af sem þingflokki næst, hversu samtaka þeir geta orðið um samvinnu-sölu á sínum afurðum, þar sé stærri hagsvon í en stofnun smáverzlana. — En „bændur sjá aldrei lengra en

nefið nær", sagði John Turner um árið, þegar hann var að sýna fram á, hvernig þeir væru sviknir í hveitisölu í Bandaríkjunum, 300.000.000 dollara á ári, en rifust aðeins um rúma 50.000 dollara, sem kornhlöðurnar stælu af vigt eða flokkun, Laugu og Kristni líður held ég vel í Prince Rupert, en ég efast um, að eigurnar þar séu mjög gróðavænlegar í þessu bili. Ég hefi nóg að gera í fjósunum, og ýmis lykkjuföll að verða í skrokknum. Má samt heita skratti brattur, nema helzt á kveldin og nóttinni. — Þökk fyrir gamalt og nýtt, Grímur, og gleðilegar hátíðir og kveðjur frá okkur.

Vinsaml. Stephan.

*Jónas Hall.* Markerville, Alta, 7. des. 1920.

Jónas minn góður. — Ég kem nú bara til að lofa þér að vita, að ég fékk með skilum bréf þitt í sumar, sem ég hefi svikizt um að svara, annað hvort sökum ónýtings-skapar eða anna við þessi þúsund og einnar dags og nætur aðköll við búhnauk og að stinga niður penna í ýmsar áttir, þegar tómstund fæst eða ég er ekki sjálfur alveg óvígur. Kem líka til að biðja ykkur gleðilegra hátíða og áraskipta. — Ekkert er títt hér sérstaklega, nema þetta, sem þið hafið líka, að líkindum, einmuna góð tíð og viðskipta-kröggur, einkum bændanna. Varla hægt að selja sumt, t. d. gripi, og fram að þessu hafa þeir orðið verst úti, sem reyndu að bíða sér til bata. — Þakka þér fyrir útveganir allar á tréfræinu. Ég fékk líka línu frá Sigurði. Fræin vóru sett niður á Akureyri, ekki Hólum. Það mun hafa verið hyggilegt úrræði. Mér fannst hæðin yfir hafflötinn hlyti að vera of há á Hólum, þó ég viti hana ekki. Svo er gróðrarstöðin á Akureyri á afbragðsstað, sól og skjól og raki, eins og bezt mun hægt að fá á Íslandi. Það hygg ég sé leyndardómurinn í því láni, sem verið hefir með hana, og það er furðanlegt, eftir ástæðum. Sigurður lofaði að senda mér framvegis sögu um viðgang þessara viðar-vona. En vænna hefði mér þótt, hefðu þær getað vaxið upp á Hólum, en það er nú bara bernsku-brek í mér. — Ég var í Wynyard 2. ág., eins og þú veizt. Ég lá í bælinu lasinn, þegar ég fékk boðskapinn, og vissi ekki, hvort ég yrði flökkufær. Vil helzt aldrei ræður flytja, þær eru mér ágalli á öllu fagnaðar-boði. Þó lofaði ég að koma, yrði ég fær, og efndi það. Það, sem réði,

var: Ég vildi ekki verða vinum mínum þar vonbrigði, í því sem ég gæti, og þeir eru þar fleiri en líklegt er. Svo vissi ég, að þar myndi annar flokkur, sem fremur myndi kjósa, að ég léti ekki sjá mig þar, og honum vildi ég sýna mig. Þessi reikningur minn brást ekki heldur. Undir niðri var á eina hlið óánægja yfir því, að eintómir vantrúarmenn og upphlaups-Barrabasar væru sóttir langt að til að suða yfir sannkristnu sæmdar-fólki. — En allir vóru mér góðir, og vinir mínir þar vóru alúðin eintóm og hefðu komið mér fyrir í Paradís, hefðu þeir átt á henni ráð og tími verið kominn til. Þar hitti ég „KN". Bið að heilsa honum með þökkum fyrir hlýhug og skemmtun þá og fyrr og óska honum hamingju með niðja sinn — bara að fóstur-foreldrarnir spilli ekki neinu í uppeldinu — ég hefi svo litla trú á lagvissu þeirra og ósíngirni, séu þeir þeir, sem ég hygg, og „KN" sjálfur á nokkuð undir þeim til muna. — Ég þarf að segja þér það, að allt, sem þessi rausari [sagði], sem ritaði um ræðu séra Alberts í Wynyard, var fjarri öllum sanni, tóm endileysa og skilningsleysa, óviljandi eða áætluð. — Lauga og Kristinn eru í Prince Rupert aftur. Líður vel. En allt brall og viðskipti munu þar í kalda-koli sem stendur, ef til vill hvergi verr í Vestur-Canada, enda ræður það að líkindum, þar er ríki erfiðisfólks og auðmanna, en bændur síður í sveit komnir.

Nú verður þetta að nægja að sinni. Kominn fjósatími minn.

Snöggvast hér til hins ég þríf:
Hvað við skulum gera,
Að þurfa ekkert annað líf
Ungir til að vera.

Vinsaml. Stebbi.

*Grímur S. Grímsson.* Heima, 30. des. 1920.

Nú kem ég ekki til neinnar skemmtunar, Grímur minn, bara til að kvabba. Það er svo vaxið, að „KN" sendi mér bréf í gærkveldi, að hann hefði sent mér 50 eintök (ókomin ennþá) af bók sinni, og bað mig að selja hér. Ég vil feginn gera honum greiða, en er búinn að selja mig hér nærri út úr húsum, með ljóðum Þorsteins heitins og Gríms, og stend því verr að vígi, auk þess sem ég er þreyttur á ómökum og bæjasnatti. Geri samt hvað ég get. Í bréfinu spyr „KN" um heimili

þitt, veit það víst ekki. Telur víst, að þú myndir hafa hjálpað til. Er vegur til, að þú gætir selt nokkrar skruddur í Calgary? Ef svo, hvað margar mætti ég senda þér, þegar þær koma? Láttu mig fljótlega vita annað hvort, erindið er þá úti.

Hjá mér er núna Vésteinn Styrkár Steinn Dofri og fleira. Hann er að eyða tímanum í atvinnuleysinu. Kom úr fiskiveri frá Lac. St. Ann. Hann er fróður og greindur og almennilegt grey, eins og við. Þið eruð víst skyldir eitthvað. Hann og Hjörtur Þórðarson þremenningar í föðurætt Hjartar og skyldir í hina. Séra Pétur og Dofri fjórmenningar.

Glatt nýár, Grímur!

Bíldur illi og bósar hans
Brýna tönn við hæl minn.
Svo, hvar ég sé í leynum lands,
Leyndu brezka þrælinn!

Blessaður alltend Stephan G.

*Jakob J. Normann.* Markerville, Alta, 7. jan. 1921.

Góðvinur Normann. — Beztu þökk mína fyrir bréf þitt, nýkomið. Nei, Jakob, ég gremst því ekki, þó þú lítir á menn og málefni á aðra hlið en ég. Hvernig gæti ég það, þegar ég finn svo vel, að það væri aðeins af velvild til mín? Svo er annað, þú eða ég getum verið annar á innhlið, hinn á úthlið viðburðanna, svo okkur væri ómögulegt að vera sammála, fyrr en við bærum okkur saman. Ég hygg, að aðgerðaleysið með útgáfuna sé mikið mér sjálfum að kenna, fremur en öðrum, en engin von, að þú vitir það. „Vígslóði“ er vafinn inn í það, og af mínum völdum. Með honum var mér vakinn upp draugur, sem enn er ekki komið fyrir, og það vissi ég fyrir fram. Og hann er vafinn í þetta mál, og af mér. Kannske manstu, að á fundinum gat ég þess, að ég ætti handrit af kveðlingum heima á Íslandi, sem ég ætti hér ekki afrit af og vissi varla, hvenær ég næði í. Sagði þar ekki nánara. En það var „Vígslóði“, sem ég átti við. Vissi ekki, nema að hann væri að koma á kreik. Hafði ekkert um það grennslazt. En það varð og fyrr en ég átti von á, ef hann annars yrði prentaður. Eitt vissi ég líka, að hvenær sem hann sæist, yrði hrina hér. Saga hans er svona: Ég komst með handritið heim, sýndi rannsókninni í Halifax það, eins og annað dót mitt, þurfti ekkert að útskýra,

né laug neinu til, en vissi vel, hvað við lá, og stólaði á strákalukku. Skildi hann eftir í Reykjavík með þeim fyrirmælum, að prenta mætti að lokum styrjaldar og launalaust til mín. En vildi ekki, að Ísland kæmist í vandræði mín vegna, eins og allt var þá umsetið. Áreiðanlegasti og elzti „forleggjarinn" í Vík tók vel í það, — ekki þó Ársæll, það kom þá ekki til hans kasta, en þeir munu vera í félagi undir niðri. Svo vissi ég ekki meira. Í Wynyard sagði ég séra R. einslega frá þessu. Dró úr, að útkomu hér yrði flýtt. Hann hélt fram fljótum aðgerðum. Ég sagði í hálfgerðu spaugi auðvitað: „Það er nóg að koma þessu í kring eftir þrjú ár" (sem sé þá yrði ég sjötugur). Hann víst skildi þetta, brosti og svaraði: „Það þarf ekki, þá hefir þú eitthvað annað til." Svo stakk ég upp á, að við afréðum enga byrjun á útgáfu, fyrr en ég næði „Vígslóða" og við gætum yfirfarið hann. Hann sagði, að það kynni að vera ráðlegra. Síðan hefi ég enga línu séð frá R. Hann er síupptekinn og dregur bréf úr hömlu, nokkuð. Í haust fæ ég bréf frá Finni Jónssyni, bóksala í Wpg. Hann segir mér vandræði sín. Þangað er komin bókasending frá Ársæl. Kverin heita „Vígslóði", og ég höfundur að, en hann hefir enga vöruskrá (Invoice) og fær ekki leyst þetta út. Hafði engin skeyti fengið. Skrifaði Finni sem var. Kannaðist við nafn og faðernið. Um leið skrifaði ég séra R. Bað hann finna Finn og bjarga honum úr bölvun, ef hún lægi fyrir honum. Gat hins líka, að ég teldi mér og okkur happ, að óveðrið tilvonandi gengi nú að. Ef kvæðin hefðu komið út með „Vígslóða" í, á undan því, mundu þeir (ef þeim dytti það ráð í hug) hafa getað gert okkur versta óleik og fjártjón með sölubanni og málaferlum um stund, því þeir svífast einkis undirróðrar, svo langt sem vit þeirra nær. Finnur náði bókunum út, skrifaði mér það, kvaðst myndi reyna að selja, en væri ekki vel ánægður með vöruna, vildi, að ég fengi vini mína til að selja með sér. Það aftók ég. Sagði sem var, að ég gæti ekki fært mér þannig í nyt velvild vina minna að fyrra bragði, en þó „Vígslóði" yrði óvinsæll í bráð, væri ég því vanastur, að það, sem ég í fyrstu hefði þótt verst gera, væri svo eftir tíu ár talið mitt skásta. Nú kvað „Vígslóði" alveg upp seldur — vóru ekki nema 100 eintök — en einhver eftirspurn enn. Af þessu sérðu, að ég á mikinn þátt í drættinum, og var hann ekki móti skapi. Nú er þó hitt. Ársæll gaf mér nú 200 krónur fyrir

„Vígslóða“, þegar hann kom út, þrátt fyrir það, að ég ætlaðist til einkis, en hann verður þá ekki prentaður upp, nema með hans leyfi. Ég á ögn fleiri til í sömu átt, það sem *Förumaður* sagðist sakna og út kom í „Voröld“. Engu hefði ég komið í blöðin, eftir að „Voröld“ hætti að koma út, nema fyrir séra R. Ég sendi honum allt. Vænst þótti mér, að kvæðið komst að. Það verður, þegar menn átta sig, andstæðara stríðum en nokkuð í „Vígslóða“. Ég geymdi það einmitt til þessarar þarfar. Séra R. missti ritstjórn „Kringlu“ ið fyrra sinn fyrir það, að hann vildi ekki níðast á gömlum vin, Stephani Thorson, sem sótti um bæjarstjórn á Gimli gegn „Kringlu“-conservativa. Heimskringlu eiga nú eiginlega Páll Reykdal, frændi séra R., og Sveinn Thorvaldsson, vinur séra R., únitarar, conservativar af Bob Rogers orðunni — báðir óvægir stríðsins stólpar, og fleiri slíkir. Ég veit, að séra R. er hygginn, en hann mun bera þröngan skó við „Kringlu“, að því er mig grunar. Auðvitað er ég ekki nógu kunnugur, og ræð sumt af líkum einum. Verst er, hafi hann haft mikinn vanda af mér og „Vígslóða“, þó ekki verði nú að gert.

Heyrðu! — lastu kvæði séra Jónasar Ara í síðasta „Lögb.“? „Reynizt betur, bræður mínir“ er þess fyrirsögn. Það gengur eitthvað að honum. Tókstu eftir, að sama „Lögb.“-blaðið, sem skammaði mig, „flaggaði í framstafni“ með kvæði eftir J., hrakyrtara í garð Breta en nokkuð, sem ég hefi gert, og út af minni sök, atkvæðasviptingu útlendra kvenna um bindindið. Ég hafði ágætis aðstöðu í grein minni að benda á þetta, en hlífðist við og þagði, vegna mannsins, sem mér þó eiginlega fellur ekki alls kostar, en mér fannst það óhæfa mín að nota þetta. — En Jónas er í kviði einhvers hvalfiskjar, af kvæðinu að ráða, sem er þó eitt hans bezt gerða. — Jæja, Jakob minn! Það voru nú sjálfskaparvíti fyrir mig að standa í þessu, en ég sé eftir engu orði. Jafnvel vinir mínir myndu óska, að ég hefði verið varorðari, bara af velvilja til mín — en þá hefði allt dáið af þögn. Stríðin eru stærsta bölið, sem versnandi fer með vitkun mannanna, eins og enn er komið sögunni. Allir játa það, en reyna ekki að að gera, alþýðan, óviljug í þau, æst og login full, svo hún verður vitlaus nauðug. Hugsaðu þér, hvernig gáfuðum og göfuglyndum mönnum er innanbrjósts orðið. Ég er staddur í heimboði hjá Courmont, franska ræðismanninum í Reykjavík, góðgáfumanni og stórmennt-

uðum. Yfir borðum berst stríð í tal. Hann ann föðurlandi sínu, ég held „yfir alla hluti fram“, var í stríðinu, var meiddur og varð óvígur. Ekki eitt einasta hrakyrði um Þjóðverja frá honum. Deilt um framtíðar stríð eður frið. Tveir Íslendingar halda stríðum fram. Hann og annar landi heimsfriðar-voninni. Samræðan endar á því, að hann segir — hann talar íslenzku vel: „Ef ykkur tækist að sannfæra mig um, að stríð verði ævarandi í heimi okkar, félli ég algerlega frá því, að nokkur guð sé til.“ — Það, sem í andstæðingum mínum sýður, er þeirra eiginn hluti í málinu, ákafinn þeirra að leiða landa sína út í [herinn] yfir lagaskyldu fram. Það gátu þeir forðazt. Á þeim liggur þegjandi óþokki margra síðan. Það vita þeir. Ætla að draga yfir það með minnisvarða, á almenningskostnað. Kenna mér um, að ekki tókst. Sárgrömdust mér — eins og ég ætlaðist til — út af skozku þjóðsögunni, sem ég sagði þá, um Cromwell og blóðdropana á hálsklútnum hans, en gátu engum tökum náð, nema að leggja niður rófuna, að minnsta kosti í bráð. En svo er fleira, næstum óteljandi. Nú héldu þeir, að „Vígslóði“ bæri vel í veiði að launa mér „lömbin gráu“. Ég skildi þá fyrir fram. Englands-elska þeirra er gríma. Ég þakka þér innilega fyrir alla þína fyrirhöfn að taka svari mínu. Þess var nú von af þér, eins vel og þú vilt mér, og hyggur mig meiri og betri mann en ég er. Minn skásti kostur er, að ég er eins og ég tala. — Heyrðu, varð nokkuð úr því, að Jóhann bróðir þinn gæti útvegað mér „Voraldar“-blaðið með „Jökulgöngum“ í? — Við biðjum að heilsa ykkur öllum, vinum okkar í bæ og borg, með þökk fyrir sumarið, og nafna mínum sérstaklega frá mér. Hann á að verða eins og „ættgóðir menn, sem ekki flýja“ úr andlegum orustum framtímans. Hvernig líður þér sjálfum annars? Árferðið var svo illt og þú bilaður.

Bréfin frá H. legg ég með, þökk fyrir þau, þau fræddu mig um margt, sem ég vissi ekki.

Þér má ofur orðafátt
Óskina flytja sína —
Sjálfur í hjarta og hug þú átt
Heilla-vætti þína.

Gleðilegt ár.

Vinsamlega Stephan G.

E.S. Bið hjartanlega að heilsa Björgvin með þakklæti frá „Langförul“ fyrir nýju fötin sín.

S. G.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerville, Alta, 17. jan. 1921.

Góði vinur. — Búinn að moka fjósin í morgun og svara Lárusi, kem ég nú til þín á einni línu, bara til að láta þig vita, að svarið sendi ég beint til ritstjóra „Kringlu“. Ég svaraði engu öðru en sögunni um viðskipti okkar, mín og blaðsins. Hún er öll ósannindi, bæði að tíma og tilefni, eins og Lárus hefir hana. Ég á rétt til að fá það leiðrétt, hvað sem um annað er. Ég vildi láta þig vita þetta, af því þú veizt um hitt allt. Þökk mína fyrir þann góða hlut, sem þú hefir átt að því. Verst, hafir þú haft ónot og ónæði af, og kannske verra. — Ég hefi heyrt eitthvað af því, en veit fátt fyrir vissu.

Póstberinn minn bíður bréfsins, og miðdagsmatur mín. Vertu blessaður.

Þinn Stephan.

*Ásgeir Ingimundarson.* Markerville, Alta, 19. jan. 1921.

Góðvinur Ásgeir. — Alúðarþökk fyrir hlýindin í sumar og fyrr, og þá fyrir bréfið nú. Sjálfur er ég, held ég, allra manna rólegastur út af þessum illbroslega aðgangi út af „Vígslóða“, þú og aðrir vinir mínir ýmsir taka sér það sárar en ég. Hitt er satt, mér er styrkur og gleði að vita af þessari samúð góðra manna og vel vitiborinna, málefnis vegna, sóma Vestur-Íslendinga vegna, hvað sem mínum hlut líður, og um hann ber ég engan kvíðboga, þegar frá líður. Satt að segja, því verr og vitlausar sem blöðin berjast um núna, þess meira vinna þau minni hlið í hag að leikslokum, með því að auglýsa svona bert innræti sitt áður og nú, í þessu máli, — að eiga til einkis að grípa nema illmæla og heimsku í ákefð sinni að varna skynsamari mönnum orðs. Það kemst allt upp áður lýkur. Hið eina, sem ég stundum hálfsé í, er að hafa verið forlög þess, óviljandi, að vestur-íslenzk ómennska fletti svona bert upp um sig. En það þurfti víst að verða, sé nokkur umbóta von, því þó ég ætti allt það illt skilið fyrir „Vígslóða“, sem andstæðingar hans vilja á mig klína, væri aðferð þeirra samt skynsömum mönnum og vönduðum ósamboðin. Sannleikurinn er,

að nokkur hluti Íslendinga hefir afmennzt hér í landi, uppskafizt andlega; á þeirra valdi einna eru blöðin nú. Þeir eru kannske ríkari en hitt fólkið, en ríkastir af ráðríki og rosta. Séra R. hefir alla tíð verið Heimskringlu-hlynntur, það veit ég, oftast í einhverri andstæðu innanráðs og í minni hluta, og rekinn frá ritstjórn eitt sinn. Hann — eða ef til vill bræður hans, sem taldir eru ríkir, eru sagðir að eiga nokkuð mikið í Heimskringlu-hlutum. Eitthvað í mér bannar mér æfinlega að grennslast eftir efnahag vina minna, nema þeir segi óspurt. Það orð liggur á séra R., að hann sé ríkur. Getur verið, en ég efa það, er kunnugur á heimili hans. Hann hefir mikinn kostnað á ýmsa vega, en fer dult með. Hitt er víst, að bræður hans eru fjársýslumenn og hann í þeirra félagi. Annað líka, að sumir verstu stríðshrottarnir meðal Vest.-Ísl. eru í hlutafél. „Kringlu", og taka öll ráð af Tryggva, sem ekkert er nema eyðublað, sem hann fær að skrifa nafnið sitt á, undir það, sem fyrir er lesið. Gegnum séra R. kom ég þó að grein minni og kvæðum. Annars hefði varla af því orðið. Nú á ég tvö stutt svör hjá „Kringlu", hvort sem þau koma, og tvær vísur hjá „Lögbergi" til Tryggva (þ. e. Ó. T. Johnson), „kvittering" fyrir barsmíð hans í „Lögb." síðasta. Um „Vígslóða" né kvæðið ræddi ég ekkert við Lárus, aðeins sagði rétta skröksögu hans um viðskipti okkar „Heimskr." — Þetta er orðið langt og leiðinlegt, Ásgeir. — Fyrirgefðu. — Bezt að láta blöðin „blása út" að sinni. Samvizka þeirra er centin — ekkert annað. Ef þau fengju, þegar þögn verður á, nokkra tugi hótana um uppsögn, bæði tvö, myndu þau linast í framtíð. Flugrit mætti gefa út síðar —, en sjáum til, hvern dóm málið og „Vígslóði" fær heima. „Ísafold" reif óðar í skottið á „Lögb." út af „vitleysum" þess. — Berðu öllum vinum mínum, í Wynyard og grennd, kærar kveðjur. Ég á víst í engri byggð eins marga velvildarmenn. Gott ár! Svo kveð ég þig með vísu út af Veðra-Grími sál.

Eins og Grími gefst oss vel
Hver gusa á ferðum;
Upp skulu birta öll vor él,
Unz úti verðum.

Vinsamlegast Stephan G.

*Grímur S. Grímsson.* 19. jan. 1921.

Yfir á landi unaðar,
Ef átt ei vin þér náinn,
Og þú girnist gisting þar:
Gerðu boð fyrir Káinn!

Stephan G.

*Grímur S. Grímsson.* Heima, 22. jan. 1921.

Grímur minn. — Þökk fyrir „KN". Ég viðurkenndi peningana, 30 dollara, eins og þú baðst. Nú á ég annað erindi. Hér hefir verið nokkra daga Jósafat Vésteinn Jónasson, Helgason — Styrkár Vésteinn — Steinn Dofri *etcet.*, ættfræðingur, eitthvað skyldur þér, og þrímenningur við Hjört frænda þinn í Chicago, í föðurætt Hjartar. Hann er fræðimaður fátækur, en vinnur fyrir sér á flækingi, en „gruflar" í hjáverkum, skáldmæltur vel og fróður um fleira en ættir. Kurteis í kappræðu, en nokkuð hnúóttur í kveðlingum og kannske í rithætti, og hefir því ekki orðið vinsæll. Þetta er þó að hverfa, er kannske eðli og uppeldi þó frekar, hálfgerður samvinnumaður í æsku Jóns gamla forna, og lenti í landsmáladeilum í Reykjavík, þegar þær voru klofnastar og kvistóttastar. Hann hefir verið hér í landi 17 ár. Þyrfti helzt að komast heim með sögudótið, sem hann hefir tínt upp, annars glatast það hér á flækingi eða við fall hans. Gætir þú ekki haft í huga að útvega honum vinnu í Calgary með vorinu? Segjum, að hann gæti „gengið fyrir sér" hér í byggð, í vetur, kostnaðarlítið, því hann mun féstuttur. Hann er hraustur og sterkur, á góðum aldri, og enginn silkihanzki, tekur hversdagsvinnu, aðra en að keyra hesta. Fyrirfarandi hefir hann flækzt um fiskivötn í óbyggðum. Hugmyndin er sú, að hann fengi aðsetur í bæ, gæti smalað dóti sínu að sér, sem er á tvisti og basti, gæti fengið reglubundna atvinnu, til að hafa ofan fyrir sér, og eitthvað að „grúska" á frítímum sínum, og sjá svo, hverju fram yndi með heimhvörf. Þú reynir þetta, ef þú getur, og ritar okkur öðrum hvorum, væri nokkur von. Hann hefir gert ráð fyrir að skrifa þér um þetta, en ekki veit ég, hvort úr því verður. — Þá er nú erindinu lokið í þetta sinn, og vertu nú blessaður og sæll. Þinn Stephan G.

*Jakob J. Normann.* Heima, 23. jan. 1921.

Góðvinur Jakob. — Af því ég er nýbúinn að skrifa þér (og Blöndahl), kem ég bara til að kvabba. Komdu fyrir mig meðlögðu bréfi til Einars Grandy — hérna „okkars“ í Tjaldbúðinni. Sem sé held ég pósthús hans sé ekki Wynyard, en man ekki nafn, sé það annað. — Þá er greinin þín komin í „Kringlu“. Nikk kom henni að, af því ég stakk við honum — allt verður guðs börnum svona til góðs. Hvort ég svara honum, er undir atviki komið. Engu reyndar að svara í því soðbulli, nema helzt lygasögu. Þakka þér kærl. fyrir greinina, hún kemur við á réttum stað. Ég einmitt ætlaði að vefa Lambasöguna inn í svarið til Lögbergs, sem ég „stakk undir stól“. Ætlun Nikks og Jóns var eflaust sú, að siga hermönnunum á mig — þeir hafa séð það gert fyrir sér. Það hefir ekki tekizt enn, og því verða þeir óðir. Eftir eru enn fáein orð til Lárusar frá mér, en talið „Kringlu“ væri nú heldur ekki komið með það. Síðasta blað Lögbergs boðar upprisu „Voraldar“. Hvað er nú á seyði? — Bið að heilsa, og vertu blessaður.

Þinn Stephan G.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerville, Alta, 10. febr. 1921.

Góðvinur séra Rögnvaldur. — Nú kem ég ekki alveg erindislaust! Ég þarf að fá ykkur til að halda heilagt (vegna Nikks gamla) að „Kringlu“, núna bráðum. Hún hét mér ölnbogarúmi, ef ég vildi svara, og ætla ég að biðja þig að flytja henni „messuna“. Ég geri þetta mest vegna vina og félaga og jafnvitringa Nikulásar sjálfs. Þeir ráða ekkert við hann fyrir því, að hann heldur sig þeim öllum æðri og ógurlegri og ósigrandi, fái hann ekki svar, hann fyrirliti þeirra heimsku hjá sinni og yrði þeim að „svipum og höggormum“. Handritið ekki gott, framar venju. Þetta er allt „stolin krækiber“ af þrældóms lúsa-lyngi fjósamennskunnar, en „enginn fjósadagur án línu“! — Ég veit ekki, hvað „fjósadagur“ er á latínu, svo ég set það svona upp í „móðurmáls-far“, eins og Jón gamli hjá Böðvari. Nú, sé „Voröld“ röknuð við, en hlið „Heimskr.“ lokuð fyrir mér, gerðu svo vel og sýndu „Öldungnum“, hver sem hann er, greinina til N. með kveðju frá mér og bón um rúm. Veit ekki, hvernig straumar liggja í haf-

ínu hjá ykkur núna, reiði mig ekki á „kortin", sem ég fæ, trúlítill — eins og vant er, en sigli samt blint — eins og vant er.

Þá eru vísurnar til Einars míns Grandy's. Ég ætla að biðja þig að útvega þeim virðulegan stað í blaði — ekki þeirra vegna, heldur hans. Hann er einn af þessum Dakotamönnum, sem alltaf héldu og tóku tryggð við mig, þó hann væri þá drengur og við varla kunnugir. Missti góða konu sína nýlega. Ég sendi honum stökurnar, þegar ég frétti það. Hann sendi mér $20.00 og bað mig senda blöðunum vísurnar. — Ég lofaði Jóni Sveinssyni ögn til Sveinbjörnss. Sendi helming þess nú til þín. Ekki meira í þetta sinn, svo ekki sjái ég né aðrir ofstórt borð á í buddunni í einu, og horfum þá minna í það. Í því eru dalir Grandy's; fyrst ég fékk ekki að gera þetta launalaust, reyni ég að hafa það eins og Haraldur, „selja sem ég keypti". Því, sem eftir stendur af loforði mínu, skila ég ykkur seinna. Bið að heilsa S. — Mikið andsk... hefir „Vígslóði" orðið mér mikið fyrirhafnar-barn, en mér þykir bara vænna um hann fyrir það! Ég hefi engan frið fyrir bréfum heldur, frá vinum hans, og er alltaf í bullandi annríki út af honum, og einlægt á „eftir tímanum". — Tíðin indæl. Engar fréttir. Þjóðræknisdeildin okkar að sálast úr sinnuleysu. Þið þyrftuð að koma bráðum, einhverjir, og reka á okkur galdrahríð og austanstorm, svo öll segl rifnuðu. Þið gerið það nú, þegar sumrar, því mest verður mönnum bilt við vorhretin. Hver var þessi S. B. Söndahl, sem kvað svo fjandi vel í „Kringlu"? Ég er forvitinn, því mér var sent blað lengst sunnan úr Brasilíu. Það var víst ritað á esperanto, en ég hefi aldrei séð hana fyrr, og skil hana ekki í samhengi, af því ég kann hvorki latínu né rómversku málin. En blaðið auglýsti alþjóðamáls-skóla, sem stofnaður hefði verið á Íslandi og fluttur til Brasilíu. Kennari og ritstjóri var einhver Magnus Söndahl. Gat verið Svíi, en líklegar Íslendingur. Blaðið var annars einhvers konar jafnaðarmanna-blað, að ég skildi.

Þarf í fjós að bæta um bás,
Svo bréfið endar frá mér. —
Hvorki „Nick" né Nikulás
Nái tökum á þér!

Blessaður og sæll!

Þinn Stephan G.

*Bárður H. Jakobsson.* Markerville, Alta, 18. febr. 1921.

Hr. B. H. Jakobsson, Viðey. Góðvinur. — Þökk fyrir velvilja þinn til „Vígslóða“ og mín, sem bréf þitt bar með sér. Þó ég vissi fyrir og taki mér ekki nærri aðkast íslenzku blaðanna hér út af þessu kveri, er manni hitt hugnun, að vita til, að svo margir og oft alveg óþekktir menn taka svari sínu, þó þau kæmust fæst á prent, eins og við var að búast, og um það hefi ég fengið ýmsa votta í bréfum til mín. Það gleður mann, meira út af efninu, sem um er deilt, en hinu, að maður óttist aðsúginn sjálfs sín vegna.

Vinsamlega Stephan G. Stephansson.

*Jónas Hall.* Markerville, Alta, 22. febr. 1921.

Jónas minn góður. Ögn er nú umliðið síðan ég fékk frá þér bréf, og hefir svarið dregizt, sökum þess að í veðri hefir vakað, að Kristins og Laugu væri kannske bráðlega von heim aftur, og vildi ég vita nánara, af því þú spurðir um áritan hans í Prince Rupert. Nú er fullyrt, að þau komi í næsta mánuði. Tel ég það enn líklegra sökum þess, að Hannes, sonur þeirra, hefir legið undanfarandi í langvarandi veikleika, sem hann hefir gengið með í innýflunum öðru hvoru. Svo hafa þau bæði verið meira og minna lasin í vetur. Þar ganga veikindi og tíðarfar með verra móti. Þar að auki hefir Kr. misst vinnu að nokkru leyti, og ég hygg, að hvergi séu hagir almennings nú í meiri ramma-ríg en á ströndinni, eins og eðlilegt er, flest um verkafólk og atvinnulítið, en dýrtíð. Þér er því líklega bezt að skrifa Kr. hingað. Það má þá senda áfram héðan, sitji þau kyrr.

Hitt hefir líka tafið svar mitt, að ég hefi átt annríkt út af „Vígslóða“. Hefi nauman tíma til skrifta. Hirði fjósin hvern dag, eins og vant er. Bréf hafa hlaðizt að mér, frá vinum kversins hér, auk þess sem ég hefi sent blöðunum. „Lögrétta“ og „Tíminn“ heima lofuðu kverið strax. „Ísafold“ tók ögn í „Lögberg“. „Austurland“ segir, að sú „skömm ætti seint að fyrnast“, hvernig „Lögb.“ hafi í málið tekið. „Lalli“ og „Nikk“ voru þá víst ókomnir og þeirra fylgifiskar. 100 eint. af „Vígslóða“ komu vestur. Vóru uppseld fyrir jól, og ýmsa vantaði kverið

enn og hafa verið að skrifa mér og leita fyrir sér, en ég hefi ekkert til, né með útsölu að gera. Yfir höfuð hefi ég haft gaman af þessu öllu, skömmunum og annríkinu, sem ég hefi upp úr þessu haft. Ég hefi enn ekki getað svarað vinum mínum heima, sem sendu mér bréf í vor eða sumar, og er orðinn óreiðumaður við þá.

Engar fréttir héðan, nema vetrartíð góð, sem víðar. Illa og ómaklega er skipt með ykkur Páli, þarna í Bismarck. Þú hefir ekkert að gera, nema að viðra þig, en hann hefir allt erfiðið við að vera flórgoði, sem sé „floor leader", eins og hann segir. Á næsta þingi verðið þið að skipta um verk, svo ofurlítill jöfnuður komist á; þó ekki sé nema í þessu, væri það þó eilítið í átt til þessarar marglofuðu „endurbyggingar" eftir stríðið, sem okkur var heitið af valdamönnum þessa veraldar Skriðuklausturs.

Illa rýkur nú víst úr Tjaldbúðar-seyðnum í Winnipeg, auk margs annars. Ég er því ókunnugur þó, nema blaðalyktinni. Aldrei hafa kirkju- og blaða-samsuður lútherskunnar hér gert sína sögu svartari og heimskari framan í framtíðina. Það mun á daginn koma. Það er bæði rauna- og gremju-legt, en þó satt. Íslendingar hafa yfir höfuð afmennzt og spillzt og heimskazt upp hér vestan hafs í viðbúð sinni við enskuna, enn sem komið er, og æskan hér upp alda er mestmegnis hégóma-höfuð, eða lakara, sem hvergi er andlegt tak í. — Nú þarft þú á þing — en ég í fjósdyrnar. Blessaður á meðan.

Vinsaml. Stephan G.

*Ársæll Árnason.* Markerville, Alberta, Canada, 28. febr. 1921.

Góðvinur. — Kæra þökk fyrir útgerðina á „Vígslóða", viðskiptin út af því, bréf frá 28. ág. s. l. á. og viðkynninguna 1917. Nei, ég hefi ekki gleymt, hver þú ert, Ársæll — hvernig gæti ég það, meðan ég man nokkuð, t. d. kápunni, sem þú klæddir Andvökur í og gafst mér ungmennafélags-kveldið forðum, eða þegar við vórum að „upplýsa" með eldspýtum myrkvastofuna á Hotel Ísland, um haustið? En virðast mætti þér það vanþökk, hve seinn ég er nú til svars. Þó er það ekki alveg svo. Bið þig að virða til vorkunnar. Ég hefi haft hendur mínar fullar, síðan „Vígslóði" sást hér, með ýmsar skriftir út af hon-

um, þær stundir, sem ég gat dregið frá daglegum störfum. Veldur það mestu um vanræksluna við þig og aðra. Ég vissi ekki fyrr til í haust en Finnur bóksali í Winnipeg ritaði mér um sendingu frá þér, sem hann fengi ekki út af pósthúsinu, því hann vissi ekki verð. Þetta væru 100 eintök af „Vígslóða", kenndum mér, og gæti ég nú nokkuð ráðið úr? Þá hafði ég enn ekki fengið bréfið frá þér og gat ekkert, nema kannazt við faðernið og skrifað kunningja mínum í Winnipeg að aðstoða Finn, ef í harðbakka slæist. Ég vissi fyrir allra veðra von. Þetta lagaðist. „Slóði" slapp út til Finns. Hann ritar mér enn og fór fram á, að ég bæði vini mína hér að hjálpa sér með söluna. Ég neitaði. Sagði sem var, að ég hefði aldrei haft skap til að nota mér kunningsskap vina minna á þann hátt, þó ýmsir þeirra myndu gera það. Keypti bara fáein eintök sjálfur. Finnur gat þess líka, að þó varan væri sér ekki viðfelldin, skyldi hann gera sitt bezta til að selja, og ég efast ekki um það. En lítils þurfti þar með — ekki annars en viðtakanna í blöðunum. „Vígslóði" hjá Finni var uppseldur fyrir jól, og fengu þó ekki allir, sem vildu. Nokkrir hafa skrifað mér að leita eftir honum, þegar Finn þraut. Ekkert veit ég þó, hvort hann hefir sent eftir fleirum til þín, né hvort allur gangur er nú ekki af, en með hliðsjón af honum líka hefi ég haldið uppi vellandanum um „Vígslóða", eins og ég gat að komizt í blöðunum hérna, en þar átti að verða þröngt um mig. Við því barsmíði bjóst ég fyrir fram, og óttaðist ekki — nema ölnboga-rúmleysið í blöðunum, sem á mig yrði líklega lagt, en varð minna en áhorfðist. Svo nær sú saga ekki lengra enn.

Þökk fyrir ritlaunin. — Ég bjóst ekki við neinum. Krónurnar nota ég mér heima. Hér nagaði dollarinn og yfirfærslan þær alveg upp. Hefi skuldskeytt ykkur Finn 23. okt. s. l. með kr. 42.50, sem ég bið þig að hreinsa af honum, en mála upp á mig.

Getur þú gert bón mína og látið mig vita erindislok? Er séra Rögnvaldur Pétursson, únitaraprestur í Winnipeg, æfifélagi í Sögufélaginu íslenzka — og ef ekki, hversu margar krónur er æfilangi inngangseyririnn nú?

Þinn með þökk og vinsemd Stephan G. Stephansson.

Bón sem bréfi fylgir.

Gott væri, ef þú gætir sent mér 2 eintök af „Vígslóða", annað í bandi, hitt í kápu, færð mér til reiknings hjá þér. — Mér hélzt ekki á þeim, sem ég ætlaði að eiga sjálfur.

Vinsaml. Stephan.

*Ásgeir Ingimundarson.* Markerville, Alta, 5. marz 1921.

Góðvinur Blöndahl. — Þökk fyrir bréf frá 28. s. m. Svona fór það þá, Ásgeir. Þó annar gripi uppástunguna, varst *þú fyrstur til að segja mér fréttirnar.* Winnepeg blöð t. d. koma ekki fyrr en í kvöld, en bréf-kynning um þetta fer eftir hentugleikum skrifarans. Ég þakka fyrir, og þér, hve annt þér hefir verið um þetta. Ég get með sönnu sagt, að ég sækist aldrei í „æðstu sætin" í neinu, ragur við þau, efa ætíð, að „vel sómi ermar eiganda armi" (eins og segir í þjóðsögu), þar sem ég á hlut að, hefi samt ekki hjá því komizt að þiggja og hálf-gramizt samt við sjálfan mig, hversu tómlega ég tók við því, sem gert var af vinsemd, rétt eins og ég teldi það sjálfsagt, eða lítilsvirði, þó hitt byggi heldur undir fálæti mínu. Ég nærri öfundaði Matthías heitinn af því, hve auðvelt honum var „að verða allur á lofti", þegar eitthvað var gert honum til dýrðar. Ég hefi engan metnað til, nema ögn af keppni að láta ekki ganga yfir höfuð mér með hroka, en mér kom þetta vel eins og á stóð núna og óvart, því ég hafði búizt heldur við hinu, að tilraun yrði gerð til að reka mig úr félaginu fyrir land-ráða kveðskap um Kanada. Réði ég það af ýmsu, sem mér var svarað. Til þess hefir skort almennings-álit, ekki annað. Auðvitað hefði það samt legið mér svo í léttu rúmi, að þjóðræknisfélagsskapnum hefði ég unnt alls góðs eftir sem áður, bara brosað að barnaskapnum. Berðu kveðju mína kæra kunningjunum í Wynyard.

Vinsamlegast Stephan G.

*Baldur Sveinsson.* Markerville, Alta 8. marz 1921.

Góðvinur Baldur. — Tvívegis fékk ég seðil frá þér í sumar er leið, en annir við búskapinn í haust og rifrildi við blöðin hérna í vetur hafa svikið af mér tíma til að svara, þegar ég var ekki „út af túr", eins og gömlu glaðværðarmennirnir nefndu það, þegar lystin á að staupa sig var að linast.

Nú eru okkar veizlu-vísur vatn og hjóm,
Nauð-leikni með nöfnin tóm.

Furðar þig ekki á, hverju skáldskapurinn! blæs mér í brjóst?

Ég veit þú sérð vestan-blöðin, og fer því ekki út í „Vígslóða"-moldviðrið okkar við þig. Svo er nú líklega heldur „að lægja". Þú sérð, góði vinur, hversu illa ég hefi haldið það, sem þú baðst mig af vinsemd á Íslandi forðum, „að fara gætilega". Það slarkast nú samt líklega, ekki fyrir mína hagkænsku, heldur fyrir klaufaskap andvígismanna minna. Honum og málstaðnum treysti ég líka. En heyrðu! Hver var „Förumaður", sem ritaði um „Vígslóða" í „Lögr."? — Þetta, sem „Lögb." nærri rifnaði sundur út af. Mig grunar þig, en get ekki komið því heim við tímatalið í Lundúnum, nema að ég árfæri það rangt í minni mínu, einhvern veginn.

Hér af öllum áttum blæs,
Undirstraumar spyrnast. —
Engin vizka veðurlæs.
Völuspárnar fyrnast.

Þannig er það nú með allan okkar íslenzka félagsskap hér vestra, blöðin, kirkjumálin, þjóðmálin. Okkar andlega líf hér hefir verið sífelld refskák, og eðlilega á flest borð nú. Ég hygg, að lömbin muni bræla inni tóuna á endanum. Mér hefir verið sagt, að í refskák væri það kunnáttuleysi að kenna, ef öðruvísi færi, og ég trúi enn, að framtíðin sé betri taflmaðurinn. Sauðahús kirkju- og landsmála-loddara eru að verða „sjálfum sér sundurþykk" og „bítast í laumi", eins og birnir og ljón, í vísu Gröndals elzta. Vitanlega ber þröngsýnið enn hærra hlut (fljótt á litið) en nokkru sinni áður, en ég held, að allir þess sigrar séu eintóm elli-glöp. Okkur Ísl. hindrar mest fólkið hér upp alda. — Það er allt andlega sljóvgað. Alþýðumenntunin hérna gerir það, og aldarandinn. Sú „jörð" hefði sums staðar verið betri „auð og tóm". Ég set þetta ekki í dæmisögur, fyrr en þú kemur vestur! og getur hlustað á mig.

Hér og þar — það sýnir sig —
Saumur er úr mér dreginn — — —
Líklega eru að losa um mig
Landarnir „hinum-meginn"

Annars líður mér vel, að vonum. Skrifa bréf eða eitthvað árdegis, hafi ég tíma og sinnu til. Vinn útiverk svo til kvelds og les eitthvað á kveldin, eða ligg af leti. Hvernig líður þér, ykkur, og öllu?

Ég bið að heilsa Ingólfi frænda og öllum kunnugum. — Síðast kveð ég þig svo og þitt heimahús.

Beri þig æfi unaðsfull
Yfir lífsins strauma,
Þó þú eignist aldrei gull
annað en fagra drauma.

Vinsamlega Stephan G.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerville, Alta, 16. marz 1921.

Góðvinur séra Rögnvaldur. — Ég marg-þakka þér bréfið, og allt og allt, í þessum þingdeilum, sem áttu að gera mig útlægan að Lögbergi fyrir Víg(slóða). Nöfnin endurtaka sig! hér, en ekki sagan. Ég sé samt eftir að auka þér annríki með að skrifa svona langt, en betur sé ég nú til siglinga en áður, en var þó nokkuð nærri átta-réttur, þó ekki vissi ég upp á hár, hvað stóð í hverri skipsbók. Verr féll mér hitt þó, að þú varst að verða þér úti um illdeilur vegna mín, nógar áttir þú þær samt, en eina bótin væri nú sú, ef andstæðingarnir hefðu lítinn sigur úr býtum borið, og það held ég sé álit margra. Að minnsta kosti fæ ég bréf um það úr öllum áttum, og oft frá óþekktum mönnum, og í ljóðum og lausu máli. Hér er t. d. ein stakan af mörgum. Hún er nokkuð kvistótt, eins og oftar hjá íslenzkum hagyrðingum, en þú og ég undrumst ekki, þó íslenzka hrísið vaxi ögn hlykkjótt niðri í snjókergjunni, og „æpi“ svo ekki „eftir nótum“ í stormunum — en vísan er svona, og heitir „Þingstaðurinn“:

„Þegar ég hugsa um þingstaðinn forna,
— Þar on'í Flosagjá hver maður dreit —
Sé ég í hreinlæti afturför orðna.
Á innanvert Lögberg í ritvalla-sveit
Fer nú hvert flónið með skörnuga skóna
Og skilst við sinn rit-þrekk — svo klöppin [er] ljót! —
Svo dansar trassinn og hringsnýst um hlassið
Með hálfskeindan rassinn, þingheimi mót!“

Alveg var ég búinn að gleyma gagninu að Flosagjá, og dálítið er vísan fuglabergs-leg — en ég gat ekki nema brosað.

Ég þakka ykkur líka kærlega fyrir upptökuna í félagið. Hafði búizt við, að tilraun yrði gerð að reka mig út, og ekki misvirt það við málefni félagsins, þó svo hefði farið, en undir kringumstæðunum kom mér hitt vel, en nú ætlar Bergsveinn Long að nota það til að hefna sín á „bindindis-bróður“, sé ég er, og ekki hlífast við að spilla fyrir *félaginu,* ef hann gæti, til að ná sér niðri á honum. Við þessu var líka að búast. Ég var á flugstig með að svara og sýna fólki fram á þetta, því það getur verið sanngjarnt, þegar því er sýndur tilgangur, en ég lét það kyrrt í bráð. Veit ekki, hve þungur Long gamli er á árinni, í augum almennings. Þetta, sem þú minnist á, að ég eigi í þínum vörzlum, leggur þú í Heimskringlu-sjóð, þegar tími er til. Það fer þá þangað, sem því var upphaflega ætlað. Hitt, til Sv., mjalta ég einhvern tíma á árinu. Mér er annt um það mál líka. Stefin, sem ég sendi Einari, fer þú alveg með sem þér sýnist. Ég hélt þau hefðu hvergi komið fram. Ætlir þú þau fyrir Tímaritið, væri þeim lítil bót að láta blöðin tyggja þau fyrst upp. Þau eru ekki svo snjöll, að þau mættu við að missa nýja-bragðið. Ekki veit ég, hvort ég hefi gæfu til að láta mér detta neitt annað í hug, sem notandi væri í ritið. En skal hugsa til þess. Ég er orðinn mér-hlífnari og fljót-þreyttari, úti og inni, en ég var, og er í nærri ókljúfandi bréfa-skuldum sem stendur. Það þyrftu einhverjir, helzt nýir og nýir, að halda uppi Tjaldbúðar-málinu í blöðunum ögn enn, svo orðrómur legðist á það. Ekki fagna ég forsetaskiptunum í Þjóðrækninni, þó ég hálf-byggist við þeim. Á Jónasi hefi ég ekki aðra *trú* en þetta, hann reynist nokkurn veginn, meðan heiður og hagur hans sjálfs á þar einhverja samleið. En, maður leggur ekkert illt til hans, fyrr en sést, hvernig leikar fara. — Já, láttu nú verða úr að skreppa heim í sumar. Þú ert þreyttur og þarft þess við. Gaman hefði víst verið að vera með, og ekki hefði ég kosið fremur annan samferðamann en þig. En þetta verður seinna. Ég er ekki orðinn nógu gamall til þess enn. Þegar ég var heima, var ég spurður: Hvenær ætlarðu nú að koma aftur, Stephan? Eftir jafnlangan tíma og áður, svaraði ég, 45 ár! Þú sérð nú, að mig skortir enn nokkur ár upp á það, og getur þó skeð, að ég verði að fara fyrr, ef Nikulás verður keisari hér í Canada.

Marz hefir verið harðhnjóskulegur, þangað til í morgun, að „sól skein um sali“.

Ég má til að segja þér af framhleypni, sem fauk í mig. Ég er nýbúinn að skrifa séra Kjartani Helgasyni, að fyrra bragði, því við skrifumst ekki á reglulega. Ég gat um, að þú kæmir ef til vill heim í sumar, og talaði utan að því, að gaman væri, ef biskup Íslands byði þér að tala í dómkirkjunni. Fyrirgefðu, að ég káfa í það, sem mér kemur ekki við, og þér víst lítil þægð í, enda býst ég ekki við, að til neins komi. En eins og málin standa milli kirkjufél. og ykkar, þætti mér vel fara, ef öðruvísi tækist en ég tel, að verði. Þú kannt nú að vera eins og ég, en af öðrum ástæðum: Mér er illa við öll efri sæti fyrir sjálfan mig. Jafnvel þó veitt séu af vinsemd. Mér finnst-þar sé settur „Kraki einn lítill“, eins og Vöggur sagði um Hrólf, og svo þetta, mér finnst frelsi mitt skert, svo ég megi síður verða mér til skammar, og á þó nógu örðugt án þess! Ég er því ekki að segja þér frá þessu í því skyni að þykjast hafa ætlað að gera þér greiða, heldur bara, ef svo ólíklega til tækist, að þetta yrði, í Vík eða Hruna, að þú hefðir tíma til að átta þig á efni, „til vondra vara“, eins og kerlingin sagði, sem lét „þjónusta“ sig, en bjóst endilega við að lifa.

Heiman-pósturinn minn til M-ville á förum og bíður bréfsloka. Berðu kunningjum kveðju mína, og vertu blessaður.

Vinsamlega Stephan.

P.S.

Enn þarf ég að biðja þig bónar, séra Rögnv.! Hún er viðvíkjandi því, sem er í umslaginu til „Voraldar“, og líttu á það! Ég sendi þér þessar vísur og þær komu út í „Kringlu“ innan um auglýsingar á öftustu síðu. Nú, mér stóð á sama mín vegna, en féll þó illa [vegna] Grandy's kunningja míns, af því stökurnar lutu að láti konu hans nýlega. Vissi ekki, nema að Einari sárnaði þetta. Mundi líka eftir blæstrinum, sem Magn. gamli Skaftason gerði að mér forðum út af eftirmælum mínum um Skafta heitinn Brynjólfsson, sem „Lögberg“ prentaði með smáa stíl. Ég skrifaði því Einari og afsakaði bæði mig og blaðið með líklega rúmleysi, en bauð honum að fá það tekið upp í „Voröld“, ef hún kæmi á gang. Hann svaraði hóglátlega, sagði bara, að sér hefði fallið miður að sjá kvæðið innan um auglýsingar, og þægi að fá það tekið upp í betra rúmi, ef ég gæti.

Ég vil nú aldrei gera hnjóta að hnjúkagörðum milli kunningja, ef ég ræð við, svo ef „Hkr.“, eða þú, vill prenta kvæðið upp á „betri“ blaðsíðu, læt ég mér lynda. Það má afsaka það með því, að prentvilla hafi orðið í því í fyrra skiptið, því svo var. En ef það er ómak, lokaðu fyrir mig umslaginu og gefðu mér frímerki á það, og stingdu því svo í einhverja bréfakistuna, til Voraldar.

Þinn S. G.

*Grímur S. Grímsson.* Markerville, Alta, 23. marz 1921.

Grímur minn góður. — Ég hefi fengið frá þér bókina Irvine's okkar. „Marga“ þökk fyrir, og öll hin blöðin, sem þú hefir sent mér, þau eru mér andlegir mastur-verðir á sigling í sæþoku tímans — en bezt er þó „Nation“, hún fer yfir flest höf. — Ekkert að frétta héðan, fólk og vorveður á sínum vanalega seinagangi, gönu-skeiða-lítið, en sérhlífið, og elli og æska alltaf að verða ögn heimskari og heimskari, en sú síðari á það þó eftir að spinna, þegar neyðin verður kennari. Hin að leggja sig út af. Mikil herjans hjáverk við fjósin hefir „Vígslóði“ verið mér í vetur! Auk blaðanna, svo mörgum bréfum að svara, frá hinum og þessum samsinningum hans. Hinir skrifuðu ekki, nema í blöðin, eða bölvuðu í hljóði. Yfir höfuð kom ekkert flatt upp á mig í því máli, nema að ég hafði ekki búizt við, að heimskan yrði svona sauðsvört, eins og varð, en engu spillti það fyrir mér, og ekkert tók ég nærri mér, nema helzt „tíma og rúm“. Það hefir kraumað í íslenzka katlinum í Winnipeg í vetur, sem í voru eggin þrjú: Þjóðræknin, Tjaldbúðin, „Vígslóði“. Ég gæti sagt þér ögn af því, ef við sætum nær og í hljóð-færi, en er of langt til að kallast á bréfum.

Dofri okkar dvelur hér enn, á vegum gadds og gestrisni. Hann kveðst eiga tólf koffort full af skruddum og skrifum, hér og þar á víðavangi flækings síns. Sex af þeim hefir hann smalað hingað, geymd í „bókhlöðu“ Húnfords í Markerville, hjá eplum „Iðunnar“ okkar. Húnford gamli varð fyrir slysi, sem í fyrstu leit háskalega út. Smalahundur hans og hann lentu í illindum, og seppi skaðaði hann á hendi og handlegg, svo verið gat, að illska hlypi að, en sem betur fór, varð þó vonum minna úr. — Þér er beðið að heilsa.

Þinn Stephan G.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerville, Alta, 28. marz 1921.

Góðvinur. — Ég er nýbúinn að senda þér klór-í-bakkann, og enn á ég svolítið erindi. Farir þú heim til Ísl., viltu gera svo vel að láta mig vita hvenær, þegar þú ert ráðinn, og ofur lítið áður en þú legðir upp? Bréfspjald væri nóg til þess. Áttu ennþá rím-ruglið, sem ég sendi þér um árið, þegar þú ætlaðir, en settist aftur? Ef svo, láttu einhvern flytja þér það fyrir mig um leið og þú kveður Wpg. — Einar Pál t. d., eða hvern sem vill. Láttu blað hér hafa það, og gaman væri, ef eitthvert blaðanna heima tæki það upp. Það er þó ekki vegna skáldskaparins á því. — Ég held „Tíminn" í Rvík eða „Dagur" á Akureyri gerði það, hefðir þú það með þér, og værir því ekki mótfallinn sjálfur. Ritstjórum þeirra bið ég að heilsa, hefi eilitla skyndikynning af báðum.

Ég legg með tvo nýgræðinga mína. „Veðramót" gerir hvorki til né frá. Bænina fyrir messu sendi ég eiginlega ekki til prentunar, fremur en verkast vill, en þér þá til að brosa að. En fyrir *mitt leyti* stendur mér á sama. Ég veit mér þykkju vísa, en skeyti því engu, því ég á nú ekkert „hvítt að velkja". Hitt er það, ég veit ekki, hvernig viðrar nú í Wpg., hvort þetta gæti aukið á æsinginn gegn Þjóðræknisfélaginu — en það kysi ég sízt, þó ekki sæi ég í að hreinkljúfa kirkjufél. klikkuna frá — hún er fúa kvistur — en það er of snemmt enn. Ráddu því alveg um þuluna. En hugmyndin er, að einhverjum, jafnvel í Norðri og Niðri, hálf-bjóði við að flytja í Brandsons-búðina, svona með sjálfum sér, fremur en að þeir sjái svo eftir „Yngri-Gránu" sinni, og til að kitla það kvað ég. — Póstberinn minn á ferð og flugi burt!

Vinsaml. Stephan.

*Jón Jónsson frá Sleðbrjót.* Heima, 5. mai 1921.

Góðvinur Jón. — Þökk fyrir 2 bréf, sem ég hefi dregið svo lengi undan að svara, og verð nú loks svo þurr og fáorður, þegar ég „sneypist þó til að koma", að þú verður engu að bættari í bréfaskiptunum. Aldrei á æfi minni hefi ég lent í slíkri skömm í bréfaskilum sem nú. Hirti í allan vetur og enn milli 30 og 40 gripi í fjósi. Svo kom „Vígslóði" og „lá upp á" mér í allan vetur í blöðum og bréfum Fyrirfarandi hefir ein

dóttir mín, sem heima er, legið á sjúkrahúsi suður í Rochester í Minnisota, skorin upp þar. Hafði verið skorin upp hér í Innisfail áður, fyrir 2—3 árum. Henni er nú komið í afturbata, vona ég, en ókomin heim. Allt þetta stelur tómstundunum fáu frá daglegum snúningum frá karli, sem orðinn er svifaseinn og sí-laraður. Bótin er, ég er sjaldan lengi með bréf. Hroða því í kunningjann, sem mér „kemur að kjafti“, hvernig sem er.

Nú hefi ég engar fréttir, sem bréftækar eru, en hefi fylgzt ögn með heiminum og lesið við og við betri blöð en „fólk flest“ veit um. Mikil íslenzk snilld var van- og trausts-yfirlýsing þingsins heima, glöggasta og sannasta sýnishorn af hugsunarhætti alls mannkynsins, í fárra stunda sýningu, alveg eins og hann er: Ótraust til alls, sem er, það hefir allt reynzt illa, en kvíði við því, sem koma mundi í staðinn, af því enginn hefir gert sér grein fyrir því glögglega, hvernig það ætti að vera, nema rússneskir jafnaðarmenn. Kristur sá og sagði, hvað að var, þó hann reyndar fyndi fátt, sem aðrir góðir menn ekki höfðu rekið sig á áður og talað um, en hann fann ekki upp neitt fyrirkomulag til að koma því í félagslega framkvæmd, aðra en hugsjón einstaklingsins. Öldum seinna situr annar Gyðingur, Karl Marx, við að hugsa þessum „guðssyni“ líkama og lögun, og síðan hafa jafnaðarmenn, fyrirlitnir lítilmagnar, verkafólk og alþýðumenn, verið að reyna að ýta þessu í áttina, en andleg veröld og veraldleg afneitað bæði Kristi og Karli. Þangað til nú, að amerískar kirkjur hér setja samnefnd til rannsóknar og enska kirkjan á Englandi sérnefnd, og komast báðar að sömu niðurstöðu: Menningin, eins og hún er í fyrirkomulaginu, er ókristileg. Ástandið neyddi þær til að segja satt, sjálfra þeirra vegna, en ekki sannleikans, og allt ið volduga og veraldarvana er nú æst út af því. Mér finnst þetta eitt af táknum tímans, og svona skil ég söguna, og — trúarbrögðin — og taktu nú við þessu, fyrst ég hefi ekki fréttir að bjóða, heldur en engu. — Gaman hefi ég af forlögum Norðursafnaðar og kom ekki á óvart. Þetta er eins og forðum, í gömlu þýðingunni, ef ég man rétt: að allt fortjald musterisins rifnaði, ofan í frá og niður í gegn. — Það er verið að reka eftir mér. Póstberinn okkar á flugi og förum. Fyrirgefðu. Ég geri kannske betur seinna. Skrifaðu mér samt aftur. Allt um undirstrauma blaða- og guðsríkis í Winnipeg, því þú ert nú við bergmálið af því öllu þarna í Selkirk,

og ert sjálfur glöggur Velheyrandi. Ég bið að heilsa gamla Thorarensen, ef þið sjáizt aftur.

Að fleipra lengra í friði
Fæ ei til þín.
Hún er á óða-iði
Ellin mín. —
Langa sálar-sýn
Eigðu enn, og líf til að verða að liði.

Vinsamlega Stephan G.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerville, Alta, 17. maí 1921.

Góðvinur, séra Rögnvaldur. — Skömm er mér, hve seint ég svara og þakka bréf þitt og sendinguna í því. Ég hefi haft hendur og hug svo bundinn síðan, þetta sem aldrei var til margskiptanna og er nú farið að letjast og syfja. Jæja, ég þakka þér kærl. vinur, nú sem fyrr! Og allt færi mér þetta sjálfum út um hunda-þúfur hæglætis og heima-aðkalla, ætti ég þig ekki sem hauk í horni. Ég er bráð-ónýtur innheimtumaður, nema helzt fyrir aðra — sjálfum mér verstur þar, sem víðar. Síðan Vídalín okkar þrumaði yfir ágirndinni og uppnefndi gull og silfur „inn þétta leir", fundum við upp bankana og pappírinn, til að fara í felur með hann, og ég játa, að þrátt fyrir allt er ég einn af þeim, sem koma þær kringumfarir vel, stundum. Ég þakka þér og þeim, sem þetta hafa umgengizt. Loksins sendi ég nú eftirstöðvarnar af loforði mínu til Sv.s., sem þú skilar í laumi. Láttu þér ekki detta í hug, að ég taki slíkt „nærri mér", ég satt að segja tek oft hitt nær mér, að verða að sitja hjá því, sem ég vildi. Ég sendi einnig $10.00 meira, og kem til ykkar með kvabb um leið — til þín og konu þinnar, ef þið komizt heim. Kaupið fyrir mig, þarna í Winnipeg, eitthvert rælni, sem þið gætuð ímyndað ykkur, að öldruð og gáfuð kona, tildurslaus, en höfðings-huguð, gæti fellt sig við að eiga í dóti sínu, til minja um, að henni fórst vel við karl, sem eitt sinn var gestur í húsi hennar, ókunnugur og illa siðaður! Færið svo frú Theodóru Thoroddsen í Rvík það, með kveðju minni til hennar og hennar heimilis. Ég sendi henni kannske línu seinna. Hún bjó í Vonarstræti no. 12. Ekki veit ég, hvort þið þekkizt, en þið hjón bjugguð víst forðum hjá

fyrrum tengdasystur hennar, Margréti, systur Björns heitins Olsens, svo ykkur verða hæg heimatök með það — og mig langar til, að þið heimsæktuð Theodóru — hún er höfðingi um svo margt, án þess að hirðsiðirnir séu henni allt í öllu, eins og Viktoríu drottningu var. Svo hræri ég allar mínar kveðjur heim saman í einn hnoðra lítinn, til að binda þér sem minnstan ferða-bagga — svona:

Eftir mér ef einhver spyr,
Enn um það er sama og fyr:
Segðu þeim, um þau sé dreymt,
Þar til öllu verði gleymt!

Og svo heil saman, heiman og heim. Kannske skrifa þér til Víkur viðvíkjandi krónum. — Á von bréfs frá Ársæl — en veit ekki enn um viðskipti okkar þriggja út af „Vígslóða“: hans, dr. Guðm. F. og mín — né um *Kolbeinslag,* sem Finnur sendi honum. Annars skiptir það allt litlu, og krónunum, ef einhverjar eru, eyði ég heima — nógar á ég matarholur fyrir þær þar! Skulda bæði fyrir „Tímann“ í Vík og „Dag“ á Akureyri, sem einhverjir vinir mínir senda mér reglulega. Veit ekki hverjir.

Dálítinn þátt í drættinum að skrifa þér átti það, að fyrir tæpum tveim mán. síðan varð ég að senda aðra dóttur mína, sem heima er, suður á skurðarborðið í Rochester, Minn. Hún hafði fyrir tveim árum eða svo verið skorin upp við botnlanga-bólgu hér í Innisfail (hvort sem það gekk þá að), en aldrei orðið hraust. Nú tóku Bandalæknar í Rochester úr henni gallið. Hún hafði það af að lifa, er í afturbata góðum eftir örkumlið, og heitið er henni fullri heilsu, eftir 8 til 12 mánuði. Svo það fór nú allt vel. Uppskurðurinn, einn fyrir sig, er settur á hálft fjórða hundrað dala. Bæði börn Laugu systur voru líka lögð undir kutann þar, um leið og Jóný mín. Öll eru þau ókomin heim enn. Hin telpan mín, Rósa, var síðari vetur sinn á heimiliskvennaskólanum í Olds í vetur, væntanleg að vera „dubbuð út í vor“. Missti tíma í fyrra, fyrir veikindi, og á annan mánuð í vetur aftur, fyrir veikindi, því þar ganga sífelldar farsóttir. Hún slapp samt út, þriðja í röð í sínum hóp, svo það lánaðist að vonum líka.

Nú er ný bón enn til þín, komist þú heim. Hér er Vésteinn eða Steinn Dofri, áður Styrkár, Jósafat og Helgason! Þú munt

kannast við það og hafa orðið þess var, og héldir að líkindum, að Vígslóða-málin mín hafi blandazt hans anda, eða mínum anda verið hleypt í hans mál. En svo var þó ekki. Dofri var ekki að vettvangi í byrjun, og hvor okkar sat á sinni þúfu. Hann hefir viðað saman heilum skrínum af efnum í sinni fræði: sögu og ættfræði íslenzkri, á 17 ára flækingnum hér. Ég kann að virða elju hans og fjölrýni um þetta, en ber ekki skyn á gildi þess alls. Um hitt efast ég ekki — þetta glatast *hér* allt á gangleri hans, eða frá-falli, ef eins gengur áfram. Það gæti orðið tjón, eins og ef skruddur Björns á Skarðsá eða Gísla Konráðssonar hefðu sokkið, niður-gleymdar, þó ekki séu sama efnis. Mér dylst ekki, að Dofri þarf að komast heim með farangur sinn, þar sem skynbærir menn geta þuklað um þetta. En Dofri er félaus, og þyrfti að fá uppeldis-loforð eitthvert, segjum 2—3 ár, að minnsta kosti, meðan hann væri að sýna sig „kennifeðrunum“. Tvennt þyrfti heimurinn að læra: Að gjalda sem flestum trúrra þjóna verklaun, áður tími þeirra hér er uppi, og hitt ekki síður, að koma sem víðast vandræðaatgervi þar fyrir í lífinu, sem kostanna næðist að njóta, en gallanna gætti sízt, sökum svifrúmsleysis. Ég hefi skrifað dr. Guðm. Finnbogasyni nokkur orð viðvíkjandi Dofra, mælzt til, að hann hreyfði þessu við menn heima, ef hann sæi sér færi. Veit ekki, hvað verður. Hefi ekkert svar fengið, sem ekki er enn von. Viltu nú ekki gera svo vel og hafa þetta í huga, ef færi fæst til heima? Og svo framarlega, að þú lítir á þetta mál líkum augum og ég. Ég hefi heldur hlynnt að, að Dofri léti verða af að senda þér tvær ritgerðir um mál, sem hann hefir hugsað um: Hrafn lögmann, og fæðingarár Jóns biskups Arasonar, en ekki máttu halda, að ég hafi eggjað hann til neinna bardaga við einstaklinga, hafi ég ekki heldur latt. En það er nú bara sagt okkar á milli, en gott væri, gætir þú hýst ritgerðir hans í „Tímaritinu“ næst til að leysa hann úr hlaði útkomuleysisins, sem hann hefir lent á, ef svo færi, að hann gæti vakið eftirtekt á sér. Svo er þetta ekki lengra.

Ég legg með eitt Grýluvers og tvær þýðingar eftir mig. Á þýðingunum stendur, sem þar er sagt, og *enskan verður að fylgja* til sönnunar — „Ég gæti hugsað!!! þetta betur á ensku en íslenzku“, segir Vestur-Íslendingurinn. Það er lítil-læti um of, því blöðin okkar eru hér um bil jafnvíg á prentvillur í ensku og íslenzku. Kannske eru þýðingarnar of „kæstar“ fyrir

„Kringlu". Ég er manna minnst sólginn i salt og pipar, en stundum finnst mér þess þurfi við á blaða-bragðleysið okkar vestan hafs. — En, þið ráðið nú þessu.

Vertu svo sæll — á meðan! og eigðu öll erindi góð og okkur til frægðar til Bjarmalands.

Vinsamlega Stephan G.

*Ársæll Árnason.* Markerville, Alberta, Canada, 2. júní 1921.

Góðvinur. — Þökk fyrir fljót svör, bréf þitt og bæklinga, nýkomið. Erindi mitt er enn að biðja þig bónar. Rögnvaldur Pétursson, únitaraprestur, frá Winnipeg, er á leið í heimsókn til Íslands. Hans verður vart í Rvík. Af „Skýrslum", sem þú sendir mér, sé ég, að hann er aðeins ársfélagi „Sögufélagsins". Viltu gera svo vel að kaupa honum æfifélagaskírteini í „Sögufélaginu" fyrir kr. 100.00, færa honum það frá mér, en mér til skuldar á reikningi okkar? Þið kæmuzt svo kannske í annað bókabrall!

Þig misminnir bréf mitt. Ég gaf Finni Jónssyni ávísan á þig, fyrir kr. 42,50. Borgaði honum þannig Eimreiðar árgang, og nokkra „Vígslóða", sem ég keypti af honum. Tek það út úr kr. 200,00, sem þú gafst mér fyrir „Vígslóða", og svo þetta, til séra Rögnvaldar. Þú segir inneign mína kr. 90,00, fyrir Kolbeinslag, — en, er þá ekki burðargjald frá Wpg. til Rvíkur óinnfært til minnar skulda-hliðar? Finnur var eitthvað að telja til liðuga $3.00, sem *hann* þyrfti að fá fyrir það, án þess að segja, hvort þeir yrðu þér reiknaðir eða mér, svo ég hefi ekki borgað honum þá, né geri, fyrr en ég veit, við hvorn okkar hann ætlar að eiga um það, en ég skal gera það, þegar þú lætur mig vita það, og ef þér sýnist svo. Þú sendir mér svo reikning einhvern tíma. Og beztu þökk mína fyrir viðskiptin öll, greið og góð. Því miður get ég ekki sent þér „Vígslóðamál" allt. Það varð margra mánaða yrkisefni þriggja blaða. Reyndu að láta séra Rögnvald vísa þér á mann í Wpg. „Finn"-mörk er tvísýn!

Vinsamlega Stephan G. Stephansson.

*Jakob J. Normann.* Markerville, Alta, 26. júní 1921.

Góðvinur Normann. — Þökk fyrir bréfið þitt síðasta, sem ég hefði átt að vera búinn að kannast við, að ég hefði í hendur

fengið fyrir löngu — en „bagar elli mér, en æska þér“, eiga þeir Bragi gamli og Hólmgöngu-Bessi báðir að hafa kveðið í kör sinni, þegar barnið datt út úr vöggunni. — Ég er að verða hvílræknari á ýmsan hátt, og löngum kemur nýtt stjá að; þó ekki sé stærra en að mér verði meiri leit að kúnum en ég bjóst við, stelur það af mér „skriftum“, öðruvísi en meðan „vær várum yngri“. Fyrirgefðu dráttinn. „Voröld“ okkar rumskaðist aðeins og sofnaði óðara aftur. Eins og vant var, skorti mig „trúna“ og bjóst við þessu, þó ekki vissi ég meira um það en var í bréfinu. Hitt getur verið, að hún sé ekki alveg fúnuð upp enn, sé ekki dauð, en sitji í dái, og rumski sér snöggvast, þegar mikið þykir liggja við, eins og þjóðsögurnar láta Holger danska gera, eða Friðrik Barbarossa — þó ekki viti ég það heldur.

Ég fagna því, að þið nafni minn höfðuð það af að lifa. Þetta er algengt og upp aftur, en í hvert sinn jafn nýtt og við-byltingarlegt fyrir þá, sem fyrir því verða — en styrkir rætur sterku trjánna og djúprættu, eins og stormarnir. Þeir eiga bágast, sem liðast upp, en lifa samt eftir. —

Við erum nýbúnir að halda Íslendinga-dag hér. Hann hefir borið upp á 17. júní, síðan ég kom úr heimferðinni. Ég var fullvissaður um það heima, að hver sem yrði þjóðminningardagur þar, yrði það *aldrei annar ágúst*. Við fengum séra Albert Kristjánsson til að halda tölu hér, og — *messa*. Yfir höfuð geðjaðist fólki orð hans og æði vel og maklega. Það er undarlegt, hvað þessir trúleysingjar og „bolshevikar“ verða ó-ógurlegir í augum fálksins, geti maður sýnt því þá og það kynnzt þeim, jafn vel eins og kirkja og dagblöð vara þó við þeim! Við, sem köllum okkur frjálslynda, höfum löngum verið of-varfærnir að mana fram í dagsljósið „pestirnar, sem í myrkrinu læddust“. Það er ögn að breytast. Aðeins þarf að gæta þess að ófriðhelga *yfirskinið, ekki mennina*, sem breiddu það ofan á sig — nóg að láta þá liggja bera. — Þungar horfur hér með engi og akra, sökum regnleysis, og sem stendur.

Sjáðu! að lokum, liðið mitt,
Leynt, er stendur hjá þér:
Kveðjur, sem hoppa um húsið þitt,
Og hlaupa um Wynyard — frá mér!

Vinsaml. S. G.

*Jónas Hall.* Heima, 9. júlí 1921.

Jónas minn góður. — Ég fékk í gærkveldi „spurningakver“ frá þér. Ég var grandalaus, annars hefði ég sent þér línu ótilkvaddur. En Jóný skrifaði þér langt bréf frá Rochester (ég hafði lagt svo fyrir) og Lilju frænku sinni, „Jonna“-dóttur, annað. „Hvernig fór þetta annars, góði minn?“ sagði kerlingin, sem skipaði karli sínum að hengja sig, og hann hlýddi. Jæja, ég þakka þér og bið að fyrirgefa ómakið þitt, sem ónotað var. Jóný var orðin þreytt á útivistinni og vildi komast sem fyrst heim, hafði beðið sig leiða eftir öðrum. Jú, þau komu öll heim um mánaðamót, maí—júní, krakkarnir, það er að segja það, sem ekki var af þeim skorið, ég held eftir vonum umbætt, en líkl. eiga Jóný og Hannes nokkra bið til að verða jafngóð, eins og þau voru óveikluð. Jóný hefir verið skorin upp áður við botnlanga-flækju (að læknis sögn), og nú ristu þeir úr henni gallið. Svæfingar eru henni þraut, en hún kvartar ekki, en herðir sig upp í þær. Það tekur á taugar, býst ég við. Hannes var skorinn upp við maga-sári, og það rist úr honum, og mun hann hafa staðið tæpt um stund eftir uppskurðinn fyrst. Gudda kom léttast niður að því leyti, að aðeins var skorið af henni annað brjóstið, eftir lýsigulls (þ. e. *radíum)* lækningu, sem svo endar með x-geisla-kveikjum, tveim-þremur, hér heimlendis í Calgary. Hver uppristan út af fyrir sig kostaði frá $ 300 til $ 400, auk alls annars, sem ekki er í að sjá, fyrst allt komst af. Svona er sú saga. — Tíð var hér of-þurr yfir júní — einn góður skúr „Íslendinga-daginn“ okkar, 17. júní. Furða, hve lítið fölnaði þó um akra, þó úr gróðri drægi. Nú hefir rignt vel nýlega. Hveiti hér með mesta móti og útaxað, eða í þann veg. Horfur með korn betri [að] útliti, en engi rýr, ræktuð og utan-akra. — Við fengum hingað séra Albert Kristjánsson til „Íslendinga-dagsins“, og svo „messaði“ hann sunnudaginn eftir, að ósk manna hér. Flestum féll hann ágætlega, óbrotinn, einarður, velviljaður og frjálslyndur og fastur fyrir á öllum sviðum hugar-heima. Þekkir þú hann? Greind og opinskáa á hann ekki langt að sækja, framættingjar hans vóru Bólu-Hjálmar og séra Ólafur „stúdent“, enda stingur hann mjög í stúf við „theológisku“ rolurnar, sem flestir venjast. — Fjandi, að þú kemst ekki í heimferð, Jónas. Ég held ég verði einhvern tíma á *þessari öld*

að taka þig með mér, báðir skildingalausir, en kaupum okkur einn þennan nýja „sundham“, sem ekki sekkur. Í honum komumst við til *Víkur*. Þar kaupum við hvílupoka og rikling í nesti. Leggjum gangandi og útiliggjandi norður Kjalveg, beinakerlingaleiðina fornu. Komumst ofan í Skagafjörð. Gamlir bændur og dætur þeirra skjóta þar undir mig hesti, og við tvímennum svo norður í Þingeyjarsýslu. Héðan af gildir svo alveg að einu og alls staðar, hvar við setjumst að seinast, án þess að snúa við. — Heyrðu, hér er Vésteinn (*Dofri* nú) ættfræðingur. Viltu ekki borga honum fyrir að gera þig tiginborinn? Ég er t. d. kominn af Svíakonungum fornu: Ynglingum. Um þrjú forfeðgini mín, sem ég vissi til áður, hefir mér ætíð þótt vænzt; þau vóru Agði sálugi, sem ríkti yfir Agðanesi, séra Jón galdrameistari og Helga Tómasardóttir, kona séra Jóns í Vogum við Mývatn. Hennar vegna reið ég krók heim á hlað í Vogum, þegar ég var heima um árið. — Ég var af mér genginn eftir vetrarverkin. Hefi ekki náð mér enn.

Ég á rjátli alltaf er —
Einhvern finn þó dofa,
Nærri eins og æski mér
Allra helzt að sofa.

Ég má ekki vera að þessu lengur. Þarf að sækja 13 kýr í haga og gefa 22 svínum, og klukkan orðin 7 að kveldi. Blessaður og sæll.

Þinn Stebbi.

*E. S.* — „Fullur í dag, fullur í gær, fullur í fyrra-gær, ó Jón, ó, Jón, ó, Jón“ — tónuðu þeir á brennivíns-öldinni, gömlu mennirnir. — Kominn dagur aftur. Sunnudagur að nafninu, en sams konar dagur eins og þeir sýknu á undan honum. Ég búinn að sækja kýrnar og gefa svínunum enn, og heimurinn og ég við lýði enn, samur og í fyrra-gær. Þetta er nú viðbótin við fréttirnar. Skilaðu kveðju minni til Jonna frænda og hans liðs. Þegar ég skrifa öðrum ykkar, læt ég ykkur „eiga það báða“, eins og presturinn, sem gleymdi að „leiða“ aðra kerlinguna „í kirkju“, sem til þess var búin, og lét það svo hólkast á svarinu: „Eigi þær það báðar“, þegar hann var minntur á það. Þið hafið líka „kjaftaásinn“ milli ykkar, þó þið nennið ekki að heimsækjast á, sem sízt situr á mér að setja ofan í [við] ykkur fyrir.

Óskir gerðu ei ykkur gagn
Um óraleið af hólnum —
Bænin yrði á borð við magn
Í blessun presta af stólnum.

Vinsaml. S.

*Guttormur J. Guttormsson.* Markerville, Alta, 25. júlí 1921,

Góðan dag! Guttormur minn, og þökk fyrir bréf þitt og kvæði, þó ekki væri út í aðra sálma farið en þá að fá að vita, að þú sért enn þá kvikur og kveðandi. Feginn hefði ég viljað ónýta sektardóm Sveins yfir *Atlantis* þínum, vera skipaður hæstiréttur af almenningi, en verð sjálfsagt sviptur embætti, kotakarl, þar sem kaupmaður á í hlut. Ríkismannadómur er drottinsorð, nú á tímum. Svo varð ég of seinn, til að óstaðfesta réttargerðina. Ég hefi reynslu fyrir, að hann Sveinn verður búinn, að líkindum, að senda sitt lögreglulið, Lalla gamla (eins andlega vel að sér gerðan, eins og sjálfan sig, nema að hagsýni innanbúðar) með skáldsögu um þig í „Kringlu" sína, og þú búinn að úttaka þína hirtingu, áður en ég næði til. En í alvöru: „andinn" í Atlantis þínum er réttur og „reiðubúinn", og „holdið" heldur ekki svo „veikt", að Sveinn né Lalli hafi betur skapaðan skrokk að bjóða, á sjálfum sér, né þeim, sem þeir jafna við sjálfan sig — næstum því. Stefnan er rétt, kvæðið því gott. Hitt kemur ekki þessari sögu við, að ég held ég skilji sögnina gömlu um Kain og Abel á óskáldlegri, en hugsanlegri hátt en kennt hefir verið. Ég átti tal um það við prest nýlega, sem telur sig biblíufastan. Hann reiddist ekki, en varð í svipinn svo átakslaus á þessum uppspuna mínum, að hann sagði, að skýringin gæti vel verið rétt. En slíkt kemur skáldi aldrei við. Það má snúa þjóðsögu hvert í átt sem vill — aðeins, að yrkja upp nýtt líf í hana. En fyrirgefðu, ég ætla að segja þér, að mér finnst á einum stað í kvæðinu vafasöm orðaskipan, ef þú létir prenta kvæðið. Það er í öðru erindi, 5. og 6. hending: „Nú hugði Kain sér vátryggð *völd* í veröld, sem staðið *gat*". — Sem sé: „völd" er fleirtala, og sagnorðið „að geta" við fleirtölu er *„gátu"*, en við eintölnuna er það *„vald"* — *„gat"* í liðinni tíð. En svo máttu ekki missa fleirtöluna „völd" sökum fallegu hendingarinnar: Við plógstrenginn Abel kvað fram á „kvöld", sökum rímsins. Sé þetta

nema bull úr mér, og ef þér sýnist svo, mætti einhvern veginn breyta 6. hendingunni að skaðlausu næstum því, svo sem til dæmis: Í veraldarstjórn hann sat —, en þá breyttist um leið síðasta hendingin, sem endar á „sat“, svo þreifa yrði fyrir sér að nýrri hendingu, svo sem: En Kain við tíundamat. Ég bendi þér á þetta sem aðferð, ekki sem upptekningu. Ég treysti mér ekki til að yrkja fyrir þig — það færi eins og fyrir prenturunum okkar, sem setja sín orð fyrir okkar — þetta sem kallast *prentvillur.* — Ofþurrkar hér lengi eftir sáning. Akrar líta þó nú út vonum framar. Grasleysi og engisprettur á engjum, svo að heyfengur horfir til vandræða. Fylkis-stjórn okkar byltum við bændur flatri. Sjálfsagt var hún þó mörgum stjórnum sanngjarnari — en hvað um gildir, þeim verður öllum steypt í hefndarskyni, þær steyptu heiminum — fólkinu — í glötun, allar, þó hvergi, nema í Rússlandi, sé neinn viss, hvað við eigi að taka. Þú skilur það rétt, að erfiði mannanna, ekki „mótuð mynt“, peningar eða pappírar, væri eini sanngjarni verðmælirinn. — Jafnvel fornu Íslendingarnir sáu það, ekki kannske alveg áhalla-laust, en þeir reiknuðu kaup í landaurum — lífsnauðsynjum, og vinnugildi í dagsláttum, o. s. frv. — Mér líður ágætlega eftir aldri og verðugleikum, en ýmislegt er þó „af, sem áður var“, eins og við er að búast.

Heldur skolast hendur mér,
Heima-rolið þyngist mér,
Vinnu-þolið veiklast mér,
Veigur og bolmagn förlast mér.

Vinsaml. Stephan G.

Eftirmáli.

Ég kem frá að höggva hrís,
Og hjó af krafti,
Svo ég geri sérhvern staf
Svipaðan axarskafti.

*Jakob J. Normann.* Markerville, Alta, 2. okt. 1921.

Góðvinur kær. — Fyrirgefðu, hve seinn ég er til svars, ég skammast mín, ekki fyrir þér einum, heldur svo tugum skiptir manna, sem lengi hafa átt hjá mér bréf, og er ég þó ekki neitt vandvirkur né lengi með línu, hafi ég nenningu og

næði til. En aldrei finnst mér ég hafi átt slit-annríkara við útiverk en í ár. Svo fer manni á sjöunda tugnum, þegar seinlætið sækir að, líklega. En marga þökk fyrir bréfið! Það var skemmtilegt! Og meðan ég man: Kvæðið þitt til Íslands var mér ánægja, auk fleira frá þinni hendi og huga. — Ekki er það ofsagt, að Einar Ben. sé *stórskáld,* svo „allir erum vér börn hjá Boga“, eins og galdramaðurinn í gömlu þjóðsögunni okkar er látinn segja um embættis-*bróður* sinn, fylgjandi þeirri fagur-kristnu reglu, að „hafa hver annan sér í virðingum æðri“. Annars kannast ég við hendingar úr þessum stórkvæðum hans Einars míns öllum, nema *greninu* í Ásbyrgi, — heyrði það all heima, en lagði ekki fasta trú á, að rétt væri haft eftir í öllu. Á jafnvel í nesti mínu *Prospectus* hans um Port Reykjavík á ensku, gamlan nú, sem einhver sendi mér til gamans. Annars var þá minnzt opinberlega á að lögsækja hann fyrir last um núverandi Reykjavík, en látið í veðri vaka, að hann væri tæplega þess verður þó. Ég sá hann aldrei heima. Hann var í Danmörk, flóttamaður frá Lundúnum, að götusögn grunaður um Þjóðverja-mök. Annars er E. ekki einhama. Hann hefir auðsýnilega hlaupið innan í Manga Mark. o. fl., og ort um sig kvæðin þeirra til sín, því þau féllust til í hans anda og orðalag.

Fram yfir vonir rættist úr ökrum hér, þrátt fyrir þurrka og frost. Spretta varð góð á þeim víðast, að lokum, en líkl. verður kornið gallaðra, og minna útliti. Engi var víða ónýtt, engisprettur skemmdu það líka, þó nokkuð á mosa-mýrum. Verst, ef þær vofa yfir verri næsta ár, sem ekki er óhugsandi. Talsverð búkreppa. Gripir óseljandi, en bændur að verða ofhlaðnir af þeim, sökum bæði haga- og hey-leysu. Allar landafurðir hrakgoldnar, hér sem annars staðar. Markaður illur eða enginn. En við þessu var að búast. Heimurinn hefir ekki hálft vit, eða þá vit til ins verra, þeir sem mestu ráða um. Á morgun verð ég að fara til Innisfail að mæta og flytja Sveinbjörnsson okkar, sem syngur hér á fimmtudag. Mér er sárannt um þennan öldung íslenzkrar sönglistar, félausan og kominn að fótum fram, en get lítið fyrir hann gert, því miður! Annars fer ég aldrei neitt. Urga heima. Mér líður annars vel, nema ég þarf of mikið að snúast, og of mikið að sofa. Kemst lítið til lesturs og penna, og fellur miður að flækjast lifandi út úr lífinu.

Mér er samt ei neitt til nauðar, nema þetta:
Mér er stundum næst að nátta,
Nærri alltaf mál að hátta.

En svo fer nú að létta sumar-önnum um stund, ef ekki kemur strax vetrar-ríki — og bráðum kemur þú. — Fréttir: Jói Stefánsson hafnaði sig hjá séra Pétri í gærkveldi. Sagði mér í vor, að hingað kæmi hann aldrei oftar, né til Íslendinga. Færi nú að flakka milli annarra „Scandinava", það sem eftir væri. Þeir myndu fullt eins góðir og gefa manni að borða. Ég kvað það satt vera og ið mesta hygginda-ráð. Okkur hefir kannske brugðizt þetta krosstré! Beztu þökk, ef þú getur látið mig fá annað eintak af „Voröld" með „Jökulgöngum". Svo stendur á: Ég vildi geta sent það heim til vinar míns við Mývatn. Hefi svikizt um að skrifa honum lengi, vegna þess mig vantaði þetta. Annað þarf ég að eiga sjálfur. Held slíku saman. En átti ekki einu sinni eftir-rit af greininni.

Ég kem senn að betla brauð,
Boginn og svangur, drengir!
Þegar þið veltizt um í auð,
Einars tóusprengir.

Mér ferst sízt að mögla, að
Mér séu fáir góðir. —
En hafðu, Jakob, þökk fyrir það,
Þú ert mér sem bróðir.

Vinsamlega Stephan G.

Þetta sparkað út er allt í óða hasti,
Það var gert í handa-hófsins hendings-kasti.

S. G.

*Magnús Jónsson frá Fjalli.* Markerville, Alta, 14. okt. 1921.

Góði gamli vinur. — Ég kem aðeins og loksins til að segja þér þökk mína og afsökun. Þökk fyrir hlýhug og tryggð, bréfin þín, illa borguðu, og það, að þú tókst svari mínu gegn Birni Hjörleifssyni. Svo stóð á, ég vildi ekki né ætlaði að svara honum. Grunaði, að hann væri tengdamaður eins bezta fornvinar míns (þó annar væri til samnefndur) og þá bilaður

maður af stríðinu. Sá líka, að í hógværð hans gat legið áætluð snara á mig, í von að ég hlypi á mig í svari. Í einu orði sagt, ég kenndi í brjósti um manninn. Hitt vissi ég ekki þá, sem vinur hans hefir fullvissað mig um síðan, að hann átti sjálfur lítinn hlut í greininni, nema nafnið sitt. Svar þitt var ágætt og hógvært, svo ekki varð hans ferð þeim heldur til fjár. Afsökun mín að hafa ekki svarað fyrr er sú, að í allt sumar hefi ég verið önnum kafinn, lúinn og lasinn oft, og varla á penna getað tekið, með hrúgu af bréfum ósvaraða frá vinum mínum hingað og þangað. Fái ég friðstundir, ætla ég nú að fara að bæta ráð mitt og reyna að afborga, og má svo heita, að ég byrji nú á þér. Ég þakka þér líka fyrir „Vertíðarlok“. Mér til skammar verð ég að játa það, sem er: Ég hefi enn ekki lesið þau, nema á yfirhlaupum. Ýmislegt veldur, ekki sízt það, að mér er stefnan þín kunn og hefi svipaða sjálfur, hefi því enga tilhneigingu til út-í-fingurfettinga. Annað hitt, ég veit, að kverið er sannleiksfundur spaks manns og góðs. Þú hefir fengið hlýja dóma í blöðunum hér fyrir bæklinginn, eins og þú áttir skilið. Jafnvel Magn. gamli Skaftason komst í skárra „essið sitt“, munaði aðeins því, að hann hefði kunnað að leggja afturgöngu-trúna sína í lágina. Þér hefir ekki misheppnazt „vertíðin“, Magnús, og líklega þó ekki talinn allur hlutur enn. Þá er nú til hreins sagt um þetta, eins langt og ég næ nú. Nýlega hefi ég fært mig upp úr áttundu skoru á sjötugsára-skaftinu, að vonum vikafær enn. — Virtu til vorkunnar, vinur, klórið og styttinginn, og vertu ætíð sæll!

Vinsamlega Stephan G.

*Guttormur J. Guttormsson.* Heima, 14. okt. 1921.

Góðvinur, Guttormur minn. — Þökk fyrir bréfið og þolinmæðina, að vera ekki fyrir löngu búinn að senda mér draug, sökum seinlætis míns að svara, því nóg munu efni í þá í Nýja Íslandi, færir þú að kveða þá upp. En góði, kringumstæðurnar ætlast enn til alls annars af mér en bögusmíða og bréfaskrifta, og tíðin hefir verið svo góð til útistarfa, að ég væri nærri talinn þjófur að hverju augnabliki, sem talin er iðjuleysisstund, og hefi verið og er sjálfur svo óspilltur af þeim aldaranda, að eg næstum fellst á það að skrifa aldrei,

ef annað verk getur setið fyrir, sem oftast er. Vinn það til að draga eða svíkja allt annað, bæði af metnaði, að bjóða daglegu brauði sjálfs míns birginn í lengstu lög, vita mig matvinnung minn, eins lengi og unnt er, og hinu, að þó allt búfé manns sé verra en einkisvirði, eru þó hugsanir einar minnst markaðsvara alla daga, næstum metnar eyðsla, bagi og bölvun, nema að þær séu ætlaðar til að skríða inn á milli spjaldanna á „bankabók“ náungans, fimar og fingralangar, en ég hefi bæði hnýttar hendur og stirðar og trúi þá heldur á þrældóminn. Svona er nú það, og *þú* munt skilja í því sjálfur. Viðvíkjandi hendingunum þínum, sem ég fetti fingur út í, þá er þinn skilningur orðréttur líka, það sem munar milli er, að orðskipanin getur verið tvíræð, og í fljótu bragði verða fleiri en ég svo heimskir að stökkva í mína, því hún liggi beinna við. Þetta er gamall þröskuldur okkar, sem kveðum, og sem ég sjálfur hrasa sífellt um, þangað til að einhver er svo vænn við mig að benda mér á misstigið (sem sjaldan er), svo ég hafi tækifæri til að segja, hvernig ég hugsaði mér þetta, svo allt jafnar sig, eins og milli okkar nú. Þá er þetta með Kain, sem þú vilt vita, en er nú raunar ómerkilegur skilningur minn á sögunni í I. Mósesbók, 4. kap., minnir mig. Annars munu fleiri ættingjar hennar til, og öðruvísi sagðir. Ég hefi grun, [að] svona liggi í þeim öllum upphaflega: Þetta er þjóðsaga, æfagömul, frá þeirri fyrnsku, þegar mannkynið skiptist fyrst í tvær stéttir, veiði- og hjarðmenn og akuryrkjumenn. Akuryrkjumenn komu síðar til en hinir. Það er stríð á milli þeirra, og sagan er sögð frá sjónarmiði hjarðmanna, og „á kostnað“ jarðræktarmanna. Hræðslan við hið óþekkta er upphaf allra trúarbragða, djöflatrúin fyrst (Demonology). Menn reyna að kaupa af sér hin illu öfl með blóðfórn, manna og dýra, því sem þeir sjálfir töldu bezt. Akuryrkjumaðurinn hefir ekki öðru að fórna en ávöxtum jarðar. Það er guðleysi í augum hjarðmannsins, af því að það er blóðlaus fórn. Því lítur ekki herguð hjarðmannsins með „velþóknun“ á fórn Kains. En þegar hann drepur bróður sinn, Abel, og fórnar honum, því sem næst sér verður tekið, er svo langt frá, að guð hjarðmannsins reiðist Kain, að hann heitir honum vernd sinni og *sjöfaldri hefnd, sé hann drepinn,* og niðjar Kains allir verða hjarðmenn aftur, og löngu síðar er Lamek látinn metnast af þessari ættar-iðrun. Svo langt sýnist mér frá því, að

Kains-markið sé morðingjamarkið, eins og á okkur er hellt af guðfræðingum, að það er í mínum augum *verndarmark* guðsins, sem biblían á þarna við. Þetta hefi ég ekki eftir neinum svo ég viti, nema minni eigin vantrú. Og taktu nú við!

Sér þú blað, sem gefið er út á Seyðisfirði, „Austurland"? Ritstjóri hálfkaraður menntaskóla-stúdent, Guðm H[agalín], og nýtízku skáld, blaðið kaupmannablað, andstætt samvinnumönnum. Í því var nýlega ritdómur um „Bóndadóttur" þína, eftir skáldið sjálft, talað um vonbrigði um þig og hógværlega minnzt á afturför mína líka. Ef þú vilt, og sendir mér línu fljótlega, skal ég reyna að rífa blaðið upp úr rusli mínu og senda þér.

Blessun bið þig styðja
Og brjóta af þér viðjar —
Þeir, sem böls þér biðja,
Balaams séu niðjar.

Vinsamlega, í styttingi Stephan G.

*Grímur S. Grímsson.* Heima, 15. okt. 1921.

Góða þökk, Grímur minn, fyrir allar sendingarnar. Þær hafa verið oft á tíðum eina skemmtun mín í sumar, svo að segja — eini ágalli sá, að ég hefi stundum varla haft við að gleypa. Sjaldan haft minni tíma margs vegna, heima-args og óhreysti ýmissar. Mér er að verða ofaukið, alltaf meira og meira, ekki svo mjög í heiminum enn, en heima við. Ég finn það alltaf betur og betur. — Gamli Sveinbjörnsson kom hér á mánudag, fór á laugardag. Hélt til hjá mér. Var búinn að biðja mig þess. Hann var frískur og lítur næst[um] ernari út en við sáum hann síðast, þó eldri sé. Hljómleik sinn hélt hann hér, og tókst víst vel. Söng, kvað og lék í 2 kl. tíma, eða lengur. Aðsókn var nokkur. Hefði átt að vera betri. Inntekt dollarar 53.75 og tilkostnaður hans enginn hér. Um hann var öðruvísi séð. Ýmis nýgerð lög sín fór hann með. Yfirleitt skilur fólk hann illa enn. Hann er of vel að sér og of frumlegur í list sinni fyrir Íslendinga enn, en menn dást aðeins að fimleiknum. Hann kom víst félaus til Wpg. Verk hans öll, eða flest, ófrágengin til fulls sökum að hafa ofan af fyrir sér með kennslu. Séra Rögnv. (og fleiri) í Winnipeg komust að því. Tóku sig til og reyndu að ná upp 2000 dollara einstakra

manna styrk. Kirkjufél.-menn skárust mjög úr leik. Hefi heyrt, að mikið skorti enn, hvernig sem fer. Ef þetta óheppnast, verður karl að taka til kennslu aftur, en yfirgefa sín verk aftur. Helen dóttir hans er nýgift nú, bóndakona, Mrs. Ralph Loyd eða Lloyd! og nærri nágranni þinn, 15 mílur frá Calgary og 5 mílur frá Midnapore. Líklega er Sv. þar enn. Fór héðan þangað og ætlaði að vera þar nokkra daga um kyrrt. Hann mundi þig og spurði um þig, þú gætir talað í síma, ef þér sýndist, kallað upp nr. 94 *Calgary Rural,* og beðið um 1311, Lloyd, B. S. Midnapore, sem mun vera gamli maðurinn, sem liggur nú reyndar á „hospitali“ þarna í Calgary. — Allt er hér í þresking — og „öngum sínum“ út af einkisvirði“ bóndans og alls, sem hans er. Líkl. er korn æði víða hér með frostmarki, verður minna að vöxtum en margir hugsuðu sér, en þó líkl. nærri meðallagi venjunnar, hér í kring.

„Mikið er hvað margir lofa 'ann
Menn, sem aldrei hafa séð 'ann:
Búinn kápu Krists að ofan,
Klæddur skollabuxum neðan.“

(Á að vera kveðið um séra Magnús okkar Jónsson, fyrrum Garðar-prest, og eignuð Sigurði í Vigur. Báðir guðfræðingar og þingmenn á öndverðum meiði.)

„Þetta árans „Real Estate is rotten“,
Reynt er nú að „bursta“ Guð með því —
Hví hefurðu ekki „Torrens-title“, Drottinn,
Til að halda þínu „property“?“

(Eftir Ný-Íslending, út af Tjaldbúðarmálinu.)

„Á leiknum þörfin lengi var stór
Og landann oft búið að gabba —
Á „Kinnarhvols-systurnar“ fjöldi fór,
En fáir á „Tengdapabba“.“

(Ný-Ísl. líka, út af leiknum nöfnu minnar þar í vetur.)

Skrautlitum skreytir
Skógartoppa
Haust á hverjum hól, —
Líður með lognblæju
Langra reykja
Geisla-gránuð sól.

Biður að heilsa Grími.
Þrotið blað og tími. —
Bæði ég og bærinn minn
Biður að heilsa Grími!

Vinsaml. Stephan.

*Jakob J. Normann.* Markerville, Alta, 11. nóv. 1921.

Góðvinur Jakob. — Loksins get ég setzt við að svara og leiðrétta „Jöklu“ mína. Ég er illa aðsætinn enn, sökum snúninga og óhreysti einhverrar. Svo þurfti ég að rubba upp litla blaðagrein, sem kannske kemur í „Kringlu“, ef hún verður ekki „að liggja úti“. Hún var um New York sýninguna. Kunningi minn í íslenzku nefndinni ýjaði í þá átt í bréfi til mín, svo ég gat ekki þagað það fram af mér. Málinu var ég hlynntur. Kem líkl. of seint með greinina, þó ég hugsaði mér annað, hafi hún annars nokkur áhrif.

Sízt átti ég von á „Jökulgöngum“ í svona ham! Auðvitað sagðir þú mér, „hvaðan veðrið stóð“, en samt varð ég hissa. Venjan er að segja: „Þú áttir nú ekki að vera að þessu“, þegar manni þykir vænt um greiða og verður feginn, og ég er það hvort tveggja, en sé eftir þér og þínu fé, sem til þessa gengur, en get nú við ekkert ráðið, nema að segja: „Beztu þökk fyrir þetta!“ Og frágangur þykir mér fallegur. Ég hefi leiðrétt sem ég gat, eftir minni. Ég hefi aldrei tíma til að afrita, og eiga, til samanburðar á eftir. Læt þessa einu fjöl fljóta, í von um stráka-lukku þá, að fá það fljótlega heimsent aftur og geta leiðrétt meðan ég man, það sem ég geymi. En læt blöðin sitja með sínar vitleysur óhaggaðar. Ég fékk hvorki blað né handrit af „Jökulgöngum“, þó ég bæði Sigurð, mundi, að ýmislegt var aflagað, en ekki alls staðar upp á hár sömu orð og áður. Jæja, það nægir nú eins og það er. Verst, ef fyrirhöfn verður mikil, einkanlega þar sem orð voru felld úr og þurfa nú að bætast í og raska svo línulengdum. Ég veit ekki, hvernig um það fer, en gat ekki úr því bætt alls staðar öðruvísi en gert er. Þú ætlast á þriggja hundraða „upplag“. Það er sjálfsagt hlutfallslega beztu kaup af þeirri vöru, þegar keypt er í smásmökkum — en svo langa-langt yfir mínar þarfir fram. Mér nægja ein til tvær tylftir til að fara mínar „forsendingar“. En heyrðu, hvernig væri að selja hitt,

fyrir fáein sent hvert, upp í kostnaðinn? Það gæti skeð, að einhverjir glæptust á að vilja eiga það fyrir næstum ekki neitt. Hjálmar Gíslason í Wpg. kynni að geta brallað út einu hundraði, og ég held, að Ársæll Árnason í Reykjavík myndi taka af mér annað. Við erum ögn kunnugir. Hann gaf út, eða kostaði, „Heimleiðis“ og „Vígslóða“. Hefir reynzt mér hreinn og beinn og betur en ég hefi beðið um. Láttu mig vita, hvernig þér lízt á þetta, ef þér verður hægt að fá þessu framgengt, og þó ekkert yrði af, vertu samt blessaður fyrir!

Það er orðið, eitt fyrir sig,
Að elli-gullum mínum,
Hvernig vinir hlaða á mig
Holl-viljanum sínum.

Kveðjur okkar fylgja þér í öll vinahús og þitt fyrst og fremst. S. G.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerville, Alta, 17. des. 1921.

Góðvinur. — Velkominn aftur í lag með Vestmönnum! Og skemmtileg jól og áraskipti. Ég hefi stillt mig um að ónáða þig hingað til, síðan þú komst heim. Bjóst við þú þyrftir í ýmis auð horn að líta og værir allur á þönum. En nú er sá friður úti, og honum hér með sundur sagt. Einkis skal þó spyrja þig að heiman, þó nóg sé forvitnin. Geymi það allt, þangað til við hittumst, og gleymi þá helmingnum, svo er það margt. Hvorugur okkar hefir tíma til að rita það. Svo bætir ferðasaga þín úr bráða-nauðsynjum, yfirleitt. Það er gott sem komið er, ekki sízt sænski karlinn þinn, sem „tók heima“ í landsýn.

Ég á erindi. Það verður í reifum sérskildum — tvær langar ljóðaþulur, sem ég hefi verið að gera úr garði, síðan ég varð „milli kúnna“ í haust — ekki „milli kvenna“, eins og sagt var heima um þann tíma, sem ekkillinn lét líða, þangað til hann gifti sig aftur. Í mínu dæmi er það stund kveld og morgna, sé engin „ólund“ í mér. Getir þú notað þetta til einhvers í „Kringlu“ og einhvern tíma, er því erindi mínu öllu lokið og eins, þó það ekki verði, segi ég „sama mína gerð“. Veit það eru langlokur fyrir dagblað, en datt í hug að grípa mætti til, ef lítið lægi fyrir hendi og kosninga-þögnin kemst

aftur á. En hafðu það alveg eftir hentugleikum, og ég hefi afskrift eftir, svo einu gildir, hvar liggur. Þessi kvæði eiga að verða tvö in síðustu í „Vígslóða“, II. útgáfu aukinni!! og mörg þar á milli „fyrrum og þá“.

Ég sting með þunnildi: „Jökulgöngum“, sem Jakob Normann, Wynyard, lét sérprenta upp úr „Voröld“ og gaf mér. Þegar ég var heima, vóru vinir mínir austan heiða hræddir um mig yfir Mývatns-öræfi svo nefnd. Mér sýndust þau sízt skelfileg um sumardaga. Að vísu! En það var sandrokið, ef blési, þeir kusu hríð að vetri, heldur en það. Ég fékk blíðviðri. Að því lítur stakan. Engar fréttir. Rússar hafa nóg gull — en svelta samt til dauðs. Við höfum ekkert gull í skuldasúpurnar — en erum fullir og feitir. Nærri sumartíð fram að degi í dag, fyrirfarandi — en nú í morgun:

Í völlinn ríður veturinn,
Veðurblíðu-tregur,
Frosts og hríða faðirinn,
Fyrirkvíðanlegur.

Vinsaml. Stephan.

*Jakob J. Normann.* Heima, 18. des. 1921.

Góðvinur. — Í fyrra dag fékk ég bréfið frá þér, póstsendinguna fáum dögum fyrr. Bæði þetta allt og önnur velvild þín til mín, Jakob, er svo mikil, að ég finn, að ég kann ekki að þakka það á borð við hana, en þó fylgir þakklæti mitt til þín þessum miða, svo langt sem það nær. Hjálmari hefi ég nýskrifað og mælzt til, að hann tæki að sér að bralla með 100 eint. „hér í heimi“, en gat [þess] um leið, að þú seldir kring um Wynyard, til þess að þó hann kunni að hafa sölumann þar hjá ykkur, færi hann þó síður að senda í bakkafullan lækinn, vissi hann þig þar fyrir. Og farðu nú af stað sem fyrst „og ginntu þá til kaupa“ miskunnarlaust, til að fá nokkuð upp í kostnað þinn. Þetta er ekki einungis mitt leyfi, heldur mitt „boðorð“. Ég var sem sé 3 ár í Bárðardal, þar sem Bárður bústólpi byggði fyrst, og flutti úr til Árnessýslu, en lét hverja kind bera sitt nesti yfir heiðarnar. Hann var fyrsti Ameríkumaður, sem lagði allt sitt lag í „að láta hlutina borga sig“. Það var dámur af honum enn í dalnum hans. Ég dró hann, og vil láta hvert kvikindi „ganga fyrir

sér". Og þessa skepnu eins! Við Ársæl á ég síðar, en bíð nú svars frá Hjálmari. Nafna mínum bið ég hjartanlega að heilsa með þökk fyrir arfleiðsluna!

Tíð er góð — þó guggni slóðinn kulsæll,
Vestrar-móð þó missti' ei hann,
Meðan blóðið örar rann.

Mér líður þó bærilega, betur en aldur er til, en er eitthvað „innviða svartur" stundum, það er að segja líkamlega, eins og elzti Gröndalinn orðaði það í vísu, um einhvern ótryggða mann. En „oft verður slíkt á sæ", eins og selurinn sagði. Hér er búþröng í buddum, ekki í búrum — en það er svo almennt, að ekki er orða vert í þeim heimi, þar sem þúsundir falla úr hungri og nekt. — Margar á ég skemmti-stundirnar, fæ bréf frá einum og öðrum, með velvildaróskum fyrir eitthvað, sem ég hefi gert, þó ekki viti ég að hafa unnið þeim neitt í vil — óþekktum mönnum oftast. Ég get sannað það um lífið með meiri einlægni en kerlingin sagði um svírann: Mörg er á þér matar-holan!

Kveð þig svo í bráð, með finnskum hljóðstöfum:

Tómstundin er á enda —
Læt ég svo hér lenda.
Sendi þér sérhver jól
Hækkandi hamingju sól!

Vinsamlega Stephan G.

## Athugasemdir og skýringar.

(Tölurnar framan við athugagr. tákna blaðsíðutal.)

5. *Karolína Dalmann,* kona Gísla Jónssonar Dalmanns frá Mjóadal, sbr. I, 32.
8. Bréfið til Jónasar Hall er líklega skakkt ársett í afritinu, sem hér er farið eftir, er ef til vill frá 1901, eða 1902. — Um Jónas Hall sjá I, 1. — Um skiptingu lands í Townships (Tsp.) og Sections (Sect.) sjá I, 13. — Homestead: Heimilisréttarland.
9. *Garðaríki, Montenegro* o. s. frv. Byggðarlög Íslendinga í Norður-Dakota: Garðar, Mountain, Sandhæðabyggð og Hallson.
— *Bryan.* William Jennings B. (1860—1925), oft forsetaefni demokrataflokksins í Bandaríkjunum, en honum fylgdi Jónas Hall að málum. Bryan var frægur mælskugarpur.
10. *Erlendur minn Grímsson.* E. Sigurðsson Grímssonar frá Landakoti á Álftanesi, póstafgreiðslumaður við Burnt Lake, sjá Almanak Ólafs S. Thorgeirssonar 1911. Um Jóhann Björnsson sjá I, 32. Um ritdeilu þá, sem hér er að vikið, sjá Hkr. 19. ág. og Lögb. 2. sept 1909.
— *Sigríður kirkjuþingmaður.* S. Sigurðardóttir Helgason, kona Jónasar Helgasonar í Argyle, átti sæti á þingi kirkjufélagsins 1909. Jónas var Mývetningur, kenndur við Grænavatn, en kona hans frá Ingjaldsstöðum. Mágur hennar, Hjörtur Sigurðsson, átti heima í Bárðardal, áður hann flutti vestur.
12. *Halli Íslandsbiskup.* Þórhallur biskup Bjarnarson. Hann kom aldrei vestur.
— *Infidel.* Trúleysingi.
— *Ecclesia.* Kirkja, klerkdómur.
13. *Þennan nýja víngarðsmann.* Hér er átt við cand. theol. Þorstein Björnsson úr Bæ. Hann fór vestur um haf 1909 og gegndi um hríð prestverkum á Garðar, sbr. I, 269, 275.
— *Lagt presti til ræðutexta.* Hér mun átt við erindi, er séra Friðrik Bergmann flutti í Wpg. 21. okt. 1909: Skáldið Stephan G. Stephansson, yfirlit um kveðskap hans (Breiðablik 4. árg., bls. 68—78, 88—93).
— *Indriði Sigurðsson,* Kristjánssonar dannebrogsmanns á Illugastöðum í Fnjóskadal.
14. *Sú þriðja.* Þriðja bindið af Andvökum.
15. *Geirhjörtur Kristjánsson,* Guðlaugssonar, Þórðarsonar, frá Böðvarsnesi í Fnjóskadal, nam fyrst land á Garðar, N. Dak., en fluttist síðar til Alberta.
— *Thorarensen.* Séra Lárus Thorarensen fluttist vestur um haf haustið 1910 og gerðist prestur safnaðarins á Garðar, en varð að láta af því starfi vegna heilsubrests eftir rúmt ár. Hann andaðist í hafi á

heimleið til Íslands 11. júní 1912. Hann var ljúfmenni, vel látinn af öllum og dágott skáld (f. 1877).

16. *Undirbrotaöld.* Um járnbrautamál þessi sjá I, 265, 268.

— *Yankiar.* Yankees, Bandaríkjamenn. Upphaflega var þetta heiti haft um menn úr Nýja-Englandsríkjunum. Síðar notuðu Englendingar það um Bandaríkjamenn yfirleitt. Í þrælastríðinu notuðu Suðurríkjamenn það um Norðurríkjamenn.

— *Taktu hann.* Þ. e. trúðu honum.

17. *Kandy ykkar.* Cand. theol. Þorsteinn Björnsson úr Bæ, sbr. bls. 13.

— *Burtfararminnið.* Hér víkur Stephan að grein, er birtist í Hkr. 1. júní 1911, undirrituð n. n. Fyrirsögnin er Burtnumning, og eru þar í útflúraðar skammir um séra Fr. J. Bergmann. Höf. var Þorsteinn Björnsson úr Bæ; sbr. I, 275. Greinin var birt af vangá ritstj. eða slysni, eins og Stephan gefur í skyn.

— *Sturla Einarsson.* Prófessor í stjörnufræði við háskólann í Berkeley, Calif., sonur Jóhanns Einarssonar (d. 1917), bróður Indriða skrifstofustjóra. Móðir þeirra Indriða var Efemía, dóttir Gísla Konráðssonar.

18. *Sigmar nýbakaði.* Séra Haraldur Sigmar, sonur Sigmars Sigurjónssonar frá Hólum í Reykjadal, S.-Þing., þá nýtekinn við prestskap í þjónustu Kirkjufélagsins vestra.

— *Baldur Jóhannsson,* Einarssonar, bróðir Sturlu. Systir þeirra bræðra er Nanna, sem hér er einnig getið.

19. *Bárdælir.* Sjá I, 32 (Benedikt Jónsson Bárdal).

— *Sigurður Helgason,* tónskálds Helgasonar, sjá I, 266.

— *Jónas Ari.* Séra J. A. Sigurðsson.

23. *Séra Magnús Jónsson,* síðar prófessor, sbr. I, 299.

25. *Þéttleifur Thomsen.* Ditlev Thomsen, konsúll í Rvík, átti viðtal við blaðamenn í Bergen í nóv. 1913 og gat þess þar, að Norðmenn samlöguðu sig fljótt Íslendingum hér á landi, „alveg gagnstætt því sem á sér stað um Dani og Þjóðverja.“ (Ísaf. 6. des. 1913).

26. *Kristinn og Lauga.* Kristinn Kristinsson og kona hans Sigurlaug, systir Stephans, sjá I, 15, 333.

— *Í Moldviðri.* Stephan víkur hér að ritdeilu milli Jóns Helgasonar prófessors, síðar biskups, og séra Björns B. Jónssonar, er háð var sumarið 1913 í Sameiningunni og Breiðablikum út af nýguðfræði o. fl.

28. *Grein séra Friðriks.* Grein þessi: Um hvað er Vestur-Íslendingum annt? birtist í nóv.-hefti Breiðablika 1913. Greinin var prentuð upp í Ísafold 10. jan. 1914 og sætti þéttings gagnrýni í Lögréttu 14. jan. s. á.

— *Vel sé Þorsteini.* Hér víkur Stephan að þætti, er Jón hafði ritað um kynni sín af Þ. E. Þáttur þessi var síðar prentaður framan við 3. útg. af Þyrnum.

33. Jói Sólmundsson. Séra Jóhann P. Sólmundsson var um hríð ritstjóri blaðsins Baldur, er út var gefið á Gimli, sjá I, 111.

— *Churchill.* Winston Churchill, amerískur skáldsagnahöfundur, er all-mikið orð fór af um og eftir aldamótin.

34. *Einar Ólafsson,* frá Firði í Mjóafirði, um hríð ritstjóri blaðsins Baldur á Gimli.

35. *Norður á Siglunes* í Vatnabyggðum, þar sem Jón frá Sleðbrjót átti þá heima.
38. *Siggi minn Thorarensen.* S. Gíslason Thorarensen, sjá I, 210.
— *S. Thorson.* Stephan Thorson, lengi oddviti á Gimli, nafnkunnur mælskumaður, faðir Josephs Thorsons ráðherra.
41. *Roblin.* Sir Rodmond P. Roblin, lengi flokksforingi conservatíva og um hríð forsætisráðherra í Manitobafylki.
— *Séra Jón.* Séra Jón Bjarnason, forseti Kirkjufélagsins, andaðist 3. júní 1914.
42. *Ásmundur Guðmundsson,* síðar prófessor, þjónaði söfnuðinum í Wynyard nokkra hríð.
43. *Einar Grandy.* Einar Einarsson Sörenssonar frá Sandi í Aðaldal.
— *Séra B.* Séra Björn B. Jónsson varð prestur lúterska safnaðarins í Wpg. eftir fráfall séra Jóns Bjarnasonar.
44. *Paid for Vote.* Borgað atkvæði, sbr. bréfið á undan.
45. *Afmælisnóttin.* Hér á Stephan við kvæðið Afmælisgjöfin (Andv. IV, 195—97), ort þegar hann varð sextugur.
46. *Repp okkar.* Þorleifur Guðmundsson Repp (1794—1857). Þorleifur ól mestan aldur sinn erlendis. Hann var talinn gáfu- og lærdómsmaður, en þótti einrænn og sérvitur nokkuð. Orðtaki hans, sem hér er vitnað til, sneri Stephan í vísu einni þannig: Vertu aldrei vinnumaður varmennskunnar (Andv. I, 14).
— *Óraníumenn.* Orange-menn, nafnið dregið af heiti Vilhjálms III. Englandskonungs, Óraníuprins. Írskt leynifélag, stofnað 1795 til eflingar mótmælendakirkjunni, gegn áhrifum kaþólsku kirkjunnar.
48. *Keir Hardy.* James K. H. (1856—1915), brezkur verkamannaleiðtogi og friðarvinur, formælandi verkamannaflokksins í neðri málstofu brezka þingsins frá 1900 til dauðadags.
49. *Eaton, Simpson.* Vöruhús í Winnipeg.
50. *Skáldatal Kristjáns.* Hér á Stephan ef til vill við greinarkorn, er birtist í Lögb. 22. okt. 1914, Skarð í skáldahóp, stutt eftirmæli um Þorstein Erlingsson. Kristján Sigurðsson, bróðir Ögmundar Sigurðssonar skólastjóra í Flensborg, var mörg ár meðritstjóri Lögbergs, greindur maður og vel ritfær.
54. *Einkum litla Gvöndar.* Á við kvæði, er Guðm. skáld Guðmundsson orti eftir Þ. E. látinn.
55. *Ranko hjá Runeberg.* Sjá Páll Ólafsson: Ljóðmæli I, 264:

„Baugur um brotnar,
brátt slitnar skikkja,
en Ranko er eilíf eign.“

56. *Eg sé eftir Rögnv.* Séra Rögnvaldur Pétursson tók við ritstjórn Heimskringlu um veturnætur 1913, en sleppti henni aftur í nóv.-byrjun 1914.
— *Skeljungur, séra Jóhann.* Séra Jóhann Bjarnason, Helgasonar, frá Gröf í Víðidal, bróðir Tryggva alþm. Bjarnasonar í Kothvammi (d. 1928). Séra Jóhann stundaði um hríð nám við „mannþekkingarskóla“ í New York, áður hann sneri sér að guðfræðinámi, og lítur gamanyrði St.: Skeljungur, að því. Séra Jóhann ritaði í Sameininguna sumarið 1914 ferðaminningar um byggðir Íslendinga við Mani-

tobavatn. Segir hann þar m. a. frá heimsókn sinni til Jóns frá Sleðbrjót.

57. *E-mjið.* Hér mun átt við vísu KN's: Allt er hirt og allt er birt — og svar Stephans við henni, sbr. Andv. VI, 193.

— *Skammt varð milli Skafta og Þorsteins.* Þ. E. andaðist 28. sept, en Skafti B. Brynjólfsson 21. des. 1914.

— *Eyfordsmálin.* Þessi mál risu út af kirkju Þingvallasafnaðar á Eyford. Á árunum 1909—10 dró til sundrungar í söfnuðinum vegna trúmálaágreinings, er þá var upp kominn milli séra Fr. J. Bergmanns og þeirra manna, er honum fylgdu, annars vegar, og séra Jóns Bjarnasonar og hans manna hins vegar. Klofnaði söfnuðurinn, og fylgdi meiri hlutinn stefnu séra Friðriks. Var að dómstólamáli gert, hvor safnaðarhlutinn skyldi halda kirkjunni, og var minna hlutanum dæmd kirkjan í undirrétti. Í yfirrétti féll dómur í máli þessu haustið 1914, og varð hann í vil meira hlutanum og kirkjan dæmd hans eign.

62. *Excommunication.* Útilokun, bannfæring.

— *Index expurgatorius.* Skrá um forboðnar bækur (í kaþólskum sið).

63. *Kanúki.* Canuck, Canadamaður, sbr. bls. 72.

— *Norðmaður.* Í Hkr. 29. apr. 1915 birtist grein eftir norskan mann um Íslendinga í N.-Dakota. Er Jónasar Hall minnzt þar mjög lofsamlega. — Bréfið til J. Hall er skakkt dagsett hér, á að vera dags. 2. maí.

64. *Skallagrímur.* Einar Hjörleifsson (Kvaran) ritaði um þessar mundir stjórnmálagreinar í Lögréttu undir þessu nafni, og var ekki mjög vel þokkað meðal fyrri flokksmanna hans.

68. *Séra Halldór.* H. Jónsson, prófastur að Hofi í Vopnafirði (1810—81). Jón frá Sleðbrjót ritaði endurminningar um ýmsa merka menn, er hann hafði kynnzt, og sendi Stephani. Víkur hann nokkrum sinnum að þáttum þessum í bréfum til hans.

70. *Sig. Júl.* Sigurður Júl. Jóhannesson skáld var ritstjóri Lögbergs um hríð, en varð að hætta, vegna þess að hann þótti ekki nógu skeleggur í styrjaldarmálunum.

71. *Divide et impera.* Deildu og drottnaðu, latneskt orðtak.

72. *J. S.* Jón Sveinsson, sjá I, 194.

— *Ísland frá hestbaki.* Ferðasaga séra Rögnvalds Péturssonar um Íslandsför hans hina fyrstu sumarið 1912 (Wpg. 1914).

77. *Á Hnausum* („Hnausa“) Þorp við Winnipegvatn, milli Gimli og Riverton (Íslendingafljóts).

81. *Þorskabítur.* Þorbjörn Björnsson skáld frá Írafelli í Kjós.

84. *Kirkjuþingslestrar Leós og Steingríms.* Um uppruna hins illa, eftir séra Hjört J. Leó, og Á verði, eftir séra N. Stgr. Þorláksson, pr. í Sameiningunni 30. árg., bls. 161—186.

88. *Bergskalli.* (Lög)bergsskalli, þ. e. ritstj. Lögbergs. Mun hér átt við harla stuttaralega klausu í Lögb. 9. sept. 1915 um Skírni, þar sem Vopnahlé birtist.

— *Bardal.* Halldór Bardal, bóksali í Wpg.

91. *Halldór Jónasson,* skólastjóra Eiríkssonar á Eiðum, cand. phil. í Reykjavík. Hér á Stephan við greinaflokk, er birtist í Ísafold

sumarið 1915: Smákaflar um sjálfstæðismál, frá utanflokkasjónarmiði.

91. *Magnúsarnir.* Séra M. J. Skaftason, ritstj. Hkr., o. fl. rituðu um þessar mundir herhvatir miklar í blaðið. Ef til vill hefir Stephan hér í huga jólablað Hkr., m. a. með bréfum frá vígstöðvunum frá Magnúsi A. S. Breiðfjörð.

— *Séra Friðrik í Almanakinu.* Séra F. J. B. ritaði grein um Matthías Jochumsson áttræðan í Almanak Ólafs S. Thorgeirssonar 1915.

92. *Hugvekja þín.* Ritgerðin heitir: Hvað er það illa? Sbr. Lögb. 27. jan.—3. febr. 1916.

93. *Tumi.* Thomas H. Johnson ráðherra.

95. *Erjur Tryggva.* Um kvæðadeilur milli Stephans og Ólafs Tryggva Johnssonar, síðar ritstjóra Heimskringlu, skal vísað í Andvökur VI, bd., en þar eru ýmsir þeir kveðlingar prentaðir.

96. *Ég lenti svona á Lárusi.* L. Guðmundsson, faðir skáldkonunnar Láru G. Salverson, frá Elliða í Staðarsveit á Snæfellsnesi. Með þeim Stephani urðu snemma væringar nokkrar út af ritsmíðum L. um skáldskap og hélzt það lengi. Má sjá þess nokkur merki í Andvökum hér og þar.

— *Þórólfur* Sigurðsson frá Baldursheimi.

99. *„Kringlu“ og Manga.* Þegar séra R. Pétursson sleppti ritstjórn Hkr., tók séra Magnús J. Skaftason við blaðinu. Þótti ýmsum og þar á meðal Stephani allmikið kveða að ákafa hans í flutningi stríðsfrétta og hernaðarmálum yfirleitt.

105. *Tommi ráðherra og Hannes.* Thomas H. Johnson og Lieut. Col. H. Marino Hannesson, Eyfirðingur að ætt og lögfræðingur að námi. Hannes gekkst fyrir því í jan. 1915 að koma upp liðsforingjaskóla fyrir háskólanemendur og tók þátt í liðssafnaði til styrjaldarinnar, svo sem hér er að vikið. Hann er fyrsti Íslendingurinn, sem sæti hefir átt á sambandsþinginu í Ottawa, mikilhæfur maður.

106. *Illa gerði Magnús.* M. J. Skaftason gaf út um þessar mundir tímaritið Fróða. Þar var jafnan mikið ritað um matarhæfi, og er hér skopazt að því, að Þjóðverjar, sem Magnúsi var mjög illa við, gætu í matvælaskorti sínum lært mikið af Fróða, sbr. vísuna: Þjóðverjinn fær högg á hupp o. s. frv. Andv. V, 226—27.

— *Mundi Þorsteins.* Lieut. Guðmundur Ó. Thorsteinsson, borgfirzkur að ætt, sjá Minningarrit hermanna 211.

107. *Flýtishendingar til Kristins.* „Sextug sessa. Til Kristins skálds Stefánssonar á sextugasta afmælisdegi hans 9. júlí 1916.“ (Andv. IV, 94—95).

109. *Ég legg með blað.* Helga-erfi, eftirmæli um Helga Stefánssonar frá Arnarvatni, sjá Andv. IV, 95—98.

110. *Seinast kveðna kvæðið mitt.* Svipir í skuggsjá haustsins, sjá Andv. IV, 229—234.

111. *Kveða eftir B.* Hér er ef til vill átt við Benedikt Jóhannesson frá Torfunesi, S.-Þing., d. 25. okt. 1916. Hann var fyrsti Íslendingurinn, sem tók sér bólfestu í Garðarbyggðinni.

111. *Guðmundur Þorláksson, Kristján Jónsson og Sigurður Grímsson,* nágrannar Stephans, sjá Ó. S. Th. 1911 og 1913.
112. *Ég las Erp þinn.* „Af mundi nú höfuðið, ef Erpur lifði.“ Erindi þetta var prentað í Lögb. 9. nóv. 1916.
113. *Skuggsjá.* Tímaritið Skuggsjá var gefið út í Wynyard nóv. 1916 — febr. 1918. Ritstjóri var Ásgeir Í. Blöndahl, bróðir Péturs Ingimundarsonar slökkviliðsstjóra í Rvík, greindur hæfileikamaður.
114. *Dr. Jóhannes P. Pálsson* frá Reykjum á Reykjaströnd, Skag. Hann nam læknisfræði við Manitobaháskóla. Dr. Jóhannes hefir ritað talsvert, einkum leikrit, einþáttunga, er birzt hafa m. a. í Tímariti Þjóðræknisfélagsins, smásögur o. fl.
116. *Jakob Kristinsson,* síðar fræðslumálastjóri, dvaldist vestra um hríð, gegndi prestsþjónustu og var við framhaldsnám.
— *Það er verið að reyna að koma upp íslenzkum Bandaríkjakonsúl.* Þessi ráðagerð um ræðismann frá Bandaríkjunum á Íslandi á síðara hluta styrjaldartímans komst ekki til framkvæmda.
117. *Hermann Hillmann* frá Hóli á Skaga, bóndi í Alberta, sjá Ó. S.Th. 1912.
119. *Fossinn Guðm. míns á Sandi.* Kvæðið Dettifoss birtist í Iðunni 1916.
125. *Borden — Villuson.* Borden var forsætisráðherra í Canada um þetta leyti. Villuson, þ. e. Wilson, forseti Bandaríkjanna.
126. *Kapelána Irvine.* Þ. e. kynna hann áheyrendum.
— *Fjeldsted.* Séra Runólfur Fjeldsted þýddi íslenzk kvæði á ensku, þar á meðal kvæði eftir Stephan. Um séra Runólf sjá I, 181.
128. *Jón Friðfinnsson,* tónskáld í Winnipeg. Kona hans var systir Kristjáns Jónssonar bónda í Alberta, eyfirzk að ætt.
132. *Hjálmbjartur gamli.* Sir Wilfrid Laurier (1841—1919), foringi liberalaflokksins í Canada langa hríð og forsætisráðherra Canada 1896—1911. Hann var glæsimenni, löngu hvítur fyrir hærum, er hér var komið sögu, en þó hinn ernasti, „76 ára ungur“, segir Lögberg um hann 13. des. 1917, er það skýrir frá viðtökum, sem hann hafði þá nýlega fengið á afarfjölmennum stjórnmálafundi í Winnipeg.
132. *Tómas varð tómthúsmaður í Wynyard.* Thomas H. Johnson ráðherra hafði þá nýlega haldið stjórnmálafund í Wynyard og hlotið daufar undirtektir hjá löndum þar.
133. *Ég hitti þig nú líka heima — hjá Óðni.* Tímaritið Óðinn flutti kvæði og leikrit eftir Guttorm. Árið 1917 birtist þar leikritið „Hinir höltu“.
134. *Ég kom til Tryggva.* Tryggvi Gunnarsson bankastjóri andaðist 21. okt. 1917.
135. *Guðmund bróður þinn.* G. S. Grímsson dómari.
138. *Agnostic.* Guðleysingi.
— *Leo.* Jón Benedikt Leó Benediktsson, sonur Jóns Benediktssonar kaupmanns á Markerville. Sjá Ó. S. Th. 1913.
143. *Steinþór og Ingibjörg.* Steinþór Guðmundsson kennari og kona hans, Ingibjörg Benediktsdóttir skáldkona.
144. *Vísan ... um öspina og viðinn.* Vísa Guðrúnar Gjúkadóttur í Hamðismálum: Einstæð emk orðin sem ösp í holti o. s. frv.

149. *Kynntist ritstj. hans.* Ritstjórar Tímans, sem hér er átt við, voru þeir Tryggvi Þórhallsson og Guðbrandur Magnússon, síðar forstjóri.
— *Sveinbjörn kirkjumálsglötun.* Sveinbjörn Johnson lögfræðingur, um hríð dómsmálaráðherra í N-Dakota og síðar prófessor við ríkisháskólann í Urbana í Illionis-ríki í Bandaríkjunum. Hann var sæmdur doktorsnafnbót við Háskólann í Rvík 1930. Um þetta leyti átti Stephan í vök að verjast vegna kvæða sinna um stríðið, er sumir töldu ganga landráðum næst, og var um hríð útlit fyrir, að einhverjir andstæðingar hans gerði tilraun til að fá hann lögsóttan og sakfelldan. En úr því varð þó ekki, og má eflaust ekki sízt þakka það áhrifum séra Rögnvalds Péturssonar, að sú hneysa henti ekki Íslendinga. Bréf það, sem hér getur um, mun hafa haft inni að halda e. k. aðvörun um að fara gætilegar, en Stephan fór sínu fram og lét hvergi undan síga.
151. *Under Fire.* Le feu, Eldur, skáldsaga eftir franska skáldið Henri Barbusse.
— *Sálina hefi ég lesið.* Skáldsagan Sálin vaknar, eftir Einar H. Kvaran.
152. *Frændi þinn í Saskatchewan.* Sigurvin móðurbróðir Baldurs, bróðir Indriða Sigurðssonar, sjá bls. 13.
154. *Skotinn í stúlku, kóngsdóttur.* Hér á Stephan við kvæðið Ástríður Ólafsdóttir Svíakonungs, er birtist í Skírni 1818 (Andv. V, 25—29).
— *Bið að heilsa frú R.* Frú Ragnhildur Pétursdóttir frá Engey.
160. *Arinbjörn.* Arinbjörn Sveinbjarnarson bókbindari í Rvík var aðalumboðsmaður fyrir Andvökur hér á landi.
162. *Jakobína Johnson.* Skáldkonan Jakobína Johnson, dóttir Sigurbjarnar skálds Jóhannssonar frá Fótaskinni, þýddi kvæði eftir Stephan og fleiri íslenzk skáld á enska tungu. Um þetta leyti birtist grein í Heimskringlu um þýðingar hennar, eftir séra Rögnvald Pétursson.
— *Gísli mágur þinn.* Gísli Jónsson, skáld og prentsmiðjustjóri í Wpg. Hann er kvæntur skáldkonunni Guðrúnu H. Finnsdóttur.
165. *Knútur.* Knud Berlin, danskur þjóðréttarfræðingur, kunnur af skrifum sínum um sjálfstæðismál Íslendinga.
169. *O. T.* O. T. Johnson, ritstjóri Heimskringlu (15. marz 1917 til 20. ágúst 1919).
170. *Spanskflugan.* Spanska veikin (inflúensufaraldurinn). Flu á ensku.
171. Sigurgeir frá Reykjahlíð. S. Pétursson, Jónssonar prests Þorsteinssonar, sbr. Lögb. 2. maí 1918.
172. *Siggi og Voröld.* Sig. Júl. Jóhannesson var ritstj. blaðsins Voröld.
— *Arngrímur bróðir Tomma.* Sbr. I, 319.
178. *Jóhannes Stephansson.* Jóhannes S. Birkiland, síðar ritstjóri, Rvík.
181. *Ég legg með örfá erindi.* Það var ljóðið Rænka litla, sjá Andvökur IV, 113—115.
— *Aðalsteinn Kristjánsson.* Stephan misminnir hér nafn piltsins. Hann á við Kristján Albertson, síðar ritstj., nú dósent í Þýzkalandi.
183. *Hjálmar Gíslason* bóksali í Wpg, bróðir Þorsteins ritstj. Gíslasonar, prýðilega greindur og ritfær.
184. *Hvala-Gosi.* Hendingar þær, er Stephan vitnar til, eru í vísu einni, Bærinn Svæði, í kveri eftir Jónas Gottskálksson, söðlasmið á Ak-

ureyri, pr. í Khöfn 1858. Titillinn er: Ríma af Úlfgeiri sænska og nokkur önnur ljóðmæli.

184. *Guðrúnarkviða.* þ. e. 3. útg. af Þyrnum.

— *Minnisvarðamálið.* Um þetta leyti var hreyfing nokkur uppi vestra um að reisa minnisvarða um íslenzka hermenn og þátttöku þeirra í styrjöldinni. Gerði Einar Jónsson myndhöggvari frumdrætti að minnismerki þessu. En það var aldrei reist.

185. *Fimm hrútar (bucks).* Fimm dollarar.

187. *Í því eru hendingar.* Það var kvæðið Þinghvöt (Andv. IV, 108—10), ort til þings Þjóðræknisfélagsins 1919.

— *Onion-stjórnin.* Onion, hvítlaukur, eða geirlaukur (Garlic), afar þefillur, og litur orðaleikurinn að því. Útúrsnúningur úr Unionstjórn, þjóðstjórn.

189. *Árnum og Ottensonum,* H-um og Skinnaþórum. Eins og fyrr getur átti Stephan í höggi við ýmsa vegna kvæða sinna um styrjöldina o. fl. Hér víkur hann að nokkrum þeirra. Rituðu sumir eða ortu undir dulnefni (H, Skinnaþór). Árni Sveinsson bóndi í Argyle tók upp þykkjuna fyrir hermennina í Lögbergi, en Stephan svaraði í Voröld. Nikulás (Össurarson) Ottenson bóksali ritaði í Heimskringlu, og svaraði Stephan þar. Í Andvökum má finna nokkrar minjar um deilur þessar allar.

— *Magnús gamli blindi.* M. Jónsson frá Fjalli, Skagfirðingur. Hann gaf síðar út safn af ritgerðum, er hann nefndi Vertíðarlok. Ritfær og athugull greindarmaður.

— *Grein Ástvaldar.* Cand. theol. Sigurbjörn Á. Gíslason dvaldist vestan hafs um hríð sumarið 1918 á vegum Kirkjufélagsins. Veturinn 1919 urðu skrif nokkur í blaðinu Ísafold út af ummælum í ræðu eftir dr. Magnús B. Halldórsson á Íslendingadegi 1918. Andmælti S. Á. G. því í Ísaf. 1. marz 1919.

190. *Jón maisakur.* Enska skáldið John Masefield.

191. *Nikk og Fritzner.* Nikulás Ottenson bóksali, einn þeirra, sem ritaði gegn Stephani vegna kvæða hans um styrjöldina, vitnaði mjög í orðabók Fritzners um merkingu orða í kvæðum Stephans.

— *Nú rek ég bara í vörðuna,* þ. e. hermannaminnisvarðann, sbr. bls. 184.

196. *Blöð og bréf Baldurs.* Leaves and Letters, safn af smágreinum og bréfum eftir Baldur Jónsson Jónssonar frá Mýri í Bárðardal, ungan vesturíslenzkan menntamann (d. 1917).

201. *Ófeigur bóndi Sigurðsson.* Nágranni og vinur Stephans, ættaður úr Árnesþingi.

— *Spurn hafði ég af séra K.* Séra Kjartan Helgason í Hruna dvaldist vestra á vegum Þjóðræknisfélagsins veturinn 1919—20.

202. *Jakob J. Normann.* Bóndi við Foam Lake, sonur Jóns Jónssonar og Bjargar Jónsdóttur frá Syðstu-Grund í Blönduhlíð, Skag. Mikill vinur Stephans og stuðningsmaður hin síðustu árin.

204. *Thorstein Veblen* (1857—1929). Þekktur amerískur hagfræðingur, ritstjóri og rithöfundur.

210. *Rúna Ásmundar.* Sigrún, dóttir Ásmundar Kristjánssonar frá Máná á Tjörnesi, Ásmundssonar.

215. *Drottinsorðið.* Kvæðið um Dom Pedro (Andv. IV, 255—60).

215. *Nú er Siggi líklega í súpunni.* Sig. Júl. Jóhannesson, ritstjóri Voraldar þá, átti í vök að verjast vegna harðvítugra árása á blaðið og stefnu þess, er þótti ærið róttæk.

216. *R. og S.* Séra Rögnvaldur Pétursson og Sig. Júl. Jóhannesson.

219. *Lína Baldurs.* Guðlína, kona Baldurs Stephanssonar, dóttir Benedikts Bárdals.

224. *Sigurjón Sveinsson,* bóndi í Vatnabyggðum, sonur Sveins Jónssonar frá Garði í Aðaldal.

226. *Skildi eftir hjá kunningja mínum í Rvík handrit af smákveðlingum.* Þessi kunningi Stephans var dr. Guðm. Finnbogason.

— *Helzti forleggjarinn í Rvík.* Það var Sigurður Kristjánsson.

227. *Ég kom þeim til bóksala í Vík.* Það var Sig. Kristjánsson.

230. *Kaupa af Jóni og Munda.* Jón Benediktsson og Guðmundur Stephansson ráku þá verzlun á Markerville.

235. *Conservatívar af Bob Rogers orðunni.* Þ. e. manna íhaldssamastir. Bob (Robert) Rogers var einn af helztu leiðtogum íhaldsflokksins í Man. um skeið og þótti ærið ófrjálslyndur.

239. *Í æsku Jóns gamla forna.* Dr. Jóns Þorkelssonar þjóðskjalavarðar.

238. *Taka öll ráð af Tryggva.* Gunnlaugur Tryggvi Jónsson, nú ritstj. á Akureyri, var ritstjóri Heimskringlu frá 20. ág. 1919 til 8. júní 1921, er Stefán Einarsson tók við.

240. *Nikk og Jón.* Nikulás Ottenson og Jón Bíldfell, ritstj. Lögbergs.

241. *Magnús Söndahl,* sonur Árna Sigfússonar frá Ljótsstöðum í Vopnafirði. Faðir hans fór til Brasilíu með fjölskyldu sína 1873, og þar dvaldist Magnús síðan. Hann var margfróður og fékkst við ýmislegt, gaf út blöð og ritaði bækur (d. 1921).

— *„Nick“*, Old Nick, sá gamli, kölski. Stephan leikur sér hér að orðum, sbr. Nikk = Nikulás.

242. *Böðvar H. Jakobsson.* Nafnið er misletrað í textanum: Bárður. Faðir Böðvars, Helgi Jakobsson, bjó á Hamraendum í Stafholtstungum áður hann fluttist vestur.

243. *Ómaklega skipt með ykkur Páli.* Col. Paul Johnson, þingmaður í N.-Dak. — Bismark er höfuðborgin í Dakota.

245. *Fyrstur að segja mér fréttirnar.* Stephan var kjörinn heiðursfélagi Þjóðræknisfélagsins á þingi þess 1921.

248. *Bergsveinn Long,* bróðir Sigm. M. Long fræðim., af Austfjörðum.

257. *Áttu enn þá rímruglið.* Stephan á hér við kvæði, er hann orti til séra R. P., er hann hafði áformað för til Íslands 1919: Heimfararleyfi (Andv. IV, 116—18).

264. *Þér hefir ekki misheppnazt vertíðin.* Bók Magnúsar, Vertíðarlok I., kom út í Wpg. 1921, II. bd. 1933.

267. *Mikið er hvað margir lofa 'ann.* Vísa þessi er talin að vera eftir austfirzkan hagyrðing, Jóhannes á Skjögrastöðum, og kveðin um allt annan mann en hér er til nefndur. Vísurnar frá Nýja-Íslandi eru eftir Guttorm J. Guttormsson skáld.

269. *Tvær langar ljóðaþulur.* Annað þessara kvæða, Á rústum hruninna halla, birtist í Tímariti Þjóðræknisfélagsins 1921 og líkaði þá misjafnlega vel ýmsum, vegna ádeilunnar á hermennsku og hernað, sem þar kemur fram.

